# LESTRARBÓK

HANDA

# ALÞÝÐU Á ÍSLANDI

EPTIR

ÞÓRARINN BÖÐVARSSON.

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTUÐ HJÁ HLÖÐVI KLEIN.

# LESTRARBÓK

HANDA

# ALÞÝÐU Á ÍSLANDI

EPTIR

ÞÓRARINN BÖÐVARSSON.

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTUÐ HJÁ HLÖÐVI KLEIN.

1874.

# Formáli.

Hin fyrstu tildrög til þess að bók þessi birtist á prenti, voru þau, að jeg varð þess áskynja, að allir þeir almúgamenn á Íslandi, er kunnu danska tungu og höfðu lesið »P. Hjorts Danske Börneven« höfðu miklar mætur á þeirri bók; fóru nokkrir þess á leit við mig, að jeg sneri henni á íslenzku. En þó bók þessi sje að mínu áliti ein af hinum beztu alþýðubókum í öðrum löndum og hafi um langan tíma verið í afhaldi hjá Dönum, gat jeg ekki álitið að það ætti við, að snúa henni á íslenzka tungu, með því margt í henni er einkennilegt fyrir Dani og getur ekki átt við hjá oss. Að hinu leytinu varð jeg að álíta það mjög æskilegt, að almúgamenn á Íslandi hefðu líka bók, þar sem ágrip væri af almennum fræðum, og það því fremur sem hjer er skortur á slíkum bókum, og engir alþýðuskólar, en Islendingar að hinu leytinu flestum þjóðum leiknari í því að kenna sjer sjálfir.

Það er tilgangur slíkra bóka, að þar sje safnað á einn stað hinu helzta er þykir hæfa að vita. Það er eðlilegt, að þar sem svo mörgu er safnað í eina bók, sem ekki má vera mjög stór, þá verði allt að vera með færri orðum en frá því verður skýrt í fleiri bókum; en kosturinn er sá, að það er þar á einum stað. Þeir sem meira vilja vita, verða að leita þess annarstaðar, en slíkar bækur eiga einnig að vera þeim til gagns í því, að vekja löngunina og koma þeim til að leita.

Efninu í bók þessari er skipað líkast því sem er í Hjorts Börneven og þó nokkru aukið í. Sumir kaflar eru og líkir, en fátt orðrjett eins, og má fyrir þá sök vera, að sumum þyki bókin ofllík Hjort, en öðrum þyki hún of ólík. Það getur sýnst sitt hverjum um það, hvað eigi að standa í slíkri bók og hve ítarlega skuli skýrt frá hverju einu. Jeg vil um það segja það eitt, að jeg vona, að hver sá sem veit allt sem er í bók þessari, verði eigi talinn alls ófróður. Jeg hefi viljað láta allt miða til þess

að efla það sem er lífsins aðall, sanna menntun: þekkingu og siðgæði. Í fyrsta kaflanum er að vísu stráð innanum nokkru gamni, en aðeins í þeim tilgangi að leiða ungmenni til að lesa það sem alvarlegra er, svo sem sögur þær, sem eiga að vekja fagrar og góðar tilfinningar, orðskviðina og spakmælin, sem eru heimsspeki þjóðarinnar og geyma margar góðar lífsreglur, og hinar þörfu kenningar sem eru þar um krapt sjálfra vor. Að öðru leyti vil jeg ekki gjöra grein fyrir efni bókarinnar, því það yrði oflangt mál.

Til þess að spara kostnaðinn hefi jeg reynt að vera hvervetna sem fáorðastur og fyrir þá sök er stíllinn víða þurrari. Jeg vona samt að menn láti það ekki fæla sig frá að lesa bókina.

Vegna kostnaðarins eru og uppdrættirnir sem einfaldastir, en allt um það vona jeg að þeir þyki betri en engir.

það sem afgangs kann að verða prentunar og útsölukostnaði á bók þessari ánafna jeg menntunarstofnun fyrir alþýðu á Íslandi, sem jeg áður hefi ánafnað að minusta kosti 1000 rdl. í minningu þess sonar, sem mundi hafa eflt menntun og siðgæði hjá þjóð sinni ef honum hefði enzt aldur. Verði og bók þessi prentuð optar gengur arðurinn til hins sama. Vegna þessa og með því skilyrði að verð bókarinnar verði eigi sett hærra en 9 ß hvert expl. hefir landshöfðinginn yfir Íslandi góðfúslega veitt 500 rdli. til prentunarinnar. þeir sem því kaupa bók þessa, styðja þetta fyrirtæki; þess ber og að minnast með þakklæti að herra Kansellíráð Hegel hefir fyrir góðfúsa millígöngu herra Kammerassessors Karls Andersens ljeð allar náttúrusögumyndirnar ókeypis.

Hvernig sem verk þetta hefir tekizt, vona jeg að góðir menn viðurkenni, að tilgangurinn sje góður. Jeg legg bók þessa jafnframt eins og minn skerf til hinnar í hönd farandi þjóðhátíðar með þeirri ósk að hún verði mjór vísir mikillar menntunar og almennra siðgæða, og þeirrar blessunar sem þaraf leiðir, á ættjörð minni á hinni næstu 1000 ára öld.

Görðum, 6. desember 1873.

þórarinn Böðvarsson.

# Yfirlit efnisins.

## Fyrsti kafli.

## Annar kafli.

## Þriðji kafli.



## Fjórði kafli.

## Fimmti kafli.

# Fyrsti kafli.

## I. Sögur alvarlegs efnis.

### Er ekkert auga til, sem sjer þig?

Jón og Guðrún voru einhverju sinni ein heima, þau voru þá börn að aldri. Jón mælti þá við Guðrúnu: »Komdu, við skulum leita að einhverjum sætindum og jeta þau okkur til gamans«. Guðrún mælti: »jeg skal koma, ef þú vísar mjer á einhvern stað, þar sem enginn sjer okkur«. »Komdu þá ofaní húsið undir loptinu«, mælti Jón, »þar er sykur og brauð í skápnum«. »Hann Gísli er fyrir utan gluggann«, mælti Guðrún, »og getur sjeð okkur«. »Komdu þá fram í búr«, mælti Jón, »jeg veit þar af mörgu góðu í kistu«. »Hún Kristín getur sjeð okkur«, mælti Guðrún, »hún þarf opt að koma þangað«. »Við skulum þá koma út í skemmu«, mælti Jón, »þar sjer enginn okkur, og þangað kemur enginn«. Guðrún mælti: »elsku Jón minn, heldur þú þá, að enginn sjái okkur þar? Veiztu ekki af neinu auga uppi yfir okkur, sem sjer okkur, hvar sem við erum og hvað sem við gjörum? Jón varð hræddur og mælti: »þú segir satt, systir mín, Guð sjer okkur einnig þar sem ekkert mannlegt auga getur sjeð okkur. Við skulum þessvegna ætíð varast að gjöra það, sem illt er«.

### Ungu þjófarnir.

Börn Eiríks Bjarnarsonar vissu, að sambýlismaður föður þeirra, er Steindór hjet, hafði sáð rófum í garð sinn. Fóru þau því inn í garðinn og hnupluðu nokkrum rófum. Gjörðu þau þetta nokkrum sinnum. Þar kom að, að Steindór tók eptir því, að stolið var úr garðinum og fól hann sig eitt kveld þar í grennd. Börnin komu nú sem optar; lituðust þau um og voru lafhrædd,

en er þau sáu engan, fóru þau að taka rófurnar. En er þau höfðu tekið eins mikið og þau þorðu, ætluðu þau að læðast burt, en þá gekk eigandinn í veg fyrir þau. Þjófarnir urðu smeikir og skömmuðust sín. Báðu þau Steindór að fyrirgefa sjer og klaga sig ekki. Steindór var valmenni og lofaði því, er þau höfðu með dýrum eiði lofað, að gjöra þetta aldrei optar. En þau efndu ekki þetta heit sitt. Fám dögum síðar sá Steindór að þau höfðu stolið úr garði hans snemma morguns; fór hann þá til sambýlismanns síns og sagði honum athæfi barnanna. En börnin þrættu og faðir þeirra var svo heimskur, að hann trúði þeim, og varð Steindóri reiður. Steindór gekk þá burt, stundi við og mælti: »börn, hugsið til orða minna, það mun einhvern tíma fara illa fyrir ykkur«. Orð þessi rættust; börnin vöndust smámsaman á óráðvendni og líf þeirra leið illa fram og endaði sorglega.

### Það kemur þegar minnst varir.

»Það kemur þegar minnst varir«, sagði vesalings móðir opt við son sinn, sem hafði vanið sig á að hnupla ýmsu, sem hann fann og sá. Hún neyddi hann að vísu opt til, að skila aptur því, sem hann hafði gripið, er hún komst að því, en stundum var það ýmislegt af matartagi, svo hann var búinn að jeta það, áður en hún komst að því. Lestirnir vaxa ótrúlega, og loksins komst hann svo langt, að hann greip opt það, sem hann hafði ekkert gagn af. En það kom líka þegar minnst varði. Einhverju sinni kom hann til manns, sem var að eiga við kalk; greip hann þá mola af kalki og stakk í barm sinn. Á leiðinni heim sá hann hest, tók hann og reið honum, en hesturinn var fjörugur og hljóp með hann út í vatn, og kastaði honum þar af sjer. Þegar kalkið vöknaði, fór það að brenna og brendi á honum brjóstið. Og svo kom það, þegar minnst varði: hann dó af hræðslu og sársauka. Kalk brennir ekki mörg börn, sem stela, en ef þú stelur, þá brennur samvizka þín, og sá logi er sárari og skaðlegri, en nokkurr annar.

### Ráðvendni.

Piltur nokkurr hjet Páll; þegar hann var á 12 árinu, misti hann föður sinn. Móðir hans var heilsutæp og gat ekki staðið straum af honum. Hann ásetti sjer því, að reyna að hafa sjálfur ofan af fyrir sjer. Hann hafði verið námfús, og lært sjálfur að skrifa og reikna. Og nú hugsaði hann með sjálfum sjer: »jeg kann að skrifa og reikna, og jeg get kannske unnið fyrir mjer, ef jeg er starfsamur, ráðvandur og sparsamur«. Fór hann þá í næsta kaupstað, þar var auðugur kaupmaður, sem

hafði verið kunnugur föður hans, og bað hann kaupmanninn, að taka sig. Kaupmaðurinn ljet tilleiðast að taka hann með því móti, að hann hjeti því að vera trúr. Páll hjet því með hreinskilni bernskunnar. Kaupmaður tók smámsaman að fela honum skrifstörf og ýmsar erinda gjörðir, og sannfærðist um trúmennsku hans og kostgæfni. Einkum fjell honum vel í geð sú hreinskini Páls, að hann ásakaði sig jafnan, ef honum varð eittbvað á, eða ef hann hafði gleymt einhverju, og svo námfýsi sú, er hann ljet í ljósi við hvert tækifæri. Páll varð þannig svo handgenginn kaupmanni, að hann fól honum, að geyma lyklana að herbergjum sínum, þegar hann fór að heiman.

Kaupmaður hafði ráðskonu, er hjet María; hún var óvinveitt Páli, af því hún þóttist hans vegna síður geta veitt málvinum sínum af fje húsbóndans; reyndi hún því á allar lundir að rægja Pál. Kaupmaður gaf því að vísu lítinn gaum, en áleit þó skyldu sína, að reyna trúmennsku hans. Opt sendi hann Pál til að kaupa ýmislegt, og fjekk honum einatt meira skotsilfur, en hann þurfti, en Páll skilaði ætíð afganginum, og komst stundum að betri kaupum, en húshóndi hans hafði búist við. Einhverju sinni skildi kaupmaður eptir peníngapoka með einum gullpeningi í á búðargólfinu; gjörði hann þetta til að freista Páls. Páll fann peninginn og var þá búðarpiltur við staddur; »bjer her vel í veiði«, mælti pilturinn, »nú getum við glatt okkur á sunnudagskveldið, sem kemur, því ekki ert þú svo vitlaus, að þú farir að skila þessum skildingi«. »Það gjöri jeg víst«, mælti Páll, »húsbóndi minn á hann, en ekki jeg, jeg get ekki átt hann með góðri samvizku, en góða samvizku vil jeg ekki missa«.

Þegar kaupmaðurinn kom heim afhenti Páll honum peninginn, en hann varð glaður mjög af því að hafa reynt ráðvendni Páls, og gaf honum peninginn. Frá þeim tíma misti Páll aldrei traust húsbónda síns og velgjörðamanns; dró hann með ráðvendni saman mikið fje og styrkti móður sína. María hætti að rægja hann og lifði hann ánægður og farsæll. Áður en kaupmaður dó, gaf hann Páli mikið fje, og varð hann auðmaður og vel metinn.

## Ósannsögli.

Jakob litli var einatt sendur af föður sínum með brjef til næsta bæjar. Einhverju sinni var hann sendur með áríðandi brjef, sem átti að komast á póstinn. Á leiðinni hitti hann Haldór og fleiri pilta. Haldór var óeirðagjarn, og einkum var honum uppsigað við Jakob, af því Jakob tók ætíð á móti honum. Þeir fóru því brátt að fljúgast á. Meðan þeir voru að fljúgast á, urðu þeir reiðir, datt þá brjefið úr vasa Jakobs, og tók hann

ekki eptir því, fyr enn þeir voru hættir að fljúgast á, fann hann þá hrjefið í bleytunni, og var það rifið sundur og svo óhreint, að það varð ekki lesið.

Hvað átti Jakob nú að gjöra? Faðir hans hafði sagt honum, að mikið riði á brjefinu, og lagt ríkt á við hann, að gæta þess vandlega og koma því að næstu póststöð. Hann mátti því búast við, að hann fengi harðar ávítur, ef hann segði, hvernig farið hafði. Tók hann þá það óheillaráð, að koma sjer úr klípu þessari með ósannindum. En þegar hann kom heim, og faðir hans spurði hann um brjefið, sagði hann blygðunarlaust, að hann hefði fengið póstafgreiðslumanninum það. En hjarta hans barðist, af því að hann sagði ósatt.

En er mánuður var liðinn, og ekkert svar kom upp á brjefið, fór faðir Jakobs með áhyggju mikilli á póststöðina til að grennslast eptir, hvernig á þessu stæði. En heldur en ekki hrá honum í hrún, er afgreiðslumaðurinn sagði honum, að brjefið hefði aldrei þangað komið. Jakob varð nú að gjöra grein fyrir, hvað hann hefði gjört af hrjefinu; hann var lengi stífur og fullyrti, að hann hefði afhent afgreiðslumanninum það. Loksins játaði hann alla yfirsjón sína, þegar faðir hans hafði lofað honum fyrirgefningu.

En, hversu þungt var honum ekki innanbrjósts meðan hann þrætti og hjelt áfram að segja ósatt! Og hve mikið óhapp hefði hann komið í veg fyrir, ef hann hefði strax sagt hið sanna og játað yfirsjón sína; faðir hans hefði þá getað skrifað annað og það hefði komið í tækan tíma. Bróður Jakobs, sem var eldri en hann, hafði nefnilega hoðizt álitlegasta staða, en svarið átti að koma þegar í stað, og svarið frá föður Jakobs var í brjefinu, sem týndist. En af því ekkert svar kom, var annar tekinn í stað bróður Jakobs. Jakob sárnaði þetta mjög og hann ásetti sjer, að segja aldrei optar ósatt, og ekki, þó honum yrði á, og hann mætti húast við hegningu. Lengi eptir þetta gat faðir Jakobs ekki treyst honum, og var það sárt fyrir hann.

## Sögvísi.

Stúlka nokkur, er hjet Soffia, hefði verið vænsta stúlka, hefði hún ekki haft í fari sínu slæman löst, er að lyktum bakaði henni mikið ólán. Það var löstur hennar að hún var málug. Þegar hún heyrði eitthvað, hafði hún engan frið, fyr en hún var búin að segja frá því hverjum, sem hún náði í. Hún stóð opt tímum saman á hleri og gægjum til að komast eptir einhverju til að segja frá aptur. Opt fjekk hún ávítur fyrir það, að hún vanrækti störf sín fyrir athæfi þetta, en það kom fyrir ekki. Hún sagði frá öllu, sem við bar í grennd við hana, og

það versta var það, að hún jók opt miklu við, og þegar hún hafði ekki heyrt neitt, sem henni þótti sögulegt, skrökvaði hún einhverju upp, og var það optast eitthvað misjafnt.

Af því hún var fátæk, varð hún að fara í vist; en þá fór fyrst illa fyrir henni. Fyrstu dagana skemmti hún vinnufólkinu með sögum sínum, en bráðum varð það leitt á henni. Húsmóður hennar líkaði í fyrstu vel við hana, því hún var ötul og þrifin, og sagði henni margt um vinnufólkið. En er fram leið komst húsmóðirin að því að Soffia sagði margar sögur um hana sjálfa og sumar ósannar, en vanrækti verk sín; var hún þá rekin úr vistinni. Líkt fór fyrir henni víðar. Loksins fór hún flakkandi sveit úr sveit. Einhverju sinni kom hún á prestsetur og leizt konu prestsins mannvænlega á hana. En er presturinn heyrði orðróm þann, sem af henni fór, mælti hann við konu sína: »gáðu að spakmæli Salómons konungs: „„munnur útlendra kvenna er djúp gröf; sá sem Drottinn er reiður við, dettur í hana““! Láttu hana fara eins og hún kom«. Soffia fjekk síðan hvergi inni, og lifði á vergangi það sem eptir var æfinnar.

## Reiðigirni.

Piltur nokkurr, er hjet Friðrik, var að leika sjer í kálgarði föður síns. En er hann fór út úr garðinum, gleymdi hann að láta aptur hurðina sem var á dyrunum. Kind var þar nálæg, og neytti þess að dyrnar voru opnar, og fór inn í garðinn, og gekk um beð, sem Friðrik hafði verið lofað að sá í. Hann varð óður af reiði, er hann sá kindina, og mælti: »þú skalt komast að keyptu fyrir ósvífni þína«. Hljóp hann síðan inní garðinn, og lokaði dyrunum, svo kindin kæmist ekki út. Síðan tók hann torfusnepla, steina og allt, sem hann gat hönd á fest, og kastaði í kindina. Hún hljóp um garðinn allan og tróð allt í sundur, en mest beð Friðriks. Við það gjörðist hann enn æfari, og kastaði nú sem aftók, en einn steinninn kom í húsgluggann. Varð hann nú hamslaus; »jeg skal drepa þig«, mælti hann, og greip garðhrífuna og ætlaði að berja kindina, en missti hennar og braut hrífuna. Tók hann þá skóflu, og hóf ofsóknina enn á nýja leik, en í því kom faðir hans að.

Þegar Friðrik sá föður sinn, kallaði hann til hans og mælti: »Skoðaðu, hvernig kindin er búin að fara með garðinn, ljúktu upp, svo jeg geti komið henni út«. »Því laukstu ekki sjálfur upp í tíma«, mælti faðir hans, og rak hann út með hægð, »þá væri garðurinn ekki eyðilagður og þú ekki athlægi allra.

Friðrik sá yfirsjón sína og kom ekki upp orði sakir blygðunar; gekk hann burt og hugsaði með sjálfum sjer: »hjer eptir skal jeg stilla betur reiði mína«.

## Ótrúmennska.

Á bæ nokkrum upp til fjalla voru hjón; þau áttu 2 sonu, er hjetu Magnús og Sveinn; Magnús var nú 12 vetra, en Sveinn 3 vetra.

Eitt sumar um engjasláttinn fóru foreldrarnir með piltana og hjúin öll á engjarnar; hundurinn Strútur var með þeim. Nú var farið að slá og raka; Magnús átti að gæta bróður síns Sveins undir kletti í skjóli; hann lofaði því.

Eptir litla stund kemur rjúpa þangað, sem sveinarnir voru. Magnús sjer hana og segir: »jeg skal ná þjer«. Hann hleypur, en rjúpan hleypur undan, lítinn kipp í senn, og nemur staðar; en er Magnús kemur, fer hún aptur af stað, fer lengra og lengra. Magnús eltir rjúpuna löðursveittur; hún fer einlægt lengra burt; faðir hans slær og móðirin rakar; þau færast líka lengra burtu.

Himininn var heiður; lítil ský líða hingað og þangað um hinn fagurbláa himin. Sveinn skemtir sjer við að horfa á skýin, en mest horfir hann á dökkan depil, sem hann sjer líða um loptið. Depillinn stækkar; einsog væri kólfi skotið kemur hann þangað sem Sveinn liggur, og Strútur einn er hjá honum. Strútur urrar og geltir, en — enginn heyrir, Magnús og fólkið er komið langt burt. Strútur ræðst á hið vængjaða skrímsli; það er stóreflis örn; en hún bítur hann og rífur í framan. Örnin læsir klónum í föt og hold Sveins og svífur með hann um loptið í hreiður sitt. Þar leggur hún Svein; hann er í öngviti af ferðinni um loptið og sársaukanum eptir arnarklærnar. Hann raknar brátt við og undrast, er hann sjer ekki Magnús og ekki Strút, en 2 arnarunga sjer hann. Arnarungarnir eru líka hissa, þegar Sveinn tekur að hreifa sig; þeir teygja eptir honum nefin, en hann kreppir knefana og ver sig.

Meðan þessu fer fram, hleypur Strútur til húsbónda síns; hann grunar, að hjer sje mikið illt í efni. Eins og elding hleypur hinn óttaslegni faðir þangað, sem hann hafði skilið við Svein. Þar voru fjaðrir; hann sá að það voru arnarfjaðrir; Svein sjer hann ekki og ekki Magnús. Hann grunar allt; hann hleypur heim og sækir byssu og stefnir að klettunum, þarsem hann vissi að örnin átti hreiður. Hann hleypur, hann stekkur klett af kletti, eins og hann hefði vængi, því hann vildi frelsa son sinn.

Loksins kemst hann nálægt hreiðrinu; hann heyrir rödd sonar síns. »Hann lifir enn«, segir hann, »Guði sje lof«. Hann heyrir að barnið berst við hina ungu fugla, en það var aðeins fáein augnablik — hann hefir það þegar í faðmi sjer. »Ræningi«, segir hann, »nú gæti jeg hefnt mín og rænt þig börnum þínum eða rotað þau á klettunum. En jeg get það ekki, jeg vil það

ekki; fögnuður minn er svo mikill, af því Guð gaf mjer barn mitt lifandi.« Allir fögnuðu af hjarta. En Magnús — hann einn var hryggur og faldi sig, af því hann hafði verið ótrúr.

## Óhlýðni.

Kristín bað móður sína að gefa sjer kanarífugl; það er lítill gulur söngfugl, ættaður frá Kanaríeyjum. Móðir hennar sagði: »jeg skal gefa þjer hann, ef þú ert æfinlega þæg og iðin og hlýðin — og Kristín lofaði því.

Einhverju sinni kom móðir Krístínar inn með öskju, lagði hana á borðið og sagði: »jeg verð að fara út aptur; þarna er lítil askja á borðinu; fyrir hvern mun, ljúktu henni ekki upp, snertu hana ekki. Ef þú hlýðir mjer, þá skal jeg gjöra þig glaða, undir eins og jeg kem aptur.

Undir eins og móðir Kristínar var komin út, tók hún öskjuna. »Hún er svo ljett«, sagði hún, »og það eru smá göt á lokinu; hvað skal vera í henni«? Hún hugsaði með sjer: »hún móðir mín sjer það þó ekki; hún lauk upp öskjunni og — lítill, gulur, fagur kanarífugl stökk á augabragði upp úr öskjunni, flaug glaður um í stofunni og tísti.

Kristín ætlaði að ná fuglinum og láta hann aptur í öskjuna, svo móðir hennar vissi þetta ekki. Kafrjóð í framan elti hún fuglinn um alla stofuna, en hann flaug ávalt undan. Þá kom móðir hennar inn. »Þú óhlýðna dóttir«, mælti hún, »jeg ætlaði að gefa þjer þennan fagra fugl, en vildi fyrst reyna, hvort þú verðskuldaðir það. Nú sje jeg að þú ert óhlýðin og jeg sel fuglinn aptur. Því foreldrarnir geta ekki verið góðir við þau börn, sem eru óhlýðin.

## Letin.

Sigurður var einberni, foreldrar hans voru ríkir; hann hafði því marga skemmtun og margt gott, sem börn verða opt að vera án. Foreldrar hans gjörðu honum allt til ynðis; þau vonuðu að hann mundi launa ástfóstrið með ástundun og framförum. En Sigurður hugsaði ekki um það; hann varð sólginn í skemmtanir, en nennti ekki að læra og ekki að vinna. Foreldrar hans áminntu hann opt, en hann afsakaði sig með ýmsu, og lofaði þó stundum að bæta ráð sitt. En — hann efndi það ekki, hann kunni aldrei það, sem hann átti að læra, og gjörði aldrei neitt til gagns; hann ljek sjer. Foreldrar hans urðu loksins gramir við hann. Hann varð fullorðinn og kunni ekkert og nennti ekki að gjöra neitt; honum leiddist allt. Hann iðraðist eptir, hvað hann hafði verið latur, en það var of seint. Foreldrar hans dóu; hann eyddi á stuttum tíma því sem hann erfði eptir þá, því hann

vann sjer ekkert inn. Ættingjar hans voru fátækir og gátu ekki styrkt hann; aðrir vildu það ekki. Hann lifði í eymd og dó í eymd, af því hann nennti ekki að læra neitt.

### Sannleiksást.

Georg var fjörugur og ötull piltur; hann vildi aldrei vera aðgjörðalaus. Hann varð því mjög glaður er faðir hans gaf honum litla öxi. Hann hljóp út í garðinn með þenna dýrgrip sinn í hendinni og reyndi hina beittu egg á hverju sem hann kom auga á. Loksins fór hann inn í aldingarðinn og sá þar stórt perutrje. Hann var ákafur að reyna öxi sína og hjó nú trjeð þvert og endilangt, og er hann var þreyttur orðinn, fór hann aptur til systkina sinna til að hvíla sig.

Nokkrum dögum síðar kom faðir Georgs í garðinn og sá hann þá, að perutrjeð var eyðilagt. Honum þótti fyrir og spurði hann börn sín, hvert þeirra hefði unnið óhæfu þessa, og var mjög alvarlegur. Georg varð hræddur, og var fyrst í efa um, hvort hann ætti að segja hið sanna. Honum þótti líklegt, að hann fengi áminningu og hegningu ef hann segði hið sanna, en hann herti upp hugann, gekk fram fyrir föður sinn og mælti: »pápi minn, jeg get ekki skrökvað, jeg gjörði það með öxinni minni«. Þá tók faðirinn hann í faðm sjer og mælti: »kæri sonur, jeg vil heldur missa þúsund perutrje en eiga son, sem segir ósatt«.

Piltur þessi varð síðar framúrskarandi maður; hann gjörðist foringi Vesturheims manna, er þeir brutust undan ráðum Englendinga. Hann hjet Georg Washington og nafn hans er frægt um allan heim.

### Ástundan og þolgæði.

Það var skortur í hinu litla koti Bjarnartind hjá borginni Skara. Eigurnar voru farnar og fátæktin komin í staðinn; en kærleikurinn var ekki flúinn; hann var innilegri en áður. Það var kvöld. Sveinn var einn heima hjá móður sinni; hann var þá barn að aldri. Hann grjet, því hann var svangur og bað móður sína um mat; en hún var sjálf svöng og það var enginn matar-biti til í kotinu. Sveinninn hjelt áfram að biðja og gráta. Móðirin varð frá sjer af harmi; kom henni þá til hugar mjölkvörnin, sem stóð þar í horninu. Hún hafði malað í henni rúg; það gat verið, að dálítið af mjöli væri milli steinanna. Hún greip fuglsvæng, sópaði með honum steinana, og bjó til dálitla köku úr mjölinu, sem hún sópaði, og bakaði hana á öskunni. Sveinninn þagði á meðan; hann varð saddur á voninni; loksins var kakan búin og hann át hana; honum þótti hún miklu betri, en

ríka barninu bezti matur. Sveinn át upp, og hann varð stór og sterkur þó hann væri opt svangur. Presturinn átti heima skammt frá kofanum; hann sá að Sveinn var mjög námfús, og hann tók hann að sjer, til að fræða hann. Sveini fór svo fljótt fram að hann komst í Skara-skóla, er hann var 13 vetra.

Í skólanum var um sama leyti sonur auðugs manns. Af því faðir hans var auðugur, áleit hann sig meiri en hina sveinana og var drembinn við þá. Föt Sveins voru bætt, en þrifaleg, það var auðsjeð á honum að ytra áliti, að hann var fátækur, en sál hans var auðugri en allra hinna skólasveinanna; hann var guðrækinn, ráðvandur og kappsamur — þessi auðæfi eru meiri og tryggari en öll önnur. Sonur auðuga mannsins kom af yfirlæti með rúsínur í skólann, og gaf skólabræðrum sínum. Pokinn, sem rúsínurnar voru í, var því nær tæmdur; en Sveinn stóð út í horni í bættu fötunum sínum. Auðugi pilturinn kastaði loksins nokkrum rúsínum á gólfið og mælti: »þarna, kotungssonur«. Enginn veit nú hvað þessi auðugi piltur hjet; nafn hans er gleymt. Hann hefir líklega látið líf sitt í fátækt og fyrirlitningu; því svo fer um sveina þá, sem drambsamir eru. En nafn kotungssonarins varir í blessun.

Það voru harðir tímar fyrir Svein, honum veitti erfitt að geta lifað í Skaraskóla. Hann fór snemma á fætur til að vinna sjer til viðurværis; síðan gekk hann langa leið í skólann; opt fór hann í sendiferðir fyrir skólabræður sína, til að fá leyfar þeirra, og útslitnar bækur. En hann lifði af þessum leyfum, og aflaði sjer þekkingar af þessum skræðum. Með ómræðilegri ástundan og ótrúlegri sjálfsafneitun hafði hann dregið saman nokkra peninga, og keypti fyrir þá kofa handa foreldrum sínum, og fór aptur að draga saman. En þrautir hans voru ekki enn á enda; faðir hans meiddi sig, og gat ekki unnið framar. Sveinn varð nú að láta hann fá það, sem hann dró saman. Allir vegir virtust nú ófærir fyrir Svein. En það birti aptur. Hann eignaðist svo mikið, að hann gat farið á háskólann; þar aflaði hann sjer mikillar þekkingar og komst í mesta álit fyrir mannkosti sína og lærdóm.

Mörg ár liðu. Loksins varð hinn almennt virti maður biskup, og kotið, sem hann át í litlu kökuna, var í biskupsdæmi hans; hann var virtur og elskaður af öllum.

## Hreinskilni.

Bóndi nokkurr hafði gróðursett eplatrje í garði sínum; það var í fyrsta sinn, og hann hlakkaði mjög til að smakka eplin, þegar þau yrðu fullþroska. En áður en eplin voru fullvaxin, kom sonur nágrannans og tældi son bóndans, er hjet Árni, til að stela með sjer af eplunum. En er faðir Árna varð þess var, að tekið

hafði verið af eplunum, varð hann gramur og mælti: »þetta er illa gjört; óhlutvandir drengir hafa skert gleði mína«. Orð þessi gengu Árna til hjarta, hann fór til sonar nágrannans og sagði: »æ, það liggur illa á föður mínum, og það er okkur að kenna«. Pilturinn svaraði: »þú ert heimskingi; ef þú getur þagað, þá veit faðir þinn aldrei, hverr eplin hefir tekið«. En er Árni kom heim og sá, að faðir hans var glaður í bragði, gat hann ekki verið glaður, því hann hugsaði um það, að hann hefði móðgað hann. Þegar ávextirnir voru þroskaðir, gaf faðirinn öllum börnunum nokkra ávexti. Öll börnin urðu mjög glöð, nema Árni; hann byrgði andlit sitt og grjet sáran. »því grætur þú, Árni minn«? spurði faðirinn. Árni svaraði: »jeg get ekki lengur þolað það, að þú haldir mig öðruvísi en jeg er. Jeg er ekki þess verður, að þú sjert svo góður við mig; nei, refsaðu mjer, því það var jeg, sem tók eplin.« Faðirinn tók hann í faðm sjer og mælti: »jeg fyrirgef þjer, sonur minn, guð gefi að þetta verði í fyrsta og síðasta sinn, sem þú þarft að leyna nokkru, þá sakna jeg ekki eplanna«.

---

## II. Gátur.

### A.

1. Konungar og prestar, herramenn og bændur, neyta af því, og þó kemur það eigi á nokkurs manns borð.
2. Þau hlaupa yfir láð og lög, og hafa þó enga fætur.
3. Faðirinn er ekki fæddur; allt um það leikur sonurinn sjer á húsþakinu.
4. Hvert er flát það, sem hefir ekki nema eitt hvolf, og hefir þó í sjer tvennskonar drykk?
5. Hvert er hol það, er hefir hvíta gadda bæði úr lopti og gólfi?
6. Hverr er sá granni járnhestur, er hefir langt tagl úr hör?
7. Hvað er það þið rauða, sem er innan girðinga og vinnur mest gagn og ógagn, en gerir hvorugt, nema girðingarnar falli sundur?
8. Hver plægir hinn stærsta akur og skilur þó ekki eptir neitt plógfar?
9. Tunnan æpir, en þeir sem drekka af henni, þegja.
10. Þar er bót ofaná bót og þó sjest ekkert nálsporið.

11. Hversvegna jeta hvítar kindur meira en svartar kindur?
12. Hverr fugl er líkastur hrafninum?
13. Hver spýta er þyngst?
14. Hvar bjóða hrafnarnir hverr öðrum góðar nætur?
15. Hvað marga nagla þarf í hest þann, er vel er járnaður?
16. Hvernig getur önnur systirin verið móðursystir mín, en hin ekki?
17. Tvö höfuð og tveir handleggir, 6 fætur og 10 tær, ekki nema 4 fætur á gangi; hvernig á jeg að skilja það?
18. Hvorki ljós nje vindur er fljótara en jeg; jeg fer í þá heima, sem ekkert dauðlegt auga hefir sjeð, og get verið á sínu augnablikinu á hverjum staðnum.
19. Viljir þú forðast háska í stormi og myrkri, þá annastu húskornið mitt, það skal vera þjer til aðstoðar og fara með þjer, ef þú vilt.
20. Jeg er móðurlaus, en hann faðir minn er maðurinn minn.
21. Vatnið slökkvir eldinn, en það kveykir í mjer?
22. Hvað er það, sem ekki verður það sama á morgun og það var í dag; missir borð, rúm, hús, og nafnið með, en grætur þó ekki missirinn?
23. Hvað gjörir hverr sá hlutur, sem lifir á jörðunni, syndir í vatninu, eða sveimar í loptinu allt af þangað til hann deyr?
24. Hvað er það, sem ekki er soðið, ekki tuggið, ekki rennt niður, og smakkast þó mörgum vel?
25. Sólin sýður það, höndin brýtur það, fóturinn treður það, en munnurinn nýtur þess.
26. Sumt gjöri jeg hart, en sumt mjúkt; marga gjöri jeg fátæka; en fleiri ríka; ef jeg er of nærri, þá eyði jeg öllu, en allt deyr, ef það missir mín.
27. Bóndinn sáir því, jörðin ber það, því er drekkt, það er steikt, það er brotið, allir brúka það, mylnumaðurinn tekur það, allir fá það aptur; það er þó við lýði eða eyðist, enginn veit hvar eða hvernig?
28. Hvað er það sem ber hold og bein, pressar hold og bein, en hefir hvorki hold nje bein?
29. Þú hefir aldrei heyrt það nje sjeð, þó varð og er úr því heimurinn og allt sem þú í honum sjer.
30. Áður var það gras, nú er það dupt; það er geymt í gulli, silfri, horni, trje, eptir vild hvers og efnum; sumir mega ekki sjá það, en sumir mega ekki vera án þess.

## B.

1. Smalar tveir hittust með nokkrar kindur. Ólafur mælti við Jón: »láttu mig fá eina kind, þá á jeg helmingi fleiri en þú; það er hæfilegt, fyrst jeg er helmingi eldri«. »Nei«, mælti Jón, láttu mig fá eina, þá eigum við jafn margar; það er hæfilegt, því fyrst við erum smalar, þá erum við jafningjar«. Hve margar átti hverr þeirra?
2. Kona nokkur seldi grannkonu sinni helming eggja þeirra, er hún átti, og hálft egg betur. Síðan seldi hún annari helminginn af því, sem hún átti, og hálft egg betur; í þriðja sinn hafði hún enn hina sömu verzlan, og átti þá aðeins 3 egg. Ekkert egg skar hún sundur. Hve mörg egg átti hún upphaflega.
3. Ferðamenn 2 voru seztir niður til að matast; bar þá að hinn þriðja, er bað þá að selja sjer mat. Sigurður átti 5 kökur, en Ásgeir 3, og átu þeir 3 jafn mikið af þessum 8 kökum. Að skilnaði lagði hinn aðkomandi 8 skildinga á stein og bað þá að skipta þeim rjett milli sín. Sigurður vildi þá taka 5 skildinga, en láta Ásgeir hafa 3, eptir því hve margar kökur hvor átti, en Ásgeir áleit að peningarnir yrðu að skiptast jafnt, af því allir hefðu etið jafn mikið. Hinn aðkomandi mælti: »Sigurður á að hafa 7 skildinga, en Ásgeir 1 skilding. Var það rjett?
4. Orðhvatur maður spurði einhverju sinni í veizlu þann er næstur honum sat: »Hve gamall ert þú, faðir þinn, og afi þinn«. Þeim er spurður var þótti spurningin óþörf og mælti: »það er hægt að vita: við feðgarnir erum til samans 54 ára; faðir minn og afi eru 109 ára og við, afi minn og jeg erum 85 ára samtals«. Hve gamall var hverr þeirra?

## C.

1. Hvað er það, sem jeg sje og þú sjerð, konungurinn sjaldan, en Guð aldrei?
2. Hvaða dýr gengur á fjórum fótum um morguninn, tveimur um daginn, en þremur að kveldi?
3. Gekk jeg og granni minn, kona hans og kona mín, dóttir hans og dóttir mín, fundum fimm egg í hreiðri, tókum sitt hverr og þá var eptir eitt.
4. Fuglinn flaug fjaðralaus, settist á vegginn beinlaus, þá kom að einn handlaus, og skaut fuglinn bogalaus.
5. Hverr er sá veggur víður og hár,
vænum skreyttur röndum,
grænn og rauður, gulur, blár,
gjörður af meistara höndum?

6. Fullt hús matar og finnast hvergi dyrnar á.
7. Hvað er það í veggnum, sem til alls þarf að hafa?
8. Sá jeg standa segg, sunnan undir vegg,
hefir augu og nef, aldrei fær hann kvef,
hann hefir bygginn bol, býsna mikið þol;
syngur í málmaþór, aldrei kemur í kór.
9. Hverr er sá klaufnefur, kominn af flugi,
segir margt en talar ekkert?
10. Tvær ær Svartar fóru í garð og Hvítar; þó var önnur ærin grá, önnur mórauð til að sjá.
11. Hvað er það sem fer fyrir björg og brotnar ekki, fer í sjó og sekkur ekki, fer í eld og brennur ekki?
12. Hver er sú hin vambargylta,
hún hirðir ekki um pilta,
eina hefir hún tönn í haus,
og þó er hún lífllaus?
13. Fjórir ganga, fimm hanga, tveir veg vísa, tveir hundum varða, einn eptir drattar, æfidaga alla; sá er opt saurugur.

14. Af perlum reisist breiðfeld brúin
og blasir gráa hafs við brún,
Á svipstund lögð og ljóma búin
í loptið svimhátt teygist hún.

Og hæstu möstur mararhreina
und meginhvelfdri ganga brú,
en aldrei bar hún byrði neina,
og burt hún flýr, sem nálgast þú.

Af straumi fædd — en flóð ef linna,
þú fljótast hana dvína sjerð;
hvar er þá brú í heim að finna?
Af hverjum völund er hún gerð?

(Eptir Schiller.)

---

## Ráðning á gátum.

A.

1. Móðurmjólkin. 2. Skýin. 3. Reykur. 4. Egg. 5. Munnur með tönnum. 6. Þrædd saumnál. 7. Tungan. 8. Stýrimaður. 9. Svín með grísum. 10. Fuglafiður. 11. Af því þær eru fleiri. 12. Hrafninn. 13. Stafur ölmusumannsins. 14. Undir beru lopti. 15. Engan. 16. Hún er móðir mín. 17.

## III. Orðskviðir og spakmæli.

Spekigreinir nefnum vjer stutt og efnismikil orðtök, sem hafa í sjer fólgin einhver hnittileg sannindi, lærdómsríkar varúðarreglur, hjálpsamleg heilræði, nytsamlegar bendingar o. þvíuml. Þegar slíkar greinir eiga að takast blátt áfram eptir orðunum og þeirra eiginlegu merkingu, þá nefnast þær spakmæli; þar á mót kallast þær orðskviðir þegar þær eiga ekki að takast beint eptir orðunum af því þau tákna eitthvað annað og dýpra en þau beinlínis framsegja.

Athgr. Frá þessu ber að greina orðatiltæki einber eða talshætti t. d. syndur sem selur. eiga í vök að verjast. róa að einhverju öllum árum o. þvíuml.

Spakmælið hefir því aðeins eina meiningu, þá nefnilega sem beinlínis liggur í orðunum, en orðskviðurinn tvær, eina beint framsetta eða sem fyrst gengur í augu, og svo aðra, sem er hans eiginlegi mergur og kjarni, en dulin undir orðnunum og dýpra fólgin.

Það er t. a. m. spakmæli þegar sagt er: »Hálfnað er verk þá hafið er«, því þar í liggur ekki önnur þýðing en sú sem auðsjen er í fyrsta áliti; þar með er aðeins tekið fram, hversu það sje mikilsvarðandi í öllum fyrirtækjum að hika sjer ekki við framkvæmdina þegar verkið er áformað, því fyrir frestun framkvæmdarinnar verða áform manna opt að útideyfu, eins og líka hitt er reyndur hlutur að flestar athafnir falla ljettara þegar út í þær er komið og fyrsta sporið er stigið.

Aptur er það orðskviður þegar sagt er: »Opt veltir lítil þúfa þungu hlassi«, því þar er einmitt hugurinn hafður á nokkru öðru en því sem beinast liggur við eptir hljóðan orðanna. Orðskviðurinn bendir því er það til þess sem vjer í lífinu svo optsinnis sjáum og reynum, að lítil og ljettvæg hindrun getur koll-

---

Maður ríðandi. 18. Hugurinn. 19. Skriðbytta. 20. Eva. 21. Kalk. 22. Brúðurin. 23. Eldist. 24. Reyktóbak. 25. Vín. 26. Sólin. 27. Pappír. 28. Hnakkur. 29. Ekkert. 30. Neftóbak.

B.

1. Ó. 7. J. 5. — 2. 31 egg. — 3. S. 7. A. 1. — 4. Sonurinn 15. ára; faðirinn 39 ára; afinn 70 ára.

C.

1. Sinn líka. 2. Maðurinn. 3. Attu hvors annars dóttir. 4. Snjókoma og vindur. 5. Regnboginn. 6. Egg. 7. Lagið. 8. Steðji. 9. Penninn. 10. Svört og Hvít áttu ærnar. 11. Sólargeisli. 12. Snælda. 13. Kýr. 14. Regnboginn.

varpað stórkostlegri fyrirætlan, eða að lítilmagni steypir voldugum stórbokka, eða að lítilfjörleg yfirsjón getur einatt haft hinar skæðustu og þungbærustu afleiðingar.

Orðskviðurinn er þess vegna saman settur eins og af tvennu, ytra og innra, yfirborði og djúpi, líkama og sál. Líkami hans er meining sú er orðin segja beinlínis, en sálin er sú hin margfalt atriðismeiri meining, sem undir er fólgin eða að baki þess sem sagt er og sem menn hugsa sjer með málsgreininni allri um leið og menn heimfæra hana. Svo er t. d. í orðskviðnum: »Syngur hverr fugl með sínu nefi«. Ytri meiningin eða yfirborðið er blátt áfram eptir orðunum, en hin innri og dýpri meining er sú, að enginn megi vænta þess að annar hugsi, tali eða breyti eins og sjálfur hann og því síður heimta það, því hverjum einum er sitt sjerstaklega eðli meðskapað.

Þess vegna mætti líka segja um orðskviðina, að þeir gefi eitt í skyn, en tákni nokkuð annað. En sá hlutur (hvort sem það er líkamlegur hlutur eða það er orð, eða líking, eða einhverr siður), sem táknar eitthvað annað fyrir utan það sem hann beinlínis er, framsegir eða fyrirmyndar, hann nefnist »symból« eða jarteikn. Jarteiknin er meðalið til þess að segja eða tákna það sem ekki er nefnt blátt áfram eða beinlínis. Svo er t. a. m. þegar trúlofað fólk skiptist hringum, þegar vinur rjettir vin sínum höndina, þegar krossmark er reist á leiði, þá eru þessir hlutir fyrirmyndanir nokkurs sem ekki er nefnt, þeir tákna eða jarteikna tilfinningar hjartans. Því má einnig segja, að spakmæli hafi eina beina merkingu, en orðskviðir bæði eina beina og aðra »symbólska« eða óbeina, og og er hin síðari öllu merkari og optsinnis sú eina sem rjett er eptir ströngum skilningi.

1.

Ekki er allt gull sem glóir.
Betur sjá augu en auga.
Ekki er sopið kálið þó í ausuna sje komið.
Bíðendur eiga byr en bráðir andróða.
Viljinn dregur hálft hlass.
Náið er nef augum.
Morgunstund ber gull í mund.
Mjór er mikils vísir.
Margur lækur smár gerir stórar ár.
Hver er sínum hnútum kunnugastur.
Ekki fellur trje við fyrsta högg.
Opt er flagð undir fögru skinni.
Nýir vendir sópa bezt.
Betur unir fugl í hreiðri sínu en í gylltu búri.

Hverjum þykir sinn fugl fagur.
Illt er að fljúga fjaðralaus.
Hætt er að geyma gull í glersjóði.
Fangs er von af frekum úlfi.
Önðverðir skulu ernir klóast.
Flýtur meðan ekki sökkur.
Betri er ein kráka í hendi en tvær í skógi.
Ekki verður það allt að regni, sem rökkur í lopti.
Seint er að herklæðast þegar á hólminn er komið.
Háar eikur hafa hljóðglögg eyru.
Enginn verður óbarinn biskup.
Sveltur sitjandi kráka, en fljúgandi fær.
Bik er bátsmanns æra.
Ekki er fuglinn fanginn þó honum fyrir svipi.
Veit refur refs æði.
Einn bitinn gerir annan lystugan.
Bjóð þú asnanum gull, hann brekar um hálm.
Úlfur er sá með úlfum venst.
Afsleppt er álshaldið.
Víða kemur vargi bráð.
Opt er hvinn í hvítu skinni.
Á fullum búk stendur fatt höfuð.
Berr er hverr að baki, nema sjer bróður eigi.
Aldrei er góð vísa of opt kveðin.
Eigi er mögur nema móðir sje.
Opt dettur um litla þúfu.
Svo bjargast bý sem ernir.
Erat hjera borgnara þótt hæna beri skjöld.
Sá er eldurinn heitastur sem á sjálfum brennur.
Af litlum gneista verður opt mikið bál.
Aldrei geisar eldur án reykjar.
Ekki reiðist steðji stórhöggunum.
Snemma beygist krókurinn til þess, sem verða vill.
Það var asnanum dár, hann dansaði með apynjunni.
Uxinn fór í England, kom aptur naut.
Opt kemur skin eptir skúr.
Beygðu kvistinn meðan hann er ungur, en brjóttu ekki.
Ein svala gerir ekki vor.
Öll jel birta upp um síðir.
Seint munu svín að sólinni gá.
Steinn prófar gull en gull menn.
Geltinn hundur glepsar sízt.
Ekki rýkur úr brandinum nema eldur hafi í honum verið.
Þar ríður hverr á garðinn sem hann er lægstur.

Ætið er jörð frerin fyrir óreknum svínum.
Ekki kemur í kór það sjálft vill fara í flór.
Betra er að veifa röngu trje en öngu.
Ekki verður berið ef ekki er vísirinn.
Hefndin gengur á ullskóm.
Hvað skal rögum manni langt vopn?
Sæmd er graðsvínunum að sorga fyrir engu.
Syngur hverr fugl með sínu nefi.

2.

Sannleikurinn er sagna beztur.
Bráðgeð er bernskan.
Hálfnað er verk þá hafið er.
Allir eiga glappaskot á æfi sinni.
Sá deyr ærulaus sem lifir agalaus.
Betra er autt rúm en illa skipað.
Einusinni verður allt fyrst.
Sá veit gerst sem reynir.
Opt má satt kyrt liggja.
Sjálfs er höndin hollust.
Öllum trúa ekki er gott, engum hálfu verra.
Á fæðingu vora hefir dauðinn sett sitt innsigli.
Dauðinn er jafnan í aðsigi.
Sá sem elskar einn hlut, hann verður eitt með honum.
Sök bítur sekan.
Illt er að leggja ást við þann sem enga kann í móti.
Raunin er ólygnust.
Æ sjer gjöf til gjalda.
Þolinmæðin þrautir vinnur allar.
Fár er fullrýninn.
Lengi skal manninn reyna.
Enginn veit sitt angrið allt fyr en reynir.
Það skal vel vanda, sem lengi á að standa.
Glöggt er gests augað.
Háð er heimskra gaman.
Það sem verður að vera viljugur skal hverr bera.
Öl er innri maður.
Vinur er sá, er til vamms segir.
Seint er heimskan að snotra.
Sjaldan er flas til fagnaðar.
Sætar syndir verða að sárum bótum.
Það nema börn sem á bæ er títt.
Mikið má ef vel vill.
Þjóð veit ef þrír vita.

Með lögum skal land byggja, en ekki með ólögum eyða.
Mörg er búmanns raunin.
Ómæt eru ómaga orð.
Illa sezt ofstopinn.
Hægist mein þá um er rædt.
Hvað elskar sjer líkt.
Fyrst er allt frægast.
Guð situr hátt, en sjer lágt.
Hverr sem ekki vill þegar hann má, hann fær ekki þegar hann vill.
Margs verða hjúin vís þá hjónin deila.
Skömm er óhófs æfi.
Sögvís er sjaldan sannorður.
Upp koma svik um síðir.
Svo skal leiðan forsmá að ansa honum engu.
Vandi fylgir vegsemd hverri.
Iðnin eykur alla mennt.
Það er lag sem á leggst.
Sjón er sögu ríkari.
Raup er rags manns gaman.
Aptur tekur ragur maður rasgjöf sína.
Hugur ræður hálfum sigri.
Jafnan er hálfsögð sagan, ef einn segir.
Vinna gerir væran svefn.
Kapp er bezt með forsjá.
Fleira veit sá fleira reynir.
Enginn hittir horfna tíð.
Heimskt er heimaalið barn.
Hulin sár eru hættust.
Enginn er öðrum sjálfur.
Allt vill lagið hafa.
Fátt er of vandlega hugað.
Flas og slys eru förunautar.
Flestu gamni fylgir nokkur alvara.
Fje frekar hug, fátækt mínkar dug.
Glettstu ei við gikkinn svo þú fáir ei af honum hnykkinn.
Enginn fær á spurninni.
Í þörf skal vinar leita.
Náttúran er náminu ríkari.
Sá er drengur sem við gengur.
Vizkan er allra landa ljós.
Leggur drottinn líkn með þraut.
Hýran gjafara hefir guð kæran.
Lík börn leika bezt.

Illkvittni er hið versta vitni.
Sjúkdómur er hvers manns herra.
Opt verður hljótt eptir gamanið.
I dag mjer, á morgun þjer.
Margur ætlar mann af sjer.
Ótrú slær sinn eiginn herra.
Svipult er fjarða lognleiði.
Kvöldroðinn bætir, en morgunroðinn vætir.
Sá verður margs vís, sem árla rís.
Hverr dagur hefir sína mæðu.
Gefur góð móðir þó hún geti ekki.
Fár veit hverju fagna skal.
Æfin er stutt, en mentin er löng.
Ein ódyggð fæðir aðra.
Opt er sorgfullt brjóst undir sjálegri skikkju.
Opt slökkur ein sorg aðra.
Getur undir glaðri kinn grátið stundum hjarta.
Sjálfs eru vítin verst.
Sígandi lukka er bezt.
Von er vakandi manns draumur.
Á misjöfnu þrífast börnin bezt.
Allt vinnst þá að er verið.
Betra er að falla með sæmd en lifa með skömm.
Venst vesæll vosi.
Því er fífl að fátt er kennt.
Úr því er að ráða sem komið er.
Brigðul er bardagalukkan.
Slyngt yrði þjer margt, ef ekki fylgdu slysin með.
Spyrjum að leiks lokum, en ekki vopna viðskiptum.
Það er manninum eiginlegt að hata þann sem hann hefir gert rangt til.
Sannleikurinn er sagnafár, lýgin langorð.
Safnast þegar saman kemur.
Sá gaf sem aldrei átti.
Margur er ólíkur sínum.

3.

Aldrei hefir dúfa komið úr hrafns eggi.
Það er margt í þokunni býr.
Brennt barn forðast eldinn.
Fer þú í dans, haf gát á hver við þig stígur.
Andremmu sína enginn kennir sjálfur.
Svo dansa munkarnir sem ábótinn kveður.
Nú er kominn köttur í bólið bjarnar.

Blaða skal kál, en ei uppræta.
Lifir eik þó laufið fjúki.
það taka svo fáir tjörunni á hún tolli þeim ei við fingur.
I myrkri eru allir kettir svartir.
þó undin græðist er örið eptir.
Illt er að eiga sverð sitt í annars slíðrum.
Hvert ker húkir á sínum eigin botni.
Eins er kvisturinn og aðaltrjeð.
Arinni kennir illur ræðari.
Aldrei tryggist tóa þó tekin sje úr henni róa.
Brunngöngul fata kemur opt brotin heim.
Tveir harðir steinar mala sjaldan smátt.
Mest bylur í tómri tunnu.
Stærðu þig ekki af strigaþurkunni.
Af saurnum verður svínið feitast.
Ekki er gott að kljást við kollóttan.
Hver skarar eld að sinni kökn.
Guð borgar fyrir hrafninn.
Neyðin kennir naktri konu að spinna.
Víðar er guð en í Görðum.
Ymsir eiga högg í annars garð.
Víða koma Hallgerði bitlingar.
Opt geldur kapall að keyrissveinn er reiður.
Sjaldan er gíll fyrir góðu nema úlfur á eptir renni.
þeim er brek að brasta sem bröltir á hækjunum.
Sjaldan fellur eplið langt frá eikinni.
Kljáður er ofan sá vefur, uppfestur er annar.
það er ekki aldæla sem fer í draughóla.
Úlfur rekur annars erindi.
Sá sem eldinn vill hafa hlýtur reykinn að þola.
Opt er óveðurlegt í öndverðan þey.
Svo má brýna deigt járn að bíti.
Sjaldan er ein bára stök.
Ekki henta býflugunni arnarvængir.
Betri er krókur en kelda.
Betra er að taka stein úr götu sinni ên detta um hann.
þrefaldur strengur slitnar trautt.
Af hreinu bergi kemur hreint vatn.
Amlóði mælir orð af viti og ekki af viti.
Auðþekktur er asninn á eyrunum.
Af illum brunni kemur óhreint vatn.
Allt er óhægra að leysa en binda.
Af öllum seyðum rýkur nokkuð.
Af annars lengju er hægt að sníða skó.

Ekki þarf að gefa bakarabarni brauð.
Enginn dregur þó ætli sjer annars fisk úr sjó.
Djúp vötn hafa minnstan gný.

### 4.

Gott er vammalausum vera.
Með sjálfum sjer verður hverr lengst að fara.
Lítið er vesæls manns vandræði.
Fáir eru smiðir í fyrsta sinn.
Fari sjálfræðið fyrir, fer ófrelsið á eptir.
Batnandi manni er bezt að lifa.
Bágur er búskapur, böl er hjúskapur, illt er einlífi og að öllu er nokkuð.
Kaldráð kona man klökkvandi biðja.
Opt eru augu innra manns spegill.
Dyggð er fríðleiks dýrsta gerfi.
Óvirt er auðfengi, en ofvirt torgæti.
Slægur etur slægs mat.
Auðna styður öflgan hug.
Argur er sá sem engu verst.
Illur fengur illa forgengur.
Já er meyjar nei.
Sjálfur kunn þú sjálfan þig.
Orðvar er opt syndvar.
Opt hváir heimskur maður og heyrir þó.
Svo fyrnast ástir sem fundir.
Því læra börnin málið að það er fyrir þeim haft.
Alstaðar er góðum gott, en illur fær ei inni.
Aldrei er gaman að því sem guð styggir.
Stuttur lostafögnuður gerir langa hryggð.
Illt er ills kveikja.
Ætíð hefir iðjumaðurinn nóg að vinna.
Meira vinnur vit en strit.
Dramb er falli næst.
Venja má villudýr, en ei vonda konu.
Ekkert að gera er ills byrjun.
Æ koma mein eptir munað.
Sá gerir góðum illt sem vondum hlífir.
Ekki skal lengi lítils biðja.
Býsna skal til batnaðar.
Með byljum gengur batnandi veður.
Erat ljettara líf en dauði.
Oflofingjar bregðast mjer mest.

Margt mæðustaupið mega menn drekka í brúðkaupi þolinmæðinnar.
Leiðir verða langþurfamenn.
Hægra er um að tala en í að komast.
Sjálfan sækir háðið heim.
Orðin eru til alls fyrst.
Þungt er þegjandi böl.
Það eru ekki allt vinir sem í eyrun hlæja.
Dýrt er drottins orðið.
Kauptu ekki köttinn í sekknum.
Þann er hægt að lokka sem eptir vill brokka.
Ætíð segja mennirnir til sín.
Ekki er ástin litvönd.
Ást er ei auðfólgin.
Ástarhugir optast saman rata.
Það er grannt vit að gangast fyrir lit.
Sein iðrun er sjaldan hrein.
Hállt er heims glysið.
Ljósir aurar verða að löngum trega.
Sá gefur tvisvar sem fljótt gefur.
Eptirráðin eru mörg, fyrirráðin færri.
Ekki væntir gæfan kvölds ef vísað var frá að morgni.
Enginn sefur sjer sigurinn í hendur.
Fátæktin er lötum fylgisöm.
Drjúg eru morgunverkin.
Sjaldan hlýtur hikandi happ.
Fyrra verkið vinnur hið seinna.
Fár hyggur þegjanda þörf.
Svo sker hver upp sem hann sáir niður.
Sæll er sá, er gott gjörir.
Löngum er hefnigjarnt lítið vit.
Það tekur sig enginn meiri mann en hann er.
Lastmáll og kjassmáll sitja opt á bekk saman.
Varastu varmennið.
Syndvænlegt er að samþýðast vonda.
Bragð er að þá barnið finnur.
Eitt hik gerir margt strik.
Ást gefur endurást.
Sálargóði gefur andlitsfegurð.
Vizkan er æskunnar blómi, ellinnar sómi.
Sjaldan batnar mey í heimanferð.
Ein stund má skemma alla æfi.
Betri er fyrirvarinn en eptirvarinn.
Dregst margur með djúpa und þó dult fari.

Margs fer óframur á mis.
Ærlegt líf er í sjálfs valdi.
Blindur er bóklaus maður.
Enginn fær ófreistað.
Í upphafinu skyldi endirinn skoða.
Ein eymdin býður annari heim.
Þá ein báran rís, er önnur vís.
Svo skal böl bæta að bíða annað meira.
Seint er kvenna geð kannað.
Vogun vinnur og vogun tapar.
Veltur þangað sem vera vill.
Þjófurinn þrífst en þjófsnauturinn aldrei.
Betra er að biðja en stela.
Fátt leiðir gott af forvitninni.
Gleymt er þá gleypt er.
Fje er frænda rógur.
Svipull er sjáfarafli.
Svo ergist hverr sem hann eldist.
Opt tefur offlýtirinn.
Viltur er sá sem geta skal.
Þess verður getið sem gert er.
Þar er enginn kenndur sem hann kemur ekki.
Það verður hverjum að list sem hann leikur.
Ekki veldur sá er varar annan.
Af gnægð hjartans mælir munnurinn.
Úti er þraut þá unnin er.
Gull reynist í eldi, geðprýði í mótlæti.
Heilbrigður veit ei hvað hinn sjúki líður.
Aldrei blessast ófrjálst brauð.
Að gera eina lýgi trúanlega þarf til sjö aðrar.
Aptans bíður óframs sök.
Betra er tvisvar mælt en einusinni villt farið.
Ekki er svo aumt kvikindi að ekki sje betra að hafa það með sjer en móti.
Hvimleiður er sá öllum sem ætíð segir: »gefðu mjer«!
Húsbóndans auga vinnur hjúanna hálfa verk.
Seigar eru gamallra manna sinar.
Seint koma sumir dagar og koma þó.

## 5.

Sjáðu refinn áður en þú selur skinnið.
Það eru ekki allt klerkar sem síða hafa kápuna.
Það skal á þjót þorna sem á þræl vöknar.

Opt verður góður hestur úr göldum fola.
Seint flýgur krummi á kvöldin.
Lengi tekur sjórinn við.
Opt er dyggð undir dökkum hárum.
Svín fór yfir Rín, kom aptur svín.
það svíður opt fyrir brjósti er sætt finnst í munni.
Opt veldur hár stigi þungu falli.
Á heimahaug er haninn frakkastur.
Litlir katlar hafa og eyru.
Betri er belgur en barn.
Opt vex rósin meðal þyrna.
Sjaldan bítur gamall skolli nærri greni.
Sjer grefur gröf þó grafi.
það er seint að byrgja brunninn þegar barnið er dottið í hann.
þar er ekki feitan gölt að flá, sem fleskið er ekki neitt á.
Uggir mig að arfasátan brenni.
það er krummanna að kroppa út augun.
Kóngur vill sigla en byr hlýtur að ráða.
Litlu verður Vöggur feginn.
Mjótt er mundangs hófið.
Opt er blökk rót undir bjartri lilju.
Lágur sess er opt hægur.
Opt veltir lítil þúfa þungu hlassi.
Vandfarið er á milli skers og báru.
það eru ekki allt meyjar sem langan hafa lokkinn.
það loðir lengst í keriuu sem fyrst kemur í það.
því er að tjalda sem til er.
Smekkurinn sá sem kemst í ker keiminn lengi eptir ber.
Sjaldan verður mikið úr því högginu sem hátt er reidt.
Segðu mjer að sunnan.
Sá hlaut skellinn er skyldi.
Opt er deigt hjarta undir dýrri brynju.
Opin er feigs vök.
Músin á sjer matfrið, en ekki lengur en kötturinn vill.
Margt ber milli munns og sopa.
Lofaðu ekki skinnið fyr en skolli er veiddur.
Hvað skal músinni að mana köttinn?
Fyrsti fugl fær hið fyrsta korn.
Enginn er annars bróðir í leik.
Ekki er hægt að snýta þá af er nefið.
þar sem guð hefir sína kirkju vill djöfullinn hafa sína kapellu.
Ekki er það laust sem fjandinn heldur.

Sá á varg sem vinnur.
þangað er klárinn fúsastur, sem hann er kvaldastur.
það súrnar löngum sem sætt kemur saman.
það er þykkt blóð, sem ekki rennur til skyldunnar.
Skein þá skúrlegar leizt.
Ólíkur er þinn þór mínum þór.
Hátt geltir ragur rakki.
Gott aldin kemur af góðum viði.
Bezt er að sníða sjer stakk eptir vexti.
Enginn veit, hvar óskila ör geigar.
Skamma stund verður hönd höggi fegin.
Í salti liggur sök ef sækjendur duga.
Hvað skal sá með boga, sem ekki kann upp að toga?
Lengi skapast manns höfuðið.
Úti er vinskapurinn, þá ölið er af könnunni.
Óvandari er eptirleikurinn.
Sætt er sameiginlegt skipbrot.
Hart á móti hörðu.
Dauður er höfuðlaus her.
Kornið fyllir mælirinn.
Sínum augum lítur hverr á silfrið.
þeir mega sletta skyrinu sem það eiga.
Nefndu svo spaks manns spjarir, að ekki komi saman á þjer varir.

## 6.

þar leikur augað á sem kært er.
Sannleikanum verður hverr sárreiðastur.
Betra er að bogna við orð en bresta við högg.
Aum er reiði án afls.
Blindt er ástaraugað.
Allra vinir eru allra athlægi.
Hver yfirsjón hefir sinn hala.
Flest verður angráðum til ama.
þjófar stela fjám manna, en vinir tímanum.
Fyrirgef opt öðrum, aldrei sjálfum þjer.
Betri er smár fenginn en stór enginn.
Ekki er vísara en víst.
Eyðslukona er eldur í búi.
Opt kemur grátur eptir skellihlátur.
Margur kyssir á þá höndina, sem hann vildi af væri.
Sá á kvöl sem á völ.
Svo lengi lærir sem lifir.
Opt verða sár högg sígandi hefnd.

Skjótt verður kvenna álit.
Opt verður kvalræði að konum.
Gott er barn til blóra.
Fellur sá er fang býður.
Maður veit hverju maður sleppir, en ekki hvað maður breppir.
Aldrei er elli einfara.
Frelsi er fje betra.
Enginn ofþreyti góðan vin.
Erfiði og ástundan eru farsældar foreldrar.
Seint og illa er sínkra greiði.
Margan hefir auður apað.
Lostans eptirlæti lendir í sorg.
Hygg að með hverjum þú vilt dansa svo þú hoppir ei þjer til vansa.
Köld er mágaástin.
Flest frumsmíð stendur til bóta..
Eptirtalin gjöf fær skammvinna þökk.
Gleymd er goldin skuld.
Fáir kunna eitt barn að eiga.
Bágt er að vera beggja vinur og báðum trúr.
Alstaðar er sá nýtur, er nokkuð kann.
Bregður hönd á venju.
Allt kann sá er hófið kann.
Þá bölið er hæst er bótin næst.
Vex hugur þá vel gengur.
Unir auga meðan á sjer.
Tamur er barns vaninn.
Bágt er þann að kefja sem lukkan vill hefja.
Örbyrgan vantar margt, en ágjarnan allt.
Það lifir lengst sem bjúum er leiðast.
Sitt er hvað: gæfa eða gjörfugleiki.
Þeir lifa lengst sem með orðum eru vegnir.
Höggur sá er hlífa skyldi.
Maður kemur í manns stað.
Hverr til hátt er settur harðara niður dettur.
Latur beiddi latan, en latur nennti hvergi.
Fögur er sjóhröktum fold.
Hverr er sinnar lukku smiður.
Engin er æska án breka.
Hollari eru sannindi beisk en sætar lygar.
Enginn verður hvítari þó annan sverti.
Kristsbörn eru krossbörn.
Einn veldur, annar geldur.

Bjartast skín hjarta úr hálfsloknu auga.
Engi er algjör sæla.
Stjórnsamir herrar eru strákum leiðir.
Eins dæmin eru verst.
Hjartað lifir fyrst og deyr seinast.
Fáir gráta lengi af annars ógæfu.
Margan hata menn sem guð elskar.
Van og of fær sjaldan gott lof.
Vín inn, vit út.
þrá er þursa einkunn.
það ferst með sorg sem fæst með synd.
Maður er moldu samur.
Ungur má en gamall skal.
Fresta má forlögunum, en ei fyrir þau komast.
Hlægja skyldi að ósköpunum, en ekki fyrir þeim verða.
Fáir vilja sína barnæsku muna.
Enginn gerir svo öllum líki og ekki guð í himnaríki.
Alltjend ber til hverrar sögu nokkuð.
þrábarið barn siðast sjaldan vel.
Flestar eru prúðar konur fámálugar.
Annars byrði er öðrum ljett.
Opt skín fantur í fögru gildi.
Aldrei má morð dyljast.
Betra er að vægjast til góðs en bægjast til ills.
Allir eru vinir meðan vel lætur.
Fátt segir af einum.
Góður er hverr genginn, illur aptur fenginn.
Enginn veit hvorr annan grefur.
Allt jafnast um síðir.
Á meyjunni skartar skírlífi bezt.
Betra er að beygja höfuðið en reka sig uppundir.
Auðurinn er afl þeirra hluta sem gera skal.
það er hræddur maður sem ekki þorir að skjálfa.
Allt sýnist feigum fært.
Alvara og gaman eiga bezt saman.
Hvern sem þú ber háralit höfuðið geymir asnavit.
Ekki er ráð nema í tíma sje tekið.
það eru ekki ennþá úti allir dagar.
Hver er sinni sýslun samur.
Betri er sjáandi hyggni en hamingja blind.
Einn hnífur hvetur annan og einn maður annan.
Eitt letispor gerir tíu ómaksspor.
Misvitur var Njáll, því var hann inni brenndur.
Spá er spaks geta.

Margur hefir krækt sig á kvenna elsku.
Listin fríðkar náttúruna.
Lengi man það ungur getur.
Hverr lofar sína hýru.
Aldrei er ofmikið unnið fyrir hreinkvendið.
Betra er högg elskarans en koss falsarans.
Betra er að líða órjett en gera.
Allir spjá auðnulausan.
Hamingjan ferðast heiman og hittir þann hún vill.
Fáir sem faðir, enginn sem móðir.
Sá deyr enginn sem dýrt kaupir.
Opt má lítið laglega fara.
Svo má illu venjast að gott þyki.
Þegar fara á betur en vel fer opt verr en illa.
Verður er verkamaðurinn launanna.
Hverr er sjálfum sjer næstur.
Hatri gleyma margir en fáir fyrirlitning.
Fram eru feigs götur.
Er á meðan er.
Enginn lofar þig sá þú lastað hefir.
Fáir lofa einbýli sem vert er.
Enginn frægur vill sjer jafnfrægan vita.
Hverr kveður sinnar þurftar.
Hátíð er til heilla bezt.
Guð hjálpar þeim sem hjálpa vilja sjer.
Hafa skal heil ráð hvaðan sem þau koma.
Enginn frýr honum vits en grunaður er hann um gæzku.
Flestir kjósa firðar líf.
Aptur rennur lýgi þegar sönnu mætir.
Ljett falla lostverk.
Fáir eru drengir hins dauða.
Alls án verður sá er einskis biður.

## 7.

»Opt verður slíkt á sæ«, kvað selur, var skotinn í auga.
»Ann hverr sínu«, sagði karl, hann kyssti fjalhögg sitt.
»Lítið massast«, sagði karlinn, hann hjó fimm sinnum í skarifífil, en hann stóð sem áður.
»Nú er mjer gengið«, sagði geit, hún var bæði full og feit.
»Frændur eru frændum verstir«, kvað refur, sá mórauðan hund.
»Gaman er að börnunum«, sagði karl, átti sjö fífl og áttunda umskipting.
»Erat hlunns vant«, sögðu refar, drógu hörpu at ísi.

»Ærslafull er æskan«, sagði kerling, hún stökk yfir sauðarlegginn.

»Til þess eru gamlir að glettast við« sagði gárungurinn.

»Ekki má í allt sjá, þá mikið liggur við,« kvað refur, hann beit fót sinn úr boga.

»Allir lágu á liði sínu nema jeg,« sagði Sjerhlífinn.

»Mitt var það, en ekki þitt«, hvað bófi, greip annars pening af gólfi.

»Syndum vjer fiskarnir«, segja hornsílin.

»Snælega snuggir«, kváðu Finnar, áttu andra fala.

»Ekki er gaman að guðspjöllunum«, sagði kerling, »enginn er í þeim bardaginn«.

»Hvar er allt fólkið«? sagði bóndi, hjákonan var ekki á pallinum.

»Mjer og mínum ungum«, segir krummi.

»Of nær nefi«, kvað karl, var skotinn í auga.

»Vjer eplin«, sögðu hrossataðskögglarnir.

»Gott á fiskurinn«, sagði drykkjurúturinn, »hann má drekka þegar hann vill«.

»Ekki er úti öll nótt enn«, sagði draugur.

»Svei þjer svo svartur þú ert«, sagði grýtan við leirpottinn.

»Öll á jeg börnin mín«, sagði karlægi karlinn.

»Það er seinast«, sagði hann þjófsi, »að stela aldrei«.

»Erfiðið, en ekki annað«, sagði steinninn.

»Svo mæli jeg sem aðrir mæla«, sagði barnið.

»Mörgum þótti eg málug«, sagði kerling.

»Eg ætlaði ofan hvort sem var«, sagði kerling, hún datt ofan um stiga og hálsbraut sig.

»Guði sje lof fyrir þenna hita«, sagði kerling þegar bærinn brann.

»Hjer eru margir og allir stórir«, sagði pilturinn, hann leit í húfu sína.

»Hart á móti hörðu«, sagði kerling, hún settist á stein.

»Ekki er allt gott, sem höfðingjar borða«, sagði karl; hann át mustarð með skeið.

»Þetta er vegurinn okkar allra, sagði karl, hann bar hund, sem hann hafði hengt.

## IV. Heilræði.

Ungum er það allra bezt,
Að óttast guð sinn herra;
Þeim mun vizkan veitast mest
Og virðing aldrei þverra.

Hafðu hvorki háð nje spott,
Hugsa um ræðu mína;
Elska guð og gjörðu gott,
Geym vel æru þína.

Foreldrum þínum þjena af dygð
Það má gæfu veita;
Varastu þeim að veita stygð
Viljir þú gott barn heita.

Hugsa um það helzt og fremst,
Sem heiðurinn má næra;
Aldrei sá til æru kemst
Sem ekkert gott vill læra.

Lærður er í lyndi glaður
Lof ber hann hjá þjóðum;
Hinn er ei nema hálfur maður
Sem hafnar siðum góðum.

Opt er sá í orðum nýtur,
Sem iðkar menntun kæra,
En þursinn heimskur þegja hlýtur,
Sem þrjózkast við að læra.

Vertu dyggur, trúr og tryggur,
Tungu geymdu þína,
Við engan styggur, nje í orðum hryggur,
Athuga ræðu mína.

Lítillátur, ljúfur, kátur,
Leik þjer ei úr máta;
Varastu spjátur, hæðni, hlátur,
Heimskir menn svo láta.

Víst ávallt þeim vana halt,
Vinna, lesa, iðja
Umfram allt þú ætíð skalt
Elska guð og biðja.

(Hallgr. Pjetursson.)

---

# V. Dæmisögur.

## Maurapúkinn.

Maurapúki nokkurr sat og var að telja peninga sína. Í herberginu hjá honum var kráka í búri. Nú hafði krákan komizt út úr búrinu; flaug hún að peningahrúgunni, tók eina spesíu með nefinu, og hoppaði burtu með hana. Maurapúkinn saknaði þegar spesíunnar, og sá að krákan var að troða henni inn í rifu, sem var á þilinu. »Ert það þú, óhræsið þitt, sem ert að stela peningunum mínum? Það væri sök sjer ef þú þyrftir á þeim að halda, eða kynnir rjettilega að verja þeim. En líf þitt skaltu láta fyrir slíkan ósvífinn þjófnað.« Þannig mælti hann við krákuna, en hún ljet sjer ekki bilt við verða, heldur velti vöngum framan í hann og sagði: »hægt og hægt herra minn. Hef jeg gjört meira á hluta þinn, heldur en þú hefur gjört á hluta almennings og meðbræðra þinna? Og ver jeg ekki þessari einu spesíu eins og þú verð öllum maurum þínum? Ef jeg á að láta líf mitt fyrir það, þó jeg hafi dregið undan eina spesíu, hvað munt þú þá eiga skilið fyrir það, að hafa dregið undan mörg þúsund spesíur, og þarmeð svipt almenning og meðbræður þína hinni rjettilegu notkun þeirra?«

## Svalan.

Svala nokkur sá, að bóndi var að sá hampi. Hún kallaði því saman alla þá fugla, sem hún náði í, og sagði þeim, hvað bóndinn hefði fyrir stafni. Hún sagði þeim, að úr hampinum væru búin til net til þess að veiða í fugla, og rjeði hún þeim

til að taka sig saman og tína upp allt fræið svo að bóndinn fengi enga uppskeru af hampi. Annaðhvort var það, að fuglarnir trúðu ekki svölunni, eða þeir fyrirlitu ráð hennar; þeir skeyttu því engu, sem hún sagði. Skömmu seinna fór hampurinn að koma upp. Þá talaði svalan aptur til fuglanna, og sagði þeim, að ennþá væri það ekki of seint að uppræta hampinn, ef þeir legðust allir á eitt, og gjörðu það áður en hampurinn næði að festa djúpar rætur. En er þeir vildu ekki hlýðnast ráði hennar, tók hún sig út úr hóp þeirra, og hjelt sig í bæjum og borgum, án þess að leggja lag sitt við aðra fugla. Einn dag, er hún hafði flogið út úr hreiðri sínu, sá hún mann, sem bar fuglabúr á bakinu, og voru í búrinu nokkrir af fuglum þeim, sem hún hafði gefið ráð sitt. »Vesælings aumingjarnir,« mælti hún, »þetta hafið þið fyrir skeytingarleysi ykkar«.

## Kettirnir og apinn.

Tveir kettir stálu ostbita, en gátu ekki komið sjer saman um, hvernig þeir ættu að skipta honum. Þeir fóru því til apa, sem þótti vera kænn lagasnápur, og beiddu hann að skera úr málinu.

Apinn setti upp gleraugu og snýtti sjer. Síðan tók hann ostinn, braut hann í tvo parta, mis-stóra, og lagði þá á metaskálar. En er hann sá, að þeir voru misþungir, tók hann stærri bitann, beit af honum stórt stykki, og át. Við það varð hinn bitinn þýngri, og fór hann þá eins með hann, og þannig fór hann með hvern bitann á víxl — »til þess að jafna metin«, eins og hann komst að orði — þangað til hvorr bitinn var ekki orðinn stærri en lítill munnbiti uppí kött. Köttunum fór nú ekki að lítast á blikuna, og báðu þeir apann um að ónáða sig ekki meir þeirra vegna; kváðust þeir ánægðir ef þeir fengju það sem eptir væri. »Nei, nei«, mælti apinn, »rjetturinn verður að hafa sinn gang. Það sem eptir er, ber mjer í skiptalaun«. Síðan tók hann báða bitana, sem eptir voru, og át þá. Að því búnu sleikti hann útum, tók af sjer gleraugun, og sagði rjetti slitið. En kettirnir löbbuðu burt meir en sneyptir.

Svo fer þeim, sem eiga í deilum að óþörfu.

## Rófuskellti refurinn.

Einusinni varð refur fastur á rófunni í dýraboga. Hann gat með engu móti losað rófuna, og heldur en að láta þar líf sitt, tók hann það til bragðs, að hann nagaði af sjer rófuna. En þegar aðrir refar sáu hann rófulausan, fóru þeir að gjöra gis að

honum og hafa hann að háði. Hann bar þetta lengi með þolinmæði, en þó fór honum loks að leiðast það, og kvað svo rammt að, að hann óskaði þess opt með sjálfum sjer, að hann hefði heldur látið líf sitt í dýraboganum, heldur en að lifa við spott og spje alla æfi sína. Þó hugsaði hann sjer að gjöra eina tilraun. Í því skyni kallaði hann alla refi á fund, og er þeir voru saman komnir, mælti hann þannig: »Þið getið ekki ímyndað ykkur, hvað jeg er ljettur á mjer núna; jeg hefði heldur ekki trúað því, hefði jeg ekki reynt það; en það er allra hluta sannast, og í augum uppi, þegar maður fer að hugsa um það, að það er ljótt, óþægilegt og óþarft að hafa rófu. Og það gengur hreint yfir mig, að allir refar skuli ekki vera búnir að taka af sjer rófurnar fyrir löngu. Jeg leyfi mjer því að stinga uppá því við ykkur, mínir heiðruðu bræður, að þjer og allir refar upp frá þessum degi láti höggva af sjer rófurnar«.

Þá stje fram í samkomunni gamall og gráhærður refur. Hann mælti: »Jeg held nú varla að þú hefðir ráðið okkur til að taka af okkur rófurnar, lagsmaður, ef þú vissir nokkurt ráð til að fá þína eigin rófu aptur«.

## Úlfurinn og konan.

Hungraður úlfur var að snuðra í kring um hús nokkurt til að leita sjer að bráð. Inni í húsinu heyrði hann barn vera að gráta, og gamla konu, sem var að hóta barninu með þessum orðum: »hættu að gráta; ella skal jeg gefa úlfinum þig að eta«. Úlfurinn nam staðar, er hann heyrði þessi orð, og beið lengi fyrir utan húsið, í von um, að konan mundi gjöra það, sem hún hafði sagt, og bjóst hann við, að bráðum mundi barninn fleygt fyrir sig. En er hann hafði beðið lengi, heyrði hann að konan var farin að láta vel að barninu, og heyrði hann hana þá segja þessi orð: »jeg skal drepa úlfinn ef hann kemur, barnið mitt gott«. Þegar úlfurinn heyrði þetta, sá hann að ekki var að henda reiður á hvað kerling sagði; hann labbaði burt og mælti um leið: »þeir sem búa í þessu húsi, breyta öðruvísi en þeir tala«.

## Úlfurinn og hjarðmaðurinn.

Úlfur nokkurr var á flótta undan veiðimanni, og mætti hjarðmanni. Hann mælti við hjarðmanninn: »Gjörðu það fyrir mig að segja ekki veiðimanninum, í hverja átt jeg hef flúið; jeg hef aldrei gjört þjer neitt til meins«. »Vertu óhræddur«, sagði hjarðmaðurinn, »jeg skal segja veiðimanninum rangt til um það, hvert þú hafir flúið«. Brátt bar þar að veiðimanninn. Hefurðu

sjeð úlfinn?« sagði hann við hjarðmanninn. »Jú«, sagði hjarðmaður, »hann hljóp hjer til vinstri handar«, og um leið benti hann með hendinni til vinstri handar, en með augunum gaf hann veiðimanninum vísbendingu um, að úlfurinn hefði flúið til hægri handar. En veiðimaðurinn skildi ekki þessa augnabendingu hans, og hjelt til vinstri handar. Þá sneri hjarðmaðurinn sjer til úlfsins og sagði: »þakklátur máttu vera mjer fyrir það að jeg sagði honum ekki til þín«. »Já«, svaraði úlfur; »tungu þinni skal jeg vera þakklátur«; en við sjálfan sig sagði hann í hljóði: »á því, hvað hjörð þín hjeðan af skal týna tölunni á hverjum degi, skaltu sjá, hvað jeg er þakklátur augum þínum«.

## Úlfurinn og svínið.

Einusinni var úlfur tekinn höndum, og bað hann þá og grátbændi, að sjer yrði gefið líf; hann sagðist upp frá þeim degi aldrei skyldi eta kjöt, heldur lifa á jurtum, eða þá á fiskum, þegar hann hefði mest við. Fyrir þetta loforð hans var honum gefið líf. Síðan fór hann út í skóg, og er hann skömmu seinna sá þar svín, sem var að velta sjer upp úr keldu, sagði hann: »þetta er sjálfsagt fiskur; því skyldi jeg ekki eta hann!« Að svo mæltu rjeðist hann á svínið og át það.

## Apinn sem konungur.

Eitt sinn hjeldu dýrin samkomu. Á þeirri samkomu dansaði apinn svo vel, að hann var þvínær í einu hljóði til konungs kjörinn. Þó þótti tóunni hann lítt kjörinn til konungstignar, þótt hann kynni þessa lítilfjörlegu list. Hún fór því á fund apans, og mælti: »Fyrst að þú ert orðinn konungur vor, þá ætla jeg ekki að leyna þig nokkru, sem þjer er mjög áríðandi að vita«. »Hvað er það«? mælti apinn. »Faðir minn«, svaraði tóa, »sagði mjer frá miklum fjársjóði, sem væri grafinn í jörðu úti í skógi. Þessi fjársjóður ber þjer með rjettu sem konungi«. »Látum oss fara og sækja hann«, mælti apinn. Tóan sagði, að þar við þyrfti allrar varúðar að gæta, en apinn var hughraustur, og sagði: »þar við er engin hætta búin, eða við hvað ertu hrædd«? »Jeg er ekki svo mjög hrædd«, mælti tóa, »förum þá, ef þú vilt«. Síðan fór hún með apann inn í skóg, og leiddi hann að runnum nokkrum, þar sem hún vissi að snörur voru fólgnar undir. »Undir þessum runnum er fjársjóðurinn«, mælti hún. Apinn var ekki seinn á sjer, heldur fer í ákafa að róta upp moldinni, en festi sig þá í snörunum. »Hjálpaðu mjer nú, góði vin«, hrópaði apinn. En tóan gekk burt, kallaði saman öll hin

dýrin, sýndi þeim apann í snörunum og sagði: »þarna sjáið þið, að það er meira áríðandi að konungurinn hafi til að bera ráðdeild og aðgætni, heldur en hitt að hann kunni að dansa«.

## Skjaldbakan og örnin.

Skjaldbaka ein sá örn á flugi, og langaði þá líka til að læra að fljúga. Hún gekk því fram fyrir örnina, og bað hana að kenna sjer þessa fögru list. Örnin sagði, að það gæti hún ekki lært. En skjaldbakan bað því ákafar, þangað til að örninni leiddist þrábeiðni hennar, hremmdi hana með klónum, og flaug með hana upp í háfa lopt, og ljet hana síðan detta niður. Skjaldbakan datt niður á klett, og marðist öll í sundur.

## Apinn og tóan.

Eitt sinn var apinn að stæra sig af því við tóuna, að hann gæti hermt eptir hverju dýri sem hann vildi. »Því trúi jeg vel«, svaraði tóa, »að þú getir hermt eptir öllum dýrum; en það máttu líka vita, að ekkert dýr vill láta svo lítið að herma eptir þjer«.

## Ljónið, asninn og tóan.

Ljón, asni og tóa fóru saman á dýraveiðar. Þau veiddu mikið, og bauð ljónið asnanum að skipta herfanginu. Asninn skipti því í þrjá jafna parta, en þá rjeðist ljónið á asnann, og reif hann á hol. Síðan bauð það tóunni að skipta, og gjörði hún það þannig að hún skipti ljóninu hinum lángstærsta hluta, en ætlaði sjálfri sjer að eins lítið eitt. Þá brosti ljónið og mælti: »hverr hefur kennt þjer þessi skipti«? »Ófarir asnans«, mælti tóa.

## Villigæsirnar.

Það var einhvern haustdag að villigæsir nokkrar flugu hátt í lopti yfir fjöll og dali. Þær ætluðu langar leiðir og var ekki annað sem knúði þær áfram en ferðalöngun sú sem skaparinn sjálfur í öndverðu hafði innrætt eðli þeirra. Þá hittist svo á að ein spikfeit heimgæs stóð jetandi við úrsigtiskirnu í húsagarði á bóndabæ, og bar sig drjúgum eptir björginni. Hún heyrir nú ferðaþysinn og fjaðraþytinn til villigæsanna uppi yfir sjer, teygir upp álkuna og kallar til þeirra með undrun: »Hvaða læti eru í ykkur þarna uppi, systur mínar! hvert eruð þið að halda?« »Langar leiðir«, svöruðu villigæsirnar, »langar leiðir, til hins fjarlæga landsins, þar sem okkur er ætlað að vera«. »Nú, hafið þið þá nokkurntíma sjeð fjarlæga landið«? spurði heimgæsin.

»Nei, ekki höfum við það«, svöruðu hinar, »en ljettu þjer nú upp í loptið til okkar og slástu með í ferðina«. »Ja, jeg er nú helzt á því«, sagði heimgæsin. »Því ætti jeg að vera að því? Komið þið heldur ofan til mín, því hjerna getur maður fitnað og átt góða daga, og hvers getið þið framar óskað«? »Það gerum við aldrei«, sögðu villigæsirnar, »við viljum fyrir hvern mun fara til fjarlæga landsins og njótum aldrei friðar fyr en við erum þangað komnar«. »Nú, því þá?« segir heimgæsin. »Það er í okkur einhver óstöðvandi löngun«, mæltu hinar, »einhver eirðarlaus þrá, sem knýr okkur áfram, og vel segir okkur hugur um það, að við munum eiga góðs von í fjarlæga landinu«. »Þetta er sá hjegómi, sem engu tali tekur«, sagði heimgæsin, »jeg er þó líklega eins góð og hver af ykkur og hef eg þó aldrei fundið til neinnar þess háttar löngunar.« »Verði þjer að góðu«, sögðu villigæsirnar, »og kúrðu kyr þar sem þú ert, en við verðum að halda þangað sem hugurinn dregur okkur«.

Að svo mæltu flugu þær áleiðis. »Ekki get jeg að mjer gert að hlæja ekki að heimskunni«, sagði heimgæsin með þjósti, »ekki nema það að láta gabba sig með öðrum eins hjegiljum frá blessuðum matnum og ana út í óvissuna í staðinn fyrir að halda sjer við það vissa. Nei, nei! jeg er vitrari en svo«. Með þessum ummælum tók hún til óspiltra málanna og stakk nefinu niður í troðfulla fóðurkirnuna.

En þrátt fyrir alla þessa speki var hún samt bráðfeig, og daginn eptir var henni stútað.

## Hinar sjö spýtur.

Faðir nokkurr átti sjö sonu og kom þeim illa saman. Þras þeirra og rifrildi gerði þá enda hirðulausa um það sem þeir áttu að gera. Faðir þeirra, sem var hinn mesti heiðursmaður, hafði lengi tekið eptir þessu og fekk það honum áhyggju. Einn dag kallar hann þá alla á fund sinn og leggur fyrir þá sjö spýtur fastlega samanbundnar í knippi og segir: »Hverjum ykkar, sem getur mölvað þetta spýtnaknippi sundur, skal jeg gefa hundrað ríkisdali.«

Bræðurnir þreyttu nú á þessu aflsmuni sína, hvorr eptir annan, en allir jafnt fyrir gýg; »það er bráð-ómögulegt«, sögðu þeir allir. »Nei, ónei«! sagði faðirinn, »ekkert er auðveldara«. Þá leysti hann sundur knippið og mölvaði síðan hæglega hverja spýtuna eptir aðra. »Já, með þessu móti«, gullu við allir synirnir, »þá er það reyndar hægðarleikur; þetta getur hvert barnið gert«.

En faðirinn tók þá þannig til orða: »Svona fór nú með

spýturnar, synir mínir! en gætið þess að ekki fari eins fyrir ykkur, því hjer er líkt á komið. Svo lengi sem þið eruð sáttir og haldið hóp, sem einn maður, mun enginn yfirbuga ykkur; en ef að einingarbandið slitnar sem á að halda ykkur saman, þá munuð þið fá sömu afdrifin eins og þessar spýtur, sem liggja hjer brotnar fyrir fótum okkar«.

### Sannleikur og Lýgi.

Sannleikur og Lýgi gróðursettu einusinni dálítið trje, og þegar það var farið að vaxa til muna, urðu þau ásátt um að skipta því milli sín. Lýgi talaði svo um fyrir Sannleik, að hann kaus rótina, og blekkti hún hann með því að leiða honum fyrir sjónir, að rótin væri bezti partur trjesins og mest varðandi, enda vissust eign, en sjálf kvaðst hún láta sjer nægja að eiga greinarnar, þó þær ljeki í lausu lopti og væri mestum skemmdum undir orpnar. bæði af mönnum og skepnum, frosti og hita Sannleikurinn trúði Lýgi í einfeldni sinni og grandleysi og tók þessu hrekkjaboði hennar, bjó síðan um sig við trjesræturnar niðri í jörðinni, en Lýgin hafðist við ofan jarðar meðal mannanna. Trjeð tók nú undarlega miklum vexti og hreykti sjer við himni með ljómandi fögru limi og blómskrúði og breiddi frá sjer þægan skugga, svo að öllum mönnum þótti gott að sitja í forsælunni undir greinum þess. Lýgin fagnaði mönnum með mestu dáleikum, hrósaði þeim og skjallaði þá upp í hverju orði, kenndi þeim allskonar lævísi, vjelar og hrekki. Hún varð að kalla mátti hvers manns hugljúfi og gekk nú allt í dýrð og dálæti, og var sem virðing hennar færi dagvaxandi, og æ því framar sem hún kenndi mönnum lengur speki sína. En Sannleikurinn lá hulinn í jarðfylgsnum sínum, svo enginn vissi að hann væri til. Og nú var svo komið, að hann hafði ekkert sjer til viðurlífis; út úr því fór hann að tyggja og naga rætur trjesins og hætti ekki við fyr en hann var búinn að naga þær allar sundur, svo að trjeð hafði enga rótfestu framar í jarðveginum. Þá skall á dimmviðris stormbylur og kastaði trjenu til jarðar svo að Lýgi og allir hennar lærisveinar urðu undir og lemstruðust sumir, en sumir dauðrotuðust. En upp úr þeim stað, er trjeð stóð áður, hóf Sannleikurinn sig og sá með eigin augum, hversu illan enda Lýgin hafði hreppt með öllum sínum áhangendum.

### Limir mannlíkamans.

Limir líkamans urðu einhverju sinni leiðir á því, að þjóna hvorr öðrum, ásettu þeir sjer því að hætta því. Fæturnir sögðu við hina limina: »því skyldum við einir bera ykkur? Útvegið

ykkur fætur sjálfir, ef þið viljið ekki ganga«. — Hendurnar sögðu: »því eigum við einar að vinna fyrir öllum? fáið ykkur sjálfir hendur, ef þið viljið láta vinna«. — Munnurinn möglaði: »Jeg væri mikill einfeldningur, ef jeg alla jafna væri að tilreiða mat fyrir magann, svo hann geti fengið hann eptir vild sinni; hann verður sjálfur að útvega sjer munn. — Augunum þótti það einnig mjög hart, að þau yrðu ein að vera á verði fyrir allan líkamann og vísa honum leið. Á líkan hátt mæltu allir hinir aðrir limir og sögðu upp þjónustunni hvorr af öðrum. — En, hvernig fór? þegar fæturnir vildu ekki ganga, hendurnar ekki vinna, munnurinn ekki eta, augun ekki sjá, þá tók líkaminn allur að úrna og dragast upp. Sáu limirnir þá að þeir höfðu breytt óhyggilega og urðu ásáttir að gjöra slíkt aldrei optar. Tóku nú limirnir að þjóna hvorr öðrum og fengu við það brátt aptur hið fyrra fjör og þroska.

## VI. Heppileg svör.

Skólakennari nokkurr var að kenna lærisveinum sínum landafræði. Til þess at útlista fyrir þeim lögun jarðarinnar, tók hann upp úr vasa sínum hnöttóttar tóbaksdósir, sem hann var vanur að brúka hversdagslega. »Börn mín góð«, sagði kennarinn, jörðin er eins í lögun eins og þessar tóbaksdósir.« En á sunnudögum var kennarinn vanur að hafa aðrar tóbaksdósir sem voru ferhyrndar. Nokkrum dögum seinna spurði hann einn af drengjunum aptur, hvernig jörðin væri í lögun. »Á rúmhelgum dögum er hún hnöttótt, en ferhyrnd á sunnudögunum,« svaraði drengurinn.

Konuugur nokkurr var mjög eyðslusamur, og hlaut hann að leggja marga nýja skatta og álögur á þegna sína, til þess að geta fullnægt löngun sinni til munaðarlífis.

Eitt sinn var hann á dýraveiðum, og mætti hann þá bónda sem ekki þekkti hann, og gaf konungur sig á tal við hann. Brátt varð tilrætt um hina nýju skatta, og spurði konungur bóndann, hvernig honum litist á þá.

»það er píningarsagan öfug«, mælti bóndi; »þar leið einn fyrir alla, en hjer líða allir fyrir einn«.

Bóndi nokkurr kom til málafærslumanns, og bað hann innilega um að taka að sjer meiðyrðamál fyrir sig. Málafærslumaðurinn færðist undan, og sagðist ekkert vilja eiga við slík mál, því þau væru ekki til annars en að eyða tímanum. »Hefði jeg«, sagði hann enn fremur, »átt að stefna öllum þeim, sem hafa kallað mig fant«!

»Já«, sagði bóndinn, »það er nú annað mál með yður, en jeg og mínir líkar getum ekki legið undir slíku«.

---

Auðugur klerkur nokkurr hjelt ráðsmann, sem ekki fór sem ráðvandlegast með fje hans.

Einn nýjársdag komu öll hjú klerksins og ráðsmaðurinn með inn til klerksins, til að óska honum gleðilegs nýjárs, og gaf hann þeim öllum gjafir. Síðast sneri hann sjer að ráðsmanninum, og sagði: »þú ert helztur af hjúum mínum; þessvegna verð jeg að gefa þjer þá gjöf, sem er samboðin stöðu þinni, og meiri en þær sem jeg hef gefið hinum hjúunum. Jeg ætla því að gefa þjer allt það, sem þú hefur stolið frá mjer árið sem leið«.

---

Prestur nokkurr spurði konu eina, hvort maður hennar væri reglumaður. Hún kvað svo vera. »Og þó er það almæli«, sagði prestur, »að hann sje drukkinn á hverjum degi«. »það er líka satt«, svaraðl konan, »hann drekkur sig fullan á hverju kvöldi, og víkur sjaldan frá þeirri reglu«.

---

Málafærslumaður einn ætlaði eittsinn að sýna findni sína, og sagði við prest nokkurn: »ef klerkastjettin kæmist í mál við djöfulinn, hvorr haldir þjer að ynni það mál«? »Sjálfsagt djöfullinn«, sagði klerkurinn, »því hann hefur alla lögspekingana á sínu bandi«.

---

Maður nokkurr mætti lækni, og leit undan og roðnaði, er hann sá hann. Hann var spurður að, hverju það sætti. »Jeg blygðast mín að láta lækninn sjá mig«, svaraði hann, »því það er svo langt síðan að jeg hef verið veikur«.

---

»Í Rómaborg á sú sanna trú heima«, sagði munkur nokkurr við lærðan mann. »það er satt«, svaraði hann, »en sú trú er eins og þeir menn, sem aldrei eru heima«.

---

Loðvík 14. hafði eittsinn orkt kvæði, sem hann bað Boileau um að segja sjer álit sitt um. Boileau las kvæðið og fekk konungi það aptur með þessum orðum: »yðar hátign er ekkert ómögulegt; þjer hafið nú ætlað að búa til smekklaust kvæði, og yður hefur tekizt það fremur öllum vonum«.

Spekingurinn Sólon var eittsinn spurður að, hverr vegur væri beinastur til þess að koma löndum og ríkjum í blómlegt ástand. »Sá«, svaraði hann, »að þegnarnir hlýði yfirvöldunum, og yfirvöldin lögunum«.

Menn spurðu eitt sinn ríkan kaupmann á Englandi, hvers vegna hann hefði gefið einum af óvinum sínum dóttur sína til eiginkonu. »Það gjörði jeg til að hefna mín á honum«, svaraði hann.

Herramaður nokkurr var á ferð á Englandi, og veit hann ekki fyrri til, en að honum veður ræningi, sem setur pístólu fyrir brjóst honum, og segir: »kaupið þjer af mjer þessa skammbyssu, herra minn, þjer skuluð fá hana fyrir 1000 dali. Herramaðurinn skildi, hvað ræninginn fór, og sá, að hjer var ekki um gott að gjöra. Hann þorði ekki annað en að ganga að boðinu, og taldi ræningjanum út peningana. Ræninginn taldi þá vandlega; síðan hneigði hann sig fyrir herramanninum, fjekk honum skammbyssuna, og fór. Það fyrsta, sem herramaðurinn gjörði, var að miða byssunni á ræningjann, en hann sá, hvað herramaðurinn hafði í hyggju, og sagði hlæjandi: »verið þjer ekki að hafa fyrir þessu, herra minn, skammbyssan er ekki hlaðin«.

Prentari einn í Lundúnaborg hafði eitt sinn fengið einkaleyfi til að láta prenta nýja útgáfu af Biblíunni. Nokkru seinna kom sonur hans í samkvæmi, og var hann klæddur í græn föt með gylltum borðum, og virtist sumum klæðnaður hans fremur bera vott um smekkleysi. Þar eð nú fáir þekktu hann af þeim sem viðstaddir voru, fóru sumir að stinga saman nefjum um, hverr þetta mundi vera. »Þekkið þjer hann ekki«? sagði stúlka nokkur, sem við var stödd, »það er nýja Biblían í kálfsskinni, gyllt í sniðunum, en titilblaðslaus«.

Trjesmiður nokkurr hafði verið viðstaddur þar sem áflog fóru fram, og var hann kallaður fyrir rjett sem vitni. Dóm-

arinn, sem hjelt rjettinn, var vanur að reyna að flækja vitnin, til þess, eins og hann kvað að orði, »að komast eptir sannleikannm«. Hann ætlaði því að fara eins með trjesmiðinn, og spurði hann meðal annars, hversu langt hann hefði staðið frá þeim, sem voru að fljúgast á. »Fjögur fet og hálfan sjötta þumlung«, svaraði smiðurinn. »Hvernig veiztu það svo nákvæmlega?« spurði dómarinn. »Mig grunaði,« svaraði smiðurinn, »að eitthvert flónið kynni að spyrja svona aulalega, og þessvegna mældi jeg það«.

---

Það var einhverju sinni að drottningin sagði við skáldið Bautrn, að sig langaði til að sjá konu hans. Hann lofaði að koma með hana, en sagði um leið við drottningu, að kona sín heyrði mjög illa, svo að hún yrði að tala hátt við hana. Drottningin lofaði því. Síðan kemur Bautru með konu sína til drottningarinnar, en sagði henni áður, að drottningin heyrði mjög illa, svo að hún yrði að kalla í eyru hennar, kona hans lofaði því. Þegar hún kom á fund drottningar, byrjaði drottningin samtalið með því, að hrópa af öllum kröptum í eyru hinnar; en hún gjörði hið sama við drottningu. Konungurinn var viðstaddur, og af því að honum hafði verið sagt hvernig á öllu stæði, gat hann ekki ráðið sjer fyrir hlátri. Drottningin fór loks að gruna margt og spyr: »hefur maður yðar sagt yður að jeg heyrði illa«? Konan gat ekki borið á móti því. »Og fanturinn«, mælti drottning; »hann hefur þá gabbað okkur báðar, því hið sama hefur hann sagt mjer um yður«.

---

Frakkneskur hersforingi nokkurr var eitt sinn á hergöngu með sveit manna, og lá leið þeirra um mjög örðugan og hættulegan veg. Hann bað menn sína að halda vel áfram, og vera hugrakka. Þá sagði einn af dátunum: »það er hægt fyrir yður, herra hershöfðingi, að segja oss að halda áfram og vera hugrakkir; þjer sitjið á góðum hesti, en vjer verðum að vaða aurinn uppí hnje«. Óðar en hershöfðinginn heyrði þetta, stje hann af baki, og bauð þessum dáta að fara á bak. Dátinn skoraðist undan í fyrstu, en varð þó að hlýða. En er hann hafði setið skamma stund á hestsbaki, kom skot í hann frá óvinunum, svo að hann fjell dauður til jarðar. »Sjáið nú«, sagði þá hershöfðinginn, »hinn æðsti sess er ekki ætíð hinn óhultasti«. Síðan fór hann sjálfur á bak aptur, og hjelt áfram ferð sinni.

---

Maður nokkurr gjörði sig sekan í því, að búa til falsaða peninga, en það komst upp á þenna hátt: Hann sendi son sinn, fimm ára gamlan, til vínsölumanns þar nálægt með einn ríkisdal, og átti hann að fá honum víxlað. Vínsölumaðurinn skoðaði peninginn vandlega, og sagði síðan: »þennan pening vil jeg ekki; hann er falsaður«. »það getur ekki verið«, sagði drengurinn, »hann faðir minn hefur búið hann til sjálfur«.

---

þorp nokkurt varð fyrir eldsvoða, og brunnu öll húsin í því nema kirkjan, skólinn og veitingahúsið. þegar nú skólameistarinn ætlaði að fara að útlista fyrir börnunum hvernig á þessu stæði, sagði hann: »Börn mín góð, það er hegning frá guði, að öll húsin skuli hafa brunnið, en að kirkjan, skólinn og veitingahúsið skuli standa enn, það er kraptaverk. Ykkur kann að furða á, að veitingahúsið, þar sem svo margir lestir fara fram, skuli hafa komizt hjá eldsvoðanum. Jeg skal segja ykkur hvernig á því stendur. Kirkjuna og skólann hefur guð varðveitt, en fjandinn hefur haldið hönd sinni yfir veitingahúsinu«.

---

Herramaður nokkurr kom til Gyðings, til að selja honum gömul föt af sjer. þegar kaupin voru gjörð, sagði herramaðurinn: »Gyðingur minn, veiztu það, að þegar Gyðingur er hengdur á Englandi, þá er siður að hengja asna við hliðina á honum«. »þangað væri hvorugum okkar gott að koma«, svaraði Gyðingurinn.

---

Bóndi nokkurr reið í kaupstað, og varð þar drukkinn. þegar hann ætlaði heim, lagði hann hnakkinn öfugan á hestinn. Lagsmenn hans sögðu honum til þessa, en hann varð reiður, og sagði: »hvað varðar ykkur um það? vitið þið hverja leiðina jeg ætla að ríða«?

---

Prestur nokkurr sagði í ræðu sinni, að fjandinn mundi taka alla okurkarla, og bera þá beint til helvítis. Af þessu varð okurkarl nokkurr, sem heyrði ræðuna, reiður mjög, og fór að tala um þessi orð prests við einn af vinum sínum. »það er ekki nema vitleysa«, sagði vinur hans, »trúðu aldrei þessu. Fjandinn fer varla að hafa svo mikið við þá að bera þá; jeg tryði því heldur, að hann tæki í aðra löppina á þeim, og slengdi þeim þannig niður til helvítis«.

---

Öldruð stúlka var viðstödd þar sem ný kirkjuklukka var vígð, og sagði hún, að hljóð klukkunnar væri eigi nógu dimmt. Maður, er við var staddur, svaraði: »það er af því hún er svo ung; þegar hún er orðin eins gömul og þjer eruð nú, verður hún líka eins dimmrödduð«.

---

Glæpamaður, er var dæmdur til dauða, öðlaðist þá náð af konungi, að hann mætti sjálfur kjósa dauðdagann. »Jeg þakka yðar mildustu hátign«, mælti hann, »jeg kýs mjer þá að deyja úr elli«.

---

Hinn víðfrægi enski stjórnarherra Fox var mjög skuldugur, en af því menn vonuðu að hann mundi erfa bróður sinn, lávarð Holland, er var auðugur, hafði Fox lánstraust. En er Holland fæddist sonur, komu lánardrottnar Fox til hans flokkum saman og beiddust, að hann tæki til einhvern dag er hann vildi borga skuldir sínar á. Fox gekk stundarkorn um gólf þegjandi, eins og væri hann að hugsa málið, og mælti síðan: »mjer kom til hugar, herrar góðir, að nefna upprisudaginn, en af því það er líklegt, að vjer höfum þá mörgu að sinna, vil jeg nefna næsta dag eptir upprisuna, ef yður gæti geðjast sá dagur«.

---

Aðalsmaður nokkurr kærði málarann Michael Angelo fyrir páfa Klemens hinum sjöunda fyrir það, að hann hefði málað hinn síðasta dóm fyrir kirkju eina í Róm og sett mynd sína meðal hinna fordæmdu í helvíti; bað hann páfann að skipa að þurka út myndina. Páfinn svaraði: »það er mjer leitt að geta eigi orðið við tilmælum yðar; jeg hefi vald til, að taka syndara úr hreinsunareldinum, en eigi vald til, að taka neinn úr helvíti«.

---

Gárungur nokkurr spurði aldraða stúlku, hvers vegna allar stúlkur yrðu guðhræddar, þegar þær kæmust undir þrítugt. Stúlkan svaraði: »til þess geta legið mörg rök, en þau eru sterkust, að þær votta guði hjartans þakkir fyrir það, að hann hafi eigi látið þær falla í hendur djöflinum í manns mynd«.

---

Ár 999 var mikið óár á Persalandi; uppskeran hafði brugðizt um mörg ár og leit mjög illa út. Azud ad Dauloh sat þá að ríkjum í Persíu; hann var vitur stjórnari. Hann komst

mjög við af neyð fólksins og lagði sjálfur hart á sig, en auðmenn landsins lifðu í óhófi. Ljet þá Azuð það boð ganga út um allt ríki sitt, að fyrir hvern fátækling er dæi af sulti skyldi hengja einn auðmann. Eptir að menn heyrðu boð þetta kepptust allir við að líkna hinum fátæku, svo enginn dó af harðæri.

Hollenzkur sendiherra, er var mjög feitur, en eigi vitur, var í samkvæmi; tók hann á maga sjer og mælti: »þessi hefir kostað ríkið mikið«. Stúlka, er nærstödd var, svaraði: »það hefði verið betra að kosta því uppá höfuðið«.

Tveir menn voru á gangi á Svisslandi, og dáðust að ýmsu í náttúrunni. »það er merkilegt«, sagði annar þeirra, »að guð skyldi geta skapað þetta allt á 6 dögum«. Hinn svaraði: »verkið á því er líka eptir því«, og benti á fjalls brún, er hrunið hafði.

## VII. Sögur ýmislegs efnis.

### Ljónið og Androkles.

Eitt sinn var þræll nokkurr, að nafni Androkles. Hússbóndi hans fór svo illa með hann, að hann gat ekki lengur þolað slíka meðferð. Hann sagði því við sjálfan sig: »það er betra að deyja, en að lifa í þessu volæði. Jeg skal því strjúka frá hússbónda mínum. Ef hann nær mjer aptur, veit jeg, að hann lætur pinta mig til dauðs, en betra er að deyja, en að lifa við eymd. Ef jeg kemst undan, þá get jeg haldið mjer við á skógum og eyðimörkum; að sönnu lifa þar óarga dýr, en þau munu naumast fara ver með mig, en mennirnir hafa gjört. Jeg skal því heldur fela mig þeim á vald, en að lifa eins og aumur þræll«.

þegar hann var búinn að einsetja sjer þetta, greip hann hið fyrsta tækifæri, sem honum bauðst, til þess að strjúka frá hússbónda sínum, og faldi hann sig í þjettum skógi. En þá varð hann þess var, að hann hafði flúið úr einni eymdinni í aðra. Hann var búinn að ráfa þar í skóginum, matarlaus, og loks fór hann í örvæntingu inn í helli, sem hann fann. þar ætlaði hann að bíða dauðans.

En þegar hann hafði legið þar um hríð, heyrði hann ógurlegan hávaða, líkast því sem óarga dýr öskraði. Hann stökk-

upp, og ætlaði út úr hellinum, en er hann var kominn í hellismunnann, stóð fyrir honum afarstórt ljón, sem bannaði honum útgöngu. ¡Nú hjelt Androkles, að hann ætti ekki langt eptir ólifað; en í stað þess að ljónið hlypi í hann, eins og hann bjóst við, gekk það að honum hægt og bægt, án þess að láta í ljósi neina reiði, og gaf um leið frá sjer aumkunarlegt hljóð, rjett eins og að það væri að biðjast hjálpar af manninum.

Androkles var einbeittur maður, og fór nú að skoða ljónið nákvæmar. Hann sá að það stakk við á einum fætinum, og er hann gætti að nákvæmar, sá hann, að fóturinn var bólginn mjög. þegar hann sá að ljónið ætlaði ekki að gjöra honum neitt mein, tók hann fótinn á því milli handa sinna, og skoðaði hann, eins og þegar læknir er að skoða sjúkling. Hann sá þá, að stór þyrnir hafði stungizt uppí ilina á því; þess vegna var fóturinn bólginn, og var farið að grafa í honum. Ljónið var kyrrt á meðan, og lofaði honum að fara með fótinn á sjer eptir vild sinni. Androkles dró þyrninn út úr fætinum á því, og færði út mikið af grepti.

þegar ljónið fann, að verkurinn minnkaði við þessar aðgjörðir hans, þá vissi það ekki hvernig það átti að láta af gleði. það stökk í kringum Androkles eins og kátur hundur, sleikti á honum hendur og fætur, og dinglaði rófunni. Síðan gaf það honum alltaf að eta með sjer, í hvert skipti sem það fór á dýraveiðar. þannig lifði Androkles hjá ljóninu í nokkra mánuði. En eittsinn, er hann hafði gengið lengra, en vani hans var, frá hellinum, þá varð hann fyrir flokki af hermönnum, sem höfðu verið sendir út til að leita hans. þeir tóku hann höndum, og færðu hann í fjötrum heim til hússbónda hans.

Hússbóndi hans dæmdi hann til dauða, og var dauðahegning hans ákveðin þannig, að ólmt ljón, er hafði verið svelt í marga daga til þess að gjöra það enn ólmara, skyldi rífa hann á hol.

Dag þann, er dauðahegning hans skyldi framfara, höfðu safnast saman ótal margir áhorfendur, til þess að horfa á þessa óttalegu sjón. Androkles var látinn vopnlaus á bert svæði, sem til þess var ætlað. Að vörmu spori kom ljónið æðandi fram með opið ginið, reistan makkann, og eldur brann úr augum þess. En er það leit Androkles, þá fleygði það sjer þegar niður fyrir fætur honum, sýndi honum vinahót, eins og tryggur hundur sýnir hússbónda sínum, og lýsti á allar lundir, sem það gat, gleði sinni yfir því, að hafa fundið hann aptur. Allir áhorfendurnir undruðust þetta, og landstjórinn í því landi, sem var einn af áhorfendunum, kallaði til Androklesar, og bauð honum að skýra frá, hvernig á þessu stæði.

Androkles sagði þá upp alla söguna, hvernig hann hefði hitt

ljónið í skóginum, og læknað það, og að þetta væri sama ljónið, og það, sem hefði alið önn fyrir sjer í hellinum. Allir þeir, sem við voru, undruðust þessa sögu, og báðu þeir landstjórann að gefa Androklesi grið. Ljet hann það að orðum þeirra, og gaf hann honum ekki að eins líf, heldur og ljónið líka, sem þannig hafði frelsað líf hans tvisvar.

## Fjesjóðurinn.

Nitokris, drottning í Babylon, bauð, að sjer skyldi reisa minnisvarða, með þessum orðum á: »Ef nokkurr þeirra konunga, sem ríkja munu í Babylon, kemst í fjeskort, þá opni hann leiði mitt, og taki hann þaðan, það hann með þarf. En ekki skal hann raska minni ró, nema hann sje í verulegum vandræðum«. Leiðið var látið ósnert þangað til undir stjórn Daríusar Hýstaspes sonar. Hann var ágjarn konungur, og gat ekki þolað, að fjársjóður sá, er hann hjelt að fólginn væri undir leiði þessu, lægi ónotaður. Hann ljet því grafa upp leiðið, en fann þar ekkert nema rotinn líkamann, og þessi orð, rituð á bókfell: »ágirnd þín hefir leitt yfir þig smán, en ekki auðgað þig. Ef þú ekki hefðir verið óseðjandi, þá hefðirðu ekki látið mauragirnd þína leiða þig til þess að raska ró framliðinna«.

## Gjafirnar.

Fátækur daglaunamaður átti dálítinn matjurtagarð. Eitt haust, er hann var að taka upp úr garðinum, var þar ein gulrófa, sem var svo óvanalega stór, að allir, sem sáu hana, furðuðu sig yfir því. »Jeg skal gefa hússbónda mínum þessa rófu«, sagði daglaunamaðurinn, »honum þykir vænt um, að við ræktum vel garðana okkar«.

Hann fór þvínæst með rófuna til hússbónda síns, og gaf honum hana. Hússbóndinn lofaði hann fyrir hirðusemi og ástundan, og gaf honum þrjá gullpeninga.

Skammt þaðan bjó bóndi einn, auðugur og ágjarn. Hann frjetti, hvað herramaðurinn hafði gefið bóndanum fyrir gulrófuna, og hugsaði sjer nú einnig að maka krókinn. »Jeg skal gefa herramanninum kálfinn minn«, sagði hann við sjálfan sig, »ef hann borgar þrjá gullpeninga fyrir eina gulrófu, þá vona jeg að hann greiði fyrir sig, ef jeg gef honum kálf«.

Hann teymdi síðan kálfinn upp til herramannsins og bað hann að þiggja hann. En herramaðurinn vissi, í hverjum tilgangi bóndinn færði sjer kálfinn, og kvaðst ekki vilja þiggja hann. Bóndinn bað hann innilega að sýna lítillæti, og gjöra sig ekki

apturreka með þessa litlu gjöf. Loksins sagði herramaðurinn: »fyrst að þjer er svo annt um það, skal jeg þiggja gjöf þína. En þar sem þú ert svo örlátur við mig, ætti jeg að sýna lit á að gefa þjer eitthvað í staðinn. Gjörðu svo vel og þiggðu af mjer þessa gulrófu, hún hefur kostað mig þrefalt við það, sem kálfurinn þinn er verður«, og um leið fekk hann honum gulrófuna, sem daglaunamaðurinn hafði gefið honum.

Bóndinn labbaði sneyptur burt með gulrófu sína.

## Hestur Hassans.

Stór kaupmannalest var á ferðinni til Damaskus. Ræningjar frá Arabíu rjeðust á hana, og unnu þeir brátt sigur yfir kaupmönnunum. Ræningjarnir fengu þar ógrynni herfangs, og voru þeir einmitt að rannsaka það og skipta því, þegar þar bar að flokk hermanna, sem sendir höfðu verið út frá Akre til þess að leiðbeina kaupmannalestinni. Hermennirnir báru ræningjana ofurliða, margir þeirra voru drepnir, en hinir herteknir; voru þeir bundnir og hjeldu hermennirnir með þá á leið til Akre.

Einn af hinum herteknu ræningjum hjet Hassan. Hann hafði fengið skot í handlegginn, og var hann settur uppá úlfalda. Hassan átti ágætan hest. Hermennirnir höfðu tekið hestinn að herfangi, og var hann með í ferðinni.

Kvöldið áður, en þeir bjuggust við að ná Akre, höfðu hermennirnir sett herbúðir sínar á hálendi nokkru. Hassan lá fyrir utan eitt tjaldið, og voru fætur hans bundnir með leðuról. Sár hans olli honum svo mikils sviða, að hann gat ekki sofið um nóttina. Hann sá hest sinn standa þar skammt frá í hapti, og langaði hann til að kveðja hann í síðasta sinni. Hann skreið því á höndum og knjám þangað, er hesturinn stóð.

»Vinur minn«, sagði hann við hestinn, »hvað verður nú um þig, þegar þú ert kominn í hendur Tyrkja? þeir munu loka þig inni í einhverjum óheilnæmum stalli. Kona mín og börn munu ekki framar færa þjer úlfaldamjólk til að drekka, eða gefa þjer hafra að eta úr lúkum sínum. Aldrei munt þú framar þjóta yfir eyðimörkina eins og elding, aldrei munt þú framar baða þig í Jórdan. Farðu heim til mín aptur, og segðu konu minni og börnum að þau fái aldrei framar að sjá mig, og færðu þeim hina síðustu kveðju frá mjer«.

Síðan nagaði Hassan sundur skinnól þá, sem hesturinn var heptur með. En þegar hesturinn sá hússbónda sinn liggja særðan og máttvana fyrir fótum sjer, þá var eins og honum dytti eitt í hug, sem engin mannleg túnga hefði getað sagt honum. Hann beygði niður höfuðið, og greip í leðurbelti, sem hússbóndi hans

hafði um mittið; síðan tók hann hann með tönnunum upp á beltinu, og hljóp burt. þannig bar hann húsbónda sinn í munninum langan veg, yfir eyðimerkur og fjöll, og nam ekki staðar fyr en hann var kominn heim með hann þangað, sem húsbóndi hans átti heima. Hann lagði hann niður fyrir fætur konu hans og barna, en síðan fjell hann sjálfur til jarðar, og dó af þreytu.

Allir vinir og ættmenn Hassans grjetu yfir dauða hestsins, og fleira en eitt skáld meðal Araba hefur haldið uppi minningu hans í ljóðum sínum.

## Hið unga vitni.

Fyrir nokkrum árum var lítil stúlka, að eins níu ára gömul, kölluð fyrir rjett sem vitni í þjófnaðarmáli. þjófnaðurinn hafði verið drýgður í húsi föður hennar; hún hafði staðið þjófinn að verkinu, og var því vitnisburður hennar mjög áríðandi. Talsmanni þjófsins var ekki um, að stúlkan væri leidd sem vitni, því hann vissi, að framburður hennar mundi skaða málstað hans. Hann sagði því við hana, þegar hún kom fram fyrir rjettinn: »stúlka mín, er þjer kunnugt um eðli eiðsins«? — »Jeg veit ekki hvað þjer eigið við, herra minn«, svaraði hún. — »þarna sjáið þjer«, sagði talsmaður þjófsins við dómarann, »hún hefur enga hugmynd um þýðingu eiðsins. Er það ekki órækur vottur þess, að hún er ekki vitnisfær? Framburður hennar getur ekki tekist til greina«.

»Látum oss athuga það betur«, sagði dómarinn. »Komdu hingað, stúlka mín, og segðu mjer, hefurðu nokkurn tíma unnið eið«? — »Nei herra minn«, svaraði stúlkan, og roðnaði við. — »Hefurðu nokkurn tíma áður verið kölluð fyrir rjett sem vitni«? spurði dómarinn. — »Nei, aldrei fyr«, svaraði hún. »þekkirðu þessa bók«? sagði dómarinn, og benti um leið á Biblíuna, sem lá þar á borðinu. — »Já, herra minn, það er Biblían«. — »Hefurðu nokkurn tíma lesið í þeirri bók«? — »Já, herra minn, jeg les í henni á hverjum degi«. — »Veiztu hvað Biblían er«? — »Já, hún er orð Drottins«. — »Rjett, barnið mitt, legðu hönd þína á þessa bók«.

Hún lagði hönd sína á Biblíuna; dómarinn mælti fram orð vitnaeiðsins, og hún hafði þau upp eptir honum. Með hendina á Biblíunni sagði hún: »Jeg sver það hátíðlega, að það, sem jeg nú ætla að fram bera, er sannleikur, sannleikurinn án afdráttar og ekkert annað en sannleikur. Svo sannarlega hjálpi mjer guð«.

»Nú ertu búin að vinna eið sem vitni«, sagði dómarinn. »Veiztu nú, hverjar afleiðingarnar verða, ef þú ekki segir sannleikann«? — »Já«, mælti stúlkan. »Hverjar eru þær þá«? mælti dómarinn. »Jeg verð sett í díblissu«, mælti stúlkan. »Og

er þarmeð búið«? mælti dómarinn. »Nei«, mælti stúlkan, »jeg verð einnig útilokuð frá því að komast í guðs ríki«. »Hvernig veiztu það«? mælti dómarinn.

Hún tók Biblíuna, fletti upp 20 Cap. í 2 bók Mósis, 16 versi, og las: »Þú átt ekki að bera falskan vitnisburð á móti þínum náunga«. »Þetta var mjer kennt«, sagði hún, »áður en jeg kunni að lesa í Biblíunni«.

»Hefur nokkurr sagt þjer, að þú ættir að bera vitnisburð í þessu máli«? spurði dómarinn.

»Já«, svaraði hún, »þegar móðir mín heyrði, að það ætti að stefna mjer, þá kallaði hún á mig inn í herbergi sitt, og sagði mjer að hafa upp guðs tíu laga-boðorð; síðan fjellum við á knje, móðir mín og jeg, og báðum guð að gefa mjer náð til þess að skynja, hversu óguðlegt það væri að bera falskan vitnisburð á móti sínum náunga, og að guð vildi hjálpa mjer að segja sannleikann, ef mjer yrði stefnt. Og þegar jeg fór af stað, hingað, þá kyssti móðir mín mig, og sagði: »mundu eptir áttunda boðorðinu, og gleymdu því ekki, að guð heyrir hvert það orð, sem þú segir fyrir rjettinum«.

»Og trúir þú þessu sjálf«? sagði dómarinn og viknaði við.

»Já herra minn«, sagði stúlkan, og einlægnin skein úr augum hennar, svo að auðsjeð var að hún sagði satt.

»Guð blessi þig, barnið mitt,« sagði dómarinn. »Þú átt góða móður«. Síðan sneri hann sjer að talsmanni þjófsins og mælti: »Þetta vitni er gilt«. Eptir litla þögn bætti hann við þessum orðum: »ef jeg væri ákærður, og væri saklaus, vildi jeg biðja Drottinn að senda mjer annað eins vitni, og þessi stúlka er, til að bera vitni um sakleysi mitt«. Síðan var framburður hennar tekinn til greina.

Þessi litla stúlka talaði sannleikann, þegar henni var stefnt fyrir rjettinn sem vitni. En vjer eigum að ímynda oss, að vjer ætíð stöndum frammi fyrir rjetti, hvenær sem vjer tölum orð frá munni. Heimi þessum má líkja við stórkostlegan rjett: Drottinn er dómarinn.

## Klukkan í herberginu mínu.

I herberginu mínu stendur klukka. Það er allra fallegasta klukka, gyllt og fáguð, útskorin með rósum og búin ýmsu skrauti. Allir sem heimsækja mig, dást að því, hvað klukkan mín sje falleg. En — því miður — hún hefur galla, og það slæman galla — hún gengur ekki. Þó jeg dragi hana upp, þá stendur hún samt; hvernig sem jeg fer að, get jeg ekki komið henni til að ganga. Vísirarnir hreifast ekki. Klukkan mín er því ónýt,

og þó hún sje fögur á að líta, þá er hún samt slæm klukka í orðsins eiginlegasta skilningi, af því að hún uppfyllir ekki sína ákvörðun. Þetta var jeg að hugsa um klukkuna mína um daginn, og þá datt mjer í hug: eru ekki í heiminum margir menn, sem eru eins og klukkan mín? Eru ekki margir karlar, margar konur og mörg börn, sem uppfylla ekki betur sína ákvörðun en hún? Guð hefur skapað mennina til þess að þeir elskuðu sig, þjónuðu sjer og gjörðu sinn vilja; ef þeir nú hvorki elska hann, þjóna honum, nje gjöra hans vilja, þá uppfylla þeir ekki sína ákvörðun; og ef þeir ekki uppfylla sína ákvörðun, þá eru þeir slæmir og ónýtir, hversu álitlegir sem þeir knnna að vera útlits og viðkunnanlegir í framgöngu; því jeg segi það enn: bæði menn og hlutir eru ónýtir og slæmir, ef þeir svara ekki til þess tilgangs, sem þeir eru gjörðir í. Guð hefur ekki kallað oss til þessa lífs til þess að vjer einungis skyldum skemmta oss, og eyða tímanum í holdlegum munaði. Hann hefur skapað oss til þess, að vjer skyldum gjöra hans vilja. Lesari! ef þjer verður þessi spurning á vörum: »hvernig á jeg að gjöra guðs vilja«, þá skal jeg segja þjer það. Þú átt að heiðra föður þinn og móður, virða þau og vera þeim auðsveipur; þú átt að varast vondan fjelagsskap; þú átt að fylgja eptirdæmi góðra manna; þú átt að biðja guð iðulega, og ekki þreytast; þú átt að lesa heilaga Ritningu, og breyta eptir því, sem hún kennir þjer. En sjerílagi gjörir þú guðs vilja, ef þú gefur Jesú hjarta þitt, treystir honum sem þínum frelsara, og biður hann að senda þjer sinn heilaga anda; án hans hjálpar ert þú einkis megnugur.

Kæri lesari! hugsaðu nm þetta. Þjer getur aldrei of opt komið til hugar þessi spurning: uppfylli jeg þann tilgang sem guð hefur skapað mig í?

## Það er hart.

»Það er hart að hafa ekki annað en kálmeti að borða, þegar aðrir hafa allskonar kræsingar«, sagði Jón við móður sína, þar sem hann sat og var að borða úr trjeskál. »Það er hart að þurfa að fara svona snemma á fætur á morgnana í þessum kulda, og verða að erfiða allan daginn, þarsem aðrir ekkert hafa annað að gjöra en að skemmta sjer. Það er hart að þurfa að vaða snjóinn, þar sem aðrir geta ekið í vögnum sínum«.

»Það er mikil blessun«, sagði móðir hans, þarsem hún sat og var að prjóna, »það er mikil blessun, að hafa nóg að borða, þar sem svo margir eiga ekki munnbita til að sefa hungur sitt; að eiga hús yfir höfuðið, þar sem svo margir eru heimilislausir; það er mikil blessun að hafa sjón og heyrn, og krapta til

að vinna, þar sem svo margir eru sjónlausir, heyrnarlausir og veikir«.

»Þjer finnst nú heldur aldrei neitt vera hart«, sagði Jón.

»Jú, Jón minn«, sagði móðir hans; eitt er það, sem mjer finnst mjög hart«.

»Hvað er það«? sagði Jón, og varð glaður við, því nú hjelt hann að móðir hans hefði fundið eitthvað umkvörtunar efni.

»Það skal jeg segja þjer, drengur minn,« sagði hún. »Mjer virðist það hjarta vera mjög hart, sem ekki er þakklátt við guð fyrir aðra eins blessun og þá, sem hann lætur oss í tje«.

## Washington og undirhershöfðinginn.

Það bar við eitt sinn í frelsisstríði Ameríku manna, að undirhershöfðingi nokkurr, sem hafði litla sveit manna yfir að ráða, var að skipa mönnum sínum að láta stórt og þungt trje uppá varnargarð nokkurn, sem nýbúið var að byggja. Trjeð var svo þungt, að menn hans naumast gátu valdið því, en hann snerti ekki á því, heldur stóð hjá og hrópaði: samtaka, herðið yður, áfram, o. s. fr. Í þessum svifum bar þar að mann ríðandi; hann var ekki á einkunnarhúningi og þekkti undirhershöfðinginn hann ekki. Aðkomumaður veik sjer að undirhershöfðingjanum, og mælti: »Viljið þjer ekki ljá hönd, og hjálpa mönnum yðar lítið eitt; þeir ætla ekki að valda trjenu«. Hinn sneri sjer við snúðuglega, og mælti: »herra minn, jeg er undirhershöfðingi«. »Nú, já, já, þjer eruð það«! mælti aðkomumaður, »fyrirgefið mjer, herra undirhershöfðingi«. Síðan fór aðkomumaður af baki, hjálpaði dátunum að koma trjenu uppá garðinn, og lá ekki meir á liði sínu en svo, að hann var löðrandi sveittur að loknu verkinu. Að því búnu sneri hann sjer að undirhershöfðingjanum, og sagði: »herra undirhershöfðingi, næst þegar þjer eigið einhverja þraut að vinna, og eruð of liðfár, þá gjörið þjer boð eptir hershöfðingja yðar, jeg skal þá hjálpa yður í annað sinn«.

Undirhershöfðingjann setti dreyrrauðan, því aðkomumaður var enginn annar en Washington sjálfur.

## Tryggur hundur.

Kaupmaður nokkurr á Frakklandi átti peninga hjá einum skiptavin sínum, sem átti heima nokkuð langt frá heimili kaupmannsins. Það var því einn góðan veðurdag, að kaupmaður söðlaði hest sinn, og reið heiman að, til að finna þennan skiptavin sinn, og heimta peninga sína. Hann hafði með sjer hund sinn. Honum gekk ferðin greiðlega; fekk hann peninga sína

greidda, og hjelt síðan heimleiðis aptur, glaður í bragði. Hann batt peningapokann fyrir aptan hnakk sinn, og reið burt. Hundurinn stökk í kringum hestinn, og gelti af gleði, rjett eins og hann tæki þátt í gleði húsbónda síns.

þegar kaupmaðurinn hafði riðið spölkorn heimleiðis, fór hann af baki, áði hestinum nálægt stórri eik, og hvíldi sig í skugga hennar. Hann spretti reiðtýgjum af hestinum, og leysti peningapokann frá hnakknum, og lagði hann undir eikina. En er hann lagði aptur á hestinn, gleymdi hann peningunum, og reið af stað. Hundurinn varð þess var, að peningarnir höfðu orðið eptir, og hljóp því þangað, er hann vissi, að þeir lágu og ætlaði að sækja pokann, en hann var svo þungur, að hann gat ekki valdið honum. Hann hljóp þá aptur til húsbónda síns, og gelti og skrækti til að reyna að minna hann á, hverju hann hefði gleymt. Kaupmaðurinn vissi ekki, hverju þetta sætti, og gaf því í fyrstu lítinn gaum, en hundurinn ljet því ver, og fór loks að glepsa í apturfæturnar á hestinum.

Nú datt kaupmanninum í hug, að hundurinn kynni að vera orðinn vitlaus. Og er þeir komu að litlum læk, sem var á leiðinni, tók kaupmaðurinn eptir, hvort hundurinn vildi ekki drekka. En hann sinnti engu, heldur gelti æ meir og meir og beit hestinn eins og hann gat.

»það miður er það svo«, sagði kaupmaðurinn við sjálfan sig; »vesælings hundurinn er orðinn vitlaus. Hvað er hjer við að gjöra? jeg verð að drepa hann; annars kann hann að ráða mjer bana«. Síðan tók hann skammbyssu upp úr vasa sínum, og miðaði á hundinn. Honum tók sárt til hundsins, og sneri hann sjer undan meðan hann hleypti af byssunni. En skotið kom í hundinn, og fjell hann til jarðar, og blóðið streymdi úr honum. Kaupmaðurinn gat ekki horft á þessa sjón, heldur reið burt hið skjótasta. »þetta var leitt«, sagði hann við sjálfan sig, »jeg hefði nærri því heldur viljað missa peningana mína heldur en hundinn minn«. Í því hann sagði þetta, greip hann hendinni aptur fyrir hnakkinn, til að vita hvernig fjársjóð hans liði, og þá fyrst varð hann þess var, að peningarnir voru horfnir þaðan. »þetta hefur vesælings hundurinn verið að minna mig á«, sagði hann þá við sjálfan sig.

Hann sneri þá við, og reið þangað, sem hann hafði áð. Á leiðinni þangað kom hann að þeim stað, þarsem hann skaut hundinn; hann sá þar blóðpoll, en hundurinn var horfinn. Víðar á leiðinni sá hann blóðferil, og vissi ekki hverju það sætti. Loksins kom hann að eikinni, þar sem hann hafði farið af baki. þar lágu peningar hans, og — hjá þeim lá hundurinn. Vesælings skepnan hafði dregist þangað, allur blóðugur; þar lá hann, og

gætti fjársjóðsins, og var þó rjett í andarslitrunum. Þegar hann sá húsbónda sinn koma, gat hann rjett að eins með því að dingla rófunni látið í ljósi gleði sína. Hann reyndi að standa á fætur, en kraptar hans voru þrotnir. Kaupmaðurinn gekk að honum og klappaði honum, og var það með naumindum að hundurinn gat sleikt hönd hans; svo var af honum dregið og dó hann rjett skömmu á eptir.

## Reyndu aptur.

»Reyndu aptur«; þetta er þörf regla fyrir unga og gamla, ríka og fátæka. Þeir, sem vilja færa sjer þessa reglu í nyt, munu fá miklu áorkað.

Jeg gef ekki mikið fyrir þann dreng, sem getur setið grátandi og skælandi, þó honum hafi ekki tekizt að reikna dæmið sitt rjett í fyrsta sinni, eða þó hann í eitt skipti hafi þyngri lektsíu að læra en vanalega; hann á að »reyna aptur«, og ekki gefast upp fyr en hann er búinn að reikna dæmið rjett og læra lektsíuna reiprennandi.

Þú hefur kannske lesið um Kólúmbus, sem fann Vesturheim. Þegar hann fyrst vatt upp segl, hversu marga örðugleika hafði hann þá ekki að yfirstíga og hversu opt brugðust honum ekki vonir hans! Hvorn daginn eptir annan varð hann að reyna aptur; loks voru sjómenn hans orðnir svo þreyttir, að þeir hótuðu honum að fleygja honum fyrir borð, ef hann ekki vildi hætta við fyrirætlan sína. En hann ljet ekki hugfallast, heldur »reyndi aptur«, og það þangað til að hann hafði fram fyrirætlan sína, og uppgötvaði Vesturheim.

En einnig má misbrúka þessa reglu, eins og hvorn annan góðan hlut.

Einusinni var maður, sem ætlaði að stökkva að gamni sínu yfir stóran viðarköst, en hann gat það ekki, og meiddi sig í fætinum. »Hvaða klaufi er jeg«, mælti hann, »að geta ekki stokkið yfir svona lítinn viðarköst; jeg skal reyna aptur«. Hann gjörði aðra tilraun, en meiddi sig þá meir en í fyrra skiptið. Af þessu varð hann reiður, svo hann reyndi í þriðja skiptið, en þá meiddi hann sig svo mikið, að hann bar þess menjar til dauðadags.

Af þessu sjerðu, að maður á ekki að »reyna aptur« við neinn hlut, nema hann sje góður og nytsamur, og þess verður, að maður »reyni aptur« við hann. Sje hann það ekki, er ekki vert að gjöra við hann eina einustu tilraun.

Hvað sem þú hefur fyrir stafni, þá lát ekki hugfallast. Ef einhverr hlutur er þess verður, að þú byrjir á honum, þá er hann líka þess verður, að þú leiðir hann til lykta. Ef þú byrjar

á þeim hlut, sem þú getur ekki leitt til lykta, er það söunun fyrir því, að annað hvort hafi það verið heimska af þjer að hyrja á honum, eða fávizka að halda áfram með hann.

Hugsaðu vel um það, sem þú tekst á hendur; og þegar þú ert orðinn með sjálfum þjer sannfærður um að það sje gott og nytsamt, þá gefstu ekki upp, heldur reyndu aptur og aptur, þangað til þjer tekst það. Ef þú fylgir þessari reglu, þá máttu vera nærri því viss um góðan árangur.

## Allt verður einhverjum að góðu.

Það var eitt sinn, að faðir nokkurr sat um kvöldtíma undir fagurri eik með syni sínum ungum, og var að dást að fegurð náttúrunnar. Nálægt þeim var fjárhópur á beit. Ókunnur maður gekk þar framhjá, og hafði hund með sjer. Þegar kindurnar sáu hundinn, urðu þær hræddar, og hlupu á víð og dreif, og sumar hlupu inní þyrnirunna, sem þar var nálægt. Við það misstu þær nokkra lagða sem festust í runninum.

Þegar drengurinn sá það, sagði hann við föður sinn: »sjáðu, faðir minn, hvernig þyrnarnir rífa ullina af vesælings kindunum! Það ætti að höggva þá upp, svo að þeir gjöri ekki kindunum mein«. Faðir hans þagði um hríð, en sagði síðan: »Þú heldur þá, að það eigi að uppræta þessa þyrnirnnna«. »Já«, svaraði drengurinn, »og jeg vildi að jeg hefði öxi til þess að höggva þá upp með«. Faðir hans svaraði engu, og skömmu seinna gengu þeir heim.

Morguninn eptir gengu þeir út á sama stað, og höfðu með sjer öxi. Drengurinn var kátur mjög, og vildi að faðir sinn færi sem fyrst að höggva upp þyrnirunnana. Þeir settust aptur undir eikina, mælti þá faðirinn við son sinn: »heyrirðu ekki hve fagurt fuglarnir syngja? Eru þeir ekki fallegar skepnur«? »Já«, svaraði drengurinn, »fuglarnir eru þær fallegustu skepnur sem til eru.«

Meðan þeir töluðu þannig saman, flaug fugl niður í þyrnirunninn, tók ullarlagð þaðan, og flang með hann í nefinu uppí hátt trje. »Sjáðu nú«, sagði faðirinn, »með þessari ull býr nú fnglinn til hlýtt og mjúkt rúm handa ungum sínum. Heldurðu nú ekki að kindurnar geti misst fáeina lagða handa fuglunum? Og sýnist þjer nú rjett að höggva upp þyrnirunnana? »Nei«, sagði drengurinn, »við skulum lofa þeim að standa«. »Mundu það, sonur minn,« sagði faðirinn, »að guðs vegir eru órannsakanlegir. Þjer fannst það hart ígær, að kindurnar skyldu missa ull sína; en ídag sjerðu, að án þessarar ullar hefðu fuglarnir ekki getað húið til hlý hreiður handa ungum sínum. Margt kemur fram við oss, sem oss finnst hart, en guð lætur það allt verða oss að góðu, því hann er gæzka og kærleikur«.

## Varnargarðurinn.

Um áraskiptin 1813 og 1814 voru hryggðardagar fyrir Þjóðverjaland. Allt var í uppnámi, því Frakkar höfðu vaðið inn í landið. Saga sú, er hjer segir frá, fór fram í litlu þorpi á Þjóðverjalandi. Íbúarnir í því kviðu einkum fyrir 5. degi Janúar mánaðar, því þá var á enda stutt vopnahlje, sem samið hafði verið, og þá mátti búast við að allt yrði fullt af dátum, sem rændu og rupluðu hverju sem þeir náðu í.

Rjett fyrir utan þorp þetta, fast hjá alfaraveginum, og einmitt þar, sem búizt var við að dátarnir mundu koma, stóð einstakt hús, sem var stærra og reisulegra en kotin í kringum það. Í því lifði öldruð og ráðvönd kona, ásamt dóttur sinni, sem var ekkja, og syni hennar. Gamla konan var alltaf að biðja til guðs, og bað hún hann að reisa varnargarð kringum þau, til að varðveita þau fyrir óvinunum.

»Móðir mín«, sagði dóttir hennar, »hvað meinarðu með því að vera að biðja guð að byggja varnargarð í kringum okkur? heldurðu að hann gjöri það«?

»Dóttir góð«, sagði gamla konan, »jeg meina ekki bókstaflega það, en jeg bið guð, að hann varðveiti oss frá óvinunum á hvern þann hátt, sem honum þóknast. En þú veizt, að Drottni er ekkert ómáttugt; og ef hann vildi, gæti hann þá ekki einnig byggt varnargarð í kringum oss«?

Nóttina eptir var vopnahljeð liðið, og mátti búast við hermönnunum. Þá nótt var ofsaveður og snjókyngi mikil. Brátt heyrðu þau, sem bjuggu í sjerstaka húsinu, að óvinirnir mundu vera komnir í þorpið, það heyrðu þau á fallbyssu-skotunum, sem dundu alla nóttina. Þau vöktu alla nóttina og báðu til guðs fyrir þorpsbúunum, og á hverju augnabliki bjuggust þau við, að óvinirnir mundu koma til þeirra; en það var ekki einusinni barið að dyrum hjá þeim. En morguninn eptir, þegar birta fór, sáu þau hvernig á öllu stóð. Um nóttina hafði verið skafbylur, og hafði lagt stóra fönn á milli hússins og alfaravegsins, svo að þeir, sem veginn fóru, höfðu ekkert sjeð til hússins.

»Dóttir góð«, sagði þá gamla konan, »sjerðu nú hve auðvelt það var Drottni að byggja varnargarð í kringum oss«?

Enginn þeirra, sem átti heima í þessu húsi, gleymdi nokkurn tíma þessari nótt, og endurminningin um hana styrkti jafnan traust þeirra á guði.

## Kongsson, kongnló og fluga.

Ungur konungssonur nokkurr sagði opt, að sjer væri óskiljanlegt, í hverju skyni guð hefði skapað kongulær og flugur; hann sagðist ekki skilja í að mennirnir hefðu nein not af þeim, og ef hann gæti, sagðist hann skyldi drepa þær allar. Eitt sinn var hann í bardaga, beið ósigur, og lagði á flótta. Hann flýði inní skóg, og lagðist þar undir trje eitt og sofnaði. En þar har að dáta einn úr liði óvina hans þar sem hann lá, og var hann nærri því kominn að konungssyninum með hrugðið sverð, og ætlaði að drepa hann, en í því settist fluga á vör konungssonar, og stakk hann, svo hann vaknaði. Reis hann þá þegar á fætur, greip sverð sitt, og rak dátann á flótta.

Nóttina eptir faldi hann sig í hellisskúta nokkrum í hinum sama skógi; en um nóttina óf konguló ein vef sinn fyrir framan hellismunnann. Óvinirnir voru að leita að honum, og morguninn eptir komu þeir að helli þeim, þar sem hann var inni í. Þá sagði einn af dátunum: »hann er líklega í þessum helli; látum oss leita hjer«. »Nei«, sagði annar af dátunum, »ekki getur það verið, því ef hann hefði farið inn í þennan helli, þá hefði hann hlotið að rífa niður þennan kongulóar vef«.

Konungssonurinn heyrði hvert orð til þeirra, og þegar þeir voru farnir, fjell hann á knje, og þakkaði Drottni fyrir frelsan sína og viðurkenndi hann, að allt sem Guð hefur gjört, er vísdómsfullt og gott.

## Bænin.

Eptir fárra daga útivist fengum við mikinn storm, sem stóð í fimm daga.

Jeg ætla að segja þjer frá litlu atviki, sem bar við meðan óveðrið var sem mest. Á skipinu hjá okkur var drengur einn. Efst á mastrinu færðist reiðinn eitthvað úr lagi, og einhverr varð að fara upp til þess að laga það. Það var hið mesta hættuverk, því skipið ramhaði ógurlega í ósjónum. Jeg stóð hjá skipherranum, og heyrði hann skipa drengnum að fara upp. Drengurinn tók af sjer húfuna, horfði upp í sigluna, síðan út á ólgusjóinn, og seinast leit hann framaní skipherrann, eins og hann vildi spyrja hann, hvort honum væri alvara. En skipherrann horfði á hann aptur með alvörusvip, og sá drengurinn, að þar var ekkert gaman á ferðum. Þá hljóp drengurinn fram á skipið, var þar svo sem í tvær mínútur; og síðan gekk hann að siglunni, og fór upp. Jeg horfði á eptir honum, og sagði við skipherra: »hann kemur aldrei lifandi ofan aptur; því senduð þjer hann«?

»Jeg er liðfár á skipinu«, svaraði skipherra; »jeg vil heldur missa hann, heldur en fullorðinn mann. En hann er aðgætinn, og klifrar eins og köttur; jeg vona að hann komist niður heill á hófi«.

Jeg leit aptur upp til drengsins, og hjóst jeg við á hverju augnabliki að sjá hann detta.

Eptir hjer um bil fjórðung stundar kom hann ofan aptur, og gekk hann brosandi fram fyrir skipherrann.

Seinna um daginn talaði jeg við hann, og spurði jeg hann, hvers vegna hann hefði ekki farið upp í sigluna undir eins og honum var skipað, og hvers vegna hann hefði áður gengið fram á skipið.

»Jeg fór þangað til að biðja til guðs«, svaraði hann. »Jeg hjelt að jeg mundi ekki koma ofan lifandi, og þess vegna vildi jeg fela guði sálu mína, áður en jeg dæi«.

»Hvar hefurðu lært að biðja guð«, spurði jeg.

»Heima«, svaraði hann. »Bæði móðir mín og kennari minn hafa sagt mjer að ákalla guð, og það gjöri jeg«.

»Hvað var það, sem þú stakkst í treyjuvasann þinn, áður en þú fórst upp í sigluna«? spurði jeg.

»Það var Nýja-Testamentið mitt«, svaraði hann, sem kennari minn gaf mjer, þegar jeg kvaddi hann seinast. Jeg hugsaði mjer, að ef jeg færist, þá skyldi jeg hafa orð Drottins nálægt hjarta mínu«.

---

## Gamansögur.

Tveir kunningjar mættust á förnum vegi. »Hvers vegna liggur svona illa á þjer«? spurði annar. »Það er full ástæða til þess«, svaraði hinn, »einn af mínum beztu vinum var hengdur hjerna um daginn«. »Fyrir hvað«? spurði hinn fyrrnefndi. »Ja«, svaraði hinn, »það er nú ekki fyrir mikið. Hann gjörði ekki nema það sem bæði jeg og þú og hverr annar hefði gjört undir sömu kringumstæðum. Hann fann beizli á förnum vegi, og tók það upp«. »Hvað þá«, svaraði hinn fyrrnefndi, ekki annað? það er hart að vera hengdur fyrir það, þó maður taki upp eitt beizli«. »Ójá, meir en svo«, svaraði hinn, »en kunningi! satt að segja var hestur bundinn við annan endann á beizlinu«.

---

Vilhjálmur konungur hinn þriðji var eitt sinn á hergöngu með lið sitt, og vissi enginn hvað hann hafði í hyggju, eða hvort hann ætlaði. Einn af herforingjum hans bað hann að segja sjer

hvert hann ætlaði að halda, og hver væri fyrirætlan hans með þessari hergöngu. Í stað þess að segja honum það, spurði Vilhjálmur hann að, hvort hann gæti þagað yfir leyndarmáli. Hershöfðinginn kvaðst geta það. Þá svaraði konungur: »viltu trúa því að jeg get líka þagað yfir leyndarmáli«? Og meira fekk hershöfðinginn ekki að vita.

---

Bacon lávarður hafði látið reisa handa sjer skemmtihús eitt, spölkorn fyrir utan Lundúnaborg, og var húsið hvorki afarstórt nje skrautlegt. Elísabet drottning kom eittsinn þangað til hans, og furðaði sig yfir, hvers vegna hann hefði látið gjöra húsið svona lítið og ólitlegt. »Það er ekki jeg«, svaraði hann, »sem hef gjört húsið of lítið fyrir mig, heldur er það yðar Hátign, sem hefur gjört mig of stóran fyrir húsið«.

---

Gamall maður nokkurr mætti sonarsyni sínum, og spurði hann, hvort hann væri að fara. »Jeg er á leiðinni í skólann«, svaraði pilturinn. »Það er fallegt af þjer«, svaraði afi hans, »hjerna hefurðu átta skildinga; vertu altjend iðinn og góður drengur; þá vona jeg að jeg lifi það að heyra þig halda líkræðu yfir mjer.

---

Munkur nokkurr hjelt eittsinn ræðu, og lagði útaf hinum ýmsu tegundum af sælu. Áheyrendunum þótti ræða hans leiðinleg og urðu allir fegnir þegar hann hætti. Þegar hann kom út úr kirkjunni, sagði kona ein við hann: »þjer gleymduð einni sælunni«. »Hver var sú«, sagði munkurinn. »Sælir eru þeir, sem ekki heyrðu ræðu yðar«, svaraði konan.

---

Prestur nokkurr talaði í ræðu sinni um mátt drottins, og sagði meðal annars, að allt, sem guð skapaði væri fullkomið í sinni röð. Gárungi nokkurr, en sem var krypplingur að vexti, ætlaði að henda gaman að presti fyrir þessi orð, og er prestur gekk út úr kirkjunni, gekk krypplingurinn í veg fyrir hann og mælti: »Jeg þakka yður fyrir kenninguna, prestur minn, en haldið þjer að t. a. m. eg sje einnig fullkominn í minni röð«? »Já, fullkominn krypplingur, það er víst«, mælti prestur.

---

Maður nokkurr eineygður mætti eitt sinn snemma morguns kunningja sínum, er hafði stóran herðakistil. »Snemma ert þú kominn á kreik með kistilinn þinn á hakinu«, mælti hinn eineygði. »Já, vart mun framorðið«, svaraði hinn, því þú ert ekki húinn að ljúka upp nema öðru auganu enn«.

---

Á heimili auðugs herramanns nokkurs hafði það lengi verið þrætuefni milli vagnmannsins og eldastúlkunnar, hvort þeirra ætti að sækja rjómann á morgnana til hónda nokkurs þar í nágrenninu. Húshóndinn kallaði því einn dag bæði hjúin fyrir sig, sagði þeim að segja sjer frá málavöxtum, og kvaðst hann mundi skera úr þrætu þeirra. Eldastúlkan sagði, að vagnmaðurinn væri að slóra allan morguninn í eldhúsinu, og þó nennti hann aldrei að sækja rjómann, hversu mikið sem hann sæi að hún hefði að gjöra. — Vagnmaðurinn sagði að það væri ekki sitt verk að sækja rjóma. »Húsbóndinn mælti: »en hvað kallarðu þá þitt verk«? »Að sjá um hestana, aka vagninum og halda öllu sem þartil heyrir í reglu«, mælti vagnmaðurinn. »Rjett hefur þú að mæla«, sagði húsbóndinn, »jeg ætlast heldur ekki til að þú gjörir önnur en þín skylduverk; en nú skipa jeg þjer að hafa vagninn tilhúinn á hverjum morgni, og aka eldastúlkunni til hóndans, til að sækja rjómann. Jeg vona að þú getir ekki neitað, að það sje þitt verk«.

---

Herramaður nokkurr var á ferð, og kom í þorp eitt, þar sem hann var alveg ókunnur. Hann fór þar inn í veitingahús og keypti sjer miðdegisverð. Þegar hann var húinn að snæða og horga fyrir sig, spurði gestgjafinn hann, hvernig honum hafi geðjazt að matnum. »Jeg hef horðað svo vel, sem nokkurr getur á kosið«, mælti herramaðurinn. »Að undanteknum amtmanninum«, mælti gestgjafinn. »Amtmanninum? mælti herramaðurinn, »jeg undantek engan«. »Jú, það verðið þjer að gjöra«, sagði gestgjafi. »Nei«, sagði hinn, »það gjöri jeg ekki«; og það er ekki að fjölyrða það, þeir fóru að þræta um þetta. Gestgjafinn, sem var einn í hæjarstjórninni í þorpinn, vildi láta sýna yfirvöldnnum tilhlýðilega virðingu; hann gjörðist reiður, og stefndi gesti sínum fyrir amtmann. En hlessaður amtmaðurinn hafði aldrei fengið orð fyrir að stíga á vitið, og þegar gestgjafi var húinn að hafa upp kæru sína, tók amtmaður á sig amtmanns svip og mælti: »Herra minn, það er nú einusinni orðinn vani hjer í þessu þorpi að segja þessi orð: „„að undanteknum amtmanninum““; það eru engin útlát fyrir yður að gjöra það líka; en fyrst að þjer hafið

þverskallast, þá sekta jeg yður nú um þrjú mörk«. »Jeg verð þá að hafa það«, sagði aðkomumaður, »hjerna eru mörkin; en það þori jeg að segja, að sá, sem stefndi mjer hingað, er sá mesti kjáni sem til er undir sólunni — að undanteknum amtmanninum.«

---

Menn þóttust hafa tekið eptir, að ríkur maurapúki nokkurr bauð aldrei neinum til miðdegisverðar með sjer. Gárungi nokkurr sagði við kunningja sína, að hann skyldi veðja um, að maurapúkinn skyldi bjóða sjer til miðdegisverðar daginn eptir. Þeir veðjuðu. Næsta dag fer gárunginn heim til maurapúkans, einmitt um það leyti, er hann vissi að hann mundi sitja að miðdegisverði. Hann hittir þjón hans, og segist þurfa fljótt að tala við húsbónda hans, því hann ætli að kenna honum ráð til að græðá 1000 ríkisdali. Þjónninn fer inn, og segir húsbónda sínum frá þessu. Maurapúkinn er ekki lengi að standa upp frá borðum, kemur út og segir við gest sinn: »hvað segið þjer, herra minn, ætlið þjer að láta mig græða 1000 dali«? »Já«, segir hinn, »það ætlaði jeg, en jeg sje að það stendur á máltíð hjá yður; jeg fer þá á meðan heim til mín að borða, og svo get jeg komið aptur«. »Nei, herra minn«, segir maurapúkinn, »gjörið þjer svo vel að borða með mjer«. »Jeg gjöri yður svo mikið ónæði«, segir gárunginn. »Nei, öldungis ekki«, svarar hinn. Þeir ganga þá báðir til snæðings, og að endaðri máltíðinni segir maurapúkinn: »ætli þjer vilduð nú gjöra svo vel að segja mjer, hvernig jeg á að græða þessa 1000 dali«? »Jú«, svarar gesturinn, »eigið þjer ekki gjafvaxta dóttur«? »Jú«, segir maurapúkinn. »Það er mælt að þjer ætlið að gefa henni 10,000 dali í heimanmund; er það satt«? »Jú, satt er það«, mælti hinn. »Heyrið þjer«, segir gárunginn, »jeg skal taka hana fyrir 9000 dali«.

---

Bóndi nokkurr kom til málafærslumanns, sem bjó í grennd við hann. Bóndinn bar sig mjög hörmulega og mælti: »hjer hefur viljað til mikið slys; manneygt naut, sem jeg á, hefur stangað einn af hestum yðar til dauðs; hvernig á jeg að fara að bæta yður þennan skaða«? »Þú ert sóma-maður«, mælti málafærslumaðurinn, »jeg vona að þú látir mig fá einn af þínum hestum í staðinn.« »Það er ekki nema sanngjarnt og rjett«, svaraði bóndinn. »En, hvað sagði jeg! mjer varð mismæli, það var yðar naut, sem drap einn af mínum hestum«. »Já, ja«, segir málafærslumaður, »það gjörir nú stryk í reikninginn; jeg verð að rannsaka það betur, og ef« — »Og ef« — greip bóndinn

fram í, »jeg held að ekkert ef hefði þurft að koma hjer að, ef þjer væruð eins fús á að gjöra öðrum rjett, eins og þjer eruð fljótur til að heimta það af öðrum«.

---

Ferðamaður nokkurr kom kvöld eitt þreyttur og kaldur inn í veitingahús, og settist svo nærri ofninum, sem var brennheitur, að hann brendi stígvjelin sín, án þess að taka eptir því. Einn af þeim sem við voru staddir segir þá við hann: »varið þjer yður, herra minn, þjer brennið bráðum sporana yðar«. »Stígvjelin mín, meinið þjer víst« annsaði ferðamaðurinn. »Nei«, svaraði hinn, »þjer eruð nú búinn að brenna þau.«

---

Ungur herramaður nokkurr var nýkominn heim úr langri ferð. Hann hafði frá mörgu að segja, og ekki var trútt um, að sumt af því, sem hann sagði frá, væri nokkuð ofhermt. Einusinni var hann í samkvæmi, og var þar að segja frá þeim mörgu dýrindis gjöfum, sem furstar og konúngar hefðu gefið sjer í virðingarskyni á ferðinni. Þar á meðal var hann mjög fjölorður um beizli, sem hann sagði konungurinn á Frakklandi hefði gefið sjer. Hann sagði að það væri alsett gulli og gimsteinum, og svo fagurt, að hann sagðist ekki tíma að leggja það við hestinn sinn. »Hvað á jeg annars að gjöra við það«? sagði hann, »og sneri sjer um leið að gömlum manni, sem sat við hlið hans. »Leggið þjer það þá við yður sjálfan, herra minn«, svaraði hinn gamli maður.

---

## Sigmundur í Nesi.

Sólin var að setjast. Lengst í vestri gnæfði jökullinn við loptið, gullintypptur og himinhár. Það var eins og hann stæði einn sjer úti í reginhafi, því að fjallgarður sá, er jökullinn var yzt á, var svo lágur og langt burtu, að hann hvarf í geisladýrðinni úti við sjóndeildarhringinn, er sólin brosti í síðasta sinn. Snjórinn huldi fjöll og dali og marraði undir fæti. Það var blæja logn og frost mikið, og allt var kyrrt og þögult, eins og gröfin sjálf, þegar rökkva tók.

Þá sáust loksins lengst úti á firði svartir smádílar; það voru bátarnir, sem komu að, og það leið eigi á löngu, þangað til áraglam heyrðist í aptankyrðinni. Það fór nú að lifna á nesinu; þar stóðu margir bæir í hvirfing, en allt var svo snævi

þakið, að varla hefði mátt greina bæina frá snjósköflunum, ef ekki hefði glórað í gluggana; niður frá bæjunum lágu troðningar, og þeir sortnuðu nú af konum og börnum, er hlupu niður í fjöruna, til að færa hásetunum hressingu, er þeir komu að sjóvelktir. það tók þungt undir í mölinni, þegar bátarnir voru settir, því að aflinn var góður. Fiskunum var varpað í land, og hrúgurnar urðu stórar í samanburði við hlutatöluna. Menn voru glaðir og gamansamir, er veiðin var svo góð; fiskarnir blikuðu eins og silfur í tunglskininu, og það leit svo út, sem máfana langaði í, því að þeir flögruðu hingað og þangað hátt í lopti uppi yfir fiskahrúgunum.

En einn var það af sjómönnunum, sem engan þátt tók í gleðinni, og var hann þó formaður á bátnum, sem bezt hafði aflað. það var Sigmundur. Hann sá, að Sigríður brosti eigi til sín, heldur til Vigfúsar, sem var yngri bróðir Sigmundar, og þetta vissi hann reyndar fyrir fram. En hvað hún var fljót að hella á bollann handa Vigfúsi — eins og engum öðrum en honum væri kalt eptir sjóvolkið! Sigmundur var að skipta aflanum, og kastaði hann þá þorski svo hart niður í sandmölina, að hún þyrlaðist upp, og vantaði ekki mikið á, að hún hrykki framan í þau Vigfús og Sigríði. Ofurlítill steinmoli hrökk upp í kinnina á gamalli kerlingu, sem var að taka í nefið.

»Hvað er þetta!« sagði kerlingin, og staulaðist burt til að forða sjer háska, »ekki þarftu að láta mig gjalda þess, þóað hún Sigga vilji ekki sjá þig«.

Sigríður var »ljóshærð og litfríð og ljett undir brún«, og ekki meira, en 18 vetra. Hún var ekki eiginlega fríð, en hún var vel vaxin, eins og íslenzkar stúlkur opt eru, látbragðið blátt áfram, hispurslaust og eðlilegt. Hún var einkabarn fátækrar ekkju á nesinu; voru þeir bræður, Vigfús og Sigmundur, vanir að róa hjá henni um vertíðina. þeir voru annars bóndasynir að austan, og bjó faðir þeirra þar á eignarjörð sinni, en jörðin var erfið og þó lítil; þeim bræðrum var því nauðugur einn kostur, að herða sig við heyskapinn á sumrin og sjóróðrana á veturna. þetta var þriðja vertíðin, sem þeir höfðu róið á nesinu.

Ekki höfðu þeir bræður verið langa hríð hjá ekkjunni, áður en kvisast tók um nesið, að þeim litist vel á Sigríði, dóttur hennar; og þó höfðu þeir sjálfir, eins og eðlilegt var, fyrst tekið eptir því, og vissu, að þeim þótti báðum vænt um hana. þetta og því líkt ágreiningsefni milli bræðra er eins og ský á heiðum himni, óðar en varir er hann skollinn á með byl. Svona fór líka með þá Sigmund og Vigfús. það þurfti opt lítið út af að bera, til þess að þeir reiddust. Mest bar þó á þessu eptir það, að at-

burður sá vildi til, er nú skal greina; var það annan vetur þeirra bræðra á nesinu.

Það var eitt laugardagskvöld, sem optar, að vermenn stofnuðu til bændaglímu nálægt bátunum. Þar voru margir knáir menn; langaði þá mjög til að reyna sig og var á mönnum glímuskjálfti, enda var til nokkurs að vinna, því að margar laglegar stúlkur horfðu á; ein af þeim var Sigríður. Þeir bræðurnir, Vigfús og Sigmundur voru bændur, og tóku þeir loks saman, þegar allt liðið var fallið af hvorum tveggja. Allir voru á glóðum, hvorr hafa mundi, því að báðir voru þeir bræður ágætir glímumenn. Það var snörp glíma. Sigmundur var reyndar bæði hár og gildur, og var talinn tveggja manna maki að afli; Vigfús var aptur á móti fremur lítill vexti og grannvaxinn, en enginn þurfti að þreyta við hann það, er til lipurleiks kom eða snarræðis; hann var þannig bezti sláttumaður og kleif manna bezt í berg og hamra; en í glímu er mest komið undir liðugleik og snarræði. Það var yndi á að horfa, hvernig hann glímdi. Stundum sveif hann uppi í háa lopti eins og fuglinn fljúgandi, og þó kom hann einatt standandi niður. Gömlu karlarnir, semá horfðu, luku allir upp einum munni um fimleika hans og þá þótti heldur ekki stúlkunum ónýtt að horfa á leikinn; þetta var líka góðs viti, því — óðar en nokkurn varði — fjell Sigmundur sterki marflatur fyrir Vigfúsi.

Seinna um kvöldið sá Sigmundur, að Sigríður gaf Vigfúsi bláa ullarvetlinga, alla útsaumaða.

Síðan gat Sigmundur aldrei gleymt byltunni.

---

Það eru liðin 20 ár.

Faðir þeirra bræðra hafði dáið um vorið eptir þriðja vetur þeirra bræðra á nesinu. Vigfús fór þá að búa, því að Sigríður hafði heitið honum eiginorði; hann fjekk í sinn hlut jörð þá, er faðir hans hafði búið á, og reisti þar bú, en Sigmund leysti hann út með lausafje og koti því, er tengdamóðir hans átti á nesinu. Sigmundur kaus heldur að setjast þar að — hann hafði ávallt verið gefinn fyrir sjóinn, og svo gekk honum annað til, en það fór nú ekki hátt; og þó vissi hvert mannbarn á nesinu, að Sigmundur hafði mælt þessum orðum síðast til bróður síns: »fjörður skyldi á milli frænda og vík á milli vina.«

Svona skildi nú með þeim bræðrum, og svo var að sjá, sem þeir væru dauðir hvorr fyrir annan. Ef Sigmundur var spurður að, hvernig bróður hans liði, svaraði hann: »Spyr þú

hrafninn að því — hann veit það betur en jeg«. Menn hættu því brátt, að spyrja hann um það.

Annars var svarið ekki nema hálfsatt. Hvernig sem á því stóð, hvort sem frjettirnar bárust með vindinum eða ekki, þá er þó svo mikið víst, að Sigmundur spurði aldrei; menn vissu ekki til, að nokkurr maður segði honum af högum Vigfúsar, og þó vissi hann, að honum gekk eigi vel; jörðin Brekka, sem hann bjó á, óðal þeirra bræðra, hafði gengið mjög af sjer seinni árin, og orðið fyrir áföllum af sandfoki og eldgosi úr Heklu; Sigríður var dáin, og Vigfús orðinn hokinn og hrumur — allt þetta vissi Sigmundur, en það bar ekkert á því; það var eins og hann hefði nóg að hugsa um sjálfan sig.

Hann gjörðist smátt og smátt hinn gildasti bóndi á nesinu. Hann hafði aukið búskap sinn bæði á sjó og landi; hann keypti hverja jörðina á fætur annari og lagði þær allar undir áhýli sitt, og varð kotið ekkjunnar þannig smátt og smátt að stórri torfu; hann sljettaði land sitt, veitti vatni á það og girti um utan, og það var yndi að sjá, hvað vel spratt hjá honum. Hann reif gamla kofann og reisti í staðinu nýja húsaröð, og sneru allir gaflarnir tjargaðir fram að sjónum; gluggarnir voru hvítir til að sjá og gljáði af rúðunum. Þegar tekið hafði upp snjó á vorin, og sóleyjarnar tóku að gægjast heiðgular upp úr grænni grasabreiðunni, þá stóð Sigmundur opt úti á túni og horfði yfir hina fögru eign sína; bæri þá svo við, að bátarnir hans allir, átta talsins, liðu fram hjá honum í sólskininu úti á firðinum, þá hafði margur ástæðu til, að öfunda hann og óska sjer í hans spor. Og þó mundi varla neinn hafa viljað skipta við hann, ef hann hefði getað skyggnzt inn í hjarta hans og sjeð, hvað þar bjó.

Því að Sigmundur var ekki glaður, þó að honum virtist ganga allt að óskum. Hann hugsaði optar en einusinni með sjálfum sjer: »Handa hverjum er jeg að raka saman peningum? Handa hverjum kaupi jeg jarðir? Handa hverjum læt jeg smíða reisulegan bæ? Jeg er einn! Aleinn«! — Þá ljek þessi sami óánægju svipur um varir hans, sem fældi fólkið hans frá honum, svo að það gekk þegjandi fram hjá honum til vinnu sinnar.

En dugnaðarmaður var hann og starfsamur, hagsýnn, þar sem ráða þurfti, og snar, þar sem á þurfti að taka. Menn leituðu því ávallt til hans, þegar eitthvað lá á, en af því óx stórlæti hans, svo að hann stundum varð ráðríkur um skör fram og jafnvel harðbrjósta. Einkum kom þó þetta fram í fátækra málum, því að hann ljet til sín taka um öll sveitamálefni, eins og annað. Markaði hann þá alla af sjálfum sjer; hafði hann byrjað með litlu, en orðið stórríkur; hjelt hann því, fátæktin væri svo að

segja ávallt sjálfum manni að kenna; opt var það, að hann ljet aumingja synjandi frá sjer fara, en tók ekki eptir því, hversu opt óhapp getur viljað til jafnvel hinum mestu ráðdeildarmönnum.

---

Það var einn dag um miðsumarsleytið, að Sigmundur stóð úti fyrir smiðjudyrum. Hann heyrði þá hundgá út við túngarðinn og rjett á eptir sá hann mann koma gangandi heim tröðina. Það var ókunnugur maður og auðsjáanlega langt að kominn; broddstaf hafði hann í hendi, treyjunni hafði hann varpað á bak sjer, og þverpoka bar hann um öxl. Hann var í vaðmálsbuxum og ljósblám sokkum, með barðastóran flókahatt á höfði, allan upplitaðan af regni og sólskini.

»Sæll vertu«; sagði maðurinn.

»Guð blessi þig«, sagði Sigmundur. »Hvað heitir maðurinn og hvaðan kemur hann«.

»Ari heiti jeg og kem að austan með brjef og kveðju til þín frá Vigfúsi á Brekku«. Hann hneppti frá sjer treyjunni og tók upp úr vasa, sem var innan á henni, dökkleitan selskinnskampung og var vafið seglgarnsspotta utan um. Hann átti bágt með að leysa hnútinn, en loksins dró hann þó fram úr kampungnum gult og snögglað brjef og rjetti Sigmundi.

Sigmundur stokkroðnaði, en tók þó við brjefinu með skjálfandi hendi. »Það er heitt í dag«, sagði hann, til þess þó að segja eitthvað.

»Það má nú segja«, sagði maðurinn, »jeg hef líka fengið að kenna á því; það er löng og erfið ganga hingað suður að Nesi«.

»Gjörðu þá svo vel, að ganga í bæinn og hvíla þig; það stendur ekki lengi á því hjerna, að hita kaffið, svo skal jeg seinna tala við þig um erindið«.

Sigmundur las brjef bróður síns í einrúmi.

»Fátækt — eymd og volæði — veikindi og dauði — það er þetta gamla, sem allir ónytjungar stagast á, af því þeir nenna ekkert að gjöra. Hvað vildi hann þar? Hvað gekk honum til, að taka Sigríði frá mjer, og láta hana svo búa við sult og seyru. Hann á ekki betra skilið; það er bezt hann liggi, þar sem hann er kominn«.

Um miðsumarsleytið er nóttin á Íslandi nærri eins björt og dagurinn. Ari vildi því fyrir hvern mun komast á stað um kvöldið, til að ná í ferjuna á Ölfusá fyrir háttatíma. Þegar hann ætlaði á stað, sagði hann við Sigmund: »Þakka þjer fyrir góðgjörðirnar, en hverju á jeg að skila frá þjer«.

»Hverju lofaði Vigfús á Brekku þjer fyrir ferðina«, sagði Sigmundur.

»Tveim dölum«, sagði Ari.

Það er of lítið fyrir svo langa ferð«, sagði Sigmundur. Hann tók tvær nýslegnar spesíur upp úr buddunni sinni, rjetti þær að Ara og sagði: »það væri skömm að því, að láta þig fara svo langa leið fyrir ekki neitt. Taktu við þessu — og gangi þjer vel ferðin«.

»Þakka þjer fyrir mig«, sagði Ari, og hvarf á braut, en, um leið og hann fór, sagði hann í hálfum hljóðum, eins og hann væri að tala við sjálfan sig: »Auminginn hún Sigríður! Hún átti þó von á svo góðu af föðurbróður sínum«. Að svo mæltu hóf hann gönguna og var þegar horfinn.

Sigmundur studdi hendi sinni á vegginn, eins og hann ætlaði að hníga niður. Það var eins og ský drægi fyrir augu þrekmannsins, og hann varð að setjast, hann hafði engan frið á sjer; það var þá enn til ein Sigríður — hvernig stóð á því, að enginn hafði sagt honum neitt af henni? Um miðnætti fór hann að hátta, og enn þá hljómaði rödd Ara í eyrum hans: Auminginn hún Sigríður, hún átti þó von á svo góðu af föðurbróður sínum.

Þegar að morgni leið, sá hann — já, hann þóttist vaka, en líklega var það þó draumur. Sigríður stóð uppi yfir honum, og þótti honum hún vera á sama skeiði og þegar hann þekkti hana fyrst á nesinu og þau voru bæði í blóma aldurs síns; en hún var döpur í bragði, og undarleg angurblíða skein af augum hennar. Hann varð að líta undan, er hún horfði á hann, og það var eins og hjartað ætlaði að springa í brjóstinu á honum. »Veitst þú«, sagði hún, »hvernig á því stendur, að þú hefur orðið svo auðsæll hjer á nesinu? Það var af því, að jeg hjálpaði þjer til! Grasið spratt vel, þar sem fótur minn hafði stigið í sakleysi og gleði, og það gat eigi hjá því farið, að hið fagra blómgaðist þar, sem jeg hafði sjeð hin fyrstu blóm — það var þess vegna, að þú reistir rammbyggð hús og ljetst smíða örskreið skip. Jeg hefi verið með þjer. Þú hefur verið duglegur og framtakssamur, en það gekk þjer til, að þú vildir gleðja mig, hina einu, sem þú hefur unnað. Þú vissir að eins ekki sjálfur af því, og því hafðir þú eigi fulla ánægju af vinnu þinni — en nú mun allt lagast — sjá, nú kemur sólin upp! Komdu, jeg ætla að sýna þjer öll blómin mín fögru!«

Sigmundur opnaði augun. Það var heiðríkt og bjart veður og gullin ský í austri — voru það blómin fögru, sem Sigríður hafði lofað honum? Draumurinn hafði fengið svo á hann og honum var svo heitt um hjartaræturnar, að hann grjet, en það hafði hann ekki gjört síðan hann var barn.

Var það hann Sigmundur sjálfur, eða var það einhverr annar? Víst var það hann, og þó átti vinnufólkið bágt með, að þekkja hann. Hvað gengur á? Gamli Grani, reiðhesturinn húsbóndans, stendur með reiðtýgjunum úti á hlaði, það er búið að láta kornbagga upp á hann Rauð, og skreiðabagga á Blesa, eins og þeir geta borið.

»Hvert ætlar þú að fara, húsbóndi góður«, sagði Ólafur vinnumaður, sem átti að fara með áburðarhestana.

»Austur að Brekku, Ólafur minn«, jeg ætla að ríða á undan, kom þú á eptir eins fljótt og þú getur«, sagði Sigmundur, og reið í loptinn niður túnið, og ljet Grana taka á því, sem hann hafði til. Það var yfir fjallveg að fara fyrir Sigmund, og það var liðið af nóni, þegar hann var kominn svo langt, að halla tók undan fæti. Vegurinn var grýttur og erfiður fyrir hestinn, og það gekk seint ofan hlíðarnar. Þegar hann var kominn ofan á jafnsljettu, sá hann að börn lágu þar í lynginu. Þau voru á berjamó; þau störðu hissa á hinn ókunna svipþunga mann á ljósa hestinum. Hann reið fyrir ofan garð og neðan á mörgum fögrum bæjum, þar sem áin sást renna í bugðum eptir eyrunum og hverfur í fjarska. Hann reið heim á einn bæinn; þar bjó gamall kunningi hans. En það var ekki að nefna, að hann fengi að fara á stað svo fljótt aptur; hann varð að bíða eptir kaffi og fá sjer í staupinu — það voru svo mörg ár síðan þeir höfðu sjest, vinirnir — Grana var sleppt í túnvarpann — það var nógu snemmt fyrir hann, að ná í ferjuna; öllum brögðum beitti bóndinn til að halda svo sjaldsjeðum gesti. Það bar líka eitthvað nýrra við, þegar hann kom.

Aflíðandi miðaptani komst Sigmundur þó loksins á stað, og náði fyrir háttatíma á ferjustaðinn, það var ferjað af sandeyri einni, sem skarst fram í ána. Þar lá maður á eyrinni í sandinum og var hann líka að bíða eptir ferjunni — það var Ari, og var hann rjett nýkominn þangað. Hann heilsaði Sigmundi, en auðsjeð var, að hann var hissa á, að sjá hann.

»Það gengur víst eitthvað að honum Jóni ferjumanni«, sagði hann; »honum þykir víst betra, að flatmaga í rúminu, en að ferja. Það verður annars ekki neitt gaman, að hýma hjerna á tanganum í kuldanum í nótt eptir sólarlag.

»Það er þó gott,« sagði Sigmundur, »að það er ekki langt frá sólsetri til sólaruppkomu núna um hásumarið«.

Ekki töluðu þeir meira, enda steinsofnaði Ari að vörmu spori, þar sem hann lá endilangur í sandinum með treyjuna ofan á sjer og þverpokann undir höfðinu.

Ekki kom ferjan. Sigmundur gat ekki sofið, og nóttin leið seint. Lengst af var albjart; fuglarnir flugu eins ljett og kvik-

lega og á daginn yfir höfði Sigmundar, þangað til hann allt í einu sá þá setjast á víð og dreif um eyrina niður í sandinu. Það var rjett í því bili, er sólin settist. Himininn gránaði og köld hafræna ljek um Sigmund; Grani skalf af kulda og Sigmundur hefði víst líka skolfið, ef hann hefði ekki tekið það ráð, að herja sjer til hita. Hann heyrði þá undarleg vein, eins og börn væru að gráta — og ósjálfrátt fór hann að hugsa um Sigríði á Brekku, og þó þekkti hann hljóðið svo vel frá yngri árum sínum; það voru kópar, er voru að góla, að gömlum vanda, og skaut hjer og hvar upp gráum kollunum í kring um Sigmund úti á ánni. — Allt í einu fór að birta; fuglarnir flugu upp, Grani reisti makkann, fjallstindarnir roðnuðu, og straumgárarnir á ánni blikuðu í morgunljómanum. Skömmu síðar sást bátur leggja frá landi hinumegin árinnar.

Að hálfri stundu liðinni sátu þeir Sigmundur og Ari í bátnum, enda gat hann ekki tekið meira en þrjá og svo reiðtýgi Sigmundar. Grani var hafður í eptirdragi og bljes mjög; stundum synti hann fljótar, en ferjumaður reri; hoppaði þá báturinn á öldunum, og lá við hvolfi. Allt gekk þó vel yfir um; fór Sigmundur síðan leiðar sinnar.

Þegar af leið dagmálum, sá hann heim að Brekku, óðali feðra sinna; en hann þekkti varla bæinn, svo var allt orðið breytt. Meira en helmingurinn af högum og engjum lá undir sandi og hrauni, og hitt var í órækt og svo hrjóstrugt, að það hefði varla getað borið 2 kýr og 20 kindur. En þá bærinn! hvað hann var orðinn snaraður og hrörlegur! Dyrnar skekktar og gluggarnir! Það var eins og einhver sorgleg heljarþögn eða nákyrð hvíldi yfir öllu saman. Sigmundi vöknaði um augu, er hann hugsaði um, hvað allt var nú dautt og dapurt á Brekku, þar sem hann þó hafði lifað hinar sælustu lífsstundir sínar. Hann reið bægt heim tröðina — ekki kom neinn hundurinn út til að gelta að honum — hvað var nú orðið af Mókoll gamla? Hví kom hann ekki út til að taka á móti honum, flaðra upp um hann og hrifsa í treyjulafið hans? Hann var dauður fyrir langa löngu. Sigmundi fannst, eins og hann væri orðinn tuttugu árum eldri, þegar hann sá alla þessa eymd og volæði.

Sigmundur stillti hestinn heima á hlaðinu og fór af baki; en rjett í sömu svipan kom ung stúlka út í dyrnar. »Ert það ekki þú, Sigríður«, sagði hann, og breiddi út faðminn á móti henni. Hún var lifandi eptirmynd móður sinnar, og Sigmundur hafði þegar þekkt hana á því.

»Jeg vissi, að þú mundir koma, bróðir minn«, sagði Sigríður, »nú á jeg engan að framar, nema þig«. Hún hallaði sjer upp að brjósti hans, lagði höfuðið á öxlina á honum

og þau grjetu bæði; það voru þung tár, er þau sáust í fyrsta sinn.

Skömmu síðar sat Sigmundur yfir líki bróður síns og virti fyrir sjer hinn látna æsknvin sinn, sem hann hafði þó unnað hugástnm.

»Hvernig skildi hann við«, sagði Sigmundur.

»Hann vaknaði fyrst af værum blundi«, sagði Sigríðnr. »Síðan mælti hann: „„Mig dreymdi hana móður þína rjett áðan. Það verður nú gott úr öllu saman. Hún hefur lofað mjer því og hún var aldrei heitrofi. Jeg bið kærlega að heilsa Sigmundi og kysstu hann frá mjer““. Síðan ljet hann aptur augun og brosti eins blítt og hann brosir enn þá; hann hefur barizt þnngri baráttu, auminginn hann faðir minn«.

»Hvenær var það, barnið mitt«, sagði Sigmundur, frá sjer numinn af geðshræringu.

»Það var í gær morgun um sólaruppkomu«, svaraði hún.

»Já, þá kom sólin upp«, sagði Sigmundur, hann hneigði höfuðið, stóð stundarkorn þegjandi og bað til guðs í hljóði; litlu síðar leit hann upp, og var þá sorgarsvipurinn horfinn af enni hans.

---

Enginn getur gjört sjer neina hugmynd um, hvað fagurt getur verið á Íslandi, þegar kvöld er á sumrin, nema hann hafi sjálfur komið þangað.

„Himininn heiður og blár, hafið var skínandi bjart“,

segir skáldið, og það er satt, allt er skínandi bjart; fjöllin gnæfa við hið djúpa himinhvolf og sjórinn er svo kyrr og ládeyðan svo tignarleg, að vel má ímynda sjer, að maður sje kominn suður í lönd, til Ítalíu, þar sem fegurðin sjálf á heima.

Svona var kvöldið, þegar Sigmundur reið heim að Nesi með Sigríði bróðurdóttur sína, því þar átti hún nú að eiga heima. Enginn gat verið glaðari, en Sigmundur, þegar hann sá Sigríði brosa, eða tók eptir, að henni þótti gaman að sjá, hvað nóg var til af öllu hjá Sigmundi; en því hafði hún eigi vanizt að heiman. Nú vissi hann fyrst, handa hverjum hann hafði unnið og þreytzt. Þegar hún var búin að skoða allt innan stokks, fór hann með hana út á hlað til að sýna henni hjeraðið. Fyrir framan þau lá fjörðurinn spegilsljettur; utar á firðinum sást danskt kaupskip, sem ætlaði inn á næstu höfn en ekki komst neitt fyrir logni. Seglin hjengu niður af ránum og roðnuðu í sólsetursgeislunum. Fuglinn litli söng svo dillandi og sætt — hún leit í þá áttina, og — jökullinn glóði eins og purpurahvelfing lengst vestnr á hinum ómælilega eggsljetta sæ; þá sagði Sigríðnr: »Já, hjer á jeg

heima; jeg þekki mig hjer aptur; hún móðir mín heitin sagði mjer opt frá þessu«.

En Sigmundi var, sem hann heyrði hvíslað ofurhægt í hálfum hljóðum:

»Komdu, jeg ætla að sýna þjer öll blómin mín fögru«.

---

Svo að þú vitir, hvernig fór fyrir Sigmundi, þá ætla jeg enn að segja þjer frá, að hann varð maður gamall og hvítur fyrir hærum. Meðan hann lifði, var hann talinn gildastur bóndi á nesinu, og hafði líka alls staðar hönd í bagga með, sem menn segja. Ef satt skal segja, þá var það víst, að hann fann talsvert til sín, en hann dæmdi ekki framar eins hart um aðra, og hann hafði gjört, meðan hann var á bezta skeiði. Hann ljet heldur ekki framar neinn sannan þurfamann synjandi frá sjer fara. Sigríður giptist ári síðar góðum manni og greindum; skyldi hún taka allan arf eptir karlinn, eða hún fjekk, rjettara sagt, allar eigur hans í heimanmund, þegar hún giptist. Ekki segir frá, hvað maður hennar hjet, en svo mikið er víst, að einn góðan veðurdag, nokkrum árum eptir brúðkaup þeirra hjóna, gekk maður heim túnið í Nesi. Hann sá þá hvar drengur, með ljóst hár og blá augu, var að leika sjer á túninu.

»Hvað heitir þú, og hvaðan ertu«, sagði maðurinn.

»Þú ert víst langt að kominn«, sagði drengurinn, og bar sig svo borginmanulega, að ókunnugi maðurinn fljótt gekk úr skugga um, hvar hann átti heima. »Eða veitst þú ekki, að jeg heiti Sigmundur og er dóttursonur hans Sigmundar í Nesi«.

(Úr „Genrebilleder“ eptir Carl Andersen.)

---

## VIII. Kvæði.

### Grátitlingurinn.

Ungur var eg og ungir
Austan um land á hausti
Laufvindar bljesu ljúfir,
Ljek eg mjer þá að stráum.

En hretið kom að hvetja
Harða menn í bylsennu,
Þá sat eg ennþá inni
Alldapur á kvennpalli.

Nú var trippið hún Toppa,
Tetur á annan vetur,
Fegursta bross í baga
Og hrúturinn minn úti.

þetta var allt, sem átti
Ungur drengur og lengi
Kvöldið þetta hið kalda
Kveið eg þau bæði deyði.

Daginn eptir var aptur
Upp stytt svo að menn hittu
Leið um snjófgar slóðir
Storðar og frost var orðið.

En það, sem mest eg unni
Úti — Toppa og hrútur —
Óvitringarnir ungu
Einmana kuldann reyna.

Sekur var eg og sækja
Sjálfsagt hlaut eg með þrautum
Aleigu mína og ala
Ötull bæði við jötu.

Hvernig fór? hjer eg gjarna
Hjarta mannlegt um sanna,
Að hvað sem hinu líður
Hjartað gott skóp oss drottinn.

Jeg fann á millum fanna
Í felling á blásvelli
Lófalága við þúfu
Lítinn grátitling sýta.

Flogið gat ekki hinn fleyg
Frosinn niður við mosa, i
Augunum óttabljúgum
Á mig skaut dýrið gráa.

Hefði eg þá sjeð mjer hefði
Hundrað Toppum og undrum
Ótal hornóttra hrúta
Heitið drottinn, eg votta:

Abrahams dýrðardæmi
Drengur í litlu gengi
Aldrei á Ísafoldu
Eptir breytir, en neitar.

Kalinn drengur í kælu
Á kalt svell (og ljúft fellur)
Lagðist niður og lagði
Lítinn munn á væng þunnan.

Þýddi allvel og eyddi
Illum dróma með stilli,
Sem að frostnóttin fyrsta
Festi með væng á gesti.

Gesti yðar, því ástar
Óhvikul trygð til bygða
Vorra leiðir á vorum
Vegarslinga titlinga.

Lítill fugl skauzt úr lautu
Lofaði guð mjer ofar,
Sjálfur sat eg í lautu
Sárglaður og með tárum.

— —

Felldur em eg við foldu
Frosinn og má ei losast;
Andi guðs á mig andi,
Ugglaust mun eg þá huggast.

(Jónas Hallgrímsson.)

## Saklaus og slægur.

Söngfugl á greinunum glaður
Gelur af elskunnar nægð,
Und björkinni byltir sjer naður
Bólginn af vonzku og slægð.

Af illsku hann eitrinn hvæsir
Yptir sjer jörðunni frá,
Bugðum um limar hann læsir
Litlum vill óvitring ná.

Syngjandi fuglinn burt flýgur
Flugglaður himninum mót,
Illviljuð eiturkind hnígur
Aflvana meiðar að rót.

(Steingrímur Thorsteinson.)

## Titlings kvæði.

Viðkvæði.

Titlíngur í mýri,
Tínir hann sjer ber,
Kveði nú enginn kvæðið mitt
því það líkar mjer ver;
Titlingur í mýri, titlingur í mýri.

Skrautlega ber hann skikkju eina,
Eg skal svo frá hans klæðnað greina,
Furðugrár með fiðrið hreina,
þó fljóðunum þyki það illa litt,
Kveði nú enginn kvæðið mitt,
Mætur geymir mjórra beina,
Mildur herrann hýri,
Titlingur í mýri, titlingur í mýri.

Á vorin situr hann efst á eikum
Og ýtir saman kvistum bleikum
Með fögrum söng og lista leikum,
Leggst hann þá í hreiðrið sitt,
Kveði nú enginn kvæðið mitt,
Fjarri er hann foldum bleikum
Og forðar sjer við dýri,
Titlingur í mýri, titlingur í mýri.

Finnur hann ber við fugla alla,
Furðu hraustan má hann kalla,
Með fljóðunum gerir hann fylla dalla,
Fimur er hann með nefið sitt,
Kveði nú enginn kvæðið mitt,
En á haustin flýgur til fjalla,
Fullvel trúi eg hann stýri,
Titlingur í mýri, titlingur í mýri.

Úti er hann í frosti og fjúki,
Flýgur hann hátt þó mjöllin rjúki,
Leikur vindur á litlum búki,
Leggst hann þá í skjólið sitt,
Kveði nú enginn kvæðið mitt,
Framan í björgum hygg eg hann húki,
Hátt þó yfir hann drífi,
Titlingur í mýri, titlingur í mýri.

Fagurt syngur fuglinn frómi,
Fegursta lof með sínum rómi,
Það trúi eg hvers manns hjörtun hljómi,
Að heiðra guð fyrir nafnið sitt,
Kveði nú allir kvæðið mitt,
Aptur kemur á efsta dómi
Æðstur herrann hýri,
Titlingur í mýri, titlingur í mýri.

Hjer skal óður um fuglinn falla,
Frelsarinn Jesús geymi oss alla,
Hefji hann oss á himna palla
Upp í himnaríkið sitt
Kveði nú allir kvæðið mitt,
Sína gjörir sauði kalla
Sjálfur herrann hýri,
Titlingur í mýri, titlingur í mýri.

(Gamalt alþýðukvæði.)

## Þorraþræll.

Nú er frost á fróni,
Frýs í æðum blóð;
Kveður kuldaljóð
Kári í jötunmóð;

Yfir laxalóni
Liggur klakaþil;
Hlær við hríðarbyl
Hamragil.
Mararbára blá
Brotnar þung og há
Unnar steinum á
Ygld og grett á brá;
Yfir aflatjóni
Æðrast skipstjórinn,
Harmar hlutinu sinn
Hásetinn.

Horfir á heyjaforðann
Hryggur búandinn:
»Minnkar stabbinn minn,
Magnast harðindin.
Nú er hann enn á norðan
Næðir kuldajel
Yfir móa og mel
Myrkt sem hel«.
Bóndans býli á
Björtum þeytir snjá;
Hjúin döpur hjá
Honum sitja þá,
Hvítleit hringaskorðan
Huggar manninn trautt;
Brátt er búrið autt
Búið snautt.

Þögull Þorri heyrir
Þetta harmakvein,
En gefur grið ei nein,
Glíkur hörðum stein,
Engri skepnu eirir,
Alla fjær og nær
Kuldaklónum slær
Og kalt við hlær.
»Bóndi minn! þitt bú
Betur stunda þú;
Hugarhrelling sú,
Er hart þjer þjakar nú,

þá mun hverfa, en fleiri
Höpp þjer falla í skaut;
Senn er sigruð þraut,
Jeg svíf á braut«.

(Kristján Jónsson.)

### Vetur og vor.

Á fjallatindum fríðum
Fönnin hvíta skín,
Gróður í grænum hlíðum,
Glitrar snjór þar dvín,
þar hjá lindum lifna blóm
Og í runnum fuglafjöld
Fögrum kveður hljóm.

Vetur efra eg eygi
En hið neðra eg sje,
Mey sem höfuð hneigi
Hýr í föður knje,
Hallast vorið vetri nær
Karls við freðið klakaskegg
Kærust dóttir hlær.

(Steingrímur Thorsteinson.)

### Vorvísa.

Inndælt er nú komið vor
Af því heylóan dýrð guði fagurt nú syngur,
Engill fjaðra fylgir hvor,
Fyllir kór sem er veðranna hringur;
Lifnar lambagrasið ungt,
Ljósblátt skín eins og stjörnur á dökkleitum holtum,
Dyngjur detta skafla þungt
Drjúgum þýddar í hlíðunum stoltum;
Brekkan þar af gjörist græn,
Gimbrin litla fagnar væn,
Dansar, sýpur millum mjöð
Móðir hennar sem frambýður glöð.

Hægt! hægt! Kuldi kampfreðinn
Kemur, vel drjúga hnykla í brýrnar þá setur,
Hætt þú! se'ir hann Hiti um sinn,
Hvaða rjett tímans áttu mjer betur?

Einvíg rís svo út af því,
Ýmist frýs eða þiðnar þá hvorr annan sækir,
Hiti spyrnir ótæpt í,
Af því velta fram mórauðir lækir;
þeirra boða þrumuhljóð
þá tíðindin sigurs góð,
Eja! grætur gleðitár
Gjörvallt það sem fraus nú í ár.

Dögg upp dregur gróðrar í
Dölum langt burtu, heiðarnar bláleitu flagga,
Andköst sunnan sæt og hlý
Svala dýrum, en ungjurtum vagga;
Rignir, reisa plöntur sig
Rembilátar á mold dökkri garðanna bjartar;
Grænu fötin fagurlig,
Fá þá tún, er með sóleyum skarta.
Skrúðklædd jörð sig skoðar þá
Í skyggndum speglum vatna blá,
Inndælt! en sú mikla dýrð
Aldrei verður með tungunni skýrð.

Sólin fram þá brunar blíð,
Býðst oss víðsýni margbreytt á fjöllunum háu,
Velli, dali, vötn um fríð
Víða sjónarbaugs hyllingar bláu;
Blíðar þorna brekkur lands,
Bjóðast ilmandi grænklæddar undir oss sitja,
Laxar, selir, fuglafans
Fara að giptast og bú saman flytja;
Syngja vötnum svanir á,
Sólin leikur glöð þeim hjá,
Eyjar bjóða æðum heim,
Er þá glaðværð um lopt, fold og geim.

(Björn Gunnlaugsson.)

## Dalvísur.

Fífilbrekka, gróin grund,
Grösug hlíð með berjalautum,
Flóatetur, fífusund,
Fífilbrekka, smáragrund,

Yður hjá eg alla stund
Uni bezt í sæld og þrautum,
Fífilbrekka, gróin grund,
Grösug hlíð með berjalautum.

Gljúfrabúi, gamli foss,
Gilið mitt í klettaþröngum,
Góða skarð með grasahnoss
Gljúfrabúi, hvítur foss,
Verið hefir vel með oss
Verða mun það enn þá löngum,
Gljúfrabúi, gamli foss,
Gilið mitt í klettaþröngum.

Bunulækur blár og tær,
Bakkafögur á í hvammi,
Sólarylur, blíður blær,
Bunulækur fagurtær,
Yndið vekja ykkur nær
Allra bezt í dalnum frammi,
Bunulækur blár og tær,
Bakkafögur á í hvammi.

Hnjúkafjöllin himinblá,
Hamragarðar, hvítir tindar,
Heyjavöllinn horfið á
Hnjúkafjöllin hvít og blá,
Skýlið öllu helg og há,
Hlífið dal er geisa vindar,
Hnjúkafjöllin himinblá,
Hamragarðar, hvítir tindar.

Sæludalur, sveitin bezt,
Sólin á þig geislum helli,
Snemma risin seint er sezt,
Sæludalur, prýðin bezt,
Þín er grundin gæðaflest,
Gleðin æsku, hvíldin elli,
Sæludalur, sveitin bezt,
Sólin á þig geislum helli.

(Jónas Hallgrímsson.)

## Haustkvöld.

Vor er inndælt, eg það veit,
Þá ástar kveður raustin,
En ekkert fegra á fold eg leit
En fagurt kvöld á haustin.

Aptansunna þegar þýð
Um þúsundlitan skóginn
Geislum slær og blikar blíð
Bæði um land og sjóinn.

Svo í kvöld við sævar brún
Sólu lít eg renna,
Vestan geislum varpar hún,
Sem verma en eigi brenna.

Setjumst undir vænan við
Von skal hugann gleðja,
Heyrum sætan svanaklið,
Sumarið er að kveðja.

Tölum við um trygð og ást,
Tíma löngu farna,
Unun sanna, er aldrei brást,
Eilífa von guðs barna.

Endasleppt er ekkert hjer,
Alvalds rekjum sporið,
Morgun ei af aptni ber,
Og ei af hausti vorið.

Oflof valið æsku þrátt
Elli sæmd ei skerði,
Andinn getur hafizt hátt
Þó höfuð lotið verði.

Æska! eg hef ást á þjer
Fyr elli knje skal beygja,
Fegurð lífs þó miklist mjer,
Meira er samt að deyja.

Elli, þú ert ekki þung
Anda guði kærum;
Fögur sál er ávallt ung
Undir silfurhærum.

Spegilfagurt hneigð við haf,
Haustkvölds sólin rauða
Bólstri Ránar bláum af
Brosir nú við dauða.

Svo hefir mína sálu kætt
Sumarröðull engi,
Er sem heyri eg óma sætt
Engilhörpu strengi.

Fagra haust! þá fold eg kveð,
Faðmi vef mig þínum,
Bleikra laufa láttu beð
Að legstað verða mínum.

(Steingrímur Thorsteinson.)

## IX. Æfintýri og eptirlíkingar.

### Engillinn.

(Eptir H. C. Andersen.)

»Í hvert skipti, sem gott barn deyr, kemur engill frá guði niður á jörðina, tekur hið dauða barn sjer í faðm, breiðir út hina stóru hvítu vængi sína, og flýgur á alla þá staði, sem barninu þótti vænt um í lifanda lífi; hann tínir nokkur blóm og ber þau, ásamt barninu, upp til guðs, til þess að þau blómgist enn þá fegur en hjer á jörðunni. Guð hinn algóði þrýstir öllum blómunum upp að hjarta sínu, en það blómið, sem honum þykir vænst um, kyssir hann, og þá fær það rödd, og sýngur með í hinni miklu sælu.«

Allt þetta var einn af englum guðs að segja dauðu barni, sem hann var að fljúga með upp til himins, og barnið hlustaði á eins og í draumi. Hann flaug með það yfir þá staði á heimili barnsins, þar sem það hafði leikið sjer, og hann flaug með það ígegnum yndislega blómvaxna aldingarða.

»Hvaða blóm eigum við nú að taka með okkur til að gróðursetja á himnum?« spurði engillinn.

Og þar stóð hátt og fagurt rósatrje, en einhver vond hönd hafði brotið stofn þess, svo að allar greinarnar, sem voru fullar af hálfútsprottnum knöppum, hjengu niður visnar og dauðar.

»Vesælings trje«! sagði barnið, »taktu það, svo að það geti blómgast í himninum hjá guði«.

Engillinn tók rósatrjeð, og kyssti barnið, en það opnaði augun ofurlítið við kossinn. Engillinn og barnið tóku nú nokkur af hinum litprúðustu skrautblómum, en líka sum af þeim sem eru óásjáleg fyrir manna augum og að engu metin.

»Nú höfum við þá fengið okkur blóm«, sagði barnið, og engillinn brosti við, en samt fór hann ekki enn þá með barnið upp til guðs. Þetta var um nótt, og var kyrrð yfir öllu; engillinn flaug með barnið inní þrönga götu í stórri borg; þar voru hrúgur af hálmi, ösku og allskonar rusli, sem ekki var mót von, því þetta var eptir sjálfan búferladaginn, og því lágu víðsvegar brotnir diskar, kalkmolar, fataræflar og gamlir hattkúfar; þar var samansafn af allskonar hlutum, sem ekki var sjónin að sjá.

Og engillinn benti barninu á brotinn jurtapott og moldarkökk, sem hafðið dottið út úr jurtapottinum. Í moldarkekkinum voru ræturnar af stóru visnuðu skógarblómi, og þær hjeldu honum saman. Blóminu hafði verið fleygt, því það var ónýtt.

»Þetta blóm skulum við taka með okkur,« sagði engillinn; jeg skal segja þjer nokkuð um það á leiðinni«.

Síðan flugu þeir, og engillinn sagði:

»Þarna, niðri í þröngu götunni, í lágum kjallara, átti heima veikur og fátækur drengur. Frá því að hann var kornungur hafði hann þvínær ávallt legið rúmfastur; þegar hann var sem hressastur, gat hann staulast á hækjum til og frá um gólfið í hinni litlu stofu í kjallaranum, þar sem hann átti heima. Fáeina daga um hásumarið náði sólin að skína svo sem hálfa stund niður í kjallarann, og þegar þá vesælings drengurinn sat í kjallaradyrunum, til þess að njóta sólskinsins, þá var sagt: »í dag hefur hann fengið að koma út«. Um skóginn og fegurð náttúrunnar hafði hann enga hugmynd aðra en þá, sem hann gjörði sjer af því, að drengur nokkurr, sem stundum heimsótti hann, gaf honum beykiviðarhríslu; henni hjelt hann yfir höfði sjer, og ímyndaði sjer svo, að hann sæti í sólskininu undir beykitrjánum, og að hann heyrði unaðslegan fuglasöng. Þessi drengur, sem var kunningi hans, kom einn dag með skógarblóm handa honum, og þar á meðal var eitt með rótum. Það var því tekið og gróðursett í jurtapotti, sem var settur í gluggann, rjett hjá rúmi hans. Og blómið óx og dafnaði vel, og blómgaðist á hverju ári. Hinn

sjúki drengur hafði það fyrir aldingarðinn sinn, og ekkert á jörðunni var honum eins kært og blómið; hann vökvaði það og ól önn fyrir því, og hvern sólargeisla, sem náði að skína niður í gegnum kjallaragluggann, ljet hann skína á blómið; blómið dafnaði saman við drauma hans, því það blómgaðist að eins fyrir hann; fyrir hann ilmaði það, og aðeins hans augum skemmti það; á dauðastund sinni hafði hann augun á blóminu. Nú er hann búinn að vera eitt ár hjá guði, og í eitt ár er blómið búið að standa hirðingarlaust í glugganum; þessvegna er það dautt, og þessvegna hefur því verið fleygt í sorpið. Og einmitt það er nú blómið, þetta auðvirðilega og visna blóm, sem jeg hef tekið með mjer, því þetta blóm hefur glatt meir en hið skrautlegasta blóm í aldingarði nokkurrar drottningar«.

»En hvernig veiztu þetta alltsaman«? spurði barnið, sem engillinn var að fljúga með upp til himins.

»Jeg veit það«, sagði engillinn. »Jeg var sjálfur hinn sjúki drengur, sem gekk við hækjur. Blómið mitt þekki jeg aptur«.

Og barnið opnaði alveg augu sín og leit brosandi framaní engilinn, og í því voru þeir komnir inn í himin guðs, og þar var ekkert að sjá annað en gleði og sælu. Og guð þrýsti hinu dauða barni upp að hjarta sínu, og þá fekk það vængi eins og engillinn, sem hafði flogið með það til himins, þeir tóku höndum saman og flugu saman; guð þrýsti öllum blómunum að hjarta sínu, en skógarblómið kyssti hann, svo að það fekk rödd, og söng með öllum englunum, sem sveimuðu í kringum guð, sumir nálægt honum, en sumir lengra burtu, en allir voru þeir jafn sælir. Og allir sungu þeir, smáir og stórir, barnið og hið auðvirðilega skógarblóm, sem hafði legið visið og dautt innanum sorpið í hinni þröngu og dimmu götu.

## Litla stúlkan með eldspítnrnar.

(Eptir H. C. Andersen.)

Það var nístings kuldi með fjúki og fannburði, og það var orðið dimmt um kvöldið, það var líka síðasta kvöldið á árinu; það var gamlaárskvöld. Í þessum kulda og í þessu myrkri gekk á götunni lítil stúlka, bláfátæk, berhöfðuð og berfætt; að sönnu hafði hún gengið á trjeskóm, þegar hún fór að heiman; en hvað hjálpaði það? það voru stórir trjeskór af móður hennar; en af því að aumingja litla stúlkan mætti tveimur vögnum, sem óku svo ákaflega hart, varð hún að hlaupa úr vegi fyrir þeim, til þess að verða ekki undir þeim; hún týndi báðum trjeskónum, því þeir voru svo stórir að þeir toldu ekki á fótunum á henni;

annar trjeskórinn fannst aldrei aptur; en drengnr, sem gekk frambjá, fann hinn; hann hljóp burtu með hann, og sagðist ætla að hafa hann fyrir vöggu, þegar hann sjálfur eignaðist börn.

Þannig gekk nú aumingja stúlkan á berum fótunum; þeir voru rauðir og bláir af kulda; hún hafði gamla og rifna svuntu, og í henni bar hún mörg eldspítnabrjef, og á einn þeirra hjelt hún í hendinni; enginn hafði þann dag keypt neitt af henni; enginn hafði gefið henni einn einasta skilding; þarna gekk hún sársvöng og nötrandi, og var svo niðurdregin, vesælings barnið! fjúkið dreif þjett niður á hárið hennar síða og glóbjarta, sem liðaðist svo fallega niður á hálsinn, en hún var lítið að hugsa nm prýði eða fegurð. Út úr hverjum glugga skein ljósbirtan, og öll gatan ilmaði af steikarlykt; það var líka gamlaárskvöld, og það var hún að hugsa um.

Hún settist niður og hnipraði sig saman í skoti milli tveggja húsa; annað þeirra stóð framar í götunni en hitt; hún kreppti að sjer fæturna, en henni varð æ kaldara og kaldara, og heim til sín þorði hún ekki að fara; hún hafði ekkert selt af eldspítunnm, og engan skilding fengið; hún vissi, að faðir sinn mundi þá berja sig; þar var líka litlu heitara, því ekki höfðu þau nema blá-þakið yfir höfðinu, og vindurinn bljes þar í gegn eins og það væri hjallur, þó troðið væri hálmi og tuskum í stærstu rifurnar. Hendurnar hennar litlu voru krókloppnar af kulda. Æ! gott væri að kveikja á einni eldspítu. Hún óskaði að hún mætti taka eina út úr brjefinu, og kveikja á henni til að verma á sjer fingurna. Hún tók þá eina eldspítu og kveikti á henni — riss! riss! sagði spítan; en hvað hún logaði fallega! hversu var loginn heitur og skær! alveg eins og dálítið ljós, þegar hún hjelt á eldspítunni í lófa sínum; það var undarlegt ljós! Henni virtist sem hún sæti fyrir framan heitan ofn, skínandi fagran og fágaðan; það logaði svo vel í honum, og hann hitaði svo vel! nei, hvað var það! — Vesælings stúlkan rjetti fram fæturna og ætlaði að fara að hita sjer við ofninn — þá dó á eldspítunni. Ofninn hvarf; — hún sat með útbrennda eldspítu í hendinni.

Hún kveikti á annari; hún logaði og lýsti, og þar sem birtan fjell á múrinn, varð hann gagnsær einsog blæja; hún sá beint inn í stofuna; þar stóð borð inni, og var breiddur á það snjóhvítur dúkur með hinnm fegursta borðbúnaði, og á því miðju var steikt gæs á fati, fyllt með sveskjum og eplum; og — það sem var enn betra — gæsin bylti sjer niður af fatinu, og vagaði eptir gólfinu með kníf og gaffal í bakinu; hún kom til fátæku stúlkunnar — en í sama bili slokknaði á eldspítunni, og var þá ekkert annað að sjá en myrkan og kaldan múrvegginn.

Hún kveikti á hinni þriðju; þá sat hún undir prýðis fallegu

jólatrje; það var enn stærra og fallegra en það, sem hún síðast liðið aðfangadags kvöld hafði sjeð gegnum glerhurðina hjá hinum ríka kaupmanni; ljós loguðu á því þúsundum saman, og allskonar dýrindis gripir hjengu á greinum þess; stúlkan rjetti upp báðar hendurnar — þá slokknaði á spítunni; hin mörgu ljós, sem hún hafði sjeð, liðu æ hærra í lopt upp; hún sá, að það voru stjörnurnar á himninum; ein af þeim hrapaði, og dró eptir sjer langa eldrák á himninum.

»Nú deyr einhver,« sagði litla stúlkan; því amma hennar, sem var sú eina manneskja, sem nokkurn tíma hafði verið góð við hana, en sem nú var dáin, hafði sagt: »þegar stjarna hrapar á himninum, þá fer einhver sál til guðs«.

Hún kveikti á hinni fjórðu eldspítu, hún lýsti vel, og í bjarmanum stóð amma litlu stúlkunnar, skínandi björt og með milda ásjónu. »Amma mín góð«, kallaði litla stúlkan, »æ! taktu mig með þjer, jeg veit að þú hverfur þegar deyr á eldspítunni; þú hverfur eins og heiti ofninn, góða gæsasteikin og blessað jólatrjeð«; — og hún kveikti í snatri á nærri því öllum spítunum, sem voru eptir í brjefinu, en hún vildi með engu lifandi móti sleppa ömmu sinni; og eldspíturnar báru svo skínandi birtu, að það varð bjartara en um há-dag. Amma hennar hafði aldrei verið svona fríð og svona stór; hún tók litlu stúlkuna upp á handlegg sjer, og þær lyptust í ljóma og fögnuði upp í hæstu hæðir, og þar var enginn kuldi, ekkert hungur, og ekkert volæði — þær voru hjá guði.

En í skotinu milli húsanna sat morguninn eptir hin litla stúlka, með roða í kinnum og bros á vörunum; — hún var dáin, hið síðasta kvöld ársins hafði hún orðið úti. Nýjársmorguninn rann upp yfir hið litla lík, sem sat með eldspíturnar í kjöltunni; einu eldspítubrjefinu hafði hún þvínær eytt. »Hún hefur ætlað að hita sjer«, sögðu þeir, er framhjá gengu. Enginn vissi neitt um alla þá fegurð sem fyrir hana hafði borið; enginn vissi, í hvílíkri dýrð og ljóma hún gekk með ömmu sinni inní hina eilífu nýjársgleði.

## Klukkan.

(Eptir H. C. Andersen.)

Það var altítt í einni stórborginni, að þegar kvölda tók og sólin rann og skýin glóðu sem gull á milli efstu reykháfanna, þá heyrðu hinir og þessir í smástrætunum eitthvert undarlegt hljóð, eins og eym af kirkjuklukku, en það heyrðist ekki nema rjett í svip, því vagnaskröltið og hrópið á götunum tók yfir og

truflaði. »Nú er verið að hringja kvöldklukkunni«, sögðu menn, »nú gengur sólin undir«.

þeir sem voru á gangi fyrir utan borgina, þar sem húsin stóðu strjálar innan um trjágarða og smáekrur, sáu kvöldhimininn í enn meiri fegurðarljóma og heyrðu betur klukkuhljóðið; það var eins og hljóðið bæri frá einhverri kirkju úr innstu fylgsnum hinna ilmandi skóga, og fólkið horfði þangað, einsog gagntekið af einhverjum hátíðlegum anda.

Nú leið og beið, og stundum sögðu menn sín í milli: »Ætli það sje kirkja í skóginum þarna út frá? þessi klukka er svo hljóðfögur að það gegnir undrum; eigum við að gera okkur ferð þangað og skoða hana betur«? Og nú fór ríka fólkið akandi og fátæka fólkið gangandi, en það teygðist svo undarlega úr veginum; og þegar komið var þangað sem pílviðir nokkrir stóðu hópum saman við útjaðar skógarins, þá var sezt niður og gónt upp í hinar löngu og laufmiklu trjálimar og kunni fólkið sjer ekki læti af feginleik yfir því að vera komið út í græna sumardýrðina. Kryddbakari nokkurr kom þangað frá borginni og reisti upp tjaldið sitt, og svo kom annar kryddbakari og hengði upp klukku rjett andspænis móti tjaldinu sínu, og meira að segja, það var klukka, sem var tjörguð til þess að hún skyldi þola regn og vætu, en kólfinn vantaði. þegar nú fólkið fór heim aptur, þá sagði það, að þetta hefði verið svo óvenju skáldlegt, og það væri nú sitt hvað annað en tevatns skvampið. það voru einhverjir þrír, sem sögðu fyrir satt, að þeir hefði komizt allan skóginn á enda, og alltaf hefðu þeir heyrt undarlega hljóðið til klukkunnar, en þeim hefði látið svo fyrir eyrum sem það kæmi úr borginni; einn af þeim orti um það heila vísu, og sagði að klukkan hljómaði eins og móðurrödd við skýrleiks óskabarn, og ekkert sönglag væri fegra til en klukkuhljómurinn.

þessi tíðindi komu nú einnig fyrir keisarann í þessu landi, og lýsti hann því heiti yfir, að hverr sá, sem með sönnu gæti uppgötvað, hvaðan hljóðið kæmi, hann skyldi kallaður verða »heimshringjari« að nafnbót, og það enda þó svo reyndist að klukkan væri ekki til.

Eptir það fóru margir út á skóginn til að vinna sjer fyrir blessuðu brauðinu, en það var ekki nema einn, sem kom heim aptur með einhverskonar skýringu leyndardómsins, það hafði, því var það, enginn þrengt nógu langt inn, og hann þá ekki heldur, en svo mikið kvaðst hann þó vita, að klukkuhljóðið kæmi frá uglu nokkurri stórri, sem byggi í holu trje, og það væri einskonar vísdómsugla, sem allt af lemdi hausnum á trjeð, en hvort hljóðið kæmi úr kolli hennar eða holfauskinum, það þóttist hann ekki geta sagt með áreiðanlegri vissu; fyrir þessa frammistöðu var

hann skipaður »heimshringjari« og samdi hann á ári hverju eina vísindalega ritgjörð um ugluna; en jafnfróðir voru menn eptir sem áður.

Það var nú einhvern dag að börn voru fermd, presturinn hafði haldið fagra og hjartnæma ræðu, og börnin höfðu viknað svo innilega, en þetta var líka þýðingarmikill dagur á þeirra æfi, því nú áttu þau úr börnum að verða fullorðin svona allt í einu; barnssálin breiddi nú vængi sína til flugs og átti að leita sjer staðar í hyggnari og ráðsettari persónu. Það var glaða sólskin, fermingarbörnin gengu út úr bænum og hin stóra ókunna klukka ómaði með undrasterkum hljómi úr skóginum. Þau urðu strax svo óðfús að komast þangað öll nema þrjú; eitt, sem var stúlka, varð að fara heim til að reyna á sjer danskjólinn sinn, því það var ekki nokkurs annars vegna en kjólsins og dansins að hún var fermd í þetta skipti, hún hefði annars verið látin bíða; annað barnið var fátækur drengur, sem hafði orðið að fá fermingartreyjuna sína og stígvjelin til láns hjá syni húsleigjandans þar sem hann átti heima, og átti hann að skila því aptur á tilteknum tíma; þriðja barnið, sem líka var drengur, sagðist aldrei fara á nokkurn ókunnan stað nema því aðeins að foreldrar sínir færu með, hann hefði altjend verið hlýðið barn, og það ætlaði hann sjer einnig að vera eptir ferminguna, og eiga menn ekki að gera gis að slíku; en það gerðu menn nú samt.

Þessi þrjú fóru því ekki með, en hin örkuðu af stað. Sólin skein í heiði og fuglarnir sungu, og fermingarbörnin sungu með og hjeldust í hendur, því enn sem komið var höfðu þau ekki fengið embætti og voru öll saman fermingarbörn fyrir guði.

En skammt var þess að bíða að tvö minnstu börnin urðu þreytt og sneru þau þá bæði aptur til bæjarins; tvær smámeyjar settust niður og fóru að knýta blómhringi; ekki komust þær heldur með; en þegar hin börnin voru komin að píltrjánum þar sem kryddbakarinn hafði búð sína, þá sögðu þau: »Skoðum til, nú erum við komin hingað; klukkan er í rauninni ekki til, hún er ekki annað en einhverskonar hugarburður«!

Í sama bili hljómaði klukkan langt inn í skóginum svo skært og blítt og hátíðlega að fjögur eða fimm börn rjeðust í að halda nokkuð lengra inn í skóginn. Svo var hann þjettgróinn og laufmikill, að harðsókt var að komast áfram; það lá við að bláklukkurnar og krossgrösin væru of hávaxin, klukknablóm og brómberja klasar hjengu í löngum fljettum frá einu trjenu til annars, og þar söng næturgalinn dillandi og sólargeislarnir iðuðu; ó sá unaður sem þar var! en ekki var smámeyjum hent að fara þann veg, því hætt er við að kjólarnir hefðu rifnað. Þar voru stórgrýtis björg og klappir, algrónar allavega litum mosa, tærar vatns-

æðarnar píptu þar út með suðandi nið og var eins og þær segðu: glúk! glúk!

»Skyldi nú ekki þetta vera klukkan!« sagði eitt af fermingarbörnunum, og lagðist niður til að hlusta betur eptir. »það verður að rannsakast til hlítar«; og svo heið það kyrt og hirti ekki um þó hin börnin hjeldi áfram.

það er nú af þeim að segja að þau komu að húsi einu vel uppgerðu af berki og viðargreinum; stórvaxið eplatrje með villieplum slútti ofan yfir það einsog það ætlaði að láta alla ávaxta blessun sína hrynja niður á hið blómvaxna þak; hinar löngu greinar trjesins lögðust með fram gaflinum og á honum hjekk lítil klukka. það skyldi þó ekki vera klukkan, sem heyrzt hafði til og eptir var leitað? Jú! jú! allir voru samdóma um að svo væri, nema einn, hann sagði að þessi klukka væri smáfelldari og lítilfjörlegri en svo, að það gæti heyrzt til hennar þvílíkan óraveg eins glöggt eins og þeir hefðu heyrt hljóðið, og það væru líka allt aðrir hljómar sem gætu gripið mannlegt hjarta svo innilega; sá sem þetta mælti var kongsson, og þá var það viðkvæðið hjá hinum, »að hann væri einn af þeim, sem þættust vitrari en allir aðrir«.

Hann var þá látinn fara einn, því hinum leizt ekki að halda lengra, og gekk hann leiðar sinnar áfram, en að því skapi sem honum miðaði áleiðis, eptir því varð hjarta hans gagnteknara af töfrum skógarkyrrðarinnar; samt heyrði hann enn til litlu klukkunnar, sem hinum líkaði svo vel, og stæði vindurinn þaðan sem kryddbakarinn hafðist við, heyrði hann óminn öðru hverju, þegar fólkið var að syngja yfir tevatnsdrykkjunni; en hin djúprómuðu klukkuslög voru hljómmeiri og kröptugri, það fór að heyrast einsog leikið væri undir á orgel, og hljóðið kom frá vinstri hlið, þeirri hliðinni, þar sem hjartað slær.

Nú skrjáfaði í runnunum og allt í einn stóð frammi fyrir kongssyninum lítill piltur á trjeskóm og treyjugarmi æði ermastuttum, svo ekki náði fram á úlfliðina. Báðir þekktust, því þessi drengur var einmitt sá hinn sami, sem fyrr er um getið, að ekki komst með í ferðina af því hann varð að fara heim og skila treyjunni og stígvjelunum, sem hann hafði fengið til láns af syni húsleigjandans; þessu hafði hann aflokið og síðan labbað af stað á trjeskónum og í sínum fátæklegu flíkum, því klukkan dunaði fyrir honum með svo aflmiklum og undarlega djúpum hljómi; hvað sem kostaði, varð hann að reyna að komast þangað út.

»Við getum þá orðið samferða«, sagði kongssonurinn. En fátæki fermingarpilturinn á trjeskónum varð feiminn við, strauk um stuttu treyjuermarnar og sagðist ekki treysta sjer til að ganga nógu hart, svo hann gæti fylgzt með; auk þess hjelt hann að það

yrði að leita klukkunnar þeim megin sem til hægri handar vissi, því að þeirri hliðinni hneigðist allt sem er vegsamlegt og mikilfenglegt.

»Þá er ekki að hugsa til að við hittumst«, segir kongssonurinn, bandar höfði og kveður fátæka drenginn, sem hjelt ótrauður inn í skóginn þar sem hann var þykkvastur og skuggalegastur og allur þyrnum gróinn, enda rifnuðu líka föt hans, en fætur hans og hendur urðu blóðrisa. Kongssonurinn fekk líka margan skinnsprett, en sólin skein þó á hans leið og skulum við nú sjá hvernig honum gengur, því víst er um það að hann var dáðadrengur.

»Klukkuna vil eg finna«, sagði hann, og eg skal finna hana, þó eg ætti að ganga til heims enda«.

Ótætis aparnir sátu uppi í trjánum og flissuðu út undir eyru, svo að skein í tennurnar. »Eigum við að lumbra á honum? hann er kongssonur«!

En hann brá sjer ekki við það, og gekk inn í skóginn dýpra og dýpra, þar sem hann var gróinn hinum kynlegustu blómum; þar stóðu bjartar stjörnuliljur með dreyrrauðum duptþráðum, himinbláar hjálmrósir, sem sindruðu í vindgustinum, og eplatrje með eplum, sem skinu álengdar eins og stórar gljágeislandi sápubólur; það má nærri geta hvað falleg þessi trje voru í sólskininu. Allt umhverfis hin ljósgrænu engi, þar sem hjörturinn og hindin ljeku sjer í grasinu, gnæfðu laufskrýddar eikur og beykitrje, og væri börkurinn sprunginn á einhverju af trjám þessum, þá uxu bæði grös og langflæktar, öngóttar jurtir út úr sprungunum; þar voru skóglendi mikil með lygnum stöðuvötnum, og syntu á þeim fannhvítir svanir og böðuðu vængjunum. Kongssonurinn stóð opt við og hlustaði, og þótti honum stundum einsog klukkan sendi óman sína upp til hans úr einhverju af þessum djúpu vötnum, en hann fann samt í hvert sinn að klukkuhljómurinn kom ekki þaðan, heldur lengra innan að úr skóginum.

Nú settist sólin og loptið varð rauðglóandi sem eldur, það varð svo hljótt og svo rótt í skóginum; þá fjell hann á knje, söng kvöldsálminn sinn og sagði: »Aldrei finn eg það sem eg leita eptir; nú rennur sólin og nú kemur nóttin, hin dimma nótt; þó veit eg ekki nema eg geti enn þá einusinni sjeð kvöldsólina, kringlótta og eldrauða, áður en hún hverfur alveg undir jörðina; eg ætla að komast upp á klettana þarna, þar sem þeir gnæfa jafnhátt hæstu trjánum.«

Og hann þreif í rætur og tágar og kleif hátt upp eptir hinum votu steinum, þar sem vatnssniglarnir hringuðu sig og froskpaddan glennti upp skoltinn eins og hún ætlaði að gelta að honum, en upp komst hann samt áður en sólin var alveg gengin undir, og

var sjón að sjá hana úr þessari hæð; ó hvílík dásemdar prýði! Hafið, hið mikla og dýrðlega haf, sem velti hinum löngu hylgjum inn að ströndinni, lá opið fram undan honum, og sólin glóði eins og gullaltari út við yztu brúnina þar sem haf og himinn snertust; allt rann saman í leiptrandi litadýrð, skógarnir sungu og hafið söng og hann söng með; öll náttúran var ein stór og heilög kirkja, þar sem trje og sveimandi ský voru súlurnar, þar sem blóm og grös voru hin glitofna gólfbreiða, og himininn sjálfur var hvelfing hins mikla musteris; hið efra slokknuðu rauðu litirnir þegar sólin hvarf, en þá tendruðust þúshundruð stjörnur og þá lýstu þúshundruð demantslampar, og kongssonurinn breiddi faðminn móti himninum, móti hafinu og skóginum, og rjett í sama bili kemur fátæki fermingardrengurinn með stuttu ermarnar og trjeskóna út úr hægra hliðargangi; hann var þá kominn jafnsnemma hinum og kominn það á sínum vegi, og nú runnu þeir í fangið hvorr á öðrum og hjeldust í hendur í hinni miklu kirkju náttúrunnar og skáldskaparins. Yfir þeim hljómaði hin ósýnilega, heilaga klukka, sælir andar svifu í danshring kringum hana með fagnandi lofgjörðarröddum.

---

## X. Herakles á vegamótum.

Í þætti sínum af Heraklesi verður spekingnum Pródíkos tilrædt um dygdina og segir hann, ef eg rjett man, á þessa leið:

Þegar Herakles var kominn af æskuskeiði á þroskaaldur, þegar ungir menn eru farnir að eiga með sig sjálfir og sýna brátt,

---

Aths. Í þessu æfintýri er hin dýpsta og fegursta hugmynd. Klukkan mikla er ímynd andlega og eilífa lífsins, hennar huldufulli hljómur er guðdómleg rödd, sem kveður anda mannsins burt frá stundlegum hjegóma til æðra heims, til æðri veru og til æðra lífs í því, sem mikið er og fagurt, heilagt og háleitt. Eilífðar klukkan hringir fyrir öllum og hljómar fyrir öllum, bæði gegnum náttúruna og mannlífið, fyrir sumum daufar og sumum sterkar, og ýmsir ganga leitandi eptir hljómi hennar; flestir þeirra komast skammt áleiðis, því vegurinn þykir þeim langur og erfiður og árangurinn óviss, þeir staðnæmast því hjá litlu klukkunni kryddbakarans og öðrum smáklukkum, er tákna stundlegt, sálarsnautt hjegómalíf, sem finnur nógsamlega hvíld og sælu í borgaralegu heimsláni. En hinir örfáu, sem hafa hug og eljun til að fylgja hljóði hinnar miklu klukku gegnum erfiðleika og þrautir, þeir komast á leiðarendann þar sem fegurðarsólin skín yfir hafsbrún eilífðarinnar, þar sem andans himnesku klukkuhljómar heyrast í fyllingu sinni; fyrir þeim opnast ljósheimur fegurðarinnar og sálir þeirra hefjast á æðsta sælustig.

[1]) Herakles, eða öðru nafni Herkúles, hin fræga þjóðhetja Forn-Grikkja. Frásöguna, eins og hún er hjer, hefir Xenófon lagt Sókratesi í munn í minnisriti sínu um hann.

hvort þeir muni renna æfiskeið sitt á mannskapar eða ómennsku vegi, þá fór hann á kyrran einverustað og settist þar niður og velkti fyrir sjer, hverja leið hann skyldi halda. Honum sýndust þá tvær konur koma þar sem hann sat, þær voru miklar vexti, önnur var fríð sýnum, siðprúð og göfugleg, líkaminn skartaði af hreinleik, augun af blygðunarsemi, limaburðurinn og fasið af stillingu, hún var í hvítum klæðum; hin konan var holdmikil og feitlagin, hún var lituð með tállit svo hún sýndist skipta betur litum en eðlilega; svo var limaburður hennar, að hún sýndist beinvaxnari en hún átti að sjer, hún ljetti augunum, en klæði bar hún þess konar, að fegurð hennar mætti skína sem bezt í gegnum þau; hún skoðaði sig opt utan og gáði að, hvort nokkurr annar horfði á sig, og leit opt aptur til að skoða skugga sinn. Þegar þær nálguðust Herakles, gekk hin fyrri konan hvorki harðara nje seinna en áður, en hin vildi verða skjótari og hljóp til Heraklesar og sagði: »Sje eg, Herakles, að þú velkir fyrir þjer, hverja leið þú skalt halda fram á lífsskeið þitt; ef þú nú gerir vináttu við mig, þá skal eg vísa þjer á hina skemmtilegustu og hægustu leið, þá skaltu engrar ánægju varhluta verða og aldrei reyna neitt ógeðfelt. Það er fyrst, að þú skalt engan hug leggja á bardaga og stjórnarstörf, heldur skal þjer ávallt um það hugað að fá ljúffengan mat og drykk, að heyra og sjá það sem augum og eyrum skemmtir, en ilma og þreifa á því sem þægilegast er, af hvaða unnustum þú getir haft mesta gaman og skemmtun, hversu þú megir hvíla sem værast, og hversu þú megir fá alls þessa án allrar fyrirhafnar. En gruni þig að þjer muni verða fátt til þessa, þarftu ekki að óttast að eg muni vísa þjer á, að afla þess með líkams erfiði og sálar, heldur skaltu njóta þess, sem aðrir afla og engu sleppa, sem hafa má nokkurn ágóða af; því eg læt vinum mínum á sjálfsvaldi að hafa af öllu hagnað«. Þegar Herakles heyrði þetta, sagði hann: »Hvert er nafn þitt, kona«? Hún sagði: »Vinir mínir kalla mig Farsæld, en óvildarmenn mínir uppnefna mig og kalla mig Vellyst.« Í þessu kom hin konan að og mælti: »Eg em og hingað komin til þín, Herakles! voru mjer kunnugir foreldrar þínir, og hjartalag þitt þekkti eg þegar í barnæsku, vænti eg því, ef þú heldur þá leið, er til mín liggur, að þú munir atorkumaður verða í því, sem gott er og sæmilegt, mun eg þá hafa meiri virðing og álit fyrir það góða, sem eg kem af stað. Ekki ætla eg að tæla þig með því að lofa þjer lystisemdum, heldur segja þjer með sannindum hvernig fyrirskipað er af guðunum. Ekkert sannarlega gott eða sæmilegt gefa guðirnir mönnunum án ómaks og ástundunar; viljirðu gera guðina þjer holla, verðurðu að dýrka þá; viljirðu hafa ásthylli vina þinna, verðurðu að gera þeim vel til; viljirðu hafa virðingu af einhverri

borg, verðurðu að vera henni þarfur; viljirðu að allir Grikkir dáist að þjer fyrir mannkosti þína, verðurðu að reyna til að láta Grikkjum gott í tje; viljirðu að jörðin beri þjer gnótt ávaxta, verðurðu að yrkja hana; viljirðu verða ríkur af fjenaði, þá verðurðu að stunda hann; viljirðu vaxa af herferðum, og frelsa vini þína, en sigra óvini, verðurðu að nema hernaðaríþróttirnar af þeim, sem kunna, og venja þig við þær; viljirðu þar að auki vera mannskapsmaður, þá verðurðu að venja líkamann á að hlýða skynseminni, og æfa hann með erfiði og svita.« Þá greip Vellyst fram í og sagði: »Skilurðu, Herakles! hversu örðug og langvinn sú leið er, sem þessi kona vísar þjer á til unaðsemda? eg skal leiða þig til farsældar um hægan veg og skamman.« Þá sagði Dygðin: »Hvað gott áttu til í eigu þinni, þú vesæla kona! þekkir þú nokkra unaðsemd, þú sem vilt ekkert vinna fyrir henni; þú sem ekki bíður eptir að þig langi í það, sem þjer er geðfelt, heldur troðfyllir þig áður en þú hefir lyst á því, etur áður en þig svengir, drekkur áður en þig þyrstir. Þú færð þjer kræsingamenn til þess maturinn verði þjer ljúffengari, og útvegar þjer dýrindis vín, svo drykkurinn verði geðfeldari, og hleypur umkring eptir snjó á sumrin[1]). Svo þú sofir vært, færðu þjer ekki einungis mjúkar ábreiður, heldur og rúm og undirklæði undir rúmfæturnar; því ekki langar þig til að sofa af því, að þú erfiðir, heldur af því þú hefir ekkert að gera. Samfarir sækirðu fast, áður en þjer gerist þess þörf, með öllum mögulegum brögðum, og leikur lyst þína við karla sem konur væru; og svona venurðu vinafólk þitt, ósæmir það á næturnar, en lætur það sofa þarflegasta tíma dagsins. Þó þú sjert ódauðleg, ertu samt útskúfuð úr samneyti guðanna, en óvirt af góðum mönnum. Aldrei hefir þú heyrt það, sem ljúfast lætur í eyrum, það að þjer sje hrósað, aldrei sjerðu það sem augunum er unaðsamast, því aldrei hefirðu látið nokkurt gott verk eptir þig. Hverr mundi trúa nokkru af því, sem þú segir? hverr mundi vilja hjálpa þjer, þó þjer lægi eitthvað á? Eða hverr heilvita maður mundi geta fengið af sjer að vera í solli þinna dýrkenda; því meðan þeir eru ungir, eru þeir vanfærir að líkamanum til, en verða, þegar þeir eldast, sljófir; á unga aldri ala þeir sig að vísu þrautalaust, og það svo vel að það stirnir á þá, en elliárin lifa þeir í basli og armæðu, mega fyrirverða sig fyrir það, sem þeir hafa gert, og mæðast af því sem þeir verða að leggja á sig, og þetta mega þeir hafa fyrir það að þeir óðu í sællífinu á ungdómsárunum, en geymdu sjer vesældina til ellidaganna. Eg aptur á móti samneyti bæði guðum og góðum mönnum, og án mín vinnst ekkert góðverk

[1]) Til þess að kæla vínið.

hvorki á himnum nje jörðu. Eg er í heiðri höfð bæði hjá guðunum og þeim mönnum sem sómi er að; því eg er kær samþjón listamannanna, trúr húsvörður húsbændanna, viljagóður aðstoðari verkmannanna, öflugur fulltingjari í friðarstörfum, staðfastur liðsinnandi í hernaðar þrautum og bezti vináttufjelagi. Vinum mínum er matur og drykkur ljúffengur, og ótorfengur, því þeir bíða með að borða og drekka þangað til þeir hafa lyst á því. Værari svefn rennur þeim í brjóst en iðjuleysingunum, en ekki þykir þeim mikið fyrir að vera án hans og ekki vanrækja þeir að gegna skyldum sínum hans vegna. Þeir ungu gleðjast við það, að þeir gömlu hrósa þeim, en þeir eldri fagna því að hinir ungu virða þá, og minnast glaðir sinna fyrri framkvæmda, en hafa ánægju af að hinar yfirstandandi athafnir fara þeim vel úr hendi, og er það mjer að þakka, að þeir hafa hylli guðanna, ást vina sinna og virðingu af föðurlandi sínu. En þegar skapadægur þeirra kemur að hendi, þá liggja þeir ekki í gleymsku fyrir utan lofstír, heldur er frægð þeirra framvegis haldið á lopt í söngljóðum, svo þeir blómgast í loflegri minning ókominna tíma. Ef þú, Herakles, sonur hinna ágætustu foreldra, vilt leggja á þig þessar þrautir, þá geturðu öðlast hina fullkomnustu farsæld«.

Hjerumbil þessum orðum fer Pródíkos um það, hvernig Dygðin uppfræddi Herakles, en hann fegraði þetta mál með miklu meiri orðprýði en nú geri eg; það er þá vert fyrir þig, Aristippos[1], að hugfesta þetta, og bera þig að hugsa eitthvað fyrir þinni ókomnu æfi.

---

## XI. Úr Hávamálum.

Vits er þörf
þeim er víða ratar,
dælt er heima hvat;
at augabragði[1] verðr
sá er ekki[2] kann,
ok með snotrum[3] sitr.

Byrði betri
berrat[4] maðr brautu at
enn sè mannvit mikit;
auði betra
þikkir þat í ókunnum stað,
slíkt er válaðs vera[5].

---

1) Nafn hins unga manns, sem Sókrates á hjer orðastað við.

1) að undri. 2) ekkert. 3) vitrum. 4) ber ekki. 5) válaðs vera = hlíf, verja hins volaða, þ. e. hins nauðstadda og snauða.

Sá er sæll,
er sjálfr um á
lof ok vit meðan lifir;
þvíat ill ráð
hefir maðr opt þegit
annars brjóstum úr.

Þagalt og hugalt[1]
skyli þjóðans barn[2]
ok vígdjarft vera,
glaðr ok reifr[3]
skyli gumna hverr,
unz sinn bíðr bana.

Ósnjallr maðr
hyggst munu ey[4] lifa
ef hann við víg varast,
en elli gefr
hánum engi grið,
þótt hánum geirar gefi.

Ósnotr maðr
hyggr sèr alla vera
viðhlæjendr vini;
þá þat finnr,
er at þingi kemr,
at hann á formælendr fá.

Ærna mælir
sá er æva[5] þegir
staðlausu stafi[6];
hraðmælt tunga,
nema haldendur eigi,
opt sèr ógott um gelur.

Afhvarf[7] mikit
er til ills vinar,
þótt á brautu búi;
en til góðs vinar
liggja gagnvegir,
þótt hann sè firr farinn[8].

Ganga skal,
skala[9] gestr vera
ey í einum stað;
ljúfr verðr leiðr,
ef lengi sitr
annars fletjum á[10].

Bú er betra
þótt lítit sè,
halr er heima hverr;
þótt tvær geitr eigi
ok taugreptan[11] sal,
þat er þó betra en bæn.

Bú er betra
þótt lítit sè,
halr er heima hverr;
blóðugt er hjarta
þeim er biðja skal
sèr í mál hvert matar.

Hrörnar þöll[12]
sú er stendr þorpi[13] á,
hlýrat[14] henni börkr nè barr;
svá er maðr
sá er mangi[15] ann,
hvat skal hann lengi lifa?

Ungr var ek forðum,
fór ek einn saman,
þá varð ek villr vega;
auðigr þóttumz
er ek annan fann,
maðr er manns gaman.

---

1) Fátalað og athugasamt. 2) þjóðan = höfðingi, þjóðans barn = velættaður, eðalborinn maður. 3) hreifr. 4) ætíð. 5) aldrei. 6) staðlausu stafi = marklaus orð, hjegóma. 7) bugur afleiðis. 8) þó hann búi lengra í burt. 9) skal ei. 10) í annars manns húsi (flet = sæti, rúm). 11) taugreptan = tágreptan, með tágaþakl. 12) ungur furuviður. 13) hæð, hóll. 14) hlúar henni eigi eða skýlir. 15) enginn maður.

Vin sínum
skal maðr vinr vera,
þeim ok þess vin;
en óvinar síns
skyli engi maðr
vinar vinr vera.

Ár skal rísa
sá er á yrkendr fá
ok ganga síns verka á vit,
mart um dvelr
þann er um morgin sefr,
hálfr er auðr und hvötum[1].

Fregna[2] ok segja
skal fróðra hverr,
sá er vill heitinn horskr[3];
einn vita,
nè[4] annarr skal,
þjóð veit ef þrír eru.

Gætinn ok geyminn
skyli gumna hverr,
ok varr at vintrausti,
orða þeirra,
er maðr öðrum segir,
opt hann gjöld um getr.

Eldr er beztr
með ýta sonum
ok sólar sýn,
heilindi sitt
ef maðr hafa náir
án við löst at lifa.

Erat maðr alls vesæll
þótt hann sè illa heill;
sumr er af sonum sæll,
sumr af frændum,
sumr af fè ærnu,
sumr af verkum vel.

Fullar grindir sá ek
fyr Fitjungs[5] sonum,
nú bera þeir vánarvöl[6],
svá er auðr
sem augabragð,
hann er valtastr vina.

At kveldi skal dag leyfa[7],
konu er brend er,
mæki er reyndr er,
mey er gefin er,
ís er yfir kemr,
öl er drukkit er.

Brestanda loga,
brennanda loga,
gínanda úlfi,
galandi kráku,
rýtanda svíni,
rótlausum viði,
vaxanda vági,
vellanda katli.

Fljúganda fleini,
fallandi báru,
ísi einnættum,
ormi hringlægnum,
brúðar beðmálum
eða brotnu sverði,
bjarnar leiki
eða barni konungs.

Sjúkum kálfi,
sjálfráða þræli,
völu vilmæli[8],

---

[1]) þ. e. helfing auðsins eða gróðans vinna menn með röskleikanum. [2]) spyrja. [3]) vitur. [4]) en ekki. [5]) Fitjungs, nafn auðugs manns. [6]) förumannsstaf; nú troða þeir stafkarlsstig. [7]) lofa, hrósa. [8]) blíðmælum völvu eða spákonu.

val nýfeldum,
heiðríkum himni,
hlæjanda herra,
hunda gelti
ok harmi skækju.
verðit[1] maðr svá tryggr
at þessu trúi öllu.

Illan mann
láttu aldregi
óhöpp at þèr vita;
þvíat af illum manni
fær þú aldregi
gjöld ens góða huga.

Hugr einn þat veit,
er býr hjarta nær,
einn er hann sèr um sefa,[2]
öng er sótt verri
hveim snotrum manni,
en sèr engu at una.

Vin þínum
ver þú aldregi
fyrri at flaumslitum[3];
sorg etr hjarta,
ef þú segja nè náir
einum allan hug.

At háði nè hlátri
hafðu aldregi
gest nè ganganda;
opt vita ógjörla
þeir er sitja inni fyrir,
hvers þeir eru kyns er koma.

Löstu ok kosti
bera ljóða synir[4]
blandna brjóstum í;
erat maðr svá góðr,
at galli nè fylgi,
nè svá illr at einugi[5] dugi.

Deyr fè,
deyja frændr,
deyr sjálfr it sama;
en orðstírr
deyr aldregi
hveim[6] er sèr góðan getr.

Deyr fè,
deyja frændr,
deyr sjálfr it sama;
ek veit einn,
at aldri deyr:
dómr um dauðan hvern.

## XII. Úr Hugsvinnsmálum.

Ástsamleg ráð
kenni ek þèr, minn einka son!
mun þú þau eptir öll;
gálauss þú verðr
ef þú gleyma vilt
því er þarf horskr at hafa.

Allra ráða
tel ek þat einna bezt
at göfga hæstan guð:
með hreinu hjarta
þú skalt á hann trúa
ok elska af öllum hug.

---

1) verði ekki. 2) hugurinn er einn sjer í því er snertir tilfinningarnar og þeirra stríð. 3) vertu aldrei fyrri til að slíta ánægjulegu vináttusambandi. 4) lýða synir, menn. 5) í engu, til einskis hlutar. 6) sjerhverjum.

Ýmisgjarn[1]
ver þú aldregi:
sáttr ver þú við sjálfan þik;
seggja öngum
verðr sá samhuga,
er sundrþykkist við sik.

Ómálugr skal
ok í orðum stilltr
sá er vill guðs ást geta:
æðra krapt
fær maðr aldregi.
en sè tungu trúr[2].

Fámálugr vera
skyli fyrða hverr,
er at samkundum sitr:
mannvits vant verðr
þeim, er margt talar;
hljóðr er hygginn maðr.

Öreigu[3] þína
lát þèr aldregi gjöra
harðan hugtrega:
hins þú minnst
er þik móðir bar
svo at þèr fylgdi ei fè.

Litlu láni
fagni lýða hverr
ok hafi ei metnað mikinn:
í litlum polli
haldast lengi skip,
er síðan brýtr hregg í hafi.

Metnað þinn,
þó þik menn lofi,
láttu ei miklast til mjök:
hælins orði
þarf ei hverju at trúa:
sjálfr kenn þú þik sjálfan.

Aldrlagi sínu
kvíði engi maðr
nè um þat önn ali:
dugir ei dagr
þeim er dauða kvíðir;
engi feigð um flýr.

Fljóta raun skaltu
við flest hafa
þat er grunsamlegt gjörist:
leyndir lestir
þeir er lengi felast
gjöra mörgum mein.

Manndýrð meiri
getr ekki fyrir mold ofan
en kenna gott gumnum:
fádyggt[4] líf
mundu flestir hafa
ef engi bætti yfir.

---

[1]) hverflyndur. [2]) þagmælskur og orðvar. [3]) örbirgð. [4]) þarflítið, ónýtt.

# XIII. Kraptur sjálfra vor.

„Ef jeg ekki sje veg, bý jeg mjer til veg".

»Hjálpaðu þjer sjálfur, þá hjálpar Guð þjer«. Þessi setning hefir hvervetna reynzt sönn. Sú löngun, að vinna fyrir sjer sjálfur, er rót sú, sem framför hvers einstaks rennur af; þar sem löngun þessi er almenn, verða þjóðirnar voldugar. Annara hjálp veikir opt, eigin atorka styrkir ætíð; því allt, sem gjört er fyrir mennina, sviptir þá að nokkru leyti þeirri hvöt, að gjöra það sjálfir.

Framför þjóðanna er ávöxtur af ástundun, krapti og ráðvendni hinna einstöku; apturför þjóðanna sprettur af deyfð þeirra, eigingirni og löstum. Ógæfa, sem kemur yfir löndin, á sjer opt rót í skakkri stefnu, sem vilji einstakra manna hefir tekið, og hversu sem menn reyna að hindra hann með lögum, hverfur hún ekki, meðan líf hinna einstöku batnar ekki. Mannást og ættjarðarást kemur ekki eins mikið fram í því, að semja ný lög, eins og hinu, að styrkja og hvetja aðra til að taka sjer fram. Það hefir litla þýðingu, hvernig aðrir stjórna oss, ef vjer ekki stjórnum oss vel sjálfir. Sú versta ánauð er ánauð fávizkunnar og lastauna. Þjóðir þær, sem eru í þessum fjötrum, verða eigi að frjálsari, þótt stjórnarformi sje breytt. Breytingar þær, er fyrir það verða, eru eigi langgæðari en myndir þær er skýin taka.

Hver þjóð hefir orðið það sem hún er fyrir hugsun og tilverknað margra kynslóða. Ótrauðir verkamenn af öllum stjettum, menn sem hafa yrkt jörðina og stundað sjóinn; finnendur, verkmenn, skáld og stjörnvitringar: allir þessir hafa átt þátt í hinu mikla verki, og hver kynslóð bætt um það, sem áfátt var. Þegar vjer lesum sögur þjóða þeirra, sem hafa tekið verulegum framförum, sjáum vjer einstakar myndir, er skara fram úr öðrum og stjórna þeim og leiða þær áfram á vegi framfaranna.

Vjer höfum opt enga hugmynd um það, hve mikla áreynslu og fyrirhöfn það hefur kostað, að ná þeirri fullkomnun, sem hlutirnir nú hafa. Vjer skulum nefna eitt hið lítilfjörlegasta, hina gljáandi skel á leirílátum vorum. Maður nokkurr frakkneskur, er hjet Bernharð Palissy, varði öllu lífi sínu til að finna upp að búa til skel þessa. Hann var fæddur um 1510. Bolli, er hann sá með gljáandi skel á, vakti hjá honum brennandi löngun til að búa til leirker á líkan hátt. Jafnframt því sem hann varð að vinna fyrir konu og börnum, hjelt hann með stöðugum ákafa fram tilraunum í þessa átt. Öllu því fje, er hann gat án verið, varði hann til þess að búa til ýms efni til að rjóða á

kerin, byggja ofna og kaupa eldsneyti til að brenna kerin með. Störfum þessum hjelt hann fram um mörg ár, þótt ávallt mistækist; hann vakti nætur og daga, hann brenndi öllu, sem brunnið gat í eigu hans, jafn vel borðum og stólum; kona hans og börn ásökuðu hann, aðrir gjörðu gis að honum. Hann segir sjálfur svo frá: »hinar þyngstu raunir mínar voru háð og ofsókn konu minnar og barna. Árum saman voru ofnar mínir þaklausir, og varð jeg að standa við þá í stormi og regni, án hjálpar og huggunar, og hafði eigi aðra skemmtun en mjálm kattanna og ýlfur hundanna. Gagndrepa og útataður fór jeg stundum um miðnætti inn til að sofna; í svarta myrkri reikaði jeg í húsi mínu, örmagna af sorg og þreytu. En, heimili mitt var ekkert hæli; því í svefnherbergi mínu mættu mjer þær ofsóknir, sem voru þyngri en allt annað«. Eptir stöðugar tilraunir í 16 ár og ómræðilegar þrautir náði hann því takmarki, sem hann hafði ætlað sjer.

En raunir Palissýs voru eigi á enda. Hann var prótestantatrúar, en trú sú var þá ofsókt á Frakklandi. Hann hafði aflað sjer mikillar þekkingar, og meðfram þess vegna var hann álitinn trúarvillumaður; hann var settur í díblissu, og var hann þá því nær áttræður. Konungurinn, Hinrik 3, kom til hans í díblissuna og sagði við hann: »góði maður, þú hefir verið trúr þjónn móður minnar og minn í 45 ár. Nú ganga kaþólskir svo hart að mjer, að jeg verð að framselja þig fjendum þínum; á morgun verður þú brenndur, ef þú snýr þjer ekki«. »Herra minn«, svaraði Palissy, »jeg er viðbúinn að láta líf mitt guði til dýrðar. Þjer hafið opt sagt, að þjer aumkvuðust yfir mig, nú aumkvast jeg yfir yður, sem segið: jeg verð; það er ekki eins og konungur mæli, herra minn! Slíkt vald hafa kaþólskir eigi yfir mjer; jeg hefi lært að deyja«. Hann dó í varðhaldinu; þar endaði hann sitt friðsama líf, er liðið hafði með framúrskarandi starfsemi, ómræðilegu þreklyndi og óbifanlegri ráðvendni. Íþrótt þeirri, er hann kostaði svo mikið, hefir síðan verið haldið fram.

Það að vera starfsamur, að stjórna sjer sjálfum og mennta sjálfan sig, það er sá mikli vísdómur, sem hverr einn getur lært af sjálfum sjer í skóla lífsins. Þeir hinir miklu menn, sem mest áhrif hafa haft á líf og breytni annara, hafa margir verið af lágum stigum og opt hafa þeir orðið mestir menn, sem mest hafa haft við að stríða. Erfiðleikarnir, sem þeim hafa mætt, hafa styrkt viljann og vakið hæfilegleikana. Þeir sem hafa verið fátækir og fyrirlitnir, en hafa unnið auð og upphefð með starfsemi sinni, eru svo margir, að eigi er unnt að telja. Vjer skulum því nefna aðeins fáa. Af páfum var einn sonur trjesmiðs, annar fjárhirðis,

hinn þriðji bátsmannsson. Hadríanus páfi 6. var í æskunni svo fátækur, að hann gat ekki keypt sjer ljós, og varð að lesa við ljós það, er stóð í kirkjudyrum úti. Hið frakkneska skáld Molíere var sonur herhergisþjóns, og hið spánverska skáld Cervantes var fyrst herhergisþjónn, síðar dáti. Hið mikla enska skáld Shakespeare var glófarason og sjálfur vann hann fyrir sjer á ýmsan hátt. Af stjórnfræðingum var Nikolás Kopernikus sonur bakara á Pólínalandi, en Kepler sonur gestgjafa á þýskalandi. Hinn frakkneski reikningsmaður d'Alembert fannst við kirkjudyr í París á vetrarnótt, og hinn mikli náttúruspekingur og stjörnufræðingur Newton var sonur bónda á Englandi. Dr. Livingstone, er mest hefir frætt um Afríku, var upphaflega vefari.

Ef vjer snúum huga vorum til Ameríku, þá mundu flestir hinir helstu menn þar geta svarað á líkan hátt og einn hinn frægasti ríkisforseti svaraði, er ráðherra úr öðru ríki spurði hann, hvaða skjaldarmerki hann hefði. »Jeg hefi tvær skyrtuermar«, svaraði hann, »og það skjaldarmerki ávann jeg mjer, er jeg hjó brenni í skóginum.« Franklín, er fann upp að afstýra lopteldi, og varð hinn mesti stjórnfræðingur, var fyrst prentari; Linkoln, er var ríkisforseti, er þrælastríðið hófst, var framan af æfi sinni formaður á bát, og Grant verkaði í mörg ár skinn; síðar varð hann einn hinn mesti hersforingi, og síðast ríkisforseti.

Þeir sem fæddir eru í auð og upphefð, hafa eigi hina sömu erfiðleika við að herjast og hinir, er fæddir eru í fátækt og niðurlægingu; en þeir eru ekki heldur eins mjög neyddir til að starfa. Auður og upphefð freistar til glaðværða og aðgjörðaleysis, og það þarf, ef til vill, eins sterkan vilja til að yfirbnga þær freistingar, eins og hinar, er hinir fátæku hafa að herjast við. Það er því jafn heimskulegt fyrir hinn fátæka að öfunda hinn auðuga og fyrir hinn auðuga að fyrirlíta hinn fátæka.

Sem dæmi þess, hve mikils alúð og þol getur orkað, viljum vjer nefna aðeins einn mann, er heitir Disraeli. Faðir hans var Gyðingur, sem fluttist til Englands um síðastliðin aldamót og tók þar kristna trú. Þegar Disraeli hafði einn um tvítugt, tók hann að rita. Allir hlógu að hinum fyrstu ritum hans, og þóttu þau vottur þess, að hann væri eigi með öllum mjalla. Hann tók að gefa út dagblað, en varð að hætta því, af því fáir vildu kaupa. Tók hann þá að gefa sig við stjórnfræði og bauð sig fram til þingsetu, en tókst lengi eigi að ná kosningu. Nafnfrægur Englendingur sagði einusinni um hann á kjörfundi svo allir heyrðu: »hann er lygari, jeg þekki marga heiðarlega Gyðinga, en Disraeli þessi hefir alla ókosti hins harðsvíraða ræningja, er festur var á kross við hlið Jesú; hann hefir líklega heitið Disraeli«.

Loksins náði Disraeli kosningu, og fór að halda hina fyrstu ræðu í neðri málstofunni. Undir eins og hann fór að tala tóku þingmenn að hlæja, og því lengur sem hann talaði, því meir óx hláturinn. En hann endaði ræðu sína á þessa leið: »jeg hefi opt orðið að byrja aptur á hinu sama, að síðustu hefir mjer ætíð tekizt. Jeg sezt nú niður, en sá tími mun koma, að þjer viljið heyra orð mín«. Þessi orð rættust. Disraeli fór eigi huglaus út í horn til að harma ófarir sínar, heldur tók sjer fram í öllu, og vann af mesta kappi. Sá tími kom, að allir dáðust að mælsku hans og hyggindum, og álit hans fór svo vaxandi, að hann varð stjórnarherra, og fáir hafa á seinni tímum haft meiri áhrif á stjórnina í Englandi.

Þó þessir miklu menn hafi afkastað miklu með þoli sínu og hugrekki, þá hafa þeir átt mikið öðrum að þakka. Dæmi og reglur annara hafa haft mikil áhrif á þá, og andi feðranna, sem gengur í arf frá kyni til kyns. En líf þeirra kennir oss þann lærdóm, að til sje sá kraptur, sem getur unnið fagran sigur: það er kraptur sjálfra vor.

## Iðnaðarmenn.

*Starfsemin er hið sama sem mannlífið.*

Heiðarleg og róleg starfsemi fer þá leið, þar sem skyldan er leiðtoginn, og lukkan förunauturinn, en jörðin verður undirgefin. Framförum verður eigi náð með öðru móti en að hlýða því boði, sem er skrifað á sinar limanna, lögun handarinnar og taugar heilans: að vinna. Hvert starf sem vjer höfum, getum vjer stundað að taka framförum í andlegum efnum. Vjer höfum áður sýnt fram á, að fátækt og skortur hafa eigi hamlað framförum, og flest það er mest hefir þokað heiminum áfram, er þeim mönnum að þakka, er hafa verið fátækir og af lágum stigum. Vjer skulum leiða rök að þessu með því að minnast á sumt af því enu helzta, sem upp hefir verið fundið.

Gufuvjelin, þessi drottning allra vjela, má heita að sje fundin upp á vorum tímum, þó hugmyndin sje gömul. Vjel þessi er dýrðlegur minnisvarði mannlegs máttar. Margir ágætir starfsmenn og hugvitsmenn, svosem Savary, Neweomen, Cawley, Potter og Smeaton, hafa að henni unnið, en síðast og bezt hinn óþreytandi James Watt. Saga hans sannar hið sama og reynslan kennir, að þeir vinna eigi mest gagn, sem hafa bezta hæfilegleika, heldur hinir, sem verja þeim með mestri ástundun og dugnaði.

Watt var eigi betur að sjer en allir samtíða menn hans, en hann tók þeim fram í starfsemi og dugnaði. Framan af æfinni

lifði hann af því, að gjöra við ýmsa hluti. Eitt af því, sem honum var fengið til aðgjörðar var fyrirmynd af gufuvjel, sem Neweomen hafði tilbúið, en báskólinn í Glasgow átti. En er hann skilaði fyrirmyndinni, mælti hann: »heimurinn mun líta öðru vísi út þegar búið er að bæta vjel þessa í því sem henni er áfátt«. Í tvö ár vann hann að því, að gjöra gufuvjelina eins fullkomna og hann gat; um sama leyti vann hann með ýmsu móti fyrir konu og börnum. Honum bauðst opt álitleg staða, en hann synjaði alls og sagði: »það fer með tímann og krapta mína, það fer með gufuvjelina mína«.

Að tveim árum liðnum var gufuvjelin búin, en langir tímar liðu áður en hann fengi nokkurn til að hafa hana til vinnu, unz verksmiðjueigandi, er hjet Boulton, tók að brúka hana í verksmiðjum sínum. Og Watt hafði rjett að mæla: heimurinn fekk annað útlit. Naumast er svo lítið þorp, að gufuvjelin sje þar ei, hún malar korn, prentar bækur, slær peninga, rekur málma og vinnur að allri vinnu. Skip með gufuvjelum fara um höfin, og gufuvagnar þjóta yfir löndin. Löndin hafa á þann hátt eins og færst nær hvort öðru, og nægtir þær, sem áður lágu ónotaðar á fjarlægum stöðum, koma nú að beztu notum.

En allar breytingar þessar urðu eigi allt í einu, heldur tóku aðrir við, þar sem Watt hætti. Einn hinn helzti þeirra er Georg Stephenson. Hann vann fyrst í kolanámum á Englandi, en sá brátt, hve mikið væri við það unnið, ef kolin yrðu með hægra móti flutt þangað, sem þau eru brúkuð. Braut hann nú heilann um það hvernig gufuvjelin yrði höfð til að hreifa vagna. Samdi hann þá áætlun, og gjörði ráð fyrir, að gufuvagn gæti farið 3 mílur á einni stundu. Nefnd var sett til að rannsaka áætlunina, og áleit hún hana fásinnu og kvað upp þann dóm, að hann skorti alla þekkingu á þeim efnum. Stephenson svaraði nefndinni með því að búa til stutta járnbraut, og leiddi rök að því, að gufuvagn gæti farið 5 mílur á einni stundu á henni. Varð nú eigi lengur í móti mælt og var Stephenson álitinn mesti hugvitsmaður, eins og hann var.

Sá maður, sem fann upp að búa til baðmullarvjel, hjet Richarð Arkwright; hann var fæddur í Preston 1732. Foreldrar hans voru mjög fátækir og áttu 13 börn og var hann yngstur þeirra. Hann bjó fyrst í kjallara og vann fyrir sjer með því að raka skegg og selja hár. Þegar stundir liðu fram, fór hann að hugsa um að búa til spunavjel og gjörði ýmsar tilraunir í þá átt. Konu hans þótti þetta eigi arðsamt og eyðilagði hún öll þau sýnishorn, sem hann hafði gjört; en Arkwright skildi sig þá við hana, til að geta haldið áfram. Hann bjó til annað sýnishorn og sýndi opinberlega. En borgarbúar í Preston óttuðust

að vjelin mundi spilla atvinnu þeirra og tóku að mögla; þótti Arkwright því ráðlegast að forða sjer þaðan með vjelina og fór hann til borgar þeirrar er Nottingham heitir; þar fekk hann einkaleyfi til að búa til spunavjel sína ár 1769.

Erfiðleikar þeir, er hann hafði við að stríða, byrjuðu þó eiginlega nú fyrst. Hann varð um margt að bæta áður en vjelin væri fullgjör; á ári hverju eyddi hann ærnu fje, en ágóðinn var enginn. En er vjelin var fullgjör og ágóðinn fór að koma, gjörðu menn samblástur á móti honum og ákærðu hann sem fjandmann verkmanna og var hann sviptur einkaleyfinu. En Arkwright ljet eigi hugfallast; hann stofnaði verksmiðjur annarstaðar; hann vann að heita mátti nótt og dag; þá er hann var fimmtugur að aldri fór hann að læra málfræði og rjettritun. Eptir óþreytandi ástundun bar hann sigur úr býtum; hann græddi yfir 4 millíónir, en það sem varðaði mestu var það, að hverr maður varð að játa, að hann hefði auðgað ættjörð sína ómetanlega.

Sá, sem fann upp sokkavefstað, var prestur, og hjet William Lee; hann var fæddur í þorpi hjá Nottingham 1563. Foreldrar hans voru mjög fátækir. Menn segja að orsök þess, að hann fann upp sokkavefstaðinn, hafi verið sú, að hann bað stúlku nokkurrar og heimsókti hana opt, en hún vildi ekki gefast honum, og gaf meiri gaum að sokkum þeim, sem hún prjónaði, en að biðlinum. Vegna þessarar fyrirlitningar, er honum var sýnd, ásetti hann sjer að finna upp prjónavefstað svo hann þyrfti ei að sjá neinn prjóna. Í 3 ár varði hann fjöri og fje til að finna upp vefstað þenna, sem er mjög margbrotinn, sagði síðan af sjer prestsembætti og tók að vefa sokka. En er hann með mikilli fyrirhöfn var búinn að gjöra vefstað sinn eins fullkominn og hann gat, sýndi hann Elísabet drotningu vefnað sinn, en hún gaf honum engan gaum, og hafði jafnvel óbeit á vefnaðinum vegna þess, að fátækar konur mistu fyrir hann atvinnu. Fór hann þá til Rúðuborgar á Frakklandi, en þar voru verksmiðjur miklar og var honum tekið þar hið bezta, og komst hann þar í gengi og hafði 9 sokkavefstaði. En þá dó verndarmaður hans, Hinrik hinn 4. Frakkakonungur, er hafði styrkt hann og lofað honum miklum launum. Kom hann þá með kröfur sínar til hinnar nýju stjórnar í París, en hún fyrirleit hann, af því hann var útlendur og annarar trúar, og dó hann þar af gremju litlu síðar.

Sá sem fann upp knipplivjel hjet Jón Heathcoat; hann var sonur þurrabúðarmanns á Englandi, fæddur 1784. Þegar hann var 16 ára, ásetti hann sjer að finna upp vjel til að knippla með. Þá er hann hafði einn um tvítugt giptist hann, en hjelt þó áfram fyrirætlun sinni. Kona hans hafði jafnan áhuga og hann á vjel þessari og leið fúslega allan skort fyrir þær sakir. En er vjel

hans var komin svo langt að hann gat knipplað, lenti hann í málaferlum, en vann málið fyrir þá sök, að sá, er varði mál hans, lagði svo mikla alúð á það, að hann um nótt fór að læra að knippla og gat fyrir rjettinum sýnt ágæti vjelarinnar, svo allir undruðust. Um 1811 gjörðu verkmenn uppþot mikið, þóktust þeir sviptir atvinnu, og eyddu því, er þeir gátu, af vefstöðum Heathcoats, og stóð uppþot þetta um mörg ár, uns stjórnin sefaði það. Ár 1816 gjörðu þeir honum skaða er metinn var til 90,000 dala; en hann fekk þann skaða bættan. 1832 var hann búinn að finna upp gufuplóg.[1] Hann var í upphafi bláfátækur, en áður en hann dó, hafði hann tvöþúsund verkmenn í þjónustu sinni. Hann gaf 50,000 dali til að stofna skóla fyrir börn verkmanna sinna og varði stórfje til að mennta fátæka menn.

Mjög ólíkur honum var sá, er fann upp að búa til postulín; hann hjet Friðrik Böttger og var fæddur í Prússlandi. Hann var fátækur og var settur í lyfjabúð, er hann var 12 ára. Þar þóktist hann hafa komizt uppá að búa til gull, og hafði Friðrik I. Prússakonungur trú á vjelum hans og margir aðrir. Friðrik var þá peningaþurfi og ljet loka hann inni í Spandá, það er ramlegt virki, og bauð honum að búa þar til gull. En Böttger flýði þaðan og komst til Saxlands. Kom hann til Dresden og bað kjörfursta Friðrik August I. ásjár. Kjörfursti hugði gott til að fá gull eptir þörfum og tók við Böttger, en lokaði hann inni og bauð honum að búa til gull. Friðrik kjörfursti var þá einnig konungur á Pólínalandi og þurfti að fara þangað, en áður en hann komst þangað, skrifaði hann Böttger og ljet neyða hann til að segja leyndardóminn. Böttger sendi konungi þá flösku með rauðri lyf í, og forskript með; átti að bræða einhvern málm og hella síðan í lyfinni og varð málmurinn þá að gulli. Flaska þessi var fengin konungssyni og færði hann konungi hana og var herflokkur til gæzlu. Konungur tók á sig skinnsvuntu og lokaði sig inni næstu nótt og bræddi mikið af eir og helti í lyfinni, en eirinn var samur og áður. Aðgætti hann þá forskriptina betur og sá hann að hann hafði eigi gætt þess, að sá er átti að búa til gullið varð að hafa »algjörlega hreint hjarta«. Tók konungur þá skriptir og syndafyrirgefningu og reyndi af nýju, en það fór á sömu leið. Varð hann þá ákaflega reiður Böttger fyrir gabbið. Böttger flýði enn og til Austurríkis, en var tekinn á leiðinni og fluttur til Dresden. Konungur hótaði honum nú hengingu, ef hann byggi eigi til gull.

Nú liðu nokkur ár; Böttger var í varðhaldi, bjó eigi til gull, og var þó eigi hengdur. Þá var það, að vitur maður mælti við hann þessum orðum: »ef þú getur ekki búið til gull, þá búðu eitt hvað annað til, búðu til postulín«. Böttger fór eptir bend-

ingu þessari og lagði nú allan hug á að brenna leir og búa til postulín. Tókst honum það eptir margar tilraunir. Kjörfurstinn styrkti hann að fje, en hafði hann jafnan í gæzlu. 1710 var reist postulíns verksmiðja mikil í Albrektsborg og var Böttger yfirmaðurinn, en þó jafnan ófrjáls, hvernig sem hann bað um frelsi. Undi hann ófrelsi þessu mjög illa og hneigðist til ofdrykkju, og undir eins verkmenn hans allir. Ofdrykkja og ófrelsi spillti heilsu hans og hann dó 1719 og var grafinn um nótt. Þannig endaði líf þess manns, sem hafði gjört Söxum svo mikið gagn.

Einn af hinum mestu hugvitsmönnum var Vaucanson á Frakklandi; hann gat naumast verið án þess að búa til eitthvað nýtt. Þegar hann var barn að aldri, fór hann með móður sinni í heimboð og hafði sjer það þá að gamni, að horfa gegnum rifu á hreifingar stofuúrs, er var í næsta herbergi. Hugsaði hann um þetta marga mánuði, og fann af því lögmál hreifingarinnar. Hann bjó til mörg snildarverk, svo sem hljóðpípublásara, og önd, sem synti, drakk og kvakaði, eins og hún væri lifandi. Hann bjó og til höggorm, sem var eins og hann væri lifandi, og var hafður á leikhúsinu, þegar sorgarleikurinn »Kleópatra« var leikinn. Seinni ár æfi sinnar var hann settur yfir silkivefstaði á Frakklandi og bætti hann þá mjög í öllum greinum. Hann bjó til vefstað, sem óf rósasilki. Verkmenn urðu honum reiðir af því þeir óttuðust að þeir mundu missa atvinnu og vildu þeir grýta Vaucanson, en hann gat forðað sjer og hefndi sín með því, að búa til asna, sem vann á við tvo þeirra.

Marga mætti telja fleiri, er unnið hafa hið mesta gagn, en orðið að þola þrautir og ofsóknir, og margir hafa yfirbugast án þess að komast áleiðis. Í baráttu lífsins fer eins og á vígvellinum: sigurinn fæst eigi fyrr en hinir öruggustu eru fallnir.

## Vísindamenn — tilviljanir.

> Hvorki höndin ein nje skynsemin ein getur framkvæmt neitt mikið; skynsemin verður að nota tilviljanina eins og höndin notar verkfærin. *Bacon.*

Menn segja um ágætan málara nokkurn, að þegar hann lauk við myndir sínar, hafi hann gengið frá þeim spölkorn, látið pensilinn á langa stöng og horft á myndina um stund, gengið svo hart að henni og gefið henni í skyndi hina fegurstu drætti. En hæfilegleikinn til að draga þessa meistaralegu drætti er ekki tilviljun, heldur náttúrugáfa og ávöxtur af löngu lífserfiði. Eintóm

tilviljun afkastar engu miklu í lífinu. Þó heppnin geti stutt djörf fyrirtæki, þá er þó hin stöðuga ástundun hin óhultasta leið.

Stöðug eptirtekt og nákvæm starfsemi eru einkenni hins sanna verkmanns. Þeir eru eigi miklir menn, sem lítilsvirða smámuni, heldur hinir, sem nota þá nákvæmlega. Michael Angelo sagði: »smámunirnir gjöra hvern hlut fullkominn, en fullkomnunin er engir smámunir«. Þegar annar ágætur ítalskur málari lá banaleguna, var hann spurður, hví hann hefði orðið svo frægur, en hann svaraði: »með því að vanrækja ekkert«. Tilviljanin er aldrei annað en tilefni, sem vekur hugsan gáfumannsins: þegar eplið datt í garði Newtons, vakti það huga hans, svo hann af því fann gang himinhnattanna; en þesskyns hugsanir höfðu áður leynst í sálu hans. Á líkan hátt vakti marglit sápubóla, sem kom af því blásið var gegnum leirpípu, huga Dr. Youngs, svo hann fann brot ljósgeislanna. Menn halda almennt að miklir menn fáist eigi við annað en það, sem mikið er; en aðrir eins menn og Newton og Young voru fúsir til að gefa gaum að hinu smásmuglegasta og finna það þýðingarmikla í þeim almennu efnum, og mikilleiki þeirra var einmitt fólginn í því, að útskýra þetta.

Munurinn á mönnunum er að miklu leyti fólginn í því, hve skörp eptirtekt þeirra er. Margir höfðu sjeð þunga hanga í lausu lopti áður en Galilei sá lampann hanga í dómkirkjunni í Písa, en hann var sá fyrsti, sem veitti hreifingunni eptirtekt, og hreifing þessi vakti svo huga hans, að hann notaði hreifingar hangandi hluta til at mæla með tímann; í 50 ár var hann að finna upp að nota dingulinn í sigurverk, sem eru svo ómrræðilega nauðsynleg bæði til að mæla tímann og við útreikninga stjörnufræðinnar. Hann hafði einnig heyrt af hendingu að hollenzkur maður hefði búið til verkfæri, sem gjörði það að hlutirnir sýndust nær, og fregn þessi varð tilefni þess, að hann fann upp að búa til sjónpípu; og með henni var lagður grundvöllur undir stjörnufræði hinna síðari tíma.

Þegar hinn nafnfrægi vjelameistari Samúel Brown var að hugsa um að leggja brú á ána Tweed, gekk hann eitthvert sinn í garði sínum um morgunstund á haustdegi. Varð þá á vegi hans köngulóarvefur, og kom honum til hugar, að brú úr járnfestum mætti gjöra á líkan hátt, og bjó hann til hina fyrstu hangandi brú. Vjelameistarinn Brúnel lærði að gjöra undirgöng undir Temsána af ormi, er hann sá grafa sig inní skip; hann veitti því eptirtekt, hvernig ormurinn gróf í ýmsar áttir og þakti göngin jafnóðum með kvoðu, og bjó Brúnel til vjel, sem var eins löguð og ormurinn, og fór eins að.

Ekkert er svo ómerkilegt, að ekki megi veita því eptirtekt; og fátt er svo lítilvægt að eigi geti það að notum komið, ef það

er rjett notað. Þangbóla, er flýtur á sjó, sýnist ekki mikils virði, en sú þangbóla, er Kólúmbus sá, er hann var að leita Ameríku, varð honum að þeim notum, að hann átti það henni að þakka, að hann gat sefað upproist þá, sem skipverjar höfðu gjört á móti honum, af því þeir um langan tíma höfðu eigi sjeð land og vildu neyða Kólúmbus til að hverfa aptur. Í fljótu bragði virðist það elgi líklegt, að stór kalkfjöll sjeu tilbúin af litlum skorkvikindum, en þó er því þannig varið; en dýr þessi eru svo lítil að þau verða naumast eygð. Þegar vjer hugleiðum þetta, getum vjer þá efast um, að litlir hlutir geti haft mikil áhrif?

Mannlegri þekkingu er að því leyti líkt varið og kalkfjöllunum, að hún er samsafn af litlum efnum, sem margar kynslóðir hafa safnað og lagt hvað ofaná annað uns fjallið hækkaði. Það sem í fyrstu virðist lítilvægt, verður opt til mikils, er stundir líða fram. Hundrað ár liðu áður en uppgötvan Appolloníusar frá Perga var lögð til grundvallar fyrir stjörnufræðinni, þeirri vísindagrein, er kennir sjómönnum að fara rjetta leið um hin ókunnu höf, og hefðu reikningsmennirnir eigi unnið eins lengi, þá væri að líkindum fæst af því til, sem upp hefir verið fundið og styðst við hræríngafræði.

Þegar Franklín fann eðlisástand eldingarinnar og rafurmagnsins, gjörðu menn gis að honum og sögðu: »hvaða gagn er að þessu«? En hann svaraði með því að spyrja: »hvaða gagn er að þessu barni? Það getur orðið fullorðinn maður«! Og þegar Galvani tók eptir því að fæturnir á froskinum hreifðust, er þeir komu í samband við ýmsa málma, þá gat enginn vitað, að náttúruafl þetta, sem síðan er kallað Galvansafl og rafmagn, gæti orðið að slíkum notum, sem það nú er orðið. Fyrir magn þetta geta menn nú notað uppleystan eir, silfur og gull á hvern hátt, sem menn vilja. Vilji vígvjelameistarar kveykja í púðurgröf langt í burtu, þá nota þeir afl þetta til að kveykja með; þurfi menn birtu nótt og dag við húsabyggingar, þá hafa menn rafmagnsljós. Afl þetta er einnig aðalafl rafsegulþráðanna, sem flytja hugsanina, eins fljótt og hugurinn fer, mörg þúsund mílur.

Jötunafl það, sem knýr gufuskipið um höfin, fær mátt sinn frá hinum litlu vatnsdropum, sem þenjast út við hitann. Það er gufa sama kyns og sú, er vjer sjáum leggja upp úr pottum vorum og kötlum, og sú, er skekur jörðina, svo hún titrar í jarðskjálftunum, þegar gufan er innilukt og kemst eigi út.

Það er heppninnar mikli leyndardómur, að grípa tækifærið og nota hverja tilviljan og verja henni í ákvörðuðu augnamiði. Menn, sem eru fastráðnir í því að ryðja sjer braut, finna tækifærið, og finni þeir það eigi, þá búa þeir það til. Nauðsynin hefir optast knúð menn til að finna upp. Margir hinir beztu

verkmenn hafa upphaflega haft hin lökustu verkfæri. En það er ekki verkfærið sem býr til manninn, heldur á maðurinn að búa til verkfærið. Menn spurðu einu sinni enskan málara er hjet Opie, með hverju hann blandaði þá aðdáanlegu liti, sem hann hafði; en hann svaraði: »jeg blanda þá með viti«. Newton hafði eigi annað en flatbaun og pappírsörk til að komast að því, hvernig ljósið væri sett saman, og hvernig litirnir yrðu til. Scheele fann upp að greina sundur tegundir loptsins, og hafði engin önnur áhöld, en nokkur lyfjaglös og svínablöðrur.

Með kostgæfni geta menn notað stuttar stundir svo að gagn verði að. Daguesseau skrifaði langa og merkilega bók á þeim stundum, er hann beið eptir miðdegisverði sínum. Hinn þjóðkunni friðarpostuli Elíhu Burrit sagði, að menntan sín væri eigi ávöxtur gáfna sinna, heldur hins, að hann hefði notað allar tómstundir. Hann vann fyrir sjer með járnsmíði, en á tómstundum sínum lærði hann 18 tungumál, forn og ný.

Tíminn líður, og vjer eigum að standa reikning á honum; það eru sannindi, sem vjer ættum aldrei að gleyma. Tíminn er lítill partur af eilífðinni, sá eini, sem er eign vor; hann fæst ekki aptur heldur en lífið, þegar hann einusinni er liðinn. Með því að byrja hófsamt líf getum vjer bætt upp eyðslu hinna liðnu ára, en enginn getur sagt við sjálfan sig: »jeg skal taka af stundunum á morgun, og bæta með því upp það sem jeg hefi sóað í dag«. Melanchton skrifaði þær stundir, sem liðu til ónýtis, til að minna sjálfan sig á kostgæfni. Tíminn er nægtabúr, sem þessir hinir miklu verkmenn hafa tekið úr dýrgripi hugsana þeirra og verka, er eptirkomendur þeirra erfa.

Margir spakir og lærðir menn hafa haft þann vana, að skrifa upp hugsanir og viðburði í þeim tilgangi að varðveita þá, og hindra þá frá að hverfa í þokulönd gleymskunnar. Hinn ágæti læknir John Hunter hafði og þessa reglu, og skýrði þann kost, sem hún hefði, á þessa leið: »þegar jeg skrifa upp hugsanir mínar, fer jeg að eins og verzlunarmaður, sem skrifar upp vörubyrgðir sínar; án þess gæti jeg ekki vitað, hvað jeg á til, og hvað mig vantar«. Hann var starfsmaður svo mikill, að hann svaf aldrei meir en 5 stundir í sólarhring.

Æfisaga Benjamíns Franklíns, hins alkunna þjóðmærings, er ljóst dæmi þess, hve miklu stöðug alúð getur orkað. Hann var fæddur í Boston í Ameríku 17. jan. 1706, og átti 16 syskini og var þeirra yngstur. Hann var bláfátækur og vann fyrir sjer á ýmsan hátt framan af æfi sinni, en með stöðugri ástundun komst hann svo langt áleiðis, að hann varð eigi aðeins hinn frægasti vísindamaður á þeim tímum, heldur og hinn mesti stjórnfræðingur.

Hann deyði eptir að hann hafði hlotið hin mestu metorð, 1790, 84 ára gamall.

Hinn mikli stjörnumeistari Vilhjálmur Herschel var sonur fátæks söngmeistara á þjóðverjalandi. Flutti hann til Englands, og vann þar fyrir sjer með því að leika á hljóðfæri. Eptir að hann hafði fengið að skoða himinhnettina í sjónpípu, varð hann mjög hrifinn af stjörnufræðinni. Hann vildi kaupa sjer sjónpípu, en hafði engin efni. Tók hann þá það ráð, að hann smíðaði sjer sjálfur sjónpípur. Með ótrúlegri fyrirhöfn tókst honum það; varð hann t. a. m. einusinni að búa til 200 gler, áður en það fengist sem honum líkaði. Hann ljek enn á hljóðfæri til að hafa atvinnu af því, en notaði allar tómstundir til að horfa á himinhnettina um sjónpípu sína. Uppgötvanir þær, er hann þannig gjörði, urðu orsök þess, að hann varð þjóðkunnur, þótt áður væri hann ókunnur, og skömmu síðar var hann skipaður konunglegur stjörnufræðingur. Hann var jafn hógvær í upphefðinni og hann áður hafði verið í fátæktinni.

## Listamenn.

Engin takmörk geta sagt við ástundunina og hugvitið: „hingað og ekki lengra“.
*Beethoven.*

Það er eigi langt síðan að piltur nokkurr hengdi sig af gremju yfir því, að verða að vera jurtasölumaður, og geta ekki orðið neitt meira. Sá misskilningur, að iðnaður geti eigi verið heiðarlegt starf, er eigi mjög sjaldgæfur í heiminum. Þessi misskilningur hefir komið mörgum til að reyna að stunda það, sem þeir eigi hafa haft hæfilegleika til, einkum fagrar listir. Að þessu hefir stutt annar misskilningur, eigi minni, sá, að það kosti áreynslu að stunda iðnir, en enga áreynslu að vera listamaður. Það er eins og menn búist við, að eigi þurfi annað en að bíða, þá gjöri hæfilegleikarnir kraptaverk. Þessi ímyndan er jafn skökk og hin gagnstæða, að menn geti aflað sjer hugvits eingöngu með áreynslu. Ástundun ein getur ekki gjört neinn að listamanni. Allt hugvit er meðfædd náttúrugjöf, en enginn verður mikill listamaður án mikillar áreynslu. Þegar vjer hugleiðum líf hinna mestu listamanna sjáum vjer að það hefir eigi verið af tilviljan, að þeir hafa orðið frægir, heldur af mikilli ástundun og ótrauðri starfsemi. Sumir þeirra hafa að vísu safnað auði, en engir hinna mestu listamanna hafa haft þann tilgang. Hinn frægi málari og myndasmiður Michael Angelo treysti starfseminni svo mikið, að hann sagði, að allt það, er maður gæti ímyndað sjer, yrði maður að geta gjört úr marmara, ef höndin væri vanin á, að hlýða

andanum. Hann var hinn ótrauðasti starfsmaður og eignaði það hófsemi sinni, að hann var þolnari en samtíða menn hans. Hann neytti mestan hluta dagsins sjaldan annars en lítils af brauði og víni, og fór opt á fætur um nætur, til að starfa. Þegar áhugi hans var mestur, var það vani hans að festa ljósið, sem hann vann við, í brjefhúfu sem hann hafði á höfðinu. Stundum var hann svo þreyttur, að hann gat eigi afklætt sig og svaf hann þá í fötunum, viðbúinn að taka til starfa, er hann var endurnærður af svefninum.

Málarinn Titían var einnig óþreytandi iðjumaður. Hann var 8 ár að mála hið víðfræga málverk »Pietro Martini«, og er hann sendi Karli 5ta listaverk sitt »Kveldmáltíðina«, skrifaði hann: »jeg sendi Yðar Hátign »Kveldmáltíðina«; jeg hefi unnið að henni því nær daglega í 7 ár«. Fáum getur verið það ljóst, hve mikið þol þarf til að vinna hin miklu listaverk. Lendur maður í Feneyjum sagði við myndasmið: »Þjer heimtið 8 spesíur fyrir mynd sem þjer getið gjört á 10 dögum«. »Þjer gleymið«, svaraði listamaðurinn, »að jeg hefi verið 30 ár að læra að gjöra myndina á 10 dögum«.

Hogarth, hinn enski málari og eirstúngumaður, sem frægur er um allan heim, var latur, þegar hann var í barnaskóla, en lagði mestu stund á, að skrifa fallega stafi. Faðir hans kom honum fyrir hjá gullsmið, og þar vandist hann á að teikna og krota á knífasköpt; mest lærði hann tilsagnarlaust með ástundan og eptirtekt. Hann gat geymt í huga sjer allar myndir sem hann sá, en ef hann treysti sjer ekki til þess, þá dró hann þær upp á nöglina á vinstri þumalfingrinum og geymdi þær þar meðan hann fór heim. Hann sagði ætíð, að sönn list yrði ekki lærð nema í einum skóla, skóla náttúrunnar. Hann hafði í æskunni naumast lært að stafa rjett; allt annað lærði hann tilsagnarlaust. Hann var fátækur framan af æfi sinni, en vann samt með glöðum hug. Síðan varð hann frægur og auðugur og minntist þá opt hinna fyrri þrauta sinna.

Margir listamenn hafa átt í hinum mestu þrautum áður en þeir náðu hinu eptirþráða takmarki. Enginn veit, hve margir hafa yfirbugast. Málarinn Martín átti í sjaldgæfum þrautum. Opt lá við, að hann yrði húngurmorða áður en hann gat lokið við hið fyrsta listaverk sitt. Menn segja, að einu sinni hafi hann engan skilding átt nema einn hálfsdalspening, sem hann vildi ekki láta fyrir fegurðar sakir, en neyddist þó til að láta hann fyrir mat. Hann fór til bakara, keypti brauð fyrir peninginn og ætlaði burt með brauðið. En fagri peningurinn hafði brugðist honum í neyðinni — hann var falsaður; bakarinn kastaði honum í hinn hungraða málara og heimtaði brauðið. Þegar hann kom

heim, leitaði hann í kistu sinni og fann eina brauðskorpu og sefaði með henni hungur sitt. Vann hann enn ótrauður, og eptir fáa daga gat hann selt listaverk sitt.

Járnsmiðurinn James Sharples er ljóst dæmi þess, hverju ástundun og þol fær orkað. Hann var fæddur á Englandi 1825. Faðir hans átti 13 börn og gat eigi látið kenna sonum sínum neitt, en varð að láta þá vinna fyrir sjer undireins og þeir orkuðu nokkurs. þegar hann var 10 ára, var hann settur til járnsmíðar, og varð að vera þar frá morgni til kvelds. Sveinarnir ljetu hann stundum hjálpa sjer, er þeir drógu upp katlamyndir, og við það vaknaði fyrst löngun hans til að draga upp og mála. Dró hann opt upp myndir af kötlum og ýmsu með krít á gólfið hjá foreldrum sínum, er hann var kominn heim á kveldin. þegar hann var 16 vetra fekk hann tilsögn nokkra í uppdráttarlist. Hann fekk til láns bók, sem var fræðandi í þeim efnum, en þá komu þau vandræði, að hann var ekki læs, en varð að biðja móður sína að lesa fyrir sig. Tók hann þá að læra að lesa og lærði það á stuttum tíma. Fór hann nú á fætur klukkan 4 á hverjum morgni og las í bók sinni og dró upp myndir, en kl. 6 varð hann að vera kominn að verki sínu til að vinna fyrir sjer. Flest áhöld bjó hann sjálfur til, en liti, pensla og ljerept varð hann að kaupa og varði hann til þess hverjum skilding, er hann gat eignast. Opt varð hann að fara gangandi 4 mílur vegar til að kaupa það er kostaði 2 dali, og fara síðan gagndrepa og þreyttur til vinnu sinnar. En með þessari stöðugu ástundun tók hann þeim framförum, að hann varð frægur málari og eirstúngumaður. Hina sömu ástundun hafa þeir haft, sem mestir meistarar hafa orðið í söngfræði. Händel var óþreytandi iðjumaður, og þrek hans virtist vaxa við hverja nýja þraut. Hayðn segir um list sína: »hún er fólgin í því að kjósa efnið og vinna að því með þolgæði«. Sebastían Bach segir um sjálfan sig: »jeg hefi verið starfsamur; hverr sem vill vera eins iðinn og jeg hefi verið, getur verið eins heppinn«.

## Ástundun og þol.

þolinmæðin gjörir mórberjablað að þykku silki.

Lukkunni hefir opt verið hallmælt fyrir það, að hún væri blind; en hún er opt eigi eins blind og mennirnir. þegar vjer hugleiðum mannlífið, sjáum vjer, að hún er optast með hinum starfsömu. Hið daglega líf, með áhyggjum sínum, þörfum og skyldum, veitir hið bezta tækifæri til að læra, og starfsamur maður fær jafnan tækifæri til að leggja á sig, í hverri stöðu sem

hann er. Þeir almennu hæfilegleikar: greind, eptirtekt, ástundan og þol, orka mestu einnig í enum æðstu efnum. Sá sem hefir þessa hæfilegleika, þarf eigi að hafa hugvit, en hugvitið getur ekki verið án þeirra. Buffon sagði, að hugvitið væri eigi annað en þolgæði.

Newton var hinn mesti gáfumaður; en er hann var spurður að, hvernig hann hefði fundið svo mikið upp, svaraði hann: »með því að hugsa ávalt um það«. »Jeg held hlutnum stöðugt fyrir augum mjer, þangað til hin fyrsta skíma er orðin að björtum degi«. Hann sagði í annað sinn: »hafi jeg gjört heiminum nokkurt gagn, þá er það að þakka ástundun og stöðugum athuga«. Locke, Helvetius og Diderot stóðu fast á því, að allir menn hefðu jafnmikla hæfilegleika, og að það sem einn getur orkað, því yrði aðrir að geta orkað, ef ástæðurnar væri hinar sömu. En þótt vjer viðurkennum, að ástundanin hafi unnið óumræðileg stórvirki, og að enir mestu menn hafi ætíð verið mestu starfsmenn, þá er hitt ljóst, að mikill munur er á hæfilegleikunum. Hinir mestu menn eigna heppni sína hinni óþreytandi starfsemi; þeim verður allt að gulli, tíminn eigi síður en annað. Þeir sem mest hafa breytt útliti heimsins hafa fæstir haft framúrskarandi hæfilegleika, en flestir óþreytandi ástundun. Það er gamalt orðtak: að sá sem gengur hægt, gengur lengi og fer langt.

Það varðar því mjög miklu, að stunda það, að hæfilegleikar starfseminnar þróist sem bezt. Þegar það er orðið, kemur hið annað án mikillar fyrirhafnar. Það var leikni frá barnæsku, sem gjörði Robert Peel frægan um allan heim. Þegar er hann var barn að aldri, ljet faðir hans hann uppá borð og ljet hann tala þar upp úr sjer; jafnframt vandi hann son sinn á að segja sjer úr messunni. Peel gekk þetta illa í fyrstu, en smám saman varð hann svo leikinn, að hann gat haft upp prjedikanina þvínær orðrjetta. Á þenna hátt varð hann svo leikinn, að þegar hann var orðinn þingmaður, gat hann munað langar ræður og svarað þeim orði til orðs.

Það er undravert, hve miklu stöðug ástundan getur orkað í almennum efnum. Ungur maður spurði söngmeistarann Giardini, hve langan tíma hann þyrfti til að læra að leika á fiðlu, en Giardini svaraði: »12 stundir á dag í 20 ár«. De Maistre segir, að það sje töframeðal hinna heppnu, að hafa vit á að bíða. Menn verða að láta sjer nægja að þokast áfram fet fyrir fet, eins og þegar barnið er að læra að ganga.

En til þess að geta beðið með þolinmæði, verða menn að vinna með áhuga. Ánægja er nauðsynleg til starfsemi. Frægur biskup sagði, að linkind væri hinir níu tíundu partar kristindómsins; ánægja og ástundan eru níu tíundu partar vísdómsins; þær eru

líf lukkunnar og heppninnar, og hinn bezti unaður lífsins er kannske fólginn í því að vinna með fjöri og kappi. Þeir sem vinna til almennings nota, verða einkum opt að vinna lengi með þolinmæði, án þess að sjá nokkurn verulegan árangur. Uppskeran kemur opt eigi fyrr en sáðmaðurinn er sjálfur kominn í jörðina. Hinn mikli stjörnufræðingur Kepler lifði alla æfi sína í örbirgð og lítt kunnur; þá fyrst, er hann var dáinn, varð hann þjóðkunnur.

Ekkert getur bætt missi vonarinnar. »Hvernig á jeg að starfa, hvernig get jeg verið farsæll«, sagði mikill, en ógiptusamur spekingur, »þegar jeg hefi misst alla von«? Sem dæmi uppá þolgæði í óhöppum má greina sögu fuglafræðingsins Audubons. Hann hafði dregið upp 200 myndir af fuglum og með því hann þurfti frá að hverfa um tíma, ljet hann þær allar í kassa, bjó um vandlega og bað annan að gæta meðan hann væri burtu. En þegar hann kom heim aptur og lauk upp kassanum, höfðu völskur jetið sig inn í hann og átt þar unga, enn eytt öllum myndunum. Hann varð að vísu veikur af óhappi þessu nokkra daga, en tók brátt dug til sín, fór út í skóg og dró upp myndirnar að nýju. Hundur Ísaks Newtons velti ljósastjakanum á borði hans, og brenndi þannig upp reikninga þá, sem hann hafði unnið að í mörg ár. Óhapp þetta olli heimsspekingi þessum mikils harms, og spillti jafnvel heilsu hans.

Vjer höfum áður drepið á það, hve mikla ástundun hugvitsmenn og iðnaðarmenn opt hafi haft. Það var álit manna að hinn mikli náttúrufræðingur Buffon væri gáfutregur, meðan hann var ungur. Hann var þar að auk latur og átti nógar eigur; þótti því líklegt, að hann mundi leggjast í leti og óhóf. En hann áleit tímann dýrgrip, og sá að hann eyddi miklum tíma með því að fara seint á fætur, og vildi venja sig af því. Tók hann það ráð, að hann lofaði þjóni sínum, en Jósep hjet, einum ríkisdal fyrir hvern þann dag, er hann gæti komið sjer á fætur fyrir miðjan morgun. Buffon neitaði í fyrstu að fara á fætur, þó Jósep vekti hann, og vildi klæða hann. Tók Jósep þá að reka hann upp úr rúminu með harðri hendi, hversu sem hann andvarpaði og hótaði að reka Jósep úr vistinni. Einn morgun var Buffon tregur venju fremur, tók Jósep þá það úrræði, að sækja skál með köldu vatni og hella undir yfirsængina. Loksins vandist hann á að fara snemma á fætur og fyrir þá sök sagði Buffon síðar að Jósep ætti 3 eða 4 bindi í hinni miklu náttúrusögu, er hann samdi. Buffon ritaði náttúrusögu sína ellefu sinnum áður en honum líkaði hún, og hafði hann þó hugsað um hana í 50 ár.

Hið mikla söguskáld Walter Scott fylgdi föstum reglum

í öllum háttum sínum, og fyrir þá sök gat hann afkastað að rita svo mikið. Hann fór ætíð á fætur kl. 5, klæddi sig og rakaði, og var seztur við skrifborð sitt kl. 6. Þar voru skjöl hans í röð og reglu, en bókum hans hlaðið hjá honum á gólfinu. Með óþreytandi iðjusemi aflaði hann sjer sjaldgæfrar þekkingar. Alt fyrir það sagði hann á efri árum sínum: »alla æfi mína hefi jeg fundið fákænsku mína«. Slíkt er sannur vísdómur og sönn auðmýkt, því menn stæra sig því síður sem menn vita meira. Grunnhyggnir menn, sem þefa ofaní margt, en vita ekkert til hlítar, geta stært sig, en hinir vitru játa, »að þeir viti það eitt, að þeir viti ekkert til hlítar«, eða eins og Newton komst að orði: »að þeir hafi leikið sjer að, að safna skeljum í fjörunni, en þekki ekki haf sannleikans«.

Lífsskeið Samúels Drews var fagurt dæmi þols og ástundunar. Faðir hans var verkmaður á Englandi; ljet hann Samúel í skóla, en hann nennti ekki að læra neitt. Þegar Samúel var 8 vetra, var hann látinn í tinnámu og vann hann þar fyrir 6 skildíngum á dag. Þegar hann var 10 vetra, var honum komið fyrir hjá skósmið, og þoldi hann þar margt illt. Hann hugsaði opt um að strjúka og verða víkingur og varð því ódælli sem hann eldtist meira. Þegar hann var um tvítugt, ætlaði hann fram á skip um nótt til að kaupa vörur tolllaust. En bátnum hvolfdi og drukknuðu sumir er á voru, en Samúel gat synt til lands og var þó nær dauða en lífi, er á land kom, því snjór var á og frost. Um sömu mundir dó bróðir hans og varð hann af hvorutveggju þessu alvarlegri og ljet af ódælskuverkum og tók að skara eins framúr í hinu góða og hann áður hafði gjört í hinu illa. Hafði hann alveg gleymt því, er hann hafði lært, að lesa og skrifa, en tók nú í ákafa að læra sjálfur. Hann segir sjálfur svo frá: »því meira sem jeg las, því ljósar sá jeg fávizku mína; jeg las meðan jeg var að borða, jeg las þegar jeg gat«. Fór hann nú að sjá sjálfur fyrir sjer, og tók þá föstu reglu, að vera aldrei í skuld; hann fór heldur að sofa án kveldverðar en að fara á fætur skuldugur. Las hann nú margar bækur í stjörnufræði, sagnafræði og heimspeki. Jafnframt gaf hann sig mjög við stjórnfræði, og var hús hans þessvegna opt fullt á daginn, og varð hann fyrir þá sök að vinna á nóttunni. Þá er hann einhverja nótt var að vinna að skósmíði, kom sveinn nokkurr að húsi hans, lagði munninn við skráargatið og kallaði inn: skósmiður, skósmiður, þú vinnur á nóttunni, en slæpist á daginn«. Vinur Samúels, er hann sagði sögu þessa, sagði við hann: »barðirðu ekki strákinn«? »Nei«, sagði Samúel; »jeg hætti að vinna og sagði við sjálfan mig: það er satt, það er satt, en þú skalt ekki geta sagt það

um mig optar. Rödd þessi kenndi mjer, að geyma það ekki þangað til á morgun, sem á að gjörast í dag«.

Upp frá þessu hætti Samúel við stjórnfræði, en stundaði iðn sína. Hann las framan af í eldhúsinu hjá konu sinni, og skrifaði á belg þeim, sem hún bljes upp eldinn með. Með ástundun þessari varð hann ekki einungis vel efnaður, heldur samdi mörg ágæt rit, svo sem »um ódauðleik sálarinnar«. Rit þetta hefir verið prentað ótalsinnum, og er enn í miklu afhaldi.

## Auðæfi.

Farðu eigi gálauslega með efni þín;
auðæfi eru mannorð.
*E. Bulwer Lytton.*

Vit mannsins kemur kannske ljósast fram í því, hvernig hann fer með efni sín, hvernig hann dregur þau saman og hvernig hann ver þeim. Þó efnin verði engan veginn talin aðalákvörðun lífsins, þá eru þau eigi svo lítils virði, að vjer megum fyrirlíta þau. Hverr maður hefir rjett til að gjöra stöðu sína eins geðfelda og hann getur með sæmilegum meðölum. Góð staða gjörir oss óháða öðrum mönnum og hinu ytra, og er þannig nauðsynleg til þess, að hinn betri hluti veru vorrar geti þróast og notið sín; virðing sú, sem aðrir menn bera fyrir oss, er að miklu leyti komin undir því, hve vel vjer notum tækifæri þau, er oss bjóðast til að komast áfram. Áreynslan, sem þarf til þess að komast áfram, er oss nauðsynleg; hún styrkir traust vort á sjálfum oss, kennir oss þolinmæði, gefur oss þol. Jón Sterling hefir rjett að mæla er hann segir: »hið lakasta uppeldi, sem kennir að láta á móti sjálfum sjer, er betra en hið bezta, sem kennir allt annað, en ekki það, að láta á móti sjálfum sjer«.

En það að láta á móti sjálfum sjer, að hafna stundar ánægju til að öðlast ókomin gæði, er eitt af því, sem menn vilja síst læra. Það væri líklegt, að þær stjettir, sem verða að vinna mest, kynnu að meta auðæfi þau, sem þær vinna sjer inn, og þó verða margir þeirra þurfamenn hinna sparsömu, af því þeir eyða því sem þeir ávinna jafn óðum. Þeir eru margir, sem gætu haft nægileg efni og verið öðrum óháðir, en þeir hirða ekki um að vera meira en eina dagleið á undan skortinum, og þessvegna nær hann þeim undir eins og lítið óhapp ber að hendi. Jón Rússell sagði einu sinni við nefnd manna, er kom til hans til að kvarta undan skatti, sem lagður hafði verið á verkmenn: »Þjer getið verið vissir um, að stjórn þessa lands leggur aldrei skatt á verkmenn, er jafnist við þann skatt, sem þeir sjálfir leggja á sig

með ofnautn ölfanga og óþörfum skemmtunum.« Og ekkert er athugaverðara en þetta.

Margir sómamenn hafa dregið saman fje í þeim tilgangi að gagna ættjörð sinni, og er sá tilgangur heiðarlegur. Hjer má minnast á einn sænskan mann er hjet Jónas Alström; hann var fæddur 1685 og fór til Englands á unga aldri bláfátækur, en dró þar með starfsemi og atorku saman mikið fje, en ávallt hafði hann það í huga, að gagna með því ættjörð sinni. 1715 ferðaðist hann um Svíþjóð til að kynna sjer landið, og síðan um Holland og Þjóðverjaland til að afla sjer þekkingar. 1723 yfirgaf hann þá álitlegu stöðu, sem hann hafði á Englandi, og flutti til Svíþjóðar með allar eigur sínar. Settist hann að í þorpi því, sem hann var fæddur í; þar voru þá 300 íbúar. En er hann dó, 1761, var þorpið Alingaas orðið bær með 18,000 íbúum, svo mjög hafði hann eflt það með verksmiðjum og allskonar verknaði.

Samúel Drews sagði: »forsjálni og sparsemi eru ágætar vinnusystur til að ljetta óári; það fer lítið fyrir þeim í hýbýlum manna, en þær veita drjúgari styrk en flest annað«. »Sá, sem vill endurhæta heiminn, verður fyrst að taka sjálfum sjer fram«, sagði Sókrates. En það er miklu auðveldara að tala um að endurbæta þjóðina, en að venja sig af óvana, og þessvegna er það almennara.

Allir þeir, sem eigi hugsa hærra en að lifa til að lifa, verða öðrum háðir, þeir eru bráð tímans og hreytinganna. Cobden sagði við verkmenn nokkra á Englandi: »mennirnir hafa ætíð skiptst í tvo flokka — þá sem hafa sparað og þá sem hafa eyðt — hina starfsömu og hina eyðslusömu. Dugnaðarmennirnir hafa hyggt húsin, mylnurnar, hrýrnar og skipin, og unnið öll stórvirki, þeir hafa menntað mannkynið, en þeir sem hafa eyðt eigum þeirra, hafa verið þrælar þeirra.« Bright gaf þetta einfalda ráð: »sá sem vill varðveita kjör sín, ef þau eru góð, eða bæta þau, ef þau eru erfið, verður að vera iðinn, sparsamur og ráðvandur; það er óhult ráð«.

Menn hafa sagt, at allir alþýðumenn gætu verið eins siðaðir, menntaðir og efnaðir og sumir þeirra eru; í þessu eru mikil sannindi. Allir eiga að geta orðið líkir því, sem sumir eru, ef þeir hafa sömu aðferð. Hverr maður hefir í sjer frummynd mannlegrar fullkomnunar. Eigur, sem ráðvandlega eru saman dregnar, eru vottur um þolna ástundun og óþreytandi áreynslu, yfirhugaðar freistingar og launaða von, og sje þeim rjett varið, bera þær vott um hyggindi og athuga. Eigurnar eru fótfesta til að standa á, þaugað til hetur lætur. Sá sem ávallt liggur við skorti er aldrei langt frá ánauð. Hann er aldrei herra sjálfs sín,

en ávallt í þeirri hættu að komast á vald annara, og verða að sæta þeim kostum, sem þeir setja. Að vera sparsamur er þar á móti hin beinasta leið til þess að vera óháður öðrum; og allir hafa nóga hæfilegleika til þess. Sparsemin er regla í hússtjórninni, og felur í sjer dugnað, nákvæmni, forsjálni og ráðdeildarsama hagnýtni efnanna. Vor guðlegi meistari kenndi oss sparsemi með þessu boði: »safnið leifunum, svo ekkert spillist«. Hann vildi kenna oss, að fyrirlíta ekki smámuni. Hjá þeim sparsama hefir skynsemin unnið sigur yfir hinum dýrslegu hvötum. Sparsemin er allt annað en ágirnd; því hinn sparsami hefir efni á að vera göfuglyndur. Hann gjörir eigi auðinn að átrúnaðargoði sínu, heldur notar hann eins og nytsamt meðal.

Hve mikið má gjöra með litlum efnum, getum vjer sjeð af dæmi hins enska manns Tómasar Wrights. Hann var verkmaður í járnsteypuhúsi. Af tilviljan sá hann hve aum að voru kjör þeirra glæpamanna, er lausir voru látnir, og ásetti hann sjer að bæta kjör þeirra. Hann varð að vinna að járnsteypunni 12 stundir á hverjum degi, en varði nokkrum mínútum í þarfir glæpamanna, og með alúð þessari og reglu tókst honum á 10 árum að hamla 300 glæpamönnum frá að halda áfram að drýgja glæpi. Hann lagaði mörg óstýrilát börn, svo þau urðu siðsöm og hugþekk foreldrum sínum. Hann veitti þeim mönnum, sem hrasað höfðu, eigi alllítinn styrk og ól þó sómalega önn fyrir konu og börnum. Á viku hverri skipti hann launum sínum og ákvað, hverju verja skyldi til heimilisins, hverju fyrir fátæka, og hvað leggjast skyldi fyrir til að geymast elliárunum, og skiptum þessum var aldrei haggað.

Það er hægra að minnka útgjöldin en auka tekjurnar. Lítið fje, sem eyðt er að ónýtu, gæti opt verið grundvöllur velmegunar. Ohófsmenn eru hinir skæðustu fjendur sjálfra sín, og þó tala þeir optast um ranglæti heimsins. Tómur poki getur ekki staðið upprjettur, skuldugur maður verður opt að leita undanbragða og grípa til ósanninda og að síðustu bætist opt skuld á skuld ofan og ósannindi á ósannindi ofan.

Menn hafa opt rætt og ritað um þann leyndardóm að safna fje, en það er enginn leyndardómur. Hver þjóð heimsins hefir málshætti, sem kennir það, hverjum þeim sem veitir þeim eptirtekt. »Sparaðu skildinginn, þá kemur dalurinn, þú átt svo fátt, af því þú nýttir eigi smátt«. »Ástundun er móðir lukkunnar«. »Leitaðu og munt þú finna.« »Heimurinn en opinn þeim, sem hafa ástundun og þol«. »Það er betra að hátta án kveldverðar en að fara á fætur skuldugur«. Þetta er speki þjóðanna, byggð á reynslu þeirra um allar liðnar aldir; hún lifði hjá þjóðunum áður en bækur voru skrifaðar og var eins og aðrir orðskviðir hin fyrsta

regla þjóðanna. Í orðskviðum Salómons er víða talað um iðni og ástundun, um rjetta og ranga brúkun á efnum. En um fram allt, »vísdómur er betri en gull; því vísdómur er betri en rúbínar og allt sem menn geta kosið sjer getur eigi jafnast við hann«.

Ekkert er algengara en það, að menn neyta allrar orku að safna fje án þess að hafa nokkurn tilgang, annan en að hrúga því saman. Til þess þarf eigi mikið vit; það verður að takast hverjum þeim, sem gefur sig allan við því. Eyddu minna en þú ávinnur; bættu ríkisdal við ríkisdal. Hinn frakkneski auðmaður Östervald var í fyrstu bláfátækur. Hann byrjaði gróða sinn á því, að halda saman töppum úr ölflöskum, sem hann fekk á veitingahúsi. Í átta ár var hann búinn að safna svo mörgum töppum, að hann fekk fyrir þá 72 dali. Tappa verð þetta varð hans auðstofn og þegar hann dó átti hann eina millíón ríkisdala. Ef þeir menn, sem hafa svona sterkan vilja, hefðu æðri tilgang en að safna, þá gætu þeir gjört mikið gott. Það er heiðarlegt að safna til þess að vera ekki annara byrði í ellinni, en það er auðvirðilegt, að safna eingöngu fyrir auðæfanna sakir; það er háttur hinna ágjörnu. Ástríða þessi eykst með ellinni, svo sá, sem er sparsamur í æskunni, getur orðið ágjarn, er hann eldist, ef hann eigi gætir sín. Verður þá dygðin að lesti. Það er elska auðæfanna, en eigi auðæfin, sem er rót alls ills; sú elska dregur hjartað saman og lokar því fyrir öllum háleitum tilfinningum og verkum. Þessvegna segir Walter Scott, að peningarnir deyði fleiri sálir, en sverðin deyði líkami.

Menn meta almennt auðæfi of mikils; hin mestu verk, sem unnin hafa verið í heiminum, hafa eigi verið unnin af auðmönnum, heldur optast af litlum efnum. Kristin trú var boðuð af fátækum mönnum, og flestir spekingar, hugvitsmenn og listamenn hafa verið fátækir og af lágum stigum. Og þetta er eðlilegt. Auður hindrar opt meira en hann eflir, hann getur eins verið ógæfa og gæfa; hinn auðugi er opt í andlegum doða, og staða hans í mannlífinu er þá ei æðri en dýra þeirra, sem geta ekki hreift sig.

Hinir mestu menn hafa sterkan vilja, mikla reynslu og hreint siðferði. Til að öðlast þetta er það nauðsynlegast, að yfirbuga eina freistingu; því fast áform sem einusinni er framkvæmt, styrkir í öllu lífinu. Ef vjer yfirbugum freistinguna optar, þá verður það að vana, en í vígi vanans getum sjer bezt varist hinu illa. Góður vani ræður mestu í hinum litlu atvikum lífsins, sem eru meiri hlutinn af hinni siðferðislegu hegðan manna.

## Að mennta sig sjálfur.

Þeim sem lætur hugfallast, sem bognar fyrir storminum, verður ekkert ágengt. Hinn sem vill sigra, megnar allt.

*Jón Hunton.*

Walter Scott segir, að það sem vjer menntum oss sjálfir, sje bezti hluti menntunar vorrar. Skólamenntunin er byrjun, og hinn bezti kostur skólanna er sá, að þeir veita tækifæri til að menntast og venja á ástundun og reglusemi. Það sem aðrir kenna oss, verður aldrei eins sönn eign vor, eins og það, sem vjer lærum af eigin ramleik, með ástundun og áreynslu. Hinir beztu kennarar leggja mesta stund á að kenna lærisveinum sínum að mennta sig sjálfir.

Menn geta menntað sig sjálfir; það sýnir líf hins enska ritstjóra Giffords. Hann var fæddur 1755. Faðir hans var að vísu af góðum ættum, en hann sóaði öllum eigum sínum og spillti heilsu sinni, því hann var óreglumaður. Hann dó á unga aldri, og kona hans skömmu síðar. Þau ljetu eptir sig 2 sonu, og var Gifford hinn eldri þeirra; hann var á 13 ári er foreldrar hans dóu. Þeir bræður áttu engan að. Bróðir Giffords fór á sveitina, en guðfaðir hans, er Karlile hjet, og hafði tekið það sem móðir þeirra bræðra átti, undir því yfirskyni, að hann hefði átt hjá henni, tók Gifford í hús sitt. Ljet hann Gifford fyrst í skóla, en er 3 mánuðir voru liðnir, tímdi hann eigi að gefa lengur með honum og tók hann heim til að plægja. En Gifford hafði meitt sig, svo hann gat það ekki, og var nú ákvarðað, að hann skyldi fara til Nýfundualands og verða þar búðarsveinn; en er til kom, þótti hann of lítill vexti. Nú átti að láta Gifford á fiskibát, en það varð úr að hann var látinn á þilskip, er fór með landi fram. Á skipi þessu átti hann mjög erfitt, en það þótti honum lakast að hann hafði þar enga bók. Honum þótti sem hann væri afhrak heimsins, sem allir hefði útskúfað. En konur nokkrar, er höfðu þekkt foreldra hans, aumkuðust yfir þenna litla svein, er þær sáu hann koma á land og hlaupa í fjörunni í bættri treyju og rifnum buxum, og neyddu þær guðföður hans til að taka hann af skipinu og láta hann í skóla. Tók hann þá svo miklum framförum að hann varð brátt efstur í skólanum og gat stundum hjálpað kennara sínum í reikningi. Kom honum þá til hugar, að taka við kennslunni af kennara sínum, er þá var hniginn á efra aldur. En er hann sagði guðföður sínum frá ætlun þessari, sýndi hann honum fyrirlitning, og kvað hann hafa lært nóg í skóla og kvaðst nú hafa ráðið hann til vistar hjá skósmið, er væri svo góður að taka við honum meðgjafarlaust. Gifford datt allur ketill í eld við fregu þessa og fór hann kjarklaus og

þegjandi til meistara síns; átti hann að vera hjá honum í 6 ár. Til þessa hafði Gifford eigi lesið neitt; honum hafði aðeins verið ljeð biblían. Honum var mjög illa við handiðn sína, og tók hann því litlum framförum, enda var hann í mjög litlu áliti, og dró allt þetta úr honum. Samt hafði hann enn í huga að verða skólakennari, og tók hann sjer því fram í öllum tómstundum sínum. En er meistarinn komst að því, til hvers hann notaði tómstundirnar, gaf hann honum enn minna tóm; komst Gifford að því, að það var fyrir þá sök, að meistarinn ætlaði syni sínum hið sama kennaraembætti og Gifford vildi ná í.

Sú eina bók, sem Gifford átti nú, var reikningsbók, er stúlka nokkur ung hafði fundið og gefið honum. En bók þessi var svo þungskilin, að hann hafði ekki not af henni. Hann vissi, að sonur meistarans hafði keypt auðvelda kennslubók, en hann faldi hana, svo Gifford hefði eigi not hennar. Gifford gat þó náð henni og var búinn að læra hana, áður en sonur meistarans vissi af. Nú gat hann haft not af hinni bókinni, en enginn var penninn, ekkert blekið og enginn pappírinn. Eitt ráð var til, en það þurfti mestu varkárni til að nota það, það var að hafa leðurpjötlur í pappírsstað og alinn í stað penna og draga með honum myndirnar á leðrið; þetta ráð tók Gifford og reiknaði í huganum.

Nú varð sá atburður, að hann sá nokkur erindi í ljóðum, sem kunningi hans hafði gjört; var það í fyrsta sinn, að hann sá kveðskap; tók hann nú að yrkja og las upp ljóð sín fyrir lagsbræðrum sínum, og þóttu þau góð. Skutu sveinarnir þá stundum saman nokkrum skildingum og gáfu honum. Eitt kveld urðu samskotin svo mikil, að hann fekk 24 skildinga; slíka peningahrúgu hafði Gifford aldrei fyrri sjeð. Hann orkti nú í ákafa og keypti penna, pappír og reikningsbækur fyrir fjeð. En þetta átti eigi að standa lengi. Meistari hans komst að þessum kveðskap hans og varð afarreiður, einkum af því, að hið unga skáld hafði látið háðyrði falla um meistarann og kunningja hans. Tók meistarinn nú bækur hans allar og brjef, og bannaði honum að hafa yfir nokkurt erindi. Um sömu mundir dó skólakennarinn, og var embættið veitt öðrum, er var miður hæfur en Gifford. Nú misti Gifford allan kjark, sálarfjör hans dofnaði, og hann varð önugur í lund og móðgaði þá hina fáu, sem aumkuðust yfir hann.

En er leið nær þeim tíma, að hann gæti vonað að losna frá skósmiðnum, vaknaði von hans aptur. Læknir, er Kvakesley hjet, hafði heyrt sumt af kveðskap Giffords, aumkaðist yfir hann og safnaði hjá vinum sínum fje til lausnar honum og til að koma honum í skóla. Tók hann þar brátt miklum framförum, og varð því kostgæfnari sem velgjörðamenn hans styrktu hann meira.

Styrktu þeir hann til bóknáms við háskólann í Öxnafurðu og varð hann mikill vísindamaður, þegar stundir liðu fram (Gifford andaðist á gamlársdag 1826).

Heppni í lífinu er meira komin undir góðri heilsu en menn opt ætla. Vitur maður hefir sagt, að líkaminn eigi ekki minni þátt í frægð manna en sálin; að minnsta kosti þarf góða heilsu til að þola mikla áreynslu; það þarf því að efla líkamann til þess andinn geti þroskast. Hreifingarleysi líkamans er orsök þess, að ungir námsmenn verða óánægðir og þunglyndir, og fyrirlíta hið verulega líf. Líkaminn þarf áreynslu jafnframt sálinni. Menn geta styrkt líkamann með vinnu þó menn læri, og menn geta menntað andann, þó menn vinni.

Hið enska skáld Chatterton segir: »guð hefir sett skepnur sínar í heiminn og gefið þeim handleggi, sem eru nógu langir til að ná öllu, ef þeir vilja hafa fyrir að rjetta þá frá sjer«. Undir því er allt komið í lífinu, að rjetta út handlegginn; það á ekki einungis að slá járnið, meðan það er heitt, heldur einnig þangað til það verður heitt. Verkin eru ávöxtur tíma og erfiðis, og verða ei framkvæmd með áformum einum. Ekkert er svo auðvelt, að það sje eigi erfitt fyrst framan af, ekki einu sinni það að ganga.

En það er eigi einhlítt að hafa sterkan vilja, menn verða líka að gæta þess, að hann beinist ei að of mörgu. Sá sem vinnur eitt verk rækilega í senn, vinnur mest. Meðan Gyndes fljótið rann í einum farvegi, stöðvaði það heilan her, en þegar því var skipt í 360 skurði, gat kona vaðið það. Einn frægur enskur lögfræðingur segir svo frá námi sínu: »jeg lærði til hlítar það sem jeg lærði; jeg byrjaði aldrei á öðru, fyrr en jeg var búinn með hið fyrra. Margir lásu meir á einum degi, en jeg á viku; en er ár var liðið höfðu hinir aðrir gleymt flestu, en jeg engu«. Það er ekki nóg að hafa bækur og geyma vísdóminn í þeim; hin nytsama þekking verður að vera hjá oss sjálfum, svo vjer getum gripið til hennar, nær sem þarf.

Til að taka sjer fram verða menn að vera einbeittir og fljótir; hinir ungu öðlast það með því að hafa mikið frelsi og venjast á að treysta mætti sínum. Helmingur af fyrirtækjum manna misheppnast fyrir þá sök, að menn taka í taumana, þegar hesturinn á að stökkva. Margir tæla sjálfa sig með því að bæta við einni tölu, er þeir meta sig sjálfa; slíkt er heimska, en hitt er eigi síður skaðlegt og tálmar öllum framförum, að vantreysta sjálfum sjer um of. Það er eigi svo lítið framkvæmt í heiminum af því, að menn haldi, að menn megni mikið, heldur af hinu, að menn reyna svo lítið.

Flestir menn hafa óljósa löngun til að verða miklir, en þeir

vilja eigi greiða verðið, en það er: mikil áreynsla. Þekking sú, sem vjer öðlumst með því að leika oss að bókmenntum, styrkir ekki andann, heldur deyfir hann. Ef vjer viljum vera vitrir, verðum vjer að vinna með krapti; ekkert sem er mikils virði, fæst með öðru en áreynslu. Skáldið Gray segir: »að vera í önnum, það er að vera sæll«, og annar frægur rithöfundur segir: »það er betra að slitna af brúkun, en að eyðast af ryði«. Ekkert getur gjört oss virðingarverða annað en það, að vjer verjum vel hæfilegleikum vorum. Gáfumaður, sem ver illa gáfum sínum, er eigi virðingarverðari en auðmaður sá, sem fer illa með auð sinn. Hann getur safnað þekkingu, en þekking getur varnað frá glæpum, en eigi frá löstum. Það geta að eins meginreglur og vani. Þess vegna eru þess mörg dæmi, að menn, sem hafa mikla þekkingu, eru spilltir. Þeir eru lærðir, en eigi vitrir. Þekkingin gjörir spillta menn enn voðalegri.

Hinir mestu menn hafa minnst tekið sjer fram með því að lesa, mest með því að hugsa og athuga. Og hvað er það, sem vjer lesum annað en það, sem aðrir hafa hugsað og athugað? Lestur góðra bóka gjörir þó námið miklu auðveldara; vjer getum þannig á stuttum tíma komizt að því, sem aðra hefir kostað margra ára fyrirhöfn. Margir lesa aðeins til að stytta sjer stundir, en slíkur lestur leiðir ekki til neins góðs.

Það varðar eigi mestu, hve mikið menn vita, heldur hinu, í hvaða tilgangi menn vita, og tilgangurinn á ætíð að vera sá, að menn gjöri sig hæfari til að ná hinu æðra takmarki lífsins. Það er ekki nóg fyrir oss, að lesa og hugsa um, hvernig aðrir hafi verið; vjer verðum að vera og breyta sjálfir. Hugmyndir vorar eiga að verða að hugsunum og hugsanirnar að verkum.

Sá sem skoðar sjálfan sig einsog skepnu, sem er í guðs mynd, ödlast von og trú, og sá sem hefir óbifanlega trú, megnar mikils. Sá sem virðir sjálfan sig, niðurlægir eigi líkama sinn með holdlegum fýsnum, nje sálu sína með auðvirðilegum hugsunum; hann veit, að hann syndgar á móti guði og mönnum með því að ónýta líkama sinn og sálu. Skáldið Milton segir, að hæfileg virðing fyrir sjálfum sjer sje aðalrót allra loflegra verka. Sá sem óvirðir sjálfan sig, verður óvirtur af öðrum. Vjer getum ekki keppst eptir neinu háu meðan vjer horfum niður. Menntanin verður eigi ætíð til tímanlegra hagsmuna, en sá sem menntaður er, hefir ætíð þau not menntunarinnar, að hinar miklu hugsanir eru ætíð í sálu hans hvar sem hann fer.

Eintóm störf og engin skemmtan gjörir hinn unga daufan; en eintóm skemtan og engin störf gjöra hann spilltan. Sá sem eigi gjörir annað en að leika sjer í æskunni, hefir ástæðu til að segja eins og Mirabeau, er hann eldtist: »æsku ár mín hafa

svipt fullorðins árin arfinum, þau hafa eyðt þeim kröptum, sem jeg nú átti að brúka«. Fáir menn hafa haft betri gáfur en hinn frakkneski maður Benjamín Constant, en hann var orðinn spilltur um tvítugs aldur og þessvegna varð líf hans harmakvein, í stað þess að hann hefði getað unnið hin mestu verk. »Jeg geng«, sagði hann, »eins og skuggi um jörðina; eymd og leiðindi eru förunautar mínir.« Hann vantaði siðferði, þessvegna vantaði hann krapt, og hann dó í eymð.

Það er eigi hóglífi, heldur áreynsla, það er ekki meðlæti, heldur mótlæti, sem gjörir menn mikla. Það er kannske engin staða í lífinu án erfiðleika, en erfiðleikarnir eru hinir beztu meistarar. Hinn enski stjórnvitringur Fox sagðist vonast eptir meiru af þeim manni, sem misheppnaðist í byrjuninni, en af hinum, sem tækist allt frá upphafi. Það er hægra að læra vísdóm af yfirsjónum en af heppni. Margir hugvitsmenn hafa sagt, að þegar þeir mættu hinum mestu tálmunum, hafi þeir verið næst takmarkinu. Flest það, sem mest er í varið, er orðið til í neyð, hugsað í hrygð og stofnað með erfiðleikum. Mótlætið er stigi sem leiðir til himins, segir gamalt orðtak, svo er það og í jarðneskum efnum. Rómverjar biðu framan af því nær ætíð ósigur. Sá sem finnur styrk hjá sjer, óttast ekki mótspyrnuna.

Ef skjaldbakan fer rjetta leið, þá verður hún á undan veðreiðamanninum, sem villist. Foreldrum ber því eigi svo mjög að hugsa um að börn þeirra verði sem fyrst fræg, eins og um hitt, að hugsanir þeirra fái rjetta stefnu. Styrktu sálar og líkams krapta hins unga, kenndu honum að vera ástundunarsamur og þolinn, og taka sjer fram sjálfur.

## Störf — Eptirdæmi.

Sá, sem eigi er uppalinn til starfa, heyrir til hinum óæðri hluta heimsins.
*Owen Feltham.*

Margir heimskingjar hafa haldið, að gáfumenn yrðu að vera ónýtir starfsmenn, og að starfsemi spilli gáfum. En sagan hrekur villu þessa. Thales, hinn helzti af hinum 7 vitringum, Sólon og Hyperides voru allir verzlunarmenn. Spinoza spekingur fægði gler, Newton var yfirmaður peningasláttu. Skáldin Wordsworth og Walter Scott fengust báðir við dagleg störf. Starfsmenn þurfa að hafa dugnað, þrek, vit, og mannþekkingu; þeir þurfa jafnan að taka sjer fram og læra af reynslunni, og má þar af ráða, að þeir eru í góðum skóla. Að halda að þeir, sem eigi hafa verksvit, sjeu ofvita, eða hafi of mikið vit, er heimska mikil.

Menn mega varast, að gjöra oflítið úr dæmum. Þau tala orðalaust. Reglur sýna oss leiðina, dæmin leiða oss fram á hana,

og sá sem gefur þessa reglu: gjörðu eins og jeg segi, en ekki eins og jeg gjöri, hann mun reyna það, að menn breyta gagnstætt þessu boði. Öllum mönnum er ljúfara að læra með augunum en með eyrunum, og sjón er sögu ríkari. Einkum á þetta við bernskuna; börnin hafa það ósjálfrátt eptir sem þau sjá, og líkjast þeim, sem þau eru samvistum við. Hverjum manni ber því að gæta þess, að hvað sem hann gjörir rangt, það gjörir hann á móti börnum sínum og heimili, og sjer hvert heimili er einn hluti mannlífsins; frá heimilinu sprettur illt og gott; þaðan sprettur vaninn, hugsanirnar og frumreglurnar, sem koma fram í lífinu. Þjóðirnar koma úr barnaherberginu, og almenningsálitið fæðist optast á heimilunum. Ástin á heimilinu verður að vera rót ættjarðarástarinnar og mannástarinnar.

Það er tignarleg hugsun, að hvert orð sem vjer tölum og hvert verk sem vjer vinnum, getur haft afleiðingar, sem vjer getum eigi sjeð fyrir endann á. Gott orð og gott verk getur lifað, þótt vjer veitum því eigi eptirtekt, en því er eins varið með hið illa, og enginu er svo þýðingarlítill, að hann getið verið viss um, að dæmi hans gjöri hvorki illt nje gott. Andi hins einstaka deyr ekki, hann hefir áhrif á ókomnar kynslóðir.

Enginn er útaf fyrir sig í heiminum; hverr einn leggur sinn skerf í hina miklu heild, og eykur eða minnkar gildi hennar eptir því sem atbæfi hans er gott eða illt. Tíminn sem er að líða, á rót sína í enum liðna tíma, og líf forfeðra vorra og dæmi hefir áhrif á oss; vjer höfum einnig áhrif á þá, sem á eptir oss koma. Mannkynið er ávöxtur, sem þróast hefir af áhrifum hinna liðnu alda, og frá kynslóð þeirri, sem nú lifir, rennur straumur um ókomnar aldir. Líkami mannsins eyðist, en verk hans vara.

Ljós það, sem lágt er sett, getur logað eigi síður en það sem sett er hærra. Hinn minnsti kofi getur verið gróðrarstía þekkingar og siðgæðis, eins og heimsku og spillingar. Allt er komið undir hinum einstöku mönnum og því hvernig þeir nota þau tækifæri, sem bjóðast til þess að gjöra það, sem gott er. Það er gott að geta sagt eins og skáldið Pope, er hann svaraði gisi Hervegs lávarðar: »jeg held það nægi, að hvernig sem foreldrar mínir voru, þá hef jeg aldrei þurft að blygðast mín þeirra vegna, og hvernig sem jeg er, þá hafa þeir aldrei þurft að harma mín vegna«.

Jón Pound, sem var fátækur maður, og lifði af því að bæta skó, sýnir hve miklu góðu fátækur maður getur komið til leiðar í mannfjelaginu. Hann aumkaðist yfir þau hin mörgu börn, sem prestar og yfirvöld, æðri menn og lægri yfirgáfu, sem enginn annaðist, og enginn kenndi neitt. Hann safnaði þeim hverju af

öðru í kofa sinn, ól þau upp, menntaði þau og kenndi þeim guðs ótta og góða siði. Margsinnis mátti sjá hann elta einhvern tötrapiltinn til þess að neyða hann til að koma í skólann, og opt hafði hann matarbita í hendinni til að lokka til sín börnin. Á þenna hátt frelsaði hann eigi færri en 500 vesæl börn frá glötun. Þegar sá dagur kemur, er hverr fær eptir sínum verkum, munu slíkir fá meiri heiður, en margir þeir, sem lof hefir verið sungið um í þessum heimi; því »það sem þjer gjörðuð einum af þessum minnstu bræðrum mínum, hafið þjer gjört mjer«.

Að gefa góðar áminningar, en illt dæmi, er að byggja með annari hendinni, en rífa niður með hinni. Þessvegna er það áríðandi, að vjer sjeum varkárir, er vjer kjósum þá, sem vjer höfum umgengni við. Sá sem opt er samvistum við spilltan mann, getur naumast komist hjá því að verða smátt og smátt líkur honum, því »hverr dregur dám af sínum sessunaut«. Vjer komum að hinu leytinu aldrei svo nálægt hinu góða, að vjer ei höfum gott af og hljótum blessun. — Dæmi hinna hraustu gjörir hina hugdeigu hugdjarfa; þessvegna hafa meðalmenn opt unnið stórvirki undir forustu ótrauðs yfirforingja.

Það er fróðlegt og gagnlegt að lesa æfiágrip góðra og mikilla manna. Andi þeirra hefir áhrif á oss, er vjer lesum um verk þeirra og heyrum orð þeirra. Cotton Mathers hafði ritað bók, er hafði þann titil: »Reyndu að verða að notum«; var í bók þessari lýst aðferð sjálfs hans; Franklín sagði, að allt það gagn, sem hann hefði gjört og öll sú upphefð, sem hann hefði öðlast, væri því að þakka, að hann hefði lesið bók þessa ungur. Og Samúel Drews segist hafa tekið líf Franklíns sjer til fyrirmyndar. Á þessu getum vjer sjeð, hversu eptirdæmin verka í langri röð. Þess vegna ber mönnum að kjósa hinn besta fjelagskap eigi síður í bókum en í hinu daglega lífi, lesa hinar beztu bækur og breyta eptir hinu bezta. Menn segja, að Lúter hafi fastráðið áform sitt að byrja siðabótina, er hann hafði lesið æfisögu Jóhannes Húss.

Naumast gæti neitt orðið meira ógæfuefni fyrir oss, en ef vjer gætum öðlast allar óskir vorar án fyrirhafnar; þá væri engin von, engin ósk og engin barátta. Það er eitt hið þarfasta, að hinir ungu læri að vinna með áhuga og ánægju. Ánægjan styrkir andann. Erfiðleikarnir hverfa, er vjer göngum móti þeim með von um að yfirbuga þá, og hugurinn hneigist að því, að nota hvert tækifæri, en hverr sem það gjörir, ber optast sigur úr býtum. Ekkert líf er þjáningarfyllra en það, að hafa enga hvöt til að starfa. Þegar greifinn af Spinola spurði Hóraz Vernet, úr hverju bróðir hans hefði dáið, svaraði Hóraz: »hann dó af því hann vissi ekki, hvað hann átti að gjöra«. »Já«, sagði Spinola, það

er nóg til að drepa oss alla«. Mönnum hættir opt við þeirri villu, að kenna öðrum mönnum ófarir sínar. Sumir álíta sig fædda til óhamingju, eins og maðurinn sem sagði, að hefði hann verið hattasmiður, þá mundu menn hafa tekið upp á því, að vera höfuðlausir. En óhamingjan er optast nágranni heimskunnar. Enskur maður, doktor Johnson, er kom til Lundúnaborgar með einn gullpening í vasa sínum, segir: »allar umkvartanir um heiminn eru ranglátar; jeg hefi aldrei þekkt ógæfu, sem eigi hafi verið manninum sjálfum að kenna«. Sjeu menn ekki einbeittir og starfsamir, þá verða mannkostir og góðir hæfilegleikar að ónýtu. Lukkan er eigi blind, en hún leitar eigi upp þá, sem sitja úti í horni aðgjörðalausir; menn verða að bera sig fram.

Ástundun er umfram allt móðir lukkunnar, en það er annar kostur sem eigi má gleymast, það er nákvæmnin, nákvæmni í athugun, nákvæmni í orðræðu, nákvæmni í framkvæmd verkanna. Menn gjöra opt of lítið úr kosti þessum. Sá sem er ónákvæmur og óvandvirkur, og gjörir allt af handa hófi, er aldrei áreiðanlegur; það verður að vinna verk hans upp aptur, og það er verra en óunnið. Það stendur ekki á sama hvort raðað er í ílátið eða kastað ofaní það, svo er um fleira. Frakkneskur ráðherra var spurður, hvernig hann gæti afkastað öllum störfum sínum; hann svaraði: »að eins með því að draga eigi til morguns það sem á að gjörast í dag. Letingjarnir og hinir óheppnu snúa þessu við. Þeir treysta mest á aðra, en áríðandi verk ber manni að vinna sjálfum. »Viljir þú fá verk þitt unnið«, segir orðtækið, »þá gjörðu það sjálfur; viljir þú að það sje óunnið, þá sendu aðra«.

Stund, sem menn daglega eyða í óþarfa eða leti, gæti, ef hún væri vel notuð, gjört hinn fákæna fróðan á fám árum, og væri henni varið til góðra verka, gæti hún gjört lífið ávaxtasamt. En af því menn verja tímanum illa, vefjast menn í umsvif og annir, og fálma útí loptið, og hitta þá fyrir sjer óheppnina. Nákvæmnin er skylda hvers manns og nauðsyn fyrir þann, sem starfar. Chesterfield lávarður sagði um aðalsmann, sem ætíð var í önnum, en kom þó engu til leiðar: »hans hátign eyðir einni stund á morgnana, og er að leita að henni allan daginn«.

## Sæmdarmenn.

Hve mikið að er varið í þjóðirnar fer eptir því, hve mikið að er varið í hvern einstakan.
*J. S. Mill.*

Sæmdarmaður er hin fegursta mynd mannlífsins. Sæmd er betri en auður, og aflar eigi öfundsýki. Sæmdarmenn eru eigi einungis meðvitund mannfjelagsins, heldur og afl þess; því það

eru kraptar siðferðisins, sem stjórna heiminum. Einnig í hernaði, sagði Napoleon mikli, er meira komið undir siðferðislegum kostum en líkamlegum. Afl og menntun þjóðanna myndast af því hvernig hinir einstöku eru að sjer gjörðir. Á hinum rjettvísu metaskálum náttúrunnar vega mennirnir og þjóðirnar eins og þær eru þungar til, og eigi meira, og framfarir þjóðanna fara eptir ásigkomulagi þeirra eins og verkunin eptir orsökinni. Þó hæfilegleikar sjeu eigi miklir, nje menntun, nje eigur, þá geta menn orðið til mikils góðs, ef skaplyndið er heiðarlegt. Hinn enski maður Granville Sharp sýndi ljóslega, hve miklu stöðuglyndur sæmdarmaður getur orkað. Hann var fátækur piltur í búð ljereptasölumanns þegar hann tókst á hendur að frelsa þræla í Englandi og afnema þrælasölu. Hann frelsaði marga þræla, sem illa var farið með. Einhverju sinni stefndi eigandi þrælsins honum og varð það tilefni þess, að hann las öll ensk lög þrælahaldi viðvíkjandi, og gat sannfært lagamenn um, að þrælasala væri eigi leyfð í enskum lögum. Mannást og göfuglyndi knúði hann áfram í þessu mikla verki.

Franklín eignar það eigi gáfum sínum eða mælsku, hve heppinn hann var, heldur ráðvendni sinni. »Það var ráðvendni mín«, segir hann, »sem gjörði mig svo mikils megnugan. Jeg var enginn málsnildarmaður, mig vantaði opt orð, og þó bar jeg optast sigur úr býtum«. Sannleiks ást, ráðvendni og góðsemi eru einkenni sæmdarmannsins. Sá sem hefir kosti þessa og óbifanlegan vilja, hefir hann krapt, sem ekki verður móti staðið. Hann hefir krapt til að gjöra hið góða, krapt til að veita mótstöðu hinu illa og krapt til að yfirbuga erfiðleika og þrautir. Þegar Stefán Kolonna fjell í hendur fjendum sínum, og þeir spurðu hann í skopi, hvar vígi hans væri nú, þá benti hann á hjarta sitt og sagði: »Það er hjer«. Í mótlætinu er ráðvendni og trú hið eina athvarf og hinn eini styrkur. Saga kristniboðanna er auðug af slíkum dæmum. Vjer skulum minnast á einn hinn helsta þeirra.

Franz Xaver var af góðum ættum á Frakklandi; honum stóðu opin öll þau gæði, sem heimur þessi hefir að bjóða, en hann sýndi, að það er annað æðra takmark til í heiminum en upphefð og auður. Hann var sannur heiðursmaður, hraustur, göfuglyndur, fús til að hlýða sjálfur og fær um að skipa öðrum, þolinmóður og einbeittur.

Þegar hann var tvítugur að aldri vann hann fyrir sjer með því að kenna heimsspeki við háskólann í París. Þar gjörðist hann vinur og fjelagi Loyola. En er Jóhann 3 Portúgals-konungur vildi innleiða kristna trú í löndum þeim, er hann eignaði sjer á Indlandi, var Xaver til þess kjörinn, að boða trúna. Hann ljet

gjöra við hina fornu hempu sína og lagði af stað á skipi til Indíalands, og hafði ekkert með sjer annað en bænabók sína. Á leiðinni kaus hann að sofa á þiljum uppi og hafði kaðla undir höfði sjer, hjálpaði hann skipverjum í öllum greinum, skemmti þeim og stundaði þá, er sjúkir voru. Þegar hann kom til Góa, hræddist hann spillingu manna, eigi síður nýlendumanna, en sjálfra landsmanna; því nýlendumenn höfðu innleitt lesti menntunarinnar, en eigi hennar kosti, og landsmenn voru fúsir að breyta eptir hinum verri dæmum. Þegar hann gekk um stræti borgarinnar, hringdi hann bjöllu sinni og bað menn senda sjer börn til fræðslu. Á stuttum tíma hafði hann safnað fjölda lærisveina, kenndi hann þeim daglega, en vitjaði einnig daglega sjúkra, líkþrárra og allra þeirra, er í nauðum voru staddir, til að veita þeim lið og huggun. Ekkert mannlegt kvein náði eyra hans án þess hann reyndi að líkna. Þegar hann heyrði að perlufiskarar í Manor væru mjög bágstaddir, fór hann þangað til að líkna. Hann skírði þá og fræddi, en til fræðslunnar varð hann að hafa túlk. Hin áhrifamesta kenning hans var hjálp sú, sem hann veitti öllum nauðstöddum. Hann fór þorp úr þorpi og borg úr borg, og kenndi. Hann ljet snúa boðorðunum, trúarjátningunni og enni drottinlegu bæn á tungu þarlendra manna, lærði þetta utanað, kenndi það börnunum, en ljet þau aptur kenna foreldrum þeirra. Á Komorín setti hann 30 kenneudur; þeir kenndu í litlum kofum, er voru auðkenndir með krossi. Þaðan fór hann til Travancore, kenndi þar unz hann var orðinn hás, og skírði unz hann var orðinn aflvana. Hið hreina líferni hans og óumræðilegi áhugi hafði mestu áhrif á alla. Hrifinn af þeirri hugsan, að uppskeran væri mikil, en verkmennirnir fáir, sigldi Xaver síðan til Malakka og Japan. Þar voru þjóðir, sem mæltu á enn aðrar tungur. Þar gat hann eigi gjört annað en að gráta með grátendum og biðja fyrir þeim, sem liðu, vætti hann hempuermar sínar og vatt úr þeim nokkra dropa, er hann skírði þá deyjandi. Hann óttaðist ekkert, en vonaði alls; hin sterka trú hjelt þessum mikla sannleiksvotti við. Hann sagði: »hvernig sem dauðinn bíður mín, er jeg fús að líða og deyja þúsundsinnum, til þess að frelsa eina sálu«. Hann leið hungur og þorsta; hann var í hættum og nauðum, en hann hjelt áfram kærleiksverki sínu, hann hvíldist ekki, hann þreyttist ekki. Eptir hvíldarlausa áreynslu í 11 ár varð þessi mikli og góði maður sjúkur á leið til Kínalands, og dó á eyjunni Sanchían (1552). Ágætari og hreinni hetja hefir aldrei gengið á þessari jörð.

Það er gott, að setja sjer hátt takmark í lífinu, þó menn ekki geti náð því að öllu leyti. »Sá æskumaður, segir Disraeli, »sem ekki lítur upp, lítur niður, og sá andi, sem ekki reynir að

fljúga, lendir við það að skríða«. Sá sem setur sjer hátt takmark, nær ætíð hærra en hann var, en til að ná takmarkinu er ekkert áreiðanlegra en vaninn. Gjörðu hóf í nautn áfengra drykkja að vana, og ofdrykkjan mun verða hötuð; gjörðu sparsemi að vana, og eyðslusemi mun verða þjer viðbjóðsleg. Þessvegna er það nauðsynlegt, að breyta aldrei af góðum vana, vjer erum ætíð veikastir í þeim greinum, þar sem vjer höfum gefið oss taum, og það varir lengi áður en meginreglur þær verði eins fastar hjá oss, er vjer höfum vikið frá einhvern tíma, eins og hinar, er vjer aldrei víkjum frá. Vjer vitum eigi, hve sterkur vaninn er, fyrr en vjer þurfum að láta af honum. Það sem vjer gjörum opt, verður oss ljett. Hinir minni viðburðir lífsins virðast eigi meiri en snjókorn, sem fellur á jörðina án þess að neitt heyrist; en snjókornin mynda hengjuna, og hengjan getur orðið að snjóflóði.

Sá sem fann upp vjel til að kemba viðarull hjet Heilmann, og var fæddur í Mülhaus á Frakklandi. Í mörg ár hafði hann hugsað um vjel þessa; en verðlaunum var heitið hverjum þeim, sem findi upp slíka vjel. Heilmann gekkst eigi fyrir launum þessum, því sá sem æ lítur til launa, gjörir aldrei neitt sem mikið er í varið; honum gekk það eitt til, að verða að notum. Hann átti allmikið fje, og varði því öllu til að gjöra tilraunir. Loks var hann orðinn fjelaus, án þess honum yrði nokkuð ágengt með vjelina. Um þessar mundir dó kona hans, og vissi hún eigi annað, en að hún skildi mann sinn eptir í eymd og volæði. Fór hann þá til Englands, og hafðist þar við um hríð, og gjörði enn árangurslausar tilraunir, og lá honum þá við að örvænta. Fór hann þá aptur til Frakklands til að heimsækja börn sín. Eitthvert kveld sat hann við ofninn og var að hugsa um hin þungu kjör sín; varð honum þá litið á dætur sínar, sem voru að greiða hið langa hár sitt, og skiptu því niðurúr með fingrunum. Datt honum þá allt í einu í hug að laga vjel sína eptir þessu, kemba lengstu hárin út, en kasta hinum styttri aptur. Lagaði hann vjel sína eptir þessu, og má svo að orði kveða, að hún hafi eigi aðeins manna hendur, heldur og manna vit. Fyrir vjel þessa varð viðarullar lagður sá, sem keyptur var fyrir hálfan dal, 2 þúsund ríkisdala virði. Þegar vjelin var fuudin upp, voru honum gefnir 450,000 ríkisdalir fyrir hana. Þannig varð hann stórauðugur á stuttum tíma, en hann dó litlu síðar, og einnig sonur hans, er ásamt honum hafði farið alls á mis. En heiður þeirra varir.

Ljósast getum vjer þekkt menn af því, hvernig þeir haga sjer við aðra. Mildi í umgengni hefir hin kyrrlátu áhrif ljóssins, er gefur öllu lit; hún er miklu máttugri en háreysti og ofstopi. Vinsamlegt orð má tala og vinsamlegt verk má gjöra, svo að það verði mikils virði, en einnig svo, að það verði lítilsvirði.

Miklir menn hafa aldrei verið drambsamir. Þegar lendur maður ungur í Edínaborg á Skotlandi lagði skáldinu Robert Burns til lýta, að hann gaf sig á tal við bónda úti á götu, svaraði Burns: »Þú ert óvitur, það var eigi treyjan og sauðskinnshúfan, eða röndóttu sokkarnir, sem jeg talaði við, það var maðurinn, sem var í því, hann er eins mikils verður og við báðir, hvern dag sem er«.

Vilhjálmur og Karl Grant voru synir bónda nokkurs í Ameríku; bóndi þessi misti aleigu sína af vatnagangi. Hjeldu þá synir hans suður með ánni Irwell, og er þeir komu á hæð nokkra og vissu eigi hvort halda skyldi, settu þeir knif í jörð niður, og rjeðu það, að halda í þá átt sem knífurinn dytti. Hjeldu þeir síðan áfram, og náðu þorpinu Ramsbotham, þair skammt frá. Komu þeir sjer í vinnu á verksmiðju, og með ráðvendni og kostgæfni urðu þeir svo fjáðir að þeir keyptu sjer sjálfir verksmiðju, og urðu öðrum til mikils gagns. Þeir reistu kirkjur og skóla og studdu verkmenn í öllum greinum. Kaupmaður nokkurr, er öfundaði þá, samdi um þá níðrit. En er Vilhjálmur las ritið, sagði hann aðeins: »hann iðrast þessa síðar«. Litlu síðar komst kaupmaðnr þessi í fjeþrot, og var sviptur atvinnu, nema hann fengi þá bræður Grant til að ganga í veð fyrir sig. Kaupmanni þótti það vera þungir kostir, en neyðin gjörði, að hann varð þó að freista. Fer hann til þeirra bræðra, og sýnir þeim brjefið, sem þeir áttu að skrifa á. »Þjer skrifuðuð níðrit um okkur bræður«, sagði Vilhjálmur. Skrifaði hann síðan nafn sitt tafarlaust og mælti síðan: »jeg sagði það, að þjer munduð iðrast þess, að þjer munduð þekkja okkur betur og iðrast þess að hafa reynt að gjöra okkur skaða«. Gaf hann síðan kaupmanni peninga, er hann vissi, að hann var allslans sem stóð.

Sannur heiðursmaður hefir næma sómatilfinningu, jáyrði hans er áreiðanlegt og hann hefir hug á að segja nei. Ráðherra nokkurr bauð hertoganum af Wellington 900,000 ríkisdali til að segja sjer leyndarmál. »Getið þjer þá þagað yfir leyndarmáli«? mælti Wellington. »Já«, svarar ráðherrann, »sannarlega get jeg það«. »Það get jeg líka«, segir Wellington, og hneigir sig um leið og hann fer.

Sannir heiðursmenn meta auðnga jafnt og fátæka. Þegar kólera geysaði í Vínarborg, var Frans, Austurríkis keisari, opt á gangi til að líta eptir. Einhverju sinni sá hann lík fátæks manns borið til grafar, og fylgdi því enginn; mælti hann þá: »enginn minna fátæku þegna skal til grafar borinn, án þessa síðasta virðingar merkis«. Fylgdi hann líkfylgdinni út á kirkjugarð, og stóð berhöfðaður meðan líkið var ausið moldu.

Sannarlegt hugrekki og mildi eru jafnan samfara. Hinn

enski herforingi Karl Napier var hertekinn í Korunna, særður mjög, og vissu vinir hans á Englandi eigi, hvort hann væri lífs eða dauður. Skip var sent gagngjört til að vitja um hann. Clovet barún tók á móti sendimanni, og sagði hinum frakkneska herforingja Ney frá komu hans. »Láttu bandingjann sjá vini sína«, mælti Ney, »og segðu þeim, að það sje vel farið með hann«. Clovet beið við og Ney spurði brosandi, hvað hann vildi meira. »Hann á gamla móður, sem er blind og ekkja«. »Er svo, láttu hann þá fara sjálfan og segja henni að hann lifi«. Napoleon hafði bannað að sleppa nokkrum bandingja, og gat Ney því búist við reiði hans, en hann ljet sjer nægja sem komið var.

Fuller lýsir sönnum heiðursmanni, er hann lýsir hinum mikla sjóforingja Franz Drake: »hann var hreinn í líferni sínu, rjettvís í verkum sínum, trúr í orðum sínum, vægur við undirmenn og hataði ekkert nema sljóleika; hann fól aldrei öðrum það sem áríðandi var, hann fyrirleit hættu og var sjálfur hvervetna þar sem hugrekki, dugnað og ástundan þurfti við að hafa«.

(Samanritað úr Samuel Smiles Self help.)

# Annar kafli.

## I. Um heiminn.

Hinn mikli líkami, sem vjer mennirnir búum á, og sem vjer köllum jörð, eða jarðarhnött, er aðeins lítill hluti af heiminum, það er: af öllu því, sem Guð hefir skapað. Það eru til ótölulegir aðrir hnettir, sumir miklu stærri en jörðin. Marga af hnöttum þessum, eða líkömum, getum vjer sjeð, er vjer skoðum hina miklu hvelfingu yfir höfðum vorum, þegar dagur er seztur og himinn heiður. Oss virðast þeir eins og litlir glampandi deplar eða ljós, og kemur það af hinni ógnarlegu fjarlægð, sem er á milli þeirra og vor; hverr hlutur sýnist því minni, því lengra sem hann er á burtu. Á daginn sjáum vjer ekki ljósdepla þessa af því sólarljósið yfirgnæfir þá. Ljósdepla þessa köllum vjer stjörnur, og eru það undra stórir líkamir. Jörðin, sem vjer búum á, er ein slík stjarna, og sú eina, sem vjer þekkjum til hlítar með því sem á henni er, af því vjer erum á henni.

Sú stjarna, sem oss sýnist stærst allra, er sólin. Geislar þessarar fögru stjörnu streyma gegnum himingeiminn á jörðina, veita henni ljós og hita, líf og frjófsemi. Ljós og hiti sólarinnar eru þau gæði, sem vjer getum síst án verið. Eigi vita menn til fulls hvað sólar ljósið er, eða hvernig það myndast. Af þeim dökku blettum, sem eru að sjá í sólinni, hafa menn ályktað, að hún væri í sjálfri sjer dimmur líkami, en að umhverfis hana væri ljóshringur mikill eða ljóshaf og að frá því streymi ljósið út í geiminn. Nýlega hafa menn komizt að því, að ljósið berist í loptinu með öldugangi álíka og hljóðið, en með miklu meiri hraða. Ljósið fer svo fljótt, að það fer 41,000 mílur á hverri sekúndu, og fer það alla leið frá sólinni til jarðarinnar á 8 mínútum og 18 sekúndum. Það hafa stjörnufróðir menn fyrir satt, að ljósið verði því daufara því fjær sem dregur sólinni. Á Neptúnus, sem er

sú stjarna, sem er lengst frá sólinni af þeim, er kringum hana ganga, ætti því að vera þúsundsinnum dimmara en hjá oss og að því skapi kaldara. En hitinn, sem vanalega er ljósinu samfara, kemur fyrst fram, er það kemur í gufuhvolf það, sem er umhverfis jörðina; geimurinn fyrir utan gufuhvolfið er kaldur. Óvíst er, hvort hitinn kemur af hristingi þeim, sem ljósið kemur til leiðar í gufuhvolfinu eða af öðrum orsökum. Maður nokkurr að nafni Gay-Lussac fór í loptkuggi 21,000 fet upp frá jörðu, og er hann þangað kom, var þar 10 stiga kuldi, en 31 stig var hitinn er hann fór frá jörðinni. Nú álíta menn, að gufuhvolfið nái 10 til 12 mílur út frá jörðinni, hefir hann því átt langa leið eptir ófarna til að komast út úr gufuhvolfinu og er fyrir utan það að líkindum miklu kaldara.

Sólin er hnöttur, eins og allar aðrar stjörnur, en hún er miklu stærri en nokkur önnur stjarna, er vjer þekkjum. Þvermál jarðarinnar er 1716 mílur, en þvermál sólarinnar er 112 sinnum meira. Mætti því láta 112 hnetti eins stóra og jörðin er hvorn við annars hlið til að ná frá einni rönd sólarinnar til annarar, og mætti úr henni gjöra 1,500,000 hnetti eins stóra og jörðin er. Væri jörðin komin í miðju sólarinnar með tunglinu, sem gengur kringum jörðina, þá mundi tunglið, sem er 51,000 mílur frá jörðinni, verða hjer um bil mitt á milli jarðarinnar og yfirborðs sólarinnar. Göngumaður, sem fer 1 þíngmannaleið á dag, mundi komast kringum jörðina á 1080 dögum eða nærfelt 3 árum, en til að ganga kringum sólina mundi hann þurfa 320 ár. En þó sólin sje svona stór ummáls, þá er hún svo miklu efnis ljettari en jörðin, að eigi þyrftu fleiri en 55000 jarðarhnetti til að vega móti henni. Af því sólin er svo efnismikil, þá er aðdráttarafl hennar miklu meira, en aðdráttarafl jarðarinnar. Fyrir þá sök mundi það, sem er 1 pund á jörðinni, vega 29 pund á sólinni. Sá maður, sem er 15 fjórðungar á þyngd, ber í rauninni 15 fjórðunga í líkama sínum, en á sólinni mundi hann bera 435 fjórðunga. Það eru þessvegna allar líkur til, að vjer gætum eigi staðið upprjettir, ef vjer værum komnir á sólina; það getur þessvegna ekki verið, að þar sjeu líkamlegar verur líkar oss.

En hversu illa, sem oss mundi ganga að standa upprjettir á sólinni, þá skulum vjer ímynda oss, að vjer sjeum komnir þangað og leita þaðan upp í hnetti þá, sem ganga kringum hana. Hnettir þessir eru 8 að tölu og köllum vjer þá jarðstjörnur, reikistjörnur eða plánetur.

Sú jarðstjarna, sem fyrst verður þá fyrir oss og næst gengur sólinni, heitir Merkúríus. Vegalengdin frá sólinni til jarðstjörnu þessarar er um 8 milliónir mílna. Þvermál hans er eigi meira en 650 mílur og er líkamsstærð hans þessvegna eigi meir en

fimtándi partur úr líkamsstærð jarðarinnar. Hann er ætíð mjög nærri sólu. Hann snýst frá vestri til austurs á 24 stundum og 5 mínútum, en braut sína kringum sólina fer hann á 88 dögum; 7 ár á jörðinni eru því jafn löng 29 árum á Merkúríusi.

Ef vjer nú höldum enn lengra út í geiminn, þá verður næst fyrir oss jarðstjarna sú er heitir Venus; köllum vjer hana ýmist kvöldstjörnu eða morgunstjörnu, af því hana er ýmist að sjá við sjóndeildarhringinn í vestri á kvöldin eða í austri að morgni dags. Fjarlægð hennar frá sólinni er 15 millíónir mílna. Hún snýst dagsnúning sinn á 13 stundum og 21 mínútu og rennur alla braut sína umhverfis sólina á 225 dögum; 8 ár á jörðinni eru þessvegna 13 ár á kvöldstjörnunni.

Ef vjer nú höldum enn lengra, þá verður fyrir oss sú jörð, sem vjer búum á, en til þess að komast til hennar frá sólinni verðum vjer að fara 20²/₃ millíónir mílna. Meðalþvermál jarðarinnar er, eins og áður er sagt, 1716 mílur; jörðin er sem sje hnöttótt eins og aðrir hnettir, en þó eigi jafngild á alla vegu. Við norðurheimsskautið og suðurheimsskautið er hún nokkuð flatari og er þvermál hennar í norður og suður 1713 mílur, en um miðja jörðina, frá austri til vesturs, er þvermálið 1719 mílur. Tvenns konar eru hreifingar jarðarinnar á hverju augnabliki. Sú er önnur, að jörðin snýst um möndul sinn, eða línu þá, sem vjer hugsum oss dregna gegnum miðja jörðina frá norðri til suðurs; snúningur þessi er frá vestri til austurs og fyrir þá sök virðist oss sólin ganga frá austri til vesturs, en hún er reyndar kyr. Snúningur þessi varir 23 stundir og 56 mín.; það köllum vjer *sólarhring*. Af því jörðin er svo mikil um sig, þá verður snúningur þessi með svo miklum hraða um miðja jörðina, að hverr hlutur færist þar frá vestri til austurs 225 mílur á hverri klukkustund. Vjer, sem búum svo nærri norðurheimsskautinu, þar sem jörðin er farin að mjókka svo mjög, færumst eigi meira en rúmar 100 mílur á klukkustund. Hraði þessi er þó svo mikill, að allt sem laust er, yrði að kastast burt frá jörðinni, ef aðdráttar aflið, sem heldur öllu föstu við hana, mætti eigi sjer meira. Sú er önnur hreifing jarðarinnar, að hún rennur braut sína kringum sólina; braut sína rennur hún á 365 dögum og fjórðungi dags; það er *eitt ár*. Hringur þessi, sem jörðin fer kringum sólina er nokkuð sporbaugsmyndaður. Næst er jörðin sólinni 1. jan. ár hvert, en fjærst henni 2. júlí. Ef vjer nú ímyndum oss að sólin væri á aflöngu, kringlóttu borði, nærfelt miðju, og hugsum oss að jörðin færist eptir rönd borðsins, þá getum vjer fengið nokkra hugmynd um þessa ferð jarðarinnar. Ef nú jörðin á þessari ferð sinni stæði, ef svo mætti að orði kveða, upp á endann, svo að annað heimsskautið væri beint upp, en annað niður, þá væri engin breyting á

árstíðum nje á lengd daga og nátta. Geislar sólarinnar mundu þá falla þverbeint á þá sem væru á miðri jörðinni, en ætíð jafn skáhallir á þá, sem byggju nær heimsskautunum. En jörðin stendur ekki beint upp og niður, heldur hallast hún nokkuð. Vjer skulum nú setja svo, að jörðin byrji ferð sína um rönd borðs þess, er vjer áður nefndum, á öðrum enda þess. Vjer látum norðurskautið snúa upp, og hallast það nú nokkuð frá sólinni. Sólargeislarnir falla þá meira á suðurskautið, sem er að neðan og snýr meira að sólinni; baðast sá endinn þá í geislum sólarinnar, er jörðin snýst dagsnúning sinn. Þá er *lengstur dagur* hjá þeim, sem búa nærri suðurheimsskauti, en styttstur hjá oss, sem búum nærri norðurskautinu; það er 21. desember. En nú heldur jörðin áfram ferð sinni eptir rönd borðsins og hefir hinn sama halla og snýst hinn sama dagsnúning unz hún kemur á miðja hlið borðsins, þá snýr hlið hennar jafnt við sólinni og eru þá *jafndægur um vor*; það er 21. marzmánaðar. Jörðin heldur nú enn áfram unz hún kemur á hinn borðsendann; snýr þá norðurskautið, sem við hinn endann vissi frá sólinni, að henni; er þá *lengstur dagur* hjá oss, sem búum næst norðurskauti, en skemmstur hjá suðurskautabúum, en það er 21. dag júnímánaðar; eru þá *sumar-sólstöður*. Þegar jörðin heldur nú enn áfram, unz hún kemur á hina hlið borðsins miðja, þá snýr hlið hennar aptur við sólinni og eru þá *jafndægur um haust*, en það er 22. september. Eptir það fer suðurskautinu að veita smámsaman meira að sólinni, en norðurskautinu frá, unz jörðin kemur á miðjan borðsendann, þarsem vjer ímynduðum oss hana hefja gönguna; eru þá aptur *vetrar sólstöður*. Þannig þeytist jörðin án afláts áfram um himingeiminn kringum sólina og baðar sig í geislum hennar og heldur föstu öllu því, sem loðir við yfirflöt hennar. Svo er ferð hennar mikil, að hún fer 4 mílur á hverri sekúndu, eða 48 þingmannaleiðir á hverri mínútu, eða 2880 þingmannaleiðir á einni klukkustund, og snýr sjer jafnframt einn snúning á hverjum sólarhring. Getum vjer varist að fyllast undrunar yfir þessu mikla skeiði? það hefir kostað miklar rannsóknir að finna það, en nú er það orðið fullkunnugt.

En jörðin er eigi ein á ferð þessari; hún á þögulan og tryggan förunaut, sem jafnan sveimar kringum hana á allri leið þessari; förunautur þessi er tunglið. Oss sýnist tunglið því nær eins stórt og sólin, en það fer hjer sem optar, að eigi er allt sem sýnist. Tunglið er miklu nær oss en nokkur önnur stjarna og fyrir þá sök sýnist það miklu stærra. Meðalfjarlægð tunglsins frá oss er 51,763 mílur, er það því 400 sinnum nær oss en sólin. Þvermál tunglsins er 470 mílur, er það eigi meira en fjögurhundraðasti partur úr þvermáli sólarinnar. Það er svo miklu minna en jörðin, að úr henni mætti gjöra 50 tungl jafn-

stór og þetta er. En svo miklu ljettara er tunglið en jörðin, að 80 tungl þarf til að vega móti henni. Tunglið er dimmur líkami og veitir sólin því ljós eins og jörðinni. Það rennur braut sína á 27 dögum, 7 stundum og þrem fjórðungum stundar; á 19 árum fer það 254 skeið og köllum vjer það *tunglöld*. Eins og sólin snýst um möndul sinn frá vestri til austurs, svo snýst og tunglið um sinn möndul. En meðan jörðin snýst 27½ sinni, snýst tunglið aðeins einu sinni. Tunglið er því jafnlangan tíma að snúast um möndul sinn og að ganga kringum jörðina; af því leiðir aptur, að það snýr jafnan hinni sömu hlið að jörðinni: vjer sjáum jafnan andlit þess en aldrei hnakkann. Af hinum sömu rökum eru og dagarnir í tunglinu miklu lengri en á jörðinni. Einn sólarhringur í tunglinu er jafnlangur og 29½ sólarhringur á jörðinni. Tunglið verður jörðinni jafnan samferða á braut hennar kringum sólina, er því eitt ár á tunglinu jafnlangt og eitt ár á jörðinni, en árið á jörðinni er 365 dagar, en í tunglinu er það að eins 12 til 13 dagar, af því dagarnir eru þar svo miklu lengri.

Nú tölum vjer um nýtt tungl, fyrsta kvartil, fullt tungl og síðasta kvartil; vjer skulum fara nokkrum orðum um breytingar þessar. Þegar tunglið á braut sinni kringum jörðina fer fram hjá sólinni, þá er nýtt tungl; gengur það þá optast rjett fyrir ofan eða neðan sólina og snýr þá sú hliðin að oss, sem sólin skín ekki á. Um þetta leyti er sólin og tunglið hjerumbil í sömu stefnu frá jörðinni, kemur upp og gengur undir um sama leyti. Tveim dögum síðar hefir tunglið flutst svo langt til vinstri handar (til austurs) frá sólinni, að vjer getum sjeð litla bjarta rönd og veit holið móti vinstri hendi. Hin bjarta rönd tunglins vex nú á hverju kveldi, af því vjer sjáum meira af þeirri hlið þess, sem sólin skín á. Hjerumbil 15 dögum eptir nýtt tungl er tunglið komið gagnvart sólinni og jörðin orðin milli þess og sólarinnar; snýr þá öll hin bjarta hlið þess að jörðinni og köllum vjer þá fullt tungl; kemur þá tunglið upp þegar sólin gengur undir. Eptir þetta fer rönd tunglsins smám saman minnkandi unz það er gengið á braut sinni milli sólarinnar og jarðarinnar og sjest ekki, af því hin dimma hlið þess snýr að oss. Þegar tunglið er í fyllingu, er það ætíð um sama bil á himninum að vetrinum og sólin er á sumrin, en um sumar er það um sama skeið og sólin er um vetur; fyrir þessa dásamlegu tilhögun lýsir það oss mest, þegar vjer þurfum mest, á hinum löngu vetrar nóttum.

Vjer gátum þess nýlega, að í hvert sinn, sem vjer kölluðum nýtt tungl, væri það í stefnu milli vor og sólarinnar, en gengi optast lítið eitt fyrir ofan hana eða neðan. Nú ber svo stundum við, að tunglið gengur í beina stefnu milli jarðarinnar og sólarinnar; hylur það þá sólina meðan það fer fram hjá henni og

köllum vjer það sólmyrkva eða sólhulning. Þegar tunglið er aptur andspænis sólinni og jörðin á milli, þá getur svo borið undir að jörðin verði í beinni stefnu milli sólarinnar og tunglsins, lendir tunglið þá í skugga þeim, sem verður af jörðinni, og sjest ekki meðan það gengur gegnum skuggann; það köllum vjer tunglmyrkva. Á líkan hátt getur og svo borið undir, að jarðstjörnur þær, Merkúríus og Venus, sem ganga kringum sólina, nær henni en jörðin, verði í beinni stefnu frá jörðu til sólar, hyrgja þær þá sólina að meira eða minna leyti og verður þá einnig sólmyrkvi. Stjörnufróðir menn geta sagt myrkva þessa fyrir löngu áður en þeir verða, svo kunnugir eru þeir orðnir gangi hnatta þessara.

Næst fyrir utan jörðina gengur jarðstjarnan Mars kringum sólina. Fjarlægð hennar frá sólinni er rúm 30½ millíón mílna og fer hún kringum sólina á tæpum 687 dögum; 8 ár á Mars eru því eins og 15 ár á jörðinni. Þvermál jarðstjörnu þessarar er eigi meira en 928 mílur, er því líkams stærð hennar eigi meir en $^4/_{29}$ úr líkamsstærð jarðarinnar. Hún snýst um möndul sinn á 24½ stund. Hún er rauðleit, lík glóandi járni, þó eru stórir blettir á henni, sem eru dökkrauðari, og sumstaðar er hún grænleit eða bláleit, og hvít við heimsskautin. Er hún því mjög lík því sem jörðin mundi vera til að sjá, þar sem þurlendi mundi sýnast dökkrautt, hafið blátt, en norðurskautið og suðurskautið hvít af ísnum.

Þarnæst kemur hin mikla jarðstjarna Júpíter. Jarðstjarna þessi er 1400 sinnum stærri en jörðin og 5 sinnum lengra frá sólinni en hún; hún er 12 ár að fara kringum sólina. Kringum jarðstjörnu þessa ganga 4 tungl, álíka stór og tungl jarðarinnar, en með svo miklu meiri hraða fara þau, að þau fara á tæpum 2 dögum það sem tungl vort fer á 28 dögum. hæði sólmyrkvar og tunglmyrkvar eru þar því á hverjum degi og dögum optar. Júpíter snýst um möndul sinn á tæpum 10 klukkustundum; er dagurinn þar þessvegna meir en helmingi styttri en hjá oss, en árið 12 sinnum lengra, einsog áður er sagt. Á plánetu þessari er gufuhvolf, geta þar því verið líkamlegar verur, líkar þeim, sem eru á jörðinni.

Næst fyrir utan Júpíter kemur sú jarðstjarna, sem heitir Satúrnus; jarðstjarna þessi er 10 sinnum lengra frá sólinni en jörðin, og er hún ekki minna en 30 ár að fara einu sinni kringum hana; er því 1 ár á Satúrnus jafn langt og 30 ár á jörðinni. Jarðstjarna þessi er nokkuð minni en Júpíter og hefir gufuhvolf eins og hann. Það sem einkum gjörir jarðstjörnu þessa merkilega er það, að um hana er breiður hringur, og umhverfis hana ganga 8 tungl, hvort fyrir utan annað. Það tungl, sem næst er Satúrnus, fer alla leið kringum hann á tæpum sólarhring og er það undra hraði, en það sem fjærst honum er fer braut sína á 79 dögum.

Þarnæst kemur jarðstjarna sú sem heitir Úranus; hún er 19 sinnum fjær sólinni en jörðin og helmingi minni en Satúrnus. Jarðstjarna þessi er 84 ár að ganga kringum sólina, og fylgja henni á braut þessari 6 tungl, en svo er sólarljósið orðið dauft, þegar svo langt kemur frá sólinni, að ekki verður sjeð eins glöggt og á jarðstjörnum þeim, sem nær eru sólinni.

Jarðstjarna sú, sem fjærst er sólinni af þeim, sem kringum hana ganga, heitir Neptúnus; hún er 30 sinnum lengra frá sólinni en jörðin, eða 621 millíón mílna; er hún 165 ár að fara kringum sólina; er því 1 ár á Neptúnusi jafnlangt og 165 ár á jörðinni. Svo er Neptúnus langt frá sólinni, að ljósið er þar ærið dauft, þó hafa menn þegar fundið 2 tungl, er ganga um plánetu þessa.

Á bilinu milli Mars og Júpíters er fjöldi af smáum jarðstjörnum, sem kallaðar eru smástirni (Asteroides) og sjást ekki með berum augum. Hið fyrsta af smástirnum þessum fannst 1. janúar 1801. Síðan hafa sífelt fundist fleiri, og voru við árslok 1872 fundin 117 slík smástirni. Öll ganga smástirni þessi kringum sólina.

Hnettir þeir, sem vjer nú höfum talið, eru hinir helztu þeirra, er ganga kringum sólina eða heyra til sólkerfí voru; en þeir eru ekki þeir einu, heldur bætast þar við halastjörnurnar. Halastjörnurnar, þessi meinlausu, ljettu, þokukynjuðu ský, sem reika njósnandi eins og farandkonur meðal hinna föstu jarðstjarna, eru opt ógurlegar á að líta, og af því þær koma svo snögglega í ljós, hefir mönnum opt staðið ótti af þeim. Áður á tíðum hjeldu menn að halastjörnur vissu á einhver ótíðindi, t. d. stríð, drepsótt, óár og hungursneyð, en eins og slíkt er hjátrú ein, svo er það ólíklegt að þær geti gjört oss mein á nokkurn hátt. Alls hafa menn sjeð um 600 halastjörnur; stærst þeirra er sú sem sást 1811; höfuð hennar var stærra en sólin og halinn svo langur að hann hefði náð alla leið frá sólinni til jarðinnar eða yfir 20 millíónir mílna. Oss eru kunnar 8 halastjörnur, sem ganga á stuttum tíma, það er: 3½ til 13 ára, kringum sólina. Hinar aðrar halastjörnur hverfa út í geiminn um marga tugi ára; ferð þeirra er um mjög aflanga sporbauga. Þegar þær sjást lengst í burtu í góðum sjónpípum, eru þær dimmir hnettir að sýn, en eptir því, sem þær færast nær sólinni, vex ljósið; hin dimma kringla verður björt og ljóshaf mikið kemur kringum hana, og af ljóshafi þessu myndast halinn, en hann veit jafnan undan sólu. Sólarljósið hefir því mikil áhrif á ljós halastjarnanna. Svo eru þær þunngerðar, að opt má sjá stjörnur í gegnum þær.

Ef vjer viljum nú hugleiða hnetti þessa, sem vjer köllum sólkerfi vort, nokkuð nákvæmar og á annan veg, þá skulum vjer ímynda

oss, að vjer sjeum komnir úr sólinni og út fyrir hina yztu jarðstjörnu, Neptúnus. Vjer sjáum þá sólina og hinar 8 jarðstjörnur, sem renna kringum hana, hver nokkurnveginn beint út undan annari í þeirri röð sem vjer áður höfum talið. Hringar þeir, sem jarðstjörnurnar mynda á ferð þessari, eru og nokkurnveginn kringlóttir og þó nokkuð aflangir. Sólin er í miðið og ræður allri ferð þessari. Hún er mörgum sinnum stærri en hver af hennar förunautum, já hún er 600 sinnum stærri en jarðstjörnurnar 8 til samans, og efni hennar er því nær 800 sinnum eins mikið og efni allra jarðstjarnanna. Sólin snýst um ás sinn einu sinni á 25½ degi; hún snýst frá vestri til austurs og frá vestri til austurs ganga allar jarðstjörnurnar kring um hana. Þetta hafði spekingurinn Nikolás Koperníkus þegar uppgötvað; hann var fæddur 1473 og dó 1543. En hvað veldur því að jarðstjörnurnar renna þannig sömu leiðina öld eptir öld kringum sólina? Þessari spurningu var ekki fullkomlega svarað fyrr en sá maður fæddist á Englandi, er Isak Newton hjet; hann fæddist 15 des. 1642. Þessi mikli spekingur var einu sinni í þungum hugsunum í aldingarði sínum, en vaknaði við það, að hann heyrði epli detta niður. Gjörði hann þegar þá ályktun, að eplið dytti á jörðina, þegar leggurinn gæti ekki borið það, af því jörðin drægi það að sjer. Af þessu komst hann með reikningum og ályktunum að því, að það væri jörðin, sem með aðdráttar afli sínu hjeldi tunglinu á braut sinni kringum hana. Undir eins rann öll bygging heimsins upp fyrir augum hans, hvernig sólin, sem er stærsti hnötturinn, hjeldi öllum jarðstjörnunum með aðdráttarafli sínu kringum sig, og pláneturnar aptur tunglunum. Það sem áður var hulið öllum mannlegum augum og mannlegri skynsemi, stóð nú opið fyrir honum. Þess má geta, að í geim heimsins er ekkert upp nje niður, því rúmið er óendanlegt og takmörk þess þekkir enginn. Það kallast niður, sem veit að jörðinni og svo er um hvern aunan hnött. Jörðin dregur allt að sjer, sem kemur í nánd við hana, og svo er um hvern annan hnött, og fyrir þá sök finnst hverjum einum það upp, sem veit frá jörðinni, hvar sem hann er staddur á henni. Af því sólin er svo langstærst, þá er aðdráttarafl hennar mest. Eptir því sem frá henni dregur fer aðdráttarafl hennar minnkandi. Jarðstjörnur þær, sem ganga næst sólinni, fara líka hraðast, en því hægar fara jarðstjörnurnar því lengra sem dregur frá henni. Væri ekki þetta aðdráttarafl, þá mundu hnettirnir þeytast beina leið um himingeiminn.

Það er eðlilegt, að sú spurning vakni hjá oss, hvort hnettir þessir, er vjer nú höfum nefnt, sjeu byggðir af lifandi verum. Enginn getur til fulls leyst úr þessari spurningu. Tunglið er lang næst oss, og má í góðum sjónpípum sjá það svo glöggt, að sjá

má þar fjöll og mishæðir, en engin tök eru til að sjá, hvort þar sje líf og hreifing eða ekki. Þó þykir líklegra, að þar búi ekki verur líkar oss, af því þar er ekkert gufuhvolf. Að öðru leyti er ekkert líklegra, en að þar sje einnig líf, þó á annan hátt sje, því margbreytni þess er óendanleg. Jörðin hefur ekkert sjerlegt pláts í sólkerfinn: hún er hvorki sú innsta, ytzta nje í miðið, og værum vjer komnir á hinar jarðstjörnurnar, þá mundi hún vera til að sjá mjög lík og þær eru frá oss að sjá. Allar hinar jarðstjörnurnar snúast og ganga umhverfis sólina, eru þessvegna umskipti daga, nátta og árstíða á þeim eins og hjá oss. Á Mars t. a. m. má sjá litaskipti; er hann sumstaðar rauðleitur, sumstaðar dökkleitur eða bláleitur, en við heimsskautin hvítur, og mundi jörð vor líta mjög líkt út til að sjá, þarsem þurlendið mundi sýnast rauðleitt, hafið bláleitt eða grænleitt og heimsskautin hvít af ísnum. Nú úir allstaðar af lífi og gróða á þurlendi jarðarinnar og í stórum breiðum á sjávarbotninum. Hvervetna á þurlendinu, í loptinu, í sjónum, í hverjum vatnsdropa, í hverjum moldarhnaus er líf. Heil jarðlög og jafnvel steinar eru settir saman af dauðum verum, og á hafsbotninum úir af lífi. Þegar sólin á sumrin og vorin sendir oss geisla sína, fæðist í geislum hennar fjöldi lifandi skepna, og megum vjer undrast hvorttveggja jafnt, bæði fjöldann og margbreytnina. Er það þá líklegt, að á hinum jörðunum, þar sem öllu er þó líkt háttað, sje ekkert líf? Er ekki hitt líklegra, að lífið á sumum þeirra sje að því skapi meira og margbreyttara og veglegra, sem þær eru sjálfar stærri og veglegri, en jörð sú, sem vjer búum á?

Auk þeirra hnatta, sem vjer nú höfum talið, er í himingeiminum mjög mikið af steinum, sem sveima milli hnattanna. Þegar þeir koma svo nærri jörðinni, að aðdráttarafl hennar fer að hafa áhrif á þá, dregur hún þá að sjer, og kviknar í þeim um stund, er þeir koma í gufuhvolf jarðarinnar, en slokknar aptur. Hinar smærri af loptsjónum þessum köllum vjer stjörnuhröp, en hinar stærri vígahnetti. Hinir stærstu steinar, er fallið hafa úr loptinu, hafa verið 140 til 400 fjórðungar á þyngd. Efni þeirra er mjög líkt og í yfirborði jarðarinnar. Svo er talið til, að undir 20 stjörnuhröp sjeu á hverri klukkustund í árinu, en ekki eru þau jafntíð alla daga, heldur eru stjörnuhröp langtíðust vissa daga, einkum 10. ágúst; af því má ætla, að umhverfis sólina sjeu hringar miklir af sandi og smáhuöttum, og að jörðin á þessum tímum gangi gegnum hringa þessa.

Það sem vjer nú höfum talið, köllum vjer sólkerfi vort, það er sólin og plánetur þær og tungl og halastjörnur og allt sem hreifist kringum hana. En þetta er aðeins lítill partur af öllu því, sem er í þeim endalausa himingeimi. Þegar himininn er

heiður á nóttinni sjáum vjer ótölulega lýsandi depla, sem vjer köllum stjörnur. Allar stjörnur þær, sem ekki heyra til sólkerfi voru, köllum vjer fastastjörnur, af því þær sjást ekki hreifast að mun. Lengi fram eptir öldum hjeldu menn, að þessir ljósu deplar væru festir á himinhvelfinguna, en síðar er það upplýst að deplar þessir eru lýsandi hnettir í himingeiminum. Ekki eru hnettir þessir jafn þjettir allstaðar, heldur eru þeir í flokkum og hafa menn gefið flokkum þessum ýms nöfn. Auk hinna mörgu stjörnuflokka eða -klasa sjáum vjer á loptinu breiða rönd ljósa, sem vjer köllum vetrarbraut, er hana að sjá umhverfis allt á himinhvelfingnnni. Í góðum sjónpípum má sjá, að hringur þessi er eintómar stjörnur. Þar að auki má sjá ljósar þokur hingað og þangað í himingeiminum; hafa stjörnufræðingar talið um 4000 slíkar þokur, en þokur þessar eru eintómir stjörnuklasar. Sá maður, sem mest hefir uppgötvað um fastastjörnur, er William Herschel, er lifði á síðastliðinni öld og dó 1822, 84 ára. Það var meir en hálfa öld, að hann var eins og hann kvað að orði »að sópa himingeiminn með vendi sínum«, en vöndur sá var sjónpípa hans hin 40 feta langa. Þegar Galilei fann upp kíkirinn eða sjónpípuna, taldi hann henni það til gildis, að í henni mætti sjá helmingi fleiri stjörnur, og eptir þann tíma fóru menn fyrst að hafa nokkra hugmynd um það hve mikill stjörnugrúinn er. Vjer segjum opt, að vjer sjáum óteljandi stjörnur með berum augnm, en þetta er eigi svo. Stjörnur þær, sem vjer getum sjeð með berum augum telja menn að sjeu um 5000, en svo miklu fleiri sjást í góðum sjónpípum, að eptir því sem Herschel gat talið í sinni miklu sjónpípu, hefðu stjörnurnar í himingeiminum átt að vera 20 millíónir. Og hverr veit þó, hve margar millíónir voru huldar Herschels sjónpípu. Það er nægilega upplýst, að allar þessar stjörnur eru sólir, og eru allar líkur til, að jarðstjörnur gangi í kringum hverja, eins og í kringum vora sól, þó þær sjáist ekki vegna hinnar ómurræðilegu fjarlægðar. Fjarlægð þessi er svo mikil, að naumast verður komið orðum að því. Menn hafa optast hraða ljóssins til að gefa til kynna þessar miklu fjarlægðir. Ljósið fer á 8 mínútum og 18 sekúndum alla leið frá sólinni til jarðarinnar, en ekki mundi það þurfa minna en hálft fjórða ár til að komast til þeirrar fastastjörnu, sem næst oss er, en um 4000 ár mundi það vera að komast til þeirrar stjörnu í vetrarbrautinni, sem fjærst er. Af þessu leiðir aptur, að ljós þau, sem vjer sjáum í himingeiminum svo langt burtu, eru ekki nýlega tendruð. Þvert á móti ef ný stjarna eða rjettara sagt sól bættist við í slíkri fjarlægð, þá mundum vjer ekki sjá hana fyrr en eptir 4000 ár, og þó einhver væri burttekin, mundi ljós hennar þó sjást jafnlangan tíma. Allar þessar sólir eru án efa á stöð-

ugri ferð, þó hreifingar þeirra sjeu ekki fullkunnar sökum hinnar miklu fjarlægðar. Þannig telja menn til að sólkerfi vort, eða sólin með öllu því, sem henni fylgir, fari um 30 millíónir mílna áfram í himingeiminum, á ári hverju. Þegar vjer nú álítum að vetrarbrautin sje sólnahringur í kringum sólkerfi vort, og að stjörnuþokurnar sjeu sólnakerfi, lík vetrarbrautinni, en svo miklu fjarlægari en hún, sem þær sjást óglöggar og sýnast minni; þegar vjer enn ímyndum oss, að óendanlega margar sólir sjeu huldar sjónum vorum og að allir hinir dimmu hnettir, sem ganga umhverfis þennan ótölulega sólnagrúa, sjeu einnig ósýnilegir vegna hinnar óumræðilegu fjarlægðar — þá megum vjer játa, að vjer horfum hjer inn í djúp, sem hugur vor getur ekki gripið. Sumir kunna að ímynda sjer, að hjer sje ímynd eilífðarinnar, bæði rúmið, hið endalausa, sem hinir ótölulegu hnettir sveima í, og tíminn, sem þeir gjöra það á — en þetta er ekki sú rjetta hugmynd um eilífðina. Þarsem öll hreifing tekur enda, þar sem allt er óbreytt, þar er tíminn ekki framar, því hreifingin og hreytilegleikinn er takmark hans; og þarsem takmarkið, það sem er hvað öðru ólíkt, er ekki framar, þar er ekkert rúm. Tími og rúm eiga sjer ekki stað í eilífðinni, heldur í því skapaða. Þessvegna er sá himinn, sem vjer nú höfum hugleitt, ólíkur þeim himni, sem Stefán píslarvottur sá opinn á sinni dauðastund. Vjer undrumst almætti, speki og gæðsku Drottins, sem allt þetta hefur tilbúið og viðheldur öllu þessu. Vjer störum á hin miklu verk hans og tökum undir með hinu andríka skáldi:

Festingin víða, hrein og há
og himinhjörtu skýin blá
og logandi hvelfing ljósum skýrð!
þið lofið skaparans miklu dýrð;
og þrautgóða sól, er dag frá degi,
Drottins talar um máttarvegi,
allt af hirtir þú öll um lönd
almættisverk úr styrkri hönd.

Kvöldadimman þá kefur storð
kveða fer máni furðanleg orð,
um fæðingaratburð heldur hljótt
hlustandi á jarðar þöglri nótt;
og allar stjörnur, er uppi loga
alskipaðan um himinboga,
dýrðleg sannindi herma hátt
um himinskauta veldið blátt.

Og þótt um helga þagnarleið
þreyti vor jörð hið dimma skeið,
og enga rödd og ekkert hljóð
uppheimaljósin sendi þjóð:
skynsemi vorrar eyrum undir
allar hljómar um næturstundir
lofsöngur þeirra, ljóminn hreinn:
»lifandi Drottinn skóp oss einn«.

(Addison — J. H.)

---

## II. Um jarðarhnöttinn eða yfirborð hans.

Það er engum efa undirorpið, að jörðin hefir upphaflega verið þoka ein; þoka þessi hefir dregið sig saman og storknað eða hörð skel komið utaná hana. Þegar jörðin var fljótandi efni, hlaut hún sökum aðdráttarafls frumefnanna að dragast saman í hnött; aðeins í þeirri mynd gat komið jafnvægi á milli allra frumefnanna, því þegar þeir drógu hvorr annan að sjer, urðu þeir að safnast undir því minnsta yfirborði, sem einmitt er hnattmyndin. Þegar jörðin drógst saman, hefur hiti hennar verið mjög mikill, og hefur hann vaxið í samdrættinum. En hverr hlutur leiðir hitann frá sjer eða kastar honum frá sjer til þess, sem umhverfis er, ef það er kaldara, en kaldur hlutur dregur til sín hitann frá því heitara. Nú er geimurinn umhverfis jörðina kaldur mjög, svo að ætla má, að þegar uppúr gufuhvolfi jarðarinnar kemur, sje um 100 stiga frost. Þessvegna hefir yfirborð jarðarinnar smákólnað og efnin dregið sig saman; hin ljettari hafa lent á yfirborðinu, hin þyngri leitað miðjunnar. En við kælingu þessa að utan hefur hitinn leitað inn, þangað til jarðskorpan var orðin jafnköld og loptið. Hitinn innaní jörðinni helzt inni af jarðskorpunni. Nú verður engin breyting á hita jarðskorpunnar önnur en sú, sem sólin gjörir; hitinn af geislum sólarinnar streymir inn í jarðskorpuna og þaðan burt aptur, þegar loptið kólnar. 70—80 fet niðri í jörðinni er allajafna jafnkalt. Þaðan vex hitinn að því skapi meira, sem lengra dregur ofaní jörðina, svo að munar 1. stigi á hverjum 100 fetum; 10,000 fet niðri í jörðina er svo heitt, að vatn sýður og á 6 mílna dýpi bráðnar járn og þó eru þaðan 850 mílur að miðpúnkti jarðarinnar. Af þessu má ráða, að hin harða skorpa jarðarinnar er ekki þykkri í samanburði við jörðina en eggskurnið er í samanburði við það, sem innan í því er. En hið sama aðdráttarafl,

sem hefir dregið skorpuna saman, heldur henni fastri utan um það rennandi efni, sem í henni er.

Yfirborð jarðarinnar er sumpart land, sumpart sjór. Rúmir tveir þriðjungar af yfirborði jarðarinnar er sjór, en tæpur einn þriðjungur land. Sjórinn og vatnið getur breifst í allar áttir, brýtst það inn hvervetna ef einhver leið er opin. Væri jörðin eintómur sjór, eða sjórinn svo mikill, að hann flyti yfir allt yfirborðið, þá væri jörðin eins og stór vatnsdropi, en allt að einu væri hún hnöttótt.

Vjer höfum sagt, að breyting árstíðanna nái eigi lengra en 70—80 fet ofan í jörðina; þar er ekkert líf, engin umbreyting. Á yfirborði jarðarinnar er því öðruvísi varið; þar er auður, líf og starfsemi, sífeld umbreyting og framför og geislar sólarinnar eru sá kraptur, sem kemur öllu þessu til leiðar. Hitinn leitar hvervetna inn, þó með miklum mun sje; jörðin heldur honum í sjer þó það einnig sje nokkuð misjafnt og færir hann frá miðjarðarlínunni til heimsskautanna. Hve dásamlegur er ekki sá kraptur, sem jörðin fær á vorin, þegar hitinn snýr aptur!

En hinn kaldi himingeimur tekur ekki strax við fyrir utan jarðskorpuna; umhverfis hana er loptbaf, sem vjer köllum gufuhvolf. Gufuhvolfið nær hvervetna 10—12 mílur út frá jörðinni. Þunginn þrýstir á gufuhvolfið eins og hin föstu efnin, og fyrir þá sök helzt það við yfirborð jarðarinnar; að hinu leytinu þenst það út af fjaðurmagni sínu og þessi tvö öfl starfa ætíð hvort á móti öðru. Loptið er að vísu ljettur líkami í samanburði við jarðskorpuna, en hefir þó nokkurn þunga, sem ráða má af hinum sterku vindum, sem eru straumar loptsins. 13 teningsfet af lopti því, sem vjer lifum í, vega 1 pund, þegar 10½ stigs hiti er; lengra út frá jörðinni er loptið ljettara. Við yfirborð jarðarinnar er þrysting loptsins um 14 pund á hverjum ferhyrnings þumlungi. Þegar lengra dregur upp í loptið, minnkar þrýstingin smám saman og kuldinn vex að því skapi. Loptþrýstingin og því fremur hitinn er aðalskilyrði fyri lífi allra jurta og dýra; það er þessvegna aðeins neðst í gufuhvolfinu, á yfirborði jarðarinnar, að lífið getur átt sjer stað; ef vjer förum 1. mílu upp frá jörðinni eða 1 mílu ofaní hana, getum vjer ekki lifað, og á þessu vissa svæði eru þar að auk mörg dýr og margar plöntur bundnar við sinn litla blett.

Þannig er jörðin ekki orðin til allt í einu; skorpa hennar hefir kólnað smám saman lengra og lengra niður og rekið hitann undan sjer. Víða hafa þau hin glóandi efni, sem innifyrir eru, brotið þá fyrstu skel, runnið út og storknað þar, og þannig myndað *eldlögin*; hæðir og lautir hafa myndast á þennan hátt með ýmsu móti, og eru fjöllin ljós vottur þess. Biltingar þessar fara enn

fram, þó miklu sjeu þær vægari; *eldfjöllin* gjósa ösku og hrauni og hæðir myndast kringum upprásina; nýjar eyjar koma upp og hverfa aptur. Áður en skorpa jarðarinnar kólnaði, hefir vatnið verið gufa ein í loptinu, en smám saman hefir gufa þessi orðið að *hafi*. Vatnið vinnur sífelt að því að jafna allar mishæðir. Regnið fellur mest á fjöllin, fer gegnum jörðina og um ár og læki til sjávar, og færir með sjer ýms efni, sem það hefir uppleyst. Hafið leggur aptur frá sjer hin föstu efni, sem í það berast, þar sem lægst ber á, og myndast þar af steinalög þau, er vjer köllum *sjávarlög*. Af lögum þessum geta jarðfræðingar sýnt, hvernig jurtalífinu og dýralífinu hefir smám saman þokað á fram, og að sá tími hafi verið, þegar engin planta var á jörðinni og ekkert dýr. *Steinkolalög* og *surtarbrandslög* þau, sem eru í jörðinni, eru í þessu tilliti einkar merkileg. Hvorttveggja lög þessi eru komin af trjám, mosum og þangtegundum, öðrum en þeim, sem vjer nú þekkjum. *Steinkolin* eru eldri; en hve langur tími er liðinn síðan kol þau, sem nú eru höggin upp langt niðri í jörðu, voru blómlegir skógar á yfirborði jarðarinnar! Á hinni fyrstu skorpu hefir ekkert líf verið; á *steinkolaöldinni* hafa plöntur vaxið, en dýr verið fá; á *surtarbrandsöldinni* hafa verið stór dýr og mörg, en ólík þeim, sem nú eru. Upphaflega hefir hitinn verið jafn allstaðar á jörðinni, en smám saman hafa heimsskautin kólnað, og munur sá, sem nú er á dýrum og plöntum í hinum köldu og heitu beltum komið fram. Dýrin hafa náð sinni æðstu mynd í sköpun mannsins, en maðurinn hefir fyrst verið skapaður eptir ómræðilegar aldaraðir. Þetta, sem vjer nú höfum talið um uppruna jarðarinnar, er engan veginn í beinni mótsögn við sköpunarsögu heilagrar ritningar; hún bendir þvert á móti einmitt til þess, að allt hafi myndast smám saman, þó dagar standi þar í stað langra tímabila, og eru hugmyndir hennar mjög háfleygar.

Til að gefa til kynna, hve stór löndin sjeu, hafa menn mælt þau niður í ferhyrndar mílur. Ein ferhyrnd míla kallast sá ferhyrndur blettur, sem er 1 míla á lengd og 1 á breidd. Á þennan hátt er allt yfirborð jarðarinnar mælt og er það um 9,300,000 slíkar ferhyrndar mílur. Vegalengdin yfir um jörðina er 5,400 mílur. Um miðjarðarlínuna er þvermál jarðarinnar 1719 mílur, en í norður og suður 1713 mílur; vjer erum þessvegna 860 mílur frá miðpúnkti jarðarinnar, en 1716 mílur frá þeim, sem búa gagnvart oss á henni; en ef vjer viljum fara til þeirra á yfirfleti hennar, verðum vjer að fara að minnsta kosti 2,700 mílur.

Öllu þurlendi jarðarinnar hafa menn skipt í 5 parta og kallað hinar fimm heimsálfur. Hin lengsta heimsálfa er á vesturhlið hnattarins og kallast Vesturálfa (Ameríka). Á austurhlið

hnattarins eru 3 álfur og kallast þær Norðurálfa (Evrópa), Suðurálfa (Afríka) og Austurálfa (Asía); álfur þessar eru samanhangandi þurrlendi. Hinu 5. heimshluti kallast Eyjaálfa (Ástralía), er það bæði mikið land í suðaustur frá Austurálfu og eyjar í hinu mikla hafi milli Austurálfu og Vesturálfu. Ísland er talið með Norðurálfunni, en er þó nálægt takmörkum Norðurálfunnar og Vesturálfunnar.

Allar heimsálfur þessar eru umflotnar af hafi, sem kallast veraldarhaf, en ýmsir partar þess eru nefndir ýmsum nöfnum. Hinir stærstu partar veraldarhafsins eru: Atlants-hafið, er skilur Vesturálfuna frá Norðurálfunni og Suðurálfunni; Kyrrahafið, sem er milli Vesturálfunnar og Austurálfunnar, og Íshafið, sem er fyrir norðan Norðurálfuna.

## III. Um íbúa jarðarinnar.

Á jörðunni teljast hjer um bil 1000 milliónir manna (1,377,400,000); eru þeir sín á milli mjög ólíkir, bæði að ásýnd, lifnaðarháttum, hæfilegleikum og menntun. Þeir menn, sem búa á sama landi, mæla hina sömu tungu, hafa sömu siði og líkt útlit, kallast þjóð. Margar þjóðir eru af sama mannflokki.

Að útlitinu eru menn ólíkir bæði á litarbátt og að líkamsskapnaði. Flestir þjóðflokkar Norðurálfunnar eru hvítir á hörund, hafa mikinn hárvöxt og skeggvöxt, en þunn nef, og eru þeir, sem norðarlega búa, bláeygðir, en þeir, sem sunnar búa eru dökkeygðir. Af öllum öðrum þjóðum eru líkastir þeim þeir, sem búa þeim næst vestarlega í Austurálfu og norðantil í Suðurálfu, t. a. m. Tyrkir, Arabar og fl., þó eru þessir þjóðflokkar í sumu ólíkir Norðurálfubúum. Allir þessir menn eru af Kákasus-mannflokki; sá mannflokkur er fjölmennastur og er hann hjer um bil 450 milliónir að tölu. Þeir sem búa austar í Austurálfu, eru mógulir, eða skolbrúnir að lit með lítil augu, svarthærðir og stríhærðir og lítt skeggjaðir; svo eru t. a. m. Kínverjar og Mongólar; þeir eru af Mongóla-mannflokki, og er hann talinn hjer um bil 500 milliónir. Flestir Suðurálfubúar eru svartir á hörund, en hörundið mjúkt viðkomu, hárið lítið og líkt ullu, nefið flatt og hafið upp að framan, kinnbeinin há, hakan lítil og varirnar þykkar. Þessir svörtu menn kallast Negrar, eða Blámenn. Innbúar hinna tveggja stóru eyja í Eyja-álfunni, Nýja-Hollands og Nýju-Gíneu eru og blámenn. Þessir allir eru af Etíópa mannflokki og er

hann talinn allt að því 200 millíónir. Innbúar á flestum hinum minni eyjum Eyja-álfunnar eru ljósgulir á hörund; eru þeir nokkuð áþekkir Spánverjum og Itölum. Þeir eru vel og liðlega vaxnir, hárið þykkt og skeggvöxtur mikill, nefið breitt, munnurinn stór og varirnar þykkar. Þeir eru af Malaia mannflokki og eru um 20 millíónir að tölu. Frumbúar Vesturálfunnar hafa eirrauðan hörundslit, svart hár og lítið skegg; þeir eru ennislágir, breiðleitir, kinnbeinaberir og djarflegir útlits. Kynflokkur þeirra er talinn um $13^{1}/_{2}$ millíón. Auk þessara 5 aðalflokka er talin $9^{1}/_{2}$ millíón kynblendinga, sem einkum búa í Vesturálfu.



Blámaður frá Suðurálfu.

I öllum löndum heimsins er líkamsstærð fullvaxinna manna hjer um bil eins; vanaleg karlmannshæð er nokkuð yfir hálfa þriðju alin, stöku karlmaður er 3 álnir og nokkuð yfir. Í hinum köldustu löndum, t. a. m., Grænlandi, eru menn lægri vexti. Óvenjulega háir menn eru kallaðir risar, og óvenjulega lágir menn eru kallaðir dvergar. Einn af hinum minnstu dvergnm var hin þýzka stúlka Stöher í Nyrnberg; hún var 1 alin 4 þuml. á hæð, og hinn franski Bebe, er var 1 alin og 7 þumlungar. Af risum má nefna Bernharð Gili, er var 4 álnir undir höku.

Menn hafa skipt öllum þjóðflokkum jarðarinnar eptir atvinnuvegum í 3 aðalflokka: siðaðar þjóðir, hirðingja og villiþjóðir.

Villiþjóðir eru í Suðurálfu, Vesturálfu og Eyjaálfu. Þær kallast svo af því að lifnaðarhættir þeirra eru að sumu leyti litln merkilegri en dýranna. Villimenn þessir hafa enga fyrirhyggju fyrir viðhaldi lífs síns; þeir sá hvorki nje planta; þeir safna engum forða og hera enga umhyggiu fyrir ókomnum tíma, heldur leita sjer hráðar, þegar hungrið kallar að, eða neyta þess, er þeir hitta fyrir sjer. Þeir lifa af viðaraldinum, plöntum, rótum og kjöti ótaminna dýra. Dýraveiðar og fiskiveiðar eru því þeirra iðja. Þeir húa sjaldan saman í bæjum, sumir hafa jafnvel ekkert aðsetur, en búa í kofum, sem þeir hrúga upp af eikastofnum og þekja með skinnum og laufblöðum. Aðrir búa í gryfjum og hellum. Margir þjóðflokka þessara hafa engan yfirmann, en þegar stríð ber að höndum, kjósa þeir hinn sterkasta og vaskasta til foringja. Hið merkasta er þeir húa til eru vopn og veiðarfæri, einkum kylfur, hogar, örvar og lagvopn. Klæðnað hafa þeir engan, en flestir sveipa dúki eða jurtafljettum um lendar sjer. Í hinnm köldustu löndum hengja þeir á sig skinn þau, sem þeir komast yfir. Skarti hafa þeir gaman af, t. a. m. mislitum fuglafjöðrum, og gleðjast bernskulega af því, sem ferðamenn víkja þeim, t. a. m. litaðri glertölu, eða fágaðri látúnsplötu. Af því að vesælingar þessir hafa ekkert lært og hirða ekki um annað, en seðja fýsnir sínar, eru þeir opt grimmir, hefnigjarnir og stelvísir. Heilsugóðir og hraustir eru þeir vanalega. Krypplingar og ferlíki sjást eigi meðal þeirra, og eigi heldur mjög feitir menn; þeir eru röskvir mjög og fimir í öllum hreifingum sínum; þeir geta hlaupið upp brött fjöll í brennandi sólarhita og þreytast lítt; ekkert stöðvar þá á ferðalagi; þeir vaða eða synda ár og stöðuvötn. Hörund þeirra þolir hæði þyrnibrodda og steinnibbur. Fimleikur þessi og hreysti kemur af hófsemi í allri nautn og það ættum vjer, sem farsælli erum, að athuga.

Hirðingjar kallast þeir, er lifa á fjárrækt, þeir eru víða í Austurálfu og sumstaðar í Suðurálfu, t. a. m. margir Arahar,

Mongólar, Tattarar og fl.; þeir búa í tjöldum eða á vögnum eða í kofum, sem hægt er að flytja. Þeir eru skynsamari en villimenn, því að fjárræktin heimtar meiri kunnáttu og fyrirhyggju en veiðiskapur. Þeir reka hjarðir sínar úr einu hjeraði í annað og eru lengst þar, sem beitiland er gott og vatnslindir miklar. En þetta sífellda reik hindrar framfarir þeirra.

Með hinum siðuðu þjóðum teljast allar þjóðir þær, er búa í Norðurálfunni, margar þjóðir í Austurálfunni og afkomendur Norðurálfumanna í Vesturálfu. Hinar siðuðu þjóðir stunda eigi aðeins kvikfjárrækt, heldur og akuryrkju, siglingar og fleira; þar að auki leggja þær stund á alls kyns íþróttir og handiðnir, t. a. m. að lesa og skrifa, að smíða trje og málma, að búa til allskonar verkfæri og vjelar, vefa dúka, gjöra vagna, skip og margt annað. Þjóðir þessar búa hvervetna í húsum og eru víða margir saman í þorpum, kaupstöðum og stórum borgum. Meðal þeirra skiptast menn í ýmsar stjettir; eru þær t. a. m. konungar eða landsstjórar, ráðherrar, dómarar, prestar, vísindamenn, hermenn, kaupmenn, iðnaðarmenn, bændur, sjómenn og svo frv.

Hver ein siðuð þjóð lifir í sambandi, sem kallast ríki, í hverju ríki er stjórnari, sem aðrir eiga að hlýða. Stjórnarinn á einkum að sjá um, að laganna sje gætt; hann skipar alla þá, sem aðstoða hann í starfi þessu, en það eru embættismennirnir. Lögin eru settar reglur, sem tiltaka hvað hverr einn eigi að gjöra eða ógjört að láta; stjórnarinn setur einnig reglur þessar. Allir góðir menn hlýða lögunum, en þeim sem brjóta þau, er hegnt margvíslega, stundum með lífláti.

Munur er á menntun og velmegun hinna siðuðu þjóða; kemur munur sá opt af því að stjórnin hefur miður en skyldi gætt skyldu sinnar og opt álitið þegnana eins og verkfæri til að viðhalda sjálfri sjer, en skeytt lítið um menntun þeirra og velvegnan. Að hinu leytinu er það opt sjálfum þegnunum að kenna, með því þeir hafa eigi viljað menntast, en óhlýðnast lögunum.

Þjóðir þær sem búa í Norðurálfu og ættmenn þeirra í Vesturálfu eru kallaðir lengst komnir á vegi menntunarinnar. Vjer Íslendingar erum taldir með Norðurálfubúum, en erum þó eptirbátar þeirra í flestu og jafnvel í sumu eptirbátar hinna frjálslyndu og atorkusömu forfeðra vorra. Meðan flestum öðrum þjóðum hefur fleygt fram, hefur oss í sumu aptur farið, en í mörgum greinum höfum vjer, að kalla, staðið í stað.

## IV. Um það, er jörðin gefur af sjer.

Eins og vjer áður höfum vikið á, er jörðin öll umkringd af lopti, er vjer köllum gufuhvolf. Gufuhvolfið er þjettast og heitast nærst jörðunni á láglendi; því lengra sem dregur frá jörðunni, því þynnra verður það, og jafnframt því kaldara. Gufuhvolfið myndast af gufu þeirri, sem kemur úr jörðunni og því, sem á henni er. Sólin veitir hitann og ljósið, og viðheldur undireins öllu lífi á jörðunni; hún hitar jarðskorpuna og við það leysist hún upp; vatnið gufar upp í loptið, blandast þar og fellur aptur niður og verður að næringu fyrir allt, sem lifir og þroskast. En sólin hitar loptið ekki jafnt allstaðar; fer það eptir því hvernig jörðin snýr við sólinni, meðan hún rennur skeið sitt kring um hana. Minnst hitar sólin lönd þau, sem nærst eru hvorutveggju heimskautanna; þar er því mjög kalt mestan hluta ársins. Heitast er loptið lengst frá báðum heimsskautunum um miðbik jarðarinnar, af því að þar falla geislar sólarinnar þverast á jörðuna. Þar er því mjög heitt allt árið. Lönd þau, er liggja kring um línu þá, er menn hugsa sjer dregna um miðbik jarðarinnar, kallast hin heitu lönd, og gjörð sú eða hringur hitabelti. Milli þessara heitu landa og heimsskautalandanna — svo kallast lönd þau, sem nærst eru heimsskautunum — bæði í norður og suður, eru allmörg fögur lönd; þar er hóflega heitt, og kallast svæði þessi hin mildu belti.

Svo er það mikið og margbreytt, sem jörðin gefur af sjer, að eigi er unnt að líta yfir það í einu lagi; fyrir því hafa menn skipt því í 3 aðalparta, og kallað þá: Dýraríki, Jurtaríki og Steinaríki.

Frjófsemi landanna, eða fjöldi, margbreytni og þroski þess, sem jörðin gefur af sjer, er að mestu komin undir loptslaginu. Sum lönd framleiða því miklu færra en sum, en í öllum löndum geta menn fengið það, sem þeir þurfa, til að viðhalda lífi sínu. Svo hefur Drottinn hagað því, að hvert land leiðir það fram, sem menn mega síst án vera, eða sem nauðsynlegast er fyrir þá, sem þar búa; þannig vaxa í hinum heitu löndum, þar sem enginn vetur er, kraptmiklir og kælandi ávextir t. a. m. kókushnetur, pálmviðarávextir og melónur. Í flestum þeim löndum eru og hin sterkustu og stærstu dýr, sem geta þolað allar þær þrautir, er þau mæta. Slík skepna er úlfaldinn; hann er með öllu ómissanlegur í hinum heitu löndum; má fara með hann margar dagleiðir í sífellu um sandeyðimerkur í brennandi hita án þess hann fái vatn eða annað fóður en hið lakasta. Auk þess er hann svo sterkur, að hann getur borið 70 fjórðunga svo þingmannaleiðum skiptir á hverjum degi. Þar eru og fílar svo stórir, að heir vega 4—5 þúsund pund. Til eru tvær tegundir

fíla; önnur er í Austurálfu, og er hægt að temja þá fíla; hin er í Suðurálfu, og er illt að temja þá. Hinir tömdu fílar eru góðlyndir, kænir og nytsamir til margra hluta; þeir eru einkum á Indlandi. Nefið, eða ranann, geta þeir teygt, og er hann mörg fet á lengd og krókur á endanum, sem þeir hafa fyrir fingur. Með rananum geta fílarnir tekið upp smá peninga, leyst hnúta, tekið tappa úr flösku, lokið upp hurðum og fleira. Fíllinn er mjög



Fíll.

hafður á dýraveiðum og er veiðimaður óhultur á haki hans; í stríðnm getur hann borið turna með mörgum dátum; á friðartímum her hann opt skemmtihús, með mörgum mönnum í. Hann getur synt yfir hinar breiðustu ár. Með rananum getur hann kastað fullvöxnum manni í lopt upp, sem fis væri. Hann getur borið 25—30 vættir og er ólatur, þakklátur og seinn til reiði. Hann skilur þegar honum er lofað staupi og herðir þá að sjer, því að vín þykir honum gott. Fílar eru 6—7 álna á hæð; þeir geta orðið 100 ára gamlir.

Sem dæmi upp á vit fíla má geta þess, að indverskur maður nokkurr myrti einusinni konu sína og gróf hana í húsi, sem fílar voru í, en sagði yfirvöldunum, að hún hefði horfið, og tók sjer aðra konu. En einn fíllinn rótaði með rananum þangað til líkið kom í ljós, tók það síðan upp með rananum og bar að húsi mannsins; varð glæpurinn þannig uppvís.

Úlfaldar eru og tvennskonar; hafa sumir eina, sumir tvær kryppur uppúr bakinu. Sumir úlfaldar eru mest hafðir til áburðar, aðrir til reiðar; geta þeir hlaupið 4 þingmannaleiðir á dag. Úl-



Úlfaldar.

faldar eru lundhægir og lítilþægir; þeir eiga einkum heima í vesturhluta Austurálfunnar og norðurhluta Snðurálfunnar. Þeir eru mjög hafðir í lestaferðir. Í þeim löndum ferðast kaupmenn og ferðamenn saman opt svo skiptir þúsundum; ganga þá úlfaldarnir í löngum röðum, eða lestum, hvorr eptir annan. Verði úlfaldinn þreyttur, þá örfa menn hann með söng eða hljóðfæraslætti. Sje ekkert fóður fáanlegt, gefa menn úlföldum mulin kol; geta þeir lifað af þeim um tíma. Varir úlfaldans eru brjóskkenndar; getur hann bitið sundur harða þyrna án þess hann kenni til.

Í þessum heitu löndum eru menn eigi eins hraustir og atorkusamir og í hinum tempruðu löndum, enda hefur Guð gjört jarðveginn þar svo frjófsaman, að hafa má þar alls nægtir, að kalla má, án fyrirhafnar. Jörðin er þar skrúðbúin á öllum tímum árs og má svo heita, að þar sje sífelld uppskera. Í Benares á Austur-Indlandi eru t. a. m. 3 uppskerur á ári, og allt sem jörðin leiðir fram er þar í fyllsta þroska. En þessi lönd hafa líka sína galla. Hallæri ber þar opt að höndum, og eru þau því skæðari sem löndin eru betri, og megnar drepsóttir svipta mönnum burt þúsundum saman. Í hinum heitu löndum eru líka flest rándýr og illkvikindi. Á Austur-Indlandi eru t. a. m. tígrisdýr, hljebarðar, hýenur og margir skæðir höggormar, og eru tegundir þeirra eigi færri en 7; þar eru krókódílar, sporðdrekar, þumlungslangir maurar, heilar hjarðir af völskum og músum, stórhópar af páfagaukum, sem draga myrkva fyrir sólina; kemur illþýði þetta fram úr skógunum og eyðir á fám stundum heilum kornekrum með því þeir búta öxin af og fljúga með þau í hreiður sín.

Í hinum köldu löndum samsvara einnig ávextir jarðarinnar þörfum mannanna. Jarðvegurinn er þar ófrjór, af því að veturinn




Selur.

er svo langur, en sumarið svo stutt. Í hinum norðlægustu löndum lifa menn því, að kalla má, ekkert af jurtum, en nota dýrin því fremur. Á Grænlandi lifa menn mjög á selum; kjötið jeta Grænlendingar soðið, eða vindþurkað, spikið hafa þeir til ljósmetis og hita, og matar, og til að bera á tjöld og báta. Skinnið hafa þeir til klæðnaðar, skóleðurs og báta og í tjöld og sængurver. Kópskinn hafa kvennmenn í skrautpils, sinarnar í saumgarn. Þarmana hafa þeir til skjáglugga og láta þannig ekkert ónotað. Þó eru enn merkilegri not þau, sem Lappar hafa af hreindýrum. Þeir hafa öll hin sömu not af þeim og vjer höfum af hestum, kúm og sauðfjenaði til samans og þurfa þó eigi að annast þau svo teljandi sje. Hreindýrin lifa af mosa, sem þau naga af jörðinni, og blöðum, sem þau reyta af trjám; hinn harðasta vetrargadd krapsa þau til að ná í mosann. Hreindýr eru höfð til að draga sleða og bera bagga; þau eru fljót á fæti og geta dregið sleða fimmtung þingmannaleiðar á hálfri stundu; kjöt þeirra er gott til matar og mjólkin fitumikil og nærandi. Skinn þeirra er haft til klæðnaðar, skófatnaðar, sængurfata og fl. Úr beinum þeirra búa menn til knífa, skeiðar og nálar; úr hófunum er drukkið og blöðrurnar hafðar fyrir flöskur. Þannig má sjá, að hvert land bjargast við sín gæði.



Hreindýr.

Í hinu tempraða loptslagi — vjer Íslendingar búum á takmörkum hins tempraða og kalda — er hvorki of heitt nje of kalt; regn og sólskin skiptast þar optar á; er þar því bezt fallið til allskonar yrkingar. Í löndum þeim, sem þar eru, eru margbreyttir jarðávextir og viðarávextir, og er akuryrkja og garðyrkja stunduð þar með mestri atorku og íþrótt. Vínberjarækt er einkum í þessum löndum; vínviður vex hvorki þar, sem er of heitt, nje of kalt.

---

## V. Dýraríkið.

### 1. Beindýr.

Öll dyr hafa það eðli sameiginlegt, að þau hafa munn til að taka til sín fæðuna með, þau geta hreift sig til að ná henni og hafa skilningarvit. Sum dýr hafa sömu skilningarvit og maðurinn, sum hafa þau færri, og sum aðeins eitt, sem bætir upp hin öll.

Menn skipta öllum dýrum í þrjá aðalflokka: 1) Beindýr, 2) Liðdýr og 3) Lindýr. Beindýrin skiptast aptur í 5 deildir, nefnilega a) spenadýr; b) fugla; c) skriðdýr d) pöddur; e) fiska. Tveir enir síðari aðalflokkar, liðdýrin og lindýrin, fela í sjer óteljandi grúa orma og skorkvikinda, og margar furðulega skapaðar dýramyndir.

Öll beindýr hafa hrygg og ýms önnur bein; þau hafa og hold og vöðva, sem eru vaxnir utan á beinunum, hylja þau og girða innýflin, en beinin eru stoðir holdsins og vöðvanna. Liðdýr og lindýr hafa hvorki hrygg nje bein, og ekki neitt það sem að rjettu lagi mætti kalla hold, nema sum; hold flestra þessara dýra er líkara kvoðu eða glætu heldur en kjöti og fiski, og þau eru mörg hulin skel eða margvíslega bygðri húð eða skráp; sum hafa aptur á móti ekkert þesskonar.

Spenadýr og fuglar eru fullkomnari að sköpulagi og eðli en önnur dýr; þau ein hafa verulega rödd, næm skilningarvit, heitt blóð og yfir höfuð líkingu við líkama mannsins, hafa menn því kallað þessi dýr sjer í lagi »en æðri dýr«; samt er nafn þetta einnig gefið öllum beindýrum í einu lagi, og heita þá hinir tveir síðari aðalflokkarnir »en óæðri dýr«

Dýrin leita sjer næringar eptir náttúruhvöt sinni, sem þeim er gefin í stað skynseminnar. Náttúruhvötin er skynsemi dýranna, og sjer hvert dýr hefir svo mikla skynsemi, sem því nægir og sem á við eðli þess og sköpulag, og framkvæma margar dýra-

tegundir svo furðulega hluti, að þeir ekki einungis virðast lýsa greind og athuga, heldur og einnig er náttúruhvötin svo sterk og óbrigðul, að þeim skjátlast aldrei, og enginn maður getur leikið það eptir sem dýrin gera. Sum gera sjer hústaði af miklum hagleik; sum heita ýmsum brögðum og hrellum til að ná sjer fæðunni; enginn hefir kennt þeim, en hver tegund erfir sína list frá foreldrunum og bregður aldrei út af. Kongulóin hefir alltaf ofið sinn smágjörva vef eins, um allar þær aldir sem menn hafa til vitað; ekkert hefir henni farið fram, og ekkert aptur, hún stendur alltaf í stað. Svalan hyggir vandað hreiður, og hýflugan gerir sjer haglega klefa, án þess nokkurr kenni henni, og án þess nokkurr maður geti leikið það eptir. — Leitan dýranna eptir bráð verður og með ýmsum brögðum og kænsku. Kettir og tígrar liggja stundum saman í launsátri, og enginn mun sigra þau í þolinmæði, þá er þau bíða eptir tækifæri til að geta þotið fram eins og elding og fest klærnar í bráðinni. Kjóinn eltir veiðibjöllur og máfa og lætur þá ekki í friði fyrr en þeir æla upp úr sjer sílum þeim og æti sem þeir hafa náð úr sjónum: þá kemur kjóinn og grípur það í loptinu.

Eigi er það síður merkilegt, hvernig dýrin fara að verjast árásum óvina sinna. Þar sem úlfur kemur að stóði, þá stinga allir hestarnir höfðum saman og eru við húnir að slá, en það þykir úlfi eigi árennilegt; þar sem kýr eru margar saman, þá snúa þær höfðunum fram til að stanga, svo úlfurinn kemst eigi að. Akurhæns og steingeitur hafa njósn úti, svo að eitt dýr segir hinum til, ef einhverr kemur; aparnir kasta grjóti á dýr og menn, eða þá skógargreinum; strúturinn slær eins og hestur; fýlunginn spýr lýsi þegar hann er áreittur, og sum dýr gefa frá sjer svo mikinn daun að mönnum liggur við köfnun. Margir fuglar gera hreiður sín þar sem enginn fær að komist. Kolkrabbinn spýr úr sjer dökkum safa, þegar hann er eltur, svo sjórinn verður svo gruggugur að dýrið kemst undan; aptur geta sum dýr eingt sig svo saman að þau verða að knetti, svo ekkert er til að grípa í, svo eru sum skorkvikindi, og hroddígullinn; sjeu marglytturnar eltar, þá hvolfa þær sjer við og sökkva í einu vetfangi.

Öll dýr geta skynjað eða fundið til, en þó eru mörg dýr, sem menn eigi þekkja veruleg skilningarvit hjá. Menn álíta að ýms skorkvikindi þefi með fálmstengunum, fuglar og fiskar heyra vel, þótt eigi hafi þeir eyru utan á höfðinu eins og spenadýrin hafa flest, því heyrnartólin eru en sömu inni í höfðinu fyrir það; menn hafa vanið fiska á að koma til að eta, þegar hríngt hefir verið með hjöllu.

Skilningarvit sumra dýra eru mjög næm. Örninn sjer bráð sína úr háfa lopti á jörðu niðri; gleðan eygir ena minnstu mús

þar sem ekkert mannlegt auga fær grillt í hana og steypir sjer ofan á hana eins og elding; skógarfuglar eygja hin minnstu skorkvikindi í moldinni ofan úr hæstu toppum trjánna. Hundar þefa upp heimkynni sín þótt þeir sje langar leiðir á burtu, og þekkja eiganda sinn í mesta manngrúa. Þar sem hræ er á jörðu, koma hræfuglar hvaðanæfa að vörmu spori, þótt enginn hafi sjest áður um allt loptið, halda menn þeir hitti það með sjóninni fremur en með lyktinni, því þeir koma hvaðan sem vindurinn stendur. — Eigi stendur dýrunum heldur á sama hvað þau eta, heldur er hverju dýri ávísuð sín fæða, og þá er það smekkurinn og lyktin, sem leiðbeinir þeim; þau taka en vissu dýr og en vissu grös, en snerta ekki á öðru, hversu soltin sem þau eru; samt eru sum dýr og eigi allfá, sem eta allt sem tönn festir á.

Geðshræringa eða sálareðlis gætir eigi hjá enum óæðri dýrum, en því meir hjá ýmsum af enum æðri flokkum. Allir vita hversu kátir og glaðir hundar geta orðið, eða hryggvir og lúpulegir; það hefir opt verið sagt að þá vantaði ekkert nema málið. Mörg dýr, jafnvel villudýr, verða tamin og verða þá svo gæf og skynug að furðu gegnir; en tilfinningar dýranna koma þó einkum í ljós þegar þau eru með ungum, og jafn vel en grimmustu dýr sýna af sjer verulega móðurást. Sækýr er sagt að tárfelli, þegar ungar þeirra eru teknir frá þeim, og engin dýr láta meiri móðurást í ljósi en hvalakynin, því þau leika við ungana eins og menn við börn og ganga í dauðann fyrir þá, þótt annars sjeu þau hrædd og stygg.

Mörg dýr eru mjög námfús, og enginn getur ímyndað sjer nje trúað því, hvernig venja megi dýrin, nema hann hafi sjálfur sjeð það. Hestum er kennt að ganga á apturfótunum og stíga dans eptir hljóðfæraslætti; hundar eru vandir á að draga smávagna, og til margs konar íþrótta; Eskimóar nota hundana til sleðadráttar og eru þeir þeim ómissandi. Sumstaðar eru hundar vandir á fiskiveiðar; á Mundíafjöllum í Svisslandi eru haldnir stórir hundar, sem eru vandir á að fara einförum úti í kafaldsbyljum til að leita að helfrosnum mönnum eða þeim sem liggur við að verða úti. Dúfur eru hafðar til að bera brjef, sem bundið er um háls þeim; pelíkanar eður sarpgæsir eru hafðar í Kína til fiskiveiða; páfagaukar geta lært mörg apaspil, og að tala orð; slíkt má og kenna hröfnum og fleiri fuglum, og ýmsir smáfuglar læra að pípa sönglög. Sumar apategundir geta lært marga hluti sem menn gjöra, og jafnvel ljón og tígra hafa menn tamið svo, að þau hafa hlýtt boðum og bendingum gæzlumanna sinna, hafa menn framið ýms voðaleg íþróttaverk með dýrum þessum og sýnt fyrir fje. Van Amburg hjet sá sem vjer vitum frægastan af temjendum dýra; hann sagði, að öll dýr mætti temja og hann

trúði því, að í paradís hefðu öll dýr verið gæf og enum fyrstu mönnum undirgefin, eins og ritningin kennir; víst er um það, að honum misheppnaðist aldrei í þessu, hann stökk jafnvel ofan í sjó og ljet hákarl hlýða sjer, að sagt er; hann hafði járnstaf í hendi og snerti með honum einhvern stað á hrygg dýrsins, en annars er mönnum ókunnugt um aðferð hans.

Flest dýr þurfa hvíldar, og öll en æðri dýr þurfa svefns. En margar dýrategundir sofa á óvissum tímum, eða að minnsta kosti er svefntími þeirra allur annar en svefntími vor. Rándýr sofa jafnaðarlega um daga, en eru á ferli um nætur eptir bráð; einstöku dýr sofa með opnum augum, svo sem hjerar og steingeitur, sum eru mjög værugjörn og sofa eða móka allan liðlangan daginn, eins og kettirnir í sólskininu og í rúmunum, þar sem þeir fá yl og hýru; selir móka og á ísjökum og í útskerjum, einkum þegar sólin skín og þeir eru saddir, og sama er um fleiri dýr að segja. Ekki vita menn til að en óæðri dýr sofi; fiskar, flugur og önnur slík kvikindi eru alltaf á ferli; samt hætta flugur að fljúga þegar dimmir, og má vera þær hvílist þá. Flest en lægstu dýr eru svo skammlíf, að þau þurfa enga hvíld, því aldur þeirra er ekki nema nokkrar stundir. Þau fæðast, eðlast og deyja, og þar með er þeirra ætlunarverk á enda. — Leðurblökur sofa þannig, að þær hanga á fótunum hópum saman í holum eikum og úthýsum. Þær og fleiri dýr sofa á vetrum. Sum dýr hafa sumsje ekkert viðurværi að vetrinum, og mundu því verða hungurmorða, ef náttúran kenndi þeim ekki að verjast þeirri hættu. Dýr þessi gjöra sjer á haustin vetrarbústaði; þeir eru opt gjörðir af miklum hagleik. Þar leggjast þau og sofna, eða detta í dá, og liggja þar þangað til ylur vorsins vekur þau og náttúran hefur tilbúið þeim nýtt viðurværi. Dá þetta er svo djúpt að mörg dýr, sem hafa heitt blóð, verða því nær alköld. Sum dýr sofa ekki fast, en gjöra sjer þó vetrarbæli, og neyta einskis, svo sem birnir. Menn segja, að björninn sjúgi hramminn, en það er eigi rjett. Önnur dýr sofa eigi fremur um vetur, en um sumur, en byggja á haustin forðabúr af miklum hagleik, og safna þangað forða til alls vetrarins. Þetta gjöra sumir birnir, íkornar, margar músategundir, fjallahjerar í Siberíu og fleiri dýr. Hamsturinn, sem er af völskukyni, gjörir hvorttveggja. Á haustin safnar hann miklu korni í holu sína, sem er í jörðu niðri, jetur síðan af því þangað til snjór fellur; þá leggst hann í dá, og liggur eins og hnoða þangað til í marzmánuði; vaknar hann þá aptur og jetur það, sem eptir var af forðanum, þangað til merkur eru grónar. Sum dýr liggja í sumardái í nokkrum hinum heitustu löndum, svo gjöra t. a. m. nokkrar broddgalta tegundir.

Mörg dýr bera mikla umhyggju fyrir ungum sínum. Þegar




Björn.

áður en þeir fæðast, gjöra þau þeim mjúk hreiður, eða bæli, þa sem fóður er nóglegt og þeir eru óhultir fyrir allri hættu. Sum dýr fæða lifandi unga og næra þá á mjólk; þau köllum vjer spendýr; fuglar verpa eggjum og klekja ungunum út úr þeim, með hita líkama síns. Fiskar og skorkvikindi verpa einnig eggjum.

## A. Spendýrin.

Spendýrin eru ferfætt; hafa menn þessvegna kallað þau ferfætlinga; þau hafa rödd, heitt blóð, anda með lungum, hafa hár og ala lifandi unga, sem þau láta sjúga sig. Hvalirnir, sem lifa í sjónum, hafa 2 bægsli í stað framfóta. Ungar spendýranna sjúga mjólkina úr spenum, sem optast eru jafnmargir og ungarnir, sjaldan fleiri en 6. Vanalega eru spenarnir á milli apturfótanna; á fílnum eru þeir milli framfótanna; á öpum og leðurblökum framan á bringunni. Flest spendýr hafa rödd; rödd hvalanna kemur úr nösum þeirra. — Hár spendýranna eru margvísleg að lögun og lit. Sauðfje hefur ull; svín hafa stíf hár, sem kallast burstar; broddgölturinn hefur brodda; hreisturdýrið hefur breitt og þunnt hreistur. Hvalirnir einir eru hárlausir. Á sumum dýrum

eru hárin á hálsinum mjög löng, og kallast fax, svo er hesturinn og ljónið. Geitur og fleiri dýr hafa skegg. Mörg dýr breyta háralit með aldrinum, og verða hvítleitari, er þau eldast; önnur breyta háralitnum á ýmsum árstímum; íkorninn er til að mynda moldrauður á sumrin, en grár á veturna.

Merkileg eru horn þau, sem sum spendýr hafa út úr krúnunni, t. a. m. sauðfje, kýr, geitur og hreindýr. Fegurst allra eru horn hjartarins; þau kvíslast út, eins og greinar á trje. Hirtirnir fella þau á ári hverju í febrúar og marz, en þau vaxa aptur á haustin, eru oddarnir einum fleiri þangað til 12 eru komnir, þá hætta þeir að fjölga eptir reglu. Kvenndýrið hefur engin horn. Nashyrningurinn, sem hefur þumlungs þykkt skinn, er nefndur svo af því að hann hefur álnar hátt horn upp úr nefinu.



Nashyrningur.

Útlit margra spendýra er mjög einkennilegt. Hvalirnir t. a. m., sem líta út eins og fiskar, hafa nasaholur í enninu; draga þeir svo þungt andann, að þeir blása sjónum 30 fet í lopt upp, þegar þeir anda frá sjer. Náhvalirnir hafa 5 álna langa tönn framúr munninum; er hún löguð eins og skrúfa. Á bægslum hvalanna er líkt og vetlingar væru, því að hið innra eru beinin lík tám og fingrum. Að sumu leyti eru sækýrnar merkilegastar allra ferfætlinga. Framhluti þeirra er eigi með öllu ólíkur mönnum. Karldýrið hefur skegg, kvenndýrið brjóst; hefur mynd þeirra gefið



Sljettbakur.

tilefni til hjátrúarinnar um marmennil og sækonur. Sjómenn þykjast enn opt sjá þessa sævarbúa gægjast upp úr öldunum. Apturhluti þeirra er líkur hval.

Aparnir, sem eru í hinum heitu löndum, í Austurálfu, Suðurálfu og Vesturálfu, þar sem pálmar og páfagaukar eru, eru með ýmsum litum, gráleitir og dökkleitir. Sumir þeirra hafa rófu, aðrir eru rófulausir.

Vjer viljum einkum lýsa eðli og háttum þeirra apa, sem eru líkastir mönnunum, en það eru hinir svo nefndu Skógarmenn. Helztir af þeim flokki eru Gorilla aparnir; þeir eru einkum á vesturströndum Suðurálfunnar. Þeir eru stærri og sterkari en aðrir apar, og líkamir þeirra reglulegar byggðir; þeir eru því nær 3 álnir frá hvirfli til ilja; um herðar eru þeir $1^{1}/_{2}$ alin og 4 þumlungar, en fæturnir rúm 1 alin. Þeir eru hárlausir í andliti, dökkleitir og breiðleitir, flatnefjaðir og frammynntir. Allur er líkami þeirra loðinn, nema andlitið, brjóstið og lófarnir; hárin á líkamanum eru svört og löng; á höfðinu er hárið meira. Þeir hafa enga rófu og verða fyrir það líkari mönnum; þeir jeta ávexti, rætur, egg og fugla.

Apar þessir lifa opt margir saman; apynjurnar eru optast fleiri; veldur það því, að opt er ófriður á milli þeirra, og falla þá margir apar. Þeir

hafast við í skógum og hræðast hvorki menn nje skepnur. þeir reka burt fíla og vinna sigur á ljónum. þegar menn fara um skógana, hverfur, er minnst várir, einhverr þeirra upp í einhverja eikina. Gorilla api hefur þá falið sig neðarlega í eikinni, tekið í herðar manninum, kreistir hann í fangi sjer, klifrast með hann upp undir topp eikarinnar og lætur hann detta þaðan niður. þegar Gorilla apinn hefur apynju sína og unga hjá sjer, ræðst hann á menn, þótt hann sje ekki áreittur. Apynjan fer þá með ungana upp í eikurnar, en karlapinn býst til bardaga. Hin stóru grænu augu hans leiptra, og hárin þeytast upp á höfði hans; hann otar tönnum og ræðst á ferðamanninn. Ef skotið hittir ekki apann, þá er optast úti um líf mannsins, því eigi dugar honum að verjast með byssunni, með því að apinn bítur hana sundur, eins hlaupið sem skeptið. Hann tætir mótstöðumann sinn sundur og er hróðugur á eptir.




Af öpum þeim, sem lifa í Austurálfu, er Orangutan-apinn helztur; hann er minni en Gorilla apinn, en handleggir hans eru

lengri og ná niður að fótum. Þegar þeir eru nýfæddir, er höfuð þeirra mjög líkt barnshöfði, en verður því ólíkara, því eldri sem þeir verða.

Karlaparnir eru 2 álnir að hæð, en apynjurnar um $1^1/_2$ alin. Á brjósti þeirra og baki er gisið hár, en þjettara annarstaðar. Á andliti hafa þeir nokkurskonar skegg, sem nær niður um hökuna. Apynjur hafa minna skegg og ungar þeirra alls ekkert.

Apar þessir eru friðsamir og kyrrlátir. Þeir eru óttalausir og hræðast jafnvel ekki menn. Þegar þeir eru áreittir, klifra þeir í eikur og felast þar. Ef þeir eru særðir með skotum, æpa þeir, brjóta kvisti af trjánum og kasta á þann er áreitir þá. Sjái þeir ekkert undanfæri, eru þeir hugaðir og hraustir og ráðast á móðstöðumann sinn.

Þessar tvær apategundir, er vjer nú höfum talið, eru stærstar og líkastar mönnum, en að öðru leyti eru þeir minnst kunnir, af því að lakast er að veiða þá og temja. Af hinum öðrum apategundum eru þeir merkilegastir, er einu nafni eru kallaðir markettir. Apar þessir eiga einkum heima í miðhluta Suðurálfu, í Abyssiníu og á Egiptalandi.

Apar þessir eru optast í stórum flokkum; er það hin mesta skemmtun að sjá hópa þessa fara um skógana, að heyra óp þeirra, deilur og sættir, að sjá áílog þeirra, klifur og hlaup og hið hlægilega látæði. Þeir eru ríki útaf fyrir sig og hlýða engu, nema tönnum og höndum hins gamla ættföður. Þeir eru kátir mjög og áhyggjulausir um lífið; þeir eru kesknir og hugaðir og enginn hlutur er óhultur fyrir r'nr.m þeirra.

Það er mjög skemmtilegt að horfa á apa, er þeir fara til rána. Undir forustu hins gamla ættföður fara þeir út á kornakrana. Apynjurnar bera ungana á baki sjer, en þeir halda sjer þar föstum. Í fyrstu eru þeir mjög varkárir og fara úr einu trje í annað, og fer foringinn á undan, en hinir allir á eptir. Stundum fer hann upp í háa eik til að litast um og heyrist þá ánægjuhljóð, ef engin hætta er á, en sje hætta búin, aðvarar hann allan flokkinn. Flokkurinn allur leggur af stað frá trje því, sem nærst er akrinum; fer þá hverr sem fætur toga. Þegar á akurinn kemur, taka þeir að rífa í sig kornið í óða önn, en er þeir hafa svalað sjer nokkuð gjörast þeir vandfýsnari, rífa af kornstöngunum, en jeta ekki nema það bezta; spilla þeir á þenna hátt miklu meiru en þeir eyða.

Þegar þeir halda sig óhulta á ökrunum, leyfa apynjurnar ungum sínum að leika sjer, en hafa þó jafnan gát á þeim, en hinn gamli foringi gætir allra. Endrum og sinnum rís hann upp tá apturfótunum og litast um í allar áttir, eins og maður. Sje nú engin hætta búin, fer hann aptur að jeta. Sjái hann ófriðarvon, titrar rödd hans og aðvarar hann allan flokkinn. Á augabragði

kallar apynjan á barn sitt, og allir hlaupa til foringjans; leggja þeir þá á flótta, en allir reyna til að ná sem mestu af korni. Ekkert stöðvar þá á ferð þeirra; þeir fara yfir þyrnirunna, stökkva upp og ofan eiknr og sýna mikla stilling og snarræði. Þegar þeir komast þangað, sem skógurinn er þjettari, eru þeir óhultir.

Þegar foringinn er kominn nógu langt frá þeim, sem ofsækir flokkinn, fer hann upp í háa eik og kallar alla til sín. En nú byrjar mjög áríðandi starf. Á flóttanum hafa aparnir fengið sár, og flísar af þyrnnm og þistlum hafa stungizt í síður þeirra; þetta þarf að takast burt. Hefst þá mjög nákvæm hreinsun. Hinn særði api leggst á bakið, en annar stendur við hlið hans og rannsakar mjög nákvæmlega sár hans, og dregur út hverja þá flís, er hann nær.

En er hreinsun þessari er lokið, leggja aparnir aptur af stað, opt út á hinn sama akur. Þeir sem akrana eiga eru því aldrei óhultir fyrir ránum þeirra. Eigi fara apar heldnr að særingum töframanna, og fyrir þá sök hafa Suðurálfubúar þá trú að þeir hafi upphaflega verið menn, en gjörst guðníðingar, og fyrir þá sök hafi Guð svipt þá manns myndinni og gjört þá að öpum.



Íkorni.

Gangur og hreifingar dýranna er mjög einkennilegt. Maðurinn gengur á allri ilinni, en spendýrin ganga einkanlega á tánum, nema birnir og apar. Sum spendýr hafa hófa, t. a. m. hestar

og asnar; önnur hafa klaufir, t. a. m. sauðir, naut og úlfaldar; sum hafa klær, eða hvassar og bognar neglur á tánum, svo eru öll dýr af kattakyninu. Tær sumra dýra eru grannar, t. a. m. músarinnar og íkornans, önnur hafa gildar tær og þjettar, svo er hundurinn og björninn. Á spendýrum þeim, sem lifa bæði í vatni og á landi, eru fingur og tær optast samtengdar með himnu, sem er kölluð fit, til að synda með. Á frambægslum hvalanna er líkt því, sem vetlingar væru umhverfis tærnar. Apturfætur hvalanna er klofinn sporður. Leðurblökurnar hafa frábrugðna fætur. Tær framfótanna, að þumaltánni undantekinni, eru eins langar og allur kroppurinn, og eru þær samtengdar með smágjörðri himnu, sem þær hafa fyrir vængi. Þær eiga því erfiðt með að



Leðurblaka.

ganga, eða skríða. Höfrungurinn syndir öðruvísi, en önnur dýr; hann hringar sporðinn undir sig og rennir sjer áfram með því, að skjóta honum apturundan sjer. Apar hafa enga verulega fætur, heldur hendur bæði á framfótum og apturfótum. Stökkmúsin og pungdýrið hafa svo langa apturfætur, að þau jafnan hoppa eins og fuglar. Rófa pungdýranna er svo sterk, að þau geta stuðst við hana og stokkið 25 fet í einu.

Stærð spendýranna er mjög ýmisleg. Sljettbakar eru 40 álnir að lengd, og 20 álnir ummáls. Slíkir hvalir vega um 2500 vættir. Hnúfubakurinn, sem hefur 1 ugga á baki, er yfir 50 álnir. Kjöt af einum nykri er jafnmikið og af fjórum eða fimm uxum. Fíllinn getur orðið 7 eða 8 álna hár, og að minnsta kosti eins langur. Gíraffinn er álíka stór og hestur, en háls hans og framfætur eru svo langir, að hann er 7 eða 8 álnir að hæð upp að eyrunum. Sumar músategundir eru eigi meira en 3 eða 4 þumlungar á lengd, og sum spendýr eru svo lítil að þau vega eigi meira en áttunda part úr lóði.



Stökkmúsin.

Fá spendýr verða eins gömul og maðurinn; allur þorri þeirra nær ekki 20 ára aldri. Fílar verða dýra elztir, um 100 ára.

Flest spendýr lifa á yfirborði jarðarinnar; nokkur, svo sem apar og íkornar, lifa að mestu leyti upp á eikum; moldvarpan og sum önnur lifa niðri í jörðinni; broddgölturinn og fleiri lifa í holum, sem þau grafa ofan í jörðina. Sum lifa bæði í sjó og á landi, svo sem hvítabirnir; sum lifa eingöngu í sjónnm, svo sem hvalirnir; sum kunna því bezt að velta sjer í bleytu og for, svo sem vísundurinn.

Mörg spendýr lifa saman í hópum, t. a. m. villihundar, hestar, fílar, úlfar, hirtir, böfrungar, svín og fl.

Mörg spendýr byggja hýbýli sín af miklum hagleik. Moldvarpan grefur sjer bústað 5 eða 6 fet niður í jörðina, og fyllir hann upp með mosa, laufum, grasi, hálmi, taði og litlum rótum; undir loptinu eru margir veggir úr saman-þjappaðri mold. Í miðri holunni er moldarhaugur lítill, og laut í miðju; þar býr moldvarpan sæng úr blöðum fyrir unga sína.

Bjórinn (bifur) í Norðurameríku byggir sjer af mikilli hagsýni langa bústaði með 3 eða 4 loptum, yfir djúpu vatni; lifa þeir stundum saman yfir 20 í hýbýlum þessum. Til byggingarinnar hafa þeir litla eikarboli, sem þeir naga sundur, greinar af trjám, mold, steina, hauskúpur af dýrum og fl., og eru bústaðir þessir svo sterkir, að þeir haggast ekki. Hinir gömlu bjórar búa neðst, ungarnir ofar; inngangurinn er niðri í vatninu, eða fyrir ofan það. Gólfið í hólfunum er lagt með laufum og mosa; þar geyma þeir eikarboli til vetrarforða. Bjórarnir hafa breitt skott, þakið



Moldvarpa.

hreistri; skott þetta hafa þeir í stað veggjasleggju við byggingar sínar.

Eptir fæðslunni hafa menn skipt spendýrunum í 4 flokka: 1. Grasbíti; til þeirra teljast sauðir, hestar, kýr, fílar og mörg fleiri spendýr. 2. Þau, sem jeta aldini, t. a. m. apar. 3. Þau, sem jeta kjöt, t. a. m. mörg rándýr. 4. Þau, sem jeta skorkvikindi, t. a. m. moldvarpan. Í uppvextinum jetur björninn gras og aldini, en síðan sauði, hreindýr og hesta; hunang þykir honum einkar gott.

Af rándýrum eru hinir stóru gulu kettir, sem eru í hinum heitu löndum, hættulegastir mönnum; þeir stökkva jafnaðarlega á menn. Tígrisdýrið er af þessu kattakyni; það á heima í Austurálfu og er það hvað hættulegast; það er um 4 álnir á lengd. Lymskufullt er það og grimmt, sterkt og fóthvatt. Næst því gengur hljebarðinn og pardusdýrið; þau eru í Austurálfu og



Bjór.

Suðurálfu, og jagúarinn í Vesturálfunni. Hin þrjú síðast nefndu hafa mislita bletti og bringi; tígrisdýrið er röndótt. Ljónið í Suðurálfunni er gult; það er sterkast allra rándýra, og hefur það lengi verið kallað konungur dýranna. það flýr opt undan mönnum, en ef það er hungrað, ásækir það með því meiri ákafa. þakklátt er það, ef því er bjargað, þegar það er í nauðum statt. Ljónið er hættulegast þeim, sem eru hræddir, og þeim, sem áreita það; hugdjarfir menn geta fælt það frá sjer. þegar ljónsynjan hefur alið unga — hún á vanalega 3—4 — þá drepur hún allt, sem fyrir verður. Gaupan, sem er austarlega og norðarlega í Norðurálfunni, er einnig af kattakyninu; hún er dökkgul á lit og hefur stór eyru, hún drepur geitfje, kálfa, svín og sauðfje. Tamdir kettir eru einnig grályndir, og eru þess dæmi, að þeir hafa ráðizt á börn í vöggu, og fullorðna menn sofandi. — Með rándýrum teljast ennfremur margar hundategundir, t. a. m. úlfurinn; hann er gulgrár á lit; lifir hann einkum í hinum miður heitu löndum og leggst mest á sauðfje, en ásækir einnig hesta og naut. Hýenan og sjakalinn, sem lifa í hinum heitu löndum, eru einnig af hundakyninu; 3 hinar síðast nefndu tegundir grafa stundum upp lík til að jeta þau. Refurinn er af hundakyninu; hann lifir allstaðar á jarðarhnettinum. Hinir tömdu hundar þekkjast einkum á því frá ránhundum, að þeir hringa upp rófuna. Hvítabirnir drepa bæði dýr og menn; skógarbjörninn fer sjaldan til rána, og ræðst sjaldan á menn, ef hann er eigi ertur. Búrhvalurinn er hið jötnalegasta óargadýr; hvar sem hann kemur flýr allur fiskur á burt; hákarlinn, sem þó er rándýr, fleygir sjer upp á þurrlendi til að forða sjer. Búrhvalur hefur jafnvel grandað hafskipum; haus hans er 10 til 15 álnir.

Mörg spendýr eru mönnunum til mikillar nytsemdar, eins og öllum er kunnugt. Refurinn eyðir mörgum músum, sem annars mundu eyða korninu þar sem sáðlönd eru. Broddgölturinn og moldvarpan eyða mörgum skaðlegum kvikindum, og svo er um fleiri dýr.

Mest not höfum vjer af hinum tömdu dýrum. Til reiðar, til að draga vagna og til áburðar eru ýmist hafðir hestar, asnar, múlasnar, hreindýr, uxar og vísundar, fílar og úlfaldar. Mjólk úr kúm, ám, geitum, hreindýrum og fleirum, er góð fæða. Nokkrir hirðingjar lifa og af hryssumjólk og ösnumjólk.

Mest er þó nytsemi spendýranna, þegar þau eru lögð frá. Nautakjöt og svínakjöt er kraptbezti matur, einnig kjöt af sauðum, hjerum og hjörtum. Hrossakjöt er einnig talið góður matur, einkum reykt. Á Englandi hafa menn kanínur til matar. Í suðurlöndum jeta menn mörg önnur spendýr, t. a. m. nykra og fíla, og í hinum norðlægu löndum birni. Fáar þjóðir nýta eins fátt

til matar og vjer Íslendingar. Tólg úr nautum og sauðum hafa menn í kerti, sápu og fl. Af hvölum, selum og höfrungum fá menn lýsi; af stórum hval fást 100 tunnur lýsis.

Húðir og skinn spendýranna eru höfð til margra hluta. Dýrust eru skinn otursins, sem lifir norðantil í Austurálfunni, safalans, sem er í Síberíu, og hins hvíta hreysikattar, sem lifir norðarlega í Austurálfunni og Norðurálfunni. Hin grábláu og einkum hin svörtu refaskinn, sem koma frá nyrðsta hluta Austurálfu og Vesturálfu, eru og í miklu verði. Svart refskinn er opt selt fyrir 300 rdl. Skinn margra dýra eru verkuð með hárinu á og höfð í fatnað og til margra hluta annara. Leður er verkað úr húðum uxa og kálfa, sauðskinnum, svínaskinnum, hrossaskinnum og hreinabjálfum. Í heitu löndunum eru tilbúin hin fagurrauðu litskinn (saffian) af geitaskinnum.

Hár spendýranna er haft til margra hluta. Notadrjúgust er ullin, er hún í mörgum löndum klippt af sauðfje einusinni og tvisvar á ári. Úr hinni beztu ull eru ofin sjöl og klútar. Hattar eru tilbúnir úr hárum hjera, bjóra, kanína og hunda. Úr taglhári hesta eru ofnar stólasetur og sáld. Úr hornum og beinum dýranna búa menn til marga hluti, t. a. m. knappa, dósir, knífaskepti, kamba og margt fleira. Sum dýr hafa langar hvítar vígtennur; standa þær fram úr munninum. Vígtennur karlfílsins eru um 2 álnir á lengd; úr þeim fæst hið dýrmæta fílabein. Tennur þessar eru opt svo stórar, að tvær eru nógar klyfjar á úlfalda. Rostungstennur eru eins fínar.

## B. Fuglarnir.

Allir fuglar eru líkir í því, að kroppur þeirra er þakinn fjöðrum, þeir hafa 2 fætur, 2 vængi og hornkynjað nef. Alls teljast hjer um bil 5000 fugla tegundir; af páfagaukum 200, af dúfum 100, auk allra kynblendinga. Þeir hafa heitt blóð eins og spendýrin og anda með lungum. Úr lungunum geta þeir hleypt loptinu um allan kroppinn, beinapípurnar og fjaðrirnar, þegar þeir vilja gjöra sig ljetta í loptinu. Bein þeirra eru þunn og merglaus, en mjög sterk og ljett.

Menn hafa skipt fuglunum í 7 flokka:

1. Ránfugla; þeir hafa sterkar klær, stórt nef, hvasst og bogið.
2. Spörfugla; þeir hafa setufætur og beint nef.
3. Klifurfugla; þeir hafa klifurfætur og nefið lítið bogið.
4. Hænsnafugla; þeir hafa gangfætur, stutt nef, íhvolft.
5. Strútsfugla; þeir hafa hlaupfætur og stutta ófullkomna vængi.

6. Vaðfugla; þeir hafa vaðfætur og langt nef.
7. Sundfugla; þeir hafa sundfætur.

Fjaðrirnar eru gefnar fuglunum þeim til hlífðar og til að ljetta flugið. Þeir fella fjaðrir á ári hverju, sumir einusinni, það er á haustin, aðrir tvisvar, en jafnframt vaxa nýjar fjaðrir á þeim aptur. Með vængjunum fljúga fuglarnir, eða róa sig áfram með þeim í loptinu; stjelið hafa þeir til að stýra fluginu hvert sem þeir vilja. Beinin í vængjnm fuglanna eru lík beinunum í framfótum dýranna; flugfjöðrunum má líkja við tær þeirra, eða fingur; þær eru jafnan 10 að tölu.

Sumir fuglar hafa mjög langa vængi; geta þeir flogið hátt og lengi. Konungsörninn getur þanið vængi sína yfir 4 álnir; hann flýgur fugla hærst. Það er ótrúlegt, hve lengi fuglar þola að fljúga í senn. Sjómenn sjá opt landfugla 100 mílur undan landi; stundum þreytast þeir þó og setjast móðir á rár og reiða. Beztir flugfuglar eru dúfurnar; þær geta flogið $^1/_2$ mílu á einr mínútu, og svölurnar, þær fljúga fljótar en vindurinn fer.

Sumir fuglar hafa engar flugfjaðrir og geta því eigi flogið, t. a. m. mörgæsin og álkan. Strúturinn, sem hefur langan háls og langa fætur, hefur fætur í stað vængja, og einstakar langar fjaðrir: hann er svo frár á fæti, að fljótustu hestar hafa varla við honum.

Í stjelunum hafa fuglarnir vanalega 12 langar fjaðrir, sumir hafa þær fleiri, hæns eigi færri en 18.

Nef fuglanna eru ýmislega löguð, flöt, sívöl, bogin, hvöss eða gild o. s. frv. Nefin hafa þeir til að taka fæðuna með, sjer til varnar, til að byggja með þeim hreiður sín, og jafnvel til að klifrast með þeim. Þeir fága og fjaðrir sínar með nefinu.

Fætur fuglanna eru lagaðir eptir því hvar og hvernig þeir lifa, en enginn fugl hefur fleiri klær en 4 að framan og eina að aptan; hún jafngildir þumalfingri á mannshendi. Sundfuglarnir hafa sundfit milli klónna. Vaðfuglarnir hafa langa fætur til að vaða á; þeir, sem mest sitja á greinum geta beygt klærnar eins og menn beygja fingur sína. Uglur og páfagaukar hafa nokkurskonar hendur, eins og aparnir. Hræfuglar hafa harða og sterka fætur, hvassar og bognar klær; sumir fuglar ganga, en sumir hoppa.

Allir fuglar sjá mjög vel, en hræfuglar þó bezt. Veiðiörninn stingur sjer til að ná í fiskinn, sem hann sjer undir öldunum; svo gjöra og máfarnir. Uglurnar sjá vel um nætur, ef ekki er niðamyrkur; augu þeirra eru björt mjög. Fuglarnir hafa 3 augnalok til að varðveita augun með.

Hreiður sín gjöra fuglarnir mjög haglega. Vanalega gjöra

kvennfuglar hreiðrin, þó geta karlfuglar það einnig. Hreiðrin eru mjög á ýmsan veg. Sumir fuglar gjöra sjer hreiður úr hálmi og grasstráum. Æðarfuglinn og fleiri sundfuglar gera sjer marhálmshreiður og verpa í túnum, klettaskorum o. s. fr., sumir fuglar verpa í holum í eikum; brauðgæsin í holum í jörðinni; flamingóinn býr til leðjuhaug, sem nær alin upp úr vatninu, og verpur þar. Ísfuglinn ælir upp beinum úr fiskum þeim, er hann hefur gleypt, og hefur þau í hreiður sitt. Egg strútanna eru eins stór og barnshöfuð; verpa þeir þeim í sandi á eyðimörkum margir saman, stundum 80 og skiptast á að unga þeim út. Saumfuglinn saumar saman laufblöð með plöntutaugum á viðargreinum og verpur þar.

Misjafnt er það hve mörgum eggjum fuglarnir verpa. Sumir sundfuglar verpa að eins einu eggi, flestar dúfur 2, máfar 3, hrafnar 4, svölur 6—8, hænur 14 til 20; tamin hæns verpa miklu fleirum, ef þau eru vel alin. Eggin eru ýmislega lit, hvít, rauð, dökk, græn, grá, svört, blá o. s. frv.

Þegar karlfuglinn hjálpar til að gjöra hreiðrið, hjálpar hann einnig til að unga eggjunum út. Stundum gjörir kvennfuglinn hvorttveggja einn, en karlfuglinn dregur þá fæðu að hreiðrinu handa konunni sinni. Kasúarinn lætur sólina unga út eggjum sínum; gaukurinn verpur jafnan eggjum sínum í hreiður annara



Örn.

fugla, t. a. m. lævirkjans, sem unga þeim út ásamt með sínum eggjum. Uglan verpir stundum í tóm hreiður annara fugla, en ungar sjálf út eggjum sínum. Titlingurinn og fleiri fuglar verpa 3—4 sinnum á ári, en flestir verpa að eins einu sinni. Hræfuglar, dúfur og fleiri fuglar mata unga sína; sumir mata þannig, að þeir mýkja fyrst fæðuna í sarpinum, æla henni svo fram í nefið, og tekur unginn þar við henni.

Enginn fugl hefur tennur; verða fuglarnir því annaðhvort að bíta fæðuna sundur með nefinu eða gleypa hana heila. Margir fuglar gleypa litla steina, sem merja sundur fæðuna í maga þeirra. Sumir fuglar, sem jeta kjöt, t. a. m. uglur og haukar, geta ekki melt skinn, fiður og hár af dýrum þeim, er þeir jeta, og æla þeim því upp. Stórir hræfuglar geta melt hnefastór bein. Fuglarnir lifa á ýmiskonar fæðu; sumir á berjum, korni og öðrum frætegundum, svo sem margir titlingar, sumir á skorkvikindum, eins og svalan; sumir lifa á fiski, t. a. m. máfar, veiðiernir og fleiri; sumir lifa á öðrum fuglum og spendýrum, svo sem hræfuglarnir, sumir á láðs og lagardýrum, t. a. m. storkurinn, sumir á hræjum, svo sem hrafninn.

Af hræfuglum má nefna gleðuna; hún flýgur hátt og í marga króka; músahaukinn, hann er svartur að lit með hvítum dílum; valinn, hann veiðir einkum rjúpur, og örninn. Einn þeirra er gammurinn; hann er 2 álnir á hæð, og lifir á hálendi; hann tekur lömb, dádýr, og stundum börn. Hreiður hans er faðmur að þvermáli þess eru dæmi, að ernir hafa tekið börn. Hinn svarti kondór í hinum heitustu löndum hremmir kálfa og fleiri dýr. Vængir hans eru 8 álnir á lengd; hann er ótrúlega fljótur að gleypa bráð sína.


Mörgæs.

Fuglarnir lifa ekki einungis í skógum, högum og engjum, heldur og á berum klettum og úti á regin hafi; á jökulfjöllum við hin köldu heimskaut úir og grúir af sjófuglum. Margir fuglar eru saman í hópum, sumir gjöra jafnvel hreiður sín saman. Í strjálbyggðum löndum, t. a. m. Brasilíu, sjá menn opt ótal þús-

undir fugla skipa sjer um strendurnar; vaka þeir þar yfir veiði með stjái og stímabraki, ysi og óhljóðum. Mörgæsirnar (Pingvin) raða sjer um strendurnar, eins og hermenn í fylkingu.

Margir fuglar fara úr hinum kaldari löndum í hin heitari, þegar kólnar; þeir eru kallaðir farfuglar. Sumir eru ávallt kyrrir í sama landi; eru það einkum hræfuglarnir. Það sætir undrum hve langt fuglarnir fljúga á þessum ferðum sínum. Á Pólínalandi var veiddur storkur, sem hafði gullfesti um hálsinn; hafði auðmaður í Indíum hengt hana um háls honum til þess menn vissu hvaðan hann væri kominn.



Páfagaukur.

Fjaðrir margra fugla eru mjög fagrar á lit. Allmargir fuglar breyta lit eptir árstíma og líta þá út eins og þeir væru allir aðrir fuglar. Hin fagra hrækráka glitrar þegar sólin skín á hana; hún er ljósjörp á bakinu, en vængjafjaðrirnar eru dökkbláar. Hinn hvati páfugl er grænleitur, en á enda hverrar stjelfjaðrar er grængljáandi blettur, líkur stóru auga.

Strúturinn er stærstur allra fugla; hann er 4—5 álnir á hæð. Hinir minnstu fuglar eru kólibriar; sumir þeirra eru lítið stærri en stærstu flugur. Sumir fuglar verða mjög gamlir; páfagaukar og ernir, t. a. m. geta lifað yfir 100 ár; margir fuglar lifa 20 ár.

Margir fuglar hafa fagra rödd; fegurst syngur hinn grámórauði næturgali; þar næst lævirkinn; uglur og krákur hafa ljótasta rödd. Sumir fuglar geta lært að tala einstök orð, t. a. m. hrafninn og páfagaukurinn, en þeir vita ekki hvað þau þýða.

Not þau, sem menn hafa af fuglunum, eru mikil og margbreytt. Margir fuglar, t. a. m. ernir og hrafnar hjá oss, og gammar í hinum heitu löndum, eyða hræjum, er að öðrum kosti mundu spilla loptinu; aðrir eyða skaðvænum skorkvikindum og ormum,



Strútur.

svo sem svölur og titlingar. Menn hafa talið til, að 1 titlingur eyði 1500 kálormum á einni viku. Sumir fuglar jeta fræ ávaxtanna og drita því ómeltu á öðrum stöðum og auka þannig frjófsemi jarðarinnar; sumir flytja fiskihrogn úr einu vatni í annað og verða þannig að notum. Egg fuglanna eru almennt til matar höfð. Tamdir fuglar allir eru og hafðir til matar, og margir af villifuglum eru ætir, t. a. m. hrossagaukar, akurhæns, endur, orrar, lóur, rjúpur, þiðurinn og fl. Fiður og dún fuglanna er haft í sængur og margt annað. Fjaðrir eru hafðar til skrauts og listasmíðis og til læknisdóma.

## C. Skriðdýr.

Skriðdýr eru nefnd svo af því að mörg þeirra eru svo lágfætt að kviður þeirra sýnist dragast með jörðinni, og önnur hafa alls enga fætur, svo sem höggormurinn; dragast þau áfram á kviðnum.

Af skriðdýrum viljum vjer einkum nefna 4 tegundir: Krókódíla, skjaldbökur, eðlur og höggorma. Þau eru ólík spendýrum og fiskum í því, að þau hafa ekki heitt blóð; líkami þeirra er því kaldur. Fiskunum eru þau ólík í því, að þau anda

með lungum; þar sem fiskarnir anda með tálknunum. Pöddur eru þeim ólíkar í því, að þær hafa slímhúð og vantar klær og rifbein.

Skriðdýrum er það eiginlegt, að þau geta lengi verið án fæðu. Menn vita það um skjaldbökur, að þær geta lifað árlangt án þess að neyta nokkurs, og án þess að á þeim sjái. Þessi sjaldgæfi lífskraptur kemur og fram í því, að skriðdýrin eru mjög lífseig. Skjaldbökur geta hlaupið lengi eptir að höfuðið er tekið af þeim. Ef höggormur er skorinn í parta, hreifast partarnir lengi á eptir. Það er einkennilegt hve mikinn mátt skriðdýrin hafa til þess að leiða fram nýja parta. Eins og hár vex á öðrum dýrum, þó klippt sje, þannig vaxa rófur á eðlum, þó þær sjeu skornar af.


Krókódíll.

Skriðdýr eru ljót ásýndum. Að sönnu er skinn höggorma gljáandi og fagurt á að líta, en allt að einu eru þeir ljótir; hausinn er flatur og hryllilegur og augun starblína. Sum skriðdýr eru þakin hörðum skeljum, t. a. m. skjaldbakan; önnur hafa litlar skeljar, hringi og skildi á líkamanum, svo eru margar eðlur og höggormar.

Í hinum köldu löndum eru skriðdýrin fá og smávaxin, en í hinum heitu löndum eru þau stór; þar eru hinir voðalegu krókódílar; þeir eru yfir 10 álnir á lengd; þeir eru mannskæðir. Höggormar í hinum heitu löndum eru einnig mjög stórir; tröllhöggormar eru ósjaldan 15—20 álnir og digrari en mannslæri. Risaskjaldbökurnar eru stærri en meðalnaut, og svo eru þær sterkar, að 12 manns geta staðið á bakinu á þeim.

Flest skriðdýr verpa eggjum; krókódíllinn verpir 2—300 eggjum í senn; það er því mikil mildi, að mörg dýr eru sólgin í egg hans, annars mundi hann aukast um of. Skjaldbökur verpa mörgum hundruðum eggja í einu, og eru þau gómsæt eins og kjöt þeirra; þetta vita skjaldbökurnar og verpa þessvegna í sandi á næturþeli og raka sandi yfir eggin, og til þess þau finnist eigi af förum þeirra, traðka þær allt í kring. Egg skriðdýranna eru þakin himnu, álíkri kalkskurni á fuglaeggjum.

Skriðdýrin eru helzt á rakafullum og dimmum stöðum; sum þeirra lifa bæði á landi og í sjó. Þau eru aldrei mörg saman, eins og sum önnur dýr; ekki verða menn heldur varir nokkurrar tilhneigingar til listaverka hjá þeim. Þau sofa ekki reglulega á dægri hverju, þar á móti falla þau í vetrardá; sofa þau þá opt í stórum hópum, sum sofa niðri í djúpu vatni. Þeim er seinfarið fram, en þau verða líka langlíf; sum þeirra vaxa eins lengi og



Höggormur.

þau lifa; dæmi eru til, að skjaldbökur hafi orðið 125 ára; höggormar og krókódílar verða enn eldri.

Skriðdýrin lifa því nær öll af öðrum dýrum; eru þau því flest rándýr. Hin minni lifa af skorkvikindum, ormum, smáfiskum, auk þangs og fl. Höggormar jeta fugla, völskur, íkorna, froska og fleiri dýr. Risahöggormurinn jetur naut, menn og jafnvel stór rándýr. Flestir höggormar geta gleypt dýr, sem eru miklu gildari en þeir sjálfir, því að þeir geta þanið kjaptinn mjög sundur; en þegar þeir hafa gleypt eitthvað sjer um megn, verða þeir daufir og eru marga mánuði að melta það. Við tannarætur sumra höggorma er eitur í blöðru, sem þeir drepa með þegar þeir bíta til blóðs; gengur þá eitrið gegnum tennurnar í sárið. Höggormar þessir eru mjög hættulegir mönnum, meðfram af því að þeir liggja í leyni þangað til að þeim er komið. Það er mikil líkn, að í þeim löndum eru margar jurtir, sem lækna bit þeirra.

Af eðlutegundum má nefna eina smávaxna í Indíum, sem nefnd er dreki. Drekar hafa löng rif og standa þau út hvort frá öðru, en skinn þanið á milli þeirra, eru þeir því elgi ólíkir fuglum, er þeir stökkva af hærri stað á lægri; sumir þeirra eru meira en 2 álnir á lengd, auk halans; drekar þeir, er gamlar sögur greina frá, eru eigi til.

Krókódílar hafa langt höfuð, mikið taunstæði og 80 tennur. Þeir hvolfa stundum bátum og taka svo mennina; þeir geta legið, eins og þeir væru dauðir, bæði á sjó og landi, og er þá verst að varast þá. Suðurálfubúar gjalda þeim líku líkt, og jeta kjöt þeirra og þykir gott.



Skjaldbaka.

Skjaldbökurnar eru þaktar hörðu hýði, og stendur höfuð, hali og fætur út úr því; geta þær dregið höfuð sitt og hala inn undir það, þegar þær verða hræddar. Hýði sumra þeirra fága menn og búa til úr því ýmsa fagra gripi. Höggormarnir geta sett sig í kuðung og í sama vetfangi teygt úr sjer aptur til að ná í það sem þeir vilja nærast á. Tunga þeirra er

klofin. Með eitruðum höggormum má telja skröltorminn; er hann nefndur svo af því að á hala hans eru hringar, sem skrölta; hann er í Vesturálfu. Gleraugnaormurinn er í Indíum; hann er nefndur svo af mynd nokkurri, á hnakka hans, sem líkist gleraugum. Af höggormum hafa menn því nær engin not; að eins í hinum heitu löndum er súpa af kjöti þeirra höfð til lækninga.

## D. Pöddur.

Pöddur eru í mörgum greinum líkar skriðdýrum og voru þær fyrrum taldar með þeim. Blóð þeirra er kalt, eins og blóð skriðdýranna, og þær anda með lungum, er þær eru fullvaxnar, en framan af æfinni eru þær í hylki og anda þá með tálknum. Þær eru ólíkar skriðdýrum í því, að þær hafa bert skinn, sem ávallt er þvalt og rakt, en enga skel. Þær lifa bæði í vatni og á landi.

Með pöddum teljast froskar og salamandrar. Froskar hafa flatan líkama en engan hala, eða rófu; framfætur þeirra eru styttri en apturfæturnir.

Pöddur eru mjög lífseigar; þær lifa þó þær sjeu særðar þeim sárum, sem á augabragði mundu deyða önnur dýr. Froskar hafa opt frosið í ísum, en er ísinn hefur bráðnað, hafa þeir lifnað við aptur. Dýr þessi þola sult hálft ár og jafnvel lengur. Framleiðsluafl þeirra er og mikið. Salamandur, sem hafði misst auga, hafði eptir fáa mánuði fengið annað nýtt auga.

Pöddurnar nærast á ormum og skorkvikindum. Froskarnir hafa tungu, sem er vel fallin til að veiða dýr þessi; hún er sumsje laus að aptan en föst að framan, og geta þeir þessvegna fljótlega skotið henni út úr sjer, er þeir vilja veiða. Eins og dýr þessi geta fastað lengi, svo jeta þau mjög mikið, þegar þau hafa nóg; jeta þau opt hvort út úr öðru og haldast á um orma. Að öðru leyti ber lítið á lífi þeirra, og hafa þær litlar hreifingar, nema þegar þær leita sjer fæðu. Froskarnir geta verið mjög lengi niðri í vatni, með því þeir draga andann um hið mjúka skinn sitt, og þurfa ekki að koma upp úr vatninu til að fylla lungun með lopti.

Pöddurnar verpa mörgum eggjum niðri í vatni. Eggin hafa ekkert skurn, og eru því lin átöku, og optast hirða foreldrarnir lítið um þau. Þó gjöra ljósmóðurfroskarnir undantekningu. Kvenndýrið verpur eggjunum í löngum þráðum, en karldýrið vefur þráðum þessum um fætur sjer og fer með þá út í vatn til að klekja þeim út. Stundum setur karldýrið eggin föst í bak kvenndýrsins, og klekjast þau þar út. Pödduungarnir eru ólíkir

hinum fullorðnu pöddum. Þegar þeir fara úr egginu hafa þeir langa og breiða rófu; apturfæturnir koma fyrst báðir í einu og síðan framfæturnir, einn í senn.

Í vötnum niðri í jörðinni í Austurríki er padda, sem heitir Protevur. Hún er löng eins og áll, en hefur 4 stutta fætur; tálkn hefur hún beggja megin á höfðinu og er blind. Hún er rauð á lit og því nær gagnsæ. Hún deyr, ef hún kemur upp í dagsljósið.

Pöddurnar eru nytsamar og eyða mörgum skaðvænum skorkvikindum, en gjöra engan skaða.

## E. Fiskar.

Fiskarnir lifa i sjónum, stöðuvötnum og ám, og er líkam þeirra lagaður eptir bústað þeirra. Þeir hafa enga útlimi, heldu þunna ugga til að stýra ferð sinni og stöðva sig með; þeir hafa hvorki hár nje fjaðrir, heldur hornkent hreistur, er gjörir litla fyrirstöðu í vatninu; eru þeir allir þar að auk slími þaktir. Þeir hreifast áfram með því að slá með sporðinum. Hreistur margra fiskitegunda er mjög litfagurt; það er með rauðum, eða gulum, bláum og svörtum, eða purpurarauðum og himinbláum rákum, sumir fiskar eru ljósgrænir eða himinbláir, með silfurlitum kvið. Á einni fiskitegund er höfuðið rautt, bakið lyfrautt, kviðurinn gulur, brjóstuggarnir bláir og sporðurinn jarpur.

Fiskarnir lifa, eins og önnur dýr, meðfram af loptinu, en lopt það, sem er í vatninu, er þeim nægilegt; þeir hafa engin eiginleg lungu, en anda með tálknunum; þeir gleypa vatnið með munninum, láta það aptur út um bil það, sem er milli fananna, þegar lopt það, sem í þeim er, hefur endurnært þá. Þeir hafa rautt blóð, en kalt, eins og skriðvikindin; þeir eru kaldir, eins og vatnið, er þeir lifa í. Lungu hafa þeir engin, og þessvegna enga rödd. Þeir hafa engan maka og ekkert eiginlegt heimkynni.

Nálega allir fiskar verpa eggjum, sem nefnd eru hrogn; þau eru hjúpuð smágjörðri himnu. Þegar fiskarnir ætla að gjóta, en það er optast að vorinu, fara þeir flestir upp að landinu og gjóta þar hrognunum á plöntum, eða milli steina og kletta, af því að botninn er þar hlýrri á sumrin, en þar sem dýpra er. Hvati fiskurinn vökvar hrognin, með safa þeim, er nefndur er svil. Þorskurinn gýtur 6—7 millíónum hrogna í einu.

Fiskarnir æxla mjög kyn sitt, enda er ærinn fjöldi þess, sem hvalir, selir, fuglar og allskonar rándýr og ránfiskar eyða. Hornsílið á fæst hrogn og skipta þau þó hundruðum. Sumir fiskar geta orðið mjög gamlir, jafnvel yfir hundrað ára.

Stærð fiskanna er ýmisleg mjög, eins og annara dýra. Hár-

inn er 15 álnir á lengd, en hornsílið lítið meira en 1 þumlungur. Vaxtarlag þeirra er einnig breytilegt Flestar fiskitegundir eru mjög slegnar og grannvaxnar, svo sem síld og þorskur, eða sívalar, eins og állinn, eða flatar, eins og lúðan og skatan, eða kringlóttar, ferhyrndar, eða þríhyrndar; sumar eru því nær hnöttóttar.



Koli.

Margir fiskar lifa á smádýrum og öllum þeim óhreinindum, sem í sjó detta; sumir lifa á sæplöntum, en flestir þó hvorr á öðrum. Gráðugust allra fiska í ósöltu vatni er geddan. Þegar gedda er flött, er opt fiskur í maga hennar og í maga hans aptur annar fiskur.

Flestir fiskar hafa tennur eigi að eins í kjaptinum, heldur og á tungunni, í kokinu og í gómnum. Flestir elta þeir bráð sína þangað til þeir ná henni; fæstir þeirra liggja í launsátrum. Voðalegastir allra illfiska eru hákarlarnir; sumar tegundir þeirra geta gleypt fullorðinn mann, veita þeir skipum opt eptirför á hinu mikla veraldar hafi og gleypa hvað sem dettur útbyrðis. Á síðast liðinni öld gleypti hákarl háseta, en lagsmenn hans náðu hákarlinum þegar og maðurinn hjelt lífi. Það er líklegt, að það hafi verið fiskur þessi, sem gleypti Jónas spámann, en eigi hvalur, því að kok hvalanna er svo mjótt.

Það er eðlilegt, að vjer vitum minna um lífernisháttu og eðli fiskanna, en annara dýra, bæði af því að vjer sjáum ekki, heldur getum oss til, hvað fram fer í hafs djúpinu. Allt fyrir það hafa menn tekið eptir ýmsu merkilegu um háttu fiskanna. Síldin fer í stórum hópum úr djúpi hafsins upp að ströndum þeim, er nærstar liggja; fer hún meðfram þeim, bæði til að leita sjer

fæðu, og til að finna góðan stað til að gjóta á hrognunum. Laxinn fer á vorin úr sjónum upp í ár til að gjóta. Sumir fiskar geta haft áhrif á önnur dýr, þótt eigi sjeu þeir mjög nálægir; segja menn, að þeir geti drepið aðrar skepnur í nokkurri fjarlægð. Menn segja og, að á úthafinu sjeu nokkrar fiskitegundir, sem geti flogið lítið og þannig forðað sjer frá árásum. Lúðurnar hafa augun á annari hliðinni, og synda á hliðinni.



Flugfiskur.

Fiskarnir eru mönnunum til hinna mestu nota. Það sætir undrum hve mikið snætt er af fiski á degi hverjum. Hvervetna meðal siðaðra þjóða búa fiskimenn við vötn, ár og strendur hafsins, þar að auki eru gufuskip send hundruðum saman á hinar beztu fiskistöðvar, en þær eru við Nýfundnaland í norðurhluta Vesturálfunnar, við Lófótinn í Noregi og Doggerbank í Jótlandshafi; við Ísland er og fiskisælt og er þar fjöldi þilskipa við fiskiveiðar frá öðrum þjóðum. Víða eru gefin nákvæm lög um fiskiveiðar, t. a. m. í Bodenvatninu á Þýzkalandi og Limafirðinum í Danmörku. Í lögum er tiltekið hvenær byrja má veiðina, legu skipanna, stærð netanna og sv. frv. Víða er bannað að veiða unga fiska.

## 2. *Hin beinlausu dýr, eða liðdýr og lindýr.*

Dýr þessa aðalflokks eru flest, og hafa menn skipt þeim í 2 deildir: A. Liðdýr, eða þau, er hafa liðamót, eða að minnsta kosti limu; í þeirri deild eru skorkvikindi og ormar, og B. Lindýr, það eru þau, sem hafa linan líkama, en engin eginleg liðamót.

### A. Liðdýrin.

Til deildar þessarar teljast skorkvikindi og ormar. Skorkvikindin eru aptur tvennskonar: þau, sem hafa vængi og breytast, eða hin eiginlegu skorkvikindi, og þau, sem hvorki hafa vængi nje breytast.

Skorkvikindin eru nefnd svo, af því að höfuðið og partar líkamans eru skiptir sundur með skoru; líkami þeirra skiptist í þrennt: höfuð, brjóst og bakhlut; þau eru í mörgu einkennileg: þau hafa ekkert blóð, helður vessa nokkurn, sem vanalega er grár á lit.

Á hliðunum hafa þau lítil göt, sem þau draga andann gegnum. Mörg þeirra hafa töng, odd, eða brodd til að stinga með; önnur hafa trjónu í munninum til að sjúga með vessa og blóð, svo sem mýflugur. En tveir hlutir gjöra þó skorkvikindin einkennilegust, að þau hafa minnsta kosti 6 fætur (mörg hafa 8, 12, 20, 120 og allt að 200 fætur), og að þau, að fáum undan teknum, hafa horn út úr enninu. Horn þetta er þráður hreifanlegur með liðamótum og næmri tilfinningu; hætir það, að líkindum, upp tilfinningarleysið í kropp þeirra, en hann er þakinn skel, og skilningarvitin eru ófullkomin. Af skilningarvitum þeirra er sjónin fullkomust; mörg skorkvikindi hafa fleiri en tvö augu; margfætlurnar hafa 3, köngulóin 4 og sv. frv. En augu þessi hafa optast þann galla, að þau eru óhræranleg í höfðinu; úr þessu bætir aptur það, að augu margra skorkvikinda eru með mörgum flötum, svo þau geta sjeð til hliðar og jafnvel aptur fyrir sig. Á auga flugunnar eru 8000 fletir og á auga fiðrildisins eigi færri en 17000.

Flest skorkvikindi verpa eggjum, og mörg þeirra kjósa sjer til þess hagkvæman stað; sum reisa jafnvel hús til þess. Nokkrar flugutegundir gjöra holur í steinveggi og láta eitt egg í hverja holu, og eitthvað unganum til næringar, og hræða svo fyrir. Sum þeirra verpa eggjum í öðrum kvikindum, til þess innýfli þeirra næri ungana.

Skorkvikindi hafa aðsetur bæði á trjám og niðri í jörðu og í vatni og á öðrum dýrum. Mjög fá þeirra lifa í fjelagi; helzt gjöra það býflugur og maurar. Bústaðir sumra þeirra eru gjörðir

með hagleik miklum. Hverr getur skoðað vef kongulóarinnar án þess að undrast, að svo lítið dýr skuli geta ofið svo smágjörfan vef og reglulegan? Mauraljónið býr til trektmyndaða gryfju í lausum sandi og hylur sig á botninum svo hausinn einn stendur uppúr. þegar hinir starfsömu maurar koma á holubarminn og falla ofan í hana, dregur mauraljónið þá ofan í sandinn og jetur þá. Merkilegast er híbýli býflugunnar og hraukar hinna hvítu maura; þeir eiga heima í Suðurálfu og byggja sívala turna, opt 5 til 6 álnir á hæð; inni í þeim eru göng, brýr og herbergi.

Breyting sú, sem mörg skorkvikindi taka, er eitt hið undrunarverðasta í allri náttúrunni. Dýr þau, er koma úr eggjum slíkra skorkvikinda, eru ekki eiginleg skorkvikindi, heldur nokkurskonar maðkar, eða yrmlingar. Yrmlingar þessir eru tíðum mjög fagrir að sjá; jarpir eða grænir, með gulum, hvítum, svörtum, eða rauðum blettum og röndum. Slíkir yrmlingar gjöra ekki annað en að jeta, en jeta með græðgi mikilli. Meðan fiðrildið er yrmlingur, jetur það á dag þrefalt meira en það vegur. Sumir yrmlingar gjöra því mikið tjón, t. a. m. trjemaðkurinn og mjölmaðkurinn. Kleggjarnir verpa eggjum undir skinni á hrossum og nautum; fá þau af því kýli, og er þá bezt að þrýsta á það, svo yrmlingarnir drepist. Melurinn, sem er fiðrildistegund, verpir í klæðum, yrmlingurinn jetur göt á þau og býr sjer til hulstur eða hýði úr því, sem hann nagar.

Yrmlingarnir skipta opt hýðum, síðan vefja þeir sig í hylki, eða fá harða skel utan um sig; halda þeir þá kyrru fyrir og neyta einkis. Tíminn, þegar skorkvikindin taka breytingu þessari, er mjög ýmislegur. Sum breytast þannig 14 dögum eptir fæðinguna, sum eptir 7 daga. Kongulóaryrmlingurinn er þannig 4 ár í jörðinni. Á haustum má tíðum sjá kálorma skríða upp eptir múrveggjum; stundum nema þeir staðar og drepast; má sjá á þeim göt, og yrmlingar annarar tegundar, sem hefur verið orpið í þá, gægjast út; spinna síðan yrmlingar þessir út úr sjer gulan þráð, úr honum verður aptur lítill lopi, sem situr á veggnum þangað til að vorinu, að vængjað skorkvikindi flýgur út úr hylki þessu.

Ein fiðrildis tegund, sem í hinni annari mynd sinni, eða eptir að hún er hætt að vera yrmlingur, er kölluð silkiormur, er mönnum til mikils gagns. það er ormur þessi, sem spinnur silkið; er það í hinum heitu löndum haft í stað ullar, en í hinum kaldari í skartbúning. Ormur þessi er, meðan hann er í þessu ástandi, eða meðan hann er í hylkinu, líkur gylltu eggi. Auk þess eiginlega hylkis, er líkist þjettu garganstói, og er úr þráðum mörg hundruð álna löngum, spinnur ormur þessi 2 aðra þar utanyfir, og er það silki lakara að gæðum. Ormarnir eru látnir

ofan í volgt vatn; drepast þeir þá innan í hylkinu; síðan eru þræðirnir hespaðir utan af þeim. Stundum drepa menn orminn ekki; að 3 vikum liðnum er hann þá orðinn að fiðrildi; það verpir eggjum og deyr að því búnu. Úr egginu verður yrmlingur; hann gengur í hylki, og helst silkiræktin þannig fram. Yrmlingar þessir lifa mest á mórberjatrjánı; er því silki mest stundað þar sem þau trje vaxa. Í Norðurálfunni er það einkum á Frakklandi, Spáni og Italíu.



Mórberjalauf með silkiormum og silkiflugu.

Hin fullvöxnu skorkvikindi, sem komin eru úr hylkinu, lifa optast skamman tíma, þurfa litla eða enga næringu, og deyja eptir að þau hafa makað sig og orpið. Sum hinna vængjuðu skorkvikinda hafa stóra, þríhyrnda, fjöllita vængi; þau köllum vjer fiðrildi, sum hafa gagnsæja vængi, eins og gler, svo eru flugur og gullsmiðir; sum hafa svo ónóga vængi, að þau geta ekki flogið. Hin vængjuðu skorkvikindi eru flest mjög smá, um $^1/_{17}$ partur úr þumlungi; hin stærstu eru 5 þumlungar.

Kroppur fiðrildanna er líkur ormi, en vængirnir eru mjög langir; þeir eru eitt hið fegursta, sem fyrir augu vor getur borið, og hafa allskonar liti. Hið algenga fiðrildi er hvítt með svörtum

blettum; það er nefnt grasmaðkur þegar það er í hylki. Fiðrildin lifa á safa, sem þau sjúga út úr blómum.

Meðal hinna annara vængjuðu skorkvikinda eru mörg fögur, einkum þau, sem eru ljósgræn og dökkgræn á lit með gylltum blettum. Þeirra merkilegastar eru býflugurnar; venja menn þær á að búa saman og fá af þeim hunang og vax. Þær hafa brodd, sem þær stinga með. Maurarnir lifa einnig margir saman; þeir hafa vængi að eins meðan þeir tímgast og bíta þá síðan sjálfir af sjer; þeir spilla opt timbri, en útrýma má þeim með því að bera tjöru á.

Flugur, kleggjar og mýflugur eru alkunn. Í hinum heitu löndum eru mýflugur stórar og illar. Engisprettur hafa vængi; þeir eru bognir saman; á veggjalúsum eru þeir í kross. Engisprettur koma stöku sinnum í ógurlegum hópum frá Austurálfunni til Norðurálfunnar; gjöra þær þá á fám stundum stórkostlegt tjón á skógum og engjum. Af veggjalúsum eru til margar tegundir; ein þeirra er sú, er heldur sig í rekkjum, flóin, bítur hún sofandi menn, tegund sú æxlar mjög kyn sitt, og getur soltið mörg ár. Hreinlæti og gott lopt útrýmir henni bezt.

Hin hreisturvængjuðu skorkvikindi, er kallast **bjöllur**, eru mörg; til þeirra teljast aldinborar, jarðlýs, timburmenn og brunnklukkur; þær lifa í ám og pollum og hafa sundfætur. Á kveldin fljúga þær úr einu vatni í annað. — Hinar eiginlegu flær eru á milli hinna vængjuðu og vængjalausu skorkvikinda; þær hafa enga vængi, en breytast þó líkt og vængjuð skorkvikindi.


Krabbi.

Hin vængjalausu skorkvikindi hafa flest fleiri en 6 fætur; þau eru öll ófríð ásýndum. Þau hafa sum hornskel, en sum hörund. Til hinna fyrnefndu teljast krabbar, humrar og marþvarar. Krabbar sitja í holum og undir steinum í ám og tjörnum; þeir syndа aptur á bak. Menn segja, að þeir lifi í 20 ár. Í maga

þeirra eru tveir litlir kalksteinar, er menn kalla krabbaaugu. þó klærnar sjeu rifnar af krabbanum, vaxa þær aptur. Til þeirra teljast margfætlur; sumar þeirra hafa 200 fætur.

Meðal hinna hörundsmýkstu, vængjalausu skorkvikinda eru kongulær og lýs. Sumar kongulær eru skaðvænar og bíta. þráð sinn spinna kongulærnar af vörtum, sem eru á apturfótum þeirra. Lýsnar lifa í hári og á líkama óþrifinna manna. þær æxla mjög kyn sitt; egg þeirra kalla menn nit.

Fyrir utan not þau, er menn hafa af hinum ætu skorkvikindum, eyða mörg þeirra hræjum og illgresi. Mest eru not þau, er menn hafa af hinum óþreytanlegu býflugum. Ótamdar býflugur lifa í skógum og gjöra sjer hreiður í holum eikum, hinar tömdu eru hafðar í svo nefndum býflugnabúum. Í hverju búi eru þrennskonar býflugur, það er: ein drottning, margar vinnuflugur og nokkrar hvatar býflugur. Drottningin ein sjer um, að regla og starfsemi haldist við; hún ein verpir eggjum þeim, sem hinar aðrar koma úr. Vinnuflugurnar eru minni en drottningin. Hvötu flugurnar eru stærstar, en þær hafa engan brodd. Á venjulegu býflugnabúi eru 7—900 hvatar flugur, hjer um til 10 sinnum fleiri vinnuflugur og ein drottning. þegar nýjan bústað skal tilbúa, safna vinnuflugurnar nokkurskonar glerlími (kítti); naga þær það af viðarbrumi og setja á fætur sjer til að flytja það. Efni þessu drepa þær í allar rifur og op, nema dyrnar. Síðan sækja þær efni í vax úr allskonar blómum. þær taka sem sje hið smágjörfa dupt, sem er innan í blómunum, væta það og jeta; í maga þeirra verður það að vaxi og hafa þær það út úr sjer með svita. Úr vaxinu mynda þær aptur sexhyrnda klefa, sem eru kallaðir koppar. Koppa þessa hafa þær fyrir búr til að geyma hunang í og fyrir hreiður. Drottningin verpir nú einu eggi í hvern kopp; sumarlangt verpir hún allt að 40,000 eggjum. Fyrst verpir hún eggjum, sem hvatar flugur koma úr, og loksins verpir hún eggjum í sjerstaka koppa, sem drottningar koma úr. Að fám dögum liðnum kemur maðkur úr hverju eggi; hirða býflugurnar hann og næra á nokkurs konar graut, er þær einnig safna úr blómum, og er maðkurinn að viku liðinni kominn í hylki. þegar svo er komið, loka flugurnar koppinum með vaxloki; skiptir þá dýrið, sem er þar inni í, nokkrum sinnum hýði og er að 14 dögum liðnum orðið býfluga; brýtur hún vaxlokið, flýgur út og fær hunang að jeta. Hunangið verður svo til, að býflugurnar sjúga safa nokkurn úr blómum, kyngja honum í maga þann, er kallaður er hunangsblaðra og geyma hann þar. Síðan hella þær vökva þessum í koppa og bræða vaxlok yfir svo haun renni ekki burtu.

þegar býflugur eru orðnar margar í einu búi og ungar

drottningar hafa fjölgað, þá eru nokkrar þeirra sendar eða reknar burt. Safnast þær til burtferðar í þjettan flokk, fyrir neðan dyrnar á búinu, þannig, að hver býfluga er áföst við aðra. Fljúga þær síðan allar burtu, og þar sem drottningin setur sig niður, þar setjast og hinar allar í þjettum hóp. Má þá með lagi veiða þær í tómt bú og fara þær þegar að búa þar um sig. Setist nú margar drottningar að í einu búi, þá liggja allar, nema ein, degi síðar dauðar fyrir utan búið; af því aðeins ein má vera húsmóðir. Á þenna hátt sveima býflugurnar mest í júnímánuði og júlímánuði. — Þegar frost koma á haustin falla býflugurnar í dvala, eins og flest skorkvikindi, og vakna sjaldan við fyr en á vorin. Hægast er að ná ávexti þessara óþreytandi kvikinda með því að bana þeim og taka svo vax og huuang, en það er bæði vanþakklætislegt og ónauðsynlegt. Hin bezta aðferð er, að reka þær í annan part húsins; taka þær þá þegar að búa þar um sig. — Úr bjöllutegund nokkurri, er lifir sunnarlega í Norðurálfunni, er tilbúinn spansflugupIástur.

Ormarnir, sem eru hin önnur deild liðdýranna, lifa í raklendi, í vatni og innan í öðrum dýrum. Ánamaðkarnir hafa rautt blóð; þeir lifa í ræktarmold; þeir hafa svo mikinn eðlismátt til nýrrar framleiðslu, að ef ánamaðkur er sundur skorinn, verður heill maðkur úr hverjum parti. Flestar aðrar maðkategundir lifa í sjónum. Meðal orma þeirra, er lifa í innýflum dýra, teljast mörg undarleg kvikindi. Ormar þessir lifa í holdi, lifur og þörmum manna og margra annara dýra. Hinir algengustu eru spjótormarnir; nokkrir þeirra eru litlir og hvítir, aðrir dökkir og langir. Hin versta tegund eru bandormanir; þeir eru bæði í mönnum og dýrum og geta orsakað sinadrátt og jafnvel dauða. Það er erfitt að útrýma þeim, því að nýir limir vaxa út úr höfði þeirra, ef það næst ekki.

## B. Lindýrin.

Lindýrin eru frábrugðin liðdýrum og ormum í því, að þau hafa eigi hringi, eins og liðdýrin og ormarnir. Hörund þeirra er mjúkt, en utan á því er kalkmynduð skel og er hún þeim til varnar. Flest þeirra hafa stóra hrukku á bakinu; á sumum þeirra liggur hún í fellingum ofan með síðunum, og er þá líkast því, að þau sjeu í poka; fellingar þessar eru kallaðar kápa. Skilningarvit þeirra eru ófullkomin; flest hafa þau þó augu og eyru; sum þeirra anda með lungum, en sum með fönum, sum þeirra hafa munn til að bíta með, en á sumum er hann einfalt op.


Kolkrabbi.

Af lindýrum þeim, sem hafa höfuð, eru sníglarnir og smokkfiskar eða kolkrabbar hin helztu. Sníglarnir hafa enga fætur, heldur kviðflögu, sem þeir akast á og halda sjer með. Í sjónum lifa kuðungar; þeir hafa harða skel með ýmsum fögrum litum; kolkrabbarnir lifa og í sjónum; þeir eru kallaðir svo af því að þeir geta spúð vökva nokkrum svörtum, svo þeir sjáist ekki. Þeir ganga jafnan og sitja á höfðinu, en fætur þeirra standa upp; kolkrabbar hafa augu og nokkurskonar eyru.

Hin höfuðlausu lindýr eru margvísleg að stærð, lit og líkamsskapnaði. Á þeim er enginn framhluti nje apturhluti, og því hvorki hægri nje vinstri hlið. Sum þeirra liggja milli flatra skelja; eru þær fastar á klettum, skipum, hvölum og víðar. Til dýra þessara teljast ostrur og kræklingar. Í skel perlungsins myndast smátölur þær, er kallaðar eru perlur; hafa Austurálfumenn þær í afhaldi miklu.


Marglitta.

Nokkur dýr í þessum flokki kallast Polýpar og eru græn að lit og í lögun lík fingurbjörg. Skeri menn þá í sundur verður heilt dýr úr hverjum parti; má og án saka snúa þeim um. Meðal hinna ófullkomnustu dýra eru kórallarnir (kúríel) sem lifa niðri í sjónum í steineikum, er þeir gjöra sjer, og kallast marmennilsmíði. Þeir eru einkum í hinum heitu löndum, og marmennilsmíði þessi standa í sjónum, eins og sker, og eru hættuleg

fyrir skip. Sum marmennilsmíði eru rauð og eru þau slædd upp og höfð í talnabönd og fl. Af því að þau eru eins og jurta greinar í lögun, hafa menn kallað dýr þessi plöntudýr. Þvottasvampar eru hús þesskonar dýra.



Krossfiskur.

## VI. Jurtaríkið.

Orðið jurt merkir í ritmáli sjerhvern ávöxt jarðarinnar frá hinni stærstu eik til hinnar minnstu plöntu; það er: eikur, runnar, grasategundir allar, jurtir, sveppar, mosategundir og allur slíkur gróði jarðarinnar. Jurtirnar eru lifandi verur, eins og dýrin, en líf þeirra er á lægra stigi, því að þau vita ekkert til sín og hafa engin skilningarvit. (Hreiffingareðli hafa ýmsar jurtir, þótt eigi sje það þeim sjálfrátt eins og dýrunum).

Jurtir vaxa allstaðar á jörðinni þar sem þær hafa jarðveg að vaxa í, vatn að nærast á og hita og ljós sólarinnar. Nálægt heimsskautunum, þar sem vatn frýs þó 10 mánuði af árinu, vaxa þó einstöku jurtir. En í hinum heitustu löndum er þó mest af þeim, þar eru þær stærstar og fegurstar. Því nær allar jurtir bera blóm; þegar þau eru útsprungin vaxa á þeim fræ; af fræi þessu vaxa aptur nýjar jurtir. Sumar jurtir tímgast þannig, að upp af rótum þeirra renna nýjar plöntur. Þegar jurtarfræið er hulið jörð, dregur það í sig raka og þrútnar, rifnar þá himnan af því, og vex annar anginn niður; úr honum verður rótin, en hinn upp, og verður jurtin úr honum. Nokkrar jurtir, einkum korntegundir og aldinviðir, hafa menn komizt uppá að láta vaxa, þar sem þær voru ekki áður. Jurtirnar fá næringu úr jörðinni; sjúga þær með rótunum safa úr henni; safi þessi dregst upp eptir þeim um mjóar pípur, sem eru innan í þeim; loptið draga þær að sjer gegnum blöðin.

## A. Viðir.

Viðirnir hafa bol og þar að auk rætur, greinar, kvisti, lauf, blóm og fræ, sem ný trje geta vaxið af. Undir berkinum er bastið, og þar undir aptur hin mjúka viðarpípa, sem smámsaman verður að trje. Þegar viðir eru höggnir, má vel telja aldursár þeirra á hringum þessum, því að einn hringur bætist við á ári hverju. Innst í viðinum er mergurinn, en það er eigi hann, sem mestu varðar; viðir geta staðið og gróið, þó mergurinn og nokkuð af viðinum sje horfið; því að í hinum mjúka við undir berkinum er aðsetur lífsins. — Viðir þeir, sem bera æta ávexti, eru kallaðir aldinviðir; hinir aðrir eru kallaðir skógarviðir, eða skógartrje.

Af aldinviðum má einkum nefna eplatrjen, eða apaldrana; ávextir þeirra eru svalandi og nærandi. Enn fremur má nefna kirsiberjatrjeð, perutrje, plómutrje, valhnotutrje og fl.

Skógarviðir eru tvennskonar, laufviðir og barviðir. Af laufviðum má einkum nefna bæki eða beyki, og eik. Beyki er hið bezta eldsneyti; er aska þess höfð í lút við glergjörð og sápugjörð; úr því fæst einnig góð olía. Það er 100 til 150 ár að vaxa. Eikin er þjett og hörð. Hún er 200—300 ár að vaxa, og mæti hún eigi vindi nje vatni, getur hún orðið þúsund ára gömul. Við ellina verður hún grá. Á Englandi eru dæmi til að eikur hafi orðið 1000 ára. Í Vesturálfu eru yfir 20 eikartegundir. Til laufviða teljast enn fremur: björk, elri og askur. Björk (birki) er mjög höfð í vandað trjesmíði; hinn yzti, hvíti börkur hennar endist, að kalla má, um aldur og æfi. Sótin er höfð í prentsvertu. Elri vex mest í raklendi; það þolir vel vætur og raka; börkur þess er hafður í svartan lit; askur er fagurt trje og hart.

Auk hinna almennu skógarviða eru margar tegundir gróðursettar. Meðal þeirra má nefna populvið, álmvið og fl. Hlynurinn, eða valbjörk, er fagurt trje með stórum blöðum; það er mjög hart. Píll eða víðir (selja) er margskonar og hafður til margra hluta: í girðingar, körfur, gjardir, og sv. frv. Kol allra viðartegunda eru höfð í púður.

Af barviðum er greni algengast; greniviðir eru beinvaxnir, dökkgrænir að lit; grenið er hart, en áhrif loptsins þolir það verr en fura. Greniviðir eru optast undir 50 álnir á hæð, en í Vesturálfu verða þeir 100 álna. Furuviðir eru blágrænir að lit; úr feitum rótum gamalla furuviða er brædd tjara. Til barviða telst og sedrusviðurinn; hann vex á Gyðingalandi, og hinn svarti kypressus viður.

Auk þeirra viðartegunda, sem vjer höfum nú talið, eru margar aðrar tegundir, en flestar þeirra hafa æta ávexti. Í lönd-

unum umhverfis Miðjarðarhafið vaxa fíkjutrje og kastaníutrje; ávextir þeirra eru daglegt viðurværi manna; þar vex og hinn nytsami olíuviður; hann er fölleitur og óálitlegur, og ber eigi ávöxt fyr en á 15. ári, þá þreskja menn ávöxt hans, og fá úr honum viðsmjör (viðar-eða baðmolíu); er það í þeim löndum haft í stað smjörs. Á eyjum nokkrum við Austurálfu eru ræktuð ýms sætindatrje; ávextir þeirra eru í flestum löndum hafðir til að bæta matarbragð; þar eru og ræktaðir allskonar lárviðir, af þeim fæst börkur sá, er vjer köllum kanel. Í Austurálfu er og ræktað kaffetrjeð; Norðurálfubúar hafa gróðursett það í Vesturindíum og Vesturálfu. Í ávöxtum þess eru tvö ber saman, er vjer köllum kaffebaunir. Sykurtrjeð vex í norðurhluta Vesturálfu; menn bora gat á bol þess; rennur þar út vökvi sá, er menn sjóða sykur úr. Í Suðurálfu vex hið merkilega kýrtrje; úr því fæst vökvi hvítur og feitur, eins og mjólk. Um sólaruppkomu gefur trje þetta, sem er þurrt að utan, mestan vökva; streyma menn þá að með skálar



Pálmi.

í höndum til að fá sjer mjólk. Kakaótrjeð vex í Vesturálfu; af ávöxtum þess er sjókólað búið til. Brauðtrjeð vex í Eyjaálfunni, það ber ávexti árið umkring; ávextir af þremur brauðtrjám er nóg fæði fyrir einn mann árlangt. Merkilegast allra trjáa er pálminn, eða pálmaviðurinn. Hann vex aðeins í hinum heitustu löndum. Pálmar eru 100 álna háir; fæstir þeirra hafa greinar eða kvisti; ávextir þeirra eru nærandi; viðurinn er hafður til ýmsra smíða; úr þeim fæst safi, sem er líkur mjólk. Það, sem vjer köllum spansreyr, eru stengur af pálmategundum. Viður nokkurra trjátegunda er mjög harður. Íbenholt vex í Austur- og Suðurálfu; það er mjög hart; þegar það er nýtt, er það dökkrautt, eða grænt. Mahónítrjeð vex í Vesturálfu; það er mjög fagurt, um 25 álnir á hæð, og nær 4 álnum að þvermáli. — Úr ýmsum viðartegundum fæst ýmislegur safi, t. a. m. harpeis, gúmmí (klár), terpentína, kamfóra og sv. frv.

## B. Smáviðir og lyng.

Af jurtum þeim, er svo eru kallaðar, má einkum nefna hnotutrjeð og yllirinn; einir og beitilyng er og alkunnugt.

Margar smáviðartegundir bera æta ávexti; en ávextir sumra þeirra eru banvænir. Ætir lyngávextir hjer á landi eru allskonar ber (bláber, krækiber). Vínviðurinn telst með smáviði; hann vex í suðurhluta Norðuráfunnar, en upprunninn er hann frá Asturálfu. Greinar hans verða að styðjast við eitthvað, annars geta þær ekki staðið upprjettar. Af vínherjum þreskja menn margskyns víntegunðir; sje þeirra neytt í hófi, styrkja þær og hressa, en þeim, sem neyta þeirra í óhófi, fer eins og greinum vínviðarins, að þeir þurfa eitthvað til að styðjast við. Piparviðurinn vex í hinum heitu löndum; ávextir hans eru piparberin.

## C. Grös.

Nytsömust allra plöntutegunda eru grösin; til þeirra teljast allar korntegundir. Grösin eru aðalnæring, bæði fyrir menn og skepnur. Allir þekkja rúg, hveiti, bankahygg og hafra. Auk þessara grasategunda, sem vaxa mjög víða, vex spelt og hirsi á Þýzkalandi og víðar. Mais eða tyrkneskt hveiti vex í öllum heimsálfum; á axi þess eru 5 til 600 korn. Algengust allra korntegunda eru hrísgrjón. Til grasanna telst einnig reyrinn. Hinn stórvaxni bamhúsreyr vex í suðurhluta Austurálfunnar; hann er hafður í göngustafi; af trefjum hans búa Kín-



Hris.

verjar til pappírs. Sykurreyrinn vex í Austurindíum, en er einnig ræktaður í Kína og í Vesturálfu; af stráunum þreskja menn safa, sem er soðinn, og verður hann að sykri, er hann storknar. það, sem ekki storknar, er kallað síróp. Sykur er og soðið af mörgu öðru.

## D. Ýmsar aðrar jurtir.

Af ýmsum jurtum nota menn ýmist blöðin, rótina, fræin, eða ávöxtinn. Af þeim, er æt blöð hafa, eru káltegundirnar arðsamastar. Káltegundir eru margar: grænkál, hvítkál, rauðkál, safoikál, blómkál, kálrabi; allar miður notaðar, en vera mætti. Ætar rætur á jurtum eru gulrófur, pjeturssilljurófur, næpur, bótfelskar rófur og fleiri. Laukategundir hafa og ætar rætur. Æt fræ eru á mustarðsjurt og kúmenjurt. Hinir nytsömustu jurtaávextir eru bókhveitigrjón og baunir eða ertur; þær eru ræktaðar í aldingörðum og á ökrum, og humall. Hör og hampur eru og nytsamar jurtir, af trefjum þeirra er spunninn þráður, sem hafður er í ljerept, dúka, allskonar bönd og sv. frv. Af hörfræi og hampfræi þreskja menn einnig línolíu. Blöð tóbaksjurtarinnar eru höfð í allskonar tóbak.

Jarðeplin teljast með jurtunum og eru nytsömust þeirra. þau eru upphaflega frá Vesturálfu og voru fyrst um lok 16. aldar flutt til Norðurálfunnar; algeng urðu þau fyrst við lok 18. aldar. þau vaxa því nær í öllum jarðvegi og eru gott fóður bæði fyrir menn og fjenað. Jarðepli gætu komið að mestu notum hjer á landi.

Margar jurtir eru hafðar til litunar, og flestar lyfjar eru búnar til úr útlendum jurtum, og eru sumar þeirra engu betri en þær, sem vaxa hjer á landi. En lýsing þeirra og notkun er

of yfirgripsmikil til þess að hjer verði skýrt frá henni. Nokkrar jurtategundir eru eitraðar, er því varasamt að bergja á þeim, sem menn eigi þekkja. Í hinum heitu löndum vaxa mjög margar nytsamar jurtir, t. a. m. baðmullarjurtirnar; úr fræhylki þeirra fæst hin mjúka viðarull, sem margar millíónir manna klæðast af. Úr blásteinsjurtinni er þreskjaður safi sá, sem blásteinn (Indigo) er tilbúinn úr.

Allar jurtir hafa meiri eða minni blóm, en menn kalla þær einar blómjurtir, sem hafa fegurst blóm. Erlendis og í kaupstöðum tíðkast mjög, að rækta blóm, sem hafa fegurð, ilm og angan, og eru þau plöntuð í pottum með smárri mold í, og látin standa við gluggana í húsum inni. Mætti það og tíðkast hjer á landi og verða samfara meiri umhyggju fyrir hreinna og þægilegra lopti í hýbýlum manna. Land vort er, að vísu, eigi auðugt af blómjurtum, en þó spretta svo margar fagrar jurtir hjá oss, að þær mættu vekja fegurðartilfinningu manna, ef menn að eins veittu þeim eptirtekt.

### E. Sveppar, mosi og þesskonar.

Sveppar eru lág stöng með hatti á; sumir þeirra eru ætir, sumir óætir. Mosi vex eigi einungis í moldu, heldur og á trjám og klettum; hann er erlendis hafður til að troða út sængur með; af mosa- og jurtarótum kemur mórinn. Fjallagrösin eru talin til mosanna, þau eru keypt dýru verði í suðurlöndum og höfð í læknislyf, einkum við brjóstveiki. Þang er brennt til pottösku og til áburðar má hafa það.

---

## VII. Steinaríkið.

Vjer höfum sjeð, að allir skapaðir hlutir á jörðinni skiptast í 3 flokka: þeir sem hafa líf og tilfinning; þá köllum vjer dýr; þeir sem hafa líf, en ekki tilfinningu og ekki hreifingu, þá köllum vjer jurtir, og þeir, sem ekki hafa líf, þá teljum vjer til steinaríkisins. Dýrin jeta, vaxa og geta af sjer unga; jurtirnar draga til sín næringu, vaxa, bera fræ og ávexti. Dýr og jurtir hafa afskamtaðan aldur og deyja, þegar hann er liðinn. Með steinaríkinu teljast aptur á móti allir þeir náttúrulíkamir sem hvorki vaxa nje þróast. Dýr og jurtir fæðast af líkum foreldrum; steinar og málmar hafa ekkert þesskonar eðli. Hvert dýr og

hver jurt er ein heild (einstaklingur), sem ekki verður skipt sundur án þess að líf hennar trufist; það verða eigi gjörðir tveir hestar úr einum hesti, nje tvær rósir úr einni rós; þar á móti má brjóta stein sundur, svo að úr honum verði tveir steinar. Dýr og jurtir eru margbreytt eptir loptslagi og landslagi; steinar og málmar eru allstaðar sjálfum sjer líkir. Dýr og jurtir verða eigi sett saman, en steinum og málmategundum má margvíslega saman blanda. Steinategundir eru jafnan blandaðar með öðru; þær eru í jörðinni og þar að auk í dýrum. Þannig er kalk í eggjaskurnum og beinum; í blóðinu er járn, í hafinu salt og sv. frv. Járn, t. a. m. er mjög blandað öðrum efnum, er verður að hreinsa úr því.

Eins og menn hafa skipt dýrum og jurtum í deildir eptir föstum einkennum, sem eru á hinni innri og ytri mynd þeirra, þannig hafa menn skipt steinaríkinu í 4 deildir bæði eptir samsetningu og myndum, og þeim áhrifum, sem eldur og vatn hefur á það.

Deildir þessar eru:

1. Málmar, eru þungir og ógagnsæir, leysast ekki upp í vatni, en bráðna í eldi.
2. Brenniefni, eru ljettari, breytast í vatni, en loga og brenna í eldi.
3. Steinar og jarðtegundir, eru ljettari en málmar, breytast ekki í vatni, en bráðna við sterkan hita.
4. Salttegundir, leysast upp í vatni.

Þessir eru hinir helztu málmar: Hvítagull (platína), gull, silfur, eir, járn, blý, tin, sínk og kvikasilfur; þeir eru þyngstir allra efna. Hvítagull er 16 til 20 sinnum þyngra en vatn, silfur 10 til 13 sinnum, járn 7 til 8 sinnum, og kvikasilfur er svo þungt, að járn flýtur á því, en það er sá hinn eini málmur, sem rennur kaldur. Þrír hinir fyrst töldu málmar ryðga ekki og gullið missir ekki fegurð sína í eldinum. Gull, hvítagull, silfur og eir finnst stundum óblandað af öðrum efnum (sjálfrunnið), allir aðrir málmar eru mjög blandaðir saman við önnur efni; sumir svo mjög, að lítið ber á þeim; þannig er segulsteinninn, járnmálmur og rauðkrítin járnleir. Auk þess, sem ótölulegur fjöldi af verkfærum og áhöldum er búinn til úr málmunum, eru sumir þeirra hafðir til lækninga, t. a. m. kvikasilfur og járn. Lang mest eru not þau, er menn hafa af járninu, þar sem það er haft í allar vjelar, járnbrautir, skip og ótal fleira, svo að varla getur nokkurr maður án þess verið. Í Norðurálfunni einni eru brúkaðar hjerum bil 40 milliónir vætta af járni á ári hverju. Málmana má setja saman og breyta þeim; $^1/_3$ partur af sínki bræddur saman við $^2/_3$ parta af eir, er látún; tin brætt saman við eir er kopar;

járnið er gjört að stáli með því að halda því nokkra daga glóandi í loptheldu íláti, sem fyllt er með koladupti.

Brenniefnin eru ekki mörg: steinkol, jarðkol og mór, sem haft er til eldsneytis. Rafur er harpeis úr barviðum. Brennusteinn er hafður í púður, til lækninga og til fl. Ritblý brennur, og eins demantinn, en hann er hinn fegursti og harðasti gimsteinn.

Jarðtegundirnar og steinarnir eru reyndar hið sama; hverr steinn er ekki annað en hart jarðefni, eins og ís er harðnað eða frosið vatn. Efni þessi leysast eigi upp í vatni, en bráðna í eldi og verða að steinum, er þau kólna. Flestar tegundir þessar eru blandaðar öðrum tegundum; kalkjörð, leirjörð og tinnujörð eru hin helztu efni í þessum flokki. Með kalkjörð telst marmari og alabastur, enn fremur krít, gips og jarðmergur. Kalk er hvítt, og kalksteinar eins, marmarinn er ýmislega litur. Not kalksins eru mikil. Úr hörðu kalki hlaða menn húsveggi, úr brenndu eða hituðu kalki er múrlím tilbúið. Kalk er og haft til skinnaverkunar, sápusuðu og sykurgjörðar. Jarðmergur er hafður við akuryrkju; í honum er leir og kalk; hann gjörir jörðina seigari og heldur í sjer raka. Leir er hið algengasta jarðefni hjer á landi, sje hann blandaður hæfilega sandi og kalki, er hann frjófsamur. Til leirtegunda teljast: tígulsteinsleir, pottleir, hann er grár, og postulíns leir, hann er hvítur og smágjör mjög. Auk þessa má nefna rauðkrít, ritspjöld, bláleir og fl.

Tinnusteinar eru hinar hörðustu steinategundir; til þeirra telja menn flesta gimsteina, þótt í þeim sje allmikið af leirjörð t. a. m. rúbína, þeir eru rauðir; tópasa, þeir eru gulir; smaragða, þeir eru grænir, og indverska gimsteina, þeir eru fjölnlitir, granatsteina, sem eru dökkrauðir og sv. frv. Gimsteinar eru gagnsæir og ýmislega litir. Nokkrar tegundir þeirra fást í Norðurálfunni, en flestar hinar dýrustu eru úr giljum og árfarvegum á Indlandi og í Brasilíu.

Sandsteinn er tinnusteinn blandinn kalki og leiri. Brunahraun telst og með tinnusteinum og stuðlaberg; þegar stuðlaberg er í smá molum er það kallað möl; hin smærsta möl er flugsandur; gjörir hann opt mikið tjón, en menn verjast honum með því að sá í hann jurtum, sem hafa langar og kvistaðar rætur, sem svo hepta sandfokið.

Svartamold eða gróðrarmold er komin af rotnuðum dýrum og jurtum. Moldin er dökk, blönduð kalki, leir og sandi, í henni vaxa allskonar jurtir. Rotnir líkamir dýra og fúnar jurtir eru því hinn bezti áburður. Hinir svörtu steinar, eða steingjörvingarnir, eru orðnir til úr dýrum og jurtum, sem farizt hafa í hinum miklu breytingum, sem jörðin hefur tekið, en hafa

harðnað í jörðinni. Öll steinkol eru komin af skógum og mosategundum.

Salttegundirnar eru einkennilegar að því, að þær leysast upp í vatni og eru beiskar að smekk. Matarsalt er í lögum í jörðinni, og er grafið upp úr henni. Sjáfarsalt og uppsprettusalt fæst með því að þurrka upp sjó og vatn úr söltum uppsprettum. Aðrar salttegundir má búa til, svo sem salmíak; það er haft til lækninga, litunar og smíðar; vitríól, það er búið til úr járni og eir, og saltpjetur, hann finnst snmstaðar í holum, mest af honum er tilbúið.

## VIII. Maðurinn, einkum líkaminn.

Þegar vjer töluðum um dýr þau sem eru á jörðunni, leiddum vjer hjá oss að tala um það, sem er þeirra ágætast, manninn. Að ytra áliti er maðurinn ólíkur öðrnm dýrum í því, að hann hefir hreiðar iljar og 5 líkar tær á hverjum fæti og fullkomna fingur á höndunum; ennið er hátt og líkaminn upprjettnr; málfærin geta gefið til kynna hugsanir og tilfinningar hins andlega lífs, sem er svo miklu æðra hjá manninum en öðrum dýrum að eigi verður saman borið. Vegna þessarar andlegu fullkomnunar getur maðurinn þekkt sjálfan sig og samband sitt við skaparann, en gáfu þá köllum vjer skynsemi; önnur dýr vantar gáfu þessa.

Dýrin hafa ekkert málfæri, heldur aðeins rödd, sem þau ósjálfrátt gefa til kynna með tilfinningar og geðshræringar. Tungumál mannsins er orð og ræða, og getur hann með því látið í ljósi allskonar hugarhræringar og hugsanir. Tilfinningar þessar og hugsanir eru annaðhvort framkomnar af reynslnni eða af sjálfstæðri hugsnn, en önnur dýr hafa eigi þennan hæfilegleika. Aldur manns er í hæsta lagi 70 til 80, sjaldan 90 ár. Einstöku menn hafa þó orðið eldri; þannig varð Englendingurinn Tómas Parr, er lifði á 17. öld, 152 ára og Norðmaðurinn Kristján Drakenberg, sem dó 1772, 146 ára. Yfirburðir mannsins yfir dýrin eru ekki einungis andlegir, heldur og líkamlegir. Menn geta vanið líkama sinn og æft hann svo hann hafi ótrúlega yfirburði yfir líkami annara dýra.

Samkvæmt heilagri ritningu álíta menn, að allir menn sjeu komnir af hinum fyrstu foreldrum Adam og Evu. En eptir því sem mannkynið hefir breiðst út um löndin, hreyttnst lifnaðarhættirnlr, siðirnir og tungumálin; og bæði af þessu og hinu ólíka

optslagi gat líkamsbygging, hárvöxtur og litur breytst. Vjer skulum á þessum stað tala um líkama mannsins, en síðar fara nokkrum orðum um andann eða sálina.



Beinagrind manns.

## Líkami mannsins.

Máttarstólpinn í allri byggingu líkamans er beinagrindin. Hún er sett saman af mörgum beinum, sem eru samtengd; ræður hún mynd líkamans og varðveitir hin mest áríðandi færi hans. Vöðvarnir eru festir við beinin, þeir geta þanið sig sundur og dregið sig saman og sett þannig beinin og undireins allan líkamann í hreifingu.

Höfuðbeinin eru í höfðinu, þau mynda hauskúpuna og andlitið, í hauskúpunni er hnakkabeinið; á því er gat, sem mænan gengur gegnum, 2 hvirfilbein efst og tvö gagnaugnabein til hliðanna. Andlitsbeinin eru: 2 kinnbein, sitt hvoru megin, 2 nefbein að framan, efri kjálkinn og neðri kjálkinn, sem tennurnar standa í, 2 gómbein að aptan og mörg minni bein.

Fyrir neðan höfuðið tekur hryggurinn við; í honum eru 30 liðir og gengur mænan gegnum þá. Hálsliðirnir eru 7, þá 12 hryggjarliðir, og eru hin 24 rifbein fest við þá; þá mjóhryggjarliðir 5, mjaðmagrindarliðir 5, og endaliðir 4 eða 5. Rifin eru að framan tengd við bringubeinið, og mynda þannig brjóstholið.

Utlimirnir eru hendur og fætur, efsti hluti handleggjanna eru herðablöðin; að aptan styðjast þau við rifbeinin, en að framan eru þau föst við viðbeinið og það aptur við bringubeinið; þá eru upphandleggir að alboga og framhandleggir að úlfliði; í upphöndinni eru 8 bein, í miðhöndinni 5 og í fingrunum 5, með liðum. Fæturnir eru líkt bygðir: þeir ganga frá mjaðmgrindinni að neðan og eru lærleggir ofan að knjám og fótleggir tvennir, í ristinni eru 12 bein fyrir utan tærnar.

Alls eru yfir 200 bein í líkamanum. Liðamótin eru mjög hagkvæmlega tilbúin; hinir yztu endar beinanna eru ávalir og þaktir brjóski, svo núningurinn skaði þá eigi; liðamótin eru sífellt þvöl af feitum vökva og um þau er brjóskhringur; komist lopt inn í liðamótin, þá detta limirnir eða beinin sundur. Beinin þola eigi að vera ber og mæta áhrifum loptsins; þau eru sum hol og er mergur í holinu. Á börnum eru þau lin, er því varasamt að láta þau standa mikið mjög ung, því beinin geta bognað; fulla stæling og hörku fá þau eigi fyr en um tvítugs aldur.

Vöðvarnir eru það, sem vjer daglega köllum hold, það eru grannir þræðir rauðleitir, sem liggja hvorr við annars hlið; sinarnar tengja vöðvana við beinin. Þær eru gljáandi og ljósgular og mjög vel tengdar við vöðvana og beinin. Vöðvarnir koma af stað hreifingunni á þann hátt, að þeir geta dregið sig saman og teygt sig sundur, og verður beinið, sem þeir eru festir við, að fara eptir þessu. Sinarnar geta hvorki þanist nje dregið sig

saman. Til þess að þræðir vöðvanna haldist saman, liggur um þá hlá himna, gljáandi og sterk.

Um vöðvana liggur kompukerfið, er það til hlífðar bæði vöðvunum og öðrum færum. Í kompukerfinu safnast fitan; þessi tilhögun er ein af þeim ótölulegu vottum um hyggni hins alvísa; kompukerfið geymir fituna og er hún forði, sem líkaminn hefir safnað á þeim góðu dögum til að grípa til í neyðinni. Þegar líkamann hrestur næringu, draga blóðæðagreinarnar fituna til sín og styður hún að því að viðhalda lífsloganum, sem að öðrum kosti mundi slokkna; hið sama er að segja um merginn.

Yfir kompukerfinu liggur skinnið um allan líkamann, það er þrefalt: innst er leðurhúðin, þá slímhúðin og yzt yfirhúðin. Leðurhúðin er þjett og fast net, um línu á þykkt, ef hún skerst sundur, kemur ör; slímhúðin er stórriðið net; á henni er vökvi sá, sem gjörir skinnið ýmislega litt; yfirhúðin er þunnt kompukerfi, hornkynjað og tilfinningarlaust; dettur hún smátt og smátt af, en kemur jafnóðum aptur; ætlunarverk hennar er að vernda hina viðkvæmu leðurhúð. Í skinninu eru margir kyrtlar; svitakyrtlarnir gefa frá sjer svitann; í fitukyrtlunum er olíukynjað fituefni, sem kallast skinnsmyrsl; gerir það skinnið þvalt.

Með skinninu má og telja neglur og hár. Neglurnar eru hornkynjaðar flögur, og vaxa á fingrum og tám fram úr skinnhrukku, er kallast naglsrót; meðan naglsrótin skaðast eigi, getur vaxið ný nögl, en sje hún skorin sundur, missir hún krapt til að mynda nýja nögl. Hárin eru mest á höfðinu; þau vaxa á líkamanum líkt og jurtin í jörðinni; þau eru holar pípur, og er inn í þeim mjög smágjört kompukerfi. Í hársrótunum eru litlir kyrtlar, sem gefa hárinu lit, þegar þeir þorna, verður það hvítt; þar eru og kyrtlar, sem næra hárið, en þorni þeir, fellur það af.

Beinin, vöðvarnir, kompukerfið og skinnið mynda líkamann, en nú skulum vjer hugleiða hin mjög merkilegu áríðandi störf, sem fara fram í honum, en þau eru næringin, blóðrásin, andardrátturinn og skilningin.

## Næringin.

Maðurinn getur lifað af fleiru en nokkuð annað dýr, en gæti hann eigi tilbúið matinn, þá gæti hann eigi haft svo margt til matar. Sje maturinn ekki þunnur, verður hann fyrst að tyggjast, síðan að meltast, það er: efni þau, sem líkaminn þarf (eggjahvíta, ostefni, vöðvaefni, slím, fita og svo frv.) verða að dragast úr þeim sundurskipta mat og verða að safa, sem blóðið sýgur í sig, en þau óbrúkanlegu efni fara burt sem saur. Einsog fræið verður að deyja í jörðinni til þess að lifandi jurt geti af því

komið, þannig verða næringarefnin, sem eru af jurtum eða dýrum, að leysast upp í frumefni sín, til að geta nært líkamann. Þannig er lífið hvervetna í sjálfum dauðanum.

En til þess að allt þetta geti orðið, þarf mörg færi, sem taka við hvort af öðru; tilbúningur þessi byrjar í munninum og endar í hinu neðsta opi líkamans. Meltingarfærin gefa frá sjer slím og beiskan vökva; munnurinn gefur frá sjer munnvatnið, maginn magasafann, þarmarnir þarmasafann, lifrin gallið, og svo frv. Safar þessir styðja að því, að næringarefnin fari óhindrnð og uppleysa þau efni, sem verða melt.

Af því maðurinn er ekki skapaður til að jeta lifandi dýr, heldur tilreidda fæðu, eru tennurnar gjörðar til þess eins, að merja sundur. Tennurnar eru bein, sem standa föst í tannholdinu, á efra enda þeirra er skel, steinkynjuð; skel þessi verndar tennurnar, en fari hún af, þá er þeim hætta búin, því þær þola eigi loptið fremur en önnur bein. Hinar 20 tennur, sem barnið tekur fyrst, kallast mjólkurtennur; frá 7. til 13. árs falla þær burt og koma þá hinar varanlegu tennur. Fyrir utan þessar 20 tennur vaxa 3 hvoru megin í efra góm og neðra góm, hin fyrsta kemur á 7. eða 8. ári, hin önnur á 15. til 18. ári, hin þriðja um tvítugsaldur, hún kallast vísdómstönn. Alls eru tennurnar 32. Tennurnar merja fæðuna sundur, og blandast hún jafnframt vökva, sem kemur frá munnkyrtlunum, vöðvarnir í kokinu taka þá við henni og skjóta henni um vælindið ofan í magann. Á leið þessari fer fæðan yfir barkaopið, en á því er lok, sem fer aptur, þegar fæðan fer fram hjá.




Maginn er skinnkynjaður poki; innan til er hann þakinn vöðvaþráðum, hrukkum og slími, æðum og taugum. Við vinstri enda magans er miltið, í því eru margir kyrtlar og mikið blóð, að líkindum er það þess ætlunarverk, að safna og leiða burt blóð það, sem ónýtt er orðið til nær-

[1]) Vælindið. [2]) Maginn. [3]) Magakyrtillinn. [4]) Lifrin. [5]) Gallið [6]) Miltið. [7]) Rlstillinn. [8]) Botnlangi. [9]) Smáþarmarnir. [10]) Endaþarmurinn.

ingar. Þegar maginn hefir tekið við fæðunni, byrjar sú eiginlega melting; er hún fólgin í því, að hreifingar magans hræra fæðuna fram og aptur og blanda henni saman, en magakyrtlarnir vökva hana með magasafanum og gjöra hana að gráleitum graut, sem gengur út í þarmana.

Frá maganum taka þarmarnir við fæðunni; þeir eru skinnkynjaðar pípur með vöðvaþráðum og eru í mörgum bugðum, þeir eru á sífeldri hreifingu og við hana færist fæðan lengra niður. Á þeim innanverðum eru margar smágjörvar blóðæðagreinar til að sjúga næringarvökvann; kyrtlar eru þar og, sem gefa frá sjer safa. Gallið kemur frá lifrinni, hún er stór kyrtill og liggur undir þindinni hægra megin. Meðan meltingin fer fram rennur gallið inn í þarmana, en þess á milli safnast það í gallblöðruna; gallið aðskilur næringarefnin og skiptir þeim í tvo parta; annar þessara parta er hvítur vessi, sem rennur burt í smá lækjum og verður að blóði. Þarmarnir eru festir við hrygginn með margfaldri húð, sem kallast garnhimna; í himnu þessari eru margar greinir bláæða, og sjúga þær í sig næringarsafann; sa safi þessi safnast allur smámsaman úr æðum þessum í poka, rennur um mjólkuræðina inn í stóra blóðæð, og eykur þannig blóðið, sem á rás sinni um líkamann miðlar pörtum hans stöðugt af efni sínu og mundi því brátt tæmast, ef nýtt blóðefni tilbygist ekki.

Það er mjög áríðandi fyrir líkamann, að meltingin fari reglulega fram; er það hollt að reyna eigi mjög á krapta líkamans, þegar vjer höfum nýlega neytt matar. Þar á móti er áreynsla og hreifing holl, þegar meltingin er langt komin.

## Blóðrásin og andardrátturinn.

Þindin er skinnkynjaður kyrtill, hún liggur þvert um og er föst við hrygginn og rifin, hún skiptir holinu í tvennt, brjóst og kvið. Vjer höfum sjeð hvernig blóðið tilbýst, það er smákorn, er synda í litarlausum vökva. Hinn rauða lit fær blóðið fyrir andardráttinn, þegar það snertir loptið. Blóðvökvinn viðheldur líkamanum, en blóðkornin lífinu. Blóðið er því það, sem líkaminn lifir á og viðhelst af, og til þess er rás blóðsins, að hverr hluti líkamans geti fengið þá næringu og lífsfyllingu, sem hann þarf. Þessi tilhögun er hin aðdáanlegasta; þeir partar líkamans fá mest blóð, sem mestu varða fyrir lífið. Þannig fær heilinn, lungun, hjartað og maginn meira blóð og betra en vöðvarnir og beinin.

Blóðrásin er tvennskonar. Fyrst streymir blóðið frá hjartanu inn í lungun og úr þeim aptur í hjartað; það er hin *minni rás*

blóðsins. Í annan stað fer blóðið frá hjartanu út í líkamann til allra parta hans og þaðan aptur til hjartans; það er hin *meiri rás* blóðsins. Hin minni blóðrásin hefir þann tilgang, að leiða blóðið á þann stað þar sem það snertir loptið og fær af því lífsfyllingu og hita, en staður þessi er lungun; hin meiri blóðrásin færir þetta upplífgaða blóð um allan líkamann, og skilur það hvervetna eptir efni, honum til næringar.

Blóðið rennur eptir æðunum; þær eru langar pípur, og ganga út frá hjartanu, sem er aðalfæri blóðrásarinnar. Eptir því sem blóðið fjarlægist hjartað, kvíslast æðarnar meir og meir, uns þær verða að óumræðilega smágjörfu neti. Æðar þær, sem leiða blóðið frá hjartanu kallast lífæðar, en þær, sem leiða það til hjartans blóðæðar.

Hjartað er stór vöðvi í brjóstholinu, vinstra megin fyrir neðan lungun; það er í poka, sem kallast gollurshús. Það er holt innan, en skipt í 2 hvolf, og hvort þessara hvolfa er aptur skipt í 2 minni, en misstór, hið efra kallast forhvolf, hið neðra hjartahvolf. Hjartað er því skipt í 4 *hvolf: hið* hægra og vinstra forhvolf og hægra og vinstra hjartahvolf. Skilveggirnir milli forhvolfanna og hjartahvolfanna eru með götum, en fellilok yfir, svo blóðið geti eigi runnið tilbaka. Blóðæðarnar liggja í forhvolfin; blóðæðarnar frá líkamanum í það hægra, frá lungunum í það vinstra. Lífæðarnar liggja frá hjartahvolfunum; lungna lífæðin frá hinu vinstra, hin mikla lífæð, sem kvíslast um líkamann, frá hinu hægra. Blóðið kemur nú frá líkamanum og rennur um holæðina inn í hið hægra forhvolf; lokur hindra það frá, að renna tilbaka, þegar hvolfið dregst saman; fer það þá inn í hið hægra hjartahvolf, er þar og loka fyrir og verður það því að taka rás um lungnalífæðina til lungnanna. Greinir lungnalífæðarinnar og lungnablóðæðanna kvíslast um öll lungun, og þegar blóðið hefir snert loptið þar, fer það um lungnablóðæðarnar í hið vinstra forhvolf, þaðan fer það í hið vinstra hjartahvolf og þaðan í hina miklu lífæð, sem leiðir það um allan líkamann.

Mikill munur er á blóðinu í lífæðunum og blóðæðunum. Blóðæðablóðið er dökkrautt og þykkra; lífæðablóðið ljósara og þynnra. Breyting þessi fer fram við snertingu loptsins í andardrættinum.

Barkinn er fyrir framan vælindið, hann er lokaður að ofan með loki, sem er allajafna opið, nema þegar fæðan fer yfir hann aptur í vælindið. Efsti hluti hans er barkakýlið og innan í því 2 hreifanleg bönd, raddböndin, sem geta fjarlægst og nálgast hvort annað; undir þeim er röddin komin að miklu leyti. Barkinn er brjóskhringir að framan, en húð að aptan. Neðst

skiptist hann í tvennt og liggur önnur pípan í hið hægra lunga, hin í hið vinstra.

Andardrátturinn fer nú fram á þessa leið: þindin er fyrir neðan lungun; þegar hún dregst niður, verður brjóstholið stærra, og loptið streymir inn um nasirnar og barkann ofan í lungun; ef þindin pressast nú upp, þá verður holið minna og loptið streymir sömu leið út. Til að styðja hreifingar þessar geta rifin líka þanist nokkuð út og inn. Þegar vjer drögum andann að oss, fyllast lungun af lopti og útna út, en tæmast þegar vjer öndum frá oss. En lopt það, sem vjer drögum að oss, er mjög ólíkt því, sem vjer öndum frá oss; lopt það, sem vjer öndum að oss er mest part köfnunarlopt og súrefni, en það, sem vjer öndum frá oss er mest part köfnunarlopt og kolsýra. Hvert er þá gagn það, sem vjer höfum af því að anda? Blóðið fær súrefni en lætur frá sjer kolsýru; en það er einmitt súrefnið, sem gjörir blóðið rautt og lifandi. Af þessu getum vjer sjeð, hve ómissanlegt hreint lopt er, að það er eins nauðsynlegt og matur og drykkur.

**Lífæðarnar** leiða blóðið, eins og vjer höfum greint, um alla parta líkamans og útundir skinnið, og við rás þess fer það fram, sem nú skal greint: Lífæðarnar færa öllum pörtum líkamans nýtt lífsefni og nýjan lífshita; líkamspartarnir láta aptur í blóðið efni þau, sem eru orðin óbrúkanleg. Blóðið minnkar jafnframt, því að það lætur meira en það tekur við, og verður því á leiðinni til baka, um blóðæðarnar, að fá þennan missi bættan frá mjólkuræðunum, sem koma af næringarefnunum.

Vjer höfum sagt, að hjartað reki blóðið af stað og taki við því aptur; má finna slög þess í hvert sinn, og haldast þau áfram í lífæðunum. Svo er kraptur hjartans mikill, að hann jafnast við $2^1/_2$ pund. Lífæðaslagið er 70 sinnum á hverri mínútu hjá fullorðnum manni. Blóðið er um 29 pund, en svo er ferð þess mikil, að það fer alla leið sína á tveimur mínútum. Á einum sólarhring hefir það farið 720 sinnum um allan líkamann. — Því meira lopt sem kemur í blóðið, því heitara verður það; þessvegna hitnum vjer þegar vjer hlaupum, af því vjer drögum loptið því optar að oss. Hiti blóðsins er vanalega 30 stig.

En það eru önnur óbrúkanleg efni, sem verða að leiðast burt úr líkamanum á annan veg. Til þess að leiða efni þessi burtu notar náttúran **lifrina**, **svitakyrtlana** í skinninu, þarmana og þvagfærin. Blóðæðar þarmanna og miltisins eru ólíkar öðrum blóðæðum; þær ganga ekki í hinar miklu æðar, sem liggja inn í hjartað, heldur safnast í **portæðina**, rennur hún í lifrina, og er hún hefir kvíslast um hana, rennur blóð hennar í hinar miklu blóðæðagreinir. Blóð portæðarinnar er dekkra og fyllra af

kolefni en allt annað blóð. Nýrun eru í holinu, nálægt spjaldhryggnum; þau eru að lögun lík mjög stórum baunum. Þvagið safnast í þeim og rennur um pípur, sem úr þeim liggja, ofan í blöðruna.

## Taugakerfið og skilningarvitin.

Allt, sem líkaminn eða einstakir partar hans taka sjer fyrir, er á valdi taugakerfisins og framkvæmist af því. Án tauganna væri engin hreifing, engin næring, enginn hiti og í stuttu máli ekkert líf. Taugakerfið er aðalþjónn sálarinnar, milliliður milli hennar og líkamans. En eins og tilfinningar og líf sálarinnar gengur eigi út frá sama stað, þar sem vjer t. a. m. hugsum með höfðinu, og finnum með hjartanu, svo hefir taugakerfið fleiri enn eitt aðalfæri.

Taugakerfið er ótal margar mergjárkúlur, sem eru tengdar hvor við hlið annarar. Aðalfæri taugakerfisins eru miklir strengir, svo sem sá stærri og minni heili, mænan og taugahnýtin í hálsinum, brjóstinu og holinu. Öll þau líffæri, sem taka móti taugum frá heilanum og mænunni, svo sem augun, eyrun, nasirnar, munnurinn og útlimirnir, hafa næma tilfinning og sjálfráða hreifing. Hin líffærin, sem fá taugar frá taugahnýtunum, svo sem hjartað, lungun, lifrin, miltið, nýrun og þarmarnir, og svo frv., hreifast ekki eptir vild vorri.

Heilinn er hið mesta aðalfæri taugakerfisins; taugastrengir þeir, sem liggja út frá honum í allar áttir eru ólíkir. Sumar taugar þær, er liggja frá heilanum og mænunni, eru ákvarðaðar til þess, að hreifa vöðvana og með því parta líkamans; þær kallast hreifingartaugar. Aðrar leiða hin ytri áhrif til mænunnar og heilans og kallast tilfinningartaugar. Ef hreifingartaug er sundur skorin, þá verður sá limur, sem hún liggur til, afllaus; hann getur ekki hlýtt hoði sálarinnar; en ef tilfinningartaug er sundur skorin, þá getur limurinn að vísu hreift sig, en er tilfinningarlaus, getur eigi leitt áhrifin að utan að heilanum. Hið starfsama frumafl taugakerfisins er vökvi nokkurr, sem rennur aptur og fram um taugarnar. Af vökva þessum kemur það, að vjer getum orðið varir við sumt, þótt það snerti ekki taugarnar, þannig vita sumir ef köttur er í húsinu, þótt þeir hvorki heyri til hans nje sjái hann.

Þegar vjer nú þannig höfum hugleitt taugakerfið yfir höfuð, skulum vjer fara nokkrum orðum um skilningarvitin og skilninguna.

Skilningarvitin færa oss áhrif frá þeim ytra heimi og undireins þekkingu á honum. Þekkingu þessa fá dýrin líka og

þau álykta jafnvel, þó það sje á ófullkominn hátt. En vjer erum ólíkir hinum skynlausu dýrum í því, að vjer getum lært af áhrifum þessum, fullkomnað oss fyrir styrk þeirra og lært að þekkja oss sjálfa. Þetta verður fyrir skynsemina. Hið æðsta takmark dýrsins er að viðhalda lífinu, gleðjast og æxla kyn sitt. Maðurinn er eigi ánægður með þetta. Skilningin verður að leiða hann til hins æðra, sem er ákvörðun hans. Þessvegna eru skilningarvit mannsins svo fullkomin.

Skilningarvitin eru 5, sjón, heyrn, ilman, smekkur og tilfinning; og þessvegna eru skilningarfærin 5: augu, eyru, nef, munnur og tilfinningarfæri.

1. Augað; það er hnöttur, holur og settur saman af mörgum himnum. Hnöttur þessi er fullur af ýmsum efnum, gagnsæjum og þunnum. Það er fest með 6 vöðvum, sem geta snúið því á allar hliðar. Augað er verndað af fitulagi, sem er umhverfis það, af augnatóptinni og augnalokunum, sem geta dregið sig saman. Í augnalokunum eru kyrtlar margir; úr þeim koma augnasmyrslin, sem halda augunum þvölum; þar eru og tárakyrtlarnir, sem tárin koma úr. Vanalega fer táravökvinn um smá pípur í tárapokann og úr honum fram í nasaholurnar, en við sársauka eða miklar geðshræringar verður vökvi þessi svo mikill, að pípurnar rúma hann ekki, fer hann þá út milli augnalokanna og niður kinnarnar.

Hin yzta húð augans er mjög sterk; bakhluti hennar er hvítur og ógagnsær; húð þessa köllum vjer það hvíta í auganu; framhlutinn er gagnsær og líkur úrglasi. Undir hinni ógagnsæju húð er æðavefur mikill og í honum svart litarefni. Fyrir innan æðahimnuna er hin gagnsæja nethimna, í henni eru hinar ótölulegu greinir sjóntauganna. Sjóntaugin er digur taugastrengur, og gengur inn í augað að aptan gegnum hinar áðurnefndu himnur; strengur þessi liggur frá heilanum og tekur hann á móti áhrifum ljóssins eða gjörir það, að vjer sjáum. Regnbogahimnan tekur við af hinum áðurnefndu himnum; hún er ýmist dökkleit eða bláleit, skiptir hún auganu í 2 hvolf, hið fremra og aptara; í miðju hennar er op, er vjer köllum augastein, og um op þetta fer ljósið í hið aptara augahvolf. Augasteininn dregst saman í birtu, en þenst út í myrkri.

Hið fremra augahvolf, sem er miklu minna en hið aptara, er fyllt gagnsæjum vökva, sem kalla má vatnsvökva. Þegar vjer nú förum gegnum augasteininn inn í hið aptara auga hvolf, verður fyrst fyrir oss mjög gagnsær líkami, er vjer getum kallað kristalbaun; ákvörðun hennar er að safna geislum þeim, sem koma inn í augað, eins og stækkunarglerið. Allt annað rúm hins efra hluta augans er fyllt af tærum vökva, sem er í mjög smá-

gjörðu kompukerfi og vjer getum kallað glervökva. Um líkama þennan liggur aðallífæð augans og er litlaust blóð í henni. Allir þessir innri partar augans eru fullkomlega gagnsæir.

Þegar vjer sjáum einhvern hlut, þá myndast mynd hlutarins aptan til í auganu á nethimnunni; mynd þessi hefir áhrif á sjónartaugina, og því fær sálin afvitund um hana. En ljósgeislarnir, sem koma frá þeim hlut, sem vjer sjáum, búa myndina til; þeir ganga inn í augað um vatnsvökvann, augasteininn, kristalbaunina og glervökvann; af því geislar þeir, sem ganga frá efra hluta líkamans, ganga á ská niður gegnum augasteininn, en frá neðri partinum á ská upp, þá verður myndin aptan til á auganu að vera öfug. Að hlutir þeir, sem vjer sjáum, allt að einu standa upprjettir, verður að koma af því, að vjer í huganum færum hvern geisla í þá stefnu, sem hann kemur úr.

Augun eru svo sett, að vjer getum sjeð hvern hlut, sem er, með þeim báðum í senn; ef augun fara úr stefnu þessari, sjáum vjer tvær myndir. Stærð myndarinnar í auganu er undir því komin, hve mikið geislarnir liggja á ská; því lengra sem hluturinn er burtu, því meira liggja geislarnir á ská, og hann sýnist því minni. Börnin hafa enga hugmynd um þetta, og sýnast þeim allir hlutir nærri og halda sig geta tekið jafnvel tungl og stjörnur höndum. Augað verður að hafa nokkra stund til að taka við myndinni; ef tíminn er of stuttur verður myndin óljós eða rennur saman við aðrar. Þessvegna sýnist oss eldhringur verða í loptinu, ef glóandi hnetti er sveiflað fljótt. — Hinir ýmsu litir hlutanna koma af þessum misjafnt fljótu ljóshreifingum; augun eru eigi ætíð jafnhæfileg til að greina þennan mun; sumir geta ekki sjeð mun á grænu og rauðu.

Ef kristalbaunin eða hornhimnan er flatari en vanalegt er, þá brotna geislarnir ekki nógu mikið; augað sjer eigi hluti þá, sem nærri eru, heldur þá, sem fjær eru. Til að bæta úr þessum bresti eru höfð ávöl gleraugu. Ef partar augans eru þar á móti hafðir um of upp, þá verða menn nærsýnir; úr því bæta íhvolf gleraugu. Þeir sem hafa mjög veik augu, geta haft gagn af að hafa blá eða græn gleraugu.

2. Eyrað. Heyrnarfærin liggja langt inn í höfðinu. Eins og vjer sáum að allir partar augans urðu að vera gagnsæir til þess ljósið gæti haft áhrif á þá, þannig verða partar heyrnarfæranna að vera harðir eins og fílsbein, til þess að áhrif hljóðsins geti náð heyrnartauginni fljótt og rjett. Vjer getum skipt eyranu í hið ytra og innra eyra.

Hið ytra eyra er flatt brjósk kringum op það, er hljóðöldurnar ganga gegnum inn í höfuðið. Ætlunarverk þess er að safna sem flestum hljóðöldum, svo áhrifin á heyrnartaugina verði sterkari.

Hlustin, er tekur við fyrir innan eyrað, liggur lítið upp á við, og er hún innan þakin smáum hárum og smákyrtlum, sem gefa frá sjer eyrnamerginn; þetta er til að varna öllum óhreinindum frá að fara inn í eyrað. Við innri enda hlustarinnar er hljóðhimnan spennt um þvert, og lokar hún hinu innra eyra. Hljóðöldurnar hreifa hljóðhimnuna og heldur sú hreifing áfram. Fyrir innan hljóðhimnuna er hljóðholið; úr því liggja göng í samband við harkaholið. Hjóðöldurnar geta einnig farið um göng þessi til eyrans, og fyrir þá sök gapa þeir ósjálfrátt, sem illa heyra. I hljóðholinu eru 3 merkileg bein, er menn eptir mynd þeirra hafa kallað: hamar, steðja og stígvjel. Bein þessi hafa þá ákvörðun, að þenja hljóðhimnuna og leiða áhrif hljóðsins innst inn í eyrað; þau eru því föst á vöðvum, sem hreifa þau. Hamarskaptið er á hljóðhimnunni, setur hún hamarinn því í hreifingu; af því bein þessi eru í sambandi, heldur hreifingin áfram gegnum steðjann til ístaðsins, en fótstallur þess nær í eggmyndað op, sem að haka til er lokað með þunnri himnu og liggur að hinum innsta hluta eyrans, völundarhúsinu. Frá völundarhúsinu liggur og annað op, hið kringlótta, til hljóðhimnunnar; það er einnig lokað með himnu, sem kallast hin minni hljóðhimna. Völundarhúsið er bein hola; inn í það liggur heyrnartaugin frá heilanum og kvíslast um allar hinar innri greinar þess eða er umkringd af vatnsvökva, sem fyllir völundarhúsið.

Heyrnin fer fram á þessa leið: Hið ytra eyra safnar hljóðinu, sem er öldugangur í loptinu, það fer inn um hlustina og lendir á hljóðhimnunni og hreifir hana. Hreifingin leiðist um hamarinn, steðjann og stígvjelið inn í völundarhúsið, og þar taka greinar heyrnartaugarinnar við. Hljóðöldurnar geta einnig komið inn um munninn eins og áður er sagt, og um hið kringlótta op inn í völundarhúsið. Einsog sjónin hefir sín takmörk bæði að fjarlægð og litum, svo er og um heyrnina. Eyru vor geta eigi tekið á móti eða aðgreint tóna, sem verða af færri en 16, og eigi þá, er verða af fleiri en 40,000 öldum í loptinu á sekúndu hverri; en hjer er líka mikið millibil. Heyrnarleysi verður af því að færi þessi dofna eða skaddast. Einkum er úti um alla heyrn ef stígvjelið fer, eða vökvi sá rennur burtu, sem er í völundarhúsinu.

3. Ilmanin eða Ilmingin; aðalfæri hennar er nefið. Nefholið er aðgreint frá hjarnholinu með flötu beini og eru á beini þessu mjög mörg smágöt, og eru þar mörg beinhvolf. Gegnum göt þessi ganga margir taugaþræðir frá ilmtauginni, og breiðast eins og net um naslrnar allar innanverðar. Taugaþræðir þessir taka móti ilmaninni. Vjer finnum ilmanina eða lyktina bezt, þegar vjer drögum andann að oss, af því að taugaþræðirnir örfast þá mest. Ilmfærin fá eigi áhrif af öðru en

loptinu og efnum þeim, sem það er blandað. Þar sem lykt er í húsum, er loptið blandað þeim efnum, sem lyktin er af.

4. Smekkurinn eða bragðið. Bragðfærin eru tungan og gómurinn. Tungan er vöðvi; á efra borði hennar eru margar vörtumyndaðar hæðir, bragðvörturnar, þær eru mörg smá blóðker og kvíslast bragðtaugarnar um ker þessi. Efnin, sem vjer finnum bragðið af, hafa áhrif á vörtur þessar. Bragðið er í nánu sambandi við lyktina. Eins og ilmtaugarnar geta eigi tekið móti áhrifum frá öðru en loptefnum, þannig getum vjer eigi fundið bragð af öðru en því, sem er fljótandi. Sykur, salt og brauð verður t. a. m. að leysast upp af munnvatninu til þess vjer getum fundið bragð þess.

Þó lyktin og bragðið sje eigi eins áríðandi fyrir oss eins og sjónin og heyrnin, þá gjörir það í mörgum greinum lífið þægilegra og er oss til leiðbeiningar.

5. Tilfinningin. Hún nær yfir líkamann allan, því hverr einn partur líkamans, sem taugaþræðir ganga til, getur tekið á móti áhrifum þess ytra heims og fært þau til afvitundar sálarinnar. Mest er þó tilfinningin í fingurgómunum; að innan eru þeir mjúkir og hafa ótal taugar og blóðker, að utan eru neglurnar þeim til styrktar við áþreifinguna. Tilfinninguna getum vjer með æfingu gjört ótrúlega næma. Blindir menn, sem verða að hafa tilfinninguna í stað sjónarinnar, geta jafnvel fundið mun á litum.

Vjer höfum farið fleiri orðum um líkama mannsins en flest það annað, sem er á jörðinni, eigi að eins af því, að hann er eitt hið veglegasta af því, sem Guð hefir skapað, heldur og til að vekja eptirtekt á hans dásemdarverkum. Því margt er líkt líkama mannsins og óendanlega margt aðdáanlegt. Að hinu leytinu verðum vjer að sleppa mörgu og fara fljótt yfir flest. Ef vjer nú nákvæmar hugleiðum hvað einstakt, t. a. m. angað, hve undrunarverður er þá tilbúningur þess, hve fagur ljómi þess, hve mikill þess liðugleiki og þol vöðvanna? og hinsvegar, hve undrunarverður er hæfilegleiki þess, að geta látið í ljósi hugsanir og tilfinningar. Það getur lýst velvild og óvild, gleði og hryggð, ljettúð og alvöru: það er spegill sálarinnar, þar sem sjá má hina huldu mynd hennar!

---

## IX. Höfuðskepnurnar og viðburðir í náttúrunni.

Vjer höfum hjer að framan nokkuð hugleitt mynd jarðarinnar og það, sem hún leiðir fram, en það er einnig athugavert, hver að sjeu hennar aðalefni. Forfeður vorir skiptu þeim í 4 parta og kölluðu höfuðskepnur: jörð, vatn, lopt og eld. Á hinum fyrri öldum álitu menn efni þessi ódeilanleg, en náttúruvísindin hafa tekið svo miklum framförum á hinum síðari tímum, að menn vita nú, að höfuðskepnur þessar eru settar saman af margvíslegum efnum; eru þau sem stendur talin um 60 og kallast frumefni, af því menn hafa eigi getað greint þau sundur.

### A. Jörðin.

Jörð í þessum skilningi köllum vjer hið þjetta efni hnattarins, sem allir sýnilegir hlutir eru í og á. Vatnið er einnig á jörðinni; hafið er dæld í hana, full af söltu vatni. Hún er ólík hinum höfuðskepnunum í því, að hún er þjett og efni hennar hreifast ekki, nema ef svo ber til, að undirstaða einhvers hlutar bilar, t. a. m. þegar skriður falla. Vjer þekkjum að eins að nokkru leyti hina yztu skorpu jarðarinnar. Vjer höfum áður talað um, að hún uppbaflega hafi verið fljótandi efni, sem hafi harðnað smám saman, og fengið þá mynd, sem hún hefir nú.

Hið upphaflega fasta efni jarðarinnar eru klettarnir. Af áhrifum lopts og vatns hafa þeir meyrnað, og er yfirborð þeirra nú víða lausir steinar og mold; vindarnir sá jurtafræi í mold þessa, jurtin vex upp; dýr koma og nærast á henni; bæði jurtirnar og dýrin deyja, og þannig verður yfirborð jarðarinnar þakið samblandi af uppleystum steinum og leyfum jurta og dýra; sambland þetta köllum vjer akurjörð eða mold, og er hún mjög misjöfn eptir efnum þeim, sem hún er komin af.

Ef vjer veitum eptirtekt klettum þeim, sem eru á jörðinni, þó eigi sje nema á litlu svæði, þá sjáum vjer mikinn mun þeirra. Munurinn er, auk hinnar ólíku stærðar og lögunar, mest fólginn í því, að sum fjöll og klettar eru með lögum, sum hafa engin lög.

Fjöll þau, sem lög hafa, eru algengust; lögin eru ekki ætíð lárjett, heldur hallast þau opt, og stundum rísa þau á rönd, hvort við annars hlið. Aðalefni þeirra eru 3: kalksteinn, sandsteinn og leir; stundum eru efni þessi meira eða minna blönduð saman.

Fjöll þau, sem ekki hafa lög, hafa og 3 aðalefni: forngrýti, blágrýti og hraun. Grjóttegundir þessar leysast einnig upp og verða að jarðvegi, og verður efni hans eptir því.

En á yfirborði jarðarinnar eru hæðir og dalir, fjöll og sljett-

lendi. Regn það, sem fellur niður, getur þessvegna runnið ofan hlíðarnar og safnast í lækjum, ám og elfum. Vötnin þvo nú burt hin smágjörvari og ljettari efni steinanna og klettanna í fjöllunum, og flytja þau með sjer niður í dalina og á sljettlendin. Þegar þvottur þessi fer fram án afláts, lenda hin smágjörvari efnin á láglendinu og með fram vötnunum, en hin stærri efnin, svo sem steinar og klettar, verða eptir á hæðunum og í hlíðunum. Sumstaðar vinnur vindurinn nokkuð að þessu. Sumstaðar fer hann yfir fjöll og hæðir, og feykir öllum lausum og ljettum jarðefnum langar leiðir, og lenda þau optast þar, sem lægst ber á. Sumstaðar tekur hann sand þann, sem sjórinn hefir malað, og feykir honum upp um löndin. Á þennan hátt breytist yfirborð jarðarinnar á hverju ári.

Jurtirnar gjöra einnig sitt til. Þegar eik eða einhver minni jurt deyr á þurrlendi, þá rotnar hún smám saman og hverfur í loptið. Lendi hún í vatni, sem stendur kyrrt, verður hún svört og fúnar seinna. Ef fleiri safnast nú þar ofan á, þá myndast mór, surtarbrandur eða steinkol.

Vjer höfum áður getið þess, að jarðskorpan væri þunn í samanburði við jörðina alla, að eins 8 mílur á þykkt. Þar fyrir neðan tekur við glóð sú, sem enginn þekkir reyndar til hlítar. Lífsins verðum vjer hvergi varir annarstaðar en á yfirborði jarðarinnar eða í loptinu næst henni. Þegar ofan í jörðina kemur og lengra upp í loptið, hverfur allt líf. Málmarnir og hinir líflausu hlutir, er menn nota, eru mest sóktir ofan í jörðina; þannig eru saltnámar og steinkolanámar sumstaðar langt niðri í jörðinni, og er þar komið ærið rúm. Í námum þessum vinnur fjöldi manna á hverjum degi.

Þannig er mikið af jörðinni hulið augum vorum, og það sem vjer þekkjum, breytist daglega. Náttúran er önnum kafin í því, að eyða því sem er, og leiða fram af því annað ágætara, og það ágætara er lífið. Það sem mest styður að framleiðslu lífsins og viðhaldi þess, er sólarljósið, súrefni loptsins, gufa vatnsins, rafurmagn og segulmagn.

## B. Vatn.

Þegar hafið er talið með, hylur vatnið meira en tvo þriðjunga jarðarinnar; er það og eptirtektavert, að hvert dýr og hver jurt hefir í sjer um tvo þriðjunga vatns; þannig hefir maður sá, sem vegur 16 fjórðunga, 11 fjórðunga af vatni í sjer. Vatnið er sett saman af 2 loptefnum: *súrefni* og *vatnsefni*; er súrefni $^8/_9$, en vatnsefnið $^1/_9$, og af efnum þessum má búa það til. Af þessu leiðir, að lítið vatn eykur loga, en mikið vatn slökkvir hann, bæði af

því, að súrefnið er meira, og af því, að vatnið hindrar súrefnið, sem er í loptinu, frá að komast að loganum. Vatnið er 2 til 3 sinnum ljettara en jörðin. Það er litarlaust, en þegar það er mikið, hefir það einhvern lit, af því það er þá blandað öðrum efnum, eða af því, að lit annara hluta ber á það; þannig sýnist hafið blátt, þegar loptið er heiðskírt.

Vatnið er sjaldan ómengað af öðrum efnum, því að það er eðli þess, að leysa upp flesta hluti, er það snertir. Sjórinn er saltur; eru um 2 pund af salti í 100 pundum af sjó. Sumt uppsprettuvatn hefir frábrugðið bragð, af því að það er mengað nokkrum jarðefnum, t. a. m. brennisteini, járni og salti, eða loptefnum, t. a. m. kolsýru; slíkar uppsprettur kallast ölkeldur, og er vatn þetta baft til lækninga í ýmsum kvillum. Sumt uppsprettuvatn er heitt og blandað brennisteini; í sumu vatni eru málmtegundir. Í ánni Tinto á Spáni er vatnið gult af eirefni; engin skepna lifir þar, og öll trje, sem í það detta, verða að steini.

Vatnið má aldrei standa kyrrt til lengdar, heldur verður það að vera á sífelldri breifingu og jafnvel að endurnýjast. Þessa hreifingu og endurnýjung skortir ekki heldur. Án afláts gufa vatnsefni upp frá bafinu af hita sólarinnar frá dýrum og jurtum, jörðinni og vötnum þeim, sem á henni eru; gufa þessi fer upp í gufuhvolfið og verður þar að regni; það fellur aptur á hafið og jörðina, viðheldur lækjum og ám og hafstraumum, og gufar upp aptur til að gjöra hið sama; hve opt hefir vatnið eigi farið ferð þessa frá upphafi heims!

Sjórinn, sem er allur meginhluti vatnsins, breifist stöðugt á ýmsan hátt. Yfirborð hans hreifist af vindunum, og þegar þeir hrekja yfirborðið undan sjer, ókyrrist hann með öldugangi og hafróti.

Merkilegust er samt hræring sú, sem tunglið orsakar; sú, er vjer köllum flóð og fjöru. Vjer viljum skýra hræring þessa. Sólin og tunglið draga jörðina til sín. Það er sólin, sem heldur jörðinni á braut hennar, að öðrum kosti mundi hún þeytast beina leið um geiminn. En þegar sólin heldur nú jörðinni þannig að sjer, þá dregur hún að sjer þá parta af yfirborði hennar, sem liggja beinast við henni. Meira ber þó á þeim áhrifum, sem tunglið hefir í þessa átt, af því það er svo miklu nær jörðinni, því að aðdráttaraflið fer að því skapi vaxandi, sem hnettirnir eru nær hvorr öðrum. Nú eru hinir einstöku partar sjávarins sundurlausir, hin minnstu ábrif geta komið þeim í hreifingu. Væri nú jarðarbnötturinn allur þakinn sjó, þá mundi aðdráttarafl jarðarinnar, sem heldur sjónum að sjer, minnka við það, að tunglið dregur sjóinn til sín þar sem það stendur beint yfir; sjórinn mundi þá hækka þeim megin, sem vissi að tunglinu, en lækka hinumegin;

þar mundi verða alda eða hæð á sjónum þeim megin, sem vissi að tunglinu, en til þess að þetta gæti orðið, yrðu að verða straumar í hafinu. þegar jörðin snýst nú frá vestri til austurs, þá rennur sjórinn með. Flóðaldan færist vestur eptir með tunglinu og verður þó lítið á eptir því, og þegar hún fer fram hjá landinu, sem stendur upp úr sjónum, þá gengur hún upp eptir því, og kallast þá flóð; þegar tunglið er nú komið á sama stað yfir jörðinni aptur, en það er að liðnum 24 stundum og 50 mínútum, þá er flóðaldan komin þangað aptur. Já, þetta er hægt að skilja; en nú er flóðið ekki einusinni á sólarhring, heldur tvisvar, og þetta hefir mönnum veitt erfiðara að skilja. En náttúran hefir jafnan rjett fyrir sjer, það sjáum vjer þegar vjer skiljum vegu hennar. því nú bætist það við, að jörðin hverfur á móti tunglinu einsog tunglið á móti jörðinni; aðdráttarafl þess verkar líka á hana, þótt það sje 80 sinnum ljettara. Tunglið hefir nú mest áhrif á þann hluta jarðarinnar, sem það er beint yfir, það dregur að sjer jörðina alla, en minnst þá hlið hennar, sem veit frá því. þegar tunglið dregur nú jörðina að sjer, hefir það meiri áhrif á sjóinn en meginlandið, sem er fast, og af því verður flóðaldan; á þeim stað, sem fjærstur er tunglinu, hefst sjórinn aptur á yfirborði jarðarinnar, þar hefst önnur flóðalda. Á þennan hátt verða 2 flóðöldur hvor gagnvart annari á jörðinni á hverjum sólarhring, og þar eð báðar öldur þessar fara umhverfis alla jörðina á 1 sólarhring, þá verður flóð og fjara allstaðar á jörðinni tvisvar á hverjum sólarhring.

Sólin hefir nú hin sömu áhrif á jörðina í þessu tilliti eins og tunglið; en þótt hún sje mörgum sinnum stærri, þá verða þessi áhrif hennar minni, af því fjarlægð hennar, er svo miklu meiri; áhrif hennar eru eigi meira en $^2/_5$ partar af áhrifum tunglsins. Hinar tvær flóðöldur, er tunglið gjörir, getum vjer kallað tunglöldur, en hinar 2, er sólin gjörir, sólaröldur; þessar 4 öldur færast eptir jörðinni vestur á við. En af því tunglið færist á braut sinni kringum jörðina, verða öldur þess á hverjum sólarhring 50 mínútum seinni en sólöldurnar. Sólöldurnar ná þessvegna tunglöldunum, fara fram hjá þeim, ná næstu tunglöldum og svo frv. Stundum falla þá sólaröldur og tunglöldur saman, svo fer þegar sól og tungl er í sömu stefnu eða gagnvart hvort öðru; það er með nýju tungli og fullu tungli. Síðan verða tunglöldurnar smámsaman á eptir, þangað til kvartil er af tungli, þá lenda þær í dældunum milli sólaraldanna, og verða þá flóð minni, en þó nokkur, af því tunglið ræður jafnan meira; í hinu fyrra tilfelli verður stórstraumur, í hinu síðara smástraumur. En þess ber að gæta, að sól og tungl verka eigi sitt í hvoru lagi, heldur renna áhrif þeirra saman, og ræður tunglið meira af því

það er nær, og sýnast sjávarföll því fara eptir því. Um smástraumana dregur sólin úr áhrifum tunglsins, en um stórstraumana leggst hún á sitt með því, af því hún er þá í sömu stefnu.

það ræður að líkindum, að af þessum umskiptum á flóði og og fjöru komi straumar miklir í sjónum, þar sem sjórinn helst við það á sífeldri hreifingu. þessi breyting er og orsök strauma þeirra, er vjer köllum tímastrauma. En það eru enn aðrir straumar í sjónum og af öðrum orsökum, og eru þeir straumar meiri. Sá merkilegasti og alkunnasti af hinum öðrum straumum er Golfstraumurinn; hann kemur úr Mexikóflóa hjá Ameríku og rennur austur að Englandi og kvíslast þar, en ein greinin og sú er mest, fer norður um haf fyrir austan Ísland. Sjórinn í Golfstraumnum er bláleitur og miklu heitari en sjórinn í kringum hann, svo að opt munar 10 hitastigum. þegar hann fer út í Atlantshafið er hann um 8 mílur á breidd og 200 faðmar á dýpt, en grynnist og breiðkar eptir því sem frá dregur, svo að hann verður brátt um 20 mílur á breidd. Vatnið í honum er saltara en í sjónum í kringum hann. Fyrr hjeldu menn, að hin mikla á Missisippi, sem rennur suður Vesturálfuna í Mexikóflóa, orsakaði straum þennan, en slíkt getur eigi átt sjer stað, þó á þessi sje ærið mikil. Síðar hafa menn fengið aðra ætlun um þetta. Eins og kunnugt er, er hitinn lang mestur um miðjarðarlínuna; sjórinn gufar því mest upp þar og verður að dömpum, dampar þessir berast í loptinu til heimsskautanna þar sem kaldara er, þjettast þar og verða að regni og falla á land og í sjó. Eptir þessu ætti hafið bráðlega að minnka um miðjarðarlínuna, en vaxa við heimsskautin, en það er eðli þess að vera allstaðar jafnhátt. Tekur það sjer þessvegna rás að miðjarðarlínunni, en eigi á yfirborðinu, heldur niðri í sjónum, með því það er kaldara og þessvegna þyngra þar en um miðbik jarðarinnar. þegar nú sjórinn streymir þannig suður niðri í hafinu, myndast annar straumur hið efra af sjó þeim, sem er um miðja jörðina og er heitari, og rennur hann í norður, og einn hinn stærsti straumur þessarar tegundar er Golfstraumurinn, en dagsnúningur jarðar mun valda því, að hann gengur í austurátt.

Enn ein eptirtektaverð en ósýnileg hræring vatnsins er það, að það án afláts leggur upp og verður að gufu. Gufa þessi verður að vatni í loptinu og fellur svo á jörðina. Á kveldum eptir heita daga má sjá gufu þessa leggja upp úr ám, stöðuvötnum og mýrum. Láti menn vatn í helt flát, minnkar það smámsaman og hverfur að lyktum; því heitara sem vatnið er, þess fljótara verður það að gufu. Vatnið er þannig á sífeldri hringferð; það verður að gufu, gufan að skýjum, skýin að regni,

regnið fellur á jörðina, dregst þar aptur saman í ár og læki, sem renna í hafið, gufar upp aptur og svo frv.

Enn tekur vatnið þeirri breytingu, að það frýs, eða verður að ís eða klaka við kuldann; ár og stöðuvötn frjósa fyrr en sjórinn, bæði af því, að hann er saltur, og af því, að hann er efnismeiri og heldur hitanum lengur í sjer. Í hinum heitu löndum sjest aldrei ís, en við heimsskautin er hafið lengst af þakið ís.

Nytsemi vatnsins er ómræðileg. Það er hið sama fyrir jarðarhnöttinn og blóðið er fyrir líkamann, kvíslast það og um hann álíka og blóðið um líkamann. Auk þess sem það leysir upp efni jarðarinnar og blandar þeim saman, er það hinn bezti drykkur fyrir menn og skepnur. Margir efnafróðir menn hafa álitið, að væri nokkur læknislyf til, sem ætti við öllum sjúkdómum, þá væri það vatnið. Engin skepna og engin jurt getur án þess lifað, og ekki verður matur nje drykkur án þess tilbúinn. Hæfilegleiki vatnsins er alkunnur, en illa notaður. Rennandi vatn er haft til að snúa mylnum og hreifa vjelar.

## C. Loptið.

Loptið er fljótandi efni, því nær ósýnilegt, dökkblátt á lit, en með því það er þunnt mjög, ber lítið á lit þess, nema horft sje í gegnum mikið, einsog lítið ber á hinum græna lit glersins, nema horft sje í gegnum margar rúður. Loptið er 800 sinnum ljettara en vatn og getur því gengið inn í og gegnum flesta hluti; það þrýstist saman og þenst út aptur. Allt, sem lifir og þróast á jörðinni verður að hafa lopt; jafnvel eldurinn slokknar ef hann missir þess.

Lopt það, sem næst er jörðinni, kallast gufuhvolf; það nær 10 til 12 mílur út frá henni. Mörgum kann að virðast, að loptið sje einskonar efni, eða þó heldur ekkert efni, en það er eigi þannig. Menn aðgreina 4 efni í loptinu: súrefni, köfnunarefni, kolsýru og vatnsgufu, og er lang mest af tveim ennm fyrst nefndu. Þessi 4 efni hefir loptið hvervetna; þau eru nauðsynleg fyrir öll dýr og allar jurtir. Súrefni og köfnunarefni eru um 4 fimmtu partar loptsins, en kolsýran og vatnsgufan aðeins 1 fimmtipartur.

Þegar gufan dregst saman hátt uppi í loptinu, kallast hún ský, en þegar hún er nærri jörðinni, köllum vjer hana þoku. Þegar gufan dregst saman í vatnsdropa, og loptið fyrir neðan hana þynnist og hitnar, þá dregur jörðin dropana að sjer, og regn fellur; kemur þannig optast skúr eptir mikinn hita. Að gufan dregst saman í dropa, kemur af áhrifum hins kaldara lopts á hið heitara. Einskonar rigning fer og fram með fleiru móti. Þegar

margir menn eru saman í húsi, kemur dögg á gluggana innanverða, sprettur dögg þessi af vatnsgufu þeirri, er kemur frá þeim, sem eru í húsinu, og verður hún, er hún mætir kuldanum að utan, að smáum vatnsdropum. Þegar jörðin og jurtirnar hitna við sólargeisla, gufar út úr þeim, en er sól er sezt, kólnar loptið fyr en jörðin, skilur þá hið kalda lopt vatnsefnið frá, og sezt það í dropum á jörðina; það köllum vjer náttfall.

Eins og vatnið frýs á jörðinni, svo frjósa einnig vatnsgufurnar í loptinu, þegar lopt það, er þær safnast í eða fara gegnum, er svo kalt. Freðnir vatnsdropar er hagl, en frosin þoka er snjór. Hagl verður á stundum eins stórt og egg, og snjó hleður í sumum löndum svo fljótt niður, að ófært er að fara um jörðina.

Eins og vatnið spillist, ef það er lengi kyrrt, eins spillist loptið, ef efni þess blandast ekki, t. a. m. í húsum, sem lítið lopt kemst að. Það er því eigi að óþörfu, að vindurinn blæs og blandar saman efnum loptsins og hreinsar það. Vindarnir koma, eins og kunnugt er, af því loptið streymir úr einum stað í annan, en rennsli eða straumur þessi verður þannig. Hið heita loptið er ljettara en hið kalda, og lendir því ofan á því. Þannig getum vjer fundið, að hið heita lopt streymir út úr húsi því, sem heitt er, í hið efra, en hið kalda lopt streymir inn í hið neðra. Við miðjarðarlínuna falla geislar sólarinnar beinast á jörðina, og verður þar því heitast, og loptið stígur þar upp. En jafnframt ber að minnast þess, að loptsþunginn verður því minni, því fjær sem dregur jörðinni, og að því skapi verður loptið óhæfilegra til að taka á móti hitanum. Það, sem upp stígur, verður nú að bætast aptur, og fyrir þá sök streymir loptið að hitabeltinu frá báðum heimsskautunum. Eptir þessu ættu að vera sífeldir norðanvindar hjá oss, sem búum norðan til á hnettinum, en sunnanvindar hjá suðurbúum. En þessu er eigi þannig varið. Nú bætist það við, að jörðin er hnöttótt, og snýst frá vestri til austurs. Jörðin er minni um sig við heimsskautin en um miðjuna; straumur sá af hinu heita lopti, sem fer norður og suður hið efra, getur eigi fallið þar allur niður. Þar að auk snýst jörðin jafnan frá vestri til austurs; jörðin er ósljett utan og hafa ójöfnur hennar áhrif á hin neðstu loptslög og færa þau með sjer, og þau færa aptur hin efri. Jörðin er 5400 mílur ummáls um miðjuna; verður loptið, sem er utan á henni, því að fara 4 mílur á mínútu hverri til að verða henni samferða. En það hefir eigi þessa ferð, og finnst þá sem vindur komi af austri til vesturs, er loptið verður eptir. Þessar eru aðalorsakir vindanna, en eigi er hægt að gjöra til hlítar grein fyrir allri rás þeirra. Sumstaðar á jörðinni blása vindar optast stöðugt af sömu átt, og kallast staðvindar. Af

umskiptum hita og kulda kemur útræna á kveldum, af því loptið hitnar meira í byggðum en á sjónum. Hvassan vind köllum vjer storm, en hinn hvassasta rok.

Nytsemi vindarins er mikil; hin sífelda blöndun á loptinu er ómissanleg, auk þess ljettir hann ferð skipanna um sjóinn, snýr mylnum og svo frv.

En tjón það, er ofviðrin gjöra, er einnig mikið; þau eyða opt öllum ávöxtum á miklu svæði, slíta upp eikur, brjóta hús, týna skipum. Opt reisa bylir og felliveður öldur hafsins, svo þær verða 100 feta háar og kasta sædýrum margar mannhæðir upp í loptið. Árið 1780 geysaði svo mikill fellibylur í Vesturindíum, að hann tók upp 50 skip í einu með 3 þúsundum manna. Í bæ nokkrum þar voru 14 hús eptir af 6 hundruðum húsa; margt slíkt ógurlegt tjón hefir af þeim orsakast.

Skýstrokkar verða þannig, að vatnsmegn dregst af rafurmagni upp í loptið og sameinast þar skýjunum; fer vatnsmegn þetta um loptið og hrífur með sjer alla hluti, er fyrir verða. Verði skip á vegi þess, brýtur það siglur og rífur segl; á landi slítur það upp eikur og biltir húsum. Verði menn nægilega snemma varir við skýstrokka, má eyða þeim með því að skjóta í þá fallbyssum, fellur þá vatnið niður með miklum gný. Hvirfilregn þessi eru tíðust á suðurströndum Afríku. Vindarnir eru optast nefndir eptir áttum; nokkrir vindar hafa þó nöfn út af fyrir sig. Þannig heitir sunnanvindur á Ítalíu, sem kemur frá eyðimörkum á Afríku: Sírokko, hinn heitasti allra vinda; í Guineu er vindur, sem heitir Harmattan, í Arabíu drepsóttar vindur, er heitir Samum og svo frv.

Um efni og eðli lopts þess, sem er fyrir utan gufuhvolfið vita menn harla lítið, eins og við er að búast, þar sem engar rannsóknir geta þangað náð.

## D. Eldur.

Eldurinn er hin fjórða höfuðskepnan; hann er í flestum hlutum ólíkur hinum öðrum höfuðskepnum. Hann hefir ekkert eiginlegt aðsetur, já, hann er reyndar ekki til, heldur **verður til** allstaðar þar, sem eitthvað brennur; eldurinn er því hinn breytilegasti hlutur. Eldurinn hefir enga ákveðna stærð, heldur vex takmarkalaust meðan hann finnur eitthvað fyrir, sem getur brunnið; hann verður því hvorki veginn nje mældur.

Eldurinn birtist sem **logi**, **gneisti** og **glóð**. Loginn verður þannig til, að brunaefni hlutanna, sem kallast *vatnsefni*, losnar við þá og sameinast eldefni lopsins, er kallast *súrefni*, loginn er því samrennsli þessara loptefna. Þessvegna þurfa allir hlutir að hitna

meir eða minna áður en þeir brenna; brunaefni verður að gufa út úr þeim. Partar þess hlutar, sem brennur, leysast sundur; brunaefnið fer leiðar sinnar gegnum logann, hin önnur loptefni gufa upp í reyk, en hin þungn efni verða að ösku.

Án loptsins getur enginn hlutur brunnið; því eru belgir tilbúnir til þess að færa eldinum sem mest af eldefni loptsins. Hið bezta meðal til að slökkva eld er því, að hindra loptið eða eldefni þess frá að komast að loganum. Lítinn loga má þannig slökkva með því að kasta ofan á hann einhverju því, er byrgir hann. Gneisti er lítill logi, sem nærist við lítið eldefni og slokknar þegar það er útbrunnið. Glæður er eldur án loga; þannig getur járn, steinkol og fleira orðið glóandi án þess að loga.

Hrævareld köllum vjer, er gufuefni kveykja í sjer í mýrum. Eldur kemur og úr jörðinni upp úr eldfjöllum. Úr tinnusteinum koma gneistar, og skrugguljósið er langur gneisti. Glóðir sjást og í loptinu, svo sem stjörnuhrap og vígahnettir.

Eldurinn breiðir út ljós og hita; þrátt fyrir allar rannsóknir vita menn ekki til fulls hvað hitinn er. Hitinn færist meira eptir sumum hlutum en öðrum; eptir málmunum færist hann mest, minnst eptir stráum. Það er eðli hitans, að hann þenur út hluti þá, er hitna. Þegar vatn er t. a. m. hitað í potti, rúmast það ekki í hinu sama rúmi, það sýður upp úr. Af þenslu þessari kemur það, að gler og postulín springur, ef það hitnar ekki jafnt; þeir partar, sem meira þenjast út, verða þá að skiljast við hina. Af þenslu þessari kemur það einnig, að smjör og tólg og mörg föst efni, svo sem málmar, bráðna. Vatn getur þanist svo út, að það gufar burt með öllu; fyllir þá gufa þess mörgum sinnum stærra rúm í loptinu, en vatnið fyllti í flátinu.

Þensla þessi við hitann hefir leitt til hinna nytsömustu uppgötvana; má af þeim einkum nefna gufuvjelina. Stórar og smáar gufuvjelar eru nú hafðar til að knýja áfram verksmiðjur, gufuvagna og gufuskip. Gufuvjelum er þannig varið, að yfir glæðum miklum er vatn hitað, leggur þá gufu mikla upp af því og fær eigi að rjúka út, en er látin falla á stengur og hjól og snúa þeim. Slíkar gufuvjelar hafa 5, 10, 60, 100 og jafnvel 500 hesta afl.

Á líkan hátt hafa menn og fundið upp á að þynna loptið og láta það í hnött, gjörðan af þunnu, loptheldu ljerepti. Af því loptið í hnettinum er ljettara, leitar hann upp, er hann er leystur frá jörðinni. Við hnött þennan er tengdur bátur eða körf, er menn sitja í. Loptkugga þessa vantar það mest til að geta verið að notum að þeim verði stýrt. Þeir berast eðlilega eins og fis fyrir vindunum. Þegar menn vilja lækka þá, minnka menn hið þunna lopt í hnettinum.

þá hafa menn og fundið upp, að brenna steinkol, lýsi, tjörn, tólg og fleiri brenniefni, og láta gufa úr þeim loptefni þau, er kallast brunaefni, Gas; eru loptefni þessi látin í málmbrúsa og málmpípur og kveykt á þeim. Logi þessi er miklu skærari en ef efnunum sjálfum er brennt, og ljós þessi meira en þriðjungi ódýrari. þessi svonefndu gasljós eru nú algeng í öðrum löndum, einkum úti við.

Eld má kveykja með mörgu móti, en hvort það verður aðeins hiti eða logi, er komið undir atvikunum. Eld má kveykja með núningi; þannig kveykja villimenn eld með því, að þeir núa saman 2 spítum; hjól, sem hart snúast, geta orðið svo heit. að í þeim kviknar. Eld má einnig kveykja með ferging, ef votu heyi eða korni eða ull er þjappað saman, eða það þrýstist saman af þunga sjálfs sín; hiti kemur og með slætti, ef járn er slegið. Loksins má kveykja eld með áhelling, t. a. m., ef olíu er hellt á samantroðinn hör, hamp eða viðarull.

Hitinn er hvervetna lífinu samfara, og hvorki jurtir, skepnur nje menn geta lifað án hans. Hiti er jafnan niðri í jörðinni. Auk þessa kviknar hiti í loptinu, er afl sólarinnar snertir gufuhvolfið. Vjer köllum afl þetta geisla sólarinnar, en geislarnir hita ekki þegar út fyrir gufuhvolfið kemur, og fer hitinn æ minnkandi eptir því sem hærra kemur í gufuhvolfið. þessvegna bráðnar snjór ekki á fjallatindum í hinum heitustu löndum.

Eldurinn sendir frá sjer geisla og birtu; skin sólarinnar köllum vjer ljós. Ljósið er mjög smágjört og fljótara í förum en nokkuð annað. það fer 40 þúsund mílur á 1 sekúndu, eða jafnlöngum tíma og vjer þurfum til að láta augað aptur. Sumir líkamir, t. a. m. vatn, gimsteinar og gler, láta ljósið streyma gegnum sig og kallast því gagnsæir. Ljósið hreifist þannig í jafn hliða línum eða geislum, sjest það bezt er það streymir um lítið op inn í herbergi þar sem dimmt er. Falli geislarnir frá þynnra efni eða og frá þjettara efni, á eitthvað annað, t. a. m. úr lopti á vatn, þá brotna þeir. þannig sýnast árar brotnar þegar nokkuð þeirra er niðri í sjó, en nokkuð stendur upp úr. Hafið er eigi allstaðar jafn gagnsært; á nokkrum stöðum í Suðurhafinu má greina jurtir og fiska á botninum á 15 faðma djúpi.

Menn hafa fundið upp að safna geislum sólarinnar saman með eldgleri; má þá kveykja með því eld Ennfremur hafa menn uppgötvað hið hulda lögmál, sem geislabrotið fer eptir, og uppgötvan þessi hefir leitt til þess, að menn geta búið til ýmsa sjónauka, svo sem stækkunargler, gleraugu og sjónpípur, og sjest margfalt betur með þeim, en með berum augum.

Í ljósi sólarinnar hafa hlutirnir margvíslega liti. Litirnir fara

eptir því, hvort hlutirnir taka á móti geislunum eða hrinda þeim frá sjer. Þegar enga geisla leggur á hlutina, sjást engir litir á þeim; svo er þegar myrkur er.

Gnúi menn hlutum fast saman, t. a. m. lakki, brennisteini, rafi eða gleri við klæði eða silki, þá framkemur ekki einungis hiti, heldur einnig brennisteinsþefur, og hlutir þessir geta dregið að sjer og hrundið frá sjer t. a. m. pappírsblaði og hálmstrái. Sje nú með þessu móti mikill hiti tilbúinn, má heyra bresti og sjá gneista, og fari menn með fingur að, finnast stingir. Náttúruafl þetta kalla menn rafurmagn. Kemur magn þetta fram í allskonar hita og eldi.

Til þess að gjöra núninginn mikinn með hægu móti og þannig tilbúa rafurmagn, hafa menn fundið upp rafurmagnsvjelar. Þeim er þannig háttað, að glerkringla er látin snúast hart og núast við silki. Sje nú annar hlutur að borinn, má sjá gneista hrökkva í hann, og verður hann við það rafurmagnaður. Gneistar úr slíkri vjel geta hrist marga menn, ef þeir koma hvorr við annan, og jafnvel geta þeir ollað dauða, ef þeir eru miklir.

Opt kemur rafurmagn fram í loptinu, úr skýjum, sem hafa það í sjer. Sje ljósið bleikt og lítið, kalla menn það leiptur, en sje það rauðleitt og langt kalla menn það elding. Eldingunni er samfara hljóð, sem menn kalla skrugguhljóð, þrumur og reiðarþrumur, þær kæla loptið og auka frjófsemi jarðarinnar.

Eldingin gjörði á fyrri öldum mikið tjón, braut hús og deyddi menn. Hinn nafnfrægi Benjamín Franklín fann ráð til að afstýra slíku tjóni. Sumir hlutir draga sem sje rafurmagnið meira til sín en aðrir, vatn meira en jörð, málmar meira en trje. Uppá húsum eða rjett hjá þeim er reist járnstöng og málmkúla á efra enda, en við málmkúluna er tengd festi úr málmi og liggur hún ofan í jörð eða vatn. Málmkúlan dregur að sjer eldinguna og festin leiðir bana ofan í jörðina eða vatnið.

Eldafl þetta getur einnig komið fram á annan hátt með snertingu, einkum með málmum. Sje t. a. m. 2 sínkplötum eða sínki og kopar haldið í munninum, þannig að annar parturinn sje undir tungunni en hinn ofan á henni, en endar þeirra snerti hvorr annan fyrir framan munninn, þá kemur bragð í munninn og leiptur fyrir augun. Þessi verkunar háttur rafurmagnsins kallast Galvansafl, af því ítalskur læknir nokkurr að nafni Galvani fann hann. Mörg dýr hafa í sjer þettað afl, geta þau í talsverði fjarlægð hrist með því önnur dýr.

Hinn þriðja verkunarhátt þessa frumafls jarðarinnar þekkjum vjer einungis í pörtum; hann lætur sig í ljósi í aðdrætti. Það eru einkum tveir hlutir í náttúrunni, sem aðdráttur þessi fer fram á milli, það er segulsteininn og járnið: Segulsteininn dregur járnið

að sjer. Afl þetta hafa menn kallað segulafl. Til að auka afl þetta hafa menn seguljárn, sem er stál, með segulsteinshúð á; slík seguljárn geta borið nokkurn þúnga, eptir því hve stór og mögnuð þau eru.

Segullinn hefir þann merkilega eiginlegleika, að sje segulmögnuð nál eða járnvír látinn hanga á bandi, þá snýr hann öðrum enda að norðurskauti heims, en hinum að suðurskauti; kalla menn því enda hans suður- og norður-skaut. Snúi menn nú hinum samkynja skautum segulnálarinnar saman, þá hrinda þau hvort öðru, en hin ósamkynja dragast saman. Má af þessu sjá, að það eru 2 hvort öðru gagnstæð efni í segulaflinu, eins og rafurmagninu, eldinum, og svo frv.

Áttavísirinn er pappírskringla og á hana dregnar upp áttir heimsins; á kringlu þessa er fest segulnál og hún látin leika á ási eða oddi, svo hún geti snúist allt í kring. Snýst þá nálin með kringlunni og sýnir mönnum, hvar norður og suður sje, og undir eins hinar áttirnar. Þetta heitir *kompás.*

Af hinu sama magni verða loptlegir hlutir (loptsjónir). Eldingin er rafurmagnseldur. Norðurljósin eru sprottin af segulmagni; þau sjást aðeins í löndum þeim, sem næst eru norðurskautinu. Við suðurskaut heims eru svipuð ljós; þau kalla menn suðurljós. Stjörnuhröp og vígahnetti höfum vjer áður drepið á.

Allt, sem er ofanjarðar, er þannig á sífeldri hreifingu og í sífeldu starfi. En eigi er minni hin sífelda ólga í jörðinni; þar starfa þau öfl og þar fer það fram, sem vjer höfum enga hugmynd um, en ef vjer þekktum það eins og það er, mundum vjer enga stund stíga fæti vorum á jörðina án ótta. Lítil merki þess sjáum vjer í jarðskjálftum og eldgosum.

Jarðskjálftar eru misjafnir að afli. Stundum verða menn að eins varir við hræringu, álíka og þegar gengið er eptir húsum; þar sem jarðskjálftar verða miklir, hrynja hús og fara um koll; ár fara úr farvegum og taka sjer aðra; jörðin rifnar og svelgir skóga og fjöll; reyk, loga og ódaun leggur upp úr gjánum. Yfirborð jarðarinnar hefst og hrynur, eins og öldur á hafi, svartar þokur fara yfir jörðina og dunur heyrast í henni. Sjórinn ókyrrist mjög og rótast upp frá neðstu grunnum, en kastar fiskum á land upp; er opt því líkast að ætla mætti heimsslit komin vera. Á norðurlöndum eru jarðskjálftar ekki mjög megnir; helzt koma þeir hjer á landi; í suðurhluta Evrópu koma þeir opt, en optast í Ameríku. Einn af hinum mestu jarðskjálftum varð 1. nóvember 1755, eyddist þá mikill partur af borginni Lissabon, höfuðborg Portúgals, og 24 þúsundir manna ljetu lífið á ýmsan hátt. Annar mjög mikill jarðskjálfti varð 5. febrúar 1783 í Kalabríu, syðst á

Italíu, fórust þar 40 þúsundir manna, borgir eyddust, fjöll hurfu, en ný komu aptur, og ár gengu úr farvegum. Þá voru jarðskjálftaru þar öðru hvoru í 3 ár.

Eldfjöllin gjósa loga, brennisteinsgufu, ösku, glóandi steinum og rennanda hraunflóði. Hraunstraumurinn rennur opt langa leið, svo skiptir þingmannaleiðum, kólnar síðan og verður að steini. Sum fjöll gjósa vatnsmegni miklu með fiskum, auri og leðju, einkum eru það eldfjöllin í Ameríku. Opt gjörir reykur og aska daginn að nóttu. Í Andesfjöllunum í Ameríku eru mörg eldfjöll. Í Evrópu eru 3: Vesúvíus á Italíu, Etna á Sikiley og Hekla á Íslandi. Vesúvíus einn er þó sígjósandi; nótt og dag rýkur úr honum og grjótið kastast 50 til 80 fet upp úr gjánni. 78 árum eptir Krists fæðingu fórust 3 borgir á Ítalíu, Herkulanum, Pompeji og Stabiæ, í kaf af öskufalli úr Vesúvíusi, og fórst þar fjöldi manna. Árið 1834 kom eldur upp í sjónum nálægt Sikiley, og stór eyja kom upp; konungarnir á Neapel og Englandi vildu báðir eiga eyna og voru því nær komir í stríð saman, en eyjan hvarf þá. Um eldgosin á voru landi mætti semja langa og merkilega sögu. Einna mestar urðu afleiðingar þess, er Skaptárjökull gaus 1783, gjörðist þá hallæri um land allt. Fjöldi manna dó af harðæri, en kýr, sauðfje og hross fórust meira en að helmingi; lá þá við landauðn.

---

# X. Hringferð frumefnanna.

Það hefir þegar lengi verið ljóst meðvitund þjóðanna, að hið sama frumefnið sje í hússtjórn náttúrunnar haft til ýmissa augnamiða. Heimspekingar hafa sífeldlega hugsað um þessa efnabreytingu, og skáldin hafa fundið leiksvið fyrir ímyndunarafl sitt í þessari vísindalegu spurningu, sem er eins merkileg og hún er ótæmandi. En það eru vísindalegar rannsóknir á hinum síðustu tímum, er einkum hafa varpað ljósi yfir eðli þessara efnabreytinga, náttúrunauðsyn þeirra og nákvæma samband. Nú vitum vjer eigi aðeins, að efnin breytast án afláts, heldur einnig hitt, að þau eru á sífeldri hringrás. Það er líka upplýst, að ummyndan sú, sem efnin taka, er nauðsynlegt skilyrði fyrir því, að allt haldist við, og að hún framfer eptir fastri reglu og ítrekast hvað eptir annað án enda.

Það sem í dag heyrir til líkama vorum, sem lifir og starfar og er oss svo kær, getur innan skamms orðið notað til hins auð-

virðilega. þessi ómótmælanlegu sannindi voru fram til hinna síðustu tíma það eina, sem menn vissu um breytingar líkamans og hin ókomnu kjör hans, þegar sálin og lífið hefir yfirgefið hann. Á hinum tveim síðustu mannsöldrum hefir þessi grein vísindanna tekið svo miklum framförum, að menn nú geta vitað hvernig hið sama frumefni fer úr einu og í annað. Í dag er það í einhverri jurt; á morgun í dýrslíkama; síðan ferðast það í loptinu eða berst í hinum tæra straumi lækjarins eða árinnar; síðan getur það hvílst í hinu þögula skauti jarðarinnar, þangað til það byrjar hringrás sína aptur.

Vjer skulum nú stuttlega hugleiða breytingu efnanna og ferð þeirra, hið eiginlega eðli þeirra, náttúruöfl þau, sem orsaka breytinguna og nytsemi hennar í hússtjórn náttúrunnar. Vjer skulum fyrst drepa á hin einfaldari, og síðan hin margbreytnari sambönd.

1. Hringrás vatnsins í náttúrunni. Vatnsgufur þær, sem eru í gufuhvolfinu, gefa ljóst dæmi uppá rás efnanna. Vatnsgufan er uppspretta regnsins og daggarinnar, sem færir hinum visnuðu jurtum og dýrum nýtt líf og frjófgar jörðina. Á heitu sumarkveldi er vatnsgufan opt eins og þoka yfir jörðinni, eða hún safnast eins og glitrandi perlur á gróða hennar, en hverfur næsta morgun, með því jörðin og jurtirnar sjúga nokkuð í sig, en nokkuð hverfur við sólarhitann upp í loptið. Menn telja til, að ef öll vatnsgufa sú, sem er í loptinu, fjelli í einu á jörðina, þá mundi vatnið á henni verða 5 fet á dýpt. það er því auðsætt, að hin ósýnilega útgufanin verður að vera mikil, til þess að loptið hafi ávallt nægan raka og nóg regn geti fallið.

Vatnið er á sífeldri ferð milli loptsins og jarðarinnar. Vjer sjáum, hve fljótt þornar af steinum og úr götum, ef hiti kemur, og lyptist það þá aptur upp til hinna háu skýja til að berast um í loptinu og falla niður aptur. Mest er rás þessi í hitabeltinu. þegar hafið hitnar af hinum glóandi geislum sólarinnar, stendur sífeldur gufustöpull af því upp í loptið, og gufa þessi berst í norður og suður til hinna kaldari landa, þjettist þar og verður að dögg, regni eða snjó. Vatn þetta berst nú í lækjum og ám fram í hafið í hinum köldu og tempruðu beltum, en þá taka hafstraumarnir við og flytja það um hulda vegu niðri í hafinu í hið heita belti til að byrja aptur hringrás þessa. Hve opt hefir vatnið farið ferð þessa frá upphafi heims eptir hinu sama eilífa lögmáli!

Dögg og regn fellur hjer að auk ofan í jörðina og þaðan sjúga rætur jurtanna það í sig. Jurtirnar snúa laufum sínum upp í loptið og anda frá sjer ósýnilegri vatnsgufu. Dýrin þurfa og mikið vatn til að slökkva þorstann, en verða einnig eptir lögum

lífsins að gufa því út um lungun og húðina, sem án afláts gefur frá sjer vatnsgufu. Meðalmaður gufar frá sjer 2 pundum vatns á dægrinu, og hin stærri dýr eðlilega því meira. Þegar vjer hugleiðum, hve mörg dýr eru á jörðinni, getum vjer sjeð, að útgufan þessi er mikil.

Meiri hlutinn af hverri jurt og dýri er vatn. Þegar jurtin vex, dregur hún vatnið í sig jafnóðum, en er hún deyr og leysist upp af áhrifum loptsins, þá losnar vatnið frá og hverfur í loptið. Þegar vjer þar á móti neytum matarins, fer vatnið, sem í honum er, burt um lungu vor og í gegnum húð vora.

2. Hringrás kolefnisins. Kolsýruloptið er hin perlumyndaða lopttegund, er stígur upp í öli, Kampavíni og Sódavatni. Í lopttegund þessari er kolefni og súrefni, og er hún verulegur partur af gufuhvolfi jarðarinnar. Að vísu er eigi meira en 1 pottur af kolsýru í 2500 pottum lopts, en líf allra jurta og dýra er komið undir því, að loptefni þetta sje til. Loptið þrýstir með 15 punda þunga á hvern ferskeyttan þumlung, en í þessum 15 pundum eru ekki meira en 33 grön kolefnis. Jurtirnar draga til sín loptefni þetta með laufum sínum. Væri allt yfirborð jarðarinnar þurrlendi, þá telja menn til, að jurtirnar væru á 22 árum búnar að eyða öllu kolefni loptsins og yrðu að deyja út. En náttúran kemur í veg fyrir þetta með því að gefa loptinu stöðugt aptur kolefni á þann hátt, sem vjer nú skulum greina:

Eikurnar í skógunum fella lauf á ári hverju, og í Ástralíu fella þær börk. Laufið visnar og leysist upp, og loptið fær aptur þá kolsýru, sem eikin hafði frá því tekið. Allar jurtir á jörðinni, sem visna, allt það, sem menn brenna, í stuttu máli allt það, sem mætir áhrifum elds og lopts, verður eptir styttri eða lengri tíma að kolsýru og hverfur í hið ósýnilega gufuhvolf. Á þennan hátt fær loptið aptur kolsýru þá, sem það missir á ári hverju.

En bæði mennirnir og önnur dýr styðja að hinu sama. Vjer neytum af gróða jarðarinnar, meltingin hjá oss kemur honum í sama ástand og hann er í þegar hann rotnar eða brennur ofan jarðar; vjer gjörum hann að kolsýru og vatni, og öndum honum frá oss um lungun og skinnið. Þessi breyting er svo fróðleg og skemmtileg, að það er þess vert, að vjer hugleiðum hana nákvæmar. Blað hinnar lifandi jurtar dregur til sín kolsýruna úr loptinu, en rekur undireins frá sjer súrefnið, sem er í kolsýrunni, og heldur því kolaefninu einu eptir. Rætur jurtarinnar sjúga vatn úr jörðinni, og af kolefni þessu og vatni myndar jurtin mjölefnið, sykurefnið, feitina og önnur efni. Dýrið tekur nú mjölefni þetta, sykurefni og feiti í maga sjer, og dregur að sjer súrefni úr loptinu gegnum lungun. Vjer skulum setja þetta í ljóst dæmi:

| | | |
|---|---|---|
| Jurtirnar ....... | taka við kolsýru með blöðunum vatni með rótunum | gefa frá sjer súrefni með blöðunum, mjölefni og sv. frv. í þeirra fasta efni. |
| Dýrin .......... | mjölefni og feiti í næringunni súrefni um lungun | kolsýru og vatn um lungun og skinnið, feiti í líkamann. |

Þannig haldast öll efnin við. Hið sama efni, t. a. m. kolsýran, er þannig stundum sveimandi í loptinu, stundum efni ennar uppvaxandi jurtar, stundum hins lifandi dýrs. Í dag er hún í jurtinni, á morgun hefir maðurinn neytt hennar og hún er í hans líkama, og eptir lítinn tíma getur hún verið komin í líkama annara dýra.

Öll sú kolsýra, sem jurtirnar svipta loptið, bætist því samt eigi þegar í stað. Tveir enn þá starfsamari náttúrukraptar vinna að því að bæta þennan missi. Vjer höfum sjeð, að þegar jurtirnar visna, brenna, eða eru jetnar af dýrunum, þá fær loptið aptur kolefni þeirra sem kolsýru. En allar þær jurtir, sem vaxa á jörðinni, verða eigi þannig að loptefnum á vissum tíma. Þvert á móti hafa margar þeirra lent niðri í jörðinni og geymst þar um margar aldaraðir. Þannig eru öll mólög og kolalög komin af jurtum, sem geymst hafa þar um margar þúsundir ára. Það, sem jörðin safnar þannig og felur í sjer, mundi minnka kolsýru loptsins, ef aðrir kraptar bættu ekki missirinn Af kröptum þessum þekkjum vjer bezt þá, sem mennirnir koma af stað. Á hinum síðari tímum hafa menn grafið kolin upp úr jörðinni. Þegar vjer brennum þau, sameinast kolefni þeirra við súrefni loptsins, og verður að kolsýru í loptinu. Vjer gefum loptinu það þá í hinni sömu mynd og það hefir að líkindum haft fyrir millíónum ára, þegar jurtirnar, sem nú eru orðnar að kolum, stóðu í blóma og drógu það til sín. Þegar vjer brennum kolum og hverju öðru, sem brunnið getur, aukum vjer kolsýru loptsins. Menn telja til að 50,000 millíónir vætta sjeu brendar í heiminum á ári hverju, og af því koma 15000 millíónir vætta kolsýru.

Hinir mörgu skelfiskar og skeldýr starfa án afláts að því, að mynda og endurbæta skeljahús sín, sem eru þeim bæði til verndar og skjóls; þegar hverr fiskur deyr, verður skelin eptir, og myndast við það kalklög þau, sem hvervetna er að finna á sjávarbotninum. Í hinum suðrænu höfum búa enn minni dýr til hin svonefndu marbendilsfjöll eða kúrjelsfjöll, sem opt eru mörg þúsund mílur á stærð. Þegar dýr þessi deyja, láta þau eptir skel sína, og verða þar af kalklög, sem bera ævaranda vitni um tilveru þeirra og starfsemi. Í fjöllum þessum eru 2 fimmtungar kolsýra, sem þar er í eilífum fjötrum. Kolsýra þessi er beinlínis eða óbeinlínis tekin frá loptinu, og þannig sjáum vjer, að hafið

dregur ekki lítið af kolsýru til sín með styrk þessara fjallmyndandi dýra. Þetta hefir gengið þannig um þúsundir ára. Sjávardýr þessi hlytu því að eyða mjög kolsýru loptsins, ef ekki væri úr bætt á annan hátt. Eitt af því helzta, er vjer viljum nefna í þá átt, er útgufanin úr jörðinni. Um hella og gjár kemur mikil kolsýra upp úr jörðinni, bæði sem lopt og í vatni, og sameinast gufuhvolfinu. Það er þetta loptefni, sem er í ölkeldunum, streymir út úr jörðinni á sljettum Paderborns, í hundaholunni á Ítalíu, en mest allra í hinum óttalega eiturdal á Java, þar sem bæði menn og skepnur deyja. En miklu meiri er án efa kolsýra sú, sem kemur upp úr sjávarbotninum, sem er miklu stærri en þurrlendið. Þannig bætist kolsýran á ýmsan hátt, svo hún minnkar ekki þótt mikið af henni verði fast, bæði á sjávarbotninum og undir yfirborði jarðarinnar. Kolefnið er þannig á sífeldri hringferð milli himinsins og jarðarinnar. Vjer getum sagt, að það byrji ferð sína með því að koma upp úr jörðinni, gengur síðan í gegnum jurtir og dýr og endar ferð sína með því að felast í jörðinni eins og hörð steingjörð jurt eða kalksteinslag.

3. Hringferð köfnunarefnisins. Vjer skulum nú minnast á hringferð þá, sem er margbrotnari, en undireins skemmtilegri, af því að hún snertir fremur líkamslíf vort og heimilislíf. Þegar vjer hrærum hveitimjöl í sundur í vatni, og látum það á síu, þá verður það, er niður úr síunni kemur, hvítt að lit, en við síuna festist efni nokkurt límkennt, er vjer köllum jurtalím; ef vjer látum það, er niður um síuna fer, setjast til, þá verður á botninum efni það, er vjer köllum sterkju.

Hveitimjölið er samsett af þessum tveimur aðalefnum: sterkju og jurtalími, og efni þessi eru aðalefnið í öllum þeim jurtum sem vjer nærumst á. Þegar vjer hugleiddum hringferð kolefnisins, sáum vjer, hvað varð af sterkju eða mjölefni jurtanna þegar dýrin neyttu þeirra; nú skulum vjer hugleiða þær breytingar, sem jurtalímið tekur þátt í.

Jurtalímið er í því ólíkt sterkju og fitu, að það hefir í sjer köfnunarefni; loptefni þetta er því nær 4 fimmtupartar af gufuhvolfinu. Köfnunarefni er líka í ammoníaki, sem er lopttegund sú, sem gjörir hina miklu lykt af salmíaksanda og hjartarhornsolíu; sje þetta sem skeiðvatn, kalla efnafræðingar það saltpjetursýru. Þessi tvö efni, ammoniak og saltpjetursýra, eru í jörðinni, og draga jurtaræturnar þau til sín ásamt öðrum efnum, sem hafa í sjer köfnunarefni. I jurtunum verða þau að jurtalími. Trefjaefnið í vöðvum dýranna og eggjahvítan í egginu er sama eðlis og jurtalímið í hveitinu. Þau hafa öll jafnmikið af köfnunarefni, og í líkum samböndum. Þegar dýrið því jetur jarðarávextina, færir það líkama sínum hin sömu efni og eru í vöðvum þess og

blóði, og fær þannig hentugt efni til að mynda og viðhalda hinum ýmsu pörtum líkamans. Það eru einmitt þessi efni, sem veita líkamanum viðgang og viðhalda honum. Þannig kemur köfnunarefnið úr jörðinni, gengur í gegnum jurtirnar, og kemst á hæsta stig, þegar það verður efni í líkama hins lifandi og skynsemi gædda manns.

Þegar hin óþreytandi efni eru komin svo hátt, verða þau fljótt leið á því. Það er ekki nóg, að líkaminn allur er á sífeldri hreifingu, heldur hreifast einnig allir hinir einstöku partar hans. Þeir eru líkir íbúum í stórri borg, sem fara aptur á bak og áfram, fækka á hverri stund af því sumir deyja og sumir fara, en fjölga jafnóðum aptur, af því nýir koma, svo að allt er orðið nýtt eptir lítinn tíma. Hin margbrotna líkamsvjel slitnar við þessa hvíldarlausu hreifingu svo undrunarlega fljótt, að hún þarf stöðugt að endurnýjast, svo hún er ný orðin á skemmri tíma en einum mánuði. Á þessum stutta tíma er hverr partur líkamans orðinn nýr, og til þess að þetta geti orðið, fær hann ávalt ný efni í stað hinna slitnu, sem hann varpar frá sjer. Undireins og jurtalímið á eðlilegan hátt er orðið að vöðva, skinni, hári og svo frv., tekur það að leysast upp og breytast, og líkaminn hrindir því að því búnu burt. Án afláts ummyndast þannig öll efni líkama vors, án þess vjer tökum eptir því eða getum átt nokkurn þátt í því.

Vjer skulum gefa stutt yfirlit yfir það, hvernig efnin í líkömum vorum breytast og hrindast burt.

Hinn lifandi líkami dregur með andardrættinum mikið súrefni til sín úr loptinu. Nokkurr bluti súrefnisins gengur til þess að breyta kolefninu, sem er í næringarefnum þeim, sem líkaminn neytir, í kolsýru; annar blutinn gengur til þess að mynda hin föstu efni líkamans; en mikið af súrefninu fer til þess að leysa upp og fjarlægja hin alnotuðu og þessvegna ónýtu efni líkamans. Súrefnið, sem vjer öndum að oss, er þessvegna meðal það, sem kemur af stað efnabreytingunni. Súrefnið sameinast hinum ónýtu efnum og gjörir þau að þvagefni, þvagsýru, og svo frv., og fara þau burt um nýrun. Þvagefnið og þvagsýran hverfa síðan til jarðarinnar, þar sem þau áttu upphaflega heima. Þar breytast þau smám saman í ammoníak, saltpjetursýru og önnur efni, sem jurtaræturnar drógu til sín áður, og sem nú, eptir umferð sína, eru viðbúin að fara í aðrar jurtir til að hefja nýja ferð.

En næringarefni þau, er af jörðinni koma, hafa í sjer meira jurtalím en dýrin geta tekið við og hagnýtt sjer. Nokkurr hluti jurtalímsins meltist því ekki, heldur fer burt með saurindum dýranna. Jörðin tekur við þeim, og verða þau eins og þvagefnið og þvagsýran að ammoníaki og saltpjetursýru. Hinni sömu

breytingu tekur og jurtalímið í jurtum þeim, sem ekki eru jetnar, heldur visna og leysast upp. Líkamir dýranna deyja einnig og leysast upp á sama hátt eða rotna. Afleiðingin af allri breyting þessari er sú, að köfnunarefnið kemst aptur í það ástand, að jurtirnar geti tekið við því og sameinað það efni sínu.

Á þennan hátt snýr köfnunarefni það, er sem ammoníak, saltpjetursýra og í öðrum samböndum sogast í jurtirnar um rætur þeirra, eptir margar breytingar aptur til jarðarinnar í einhverri af hinum áðurgreindu myndum. Vjer skulum gefa stutt yfirlit yfir þetta:

| | | |
|---|---|---|
| Jurtirnar taka við | köfnunarefni, sem ammoníaki, saltpjetursýru, o. s. fr. frá jörðinni. | búa til jurtalím. |
| Dýrin taka við . . | a. jurtalími í næringunni og *súrefni* með lungunum.<br>b. vöðvakjöti í næringu af dýrum og um lungun. | búa til a. vöðva og önnur kerfi.<br>b. þvagefni og s. frv. í þeirra rennandi afrás. |
| Jörðin tekur við . | þvagefni og annari afrás dýra; dauðum dýrum og jurtum. | býr til ammoníak, saltpjetursýru og önnur sambundin efni, sem hafa í sjer köfnunarefni. |

Vjer endum þannig þar sem vjer byrjuðum; því jarðvegurinn, jurtirnar og dýrin taka þátt í þessari hvíldarlausu, samanhangandi ferð. Þegar efnin í líkömum vorum eru búin að vera þeim til nota, eru þau tafarlaust höfð til annars augnamiðs. Það er ekki til neins fyrir oss að reyna, að verja líkama vorn þessum fyrirfram ákvörðuðu kjörum. Vjer þurfum ekki einu sinni, eins og Hamlet segir, að bíða þangað til líkamir vorir rotna. Hin föstu og rennandi efni þeirra leysast fljótt og fara í aðrar myndir þannig, að það, sem í dag er í líkömum vorum, getur að viku liðinni verið komið í allt annað t. a. m. rófur eða jarðepli.

Þegar vjer hugleiðum, hvernig efni þessi breyta myndum, opnast augu vor fyrir annari enn stærri efnarás. Meðan hið sama efnamagn rennur hið ákvarðaða skeið sitt, einsog vjer höfum sýnt, fer nokkurr partur af ammoníaki og öðrum efnum, sem geyma í sjer köfnunarefni, en kemur af rotnuðum dýrum og jurtum, upp í loptið og breiðist út sem gufa. Frá lungum og skinni dýranna gengur einnig mikið af köfnunarefni. Regnið þvær nú þetta ammoníak úr loptinu og flytur það til jarðarinnar, sem það er komið frá, svo það geti nært jurtirnar. En regnið flytur líka ammoníak í hafið, annaðhvort beinlínis eða eptir lækjum og ám. Á hverju ári verður einnig nokkuð af ammoníaki, saltpjetursýru og þesskyns efnum að ómenguðu köfnunarefni og þessvegna gagnslaust fyrir jurtirnar.

Til þess að bæta upp missi þennan, myndast saltpjetursýra stöðugt í loptinu. Köfnunarefnið og súrefnið í gufuhvolfinu sameinast og myndar sýru þessa með styrk hinna rafmögnuðu strauma, sem jafnan fara um loptið. Úr öllum eldgosum fer einnig ammoníak út í loptið. Báðir þessir samansettu líkamir flytjast nú af regninu ofan á jörðina, og bætist köfnunarefnið þannig aptur. Úr hinu mikla nægtabúri gufuhvolfsins tekur jörðin þannig við miklu köfnunarefni, en gefur aptur frá sjer jafnmikið af ómenguðu lopti, eptir að það hefir gengið í gegnum margar breytingar. Hve undralangan tíma þarf til þess að allt köfnunarefni gufuhvolfsins taki þátt í þessu ferðalagi!

4. Hringrás hinna föstu efna. Vjer skulum nú hugleiða hinar mörgu breytingar, sem duptið, það er hin jarðkynjuðu efni, sem eru án lífs og eigi geta brunnið en eru þó í lifandi verum, taka.

Ef vjer brennum einhverja jurt undir beru lopti, þá hverfa þau efni hennar, sem brunnið geta, en lítil aska, eða efni, sem ekki getur brunnið, verður eptir. Aska sú, sem eptir verður, er vjer brennum spítu, er vottur þessa. Ef vjer brennum líkama einhvers dýrs, verður líka aska eptir. þess þarf valla að geta, að mikil aska verður, ef vjer brennum mold eða jarðarhnaus.

Hvað nú snertir þá parta jurtarinnar sem brunnið geta, og sem eru settir saman af kolefni, köfnunarefni og efnum vatnsins, súrefni og vatnsefni, þá geta menn haft ýmsa ætlan um það, hvort efni parta þessara sje komið frá jörðinni eða loptinu. þá er bæði að finna í loptinu og á jörðinni, og geta því jafnvel verið frá hvoru fyrir sig. þau efni jurtanna þar á móti, sem ekki geta brunnið, verða að vera komin frá jörðinni, því þau eru ekki til í loptinu. þar eð nú enn fremur allt, sem dýralíkamarnir hafa í sjer beinlínis eða óbeinlínis, er komið af næringu þeirri, sem þeir fá af jurtunum, þá verður hið dauða efnið eða askan, sem eptir verður, þegar þeir eru brendir, einnig að vera komið af því, að þeir hafa nærst á jurtunum. Og þar eð hinir dauðu líkamir dýranna fyr eða síðar hverfa aptur til jarðarinnar, þá sjáum vjer aptur fullkomna hringferð, sem hin jarðnesku efnin hinna lifandi vera án afláts fara. Efni þessi fara nefnilega úr jörðinni og í jurtirnar, úr jurtunum í dýrin, með dýrunum í jörðina og hefja svo aptur þessa sömu ferð. það er fróðlegt og skemmtilegt, að rannsaka nákvæmar þetta ferðalag jarðefnanna.

Jurtirnar draga ekki til sín öll efni jarðarinnar án greinarmunar. þvert á móti kjósa þær þau ein efni, sem eru sjaldgæfari, og einkum þau, er bezt leysast upp í vatni því, sem er í náttúrunni. Fosforsýra, kalk, magnesia og salt eru hin helztu af þessum efnum. Frjófsemi jarðarinnar er því komin undir því

að nægð sje af þessum efnum, en víða er lítið af þeim í jörðinni, og af því jurtirnar eyða efnum þessum, verður að bæta jörðinni þann missi.

Í óyrktum hjeröðum bætist hann á fljótan og einfaldan hátt. Í skógunum, þar sem laufið og börkurinn fellur af á hverju ári og trjen rotna smám saman, fara jarðefnin úr jörðinni í jurtirnar meðan þær vaxa og lifa, en snúa aptur til jarðarinnar, er þær visna. Á graslendi fer hið sama fram. Á hverju sumri blómgast grasið, en deyr á haustin, og skilar jörðinni efnum þeim, er hún lánaði. Næsta vor kemur nýr gróði, sem lifir af leifum hins liðna árs.

Þar sem dýrin eyða öllum gróða jarðarinnar, verður ferð efnanna nokkuð krókóttari. Jarðefni jurtanna fara þá í maga dýranna, meltast þar og verða að blóði. Blóðker, sem til þess eru ætluð, taka nú við hinum ýmsu jarðefnum úr blóðinu og flytja þau um líkamann, þangað sem þeirra þarf með. Kerfin og blóðið heldur eptir saltinu. Fosforsýra og kalk lendir einkum í beinunum. Hve nauðsynlegt hið fosforsúra kalk sje í líkamanum getum vjer sjeð, er vjer minnumst þess, að þegar bein eru brend, verða 2 þriðjungar þeirra eptir sem hvít aska, og fimm sjöttu partar ösku þessarar er fosforsúrt kalk. Enn ljósara verður oss það, er vjer athugum, hve mikill hluti jarðefni þetta er af jarðefnum líkamans. Í fullorðnum manni vega öll jarðefnin til samans $10^1/_9$ pund; hið fosforsúra kalk er 8 pund, en öll hin jarðefnin $2^1/_9$ pund, og af því er meira en helmingur salt.

Þó að nú jarðefni jurtanna fari í maga dýranna og þaðan um hina ýmsu parta líkamans og festist þar um stund, þá stöðvast eigi við það rás efnanna. Því einnig hin föstustu efni líkamans breytast og endurnýjast. Beinin endurnýjast eigi síður en hinir partarnir, svo að fosforsýra sú og kalk, sem í dag streymir til þeirra, fer innan fárra daga burt með öðrum ónýtum efnum líkamans. En jafnsnart og jarðefni þessi hverfa til jarðarinnar, byrja þau ferð sína að nýju. Loksins deyr líkaminn allur í einu, og jarðefni þau, er hann þá hefir í sjer, snúa beina leið í duptið, sem hann er kominn af. Þar leysast þau upp, mest af áhrifum loptsins, og fara í ný sambönd og verða við það hæfileg til að sjúgast af rótum jurtanna.

Allt það, sem jurtirnar hafa tekið frá jörðinni, gefa dýrin henni því aptur, bæði með efnabreytingunni og þegar þau deyja. Nýjar jurtir taka þá aptur hið sama efnið, og senda það aptur af stað. Að öðru leytinu er tilbúningur jurtanna svo merkilegur, að þær því að eins geta lifað, að þær dragi í sig þá fosforsýru, kalk, og svo frv., sem þær eiga að færa hinum lifandi verum. Að hinu leytinu er jörðin svo fátæk af þessum nauðsynlegustu

efnum, að jurtirnar og dýrin eru neydd til að skila jörðinni hinum lánuðu efnum, þegar lífsskeið þeirra er á enda. Hverr hinn minnsti efnispartur hefir hjer að auk þá skyldu, að búa sig til nýrrar starfsemi, þegar hin fyrri er á enda. Á þennan hátt hefir forsjóniu sjeð svo um, að hin litlu efnin nægja með því að vera stöðugt á ferð þessari. Vjer getum þessvegna ekki talið eina ögn efna þessara sjerstaka eign vora. Að þessu leytinu er það von, að hinum kalda náttúrufræðingi virðist það heimska af oss, að elska dupt hins dána. Hvað sem vjer gjörum, þá getum vjer ekki hindrað, að það fyr eða síðar fari í nýjar myndir jurtalífsins og dýralífsins, sem oss eru alveg óviðkomandi.

Hve fljótt fara ekki opt efnin úr líkömnm vorum í aðra líkami! Margar þúsundir farast á ári hverju í sjónum, jetast þar upp af sjávardýrum og viðhalda líkama þeirra. Aðrir deyja og rotna undir berum himni og jurtir vaxa upp af leifum þeirra. Í hinum miklu styrjöldum falla opt margar þúsundir manna, og af frjófsemi þeirri, sem líkamir þeirra veita jörðinni, nærast enn fleiri þúsundir marga mannsaldra. Kirkjugarðar vorir geta ekki heldur haldið hinum dauðu leifum. Mörg jarðefni úr líkömum karla og kvenna fara í fjenað þann, er fær fóður úr kirkjugörðunum. Þótt vjer gætum smurt lík þeirra, sem vjer elskum, einsog hinir fornu Egyptar, og vafið þau dúkum, vættum í vaxi, harpeis og smyrslum, þá væru þau ekki óhult fyrir hinum rángjörnu Aröbum.

Hve undarlega árangurslausar eru ekki hinar heppilegustu tilraunir til að varðveita líkami vora óbreytta um aldur og æfi! Eptir langan tíma finna menn gröfina og opna hana. Hinn þöguli íbúi er þar opt í heilu líki í sinni eðlilegu mynd. Utlit andlitsins er líkt, hin langa hvíld hefir að eins gjört svipinn svo alvarlegan, að hann hefir djúp áhrif á alla, sem líta myndina. En ef einhver nýjungagjörn hönd snertir mynd þessa eða vindsúgur kemst að henni, þá hrynur hún saman á augabragði, og að eins lítið dupt verður eptir. Eigi alls fyrir löngu fannst í Etrúrín lík Etrúrakonungs frá fornöld. Fornfræðingar grófu þar í jörðina og hittu á hvolfgröf, er enginn hafði áður vitað af. Ótrufluð um þúsundir ára kom hún nú fyrir ljós dagsins. Um lítið gat, sem gjört var á múrinn, sáu hinir undrandi áhorfendur undrasjón inní í gröfinni: Konungur sat þar í hásæti með kórónu á höfði og veldissprota í hendi, íklæddur konunglegum skrúða, hjá honum voru gullker af fornri gerð og skrauti. Óðfúsir urðu menn að ná þessum dýra fundi og stækkuðu dyrnar. En eptir því sem hamarinn og meitillinn stækka gatið, hnígur myndin saman. Smátt dupt, líkt reyk, fyllti loptið, þegar inn var komið, og brot af þunnu,

úthreiddu gulli voru eptir, til sannindamerkis um, að þetta hefði ekki verið sjónhverfing ein.

Um tvö þúsund ár geta konungar og höfðingjar varist því að dupt þeirra dreifist. En er það þá víst, að þeim með tímanum fari betur enn Kromwell — líkama hans var án vægðar dreift víðsvegar — eða Wikliffe, — ösku hans var varpað í hafið — eða hinnm helga Genevova — bein hans voru brennd á greifaplázinu og öskunni þeytt í vindinn — eða Mausolus, — kona hans Artemisia drakk dupt hans — eða Edomskonungi — kalk var hrennt af beinum hans — eða hinum helga Pipin og öllum konungum af Búrhonsætt — skríllinn í París braut upp grafir þeirra og brenndi líkin öll? Oss þykir skrælingjaleg aðferð Tíbetsbúa, er brytja lík hinna dánu í stykki og annaðhvort varpa þeim í hafið eða láta þau á kletta til þess hræfuglar jeti þau, og aðferð þeirra, er húa í hlíðum Himalajafjallanna í Austurálfu: þeir hrenna líkin og dreifa öskunni á jörðina. En hvernig sem farið er með hina örendu líkami vora, þá er það hið sama: að »þeir eru af jörð og skulu aptur að jörðu verða«.

Vjer skulum enn bæta við nokkrum athugasemdum til að fullkomna það, er vjer höfum tekið fram um rás efnanna.

Þótt jurtirnar og dýrin ætíð snúi aptur í skaut jarðarinnar, lenda þó ekki öll þau jarðefni, er þau í sjer hafa, á þeim sama stað, sem þau komu frá. Regnvatnið, lækirnir og árnar skola á degi hverjum burt þeim jarðefnum, sem eru nauðsynleg fyrir jurtirnar og dýrin, og flytja þau af þurrlendinu í hafið. Nægtir efna þessara þverra að þessu leytinu daglega, og frjófsemi jarðvegarins minnkar. En einnig á þessu er ráðin hót. Klettarnir, sem eru aðalefni jarðskorpunnar, hafa í sjer fólgin efni þessi. Þeir leysast upp á ári hverju og hæta jörðinni upp það, er hún missir, af því, sem plönturnar og dýrin þurfa. Uppsprettuvatnið leysir upp efni þessi og flytur þau með sjer, en skilur þau eptir hjer og þar. Víða bætist jörðinni þannig það, sem hún missir. Sjórinn starfar einnig að þessu. Öldur hans hefjast í lopt upp og verða að froðu; stormarnir taka saltagnir þær, sem árnar auðga hafið með, og bera þær á vængjum sínum aptur á þurrlendið.

Ef þetta daglega endurgjald skyldi ekki nægja til að viðhalda frjófsemi jarðarinnar, þá styrkja hiltingar jarðarinnar að því. Biltingar þessar hafa ætíð orðið öðru hvoru. Hafið þornar stundum skyndilega, stundum smámsaman. Hvar sem það þornar, þjóta nýjar jurtir upp af jarðefnum þeim, sem árnar hafa horið á hafsbotninn. Efni þessi taka þá aptur að vinna hið sama starf, sem þau unnu, meðan þau reikuðu á þurrlendinu.

Öll hin ýmsu efni, sem viðhalda öllu lífi á jörðinni, eru þannig á sífeldri ferð og hreifingu. Hvert eitt þeirra rennur hið

ákvarðaða skeið sitt. Hvert eitt hjól í hinni miklu heimsvjel hefir sína ákvörðuðu hreifingu, og hvert hið minnsta efni sína ákvörðuðu starfsemi, og auk þessa er hvert eitt tilfelli, sem fyrir getur komið, fyrirsjeð, og við því gjört af skaparans mikla, órannsakanlega vísdómi, svo allt nái fullri framkvæmd.

Hve vísdómsfullt, hve aðdáanlegt, hve skemmtilegt er allt þetta! Hve mikilsvert er það, sem vjer getum af því lært!

1) Fyrst verður oss meðal annars það ljóst, hve lítil þau efni eru, sem allt líf er undir komið. Eins og myndasmiðurinn býr til mörg mót af hinum sama leir, svo myndast dýr og jurtir hvað eptir annað af hinu sama efni. Hvað eptir annað verður efni þetta aptur að jörð og lopti, er það stuttan tíma hefir verið undir valdi lífsins. Það eru þessvegna ekki þau efni, sem líkamir vorir eru samansettir af, er þeir síga í gröfina og sem, eptir styttri eða lengri tíma, lenda í einhverjum grösum og síðan í líkömum dýra og manna — og fara einnig með þeim í skaut jarðarinnar — það eru ekki þessi efni, sem líkamir vorir verða settir saman af í upprisu alls holds. Efni þessi tilheyra hvorki einum nje öðrum; þau hafa þegar verið í þjónustu margra þúsunda og eiga enn eptir að fara í mörg þúsund líkami áður enn upprisunnar mikli dagur rennur upp, er allir eiga að mæta fyrir dómstóli hins eilífa. Guðs orð segir einnig, »að náttúrlegum líkama verði sáð niður en upp muni rísa andlegur líkami.« Það segir að »þeir dauðu rísi upp óforgengilegir.« Hold og blóð getur ekki heldur í þessu tilliti erft Guðsríki; þessi jarðnesku efni geta ekki orðið óforgengileg. En einsog vjer vitum ekki, hvað Guð hefir fyrirbúið þeim, er hann elska, svo getum vjer ekki þekkt þá mynd, sem vjer birtumst í fyrir honum; vjer höldum oss við það fyrirheit, að hún verði lík hans sonar dýrðarlíkama.

2) Þessi stöðuga, hvíldarlausa hreifing á öllum efnum hinna lifandi líkama er einnig lærdómsrík fyrir oss í siðferðislegu tilliti. Engin tálmun megnar um langan tíma að stöðva störf þeirra, ekkert villir þau af skeiðinu eða kemur þeim til að gleyma boðum skaparans. Þegar nú hinir dauðu hlutir starfa án afláts og án hvíldar, eigum þá vjer, sem erum lifandi verur og gæddir skynsemi, að eyða hinu stutta og dýrmæta lífi voru í aðgjörðaleysi eða villast af þeim vegi, sem hann hefir vísað? Að erfiða og starfa meðan vjer lifum er eitt af þeim siðferðisboðum, sem efnafræðingarnir lesa í hinni hvíldarlausu hreifingu efnanna: hreifingu þessa er að sjá í klettum jarðarinnar, sem sýnast dauðir, í jörðinni, í loptinu, í hinum dauðu dýralíkömum og hinum visnandi jurtum.

3) En þetta kennir oss einnig að láta öll vor störf stefna að ákvörðuðu, nytsömu takmarki. Þegar vjer athugum hin ýmsu

hjól í hinni umfangsmiklu vjel heimslífsins, sem vjer höfum farið huga yfir, höfum vjer opt orsök til að spyrja: til hvers hreifist þetta? hvaða takmark hefir þessi hvíldarlausa starfsemi? Vjer getum í einfeldni svarað: til þess að allt haldist við. En einsog vjer þekkjum ekki neitt einstakt til blítar, heldur megum í öllu, sem vjer höldum oss þekkja, bugleiða þau auðmýktarorð, er náttúrufræðingurinn Linne mælti, er hann uppgötvaði eitthvað nýtt: »nú hefi jeg sjeð skuggann af guði,« svo þekkjum vjer ekki hans eilífa, vísdómsfulla tilgang.

Þegar jurtirnar t. a. m. með því að búa til sterkju og jurtafeiti úr kolsýru og vatni, og dýrin, með því að aðskilja það aptur og gjöra það að kolsýru og vatni, virðast eingöngu vinna fyrir sig, þá verður þetta til þess, að viðbalda líkama dýranna. Ummyndun sú, sem sterkjan og feitin fær í líkama dýranna, er í rauninni nokkurs konar bruni. Hiti sá, sem kemur við bruna þennan, viðheldur hita líkamans. Vjer þurfum ekki að minna á það, hve nauðsynlegur hiti þessi er fyrir lífið. Hitinn kemur, ef svo mætti að orði kveða, við snúning þess litla hjóls, er kolsýra og vatn verður að sterkju og fitu og hverfur aptur í hið loptkynjaða og rennandi ástand sitt. Ef vjer þannig hugsum um hvað eitt í líkama vorum, bvort sem það er smátt eða stórt, þá sjáum vjer að með öllu er borin umhyggja fyrir velvegnan hinna lifandi skepna og vexti jurtanna. Lærum af þessu að hafa í öllu nytsamt og ákvarðað takmark fyrir augum.

4) Það er jafn fagurt og það er skemmtilegt að sjá, hve beinlínis og ljóslega allar jurtir þjóna bæði mönnum og dýrum, eptir því sem vjer höfum skýrt frá. Ef maðurinn hefði verið á jörðinni áður enn jurtirnar voru til, þá hefði hann verið hin vesælasta skepna. Hann hefði þá hvorki getað lifað af jörðinni nje loptinu, og þarf þó að lifa af bvoru tveggju eða efnum þess. Það er jurtin sem kýs, safnar og sameinar þessi ómeltanlegu efni og tilbýr þau svo, að þau geti nært manninn og allar lifandi skepnur. Skepnurnar varpa aptur í þessa hlýðnu þræla sína hinum ónotanlegu efnum, sem þau hafa ekki lengur nein not af, til þess þeir tilreiði þau að nýju. Þannig er jurtin ánauðugur þræll dýranna, og hve fús, hve starfsamur, hve óeigingjarn þræll er hún? Hún starfar hvíldarlaust þangað til hún deyr og þegar vorið snýr aptur, rís hún upp og byrjar nýtt líf, ung og fögur og fús til að vinna verk köllunar sinnar. Líðanir og eymd mannlegrar ánauðar er henni ókunn; hún ber ánægð allar byrðar. Af þessu getum vjer lært margt nytsamt í þessu lífi.

5) Það er enn mjög alvarlegt að hugsa um það, að hver lítil breyting á reglu þeirri, sem nú er, getur á augabragði orðið

tilefni til þess, að öll dýr og allar jurtir deyi. Ef herra náttúrunnar svipti loptið hinni litlu kolsýru, sem í því er, þá mundu á hinni sömu stund allar jurtir taka að visna, og eptir skamman tíma yrði enginn gróður framar sýnilegur á jörðinni. Og þó gæti maðurinn með öllum skilningarvitum sínum ekki fundið nokkra breytingu á loptinu. Menn mundu að eins undrast hina eyðandi drepsótt, er hefði gengið yfir jurtirnar, og innan skamms mundu þeir sjálfir og allar skepnur hníga af fóðurskorti.

6) Hugleiðingar þessar um hreifingar efnanna leiða huga vorn til að athuga hreifingar himinhnattanna, hið hvíldarlausa skeið, er þeir verða að renna, án þess efni þeirra breytist í nokkru. Sú spurning vaknar hjá oss: hvað hefir hringrás þessara jarðnesku efna, sem snerta oss svo mikið, sameiginlegt við plánetnrnar og tunglin, er renna hið hátignarlega skeið sitt, og hin mörgu sólkerfi í hinu ómælanda heimsrúmi? Ferð efnanna er árleg einsog gangur jarðarinnar kringum sólina, en hvaða þýðingu hafa þau í alheiminum?

Þó að kolsýran hyrfi úr loptinu, og sú yrði afleiðingin, einsog vjer áður sögðum, að öll dýr og jurtir eyddust, þá gæti jörðin enn varað óbreytt, þótt breyting þessi yrði á gufuhvolfi hennar, þá gæti hún enn um þúsundir ára runnið skeið sitt um sólina og hinn þögli fylgiari hennar, tunglið, með henni. Líf það, sem er á jörðinni, hefir því litla þýðingu í alheiminum. Það er að eins stutt erindi í hinu endalausa sköpunarkvæði. Guð hefir viljað, að þessi depill af hans ómælanlega ríki hirti einnig vísdóm hans og almætti og hve dásamlega hann leiðir allt að hinu bezta takmarki. Hann hefir viljað, að hjer væri skynsemi gæddar verur, sem hefðu hæfilegleika til að kynna sjer verk hans, skynja þau og dást að þeim — til að tilbiðja hann, elska hann og þjóna honum. »Líf, andi og allir hlutir« eru komnir undir þessum vilja hans.

En er vjer nú sjáum, hve lítils virði mannkynið og allt, sem með því er skapað, er, hvílík skelfing verður þá að grípa sálir vorar, er oss kemur til hugar, að það geti orðið nauðsynlegt af einhverjum orsökum, að allt líf á jörðinni hverfi, og að líf allra manna á jörðinni hefir eigi meiri þýðingu í alheiminum en líf skorkvikindisins, sem ekki þekkir annan heim en vatnsdropann, sem það lifir í? Þetta eru þau alvarlegustu sannindi, sem náttúruvísindin láta oss sjá og viðurkenna. En vjer treystum þeim guði, sem í öllu þessu birtir vísdóm sinn og gæzku, að gæzka hans og vísdómur auglýsist fullkomlega í endir allra hluta.

# XI. Tímatalið.

Hreifing jarðarinnar er, eins og áður er sagt, á tvennan hátt; sú er önnur, að hún snýst um möndul sinn, eða línu þá er menn hugsa sjer dregna gegnum hana frá norðri til suðurs, hin er sú, að hún gengur kringum sólina. Hin fyrtalda hreifing eða snúningur jarðar frá vestri til austnrs fer fram á 24 stundum eða sólarhring, hin önnur fer fram á 365 dögum og 6 stundum eða einu ári.

Við hina fyrri hreifinguna, eða snúninginn, verða umskipti dags og nætur. Dagur telst frá því sól sjest fyrst og þangað til hún gengur undir. Lengstur dagur hjá oss er 21. júni, þá köllum vjer sumarsólstöður, en skemmstur dagur er 21. desember, þá eru vetrarsólstöður. 21. dag marsmánaðar er dagurinn jafnlangur og nóttin, þá eru jafndægur um vor, og eins er 22 dag septembermánaðar, þá eru jafndægur á hausti. Lengstur dagur hjá oss er 20 stundir og 55 mínútur, en skemmstur dagur 3 st. 55 mínútur. Norðast í Noregi er sífeldur dagur frá 21. maimán. til 21. júlimán. Á Grænlandi sjest eigi sól á vetrum í 13 vikur. Í löndum þeim, sem eru um miðjarðarlínnna, er dagurinn því nær jafnlangur nóttinni árið allt, sólin gengur þar því nær þvert yfir loptið á öllum árstímum, og kemur nótt og dagur því nær allt í einn. Vjer tökum að vísu svo til orða, að sólin komi upp og gangi undir, en sólin er kyr og jörðin snýst og gengur kringum hana. Hverr blettur á jörðinni snýr þannig stundum upp, stundum til hliðar, stundum niður, en í himingeiminum er ekkert upp nje niður, heldur er það upp, sem veit frá jörðinni, en niður, sem veit að henni, og svo er um hvern hnött.

Af gangi jarðarinnar kringum sólina koma árstíðirnar; á norður og suðurhveli jarðar eru þær 4: vetur, sumar, vor og haust, en um miðbik jarðar eru þær að eins tvær, sumar og vetur eða hitatíð og rigningatið. Þegar vetur er hjá oss norðnrskautsbúum, er sumar hjá suðurskautsbúum, og svo þvert á móti. Hiti og kuldi fer eptir því, hver hlið jarðar snýr að sólinni, og hve þvert geislar hennar falla á jörðina. Árið er vanalega talið 365 dagar, en þeim 6 stundum, sem umfram eru, er sleppt þangað til þær fylla sólarhring, en það er fjórða hvert ár, og kallast það hlaupár. Hvert hlaupár er 366 dagar og aukadeginum bætt við febrúarmánuð.

Auk þessara skipta tímans eptir hreifingnm jarðarinnar er honum einnig skipt eptir gangi tunglsins kringum jörðina. Tunglið fer rúmlega 12 sinnum kringum jörðina á einu ári, og með tilliti til þess hafa menn skipt árinu í 12 parta. Ekki eru mánnðirnir allir jafnlangir og hefir verið skýrt frá dagatölu þeirra í gamalli stöku þannig:

Ap—Jún—Sept—Nov—þrjátigi er
einn til hinir kjósa sjer,
febrúar tvenna fjórtán ber,
frekar einn þá hlaupár er.

Af því tunglið er dimmur líkami eins og jörðin, er önnur hlið þess jafnan dimm meðan sólin skín á hina. Þegar tunglið snýr hinni dimmu hlið að oss, sjáum vjer það ekki og köllum vjer þá nýtt tungl. Þegar tunglið færist úr þessari stefnu, fer að sjást rönd af því eptir fáar nætur og fer hún vaxandi á hverju kveldi; þegar 7 dagar eru liðnir frá nýju tungli, er helmingur tunglsins bjartur, köllum vjer þá fyrsta kvartil. Fer þá enn vaxandi í 7 daga það er sjest af hinni björtu hlið tunglsins og sjest hún öll að þeim liðnum og er þá fullt tungl. Þá er tunglið gagnvart sólu og jörðin á milli. Kemur tunglið þá upp í austri skömmu eptir að sól er sezt í vestri. Þá fer hin bjarta hlið minnkandi í 7 daga og sjest þá eigi meira en eystri helmingur þess og kemur það upp um miðnætti, þá er síðasta kvartil, og smá þverrar það síðan í 7 daga. Þannig hefir það verið frá upphafi heims og þannig mun það verða meðan Guði þóknast að láta þá niðurskipun haldast, sem nú er.

Þessar hreifingar tunglsins orsaka sólmyrkva og tunglsmyrkva. Ef tunglið verður sem sje í beinni stefnu frá sólinni og jörðin á milli, þá byrgir hún geisla sólarinnar svo þeir ná eigi að skína á tunglið, og verður þá tunglmyrkvi. Ef tunglið gengur aptur í beinni stefnu milli sólar og jarðar, þá byrgir það meira eða minna af sólinni meðan það fer fram hjá henni, þá köllum vjer sólmyrkva, en væri þó rjettara nefnt jarðmyrkvi, af því það er jörðin, sem verður myrk eða dimm. Slíka myrkva geta stjörnufróðir menn reiknað út mörgum öldum áður en þeir koma. Það er dásamleg tilhögun Guðs, að tunglið er hæst á lopti og lýsir því lengst og mest á nóttinni þegar dagarnir eru styztir í desember og janúar. Þá gjörir líka snjórinn í hinum köldu löndum birtu þess meiri.



Neðst til vinstri handar er tunglmyrkvi; neðst til hægri handar er tunglið eptir því sem það er að sjá frá jörðinni, sem er í miðið, ýmist vaxandi eða minnkandi. Efst eru brautir plánetanna kringum sólina, en Merkúríus er of nærri og Neptúnus of fjærri til þess, að brautir þeirra yrðu sýndar á svo litlu rúmi.

# XII. Lofsöngvar.

1.

Líti jeg um loptin blá
Skýin sem sigla fram silfurglitaðan boga,
hálftungls gullnu hornin á,
herinn stjarna, þann tindrandi loga,
þrungna þrumu heimkynnið,
þar sem að skruggan skæð skekur dunandi hamar,
rekur fjalli högg á hlið,
hittir skóginn og stórviðu lamar:
:|: þú ert mikill, hrópa' jeg hátt
himna Guð, jeg sje þinn mátt;
fyrir þinni hægri hönd
hnígur auðmjúk í duptið mín önd. :|:

Líti jeg langt um útþönd höf,
þar er skjót skipamergð skundar vængjuðum húnum,
sökkur djúpt í sjávar gröf,
sjest svo aptur á aldanna brúnum,
þar er sje jeg sverðfiskinn,
hnúðurbak, hrosshvelið hart við stökkuliun glíma,
þar er flögur flokkurinn
ferðast rjettum á vegi og tíma:
:|: Þú ert mikill hrópa jeg hátt,
hafsins Guð, jeg sje þinn mátt,
sjór og hvað þar inni er
órækt vitni um guðdóm þinn ber. :|:

Líti jeg liljum prýdda jörð,
skoði' jeg ský og strönd, skoði' jeg dali og fjöllin;
skoði' jeg bugðu breyttan fjörð,
breiðar ár og vatnsbunu föllin,
skoði' jeg skepnu fjöld ótal
allt frá þeim ormi sem undir duptinu skríður,
yfir fjeð í fögrum dal
fjær til himins þar beinfleyg örn líður:
:|: Þú ert mikill hrópa jeg hátt,
heimsins Guð, jeg sje þinn mátt;
lofið himnar, haf og jörð
hann, hvers mætti þið af eruð gjörð. :|:

(Eptir *Frimann.*)

2.

Svo langt sem augað eygir
og andinn hugsa má,
ó Guð, mjer gjörvalt segir
þín guðdómstign sje há;
allt ber þjer einum vott
þann vott í vorum anda
að verkin þinna handa
sje hvert eitt harla gott.

Almættisorð framsagði
þín elska náðarþyrst,
og ljóssins blæju lagði
á lífsins vöggu fyrst;
þá varð til veröld ný,
allt var með ljóma laugað
og loksins mannsins augað
sem allt sig speglar í.

Hvað sástu sál mín fegra
en sólar morgundýrð?
hvað geislar guðdómlegra
um geiminn, sem í býrð?
Hver heldur himni á
þann mikla vörð á verði
sem veifar ljóssins sverði?
helmyrkrin hrökkva frá.

Hver heldur lopti hollu
svo heimsins líf ei deyr,
en eptir muggu' og mollu
oss miðlast regn og þeyr?
hver dregur dögg af fold
og skammtar ofan aptur
svo öllu veitist kraptur,
ei deyi dýr nje mold?

Sá Guð sem hljóðið heyra
af hristing lopts oss gaf,
svo dýrðarorð í eyra
oss óma jörð og haf

frá lífi, stormi, strönd,
og þrumu hljóðin þungu
og þeirra leiptra tungu
hans votta veldishönd.

Hver hlóð svo hnött með gæðum?
Hver hefir sal þann byggt,
er hverfist laus í hæðum
og hvílist þó svo tryggt?
Hver til bjó tímans leið?
Hver ræður ríkjum, öldum
með rökum þúsundföldum?
Hver skapar öllu skeið?

Hver setti skorður sænum
og sagði læk og ám
að dalagrundum grænum
af gnýpum steypast hám?
Hver skipar hafsins hver:
ei lengra en hingað haltu,
þitt höfuð beygja skaltu,
þín bára brotni hjer.

Hver byggði björgin háu
og bjartan jökultind?
Hver plantar blómstrin bláu
við bunutæra lind?
Hver opnar eldfjalls bust,
það ægi-býlið auða
með ógnum ferlegs dauða,
Ó maður, dupt og dust.

Hver kallar fjöldann fríða
til fjörs úr kaldri mold?
Hver lífgar lífið fríða
og lifandi gjörir fold?
Hver lífgar líka mig
svo þetta kunni kenna
og klökkum huga renna
til þín og biðja þig?

þú Guð, sem öllu gefur
af gæðsku líf og skjól
og orminn annast hefir
allt eins og heimsins sól —
þjer hljómi hrós og dýrð
af láði, lög og eldi
og lifandi manna veldi
um allar aldir skýrð!

(*J. J. Lund.*)

3.

Upp skapað allt í heimi hjer
að heiðra Guð, vorn drottin;
hið minnsta verk hans mikið er,
um mátt hans allt ber vottinn.

þótt kóngar fylgdust allir að
með auð og veldi háu,
þeir megnuðu' ei hið minnsta blað
að mynda' á blómi smáu.

þótt englar helgan hafi krapt
og himinsprota beri,
þeir aldrei duptkorn eitt fá skapt
þótt allir samtök geri.

Jeg grasið undrast minnsta má
um mörk er vex og dali;
hvar fæ jeg orð og þekking þá
um það að rjett jeg tali?

Hvað get jeg sagt, er gæti' jeg að
þeim grúa manna hrærður
er heims um lönd í hverjum stað
af hendi guðs er nærður?

Hvað get jeg sagt, er sjeð jeg fæ
á sumri skrautið fríða
og fugla' er yfir fjöll og sæ
á flugi skjótu líða?

Hvað get jeg sagt, er blíður blær
við blómin leikur hraður
og hver einn fuglinn hörpu slær
á himin-flugi glaður?

Hvað get jeg sagt, er sjónum í
jeg sje af skepnum grúa,
en minnsta partinn þekki af því,
er þar mun niðri búa?

Hvað get jeg sagt, er horfi' jeg hátt
um himin-geiminn víða
og læt um hann í allri átt
mitt auga hrifinn líða?

Hvað get jeg sagt, er sje jeg her
af sólum brautir þræða,
er allar brosa blítt við mjer
og benda sál til hæða.

Hvað get jeg sagt, til uppheims er
minn andi lypt sjer hefur
og engla-skarann skoða fer
er skrúði ljóss umvefur?

Hvað get jeg sagt? ó málið mitt
ei megnar, guð að lýsa,
hve margt er ástar undur þitt,
hve öflug stjórnin vísa.

Þeim drottni, er gjörvalt skapti, skal
hver skepna vegsemd róma;
hans fagurt lof um fjall og dal
og foldar álfur hljóma.

Ó, miklið guð, þjer menn á jörð,
á málum óteljandi,
ó, mikla guð, þú hólpin hjörð
á himna dýrðar-landi.

Guð, einn og þrennur, þakkargjörð
sje þjer og jafnan vari;
vort »hallelúja« hljómi' á jörð,
en himnar »amen« svari.

(*A. H. Brorson. H. H.*)

4.

Guð, nær himinn horfi' jeg á,
er hendur þínar gjörðu,
hvað er maður, hugsa jeg þá,
að hann þú manst á jörðu.

Sólkerfum þú setur rás
sem og ari í geislum
engli skaptir andakrás,
ormi bauðst að veitslum.

Sólir ganga sína leið
sem þú drottinn býður;
gleði og hrygðar skundar skeið
að skipun þinni lýður.

Segul-batt þín-heima hönd,
hörðum skruggum ræður,
ástar hjóna bindur bönd,
börnum tengir mæður.

5.

Óhultar en áin Rín
útí ratar sæinn,
gjörvalt flytur gæðskan þín,
guð, í dýrðar æginn.

(*B. Gunnlögsson.*)



Grænlandshaf.
Ísland
Íshafið
Íslandshaf
Fareyjar
EVROPA
Hjaltland
Finnmörk
Lappland
Varangr
Arkangel
Dvína (Dína)
Síbiría, Svíþjóð hin Kalda
Finnland
Stokkhólmr
Pjetursborg
Moská
Volga
Riga
Dúna
Eystrasalt
Skotland
Edinaborg
Írland
Dyflin
England
Lundúnir
Englandshaf
Norðursjór
Amsterdam
Hamborg
Berlín
Pommern
Varsku
Dresden
Prag
Bæheimr
Galizia
Karpatafjöll
Kiew (Ásgarðr)
Dnípr
Púltava
Bog
Dnjestr
Ungarn
Rúmenía
Dóná
Bosnía
Serbía
Tyrkland
Mikligarður
Svarta haf
Armenía
Ararat
Litla Asía
(Trójuborg)
(Tarsus)
Tigris
Mesopotamía
Efrat
Persia
Sýrland
Líbanon
Kýpr
Jórsalahaf
Krít
Grikklandshaf
Alzír
Túnis
Malta
Sikiley
Messína
Sardinía
Korsika
Genúa
Adríahaf
Alpafjöll
Sviss
Brest
Paris
Rúða
Belgía
Kolni
Mez
Strasborg
Leira
Bordeaux
Pyrenafjöll
Spánski sjór
Portúgal
Lissabon
Madrid
Tajo
Valencia
Barcelóna
Kadix
Granada
Malaga
Njörvasund
Atlants haf
Atlas
(Serkland)
AFRÍKA
Kaspi haf
Astrakan
Kasan
Nischnei Novgorod
Krím
Bajern
Astrakan
VILH. PACHT'S HELIOTYPI

# Þriðji kafli.

## I. Jarðarlýsing.

Jörðin er hnöttótt, og því ekki ólík fuglseggi í lögun, þó með þeim mismun, að jörðin er gildari, eða hærri upp um miðjuna, heldur en til endanna, eða skautanna, og eru þau nokkuð flöt. Vjer skulum allt að einu ímynda oss jörðina einsog egg, og að endar eggsins sjeu heimskautin, en jafnframt hafa í huganum mismun þann, er nú gátum vjer um. Ef vjer kljúfum nú eggið eptir miðju á lángveginn, þá verða úr því tveir jafnir partar, eða klofningar, og þannig eru menn vanir að ímynda sjer jörðina, skipta í tvo stóra klofninga eða helminga, og kalla annan austurhelming; á honum er Evrópa, Asía og Afríka, en hinn vesturhelming; á honum er Ameríka. Með þessu er jörðinni skipt aðeins í tvo parta, hinn austlæga og vestlæga, og má álíta Evrópu einsog norðurpart, en Afríku einsog suðurpart hins austlæga; hin svonefnda fimmta heimsálfa er eintómar eyjar, og liggja þær á báðum helmingunum.

### 1. Evrópa.

Sá partur heims, er vjer byggjum, nefnist Evrópa eða Norðurálfa. Evrópa er minni en Asía, Afríka og Ameríka, og litlu stærri en Ástralía eða Eyjaálfan; en íbúar hennar eru ötulir menn, og ráða yfir meira hluta hinna álfanna. Til þessa eru ýmsar orsakir; sú ein, að löndin eru ekki eins auðug að kostum, og í sumum hinum álfunum; eru því íbúarnir neyddir til að starfa, en starfsemin eykur afl og dug bæði sálar og líkama. Loptslagið er og jafnara þar, hvorki of heitt nje of kalt.

En aðalorsökin er fólgin í hæfilegleikum mannflokks þess, sem þar býr, sem gjörðu þá hæfa til að taka kristna trú, og uppskera hennar blessunarríku ávexti. Evrópa er fyrir norðan Afríku, og er Miðjarðarhafið á milli; en fyrir vestan Asíu, og eru þær áfastar.

Evrópa er 178,630 □ mílur, en fólkstalan er 302,000,000.

Í Evrópu eru þessi ríki: 1. Danmörk; 2. Noregur; 3. Svíþjóð; 4. Bretland hið mikla; 5. þýzkaland; 6. Prússaland; 7. Holland; 8. Belgía; 9. Frakkland; 10. Svissaraland; 11. Austurríki; 12. Spánn; 13. Portúgal; 14. Ítalía; 15. Tyrkjalönd; 16. Grikkland; 17. Rússland.

Danaveldi kalla menn Danmörk sjálfa, með þeim löndum, sem liggja undir Danastjórn, svo sem Ísland, Færeyjar, Grænland, o. fl. Vesturpartur Danmerkur er skagi, sem liggur norður af þýzkalandi, og kallast Jótland; fyrir austan Jótland eru margar eyjar, smáar og stórar, og liggur um sundin milli þeirra vegur allra skipa, er fara inn í Eystrasalt. Hinar stærstu þessara eyja eru: Sjáland, Fjón, Langaland, Láland, Falstur og Borgundarhólmur. Jótland og eyjar þessar er hin eiginlega Danmörk. Landið er frjófsamt og fagurt láglendi; eru sumstaðar hæðir og dalir, sumstaðar hækiskógar og veiðivötn. Ófrjófsamast er landið á heiði þeirri, sem liggur eptir Jótlandi, og nær suður um hertogadæmin. Loptslagið er tempráð; kemur því óáran sjaldan að. Korn, nautpeningur og hestar eru landsins mesti auður; korn er selt í önnur lönd svo skiptir milliónum tunna. Ennfremur eru þar ræktaðir rótarávextir, einkum jarðepli, olíuplöntur, fóðurjurtir og lítið eitt af hör, tóhaki og viðaraldinum. Landið skortir að nokkru leyti húsavið. þjóðin er starfsöm, og er þar fjöldi af verksmiðjum. Danir eru og sjómenn góðir, og eru í ríkinu öllu um fjórar þúsundir skipa. Í landinu er nú aðeins einu háskóli, sem sje Kaupmannahafnarháskólinn; en meðan Holsetaland lá undir Dani, áttu þeir annan í Kílarborg; en lærður skóli er í hverjum kaupstað, og barnaskóli í hverri sókn. Fólkstalan er 1,864,000.

Höfuðborg ríkisins er Kaupmannahöfn; hún er á Sjálandi; þar hefur konúngur aðsetur sitt; þar er og hið æðsta stjórnarráð; þar er höfn ágæt, og margar stórar og fagrar hyggingar; má af þeim einkum nefna hinar fjórar konungshallir, er liggja í kringum torg eitt; á miðju torginu er reist líkneski Friðriks konúngs 5., sitjandi á hesti, steypt úr eyri; þá er höllin Kristjánsborg, hallarkirkjan, Rósenborg, þar sem geymdar eru kórónur og veldissprotar Danakonúnga; svo og ráðhúsið, háskólinn, o. s. frv. Í borginni búa nálægt 182 þúsundir manna.

Til Danmerkur teljast lönd þessi í Norðurálfu: Ísland og Færeyjar, og í Vesturálfu Grænland, og þrjár smáeyjar í Vesturindíum.

Færeyjar eru 25 eyjar, og eru 17 þeirra byggðar. Eyjar þessar eru í Norðurhafinu, 50 mílur norður undan Skotlandi, og 90 mílur fyrir vestan Noreg. Á öllum eyjum þessum eru standklettar með sjó fram. Jarðvegurinn er frjófsamur, og eru þar beitilönd góð. Hinar helztu verzlunarvörur Færeyinga eru: skinn, tólg, fiskur, lýsi, fiður og steinkol. Á eyjum þessum lifa nálægt 8000 manna, og er eyjunum skipt í 6 sýslur og 7 prestaköll; en í hverju prestakalli eru 5—7 kirkjur.

Grænland er, einsog áður er sagt, í Ameríku, vestur undan Íslandi, og er vegalengdin þar á milli 60—100 mílur. Davíðssund og Baffínsflói greina sundur Grænland og meginland Ameríku. Að eins suðurströnd lands þessa er kunn; meginlandið er þakið sífelldum snæ og jökli, og hafið í kringum það er fullt af ísi, nema fáa mánuði af sumrinu. Íbúar Grænlands eru 7000 að tölu; búa þeir um sumur í skinntjöldum, en um vetur í kofum, sem þeir hrófa upp úr mold og grjóti. Kjöt af hreindýrum, selum og hvölum er viðurværi Grænlendinga; stundum eta þeir einnig hunda og hvítabirni. Grasið sprettur þar mjög fljótt, og er fagurgrænt; mun landið þessvegna hafa verið kallað Grænland; hafið umhverfis er einnig grænt, og er þar mikið af hvalfiskum. Tamin dýr eru þar engi, nema hundar; liggja þeir úti allan veturinn, og grafa sig í fönn. Þeir eru vandir á að draga sleða. Verzlunarvörur Grænlendinga eru: selaskinn; hreinbjálfar, refa- og bjarndýra-skinn, lýsi, æðardún, náhvalatennur, o. s. frv. Stjórn Dana hefur sent þangað presta, og hafa nú flestir Grænlendinga tekið kristna trú, en menntan er þar allt að einu engin, að kalla má.

Ísland skulum vjer hugleiða síðar.

Ef vjer förum nú í norður frá Danmörku yfir Jótlandshaf, þá komum vjer til Noregs. Land það er aflangt, og liggur, að kalla má, í norður og suður. Svíakonungur er nú konungur yfir Noregi, en um 400 ár höfðu Danakonungar það til umráða. Í Noregi eru fjöll mikil, og eru mörg þeirra jökulfjöll, og má heita að landið allt sje eintómur fjallaklasi. Dofrafjöll liggja yfir landið þvínær þvert. Undirlendið að norðanverðu við þau er að eins rönd ein, en sunnantil við þau er það breiðara. Hinn hærsti tindur á Dofrafjöllum er Snæhettan (7500 fet), og á Löngufjöllum, er liggja í suður frá Dofrafjöllum, Skagastólstindur (7850 fet). Milli fjallanna eru breiðir og grösugir dalir; renna um þá ár margar, er spretta upp í jöklunum. Landið er betur fallið til kvikfjárræktar en kornyrkju; má þó opt fóðra fjenað á berki,

þangi, kvistum, mosa, beinum og þvílíku. — Hin lægri fjöll eru vaxin stórum barrviðar- og birki-skógum, og lifir þar fjöldi villidýra; í fjöllunum eru málmar, einkum kopar, og gnægð af járni. Veiði er bæði í Norðurhafinu, sem er fyrir vestan landið, í hinum mörgu fjörðum landsins, og í ám og stöðuvötnum. Hinir helztu atvinnuvegir Norðmanna eru: verzlan, einkum timburverzlan, málmnám, glergjörð, kvikfjárrækt, fiskveiði og dýraveiði. Hið mesta járnnám er við Fritsey, og hið mesta koparnám við Reyrás. Norðmenn eru í hinum mesta uppgangi í öllu. Stærð landsins er hjerumbil 6000 □ mílur; fólkstala rúm 1½ millíón.

Höfuðstaður landsins er Kristjanía, en hinn merkasti verzlunarstaður á vesturströndinni er Björgvin. Norður í þrándheims stifti er hinn gamli staður Niðarós; þar er dómkirkja mikil og fræg. Norðmenn hafa sama bókmál og Danir, en munnmálið líkist meira íslenzku.

Svíþjóð er fyrir austan Danmörk og Noreg; liggja lönd Noregs og Svíþjóðar saman í norður og suðurátt, en milli Svíþjóðar og Danmerkur er Jótlandshaf og Eyrarsund. Stærð Svíþjóðar er 8023 □ mílur, og fólkstala rúmar 4 millíónir. Allur norðurhluti Svíþjóðar er líkur Noregi; þó eru fjöllin lægri, en stöðuvötnin stærri. Suðurhluti Svíþjóðar er flatlendari og líkur Danmörk; þar er vel fallið til kornyrkju.

Atvinnuvegir Svía eru nærfellt hinir sömu og Norðmanna, nema hvað fjárræktin er minni. Í Svíþjóð fæst hið bezta járn sem til er. þar er og unnið ágætt ljerept. Höfuðstaður landsins er Stokkhólmur; þar hefur konúngurinn aðsetur sitt; íbúar eru um 150 þús. Gautaborg er verzlunarstaður mikill við Jótlandshaf; nálægt borg þessari er foss mikill, sem heitir Tröllhetta. Lengra í norður eru Uppsalir; þar er göfug dómkirkja; þar í grennd er og Dannemora, hið bezta járnnám í Svíþjóð. Svíar, Norðmenn og Danir eru skyldir oss Íslendingum; á fyrri öldum var um tíma einn konúngur yfir þessum 3mur ríkjum.

Ef vjer förum nú í vesturátt yfir Englandshaf (svo kallast haf það, sem er milli Englands, Hallands, þýzkalands, Danmerkur og Noregs), þá komum vjer að eyju einni mikilli, sem kallast Bretland hið mikla (eða England og Skotland), og þar fyrir vestan er önnur eyja, konungsríkið Írland. Yfir öllum þessum löndum ræður einn konungur; stærð þeirra er ekki fullar 6000 □ mílur, en fólkstala er 32 millíónir. Sjeu einnig taldar með hinar miklu eignir í öðrum heimsálfum, þá er ríki þetta hið voldugasta, auðugasta og fjölbyggðasta í heiminum. Fólkstala alls ríkisins er 203 mill.

Jarðvegurinn er frjófsamt akurlendi, móar, mómýrar og nokkur fjalllendi; en jörðin er ágætlega ræktuð og notuð. Kornyrkja er þar mikil, einkum bygg og hveiti; afarfjöldi er þar af ágætum hestum, nautum og sauðpeningi. Eftir það mjög fjárræktina, að búfje getur gengið þar úti, að kalla má, allan veturinn. Auk þessa eru þar ræktaðar allar þær jurtir og trje, sem geta þróast undir því himinbelti; eigi gefur landið svo mikið korn af sjer, að nægi handa hinum mörgu íbúum þess, og er því talsvert korn flutt þangað að á ári hverju frá öðrum löndum. Skógar eru þar ekki miklir. Fjöllin eru auðug af málmum, einkum járni, eyri, blýi og tini; salt er þar ágætt og ógrynni steinkola, sem brennt er í eldstóm, ofnum og gufuvjelum, sem nú tíðkast hvervetna í ríki þessu. Mikið af kolum er selt í önnur lönd; yfir 1000 skip gjöra ekki annað en flytja kol úr einni borg, sem heitir Nýkastali (Newcastle). Bretar gjöra, eins og Frakkar og Hollendingar, út fjölda skipa á ári hverju; eru á skipum þessum um 2000 ljettapiltar, auk annara sjómanna. Á hvalaveiðar fara yfir 100 skip, og á síldarveiðar mörg hundruð.

Verksmiðjur, iðnaður, sigling og kaupverzlan hafa náð meiri fullkomnan á Englandi, en í nokkru öðru landi. Jafnvel hin algengustu verk, t. a. m. ölgjörð, plæging, þvottur, o. s. frv., hafa náð þeirri fullkomnan sem sýnir, hve langt menn komast með þekkingu og ástundan. Kaupskip Breta fara um öll höf, hlaðin hinum nytsamasta og dýrasta varningi. Meðal hinna mörgu hluta, sem Bretar gjöra með hagleik miklum, og selja öllum þjóðum heimsins með ærnum ábata, má einkum nefna allskonar ullar- viðarullar- og leður-varning, allskonar járn- stál- silfur- gull- og kopar-smíði; allskonar gripi úr steini, postulíni, gleri og trje, og allskonar nytsöm verkfæri. Með lofsverðum kappsmunum hafa Bretar fundið upp allskonar vjelar til að tilbúa hluti þessa með, og spara þeir sjer þannig bæði tíma og verkamenn, sem þá aptur fá tíma til að starfa að öðrum nytsömum verkum. Yfir 100 skurðir, færir hafskipum, eru grafnir um landið; (á einum stað sigla menn t. a. m. heila klukkustund ígegnum krítarfjall; á öðrum stað undir borg, sem heitir Islington, og á þriðja staðnum eptir múraðri rennu, sem er 38 fet fyrir ofan jörðina. Járnbrautir eru og víða um landið; sú, sem liggur frá Lundúnum til Greenwich er yfir húsunum einsog brú yfir vatni, og húsþökin eru fyrir neðan eins og öldur á hafi. Með þessu móti má fara á skipum og gufuvögnum þvínær um allt landið fram og aptur.

Fyrir rúmum 80 árum var aðeins hálf áttunda millión manna á Englandi sjálfu, en á þessu tímabili hafa akuryrkja, kvikfjárrækt og allskonar íþróttir tekið þeim framförum, að nú framfleytir

landið meir en helmingi fleiri íbúum. Eigi er samt alsæla í landi þessu, fremur en öðrum; ungbörn eru notuð til vinnu í verksmiðjunum; læra þau þar engan hlut, er þau þurfa á að halda, þegar þau fara þaðan. Stjórnin er hirðulítil um menntan alþýðu, og þar eru engir alþýðuskólar, aðrir en þeir, sem einstakir menn með samtökum hafa stofnað. Vegna þessa eru fleiri fáfróðir, spilltir og fátækir menn í landi þessu, en í nokkru öðru, og fátækratillög eru þar ákaflega mikil. Í Skotlandi er betur ástatt með þetta, en Írland er í öllu eptirbátur.

Höfuðstaður Englands, Lundúnaborg, er hin stærsta borg í Evrópu; fólkstala er þar eins mikil og í sumum konúngsríkjum; er hún nú yfir 3 milliónir. Vegurinn umhverfis borgina er nærfellt 3 þingmannaleiðir, og fara póstar um hana eins og annarstaðar milli borga og hjeraða. En þar eru líka fleiri spilltir menn og aumingjar, en í nokkurri annari borg í Evrópu. Mönnum hefur talizt svo til, að um 30,000 manna vakni svo þar að morgni, að þeir ekki viti, við hvað þeir eigi að lifa þann og þann daginn. Lundúnaborg er hinn mesti verzlunarstaður í heiminum, og eiga þar heima mjög mörg skip. Næstur bær Lundúnum að stærð er Liverpool; þar eiga heima mörg skip; eigi all langt þaðan er Manchester; sá er mestur handiðnastaður á Englandi. Á milli þessara borga er járnbraut mikil; má fara eptir henni 7 mílur vegar á hálfri annari klukkustund í gufuvögnum. Liggur braut þessi hjá höfninni í Liverpool niður í jörðina, svo undir borginni Liverpool, þá um sljettlendi eitt, þá um mýrar, þá gegnum hæðir, og eru víða brýr yfir brautinni. Birmingham og Sheffield eru mestir verksmiðjustaðir á Englandi; í Leeds er mestur ullarvefnaður. Dublin er höfuðborg Írlands, og Edinborg heitir höfuðborgin í Skotlandi.

Fyrir norðan Bretland hið mikla eru Orkneyjar og Hjaltland.

Fyrir sunnan Danmörk og Eystrasalt er Þýzkaland eða Þjóðverjaland. Það liggur hjerum bil í miðri Evrópu, og er það mikið land og vel yrkt. Á fyrri öldum var land þetta eitt ríki, en nú er það skipt í mörg smá ríki, sem þó að nafninu eru í sambandi sín í millum. Stærð lands þessa er hjer um bil 10,000 □ mílur, og íbúar hjer um 41 millíón. Prússakeisari hefir land þetta til umráða. Auk Prússlands eru þar þessi konúngsríki: Hannóver, Saxland, Vurtemberg og Bæjaraland, og þaraðauki mörg hertogadæmi og smáríki.

Að landslagi til er norðurhluti Þjóðverjalands líkur Danmörku, nema að því leyti, að skógarnir í Þjóðverjalandi eru furuskógar. Miðbik og suðurhluti landsins er að miklu leyti fjallendi; þessvegna koma hinar miklu ár upp sunnarlega, og renna

í norður; Rín, Veserfljótið og Saxelfur renna í Englandshaf, en Oderá í Eystrasalt. Á þjóðverjalandi vaxa ávextir norðurlanda, og einnig nokkrir suðrænir ávextir, svo sem vínviður. Í fjöllunum eru víða ölkeldur, og allskonar málmar. Gnógt er af salti og saltpjetri í landinu. Sauðfjárrækt er mest á Saxlandi; í Westfalen er mikil svínarækt; hestar eru ágætir í Mecklenborg. þjóðverjar eru vel búnir allskonar íþróttum; er þar mikið smíðað af vopnum og smágripum úr málmi og postulíni, unnin ljerept og klæði, o. s. frv. Iðni og sparsemi er víða hin mesta unan alþýðu. þjóðverjar eru málmnámamenn miklir; þeir eru og miklir vísindamenn, og semja þeir fjölda af bókum í öllum vísindagreinum. það var og hjá þjóðverjum, að prentlistin var uppfundin.

Hinar mörgu ár, sem renna gegnum landið, greiða fyrir kaupverzlaninni; áin Rín er þeirra merkilegust; landið beggja vegna við á þessa er eitt af hinum fegurstu og auðugustu löndum í Evrópu. Um þjóðverjaland renna samtals hjerumbil 500 ár, og eru 60 skipgengar. Víða eru þar langar járnbrautir, og fjölga þær á ári hverju. Meðal helztu kaupstaða má telja: Hamborg, sú borg liggur við Saxelfi, eigi langt frá mynni hennar, og má hana telja meðal helztu verzlunarstaða í heimi; Lýbika við Eystrasalt; Brimar, við ána Veser; þar er verzlan, einkum með tóbak; Leipzig; þar eru á ári hverju haldnar þrjár miklar kaupstefnur; sækja þangað menn úr fjarlægum löndum, jafnvel úr Asíu og Ameríku. I Leipzig er mikil bókaverzlan.

Prússaveldi er mikið land í norðurhluta þjóðverjalands, og svo hið eiginlega Prússland, sem er sendið strandlendi við Eystrasalt, sunnanvert. Berlín er þar höfuðstaðurinn; þar eru margar verksmiðjur og verzlan mikil. Ibúar eru þar 830,000.

Við Eystrasalt eru þessar borgir merkastar: Stralsund, Stettín, Danzig, Elbing, Königsberg og Memel. þaðan er einkum flutt korn og timbur. Í hjeraðinu Slesíu er mikið unnið af góðum ljereptum; þar eru einnig málmnámar miklir. Víða um landið eru verksmiðjur miklar. Prússar eru starfsamir menn og menntaðir vel; háskólar þar eru hinir ágætustu í öllum vísindagreinum. Á hinum síðastliðnu árum hafa Prússar aukið mjög veldi sitt í Norður-þýzkalandi.

Í austurátt frá suðurhluta Englands, en fyrir vestan norðurhluta þjóðverjalands er Holland eða Niðurlönd. Niðurlönd er landið kallað af því að það er niðursokkið og mýrlent flatlendi, þvínær grjótlaust; var nokkur hluti þess áður sjáfarbotn, og verður að viðhalda flóðgörðum með ærnum kostnaði til að verja landið ágangi hafsins. Stundum fer þó sjórinn yfir; árið 1421 gróf sjórinn flóa inn í landið; eyddust þá 72 þorp, og

100,000 manna fórust. Sumstaðar eru heiðar og flæðilönd. Landið er ágætlega vel yrkt; mýrarnar eru þurkaðar upp, einkum með skurðum, og gjörðar að bezta beitilandi, en heiðar að kornökrum; allt er notað sem bezt má verða, enda er velmegan þar mikil, og fólksfjöldi ærinn á svo litlu landi. Stærð landsins er 596 □ mílur, en fólkstala því nær 4 milliónir.

Um landið eru grafin mjög mörg síki, og eru þau meðfram hinir eiginlegu vegir í landinu; er farið eptir þeim á bátum, en báta þessa draga hestar, er ganga á síkisbökkunum. Beggja vegna við síkin eru forsæluvegir (þar sem sín eikaröð er gróðursett á hvora hlið), ekrur, bæir og skemmtistaðir. Þar er skortur mikill á góðu neyzluvatni, og svo er þar rakasamt, að varla er unnt að verja nokkurn hlut fúa. Á síkjabökkunum eru garðar, til að verja landið umhverfis vatna ágangi. Hefur hver tiltekinn garðpart, sem hann á að sjá um, og er skyldur til að endurbæta, nær sem nokkuð verður að. Hollendingar stunda mjög kvikfjárrækt, og selja mikið af góðu smjöri og ostum: einnig rækta þeir mikið af aldinum og blómum; þeir bleikja ljerept, búa til pappír og spinna tvinna. Einnig stunda þeir mjög fiskiveiðar og kaupverzlan, og eiga eignir miklar í öðrum heimsálfum, einkum Asíu. Skógar eru því nær engir í landinu; neyðast því Hollendingar til að kaupa timbur aðflutt úr öðrum löndum, og í sumum árum einnig korn.

Hinir helztu bæir eru: Amsterdam; húsin í bæ þessum eru byggð á staurum, sem reknir eru niður í veituna, því borgin stendur á mýrlendi; þannig eru einnig fleiri borgir byggðar í Hollandi; bær þessi er einn af hinum mestu verzlunarstöðum í heimi; þá er og Rotterdam mikill verzlunarstaður. Í norður frá Amsterdam er hið stærsta síki í Hollandi; það er 120 fet á breidd, 22 fet á dýpt og 12 mílur á lengd. Haag heitir aðseturstaður konúngsins.

Fyrir sunnan Holland og vestan miðbik Þjóðverjalands er konúngsríkið Belgía; það er lítið land, en fjölmennt, og ágætlega yrkt; þar eru bæði fjöll og sljettlendi, og gnægð er þar málma og steinkola. Þjóðin er glaðlynd og starfsöm, borgirnar fagrar og rammbygðar, þorpin skrautleg, stór og auðug; landið allt er einn aldingarður. Í Belgíu er mikill fjöldi af gufuvjelum, er vinna að allskonar iðnaði. Bryssel heitir höfuðstaður landsins; þar er hið nafntogaða, fagra ráðhús. Belgía er 535 □ mílur, en fólkið 5 milliónir.

Fyrir sunnan Belgíu, en vestan Þjóðverjaland, er hið mikla lýðveldi, Frakkland; stærð þess er 10,000 □ mílur. Takmörk þess eru: að norðan sundið milli Englands og Frakklands, og Belgía; að vestan Atlantshafið; að sunnan Spánn og Miðjarðar-

hafið. Landið er frjófsamt, og lifa í því yfir 36 millíónir manna· París er höfuðstaðurinn, og hin stærsta borg í Evrópu, næst Lundúnaborg; fólkstala er þar um 2 millíónir. Þar eru margar miklar hallir og skrautbyggingar, en einnig miklir lestir og ósiðir, og margar þúsundir ölmusumanna. Stórar ár renna um landið, og margar hinar smærri eru skipgengar; þar eru einnig mörg hundruð síki grafin með ærnum kostnaði. Má því flytja varning á skipum um meginhluta landsins. Járnbrautir eru þar afarmargar, og fjölga óðum. Áin Leira (Loire) skiptir landinu í suður- og norður-Frakkland; í suðurhlutanum vaxa suðræn aldini. Af sjóborgum í Frakklandi eru þessar merkastar: Rúða (Rouen) og Havre de Grace við Englandssund; Nantes og Bordeaux við Atlantshafið, og Marselja við Miðjarðarhafið. Nærfellt í miðju landinu liggur borgin Lyon; þar eru geysimiklar handiðnir. Hið helzta, er landið gefur af sjer, er þetta: vín ($^1/_{25}$ partur landsins er plautaður vínviði), viðsmjör, viðaraldini, silki, salt og málmar. Þar er unninn allskonar silkivarningur, klæði, úr, sápa, postulín, pappír, allskonar skraut- og óhófs-varningur. Kaupverzlan Frakka er því mikil. Frakkar senda einnig á fiskveiðar nokkur hundruð skipa, einkum til Íslands. Af hestum, nautpeningi og sauðfje er ekki nægilegt til í landinu, eigi heldur af skógum. Í landinu eru úlfar og birnir. Frakkar eru fjörmenn miklir, og hefur tunga þeirra og siðir útbreiðst víða um heim. Alþýða er þar lítt menntuð; valda því meðfram katólskir siðir, og hefur til skamms tíma nærfellt helmingur alþýðu verið ólæs.

Hin himingnæfandi Alpafjöll liggja um miðbik Evrópu. Hinn hærsti tindur á fjöllum þessum er Mont-Blanc, hærst fjalla í Evrópu (14,764 fet). Yfir fjöll þessi eru lagðir vegir suður á Ítalíu. Hinn fegursta og stórkostlegasta veg yfir þau lagði Napoleon hinn mikli, þegar hann rjeði löndum þessum; liggur vegur sá yfir fjallið Simplon, en það er 10,000 feta hátt. Yfir 200 ógurlega djúpar gjár eru brúaðar, og víða liggur vegurinn gegnum standbjörg. Nú eru Frakkar og Ítalir í sameiningu nýbúnir að grafa göng í gegnum Alpafjöllin (gegnum fjallið Mont Cenis), eru þau göng hálf önnur míla að vegalengd; eptir þeim liggur járnbraut, og geta menn nú ekið á gufuvögnum ígegnum Alpafjöllin, og undir þeim. Þetta er eitt af hinum mestu mannvirkjum í heimi, og hefur verið til þess kostað ógrynni fjár. Víða á Alpafjöllum eru klaustur; búa þar múnkar, sem eru skyldir til að taka móti ferðamönnum, og veita þeim beina; og á fjallinu St. Bernhard eru hundar hafðir til að leita uppi ferðamenn, sem villst hafa; um háls hundunum er fest bjalla, og flaska, sem er í hressandi drykkur.

Vestantil í Alpafjöllum, austanvert við Frakkland, er hið

fagra Svissaraland; eru það mörg smá bandaríki, sem öll eru í sambandi sín í milli. Fjöllin þar eru þakin jökli, og undan jöklunum hafa hinar stærstu ár upptök, t. a. m. áin Rín, sem rennur eptir þjóðverjalandi, og áin Rhone, sem rennur ígegnum Frakkland. Í giljunum eru margir fossar; sumir þeirra eru um 1000 feta háir. Úr fjöllunum falla opt skriður og snjóflóð. Árið 1806 fjell skriða, sem var 1000 fet á breidd, og 100 fet á þykkt; undir skriðu þessari urðu 4 þorp og 400 manna. Dalirnir milli fjalla þessara eru fagrir, og víða eru stór og fögur veiðivötn. Á Alpafjöllunum eru haggæði fyrir húsmala; þar gengur hið orðlagða Svissarafje. En Svissarar eru eru ekki einúngis hirðarar á Alpafjöllum; þeir eru einnig starfsamir iðnaðarmenn. Í Genf og Neufchatel er tilbúinn fjöldi mikill af úrum á ári hverju. Í Svissaralandi vex eigi mikið korn; skógar eru þar talsverðir, en engir málmnámar. Í sumum hjeruðum það er ekkert af brauði haft til matar, heldur eintómur ostur og mjólkurmatur. Flestir Svissarar eru þjóðverskir, nokkrir frakkneskir, eða þá ítalskir. Stærð landsins er 752 □ mílur, en fólkstalan því nær 3 milljónir.

Austantil í Alpafjöllum og fyrir austan og norðan þau er hið mikla keisaradæmi Austurríki; stærð þess er um 12000 □ mílur og fólkstala alls um 36 milljónir. Ríkið allt samanstendur af 3mur pörtum, sem eru: 1) Austurríkislönd og Bæheimur, í landsuðurhluta þjóðverjalands; höfuðstaðurinn er Wien eða Vínarborg; íbúar eru þar yfir 800 þúsundir; Tríest er verzlunarborg mikil við Miðjarðarhaf; í Dónár-dalnum er borgin Linz; þar er talsverður ullarvefnaður. Lönd þessi eru fjöllótt, og auðug af málmum, salti, skógum, víni, allskonar korni og aldinum. Jafnvel Englendingar kaupa járn úr námunum í Steiermark. Verksmiðjur og handiðnir eru þar miklar, og er þaðan seldur til annara landa klæðis-trje-smíðis-stál og járn-varningur, ennfremur ljerept, glergripir o. fl., allt að gæðum eigi síður en frá Englandi og Frakklandi. Austurríkismenn eru glaðlyndir og góðlátlegir. Vestasti hluti landsins heitir Tyrol, í miðjum Alpafjöllum; þar er margt mjög líkt og á Svissaralandi. 2) Konungsríkið Galizía, fyrir austan Austurríkislönd; það er skógland og kornland gott, en illa yrkt, því bændur þar eru latir. Í landi þessu eru saltnámar miklir. Námarnir eru orðnir svo stórir um sig, að niðri í þeim eru byggðir samkomusalir, geymsluhús, hesthús, kirkja, o. s. fr. Þegar blysin loga þar niðri, blika veggirnir í námunum með ýmsum litum. Ofan í námana liggur stigi með 1000 höptum; þaraðauk eru op mörg, sem dregið er upp um hvað sem við þarf. 3) er konungsríkið Ungarn, fyrir sunnan Galizíu. Það er að náttúrunni til eitt hið auðugasta land í Evrópu. Land þetta skortir ekkert það, er önnur lönd geta af

sjer; þar er gnægð af búfjenaði, korni, víni, tóbaki, og allskonar málmum. En alþýða er þar ennþá lítt menntuð, því hún hefur þolað ánauð mikla. það eru því einkum hinir mörgu þjóðverjar, sem í landinu búa, sem stunda náma og handiðnir. Hin helzta borg þar heitir Pest; íbúar yfir 200 þús.

Austurríki rekur mikla verzlan á landi við margar þjóðir. Dóná, sem er 400 mílur á lengd, rennur um Austurríki og Ungaraland.

Takmörk Frakklands að sunnan eru Pyrenæafjöll; er það skógi vaxinn fjallgarður, 50 mílur á lengd. Fyrir sunnan Pyrenæafjöll er ferhyrndur skagi; þar eru konungsríki 2, Spánn og Portúgal, og er Portúgal vestar. Lönd þessi hefur guð útbúið hinum beztu kostum, en íbúarnir nota þá ekki; trúin er katólsk, og mjög hjátrúarblendin; þjóðin hefur átt illa höfðingja, og er því fátæk og fákæn. Margar borgir úa af ölmusumönnum, og ræningjasveitir eru í mörgum hjeruðum. Fjöldi þorpa er í eyði. Á seinni tímum virðast landsmenn vera farnir að þekkja lægingu sína, og hafa löngun til að taka sjer fram, en dramb Spánverja og leti Portúgalsmanna er því til tálmunar.

Hið helzta, er landið getur af sjer, er vín, viðsmjör, og suðræn aldini (sítrónur, appelsínur, kastaníur, fíkjur o. s. fr.). Sunnantil á Spáni vex viðarull og sykurtrje. Ennfremur er á Spáni mikil gnægð af málmum, nokkuð af hrísgrjónum og silki, sauðfjenaður er mikill á Spáni, og einkar ullargóður. Ullina selja Spánverjar Englendingum, og kaupa af þeim aptur klæði úr henni við miklu verði.

Í miðju landinu liggur Madríd, sem er höfuðborg landsins; íbúar eru 332 þús. Merkilegar sjáfarborgir eru: Kadix við Atlantshaf; Malaga, Alikante og Barsellóna við Miðjarðarhaf. Stærð Spánar er 9,208 □ m. en fólkst. 16,500,000.

Í Portúgal er Lissabon höfuðstaður; sá bær stendur við ána Tajo. Í borg þessari fæst ekkert neyzluvatn, nema það, sem veitt er inn í hana um langan veg ($1\frac{1}{2}$ mílu); er vatninu veitt sumstaðar niðri í jörðunni, en sumstaðar í rennum hátt yfir jörðu; á einum stað eru rennurnar 230 fet fyrir ofan jafnsljettu. Stærð Portúgals er 1,684 □ mílur, en fólkstalan um 5 millíónir.

Lönd þessi eru stór, en þar eru fáir íbúar, því starfsemi er auður og sæla ríkjanna, einsog hinna einstöku manna. En Spánverjar og Portúgalsmenn eru latir og birðulausir. Tveir þriðjungar Portúgals eru óyrktir, og er þó jarðvegurinn frjófsamur, og loptslagið svo hlýtt, að ekki þarf þar ofna að kinda, og glerrúður í gluggum hafa aðeins auðmenn. þjófar eru þar algengir, og ræningjar byggja stóra kastala, og ræna og drepa þegar þeir sjá sjer færi.

Fyrir sunnan Alpafjöll er Ítalía eða Valland, hið fegursta land í Evrópu. Það er skagi langur útí Miðjarðarhaf; er þar sólarhiti mikill og jarðvegur frjófsamur, og gefur landið af sjer mikla gnægð af hinum sömu ávaxtartegundum, og Spánn. En í landi þessu eru eiturkvikindi mörg, sem angra mjög útlenda ferðamenn, er jafnan streyma um landið. Víða er loptið óheilnæmt af gufu þeirri, er leggur uppúr fenjum og stöðuvötnum. Tamin dýr eru þar eins og á Spáni, geitfje og asnar. Þar er hinn hvíti, fagri marmari, enda er mikið af marmaramyndum, fornum og nýjum, málverkum, listaverkum, skrautbyggingum, o. s. frv., í landi þessu. Þar er tilbúið silkiflos, stráhattar, hljóðfæri, o. fl. Eptir miðju landinu endilöngu liggja Apennínafjöll frá norðri til suðurs; sunnantil í þeim miðjum er eldfjallið Vesúvíus; þá er og á Sikiley eldfjallið Etna; hún er 10,000 fet á hæð, og að neðan 20 mílur ummáls. Við rætur hennar er jarðvegurinn afar frjófsamur. Nokkuð uppeptir bliðum hennar vaxa aldini og vínber, hveiti, eikar- og bæki-skógar; en þegar hærra uppeptir henni dregur, er ekki annað að sjá en hraun, ösku, og standkletta. Efst á fjallinu eru op mörg, sigilmynduð; eitt þeirra er mest, og gýs jafnan úr því reykur og logi.

Í landi þessu er eiu þjóð og eitt tungumál, og nú er það orðið eitt ríki. Þjóðin er starfsamari en Spánverjar og Portúgalsmenn, en allt um það gengur fákænska og hjátrú fjöllum hærra, einkum í kringum páfann. Siðferði er ekki gott, og páfans eigin landi, kirkjuríkinu, veita ræningjar opt þungar búsifjar. Helztu sjóborgir á vesturströndinni eru: Genúa, Livorno, og og Neapel, og á Sikiley er Messína; þar geta legið á höfninni 1000 skip í einu. Upp í landinu er hin fagra borg Florens, og hin fræga gamla Rómaborg, þar sem konungur og páfinn hafa aðsetur. Höll páfans heitir Vatikanið. Í Vatikaninu eru 12,000 herbergi; þar nálægt er hin mikla Pjeturskirkja, hin stærsta kirkja heimsins; páfinn messar stundum sjálfur í henni. Á austurströnd Italíu er Venedig (Feneyjar), gömul og nafnfræg borg, byggð á smáhólmum, er liggja skamt frá landi, og er farið mest á bátum á milli húsanna.

Fyrir sunnan Italíu er eyjan Malta; íbúar hennar flytja mold úr Sikiley til að þekja með hina beru kletta eyjarinnar, og nú eru þeir farnir að rækta þar viðarull, vínvið, sykurreyr, blóm o. fl.

Fyrir sunnan Ungaraland eru Tyrkjalönd; keisarinn þar er kallaður Soldán. Landið er frjófsamt og hlýtt, og vaxa þar allir hinir sömu ávextir, sem á Spáni, og eru þar meiri nægtir af sumum, t. a. m. viðarull og silki; en þar er ónýt stjórn og þjóðin er ómenntuð, er því landið mjög illa yrkt. Í nokkrum

borgum taka þó Tyrkir öðrum fram í einstökum greinum, svo sem vopnasmíði. Kaupverzlan er í höndum annara þjóða. Hrísgrjón eru þar algengur matur, og þó enn algengara hið svonefnda tyrkneska hveiti. Hinn forni Mikligarður, sem nú heitir Konstantínópel eða Stambúl, er höfuðstaður ríkisins; borgin liggur við sund það, sem er milli Asíu og Evrópu, og er þar mjög fagurt. Íbúar eru þar rúm 1 millión. Stærð Tyrkjaveldis er 9,370 □ mílur, en fólkstalan yfir 16 milliónir.

Fyrir sunnan Tyrkjalönd er konungsríkið Grikkland; telst til þess bæði skagi einn suður af Tyrkjalöndum, er liggur út í Miðjarðarhaf, og margar smá eyjar. Land þetta var lengi undir umráðum Tyrkja, en brauzt undan ánauð þeirra um 1830. Aþenuborg, er í fornöld var hin frægasta, er nú höfuðstaður ríkisins. Nokkrar milliónir Grikkja búa enn í Tyrkjalöndum. Stærð landsins er 910 □ m. en íbúar 1 ½ millión.

Fyrir austan Svíþjóð, Eystrasalt, Prússland og Austurríki er hið mikla keisaradæmi Rússland; er það að stærð því nær helmingur Evrópu. Volga, hin stærsta á í Evrópu, hjerumbil 500 mílur á lengd, rennur úr norðri til suðurs um Rússland og þaðan inn í Asíu. Af því að landið er svo afarstórt, er loptslagið ýmislegt. Norðarlega er kuldi mikill, meiri en hjer á Íslandi; helzta atvinna manna þar er dýraveiði og fiskiveiðar. Syðst í Rússlandi vaxa allskonar suðræn aldini, vínber, hrísgrjón, viðarull, og úlfaldar eru þar algengir, þó er meiri hluti landsins óyrkt sljettlendi. En miðhluti Rússlands er frjófsamt og gott kornland, þar er einnig nægð af fjenaði, skógum og málmum.

Úr Rússlandi er selt í önnur lönd: korn, hör, hampur, siglutrje og húsaviður; ennfremur trjesmíði, pottaska, tjara, segldúkur og ljerept; tólg (yfir millión vætta), leður, húðir, feldir, vax, sundmagalím, járn, eyr, o. fl. Kaupverzlunina eflir mjög kaupstefnan í Nischneinowgorod. Meðan kaupstefnan stendur yfir, er fólkstalan í borginni þrefalt meiri en ella; þar eru um 5000 verzlunarbúðir. Af þeim eru margar mjög skrautlegar (sumar þeirra eru svalir, er hvíla á járnsúlum, sumar á ekki færri en 8000); auk þeirra eru 60 raðir af óæðri búðum, og í hverri röð er að eins ein varningstegund; í einni t. a. m. aldini, í annari sápa, í þriðju pappír, í fjórðu klútar, í fimtu gler, í sjöttu húfur, í sjöundu hattar, í áttundu læknisdómar o. s. frv. Þessi nafnfræga kaupstefna er haldin í ágústmánuði.

En þegar á allt er litið, er landið illa yrkt, og veldur því mest ánauð sú, sem bændur eru í. Landsdrottnarnir ákveða, hverir bænda skulu ganga í herþjónustu, láta þá taka sjer kvonfang eptir sinni vild, láta þá af einum garði á annan, hafa jafn-

vel kaup í þeim og selja þá og leggja á þá hegningn og skatta eptir hugþótta sínnm. Þó er þessu að miklu afljett á hinum síðustu árum.

Hin skrantlega Pjetursborg er hinn nýi höfuðstaður keisaradæmisins; hún liggur við Nevafljótið þar sem það rennur í Eystrasalt; veturinn varir þar í 8 mánuði, íbúar eru 667 þús. Ríga er kaupstaður við Eystrasalt; þar er verzlnn með korn. Hinn forni höfuðstaðnr landsins, Moskwa, liggur á miðbiki landsins; þar búa hinir auðugnstu herramenn og kaupmenn. Archangel er verzlunarborg við Hvítahafið (Gandvík) Odessa er mikill verzlunarstaður við Svartahafið. Astrachan er bær nálægt ósunnm á Volga; þar er kanpverzlun mikil og stunda fiskiveiði í árósnum um 30,000 manna; þar er afarmikil selaveiði. Stærð Rússlands er 96,856 □ m. en fólkst. 71 millíón.

Rússakeisari á ennfremur konungsríkið Pólenaland. Höfnðstaður þar er Warschau. Í Pólenalandi búa um 500,000 gyðingar. Landið er illa yrkt, en hefur þó nægð af korni, skógi, hestum og húfje. Úlfar eru þar margir og illir. Hin mikla ánauðar ógæfa landsins gjörir ástand manna þar afar aumkvunarvert. Pólenaland liggur milli Rússlands og Þjóðverjalands, fyrir norðan Galizíu. Saga þessa lands á seinni tímum en einhver hinn grátlegasti kafli veraldarsögunnar.

## 2. Asía.

Asía eða Austurálfan er fyrir austan Evrópu; stærð álfu þessarar er 796,005 □ mílur, en fólkstalan er 794 milliónir. Mikill hluti álfu þessarar er eyðimerkur einar og hjeröð svo köld, að þau verða ekki yrkt. Útnorðurhlið Asíu liggur að austurhlið Evrópu og landnorðurhorni Afríku; á aðrar hliðar er hún umgirt af útsænum. Um þvera Asíu, nálægt miðju hennar, liggur fjallaklasi mikill og afarhár; kvíslast út frá honum margir fjallgarðar, og margar miklar ár hafa þar upptök, renna þessar í norðurátt: Ob, Jenisei, og Lena; í austur: Hoang-ho og Jantsekiang; og í suður: Evfrat, Tigris, Indns og Ganges. Miðhik Asíu er hálendi, umgirt fjöllum þessum; þar er kuldi svo mikill, að opt fellur snjór í mai- og júni mánuði, og vetur er þar 10 mánuði. Á miðju hálendi þessu eru eyðimerkur miklar með grastóm á stöku stað, þar sem hirðingjar beita hjörðum sínnm; eiknr sjást þar á stangli. Þaðan lækkar landið á alla vegu eins og sjá má af rennsli fljótanna. Vestan til á hálendinu er fjallið Ararat. Við suður- og austur-strönd Asíu er mikill fjöldi af eyjnm.

Loptslag er mjög margbreytt í Asíu; sumstaðar er landið þakið jöklum, sumstaðar eru frjófsömustu akrar og beitilönd. Víða í Asíu, einkum vestan til, skortir vatn; verður því að safna rigningarvatni í regnþrór; allt fyrir það er í Asíu mikill fjöldi og nægð ávaxta, sem ekki þrífast í Evrópu, t. a. m. tegras og kaffe, pipar og ýmsar kryddjurtir, blákkusteinn og ýms litarefni; og flestir hinir dýrmætustu ávextir í Evrópu eiga uppruna sinn að telja til Asíu, og hafa þeir verið fluttir þaðan til Evrópu og ræktaðir þar. Úlfaldar, fílar, ljón og tígrisdýr, og fleiri merkileg dýr ganga þar ótamin í stórum hópum. Úlfaldana kalla Asíumenn »skip eyðimerkurinnar«; fara þeir kaupferðir með úlfalda í stórum hópum, svo opt eru yfir þúsund menn og úlfaldar í einni lest. Þegar í 1. bók Mósis, 37 kap., er þess getið, að úlfaldar voru hafðir í Asíu.

Norðurálfumenn eiga eignir miklar í Asíu. Tyrkir eiga allan útsuðurpartinn; öll lönd Rússakeisara eru sjöttungur jarðarinnar að flatarmáli. Englendingar ráða yfir suðurhlutanum, og Hollendingar yfir mörgum eyjum hið ytra. Hin frjófsömustu og bezt yrktu lönd eru: Indland og Kína. Indverjar og Kínverjar eru vel búnir mörgum íþróttum, en þeir eru heiðingjar og ósiðvandir.

Að öðru leyti eru þessi aðallönd í Asíu: Hin rússneska Asía eða Síbería nyrðst; það er eitt hið kaldasta land, og reknr Rússakeisari þangað sakamenn og aðra, sem missa hylli hans, og eru það á ári um 50,000 manna; dýraveiði og málmnámar eru þar til mikilla hagsmuna. Hin tyrkneska Asía; land það er gott, en illa yrkt; þar er hinn mikli kaupstaður Smyrna. Arabía, fyrir landsunnan lönd Tyrkja; þar eru hinir beztu hestar í heiminum, og hið bezta kaffe. Persía; land það er afar þurt, þarsem hvorki eru þar rigningar nje náttfall; verður því að leiða vatn að langar leiðir með rennum og skurðum, til að vökva jörðina; þvínær tuttugasti partur landsins er óyrktur. Sumir af Persum kunna vel allskonar vefnað, skinnaverkun og smíði, en aðrir lifa í fátækt mikilli. Persía er fyrir austan Arabíu. Indland, fyrir austan Persíu; þar er mikil silkiog viðarullarrækt; þar eru og ofnir hinir fegurstu klútar. Þar fyrir austan er hið mikla Sínverjaríki eða Kína: það er hið stærsta ríki í heiminum, 176,000 □ mílur, næst hinu rússneska. Þangað sækja Evrópumenn margan dýran varning; þar er nægð af hrísgrjónum og viðarull; og akrar eru yrktir þar eins vel, og aldingarðar í Evrópu, fólkstala er 450 milliónir. Peking, hinn stærsti staður í heiminum, er höfuðstaðurinn; íbúar um 2 mill. Á Borneo, ey einni undir Asíuströnd, er skógarmaðurinn; það er api, sem er mjög líkur manni; getur hann gengið á apturfótunum með staf í hendinni.

Í hinni tyrknesku Asíu er Palestína eður hið forna Gyðingaland; höfuðstaðurinn þar er Jórsalaborg (Jerusalem); þar er og Betlehem, þarsem Jesús Kristur fæddist.

## 3. Afríka.

Afríka er fyrir sunnan Evrópu, og er Miðjarðarhafið á milli; stærð álfu þessarar er 543,570 □ mílur, en fólkstalan 192½ millíón. Milli Asíu og Afríku er hafið rauða, og á mjóu eiði, sem tengir saman álfur þessar, er fjallið Sinai. Eiði þetta heitir Súess og var það farartálmi mikill fyrir þá, sem vildu sigla til Asíu, er þeir urðu að fara hina löngu leið suður fyrir Afríku. Fyrir fám árum var skurður grafinn með íþrótt mikilli og fyrirhöfn gegnum eiði þetta, svo nú er fært hverju hafskipi; má nú fara um Miðjarðarhaf og um skurðinn til hafsins rauða. Frakkar unnu mest að þrekvirki þessu og vígði keisaradrottningin Evgenía skurð þenna með viðhöfn mikilli, og þykir hann með hinum mestu stórvirkjum, er unnin hafa verið á síðari tímum.

Afríka er stór þríhyrningur; á suðurhorninu er Góðrar vonarhöfði. Merkust á er þar Níláin á Egyptalandi, hún flóir yfir nokkurn hluta landsins og frjófgar hann. Önnur mikil á er Zambeze, er fellur í Indlandshaf. En að fráteknu Egyptalandi og nokkrum löndum, sem liggja fram með sjónum og sem vökvast af smá ám, er meginhluti álfu þessarar afarmikil eyðimörk, þakin djúpum sandi; sólarhiti er þar steikjandi. Uppi í landinu eru þó víða vötn, ár og dalir skógi vaxnir. Í álfu þessari eru kostir úlfaldans ómetanlegir; fara menn með hann yfir eyðimerkur á stundum í 2 sólarhringa án þess að gefa honum fóður eða drykk. Á eyðimörkum þessum eru einstöku grasblettir með fáeinum pálmatrjám og litlum vatnalindum. Lönd þau, er næst liggja eyðimörkinni, eru full af óarga- og eitur-dýrum; þar er heimkynni ljónanna.

Egyptaland og hin önnur lönd á norðurströnd Afríku eru auðug af korni. Auk korns eru þar höfð til matar hrísgrjón og pálmaviðar aldini. Í hinum beztu hjeruðum Afríku þrífast allir hinir sömu ávextir og í Asíu. Evrópumenn eiga nýlendur miklar á ströndum Afríku og flytja þaðan gull, fílatennur, strútafjaðrir, gúmmí, salt, viðarull og — þó skömm sje frá segja — einnig blámenn, er Evrópumenn í Ameríku hafa lengi farið með verr en skepnur. Íbúar Afríku austantil og norðantil eru skyldir Asíumönnnm; í flestum öðrum löndum búa blámenn. Í Afríku eru þessi lönd: Egyptaland, nyrðst og austast, næst Asíu; þar er Alexandría höfuðstaður. Berberaland á norðurströndinni, þar

er Alzír, er Frakkar eiga. Fyrir sunnan Berberaland er hin mikla eyðimörk Sahara, 100,000 □ á stærð. Á vesturströndinni er Senegambia og Guinea; þar eiga Englendingar og Frakkar nokkrar nýlendur. Kaplandið er á suðuroddanum, þar er enginn vetur nema rigningar miklar í júlímánuði. Austurströnd og miðbik Afríku þekkja menn enn þá lítið. Af eyjum má nefna hina vínauðgu eyju Madeira og Elínarey, þar sem Napoleon mikli sat fanginn og dó.

## 4. Australía.

Australía eða Eyjaálfan fannst seinast, og enn finna menn nokkrar eyjar í hinum mikla útsæ. Útsæ þenna kalla menn hið suðlæga eða hið kyrra haf, hafa einkum Spánverjar, Englendingar, Hollendingar, Frakkar og Rússar kannað það, og margir brotið skip sín eða fallið í orustum við þarlenda menn. Til Australíu telst eyland eitt afarstórt er heitir Nýja-Holland og ara grúi af minni eyjum. Á Nýja-Hollandi er norðanvindurinn hlýr, sunnanvindurinn kaldur og vestanvindurinn óheilnæmur. Árnar renna inní landið í stór stöðuvötn, dalirnir eru kaldir og ófrjófsamir, fjallatindarnir heitir og frjófsamir. Sumarið byrjar 1. dag Novembermán. og endar öndverðlega í Martsmán. Álptir eru þar svartar, ernir hvítir og froskar bláir; þar eru dýr nokkur, sem ganga á apturfótunum eingöngu, nema hvað þau styðja sig með rófunni, þau stökkva áfram eins og fuglar á flugi og bera unga sína í poka, sem er undir kviðnum. Flestar eikur fella börk á ári hverju, en blöðin eru sígræn. Þar eru eikur, sem hafa gras í toppinum í staðinn fyrir lauf og víða eru þar skógar gráir en ekki grænir. Fátækir menn þar byggja hús sín eins og hinn auðugi konungur Salómon úr sedrusviði; korn er þar ekkert og eigi viðaraldini. Þar er nú nýlega fundið ógrynni gulls.

Loptslagið í álfu þessari er mjög þægilegt, þar eru einnig eikur, plómur og sæt aldini, sem eru óþekkt í hinum öðrum álfum. Dýrategundir eru þar fáar og söngfuglar engir. Fiskur er þar mikill við strendurnar. Englendingar eiga nýlendur nokkrar í Nýja Hollandi; voru í fyrstu sendir þangað óbótamenn frá Englandi til þess að betrast þar. Fyrir austan Nýja Holland er Nýja Zeeland. Íbúar allra þessara landa eru sumir blámenn, en sumir af Malayaflokki. Nokkrir hinna síðarnefndu hafa tekið kristna trú og siði Evrópumanna; sumir eru siðlausir og illir skrælingjar og eta bæði landa sína og útlenda menn. Á mörgum eyjum skreyta menn sig með því að lita allan líkamann með svörtum rákum; það heitir að tattovera sig. Stærð Australíu að eyjunum meðtöldum er 161,000 □ mílur, en fólkstala yfir 4 milliónir.

## 5. Ameríka.

Ameríka eða Vesturálfa er á vesturhlið hnattarins; hún er hjerumbil ferfalt særri en Norðurálfan; Evrópumenn fundu hana fyrst 1492. Ameríka er 2 þríhyrndir skagar, tengdir saman með mjóu eiði. Eiði þetta hefur fyrir það staðist árásir hafsins að það er hátt, og partur af þeim hinum mikla fjallgarði, er liggur eptir allri vesturhlið Ameríku, og heitir Andesfjöll, hinn mesti fjallaklasi í heiminum að hæð og víðáttu. Ameríka nær frá hinu nyrðra Íshafi til hins syðra, en fólkstala er þar lítil, því Evrópumenn hafa útrýmt hinum fornu íbúum, hinum svonefndu Indíönum, en ekki fjölgað þar sjálfir að því skapi; Indíannar hafa lagst út á skógum og mörkum. Stærð álfu þessarar er 747,680 □ mílur, en fólkstalan 84½ millíón. — Nyrðst og syðst er kaldara í Ameríku en í hinum álfunum undir sama himinbelti; veldur því mest ísinn við heimsskautin; þarámóti er þar engi eyðimörk. Landið skiptist í Norður- og Suður-Ameríku. Í Norðurameríku eru mörg stöðuvötn og rennur Lárentsfljótið úr þeim í austur. Milli tveggja af stöðuvötnum þessum er hinn stærsti foss í heiminum, nefndur Niagara, 720 feta hár; má heyra niðinn í honum 8 mílur frá. Hið stærsta fljót er Missisippi, 650 mílur á lengd, um það fara mörg hundruð gufuskipa. Landið fyrir norðan stöðuvötnin er að nokkru óbyggt; það er eign Englendinga og fá þeir þaðan skinnavarning, harðan fisk, timbur og þesskonar. Við eyjuna Nýfundnaland er mikil fiskveiði; fyrir sunnan vötnin eru Sambandsríki Norðurameríku (Bandaríkin); það er hið fjórða stærsta ríki í heimi, er því skipt í allt að 30 liðstjórnarríki sem öll eru í sambandi sín á milli. Kaupverzlan og velmegan er þar í blómgvan mikilli. Í ríkjum þessum er nægð af málmum, ógrynni af skógum, frjófsamur jarðvegur og fjöldi mikill af verksmiðjum, gufuvjelum og skipum. Nýjajórvík er þar mestur kaupstaður. Íbúar um 1 millíón. Íbúar þessara landa eru niðjar Englendinga. Í ríkjum þessum eru upp komin bindindisfjelögin. Síðan fjelög þessi hófust eru fleiri en 4000 brennivínsgjörðarhús aflögð; má af því sjá, hvílíkt siðferðislegt afl vilji manna þar hefur. Tala bindindismanna þar skiptir millíónum. Bandamenn eru allir nær 40 millíónir. Í Norðurameríku er einnig lýðstjórnarríkið Mexíkó; íbúar þess eru niðjar Spánverja. Í Suðurameríku er hin stærsta á í heiminum, Amazon fljótið; lengd þess er 800 mílur og mynni þess yfir 20 mílur á breidd. Mörg eldfjöll eru í Andesfjöllum. Nokkur lýðstjórnarríki hafa hafist á vorum dögum í Suðurameríku, en lögin hafa þar ekkert vald yfir mönnum, og uppreistir og mannvíg ganga þar fjöllunum hærra; þeir eru niðjar Spánverja. Austast

er hið mikla og auðuga keisaradæmi Brasilía, hið þriðja stórveldi í heiminum, 152,290 □ mílur á stærð; fólkstala um 10 milliónir, höfuðstaður þar er Rio-de-janeiro. Íbúar þessa ríkis eru niðjar Portúgalsmanna.

Þar sem Ameríka er mjóst, skerst flói mikill inn í landið, með mörgum eyjum; eyjar þessar kalla menn Vesturindíur. Englendingar, Frakkar og Spánverjar eiga þar nýlendur miklar. Þær eru ágætlega yrktar, og er þar fólksfjöldi mikill; ávextir eru þar allir hinir sömu og á meginlandi Ameríku, en einkum er þar mikið af kaffi og sykri. Sumstaðar í Vestnrindíum og í Ameríku eru blámenn frá Afríku enn þá í ánauð og hafa lengi verið hróplega leiknir af blinduðum og ágjörnum mönnum. Á seinni tímum hafa einkum Englendingar reynt að afstýra hörmungum blámanna, og nú hafa Bandaríkin loks aftekið þetta veraldar hneyksli eptir hið blóðnga ofurlega Bandamanna stríð, sem af því reis og fram fór á hinum síðustu árum.

Frá Ameríku kemur ógrynni gulls og silfurs til Evrópu, enda skortir þar engan málm, nema járn. Villudýr eru þar mörg, sem ekki eru annarstaðar til en þar. Allir apar þar hafa langa rófu, sem þeir nota einsog hönd væri. En öll hin nytsömustu tamin dýr, hesta, asna, nautpening, sauðfje, svín, hunda og ketti hafa Evrópumenn orðið að flytja þangað, sömuleiðis allar korntegundir, hör, hamp, vínvið, viðsmjörsvið, sykur, kaffe og fleira. Í Ameríku eru mörg rándýr: höggormar, krókodílar, o. s. frv. Þar vaxa margar jurtir, er menn hafa miklar mætur á, t. a. m. tóbaks- og blákkusteins-jurtir, margskonar litartrje og lænisdóma jurtir. Allskonar trje eru þar, bæði margbreytt og fögur. Jarðvegurinn er frjófsamur, og uppskeran mikil; en allir ávextir úr Evrópu eru þar bragðminni, og fræ verður að fá úr Evrópu. Grasið er fitumikið, en stórgjört; sauðfje rýrnar fljótt. Fuglar og skorkvikindi hafa fagra liti, en söngfuglar eru þar fáir. En merkilegast er það, að kvenumönnum fer þar að fara aptur þegar þeir eru 25 ára.

Ef vjer ímyndum oss jarðarhnöttinn skiptan um þvert, jafnlangt frá skautunum, þá kemur fram norður- og suður-helmingur, og takmörk þeirra er miðjarðarlínan (Æquator). Á norðurhelmingnum er þá Norðurameríka, Evrópa öll, Asía öll og meginhluti Afríku; á suðurhelmingnum er Suðurameríka, hinn mjórri hluti Afríku, Australía og allar hinar stærri eyjar í Suðurhafinu.

## II. Fáein atriði úr mannkynssögunni.

Guð hefur skapað jörðina til bústaðar fyrir mennina, og þeir hafa byggt hana um margar þúsundir ára. Á þessu langa tímabili hafa lifað margir góðir menn og ágætir, en einnig margir illir og ónýtir. Ærið margir tilburðir hafa orðið í heimi þessum, og geymast margir þeirra enn í endurminninguuni. Það er bæði fróðlegt og skemmtilegt að heyra og lesa sögur, einkum um menn þá, er mikið gagn hafa unnið meðbræðrum sínum, og um tilburði þá, sem mikið gott hefur af hlotizt. Samsafn slíkra hluta er nú mannkynssagan.

Af hinum mörgu þjóðum, er mannkynssagan greinir frá, eru nokkrar ennþá í hinum sömu löndum, og forfeður þeirra voru í, t. a. m. Kínverjar, Indar og Arabar í suður- og austurhluta Asíu. Aðrar þjóðir eru horfnar úr sögunni, eða runnar saman við aðrar þjóðir, t. a. m. Assyríumenn, Babylonarmenn og Medar, sem bjuggu í miðhluta Asíu, Gautar og Keltar í Evrópu, o. fl. Enn aðrar þjóðir voru á fyrri öldum voldugar, t. a. m. Egyptalandsmenn í Afríku, Grikkir og Rómverjar í Evrópu, en eru nú aðeins smáþjóðir. Gyðingaland er og ekki framar til í tölu ríkjanna, en niðjar hinna fornu Gyðinga hafa með miklu þreki varðveitt þjóðerni sitt, hvar sem þeir komu, og eru þeir nú tvístraðir um öll lönd heimsins, sumstaðar að vísu frjálsir og ánægðir, en víðast er kostum þeirra þröngvað mjög.

### 1. Frá Babylon.

Assyríuríki telja menn eitt hið elzta ríki í Asíu, er menn hafa sögur af. Þar var Ninive höfuðborg, og lá hún á Tigris ár bökkum. Sá hjet Ninus, er reisti þá borg, og var hann konungur í Assyríu. Hann átti í stríðum við margar þjóðir, þarámeðal og við Babylonarmenn, og tók hann borg þeirra herskildi. Kona hans hjet Semiramis, og tók hún við völdum að Ninusi látnum. Semiramis er einkum kunn fyrir það, hve annt hún ljet sjer um að skreyta Babylons-borg. Borg þessi var á hennar dögum einhver hin mesta borg í heimi. Hún var 12 mílur umhverfis, og var hún byggð í ferhyrning, þannig, að sín hlið horfði við hverri heimsátt. Múrar voru umhverfis hana, 288 feta háir, og svo breiðir að 6 vögnum mátti aka samsíða uppá þeim. 100 borgarhlið voru á múrunum, 25 á hverri hlið. Uppi á múrunum voru turnar og virki til varnar borginni. Borgin stóð við ána Evfrat, og mátti veita ánni um mörg síki innanum alla borgina, og varð hún við það miklu torsóttari. Sum

voru þau stræti í borginni, er voru 3 mílur á lengd. Meðal hinna mörgu furðuverka, sem sjá mátti í borg þessari, má telja hof Belusar og hengi-garðana. þeir voru gjörðir á lopti á bogum, allir með smábrekkum, hverri upp af annari, öllum settum eikum og fögrum aldinum. Svo voru þeir háir, að úr þeim sást yfir alla borgina. En svo stór og tignarleg, sem þessi borg var í fornöld, þá er hún þó fyrir löngu liðin undir lok, og það svo gjörsamlega, að menn geta ekki einusinni sagt með vissu, hvar hún hafi staðið.

## 2. Frá Egyptum.

Egyptar bjuggu í fornöld þar sem enn heitir Egyptaland. þeir tóku fyrrum samtíðamönnum sínum fram í fróðleik, hagleik, og allri menntan. þjóðinni var skipt í ýmsa flokka, og var það einkennilegt við þá flokkaskipan þeirra, að jafnan skyldi sonurinn verða það, sem faðir hans var, hvort sem hann var fær um það eða ekki. Af þessum flokkum voru hermannaflokkurinn og prestaflokkurinn helztir; þaraðauki voru akuryrkjumanna, handiðnamanna og hirðara-flokkar. Hirðaraflokknum var skipt í nauta hirðara og svína hirðara. Svínahirðararnir voru hafðir í mestu fyrirlitningu, og vildi enginn hafa mök við þá. Egyptar trúðu hinu svonefnda sálnaflakki, þ. e. að sáli manna færi eptir dauðann í eitt eður annað kvikindi. Egyptar kunnu þá list, fremur öllum öðrum, að smyrja lík dauðra manna, þannig að þau verðist rotnun. Ennþá eru til líkamir, sem hinir fornu Egyptar hafa smurt, og eru þeir óskaddaðir enn. Slíkir smurðir líkamir kallast múmíur (smyrðlingar). Konungar Egyptalandsmanna ljetu reisa margar stórbyggingar og minnisvarða. Til eru ennþá goðahof á Egyptalandi, sem konungar Egypta hafa í fyrndinni látið gjöra; eru þau höggin inn í kletta, þannig, að klettarnir eru holaðir innan, og eru bekkir, myndastyttur, blótstallar, og allt sem þar er inni, höggið út úr sama klettinum. Einnig standa ennþá Pyramidarnir og Obeliskarnir. Pyramidarnir eru hlaðnir úr höggnu stórgrýti; þeir eru ferhyrndir og uppmjóir; sumir þeirra voru 600 feta á hæð. Obeliskarnir eru og ferhyrndir, en höggnir úr einum steini. þeir voru lægri mikla en Pyramidarnir; sá hærsti var 180 feta hár. Egyptar hafa haft miklu menntan í fornöld, og víst mun Móses hafa numið þar margt, meðan hann dvaldi þar. það er álit manna, að sumum meðal Egypta hafi ekki verið ókunn eingyðistrú, og má því eigi með vissu segja, hve mikil áhrif hin egyptska menntan kann að hafa haft á lífsstefnu Mósis, og hve mikið hann hafi átt henni að þakka það sem hann fekk afrekað.

### 3. Frá Grikkjum.

Grikkir bjuggu þar, sem enn heitir Grikkland, og á eyjum þar í grennd. Þeir voru hin frægasta þjóð í fornöld, bæði sakir herkunnáttu, íþrótta og vísinda. Hjernmbil 1200 árum fyrir Krists burð fóru þeir herför til borgar þeirrar í Asíu, er Trója hjet, og unnu hana; um herför þessa kvað síðar hið mikla skáld Grikkja, Hómer. Löndum Grikkja var skipt í mörg smáríki; borgin Sparta og Aþenuborg voru þeirra merkilegust.

Lykúrgus var löggjafi Spartverja. Þegar bróðir hans, er var konungur, var látinn, bauð þjóðin honum konungdóm, en Lykúrgus þáði ekki, vegna þess að bróðir hans ljet eptir sig ungan son; fór hann þá utan til að fræðast, því í þann tíma voru bækur eigi til. Meðan hann var erlendis, brutust út óeirðir miklar í Spörtu; vildu konungarnir, er voru 2, auka vald sitt, en þjóðin rýmka um frelsi sitt. Var þá Lykúrgus kallaður heim til þess að sefa óeirðir þessar. Þá er hann var heim kominn, samdi hann lög handa Spartverjum. Þessi lög Lykúrgusar lúta öll að því, að reisa skorður ofurvaldi konunga, og að gjöra Spartverja alla jafna, hrausta og harðfenga. Jafnhliða konungunum setti hann 28 öldunga, og gaf þjóðinni rjett til að hafna eða samþykkja það, sem konungarnir stungu uppá; landinu skipti hann í jafna hluti meðal íbúanna, og bauð, að allir skyldu matast saman af sparsamlegum snæðing, er hann tiltók; hann ákvarðaði, að úr því að börnin hefðu náð 7 ára aldri, skyldu þau alast upp á almennan kostnað; hann bannaði allar óþarfar íþróttir, allt gull og silfur.

Þegar Lykúrgus hafði gefið þessi lög, bjó hann sig af landi burt, en tók áður eið af þjóðinni, að hún skyldi halda lög hans, þangað til hann kæmi aptur. Lykúrgus dó erlendis, og bauð, að brenna skyldi líkama sinn, og kasta öskunni í sjóinn, til þess að enginn hluti hans kæmi nokkurn tíma til Spörtu. Hann náði og tilgangi sínum, því Spartverjar urðu hin hraustasta þjóð, er þá var uppi, og unnu því nær ávallt sigur á óvinum sínum.

Sólon, löggjafi Aþenumanna, var uppi hjerumbil 300 árum síðar en Lykúrgus. Hann hafði einnig menntast í öðrum löndum, og aukið þekkingu sína. Í líkum óeirðum og þeim, er getið er um að verið hafi í Spörtu, var Sólon tekinn til oddvita í Aþenu, og falið á hendur að semja lög. Lög Sólons lúta að því, að skipta valdinu jafnt, og gjöra Aþenumenn að menntuðum mönnum, starfsömum og ágætum. Hann skipti Aþenumönnum í flokka eptir efnum. Af efsta flokknum voru embættismennirnir teknir, t. a. m. hinir 9 stjórnarherrar; þá átti þjóðin að kjósa á

ári hverju. Fimmhundruð-manna-ráð átti að kalla saman þjóðina, semja lög og kjósa embættismenn; en frá ráði þessu voru allir iðjuleysingjar, allir ósiðlátir menn og ragir útiluktir. Þeir, er höfðu stjórnarherrar verið, voru æðstu dómendur, og áttu þeir að gefa gætur að siðum æskumanna. Börn þau, er foreldrarnir höfðu látið læra einhverja nytsama mennt, handiðn, eður annað, er þau gátu haft af lífsuppeldi, bauð hann að skyldu annast foreldra sína á elliárum þeirra; hann bannaði að tala illa um dauða menn, því þeir væru helgir. Aþenumenn tóku lög þessi, og urðu hin starfsamasta og siðaðasta þjóð í fornöld.

Þegar Sólon hafði samið lög þessi, fór hann aptur úr landi; kom hann þá til hins auðuga konungs Krösusar í Lydíu. Krösus sýndi Sóloni öll auðæfi sín og gersemar, og spurði hann, hvort hann þekkti nokkurn mann farsælli. Sólon nefndi fyrst Tellus nokkurn, er átti fjölda barna og barnabarna, og fjell í stríði fyrir ættjörðu sína; síðan nefndi hann bræður tvo, er dóu, eptir að þeir höfðu sýnt mikla skyldurækt móður sinni; og síðan mælti hann: »Breytingar lífsins getur enginn fyrirsjeð; þann einn álít jeg farsælan, sem er það til æfiloka.« En þar kom að, að Krösus var tekinn höndum af Kyrusi Persakonungi, og sviptur öllum auði, en er hann átti að líflátast, æpti hann hátt og mælti: »Sólon, Sólon.« Kyrus undraðist óp hans, og spurði hann hverju það sætti. Krösus sagði þá Kyrusi ummæli Sólons, og þáði líf sitt fyrir.

Meðal Grikkja voru margir ágætir menn, bæði skáld, íþróttamenn, spekingar og hetjur. Þykja þeir enn í dag fyrirmynd annara manna, og mun frægð þeirra uppi meðan lönd eru byggð.

Hjerumbil 200 árum eptir daga Sólons hugðist Persakonungur sá, er Daríus Hystaspes hjet, og sem rjeði mörgum löndum í Asíu, einnig að bæla undir sig Grikkland, og rjeðist á það með óvígan her; en sá hjet Miltiades, er fór til móts við hann með Aþenumenn, og hafði frægan sigur. Xerxes, sonur Daríusar, bjó út enn miklu meira herlið og skipaflota, en honum fór eigi betur, en föður hans áður. Leonidas, Spartverjakonungur, fór á móti honum með litla sveit manna, og nam hann staðar með flokk sinn í fjallskarði því, er Thermopylæ (Laugaskörð) heitir; ætlaði Xerxes að halda yfir skarð þetta með hinn óvíga her sinn, og vildi Leonidas banna honum yfirförina. Persar gjörðu gis að hinni litlu hersveit Leonidasar, og sögðu: »örfar vorar eru svo margar, að þær munu myrkva sólina.« »Það er vel,« svaraði maður nokkurr Spartverskur, »vjer getum þá barist í forsælu.“ Veittu Spartverjar þar hið drengilegasta viðnám, og fengu Persar ekkert áunnið, fyr en svikari nokkur varð til þess að vísa þeim aðra leið yfir fjöllin; komust þeir þá

að baki Grikkjum, og sóttu að þeim tveim megin. Voru þá Leonidas og kappar hans bornir ofurliði, sökum hins afarmikla liðsmunar, og fjellu þeir þar við hinn bezta orðstír. Á vígvellinum reistu Spartverjar bræðrum sínum minnisvarða; voru á honum orð þessi: »hjer ljetu Spartverjar líf sitt af hlýðni við lög ættjarðar sinnar. En dauði Leonidasar stoðaði Xerxes lítið; Þemistokles frá Aþenuborg eyddi skipastóli hans; en Pásanías frá Spörtu vann á landhernum.

Litlum tíma eptir, að Grikkir höfðu rekið Persa af höndum sjer, voru uppi sagnaritarinn Herodotus og spekingurinn Sókrates. Herodotus hefur ritað sögu um viðureign Persa og Grikkja; menn hafa kallað hann »föður sögunnar.« Sókrates var hinn vitrasti maður á sinni tíð, og lagði hann mikla stund á að fræða unga menn. Hann fræddi þá ekki um myrka og fágæta hluti, heldur leitaðist hann við með kenningu sinni að gjöra þá að vænum og veglyndum mönnum. Fyrir það sögðu menn, að hann hefði leitt spekina af himnum ofan á jörðina. Hann var maður grandvar í hegðan; en hið mikla álit hans ávann honum þó óvild margra manna; var hann loks kærður fyrir guðleysi, og dæmdur án saka til dauða. Varnarræðu þá, er hann hjelt, er hann var dæmdur, endaði hann þannig: »en það er nú kominn tími fyrir oss að halda hjeðan, fyrir mig til að deyja, en yður til að lifa, en hvorir eiga betri kjör fyrir höndum, það veit enginn nema guð.« Áður en hann dó, talaði hann öruggur um dauðann við vini sína. Sókrates átti marga lærisveina; helztir þeirra voru þeir Platon og Xenofon. Platón var kennari Aristotelesar heimspekings.

## Dauði Sókratesar.

(Árið 400 f. Kr. b.)

Þegar vitringurinn Sókrates hafði í mörg ár alið aldur sinn í Aþenuborg og flutt þar kenningar sínar óvíttur og óátalinn, þá var hann að síðustu í elli sinni ákærður af öfundsjúkum mönnum fyrir það, að hann forsmáði guðina og spillti æskulýðnum með kenningum sínum, en sú var þó í raun rjettri orsökin, að hin skorinorða dirfska og hinn grandskygni skarpleikur hans varð þeim einatt að fótakefli, svo þeir fengu eigi illræðum sínum framgengt. Í málsvörn sinni hafnaði Sókrates öllum þeim ráðum, sem saksóktir menn í Aþenuborg voru vanir við að hafa til að hræra hjörtu dómaranna. Hann rak sakaráburð ákærandanna með orðsnilli þeirri og hálfkýmni, sem honum var svo eiginleg, því bæði sannaði hann ljóslega, hversu sakargiptir þeirra væru fjarstæðar, og sneypti þá um leið og gerði þá blægilega. En til

dómaranna talaði hann einarðlega og hlífðarlaust, sem ekki var títt um þær mundir, svo að lýðurinn, sem ekki átti öðru að venjast en smjaðri og fagurgala, gerði öðru hverju illan kur að ræðu hans, og var það mest fyrir þessa orsök að hann var dæmdur sekur. Nú voru það lög Aþenumanna, að hverr sakfelldur borgari mátti, áður en dómur væri upp kveðinn, nefna þá hegningu, er hann sjálfur hygðist hafa til unnið, og voru ákærðir menn jafnan vanir að nota þessa rjettarvilnun til að mýkja hjörtu dómendanna. En Sókrates, sem bæði vissi sig saklausan og fann til verðleika sinna, gat með engu móti lagt sig niður við að dekra fyrir tilfinningum dómaranna, og kvaðst hann telja sig þess eins maklegan, að sjer væri veitt borðhald í Prýtaneum*) á opinberan kostnað, svo sem heiðursumbun fyrir alla sína ástundun og erfiðismuni í þarfir Aþenumanna. Út af þessu dæmdu dómararnir hann til að drekka banadrykk, en til þess var hafður eiturlögur af óðurt (*cicuta*), og var það alvanaleg dauðahegning í Aþenuborg. Sókrates hlýddi á dauðadóminn með þeirri stilling og hugarró, sem vitrum manni var samboðin, hjelt síðan stutta ræðu og færði dómurunum fullar sönnur fyrir því, að sjer hefði verið hægðarleikur að forða lífinu, með hinum algengu umtölum og miskunarbænum, en hann hefði alla æfi fast og óbrigðilega fylgt þeirri lífsreglu, að þola hvaða órjettindi sem væru, heldur en að afstýra þeim með því að svíkjast undan sinni eigin sannfæringu.

Dauðadómi Sókratesar gat ekki orðið fullnægt fyr en að þrjátíu dögum liðnum, því svo stóð á, að skip eitt, sem á hverju ári var sent til Deleyjar, hafði lagt út skömmu áður en dómurinn var uppkveðinn, en samkvæmt hinum fornu lögum var það óhæfa, að nokkurr maður væri líflátinn meðan skipið var á leiðinni. En þenna tíma, sem líflátið frestaðist, hjelt Sókrates áfram hinni vanalegu umgengni við lærisveina sína, og vitjuðu þeir hans daglega í fangelsinu. Hin sama rósemi og geðfesta, sem hafði fylgt honum alla æfi, skildi ekki heldur við hann þegar hjer var komið, og var hann lífsreglum sínum og sannfæringu trúr allt til hins síðasta andartaks. Einn af lærisveinum hans, Kríton að nafni, hafði fáum dögum fyrir líflátið sett ráð til þess, að hann gæti flúið úr landi. En Sókrates var með öllu ófáanlegur til að hlíta þeim kosti, því bæði trúði hann sjálfur og kenndi öðrum, að ekkert væri það til, sem gæti veitt manni heimild til að óhlýðnast lögum og landsrjetti.

---

*) Prýtaneum hjet ein opinber bygging í Aþenuborg, og var þar veittur kostur og veizlur haldnar gestum ríkisins og hinum nýtustu borgurum, sem mest höfðu unnið því til gagns.

Platon, sem mestur varð og ágætastur af lærisveinnm Sókratesar, hefir í einn sjerstöku riti letrað og stílfært hinar síðustu ræður hans og skýrt frá viðskilnaði hans. Leggur hann sjónarvotti nokkrum söguna í munn og lætur honum meðal annars segjast á þessa leið:

»það var furðu kynlegt, hvernig skapi mínu var varið, meðan á þessu stóð. Eg var viðstaddur dauða þess manns, sem eg var svo innilega handgenginn, og samt kenndi eg mjer ekki angurs, því hann kom mjer fyrir sjónir eins og sannfarsæll maður bæði í orðum og allri háttsemi, svo göfuglega og djarflega varð hann við dauða sínum; það var með öllu ósegjanleg tilfinning, það var sambland, sem ekki hafði fyrir komið áður, annarsvegar af fögnuði, en líka hinsvegar af angurblíðum trega, þegar eg hugsaði til þess, hvað bráðlega hann ætti að skilja við. Og öllum okkur, sem að þessu sinni vorum nærstaddir, varð eins við; það var ýmist að við hlógum eða grjetum.«

þegar Sókrates í langan tíma var búinn að ræða við okkur um ódauðleik sálarinnar, ætlaði hann að ganga út og taka sjer laug fyrir andlátið. þá mælti Kríton vinur hans við hann: »Seg oss nú síðasta vilja þinn, Sókrates! hvað eigum vjer að gera fyrir börn þín, eða hvað annars, sem þjer sje kært og hugleikið?« »þetta sama, bezti Kríton! sem eg alltaf er að brýna fyrir yður,« ansaði Sókrates; »ef þjer berið umhyggju fyrir yður sjálfum, þá munuð þjer vinna þægt verk bæði mjer og mínum og sjálfum yður, enda þó þjer engu lofið að svo stöddu; en ef þjer vanrækið yður sjálfa og lagið ekki lífsferil yðar eptir því, sem vjer bæði í dag og að undanförnu höfum umtalað, þá mun fyrir lítið koma, þó þjer nú heitið öllu fögru.«

»Við skulum þá leggja alla stund á þetta,« sagði Kríton, »en hvernig viltu láta greptra þig?« »Eins og ykkur sjálfum sýnist,« ansaði Sókrates, »ef þið á annað borð getið náð mjer og jeg ekki slepp úr greipum ykkar.« Síðan vjek hann sjer að okkur með stiltu brosi og mælti: »Mjer ætlar þá ekki að heppnast, bræður góðir! að færa honum Krítoni heim sanninn um það, að jeg sje þessi Sókrates, sem nú á tal við ykkur og stýrir þessum umræðum; nei, hann hugsar sjer að jeg sje sá, sem hann innan skamms mun sjá einsog liðið lík, og þessvegna spyr hann, hvernig hann eigi að greptra mig. Eg hef talað svo mikið og svo lengi til þess að gera ykkur fulltrúa um það, að þegar eg er búinn að renna út eiturbikarinn, þá muni eg ekki bíða framar hjá ykkur, heldur líða burt til sælustaða, þar sem ódauðlegar verur eiga dvöl; en hann ímyndar sjer að jeg segi þetta svona hinseigin til að hughreysta sjálfan mig og ykkur. Gangið því í ábyrgð fyrir mig hjá Krítoni, en öfugt samt við þá ábyrgð, sem

hann undirgekkst við dómarana fyrir mína hönd; því hann ábyrgðist það, að eg sannlega mundi bíða kyr, en þið eigið að ábyrgjast hitt, að þegar eg er dáinn, þá muni eg sannlega ekki bíða kyr, heldur muni eg líða burt frá þessum stöðvum. Eg vil, því er það, með engu móti, að Kríton haldi þetta sje ólán, eða að hann harmi mig, þegar hann sjer lík mitt á báli brennt eða í jörðu lagt, eins og eitthvað illt kæmi fram við mig, og vil eg ekki að hann við greptrun mína segi: »Nú greptra jeg Sókrates.« Því vita skaltu, Kríton! að rangmælin eru ekki einungis í sjálfu sjer lýtafull, heldur eru þau einnig skaðvænleg fyrir sálina. Þjer ber því að vera hughraustur og segja að þú jarðir líkama minn; máttu svo jarða hann eins og þjer er geðþekkt og þjer þykir bezt við eiga.«

Að svo mæltu stóð hann upp og fór til herbergis nokkurs að fá sjer laug, og fylgdist Kríton með honum; bað hann okkur að bíða sín á meðan. Við gerðum svo og hjeldum áfram samtalinu, og var ýmist að við ræddum aptur þær greinir, sem Sókrates hafði útlistað fyrir okkur, annað veifið varð okkur tíðrætt um þá hörmulegu ógæfu, sem okkur var að höndum komin, þvílíkt sem við ættum föður að missa og yrðum hjeðan af munaðarlausir alla æfi. En er hann hafði laugazt og börn hans voru borin inn til hans — því hann átti tvo sonu kornunga og einn stálpaðan — og er konurnar úr húsi hans voru komnar, þá talaði hann við þær í viðurvist Krítons og tjáði þeim sínar síðustu óskir og ráðstafanir; síðan ljet hann konurnar og börnin fara, en sjálfur kom hann aptur til okkar. Þá var orðið áliðið og ekki langt til sólarlags, því honum hafði dvalizt lengi inni í herberginu. Tyllti hann sjer nú niður eptir baðið og gaf sig á tal við okkur, en það var ekki lengi, því þjónn hinna ellefu manna*) kom að vörmu spori, vjek sjer að honum og mælti: »Ekki vil eg ætla þjer það, Sókrates minn! að þú látir þjer eins fara og sumir aðrir, sem illskast við mig og formæla mjer, þegar eg kem í umboði yfirvaldanna og skora á þá að drekka eitrið. Bæði hef jeg nú annars reynt þig að því allan þenna tíma, að þú ert sá drenglyndasti, hógværasti og bezti maður af öllum þeim, sem nokkurntíma hafa hingað komið, og eins treysti eg því nú, að þú munir ekki reiðast við mig, heldur við hina, því þjer er sjálfum kunnugt hverir þessu valda. Þú veizt nú hvað jeg er kominn að segja þjer, vertu þá sæll og berðu þig að þola með jafnaðargeði það sem ekki verður umflúið.» Þar með sneri hann sjer undan grátandi og gekk burt. Og Sókrates horfði eptir honum og mælti:

*) Hinir svonefndu ellefu menn í Aþenuborg voru settir til að sjá um fangelsi, varðhald, hegningar og líflát sakamanna.

»Vertú þá líka sæll! og skal svo gera sem þú hefir fyrir mælt.« Því næst sagði hann við okkur: »Mikið prýðilega fer þessum manni! þenna tíma hefir hann verið að koma til mín og tala við mig öðru hverju og í einu orði hefir hann verið mjer hinn bezti maður; og nú að síðustu — lýsir það ekki eðallyndi hans, að hann grætur yfir mjer? En far nú Kríton! og skulum við hlýða orðum hans; komi menn með eiturdrykkinn, ef hann er tilbúinn, en sje það ekki, þá verður maðurinn að byrla hann.« Þá mælti Kríton: »Mjer er þó nær að halda, Sókrates minn! að sólin sje yfir fjöllunum enn þá og ekki gengin undir. Hitt veit eg líka að aðrir sumir hverir drekka eitrið miklu seinna og ekki undir eins og þeim er sagt til, heldur borða þeir fyrst vel og drekka og svala fýsnum sínum.« Þá svaraði Sókrates: »Það fer að líkindum, kæri Kríton minn! að mennirnir þeir, sem þú minnist á, breyti svona, því þeir þykjast ávinna nokkuð með þessu móti; en það fer eins að líkindum, að eg muni ekki breyta svo, því eg tel mjer það engan ávinning að drekka seinna, heldur mundi eg verða hlægilegur í augum sjálfs mín, ef eg hjengi svo fast við lífið og leitaðist við að treina það, sem er á förum hvort sem er. Farðu því eins og eg segi og leitaðu engra undanbragða.«

Þegar Kríton heyrði þetta, þá benti hann samstundis þjóninum, sem hjá honum stóð. Þjónninn fór og kom aptur að stundarkorni liðnu, fylgdi honum sá, sem banadrykkinn átti að rjetta Sókratesi, og bar bikar fullan af nýbyrluðu eitri í hendi. Þegar Sókrates sá manninn, mælti hann: »Nú, nú, heilla vin! þú ert þessu kunnugastur, hvernig á eg að hera mig til? seg mjer hvað gera skal. »Ekkert frekara,« ansaði hinn, »nema það, að þegar þú ert búinn að drekka, áttu að vera á rjátli þangað til þú finnur til þyngsla í fótunum, þá áttu að leggjast niður og mun það þá hrífa af sjálfu sjer.« Þar með rjetti hann Sókratesi bikarinn, en hann tók við honum með glöðu bragði, alveg óskelfdur, hvorki brá hann lit nje svip, heldur leit hann á manninn með hvössu augnaráði eins og honum var títt og spurði hann á þessa leið: »Viltu segja mjer hvernig er um þenna drykk? er leyfilegt að hella nokkru af honum til dreypifórnar eða ekki?« En maðurinn svaraði: »Við byrlum rjett að eins svo mikið, Sókrates! sem við höldum að með þurfi.« »Skil eg það,« mælti Sókrates, »en hitt mun bæði vera heimilt og enda brýn skylda að biðja þess til guðanna, að þeir láti burtflutninginn hjeðan til hinna staðanna verða farsællegan. Þess vil eg þá einnig biðja, og verði þessi mín bæn að áhrínsorði.« Óðar en hann slepti orðinu, setti hann bikarinn á munn sjer og teigaði eitrið hægt og rólega. Flestir af oss höfðu nokkurnveginn getað varizt grátinum þangað til að þessu kom, en nú þegar við með eigin augum sáum

hann drekka og tæma bikarinn, þá varð oss það um megn; tárin brutust fram og flóðu stanzlaust mjer af augum, eg hjúpaði þá skikkjnnni fyrir andlit mjer og grjet, — þó samt ekki yfir honum, heldur yfir sjálfum mjer, sem átti slíkum ástvin á bak að sjá. Kríton var enda fyr staðinn upp úr sæti sínu en eg, því hann gat ekki heldur tára bundizt. Og Apollódórus, sem áður hafði ekki látið af grátinum, varð nú svo, að hann kveinaði hástöfum, og enginn var sá af þeim, er nærstaddir voru, sem ekki sturlaðist af ekka og kveinstöfum nema Sókrates einn. Hann tók þá þannig til orða: »því látið þjer svo, þjer undarlegu menn! Eg ljet þó kvennfólkið frá mjer fara einmitt þessvegna, að eg vildi ekki, að því yrði nein þess konar ósvinna, því eg hef heyrt að menn eigi að deyja í guðrækilegri þögn. Verið því rólegir og harkið af ykkur.« þá fyrirurðum við okkur og hættum að gráta. En hann gekk stundarkorn um gólf, og þegar fætur hans, eptir því sem hann sagði sjálfur, tóku að þyngjast, þá lagðist hann niður á bakið, eins og maðurinn, sem færði honum eitrið, hafði ráðið til. Maður þessi þreifaði nú á Sókratesi og fór höndum um fætur hans, kreisti þá síðan fast og spurði hvort hann findi til. Sókrates kvað nei við því. því næst kreisti maðurinn kálfa hans og færði sig þaðan upp eptir og sýndi okkur hvernig hann kólnaði og stirðnaði. Sókrates tók þá sjálfur á sjer og sagði, að þegar það kæmi að hjartanu, þá mundi hann vera liðinn. Og er hann var nákaldur orðinn upp á miðt holið, þá mælti hann þau orð, sem urðu hans en síðustu í þessu lífi. »Kríton minn!« sagði hann, »við erum Eskulapi*) skuldugir um hana; fórnfærið honum hanann og látið það ekki undan dragast.« »Svo skal vera,« ansaði Kríton, »en hugsaðn eptir, hvort þú hefir nokkuð meira að segja.« Til þeirra orða svaraði hann engu. Leið svo lítil stund, þá tók hann dauðakippinn og voru augu hans þegar brostin. Kríton sá það og veitti honum samstundis nábjargir.

þannig varð viðskilnaður ástvinar vors, hins bezta manns, sem vjer höfum þekkt og að líkindum hins bezta og rjettlátasta manns sem nokkurntíma hefir verið.«

## 4. Frá Alexander hinum mikla.

Alexander hinn mikli var konungur í Makedóníu; það ríki lá nyrzt af hinum grisku löndum. þegar hann var fæddur, skrifaði faðir hans, Filippus, sem einnig var mikill konungur,

*) Eskulap var lækningaguð og var það siðvenja að menn færðu honum þakkir fyrir heilsubata eptir afstaðna sjúkdómslegu.

spekingnum Aristotelesi á þessa leið: »jeg hefi getið son, en jeg gleðst ekki eins mikið yfir fæðingu hans, eins og hinu, að hann er fæddur á þínum dögum, svo þú getir alið hann upp eins og konungur þarf fóstur að fá.« Og von þessi rættist; því Aristoteles tók Alexander til fræðslu, og aldrei hefur frægari kennari átt frægari lærisvein. Alexander nam vísindi með löngun mikilli, en vanrækti eigi heldur það, sem konungssyni hæfir. Metnaður hans vaknaði snemma; þegar menn hrósuðu afreksverkum föður hans, mælti hann hryggur í skapi: „faðir minn gjörir allt, svo jeg hef ekkert eptir til að framkvæma.« þegar hann var 18 ára að aldri, þótti hann afbragð annara manna í orustum. Fám árum síðar tók hann konungdóm í Makedóníu eptir föður sinn. þegar hann var orðinn konungur, eggjaði hann þegna sína og alla Grikki til þess að hefna á Persum. þá rjeði Persalöndum Daríus Kódómannus, allgóður konungur, en enginn skörungur. Alexander fór yfir til Asíu með einar 35 þúsundir manna á móti ógrynni hers, er Daríus hafði. þegar Alexander var kominn yfir til Asíu, stóðst ekkert við honum, og vann hann á stuttum tíma alla Asíu hina minni, og ætlaði lengra að halda; varð hann þá veikur; og í því er læknir hans, Filippus, færði honum heilsudrykk, kom annar maður með brjef til hans, og var hann í því varaður við Filippusi, því hann hefði lofað Persakonungi að byrla honum eitur. Alexander las brjefið, og rjetti það síðan Filippusi, en tók jafnskjótt til sín drykkinn óskelfdur. Fám dögum síðar var hann orðinn heilbrigður, og hjelt þá ekki kyrru fyrir. Hrökk Daríus hvervetna fyrir, og flúði til hinna fjarlægustu hjeraða í löndum sínum; var hann þar veginn af einum þegna sinna. Alexander bar þar að, er lík hins voldnga konungs lá óhirt á víðavangi. Gat þá Alexander ekki tára bundizt sakir fallveltu lífsins, og tók af sjer skikkjuna, og lagði yfir óvin sinn, og ljet greptra, einsog slíkum höfðingja sómdi, en banamann hans ljet hann af lífi taka.

þegar Alexander hafði unnið öll lönd Persa, hjelt hann lengra norður og austur. Sjálfur tók hann jafnan þátt í öllum þrautum hermanna sinna; var hann jafnan í broddi fylkingar, og hinn fyrsti, er stje yfir veggi hinna herteknu borga. En Grikkir áttu ekki einungis að berjast við óvinaher, heldur einnig við brennandi sólarhita, hungur og þorsta. Einhverju sinni, er herinn allur var yfirkominn af þorsta, færði hermaður einn Alexandri vatn á skildi sínum, en Alexander tók vatnið, sýndi það liðinu, hellti því niður og mælti: »jeg drekk ekki einn, þegar allir eru þyrstir.« Hermennirnir urðu frá sjer numdir, og mæltu: »áfram konungur, farðu lengra með oss. Vjer erum ekki þyrstir, ekki þreyttir, ekki dauðlegir, meðan vjer eigum slíkan konung.«

þegar Alexander hafði einnig unnið nokkurn hluta af Indlandi, hjelt hann liði sínu til Babylónar. Hugsaði hann þarnæst um að mennta og siða hina mörgu þegna sína, og gjöra þá farsæla, en þá kom dauðinn, og gjörði enda á afreksverkum hans. Alexander var 33 ára, er hann hafði unnið flest þau lönd, er þá voru kunn, og þó var þetta ekki hans eini heiður. Ríki Alexanders skiptist, að honum látnum, í mörg smáríki: Makedóníu, Grikkland, Egyptaland, Sýrland, og fleiri. Í flestum ríkjum þessum voru duglausir konungar, og Rómverjar unnu þau síðan hvort af öðru.

## 5. Frá Rómverjum.

Eins og Grikkir voru mest metnir af öllum fornþjóðum í Evrópu, svo stóð mestur ótti af Rómverjum. Grikkir voru mildir og glaðlyndir, en Rómverjar harðir og alvörugefnir. Veldi Rómverja náði í fyrstu aðeins yfir Rómaborg og landið þar umhverfis, en á Krists dögum hafði það aukizt svo, að það náði yfir öll lönd í Evrópu, Asíu og Afríku, þau, er liggja að Miðjarðarhafi. Veldi sitt juku Rómverjar með þreki, hyggindum og hlýðni við lögin.

Á fyrstu öldum Rómaveldis voru þar konungar; en er sællífur konungsson nokkurr spjallaði fagra konu, er Lucretia hjet, var konungsættin svipt völdum. Hið æðsta vald var þá fengið í hendur tveim ræðismönnum, er þjóðráðið valdi á ári hverju; í ráði því sátu 300 öldungar. Slík ríki kalla menn lýðstjórnarríki. Vjer skulum nú nefna nokkra hinna frægu manna í hinu rómverska lýðstjórnarríki.

Mucius Scævola. Erlendur konungur nokkurr sat um Rómaborg; tók þá Mucius fyrir sig að láta líf sitt fyrir ættjörðu sína. Fór hann í herbúðir konungs, með knif, er hann fól undir skikkju sinni, í þeim ásetningi, að vinna á konunginum. þegar hann kom í tjald konungs, sat konungur við skrifborð hjá skrifara sínum, og voru þeir báðir í líkum klæðum. Af því að Mucius þekkti ekki konung, vo hann skrifara hans í staðinn fyrir sjálfan hann. Var Mucius þá tekinn höndum, en hann skelfdist ekki, og mælti við konung: »jeg er rómverskur borgari, og heiti Mucius; jeg er óvinur þinn, og ætlaði að drepa þig, og dauðann óttast jeg ekki.« Konungur ógnaði honum með hinum hörðustu píntingum; Mucius svaraði engu, en rjetti hönd sína í eld, er brann þar hjá, og hjelt henni í eldinum, unz hún var öll brunnin. Konungurinn undraðist hugrekki og þrek Rómverjans, ljet Mucius fara brott, og samdi frið við landa hans.

Kajus Fabricius. Griskur konungur nokkurr, að nafni Pyrrus, átti í hernaði við Rómverja, og veitti Grikkjum betur.

En þó Pyrrus sigraði, missti hann í hverri orustu talsvert af liði sínu, og vildi því semja frið. Sendi hann þá sendiherra til hins rómverska ráðs, en það vildi ekki semja frið nema sjer í hag. Sendiherrann færði Pyrrusi svar þetta, og mælti um leið: »jeg stóð frammi fyrir ráðinu, og mjer virtist það vera eintómir gamlir konungar.« Fám dögum síðar gjörðu Rómverjar sendiför til Pyrrusar, til þess að skipta um fanga; fyrir sendiför þessari var Kajus Fabricius, maður bláfátækur, en ósjerplæginn. Konungur bauð honum stórfje, en Kajus vildi ekki hafa. Ljet þá konungur leiða fíl mikinn að baki Kajusar, og teygði fíllinn, að honum óvörum, ranann yfir höfuð honum, og öskraði hátt. En Kajusi brá ekki, og mælti hann við Pyrrus: »dýr þitt skelfir mig jafnlítið, og gull þitt tælir mig.« Rómverjar hjeldu stríðinu fram, og höfðu sigur að lokum.

Fabius Maximus varð frægur í stríðum þeim, er Rómverjar áttu við Kartagóborg. Hinn mikli foringi Kartagóborgarmanna, Hannibal, hafði unnið meiri hluta Ítalíu. Gjörðu þá Rómverjar hinu vitra og hyggna Fabius að foringja; fór hann hægt í fyrstu, og hjelt sig mest á fjöllum uppi, og ljet Hannibal elta sig; var hann því kallaður »hægfari« (cunctator), og var nokkur hluti hersins fenginn í hendur Minuciusi. Minucius lagði þegar til orustu við Hannibal, og lá nærri, að hann týndi þar öllum mönnum sínum; kom þá Fabius að með sína menn; hjelt þá Hannibal undan og mælti: »loksins rifnaði þá ský þetta, er svo lengi hefur setið á fjallatindunum.« En Minucius mælti við menn sína: »vjer skulum fara til Fabíusar, og heilsa honum einsog föður, og til manna hans, sem hafa frelsað oss, og þakka þeim.« Ófriðurinn milli Rómverja og Kartagóborgarmanna fór fram í Ítalíu, uns Rómverjar sendu her mikinn yfir til Kartagóborgar; mátti þá Hannibal hverfa þangað af Ítalíu. Fyrir liði því, er Rómverjar sendu, var Scipio hinn ýngri; áttu þeir Hannibal þar orustu mikla; voru þeir báðir hinir mestu foringjar á þeim tímum; fjekk Scipio sigur, en Rómverjar tóku Kartagóborg og lönd þau, er henni fylgdu.

Julius Cæsar. Jafnframt og Rómverjar lágu í hernaði við aðrar þjóðir, áttu þeir einnig í innbyrðis óeirðum. Alþýðumenn höfðu þegar, strax eptir að konungsvaldið var aftekið, borið sig upp, og viljað láta auðmennina og hina heldri slaka til. Safnaðist alþýðan út fyrir borgina á fjall eitt þar í grennd, og ætlaði að stofna lýðstjórnarríki sjer. Ræðismennirnir og ráðið sendu þá mann nokkurn, að nafni Menenius Agrippa, til lýðsins. Menenius mælti við lýðinn á þessa leið: »Einusinni kom upp stríð á milli limanna á líkama mannsins; ákærðu þeir allir magann. Handleggirnir kváðust mega starfa, fæturnir ganga,

höfuðið hugsa, en maginn gjörði ekkert annað en það, að láta þá þjóna sjer; urðu þeir þá á það sáttir, að hætta öllum störfum. En við það varð allur líkaminn veikur, og limirnir allir misstu afl sitt; sáu þeir þá, að þó svo liti út, sem maginn að eins heimtaði þjónustu limanna, þá veitti hann þeim öllum afl og samanhengi; gjörðu þeir eptir það viljugir verk sitt.« Lýðurinn skildi orð Menenísar, sneri heim til borgarinnar, og sætti sig við ráðið.

Allt fyrir þetta linnti ekki borgarastríðum í nokkrar aldir. Metnaðargjarnir menn notuðu óeirðir þessar, söfnuðu að sjer flokkum manna, og börðust hvorir við aðra. Hjerumbil 100 árum áður en Kristur fæddist börðust þeir Marius og Súlla; var Marius foringi alþýðumanna, en Sulla lendra manna; hafði Súlla sigur. Júlíus Cæsar gjörði enda á óeirðum þessum; hafði hann áður unnið Frakkland allt, og safnað að sjer miklum flokki alþýðu. Lendir menn sendu Pompejus mikla til móts við hann, en Cæsar hafði sigur og gjörðist einvalds höfðingi í Rómaborg. Svipti hann þá stjórnarráðið allri hluttekt í stjórn ríkisins, og þótti hann ráðríkur mjög. Þessu undu Rómverjar illa, og tóku sig saman nokkrir menn, og gjörðu samsæri gegn honum. Rjeðust þeir á hann í ráðhúsinu; varðist Cæsar þeim um hríð; en er hann sá í flokki þeirra ungan mann nokkurn, er Brútus hjet, og var uppeldissonur hans, gaf hann upp vörnina og mælti: »og þú líka, Brútus, sonur minn.« Ljet Cæsar þar líf sitt.

## 6. Octavíanus Ágústus.

Octavíanus gjörði enda á hinni rómversku lýðveldisstjórn. Hann var systurdóttursonur Cæsars, og erfingi hans; leitaðist hann því við að hefna hans, og gjörði í því skyni samband við hinn volduga Antoníus. En brátt urðu þeir ósáttir, og var þó Antoníus kvæntur Octavíu, hálfsystur Octavíanus. En er Antonius festi ástir við Kleopötru, drottningu á Egyptalandi, og hafði rekið frá sjer Octavíu, gjörðist með þeim fullur fjandskapur; þeir börðust, og hafði Octavíanus hvervetna sigur, en Antoníus og Kleopatra tóku sig sjálf af lífi.

Octavíanus gjörðist nú einvaldur, og með því lauk þjóðfrelsi Rómverja; hann nefndi sig eptir ættingja sínum Cæsari, og af því er komið nafnið »keisari«. Ríki Octavíanus náði yfir Ítalíu, Spán, Portúgal, Frakkland, suðurhluta Þjóðverjalands, Grikkland, Tyrkjalönd, Asíu hina minni, Egyptaland og norðurhluta Afríku. Á dögum hans vorn þeir uppi mælskumaðurinn Cicero, og skáldin Ovidíus, Virgilíus og Horatíus.

Rómverjar og Grikkir voru höfundar þeirra alda speki. En speki þá skorti hinn sanna grundvöll, og því megnaði hún ekki

til lengdar að hamla því, að svall og allskonar ósiðsemi dreifðist út og festi rætur. Einkum fór munaður og sællífi í vöxt; kvað svo mikið að því, að auðmenn kepptust hverir við aðra að hafa rjetti þá á borðum, sem sjaldgæfastir væru og dýrastir. Slíkur lifnaður spillti hjörtum manna, svo að ódyggðir og lestir urðu almennir. Á þeim tímum var það almennt að byrla eitur, og kona Octavíanus gekk hvað bezt fram í því. Ljet hún byrla eitur allri ætt keisarans, og síðast sjálfum honum, til að koma til ríkis syni sínum, er hún hafði átt með fyrra manni sínum. Sonur hennar, Tiberius, og fleiri keisarar um langan tíma, erfðu guðleysi hennar, og nafn þeirra var viðbjóður samtíðarmanna þeirra, og allra, er það þekkja. Aldarhátturinn var spilltur, en hinir fáu, sem ráðvandir voru, báru harm sinn í hljóði, en hjarta þeirra þreyði nýja tíma.

## 7. Frá Norðurlöndum í fornöld.

Norðurlönd, (þ. e. Svíþjóð, Noregur og Danmörk) voru lengi framanaf lítt kunn. Nokkru fyrir Krists burð er mælt að Óðinn hafi komið þangað úr Austurálfu heims, og brotizt þar til valda. Óðinn flutti þangað nýjan átrúnað. Eptir dauða hans var hann sjálfur tignaður sem guð. Trúarbrögð Óðins hvöttu áhangendur þeirra mjög til hreysti. Hraustir menn skyldu eptir dauðann gista í Valhöllu með Óðni, og lifa þar við sælu, en illir menn og ragir skyldu fara til Niflheims, og lifa þar við eymd og örkumsl. En um síðir átti þó bæði Valhöll og Niflheimur undir lok að líða, og skyldu þá góðir menn fá vist á Gimli hjá Alföður, en illir menn fara til Nástrandar. Ýmsir af höfðingjum þeim, er komu með Óðni austanað, voru tignaðir sem guðir, Týr var orustuguð, Baldur sólarguð, Freyja ástar- og vígagyðja, Óðinn skáldskapar- og vígaguð; Þórr rjeðl veðrátt og árferði.

Þá voru mörg smáríki á Norðurlöndum, en þau sameinuðust smámsaman í stærra ríki. Þannig náði Danr mikilláti, Skáneyjarkonungur, nálega allri Danmörk undir sig; Ívar víðfaðmi lagði undir sig þvínær alla Danmörk og Svíþjóð; en nálægt 900 árum e. Kr. b. var það, að Gormur gamli lagði undir sig öll smáríki í Danmörku, og um sama leyti lagði Haraldur hárfagri undir sig öll smáríkin í Noregi.

Einn af hinum voldugustu konungum á Norðurlöndum var Knútur ríki, sonur Sveins tjúguskeggs. Sveinn hafði lagt undir sig mikinn hluta Englands, áður en hann dó. Vildu Englendingar nota sjer fráfall hans til að losast undan Dönum, með því að Knútur sonur hans var þá barn að aldri. Tóku þeir þá til konungs yfir sig Aðalráð, er Sveinn hafði rekið þar

frá völdum. Seinna hjelt Knútur til Englands með flota mikinn, og vann loksins undir sig England. Sá hjet Játmundur járnsíða, er var fyrirliði Englendinga gegn honum. Knútur efldi kristni í löndum sínum, og ljet reisa margar kirkjur. Hann lagði og undir sig nálega allan Noreg; beitti hann til þess bæði brögðum og hreysti, fjegjöfum og vopnum. Knútur var framanaf harður, og jafnvel grimmur í stjórn sinni, en seinna gjörðist hann mildari og spakari í lund.

Það er sagt, að hirðmenn Knúts konungs slóu honum mjög gullhamra og lofuðu veldi hans og mátt. Einhverju sinni, er þeir ljetu mest, bauð Knútur þeim að færa hásæti sitt til sjávar niður og í fjöru fram, setti hann kórónu á höfuð sjer og tók veldissprota í hönd og fór með. Er hann var kominn í fjöruna settist hann á stólinn, en aðfall var. Fyrirbauð hann sjónum að nálgast sig eða hásæti sitt. En sjórinn fjell að eins og eðlilegt var. Vildi hann með þessu sýna hirðmönnum sínum, að hann væri maður vanmáttugur, og að gullhamrar þeirra væru hræsni.

## 8. Frá komu Kristindómsins.

Meðan guðleysi og eymd sú, er því jafnan fylgir, og eptirþrá betri tíma drottnaði þannig á hinum síðustu öldum heiðninnar, var tíminn kominn, að guð sendi sinn eingetinn son, til þess að sýna mönnunum hina sönnu lind vizkunnar, og hina sönnu bót allskonar eymdar. Þá fæddist í Betlehem á Gyðingalandi frelsari mannkynsins, Jesús Kristur, höfundur og fullkomnari trúar vorrar. Náð guðs var með honum frá barndómi; hann óx upp, og styrktist í anda, og var elskaður af guði og mönnum. Þegar hann var 30 ára, tók hann skírn í ánni Jórdan, og vígði sig hinni guðlegu köllun sinni.

Hann kallaði hið villuráfandi mannkyn til apturhvarfs og trúar: »það er hið eilífa lífið,« sagði hann, »að þjer þekkið hinn eina sanna guð, og þann, sem hann sendi, Jesúm Krist.« Hann minnti hinn spillta heim á kærleikann, með hinu mikla boðorði: »þú átt að elska drottinn guð þinn af öllu hjarta þínu, allri öndu þinni og hugskoti, og náunga þinn einsog sjálfan þig.« En þegar líf hans hjer á jörðu var fullkomnað, þegar hann hafði stofnað guðs ríki á jörðunni, og boðað hinum iðrandi frelsi, gekk hann, hinn eingetni guðs sonur, í dauðann, til þess að hverr, sem trúir á hann, glatist ekki, heldur hafi eilíft líf. Hann fór aptur til föðursins í augsjón lærisveina sinna; en kenning hans breiddist út yfir jörðina.

Eptir burtför Jesú fóru lærisveinar hans til margra landa, og kenndu mönnum það sem þeir höfðu heyrt og sjeð. Fólkið

streymdi til þeirra, því öll skepnan andvarpaði eptir frelsi. Grikkir voru leiðir orðnir á skurðgoðum sínum, og reistu altari hinum óþekkta guði. Páll postuli kom til þeirra, og kenndi þeim að þekkja hinn sanna guð. Pjetur boðaði Rómverjum kristni. En bæði Páll og Pjetur, og flestir lærisveinar Jesú, máttu láta líf sitt fyrir heiðingjum. En kristin trú breiddist út á degi hverjum, og 300 árum eptir daga Octavíanus ljet hinn rómverski keisari, Konstantínus mikli, skírast í Jesú nafni; var það sigur kristninnar yfir heiðninni. En því meir sem kristin trú breiddist út í hinu spillta ríki Rómverja, því meira missti hún af dýpt sinni og hreinleika; því hversu gott sem sáðið er, dafnar það ekki vel í spilltum jarðvegi. Gyðingar höfðu misst hina fyrri trúrækni feðra sinna; Grikkir voru orðnir ánauðarlýður og Rómverjar voru svæfðir í sællífi og saurlifnaði. Til að taka kristni, og bera ávöxtu hennar, þurfti óspilltar þjóðir, og slíkar þjóðir voru hinar Gotnesku og Germansku þjóðir í Evrópu.

Þjóðir þessar hafði guð útvalið til að taka við valdinu af Rómverjum. Ríki þeirra á Ítalíu leið undir lok, og hinir Germansku þjóðflokkar breiddust út um Evrópu þvínær alla. Gotar settust að á Spáni og Ítalíu, Frankar og Borgundar í Frakklandi, Alimenn og Saxar á Þjóðverjalandi; Slavar einir sátu kyrrir austantil á Evrópu. Allar þjóðir þessar voru heiðnar, en tóku brátt kristni, og festi hún hjá þeim dýpri rætur en hjá Rómverjum. Herferðir þjóða þessara hafa menn kallað þjóðaflakk.

## 9. Frá Karli hinum mikla.

Karl hinn mikli, eða Karlamagnús, konungur Franka, erfði eptir föður sinn, Pipín, Frakkland allt, og mikinn hluta Þjóðverjalands; með hernaði vann hann Langbarðaland á Ítalíu, Saxa á Þjóðverjalandi, og nokkurn hluta af Ungaralandi. Rjeði hann þannig öllum vesturhluta hins forna Rómaveldis. Hinn rómverski biskup, er smámsaman hafði tekið sjer yfirráð yfir kristninni, og nefndi sig „páfa“, þóttist geta gefið konungi keisaranafn. Karl hafði áður gjört honum greiða, og vildi páfinn endurgjalda hann. Þegar Karl, jóladaginn árið 800, kraup fyrir altarinu í kirkjunni í Rómaborg, gekk páfi að honum, og setti gullkórónu á höfuð honum, en lýðurinn kallaði: „lifi og sigri Karl, hinn vegsamlegi og mikli rómverski keisari, er guð hefur krýnt.“

En Karl var eigi síður frægur sakir umhyggju þeirrar, er hann bar fyrir þegnum sínum, vizku, rjettlætis og guðsótta. Hinu mikla ríki sínu skipti hann í fylki, og krafðist, að fá

nákvæmar skýrslur um það öll, og sendi hvervetna skipanir sínar, sem einnig gæðingar hans urðu að hlýða. Innsigli hans var grafið á sverðsknapp hans, og er hann hafði innsiglað einhverja skipan, er hann gaf þverbrotnum jarli sínum, mælti hann opt: »hjer er skipan mín, og þessi« — benti um leið á sverðið — »skal kenna þeim að hlýða henni.« þessvegna þorði enginn lendur maður hans að sýna þegnum hans ójafnað. Auk þessa efldi hann mjög kaupverzlan og akuryrkju, og vann sjálfur að garðyrkju af kappi miklu.

Karl bar mikla umhyggju fyrir menntan þegna sinna; enda var hann á sinni tíð hinn menntaðasti maður. Einkum bar hann umhyggju fyrir uppfræðingu ungmenna; stofnaði hann því skóla við hirð sína, og hlutu allir þegnar hans að senda þangað börn sín. Einhverju sinni kom hann sjálfur í skóla þennan, til að kynna sjer framfarir barnanna; raðaði hann þá öllum hinum námfúsu til hægri hliðar sjer, en hinum lötu til vinstri hliðar; og er hann sá, að hin lötu börn voru flest af tignu foreldri, ávarpaði hann þau á þessa leið: »þjer letingjar! hugsið eigi, að tign ættar yðar og fegurð ásýndar yðar hafi neitt gildi hjá mjer, nema þjer með ástundan bætið það, sem þjer hafið vanrækt.« Karl var maður trúrækinn, og heimtaði af öllum lastvart líferni, en einkum af klerkum. Opt varð honum það, að verða strangur um of; kom það einknm fram við Saxa, er hann neyddi þá til að taka kristni með slíkri grimmd og hörku, að þeir enduðu bænir sínar til Óðins með þessum orðum: »styrk oss móti illmenninu Karli, hinum mikla manndrápara.«

þegar Karl fann, að mætti hans fór að hnigna, gekk hann í kirkju með son sinn, Hlöðvi, er hann hafði ákvarðað að verða skyldi keisari eptir sig. þegar hann hafði beðið til Guðs með hárri röddu, áminnti hann son sinn, í áheyrn lýðsins, að stunda guðsótta og rjettsýni, án manngreinarálits. »Viltu verða við bæn minni,« mælti Karl síðan, en Hlöðver hjet því grátandi, »svo tak við kórónunni, og lát hana á höfuð þjer, og vert minnugur loforða þinna, meðan þú ber hana.« þrem mánuðum síðar andaðist Karl, 28. Januar 814.

Sonur Karls, og eptirrennarar hans voru ekki búnir þeim hinum miklu kostum, sem hann hafði haft; ríki það, er hann rjeði, skiptist í 3 ríki: Frakkland, þjóðverjaland og Ítalíu. Í öllum þessum ríkjum voru óstjórnsamir og dáðlausir konungar; lendir menn höfðu mest ráðin; þeir breyttu eptir eigin vild sinni, og ekki var annan rjett að hafa, en hnefarjettinn. Ríki þessi voru áreitt mjög af víkingum frá Svíþjóð, Noregi og Danmörku. Víkingar þessir voru heiðingjar, bæði grimmir og harðfengir, og stóð af þeim lengi hinn mesti ótti.

### 10. Frá Valdimari 1 og Valdimari 2., Danakonungum.

Árið 1157 var bardaginn á Graðarheiði; þar vann Valdimar 1. sigur á Sveini svíðanda, og varð hann eptir þann sigur einvaldur í Danmörku. Hann var ötull og framkvæmdarsamur konungur, en eigi var hann heldur einn að verki. Absalon biskup var jafnan í ráðum með honum; þótti Absalon vera fremri sem stjórnvitringur og hershöfðingi, enn sem klerkur. Hann var fyrst biskup í Hróarskeldu, en síðan í Lundi. Valdimar konungur átti í ófriði við Vindur, sem bjuggu norðantil á ströndum þýzkalands; voru þeir víkingar miklir, og ónáðuðu opt Dani, nábúa sína. Absalon fór til móts við þá; átti hann við þá sjóorustu, og vann sigur. Síðan tók hann frá þeim borgina Arkún á eynni Rügen, og þröngvaði þeim til að taka kristna trú. Eptir dauða Valdimars 1. kom til ríkis sonur hans, Knútur 6, og var Absalon einnig ráðgjafi hans. Absalon unni mjög vísindum, og efldi þau á allar lundir. það var að hans tilstuðlan, að Saxo Grammaticus og Sveinn Ákason rituðu Danmerkur sögu á latínu. Absalon efldi einnig borgina Kaupmannahöfn, hann ljet víggirða hana, og prýða á ýmsan hátt.

Eptir Knút 6. kom til ríkis bróðir hans Valdimar 2., (hinn sigursæli). Hann lagði undir sig löndin fram með Eystrasalti sunnanverðu (Mecklenburg, Pommern og Lífland). Í ófriðnum við Líflendinga var það, að hinn hvíti kross (Danabrogsmerkið) fjell af himnum ofan, og lenti í miðjum Danaher; er bann síðan hafður í merki Danmerkur.

Valdimar konungur var heppinn og sigursæll framanaf æfinni, en seinna sneri hamingjan honum bakinu. Hann átti í deilum við Hinrik greifa frá Schwerin, og kom greifinn eittsinn að konungi óvörum, er hann var á dýraveiðum, tók hann höndum, og hjelt honum í fangelsi í nokkur ár. Að sönnu ljet hann hann um síðir lausan gegn ærnu fjegjaldi, og er Valdimar síðan ætlaði að hefna sín á greifa, beið hann mikinn ósigur fyrir honum, og hætti Valdimar þá styrjöldum, og leitaðist við, það sem eptir var æfinnar, að efla hag þegna sinna, þeirra er hann átti eptir. Hann dó árið 1241.

### 11. Fra páfum og múnkum.

Hinn helzti maður í allri kristninni var páfinn í Rómaborg. Beitti hann valdi sínu eigi einungis til þess, að snúa heiðingjum til kristinnar trúar, heldur og til að halda þeim í hlýðni. En páfar innleiddu einnig margar rangar kenningar, er þeir ljetu heita kristindóm, en alþýða mátti þá eigi lesa heilaga ritningu,

og gat því ekki vitað, hvað rjett var eða rangt. Þannig töldu þeir mönnum trú um, að til hefðu verið helgir menn, er gjört hefðu meira gott, en þeir sjálfir þurftu til þess að verða sáluhólpnir, og því ættu menn að ákalla þá. Ennfremur kenndu páfar, að þeir hefðu vald til að fyrirgefa syndir, og tóku fje fyrir. Kenndi nú nokkurr annann lærdóm, en páfar, var hann dæmdur villukennari og bannfærður, þ. e. að honum var bannað að koma í guðs hús, og umgangast aðra menn, og jafnvel ógnað með fjötrum og báli.

Hinn ráðríkasti páfi var Gregoríus hinn sjöundi, er var uppi hálfri þriðju öld eptir daga Karls hins mikla. Hann bannaði konungum að nefna biskupa í löndum sínum, og þóttist sjálfur eiga rjett til þess; hann bannaði klerkum að halda guðsþjónustu á landsins eigin máli, heldur skyldi hún haldin á latínskri tungu, er fæstir skildu; hann bannaði og klerkum að kvænast. Keisarinn í Þjóðverjalandi vildi eigi láta slíkt viðgangast í löndum sínum; setti þá Gregoríus hann í bann, og æsti þegna hans til að gjöra uppreist, og neyddi keisara til að fara til Ítalíu um hávetur með konu og börn; mátti keisari standa berhöfðaður og berfættur í 3 sólarhringa fyrir utan hallardyr páfa, áður hann fengi áheyrn, og páfi leysti hann úr banninu. Seinna hefndi keisari svívirðu þessarar; varð páfi þá að flýja undan honum úr Rómaborg, og ljet líf sitt í útlegð. En páfar þeir, er eptir hann komu, jukust að valdi og áliti, og það var Lúter, er fyrstur manna setti takmörk óhæfu þeirra.

Eitt af því, sem mjög jók vald páfanna, voru hinir mörgu múnkar, er þeir höfðu undir sjer, og hvervetna prjedikuðu hlýðni við páfa, eins og sjálfur guð væri. Múnkar komu snemma upp á Egyptalandi. Menn hjeldu, að þeir gætu lifað fremur til eflingar andlegs frelsis, ef þeir færu úr skarkala heimsins, og lifðu á afviknum stöðum. Gjörðu þetta nokkrir, og voru kallaðir einsetumenn. Síðar fluttu margir saman, og bjuggu í klaustrum, og eyddu dögum sínum með guðræknisiðkunum. Síðar fóru menn að ganga í klaustur af leti og fjegirni; byggðu þeir skrautleg hús fyrir fje það, er guðhræddir menn gáfu klaustrunum, og eyddu lífi sínu með svalli og iðjuleysi.

Hinir merkustu múnkaflokkar voru: hinir lærðu Benedictsmúnkar og ölmusumúnkarnir, Franciskanar og Dominikanar. Sömuleiðis voru stofnuð klaustur fyrir kvennmenn; þau voru kölluð Nunnuklaustur.

## 12. Frá krossferðum.

Gyðingaland, þar sem Jesús lifði og var krossfestur, og sem fyrir því var kallað landið helga, hafði fyrir löngu fallið undan umráðum kristinna manna. Tyrkir, og aðrar þjóðir Múhameðstrúar, höfðu unnið landið, og þegar pílagrímar, eða þeir, sem vitjuðu hinna helgu staða, komu þangað til þess að halda guðsþjónustu við gröf frelsarans, máttu þeir opt sæta illri meðferð af þjóðum þessum. Vegna þessa langaði marga guðrækna menn til að ná landinu aptur. Þegar löngun þessi var orðin almenn, kallaði páfi saman fund í borginni Klermont á Frakklandi, og kom þar ótölulegur fjöldi manna. Páfi hjelt snjalla ræðu, og stakk uppá, að vinna aptur hið helga land; hreif þessi ræða páfa menn svo mjög, að óðar en henni lauk, kváðu við ótal munnar: »guð vill það! guð vill það!« Krupu þá allir niður, og páfinn lýsti yfir þeim blessan guðs. Tók páfi rauðan kross, og festi á herðar biskupi einum, er hann vildi að færi förina. Allir þeir, er vildu taka þátt í leiðangri þessum, merktu sig slíkum krossi; voru ferðir þessar fyrir þá sök kallaðar krossferðir.

Meðal þeirra, er ljetu krossast, voru margir miklir og voldugir riddarar, er höfðu marga liðsmenn; en enginn þeirra var guðræknari, hraustari og veglyndari en Godfreður af Bouillon; varð hann því foringi ferðarinnar. Liðsafli Goðfreðar var 80,000 manna, en hinir aðrir höfðingjar, er tóku þátt í förinni, höfðu svo marga hermenn, að þegar herinn kom í Asíu, voru í honum 100,000 manna, og 600,000 fótgönguliðs, að konum og múnkum meðtöldum. Frá Asíu hinni minni sótti herinn suður til Gyðingalands, en á hinum langa vegi eyddist hann svo, bæði af veikindum og árásum óvina, að þegar hann kom að takmörkum hins helga lands, voru eptir tæpar 60 þúsundir. Við hvern helgan stað, sem getið er um í sögu lausnarans, könnuðust krossfarendur með heilögum fögnuði, svo sem Galíleu, Samaríu, Nazareth, Betlehem, o. fl. Loksins áttu þeir að fara yfir hæðir nokkrar, og sáu þá allt í einu Jórsalaborg. »Jórsalaborg, Jórsalaborg!« hljómaði óðar um allan herinn, og helgur ótti hrærði allra hjörtu, og tár hrundu af augum þeirra; þeir vörpuðu sjer niður á hina helgu jörð, og kysstu hana; þeir tóku skó sína af sjer, með því þeir minntust þeirra orða: »tak skó þína af þjer, því staður sá, er þú stendur á, er heilagur.«

Eptir það bjóst Goðfreður til að vinna hina víggirtu borg; ljet hann reisa turna tvo úr trje; voru þeir 7 álnum hærri en borgarveggirnir. Hið efra var önnur hlið turna þessara þannig tilbúin, að slá mátti þeim niður, einsog brú væri. Eptir að

Goðfreður hafði setið um borgina í rúmar 5 vikur, tókst honum að koma turnunum nógu nærri borgarveggjunum; bauð hann þá að láta brúna falla. Fór hann þá fremstur í flokki manna sinna um brúna yfir á borgarvegginn og ofan í borgina. Nú hófst orustan í borginni. Skjótt komu fleiri krossfarendur til bardagans, og opnuðu þeir loks borgarhliðin að innan, og hleyptu inn fjelögum sínum. En er krossfarendur voru komnir inn í borgina, gleymdu þeir miskun og mannást Jesú; æddu þeir sem hamstola, og drápu alla Tyrki, sem þeir náðu. Eptir það tóku þeir að ræna eigum hinna föllnu. En Goðfreður var of guðhræddur til þess að taka þátt í slíku athæfi, heldur gek hann með nokkrum riddurum berfættur til grafar Drottins, og baðst þar fyrir. Loksins stöðvaðist blóðbaðið og vildu þá hermennirnir gjöra Goðfreð að konungi yfir Jórsalaborg, en hann vildi ekki bera gullkórónu þar, sem Jesús hafði borið þyrnikórónu sína; heldur nefndi hann sig »verndara hinnar helgu grafar«. Hann dó í Jórsalaborg tveim árum síðar.

En Tyrkir ljetu ekki kristna menn vera í náðum í landinu helga, og þvínær um 200 ár fóru margir keisarar og konungar herferðir þangað, og gátu þó ekki haldið landi þessu fyrir Tyrkjum. 88 árum eptir að Goðfreður vann Jórsalaborg, tók hinn frægi soldán Saladín borgina aptur, og náðu kristinir menn henni aldrei síðan.

## 13. Frá riddurum á miðöldunum.

Hinar þýðversku þjóðir, er höfðu sezt að í vesturhluta hins forna Rómaveldis, höfðu í fyrstu mjög fáa riddara í liði sínu; en þeir fáu, sem þær höfðu, voru búnir þungum hjálmum og brynjum, og höfðu lagvopn, sverð, kylfur, knífa, o. s. fr. í höndum. Slíkur vopnbúnaður var kostnaðarsamur; voru það því að eins heldri menn og auðmenn, er fóru ríðandi í bardaga; þeir voru kallaðir **riddarar**. Margir riddarar voru svo sólgnir í stríð, að þeir gátu eigi heldur haldið kyrru fyrir á friðartímum. Víggirtu þeir því borgir sínar, og gjörðu árásir hverir á aðra, og rjeðust jafnvel á vopnlausa menn. Tóku sig þá saman nokkrir drenglyndir riddarar til að gjöra enda á slíkri óhæfu. Bundust þeir lögum til þess, að verja hreysti sinni til að hjálpa hverjum til að ná rjetti sínum, og vernda saklausa menn, ekkjur og föðurleysingja. Því á þeim öldum áttu menn eigi því láni að fagna, að lög og dómar gætu verndað fyrir ofbeldi og rangindum.

Smámsaman fengu fjelög þessi nákvæmar reglur, er fjelagsmenn áttu að breyta eptir; einlæg guðrækni, óbifanleg orðheldni, hlýðni við yfirmenn, hugrekki og hreysti, drenglyndi og mildi,

gestrisni við ferðamenn, og kurteisi við göfugar og siðsamar konur voru kostir þeir, sem áttu að prýða sannan riddara. Slíkir riddarar voru í áliti miklu, og gengu jafnvel konungar í fjelag með þeim.

Til þess að halda við vopnfimi sinni, og reyna hreysti hvor annars, tóku riddararnir upp hinar svonefndu burtreiðir eða turniment; var það vopnleikur, er þjóðverjar segja, að konungur þeirra, Hinrik fuglari, hafi fundið upp. Slíkir vopnleikir voru einkum haldnir við hátíðahöld, t. a. m. við krýningar konunga. eða þegar festar fóru fram. Riddarar þeir, sem berjast áttu, tóku skriptir áður, og neyttu heilagrar kvöldmáltíðar. Leikdómendurnir, er voru tignir riddarar, furstar og hefðarkvendi, tóku sæti á háum stað. Gall þá lúðurinn, og riddararnir riðu fram á skrautlegum, brynjuðum hestum; höfðu þeir herkuml, voru klæddir stálplátum, og fylgdu þeim sveinar þeirra. Kallari nefndi síðan nöfn þeirra, og viku þá hetjurnar spölkorn hvor frá öðrum; var þá aptur gefið merki með lúðri, og hleyptu þeir þá hvor móti öðrum með feldum lensum; hjeldu þeir sjer fast við hliðar hestanna, og reyndu til að hrinda hvor öðrum af baki. Opt brotnuðu lagvopnin á hinum hörðu brynjum, en optar hrutu báðir riddararnir af baki. Tóku þeir þá sverðin, og hjuggust á, og reyndu þeir einkum til að höggva herkumlin hvor af öðrum. Sóttust þeir þannig með þúngum höggum; stálbrynjurnar hljómuðu hátt, en allir áhorfendurnir þögðu.

Gæti nú hvorugur unnið annann, gengu umsjónarmenn til, og skildu hina frægu vegendur, og gáfu rúm öðrum. En opt varð hardaginn of ákafur, og margur hraustur riddari ljet líf sitt í þessum hættulega leik. Þegar bardaginn var á enda, var verðlaununum útbýtt. Voru þau annaðhvort dýrmæt sverð, hálsmen, sporar, eður þesskonar. Hin fríðasta frú eður mær rjetti riddaranum verðlaunin, og kraup hann á meðan; en er hann hafði tekið við þeim, mátti hann kyssa á hönd henni og sitja við hlið hennar.

Á krossferðunum fengu riddararnir tækifæri til að láta í ljósi hreysti sína og guðrækni. Goðfreður var sannur riddari. Þá voru og stofnuð andleg riddarafjelög, t. a. m. Jóhannítar, Musteris-riddarar, og hinir þýzku riddarar; tóku þeir fyrir sig að stunda sjúka menn og berjast við Tyrki. Þegar Tyrkir höfðu aptur náð Gyðingalandi, komu riddarar þessir aptur til Evrópu; höfðu þeir einkum aðsetur á Þjóðverjalandi, Frakklandi, Spáni og Englandi.

## 14. Frá Kristofor Kolumbus.

Um árið 1500, bæði fyrir og eptir, urðu margir merkisatburðir; þá var það, að ný heimsálfa fannst á hinum vestlæga hveli hnattarins, það er að skilja Ameríka. Maður sá, er fann álfu þessa, hjet Kristofor Kolumbus. Hann var fæddur í Genúa, og stundaði mjög sjómennsku, er hann var ungur. Af því að skoða landahrjef og að tala við sjómenn, er víða höfðu farið, fekk hann þá hugmynd, að hins vegar á hnettinum hlyti að vera land mikið, og ásetti sjer því að ráðast í það stórræði, að kanna veraldarhafið, ef ske mætti að hann findi land þetta. En er hann fekk engan fararstyrk í Genúa, sneri hann sjer til konungsins í Portúgal; í þá tíð voru Portúgalsmenn hinir mestu sjófarar. En hjá konungi þessum fekk hann eigi heldur neina ásjá. Loksins fór hann til Ferdinands hins Kaþólska, konungs á Spáni, er þá var hinn voldugasti höfðingi í Evrópu; en einnig þar hlaut Kolumbus að bíða í 8 ár, áður menn gáfu gaum að málefni hans. Loksins fekk hann 3 smáskip, og loforð um að verða jarl konungs í löndum þeim, er hann uppgötvaði. Kolumbus lagði skipum þessum útí hið mikla Atlantshaf í ágúst mánuði 1492, og hjelt jafnan í útsuður. Skipverjar voru í fyrstu öruggir, en er þeir höfðu siglt þannig í 40 daga, og ekki sjeð annað en himin og haf, tóku þeir að óttast, að hann leiddi þá í opinn dauðann. Optar en einusinni ætluðu þeir að gjöra uppreisn, og neyða hann til að snúa heimleiðis, og loksins neyddu þeir hann til þess, að lofa því, að hverfa aptur, ef þeir innan þriggja daga sæju eigi land. Sigldu þeir þá áfram, en að kveldi hins þriðja dags eygðu þeir land. Voru þeir þá komnir nærri hinni fögru eyju Guanahani. Kolumbus þakkaði guði frelsi sitt, og kallaði eyjuna San Salvador (þ. e. hinn helgi frelsari). Í miðjum Októbermánuði lögðu þeir að landi. Með fána í annari hendi, en sverð í annari stje Kolumbus á land meðal eyjarhúa, er höfðu safnast saman á ströndinni; menn hans fjellu honum til fóta, og ávörpuðu hann sem jarl konungsins. Uppgötvaði hann nokkrar fleiri eyjar, og hjelt síðan heim til Spánar, og tók Ferdinand við honum með hinni mestu viðhöfn. En þótt Kolumbus síðan færi tvær ferðir, og uppgötvaði meginland Ameríku, var honum illa launað. Öfundarmenn hans rægðu hann við konung, og gáfu honum að sök, að hann vildi verða konungur yfir löndum þeim, er hann hafði uppgötvað; gátu þeir áunnið það, að hann var settur í fjötur. Að vísu var hann dæmdur sýkn, en það voru öll hans laun. Hann andaðist í örhyrgð í bæ einum á Spáni árið 1506. Fjötra þá, er hann ranglega var settur í, hafði hann jafnan með sjer, og ljet grafa þá með líkama sínum til minningar

um hverfulleik konungshyllinnar. Land það, er hann uppgötvaði, var ekki nefnt eptir honum, heldur kallað Ameríka, eptir manni nokkrum, að nafni Amerigo Vespucci, er reit um það ferðasögu.

Hjerumbil 40 árum áður en Ameríka fannst, varð sá annar merkisatburður, að Tyrkir náðu bólfestu í Evrópu. Tyrkir eru Múhameds trúar. Trúarhöfundur þeirra, Múhamed, arabiskur að kyni, var uppi hjerumbil 600 árum eptir að Kristur fæddist. Aðalinntak kenningar hans er þetta: það er til einn guð, og Múhamed er spámaður hans; hreysti trúarinnar vegna er hin æðsta dygð, og hraustir menn Múhamedstrúar njóta hinnar mestu sælu eptir dauðann. Trúarbók þeirra heitir Kóran. Múhamed stofnaði ríki mikið í Arabíu, og juku eptirmenn hans það, svo að það náði yfir Arabíu, Persíu, Egyptaland, Norðurafríku og Spán; var ríki þetta kallað Kalífat, af því að stjórnendur þess, að Múhamed látnum, nefndust Kalífar. Ríki þetta leið undir lok, og Tyrkir stofnuðu nýtt ríki í Asíu hinni minni. Þaðan fóru þeir til Evrópu, og herjuðu á hið grisk-rómverska ríki; höfuðstaður þess var Mikligarður. Árið 1453 vanu hinn tyrkneski soldáu, Múhamed II með því nafni, Miklagarð, og hefur hann síðan verið höfuðstaður Tyrkja; flúðu við það margir lærðir menn griskir til Ítalíu, og breiddu þar út vísindi hinna fornu Grikkja.

Þeir 2 atburðir, er vjer nú höfum getið, eru einir hinir merkustu í mannkynssögunni, og gjörðu breyting mikla í Evrópu. Um sama leyti var það og, að prentlistin var uppfundin, og hafði uppgötvan sú eigi minni afleiðingar.

Maður sá, er fyrstur fann upp prentlistina, hjet Johau Sorgenloch; bjó hann í borg þeirri á Þjóðverjalandi, er Mainz heitir og var aðsetur hans þar kallað zum Gutenberg, og hefur hann því optast verið kallaður Jóhann Gutenberg. Áður höfðu menn að vísu skorið einstök orð á trjespjöld, og prentað þau þannig. Johann Gutenberg fann upp árið 1436 að skera stafina á jafnstórar spítur, er raðað varð hvorri við hliðina á annari, eptir því sem stafir voru í orðunum. Smámsaman fann Jóhann og aðstoðarmenn hans, Jóhann Faust og Pjetur Schöffer einnig upp pressuna, prentsvertuna, að steypa stafina úr málmi, o. s. fr., og var hin fyrsta bók prentuð 1457. Prentlistin útbreiddist að kalla mátti á einu vetfangi til allra landa í Evrópu. Gutenberg naut ekki launa þeirra, sem hann hafði verðskuldað; hann dó í örbyrgð 1468, yfirgefinn og vjelaður af aðstoðarmönnum sínum, en hin mikla uppgötvan mun varðveita nafn hans, meðan heimur stendur.

Við það, að prentlistin var fundin, Ameríka fundin og

Mikligarður unninn, byrjar ný röð af viðburðum. Sagan um það, er síðan hefur til borið, kallast hin nýja saga, eins og það, er bar til áður en ríki Rómverja kollvarpaðist, hefur verið kallað hin gamla saga, og sagan um það, er skeði þar í milli, miðaldar sagan.

En eigi voru minni áhrif þau, er siðabótin hafði, er Lúter kom til leiðar.

## 15. Frá Marteini Lúter.

Marteinn Lúter er fæddur í borg einni á Saxlandi, er heitir Eisleben, 10. dag nóvembermánaðar 1483, og var skírður degi síðar, á Marteinsmessu, var hann því skírður Marteinn. Foreldrar Lúters voru snauðir, og varð hann, er hann var í skóla, að ávinna sjer fje með því að syngja fyrir dyrum manna. Þegar hann var orðinn eldri, fór hann til háskólans í Erfurt, og vildi faðir hans, að hann næmi þar lögfræði. Á bókhlöðunni þar sá hann fyrst heilaga ritningu á latínu. Las hann í henni, og fann þar allt annað en hann hafði hugsað, því kenning kaþólskra var um það leyti orðin mjög ólík kenningu heilagrar ritningar. Um það leyti var það og, að reiðarþruma deyddi vin Lúters við hlið hans, er þeir gengu saman; vaknaði við það hjá honum mikil umhugsan um dauðann, og hætti hann að nema lögfræði. Fór hann þá í eitt af klaustrum Ágústínusmúnka, og lagði mikla stund á lestur heilagrar ritningar. Að vísu sá hann skjótt, að kenning kaþólskra var ekki hinn sanni kristindómur; en hann fann einnig, hve erfitt það er veikum mönnum að finna hinn sanna veg til sáluhjálparinnar. Sálarangist hans fór vaxandi, svo hann gat ekki á fótum verið; þá var það, að hann lýsti fyrir múnki nokkrum efa sínum um sáluhjálp sína, en múnkurinn svaraði: »jeg trúi fyrirgefningu syndanna.« Orð þessi læknuðu sálu Lúters; hann sá, að maðurinn verður hólpinn af náð guðs, en ekki vegna verka sinna; vonin sneri aptur til hans, og með voninni nýtt afl og ný rannsókn guðlegra sanninda. Loksins varð hann kennari við háskólann í Vittenberg, og kaus söfnuður einn þar hann sjer fyrir prest.

Um það leyti var það, að múnkur nokkurr, að nafni Jóhann Tezel, fór um Þjóðverjaland, og seldi, eptir boði páfa, fyrirgefningu syndanna fyrir peninga. Múnkur þessi tældi menn til sín með hinni mestu ósvífni. »Komið hingað,« mælti hann, »og kaupið fyrir 24 skildinga, því jeg leysi yður og yðar látnu vini úr helvítis eldi; þegar silfrið er komið í pyngjuna, fer sálin inn í himnaríki.« Margir einfaldir menn þustu að honum, og keyptu fyrirgefningu synda sinna og annara. Lúter vissi, að guð einn

fyrirgefur syndir, og gramdist honum blindni lýðsins. Prjedikaði hann með afli miklu á móti syndasölunni, og tók saman 95 greinir á móti guðleysi þessu. Alþýða undraðist, að hann skyldi dirfast að mótmæla því, er páfinn kenndi, og páfinn bannfærði hann, en Lúter hafði ekkert lesið í heilagri ritningu, hvorki um páfann nje bann hans, og skeytti því eigi. Tók hann bannfæringarbrjef páfa, og brenndi það. Hann uppgötvaði enn fleiri villur í kenningu páfatrúarmanna, og sagði sig, árið 1520, úr öllu fjelagi við páfa. Lúter stóð fyrst einn uppi með kenningu sína, en bráðum tóku margir að hallast að henni, og meðal þeirra kjörfurstinn á Saxlandi. Nú kom páfinn hinum volduga keisara á Þjóðverjalandi, Karli hinum 5., til að stefna Lúter fyrir ríkisþingið í Worms 1521. Vinir Lúters rjeðu honum frá að fara, en hann fór öruggur af stað. »Þó í Worms,« mælti hann, »væru jafnmargir djöflar, og þaksteinar eru þar á húsum, mundi jeg samt fara.« Ríkisþingið var haldið með viðhöfn mikilli, í miklum og fögrum sal; sat Karl keisari í hásæti sínu, og á báðar hendur 6 kjörfurstar, 25 hertogar og ótal fleiri furstar og höfðingjar; en frammi fyrir þeim stóð hinn fátæklegi Lúter í múnkakápu sinni. Lúter kannaðist við allt, er hann hafði mælt á móti páfa, og varði mál sitt með hæversku og einurð. Þessi voru hans síðustu orð á þinginu: »ef jeg ekki verð sannfærður með orðum heilagrar ritningar, eða skynsamlegum rökum — því páfanum trúi jeg eigi — þá get jeg ekki og vil ekki kalla neitt aptur, því það er ekki ráðlegt að breyta móti samvizku sinni. Hjer stend jeg, jeg get ekki annað; guð hjálpi mjer, amen.«

Keisarinn, og höfðingjar þeir, er við voru, undruðust tölu Lúters, því sannleikurinn sló þá. Allt fyrir það var hann dæmdur ófriðhelgur. En kjörfurstinn ljet leynilega koma honum í vígi það, er heitir Vartburg, þar var Lúter á annað ár, og vissi enginn óvina hans hvar hann var; sneri hann þar heilagri ritningu á þjóðverska tungu, svo allir gætu lesið hana, og dæmt á milli hans og páfa. Þaðan var hann kallaður til Vittenberg, og bjelt hann þar áfram að kenna hinn sanna kristindóm, og hölluðust margir að kenningu hans. Var þvínæst haldið ríkisþing í Speier, og vildu liðsmenn páfa láta banna þar kenningu Lúters, en Lútersmenn mótmæltu, og voru því kallaðir mótmælendur (Protestantar). Árið 1530 gáfu þeir út trúarjátning sína á ríkisþingi í Ágsborg; er hún því kölluð Ágsborgartrúarjátning; samdi hana hinn lærði og skarpvitri aðstoðarmaður Lúters, Filippus Melankton.

Frá þeim tíma breiddist siðabótin út um mörg lönd, það er að skilja: norður- og vestur-hluta Þjóðverjalands, Danmörk, Noreg, Svíþjóð, England og Niðurlönd. Í sumum þessum löndum

tóku menn eigi siðabót Lúters, heldur þá, er þeir Zwingli, og eptir hann Jóhann Kalvín höfðu um sama leyti boðað á Svissaralandi; er kenning sú í fám atriðum frábrugðin kenningu Lúters, og kallast þeir, er hana hafa, reformeraðir. Páfinn, sem nú missti yfirráð yfir löndum þessum, hvatti keisara til að hefja stríð, og mótmælendur bjuggust til varnar, en Lúter rjeði jafnan til friðar. En er hann var látinn, brauzt út ákaft stríð á Þjóðverjalandi, og lauk því svo, að Lúters menn fengu frelsi til að halda tálmunarlaust hina hreinsuðu kenningu, er Lúter hafði boðað.

## 16. Frá Vilhjálmi af Óraníu.

Trúarbótin kom, einsog vjer nýlega gátum um, einnig til Niðurlanda. Land það átti í þá tíð Filippus hinn 2. með því nafni, Spánarkonungur, sonur Karls keisara hins 5. Filippus var höfðingi einþykkur og tortrygginn, og strangur páfatrúarmaður; vildi hann með ofbeldi neyða Niðurlendinga til að halda við hina spilltu páfatrú, innleiddi hinn voðalega rannsóknarrjett, og skerti rjettindi þeirra á margan hátt. Niðurlendingar kröfðust rjettar síns, en fengu háð fyrir áheyrn; voru þeir kallaðir Geusar eður ölmusumenn; einkum var það Holland og hin nyrðri hjeruðin, er sættu illum kostum. Filippus hjelt, að sjer væri hægt að bæla þá undir sig, með því hann var hinn voldugasti konungur um það leyti. Átti hann, auk Spánar og Niðurlanda, mikinn hluta Ítalíu, og lendur miklar í Ameríku, svo það var mál manna, að aldrei væri sólarlag í ríki hans. Norðurhluti Niðurlanda var aptur á móti lítið land; íbúarnir fjelitlir; lifðu þeir einkum af sjóferðum og kvikfjárrækt. Filippus sendi her mikinn til Niðurlanda; rjeði honum hinn harði og grimmi hertogi Alba; undan sverðseggjum hans streymdi óðar blóð Niðurlendinga; stukku þeir úr landi þúsundum saman, og svo leit út, sem neyð þeirra mundi engan enda hafa.

En Vilhjálmur frá Oraníu gjörði enda á neyð þeirra. Á unga aldri var hann í afhaldi miklu hjá Karli keisara; trúði hann honum opt fyrir áríðandi störfum, og þegar hann talaði skilnaðarorð sín við Niðurlendinga, studdist hann við hinar hraustu herðar Vilhjálms. En syni hans, Filippusi, var jafnan illa til Vilhjálms; gaf hann honum jafnframt að sök, að hann espaði Hollendinga til uppreistar. »Það eru eigi Hollendingar, það ert þú, þú!« mælti hann einhverju sinni við Vilhjálm, og þreif æfur í öxl honum. Þegar því Alba kom til Niðurlanda ...ð her sinn, fór Vilhjálmur af landi burt, og til Þjóðverjalands. Þar safnaði hann að sjer fjölda Hollendinga, og trúarbræðra þeirra; en með

því landsmenn hans heima á Hollandi áttu allt sitt traust undir honum, sneri hann heim þangað. Átti hann orustur með litlu liði við hinn óvíga her Alba, þar sem 10 Spánverjar voru um 1 Hollending; veitti honum því ærið erfitt í orustum. Tók hann því það ráð, að hann stofnaði víkingafjelag af Hollendingum, er úr landi höfðu flúið; voru þeir kallaðir sæ-geusar; unnu þeir höfnina við Briel, og varð borg sú aðsetur Vilhjálms manna.

Upp frá þeim tíma veitti Vilhjálmi jafnan betur; smámsaman rak hann Spánverja úr norðurhluta Niðurlanda, og kom á hvervetna siðabótinni. Hollendingar gjörðu hann að jarli, og unnu honum sem trúnni og frelsinu; en Alba bað Spánarkonung leyfis til að fara úr landi því, er hann ekki gæti yfirbugað; Filippus sendi marga æfða herforingja til Niðurlanda, hvern eptir annan, en þeim fór eigi betur en Alba. Spánverjar sátu t. a. m. um borgina Leyden; gjörðist þá hinn mesti skortur á matvælum í borginni, en borgarmenn vildu eigi að heldur gefast upp. Svöruðu þeir uppgjafarboði á þessa leið: »fyr munum vjer eta hunda og ketti; og þó þeir verði uppunnir, höfum vjer allir tvo handleggi; munum vjer eta hinn vinstri, en láta hinn hægri verja borgarveggina.« Þetta staka þreklyndi varð ekki ólaunað, því loksins kom hjálp. Girðingar þær, sem eru fyrir hafinu, brotnuðu fyrir sjáfarágangi; gjörðist þá flóð mikið, og týndust Spánverjar í því þúsundum saman; sægeusar náðu að sigla að borginni með vistir. Fám árum síðar stofnuðu hin norðlægu hjeruð samband í Utrecht, og sögðu Filippusi upp hlýðni og hollustu. Hjeruð þessi urðu síðan sjerstakt lýðstjórnarríki.

Mestan þátt í þessu átti Vilhjálmur, en hatur Filippusar til hans óx svo mjög, að hann setti til höfuðs honum 25,000 krónur. Eptir margar árangurslausar tilraunir varð loks Frakkneskur maður nokkurr til þess að ávinna sjer þessi smánarlegu laun; læddist hann inn í hús Vilhjálms, og skaut hann með skammbyssu, í því er hann gekk út úr borðsal sínum. Vilhjálmur fjell með þessum orðum: »Guð minn, guð minn, miskuna þú mjer og þínum auma lýð:« og guð heyrði bæn hans; synir hans fetuðu í fótspor hans, gjörðust foringjar Hollendinga, og leiddu þá til sigurs, frægðar og farsældar. Spánverskur konungur hefur aldrei síðan drottnað yfir þeim; en af ætt Vilhjálms hafa komið þjóðkunnir ríkisstjórar yfir hinu niðurlenzka lýðstjórnarríki. Hin sama ætt situr þar enn að völdum með konungs nafni, og kallast það nú konungsríkið Holland.

## 17. Frá Hinriki hinum 4.

Um það leyti, er Vilhjálmur frá Óraníu og Hollendingar áttu í höggi við Filippus annan, rjeði ríki á Frakklandi **Hinrik hinn 3.** með því nafni. Hann var maður duglítill, og hafði hvorki þrek til að stjórna sjálfur, nje vit til þess, að láta aðra ráða fyrir sjer; rjeði því mestu á Frakklandi móðir hans, **Katrín frá Medici**, kona skaphörð og drottnunargjörn. Eptir dauða Hinriks tóku höfðingjar sjer völd mikil, og börðust um ríkið. Í óeirðum þessum hölluðust margir að hinni hreinsuðu trú, en páfatrúarmenn veittu henni mótspyrnu, og risu af því blóðug stríð, og jók það mjög á eymd landsins.

Hinn nánasti erfingi konungdómsins á Frakklandi var **Hinrik**, konungur í hinu litla ríki **Navarra**, en hann hafði af móður sinni numið siðabótina, og var það því til tálmunar, að hann fengi komist til ríkis. Hinrik var gæddur ágætum gáfum; hugrakkur og hugljúfi hvers manns. Þegar á unga aldri gjörðist hann fyrirliði þeirra, er tekið höfðu við siðabótinni. Hertoginn af **Guise** var sendur með flokk mikinn páfatrúarmanna á móti honum, en þó Hinrik hefði lið miklu minna, fekk hann fullkominn sigur.

Eptir dauða Hinriks 3. var hann kallaður til konungdóms á Frakklandi, og nefndur Hinrik 4., en páfatrúarmenn vildu lengi ekki viðurkenna konungdóm hans, og borgarastríðin hjeldust við. En skjótt sáu menn, að Hinrik mundi bera hærra hlut, því hann svaf eigi lengur, en hertoginn af **Guise** sat að snæðingi. Í orustunum sýndi hann hina fegurstu mannást, og minntist þess jafnan, að það voru hans eigin þegnar, er hann var neyddur til að herjast við. Loksins knúði mannást hans hann til þess, að láta að ósk manna, og taka páfatrú; gekk þá Frakkland allt strax óðar honum á hönd. Hinrik fekk nú tækifæri til þess, að hefna sín á mótstöðumönnum sínum, en hann notaði það ekki. »Jeg vil gleyma öllu,« mælti hann, »sigurvinningar mínar eru guði að þakka! Hann fyrirgefur oss, þó vjer verðskuldum það ekki. Ætti jeg þá ekki að fyrirgefa þegnum mínum?«

Þegar friður var kominn á í ríki Hinriks, minntist hann sinna fornu vina, hinna Reformeruðu, og gaf út hið svonefnda **nátiska** lagaboð; var þeim í því leyft að halda trú sinni á öllu Frakklandi, og ýms fleiri hlunnindi. Síðan stundaði Hinrik alla æfi sína að efla starfsemi, velvegnan og farsæld allra þegna sinna, hárra og lágra. Herramenn, sem lifðu í skrauti miklu við hirðina, og sóuðu þar tekjum af fasteignum sínum, hæddi hann, og sagði: að þeir bæri skóga þeirra og mylnur á hnakkanum,

og rjeði þeim til, að hverfa til eigna sinna. Afleiðingin af stjórn Hinriks varð sú, að landið allt varð líkt aldingarði.

Í öllu þessu hafði Hinrik öflugan aðstoðarmann; var það ráðgjafi hans Sully; var hann einnig mesti vinur hans, og sýndi honum þá einlægni, sem konungar eiga sjaldan að fagna af vinum sínum. Sully sagði konungi afdráttarlaust allar yfirsjónir hans. Stundum reiddist Hinrik að vísu, því hann var af náttúru bráðlyndur; en eptir á þakkaði hann vini sínum hreinskilnina. »Heimskir menn,« mælti Hinrik, »halda að það vari lengi, ef jeg verð ósáttur við Sully, en hann er aldrei á móti mjer, nema mjer fyrir beztu, og fyrir því fer velvild mín til hans jafnan vaxandi.« Og við Sully mælti hann einhverju sinni: »ef þú hættir að mótmæla mjer, þá held jeg að þú elskir mig ekki framar.«

Skyldu menn ætla, að nokkurr vildi slíkum konungi illa? Og þeir voru þó til. Strangir páfatrúarmenn hötuðu hann, af því hann leyfði þeim ekki að ofsækja mótmælendur. Þaraðauk voru þar múnkar, hinir svonefndu Jesúítar, er kenndu, að allt væri leyfilegt að hafa í frammi við mótmælendur, og þá, er þá vernduðu; og gátu þeir talið einföldum mönnum trú um það. Gátu þeir komið því til leiðar, að tilraunir voru gjörðar til að myrða konung; tvisvar mistókst það; í þriðja sinni slapp hann ekki. Trúarvinglsmaður nokkurr, sem var tældur af Jesúítum, að nafni Frantz Ravaillac, rjeðist á hann, er hann ók í vagni um stræti Parísarborgar, og veitti honum með knífi banasár. Það var árið 1610. Allt Frakkland harmaði Hinrik 4. Hefur það aldrei átt jafn þörfum og góðum konungi að fagna.

## 18. Frá Gústaf Adolf.

Um það leyti, er Lúter hóf að kenna siðabótina, rjeði Svíþjóð, Noregi og Danmörk Kristján konungur hinn annar; en sökum ranglætis og harðstjórnar varð hann illa þokkaður, og vöntuðu þjóðir þessar ekki annað en fyrirliðann, að þær hrintu af sjer oki hans. Fyrir uppreist Svía gegn Kristjáni rjeði Gústaf Vasa, Eiríksson. Hann var lendur maður, og hafði Kristján, móti loforðum sínum, flutt hann til Danmerkur, og haldið honum föngnum á Kall-ey á Jótlandi. Einn morgun sá hann sjer færi að komast þaðan burt, og komst í bóndabúningi til Flensborgar. Gekk hann þar í þjónustu hjá kjötsölumönnum og fór í þeim erindum til Lybiku, en stjórnarráðið þar kom honum til Svíþjóðar. Í Svíþjóð lifði hann um tíma rósömu lífi á föðurleifð sinni, Refsnesi; en er Kristján hafði að nýju æst Svía upp með manndrápinu mikla í Stokkhólmi, fór hann upp til

Dala, og vildi koma bændum þar til að gjöra samtök við sig til að frelsa fósturjörð þeirra.

Til þess að kynna sjer hugarfar manna, klæddi hann sig einsog alþýðumaður, og gekk í vinnumennsku; en brátt komst upp hverr hann var; varð hann þá að fara huldu höfði, og var hvervetna ofsóktur af hinum þjóðverska leiguher Kristjáns. Einhverju sinni var hann hjá bónda nokkrum, er nefndist Sveinn Álfsson á Ísölum. Komu þá hermenn inn í stofu þá, er hann var í, og spurðu eptir honum. En Sveinn ljet sjer hvergi bilt við verða, en sagði hermönnunum, að hann aldrei hefði heyrt neitt af Gústafi, og í sama bili kom inn kona Sveins, og geysaði mjög; keyrði hún ofnreku á herðar Gústafi, og mælti: »Snauta þú út, letingi þinn, þú nennir engu nema að hlusta á æfintýri.« Hjer er enginn Gústaf, hugsuðu hermenn, og fóru burt.

Síðan ætlaði Sveinn að aka Gústafi burt í hlassi, en hermaður nokkurr fekk grun um það; rak hann því spjót í heyið, og fekk Gústaf af því sár mikið; en Gústaf lá kyr, og Sveinn stóð við, og særði hestinn í fótinn, til þess að hermenn skyldu halda, að blóðið kæmi þaðan. Eptir það komst Gústaf á annan bæ í Dölunum, er hjet Mora; var hann þar ofsóktur á líkan hátt, og jafnvel svikinn af löndum hans; en danskur maður nokkurr, Rasmus Jude að nafni, frelsaði líf hans. Þrátt fyrir allar þessar hættur og mótspyrnur heppnaðist Gústaf að lokum að safna hændaher í Dölunum, og vinna sigur á herliði Kristjáns; fjölguðu við það áhangendur hans, og vann hann Svíþjóð alla á eigi fullum þrem árum. Var hann síðan til konungs tekinn árið 1523, og rjeði hann Svíþjóð í 37 ár, bæði viturlega og hamingjusamlega.

Gústaf Adolf, sonarsonur hans, tók konungdóm í Svíþjóð ári síðar, en Hinrik 4. dó. Um það leyti átti Svíþjóð í stríði við Danmörk, Rússland og Pólenaland; en þó hann ætti þannig í höggi við 3 konunga, heppnaðist honum að enda það stríð með sæmd og heiðri; urðu Rússar og Pólenalandskonungur að láta hann fá allmiklar lendur. Síðan bar Gústaf umhyggju fyrir ríki sínu; stofnaði hann eyr- og járn-náma; stofnsetti verzlunarfjelög, og hygði af nýju Gautaborg. Á líkan hátt bar hann umhyggju fyrir menntan og upplýsing, með því að stofna skóla, og kalla lærða menn frá öðrum löndum.

En það, sem einkum hefur gjört nafn Gústafs frægt, er hjálp sú, er hann veitti Lúterstrúarmönnum á Þjóðverjalandi. Trúarfrelsi því, er keisarinn hafði veitt þeim, var opt traðkað; höfðingjar, er voru páfatrúar, heittu opt ójöfnuði við þá af þegnum sínum, er höfðu tekið siðabótina; og loksins brauzt út löng og blóðug styrjöld. Í fyrstu veitti páfatrúarmönnum hver-

vetna betur; beiddu þá Lúterstrúarmenn Gústaf liðsinnis. Gústaf kallaði saman menn af öllum stjettum úr ríki sínu, og mælti á þessa leið: »Jeg steypi mjer ekki af ljettúð í stríð þetta; keisarinn hefur svívirt sendiherra minn, og treður fótum trú mína; vorir aðþrengdu trúarbræður ákalla oss um hjálp, og sje það vilji guðs, þá viljum vjer veita þeim fulltingi;« kvaddi hann síðan hverja stjett út af fyrir sig, og mælti að lyktum: »jeg kveð yður alla í kærleika, jeg kveð yður, ef til vill, í síðasta sinni.« Litlu síðar fór hann til Þjóðverjalands með 15,000 manna. Menn keisara gjörðu gis að þessum hinum litla her, og kölluðu konung í háði Snækonunginn. En her Gústafs jókst með degi hverjum, og áður en langt leið, þorði hann að leggja til orustu við her keisaraus. Orustan var haldin við Leipzig og fekk Gústaf sigur mikinn yfir hinum nafnfræga hershöfðingja Tilly, og varð keisari hræddur um, að Gústaf mundi heimsækja sig í Vínarborg. Þessi fyrsta sigurvinning var nóg til þess, að koma kjörum mótmælenda í betra horf, og fögnuði þeirra er eigi unnt að lýsa. Hvervetna þar sem Gústaf kom, fjellu menn á knje fyrir honum, og kepptust um, að snerta sverð hans og klæði, en hann ljet sjer slíkt illa líka. »Er það ekki líkast því,« mælti hann, »að fólk þetta vilji gjöra mig að guði, og hlýt jeg ekki að óttast, að guð hegni mjer fyrir það, og sýni þessum heimsku tilbiðjendum, að jeg er maður dauðlegur, eins og aðrir?« Keisarinn safnaði nýjum her, og setti fyrir hann hinn nafnfræga herforingja Vallenstein.

Nokkru síðar lagði Gústaf til orustu við þenna sinn nýja mótstöðumann. Vallenstein eggjaði her sinn með fögrum heityrðum og ógnunum; herforingjar hans fóru bölvandi og æpandi um herinn. Gústaf bjó sig undir bardagann með bæn og andakt og baðst fyrir meðan herinn söng sálm einn, er hann sjálfur hafði orkt. Síðan stje hann á hest sinn, ljet æpa heróp og tókst þá orustan. Sjálfur rjeði hann fyrir hægra armi fylkingarinnar og hrukku Vallensteins menn þar undan; en er hann heyrði, að Svíum veitti miður á öðrum stað, sótti hann þangað. En hann komst ekki alla leið; hann var skotinn með kúlum og fjell af baki, og herinn reið yfir hann. En er Svíar vissu, að konungurinn var fallinn, sóktu þeir fram, sem óðir væru, og ráku loks Vallensteins menn á flótta.

Það var við Lützen nálægt Leipzig, að Gústaf Adolf fjell árið 1632. Dóttir hans varð þá drottning yfir Svíþjóð, en sænskir herforingjar hjeldu áfram stríðinu, og komu því til leiðar, 16 árum síðar, að friður var saminn, fengu þá Lúterstrúarmenn og siðabætendur jafnan rjett við páfatrúarmenn. Friður þessi kallast hinn »vestfalski friður«, var hann saminn 1648. Um 30 ár geysaði stríð þetta í Þjóðverjalandi; hefur það því verið

kallað »þrjátíuárastríðið«. Mörg fögur og blómleg hjeröð urðu lík eyðimörk; margar þúsundir manna fjellu í orustum, voru drepnar með vjelum, eða fórust af hallæri, eða flúðu af landi burt, og enn í dag ber landið menjar eyðileggingarinnar. En í öðrum efnum var eins og þjóðverjaland hefði fæðst að nýju.

## 19. Frá Pjetri hinum mikla.

Pjetur hinn mikli varð konungur eða keisari á Rússlandi hjerumbil 40 árum eptir, að hinn vestfalski friður var saminn, en þá var Rússland ekki eins mikið og blómlegt ríki og það er nú. Landsmenn voru skrælingjum líkir, og hjeldu í öllu við fornan óvana, og landið var að öllu illa yrkt. Á unga aldri var Pjetur öðrum fremri að ástundun og námfýsi, einkum hafði hann miklar mætur á, að lesa árbækur Rússlands, og skoða myndir þær, er þar voru. Mælingafræði og hermannafræði stundaði hann einnig. þegar hann var 17 ára að aldri neyddi hann systur sína Soffíu, er hafði ríkt um nokkur ár, til þess, að leggja völdin niður. Eptir að Pjetur var til ríkis kominn, gaf hann hinn nákvæmasta gaum að öllu, smáu og stóru. Maður nokkurr frá Svissaralandi, Lefort að nafni, kendi honum hernaðar aðferð Evrópu manna. Litlu síðar sá hann í höfuðborg sinni Moskva gamlan bát, sem var smíðaður á annan hátt, en vant var hjá Rússum. Komst hann eptir því, að bátur þessi var enskur; ljet hann þá óðar hollenzkan mann, sem var þar í borginni, gjöra við hátinn. Bráðum ljet hann smíða mörg skip stærri, og kom upp skipastól nokkrum, fyrst hjá Arkangel við Hvítahafið, og síðar hjá Asóv við Svarta hafið; borg þá tók hann frá Tyrkjum. Um þetta leyti átti hann ekki ráð yfir fleiri höfnum en þessum. En Rússar voru fákænir og undu illa þessum nýbreytingum, gjörðu þeir loks samsæri móti Pjetri. Pjetur var að vísu ungur, en huglaus var hann ekki; fór hann sjálfur á samkomustað samsærismanna, tók foringja þeirra og límbarði, og með því varð uppreistinni lokið.

Bráðum varð Pjetur þess áskynja, að ef hann ætti að geta kennt Rússum, þá yrði hann að læra sjálfur. Í Rússlandi gat þetta ekki átt sjer stað; hlaut hann því að leita til annara landa. Fór hann þá af landi burt, ekki að sið annara höfðingja til að sýna tign sína og skraut eður til skemtana og munaðar. Konungsnafns síns ljet hann optast ekki við getið og nefndi sig Pjetur frá Rússlandi. Skemtunarstaði sókti hann ekki, en þeim mun optar kom hann á verkstaði, og heimsókti iðnaðarmenn, þá er voru duglegir og hagsýnir. Einkum langaði hann til að koma til Hollands, til að læra stórskipasmíði. þegar hann kom í Holland

leigði hann sjer lítið hús í borginni Zaardam, nálægt því sem skip voru smíðuð; var hann klæddur eins og timburmaður, á stuttri treyju í hvítum ljereptsbrókum, og gekk í flokk kennslusveina. Smíðaði hann sjálfur allt það, er til skips heyrir, sagaði borð, negldi plánka, hjó siglutrje, sneri kaðla o. s. frv. Við timburmenn og sjómenn var hann eins og jafningja sína, át með þeim pönnukökur og ljek sjer með þeim á landi og sjó. Einhverju sinni var hann á siglingu með þeim, brast þá á stormur mikill, svo allir urðu hræddir nema Pjetur. Hann sagði öruggur: »því látið þjer svona! Hafið þjer nokkurn tíma heyrt þess getið, að Rússakeisari hafi drukknað í sjó á Hollandi?«

Frá Hollandi fór hann til Englands, og kynntist þar hinum vitrustu mönnum; sendi hann þaðan iðnaðarmenn og íþróttamenn til Rússlands, svo hundruðum skipti. Á Bretlandi hafði hann sama lifnaðarhátt sem á Hollandi. Einkum stundaði hann þar járnsmíði, urðu þá lendir menn og hirðmenn hans að bera kol og blása í smiðjunni. Þar nam hann einnig læknisfræði. En er Pjetur stóð hvað ákafast í störfum þessum, barst honum fregn um uppreist í Rússlandi, sneri hann því skjótt heim. Refsaði hann uppreistarmönnum þessum harðfengilega, og dró þá lítt af grimmd sinni. Tók hann nú af alefli að bæta hagsmuni ríkis síns. Hina erlendu íþróttamenn ljet hann taka sjer bólstaði hingað og þangað í ríkinu, til þess að kenna Rússum. Sjálfur tók hann þátt í tilsögninni. Einhverju sinni var hann að járnsmíði í Moskva, fór hann þá til meistarans og heimti hin sömu laun og aðrir sveinar fengu. »Jeg ætla,« mælti hann, »að kaupa mjer skó fyrir launin, því mínir eru orðnir gatslitnir og er nógu opt búið að bæta þá.« Fekk konungur kaupið og keypti sjer fyrir það nýja skó. Til þess að efla verzlanina í Rússlandi, sá hann, að nauðsyn bar til, að geta eignast höfn við Eystrasalt. Höfn þessa vildi hann taka af Svíum, er þá rjeðu flestum löndum þeim við Eystrasalt, er nú liggja undir Rússland. Í Svíþjóð sat að ríkjum Karl hinn 12., og var hann jafn nafnfrægur og Pjetur, en veikti ríki sitt með herferðum í stað þess að Pjetur efldi sitt ríki. Karl var hinn djarfasti og þrautbezti herstjóri á þeim tímum; Pjetur var hinn hyggnasti og duglegasti konungur. Í fyrstu biðu Rússar hvervetna ósigur; en Pjetur ljet ekki hugfallast. »Svíar verða að sigrast á oss,« mælti hann, »meðan þeir eru að kenna oss að sigrast á þeim.« Nam hann síðan af Karli herkænsku. Karl átti þaraðauki í höggi við marga aðra; meðan hann hjelt stríðinu fram við þá, sætti Pjetur færi, og tók það af löndum Svía, sem hann vildi, og meðan á stríðinu stóð, lagði hann grundvöll borgar þeirrar, er síðar varð höfuðborg hans. Tók hann þá með hinni mestu fyrirhöfn að reisa Pjetursborg

í foræði nokkru stóru við Eystrasalt; sú borg er síðan aðsetursstaður hinna rússnesku keisara, og býr þar nú nær ½ millíón manna. Loksins vann Pjetur mikinn sigur yfir Karli við Púltava, var þá friður saminn og urðu Svíar að láta af hendi við Pjetur hin beztu lönd sín við Eystrasalt. Tók Pjetur sjer þá keisaranafn. Fám árum síðar dó Pjetur, en Rússland varð á dögum hans eins og annað land, og seinni tíma menn hafa með rjettu kallað hann »hinn mikla.«

## 20. Frá Friðriki hinum 2.

Friðrik ríkiserfingi á Prússlandi var 13 ára að aldri þegar Pjetur hinn mikli dó. Faðir hans Friðrik Vilhjálmur hinn 1. var dugandis konungur og manna sparsamastur, en harður og klúr í háttum sínum. Lagði hann mesta stund á að safna peningum og ala risavaxna hermenn. Bókmenntir og vísindi mat hann að engu. Sonur hans þarámóti hafði þegar frá barnæsku mikla löngun til bóknáms, en virtist lítið gefa sig að hernaði. Gaf þetta tilefni til þess, að faðir hans ljet hann illa, gjörðist hann honum að síðustu svo reiður að hann setti hann í díblissu og ætlaði að hrinda honum frá ríkiserfð. Friðrik sýndi föður sínum auðsveipni og sættust þeir nokkru síðar. Þegar Friðrik Vilhjálmur dó, var sonur hans 28 vetra; tók hann þá konungdóm á Prússlandi, og nefndist Friðrik hinn 2. Ríki hans var um það leyti eitt hið minnsta konungsríki í Norðurálfu, og í litlu áliti, en með ríkinu erfði Friðrik auð mikinn og hermenn marga, og tókst honum að auka með hvorutveggju álit sitt. Þegar Karl keisari sjötti í Austurríki dó, krafðist Friðrik af dóttur hans, María Theresíu, nokkurs hluta af Slesíu, er hann þóttist eiga tilkall til, og er hún óðar neitaði að láta landið laust, byrjaði hann stríð það, er hann hjelt fram með slíkum hyggindum og heppni, að María nokkrum árum síðar varð að láta af hendi við hann alla Slesíu. Síðar, þegar María hafði samið frið við aðra óvini sína, vildi hún ná Slesíu aptur frá Friðriki. Hafði hún komizt að raun um, að Friðrik var ekki auðveldur viðureignar, og gjörði hún því samband við Frakka, Rússa, Svía og fleiri á móti Friðriki. Sambandsmenn rjeðu svo miklum löndum, að þeir höfðu 90 millíónir manna til umráða, en Friðrik hafði aðeins 4 millíónir. Allt fyrir það vildi hann ekki gefast upp, þannig hófst stríð það, er menn hafa kallað sjöárastríðið, sem er eitt af hinum merkilegustu stríðum, er nokkru sinni hafa háð verið. Friðrik sýndi hina hraustlegustu og hyggilegustu vörn. Að vísu beið hann stundum ósigur, en hann vann það upp aptur með enn meiri sigurvinningum. Opt virtist að öllu úti um hann, en

hugrekki hans og hyggindi hiluðu aldrei. Sjálfur var hann herforingi í hinum mestu og mannskæðustu orustum, og þoldi ljúft og leitt með hermönnum sínum, bæði á vígvellinum, í herbúðunum, undir herum himni, og á hinum mæðusömu hergöngum. þessvegna unnu allir honum hugástum, hjeldu sigurinn í höndum sjer þegar hann væri foringi, og voru fúsir til að láta lífið hans vegna. Einhverju sinni, eptir harða orustu, fór hann til hermanna sinna, til að tala við þá, og orna sjer með þeim við eld. Hermennirnir þyrptust umhverfis hann, og spurðu hann, hversvegna hann hefði ekki stjórnað flokki þeirra þann dag, eins og hann hefði verið vanur. Friðrik kvaðst í það sinn hafa hlotið að vera fyrir hinum öðrum armi fylkingarinnar. Meðan hann var að tala við þá, spratt kjóllinn frá honum, og datt þá byssukúla niður. Æptu þá allir upp: »þú ert enn sjálfum þjer líkur, Friðrik gamli, þú ert með oss í öllum þrautum; vjer erum fúsir til að láta lífið þín vegna,« Loksins urðu allir óvinir Friðriks þreyttir á stríðinu, og gátu eigi lengur haldið því fram; sömdu þeir þá frið við hann, og ljetu hann halda öllum löndum sínum. En frægð Friðriks hljómaði um gjörvalla Norðurálfuna.

Eptir stríðið voru lönd Friðriks konungs að mestu eydd af herflokkum óvinanna, en Friðrik vann, eins og hezti faðir, að viðreisn þeirra. Kallaði hann saman skynsama menn úr ríkinu, og leitaði hjá þeim ráða, og hætti síðan úr þörfum manna. »Segðu mjer,« mælti hann, »hve marga hesta og kýr bændurnir í þínu hjeraði þurfa við; en taktu sparsamlega til, því jeg þarf mörgum að gefa, en hef af litlu að taka.« Með örlæti, sem var samfara skynsamlegri sparsemi, gat hann á stuttum tíma áunnið, að landið, sem áður var að mestu í auðn, komst í mesta blóma.

Hin síðustu 23 ár, sem hann ríkti, átti hann í engum stríðum, en allt að einu var hann ekki aðgjörðalaus. Á hverjum morgni fór hann á fætur klukkan 5, klæddi sig sjálfur, og hóf dagstörf sín með því að lesa hin mörgu brjef, og bænarskrár, er honum voru sendar. Síðan ljek hann eina klukkustund á hljóðpípu. Tók hann síðan til starfa, og ritaði, eða gætti hermanna sinna. Opt gekk hann sjer til skemtunar, þegar hann bjó á höllinni Sansouci. Mátti í aldingarði hans þar opt sjá mann á rjátli, hniginn á efra aldur, boginn af elli og erfiði, með útitekið og hrukkótt andlit. Hann har venjulega bláleitan foringjahúning, sem opt var slitinn mjög, og stóran, fornfálegan hatt á höfði, og var í einu fjöður, gul af elli; í hendi hafði hann óbreyttan staf. En kæmu menn nær manni þessum, og sæju hið háa enni hans og hin skarplegu augu, og heyrðu á hið hnittilega og liðuga orðfæri hans, þá mátti vita, að menn stóðu fyrir hinum gamla konungi Prússanna. Síðara hluta dags, eða þegar konungsstörfum

hans var aflokið, átti hann jafnan tal við lærða menn, eða las nytsamar og skemtilegar bækur, eða hann ritaði sjálfur, bæði sagnafræði og skáldmæli. Í riti nokkru kveður hann þannig að orði um ættjarðarástina: »jeg ann landi þessu af alhuga; jeg á að þakka því fyrir allt; þó jeg hefði þúsund líf, mundi jeg með fögnuði láta þau öll fyrir fósturjörð mína.«

Friðrik mikli dó árið 1786; hafði hann gjört hið Prússneska ríki tvöfalt stærra en það var, er hann kom til ríkis, og aukið svo mjög álit þess, að síðan er það talið með meginríkjum Norðurálfunnar.

## 21. Frá frakknesku stjórnarbiltingunni (hinni miklu) 1789.

Hinrik fjórða, Frakkakonung, grjetu allir þegnar hans, og það að maklegleikum. Eptir hann urðu 4 konungar, hverr af öðrum, af ætt hans, en voru honum mjög ólíkir. Sonarson hans hjet Loðvík, kallaður hinn 14. Skorti hann ekki vitsmuni, og hafði jafnan duglega menn í ráðaneyti sínu, og jókst af því álit hans, en hann var harðstjóri, og harðstjóri, og hafði ekki í að fórna lífi og limum þegna sinna í stríðum, til þess að efla frægð sína og orðstír. Góðir konungar viðurkenna, að þeir sjeu til vegna þegnanna, en Lodvík 14. áleit, að allar þær millíónir manna, þeirra er búa á Frakklandi, væru til orðnar fyrir hans sakir, og ættu að þjóna honum. Eptir lát Loðvíks 14. tók Loðvík 15. við ríkisstjórn; var þá örbyrgð mikil á Frakklandi, og ríkið í stórskuldum eptir hina miklu eyðslusemi og þarflausu stríð Loðvíks 14. En Loðvík 15. var eigi því vaxinn, að reisa ríkið við; ljet hann aðra ráða yfir sjer sjálfum, og eyddi dögum sínum í iðjuleysi og ósiðum. Skattar miklir voru lagðir á alþýðu; auðmenn og höfðingjar fóru til konungshirðarinnar, eyddu þar fje sínu í skrauti, sökktu sjer niður í hinar ósæmilegu skemtanir höfuðborgarinnar, og þögðu síðan um öll þau rangindi, sem fram fóru.

Loksins tók Loðvík hinn 16. konungdóm. Hann var sjálfur valmenni og rjettvís, en ríkið var komið í ógurlegt volæði, og þjóðin svo uppæst, að hann gat engu góðu til leiðar komið, hversu feginn sem hann vildi. Skuldir ríkisins voru geysilegar, og skattar hlutu að leggjast á. En skattar urðu svo þungbærir fyrir þá sök, að þeir voru lagðir á bændur eina og borgara, en lendir menn og andlegrar stjettar menn voru undanþegnir sköttum. Lægri-stjettar menn tóku því að hugsa um að gjöra uppreist; og þegar nú um sama leyti margir Frakkar komu heim til sín úr Vesturheimi, þar sem þeir höfðu veitt Vesturheimsmönnum lið til

að losast undan yfirráðum Breta, og stofna lýðstjórnarríki, þá varð enn almennari óánægjan yfir valdstjórninni og því hryggilega ástandi, sem ríkið var í.

Meðan hugir Frakka þannig voru uppæstir, kallaði konungur saman hinar 3 stjettir, til þess að ráðgast við þær um það, hvernig landinu yrði viðhjálpað. Af bændastjettinni var enginn kallaður. Komu nú 300 lendir menn, 300 andlegrar stjettar og 600 borgarar saman á ríkisþing 1789. Bar þá borgarastjettin hinar stjettirnar ofurliða, og lýsti yfir því, að hún ein væri hið sanna þjóðarþing. Í fyrstu unnu þjóðþingismenn það eitt, er landinu mátti til gagns horfa. Lenda menn sviptu þeir einkarjettindum þeirra, klaustraeignir skyldu seljast til lúkningar ríkisskuldum, og margar aðrar nytsamar breytingar gjörðu þeir. En innan skamms kom sundurlyndi og flokkadráttur, og hið ákafasta stríð hófst; því Frakkar eru fljótlyndir, og velta málefnum eigi ætíð lengi í huga sjer. Metorðagjarnir menn æstu þar að auk alþýðuna með frelsisópi sínu, og gjörðu hana svo óða, að fulltrúar borgaranna dæmdu konung til dauða eins og landráðamann. Var þá lýst yfir því, að á Frakklandi væri lýðstjórn. Þannig hófust hinar mannskæðu og ofríkisfullu óeirðir, er menn hafa kallað hina frakknesku stjórnarbiltingu. Flestir konungar í Norðurálfunni tóku málstað konungsættarinnar, og sendu herflokka mikla móti Frakklandi. Þessir útlendu óvinir ógnuðu þannig ríkinu með eyðileggingu, og um sama leyti risu upp í ríkinu sjálfu uppgjörðar-frelsis-vinir; höfðu þeir jafnan frelsi og rjettindi á vörum sjer, meðan þeir úthelltu blóði meðbræðra sinna. Flest opinber hús voru fyllt af föngum, og saklausir menn á degi hverjum drepnir hópum saman; eymd sú, sem frelsisæði þetta leiddi yfir Frakkland, var ótrúleg.

Napoleon Bonaparte reisti skorður þessum ógurlegu blóðsúthellingum. Napoleon var fæddur á ey þeirri hjá Ítalíu, sem Korsíka heitir, og liggur undir Frakkland, en hann var uppalinn á Frakklandi. Þegar hann var 27 ára að aldri, var hann settur herforingi yfir her hins frakkneska lýðstjórnarríkis á Ítalíu. Vann hann með frábæru snarræði og kænsku sigur á hinum æfðustu herforingjum Austurríkismanna, og ávann sjer allra lof. Urðu þær afleiðingar af þessum sigurvinningum hans, að flestir óvinir Frakklands urðu að biðjast friðar, og ljetu af hendi allmikil lönd. Síðan ljet Bonaparte, að sið Rómverja, kalla sig æðsta ræðismann í lýðstjórnarríkinu, og tók smámsaman alla stjórn undir sig. Margir nýir óvinir risu nú aptur upp á móti Frakklandi, en eins og elding fór Bonaparte til Ítalíu, vann frægan sigur á Austurríkismönnum hjá borginni Marengo, og neyddi óvini sína aptur til þess að semja frið af nýju, og láta fleiri lönd af hendi.

Um upphaf þessarar aldar var hið frakkneska lýðstjórnarríki þannig hið voldugasta ríki í Norðurálfunni. Velmegan þess óx með degi hverjum, verzlunarskip þess fóru um öll höf, og áhrif þess náðu til allra nálægra landa. Bonaparte var einvaldur í landinu; hann var þvínær tilbeðinn af lýðnum. Hinir fjörmiklu og hverflyndu Frakkar voru hrifnir af afreksverkum hans, og dáðust að hinni aðkvæðamiklu stjórn hans, þar sem hann gjörði rjettarbætur, örfaði menn til starfsemi, efldi verzlanina, og galt fje hverjum þeim, er nytsöm verk vann. En metorðagirnd hans var óseðjanleg. Árið 1804 tók hann sjer keisaranafn, og ljet kalla sig Napoleon hinn fyrsta. Hershöfðingja sína og ráðherra, sem flestir voru af lágum stigum, gaf hann fursta- og hertoganöfn. Norður-Ítalíu bætti hann við ríki sitt, og tók sjer konungsnafn á Ítalíu. Tóku þá hinir aðrir stjórnendur Norðurálfunnar að líta hornauga til hins vaxanda veldis Frakklands, og gjörðu í þriðja sinn samtök til að takmarka það. En þó þeir margir væru, gátu þeir ekki reist rönd við herkænsku Napoleons og hreysti hermanna hans. Napoleon vann sigur á Austurríkismönnum hjá Austerlitz, á Prússum hjá Jena, á Rússum hjá Friedland, og neyddi þessar þjóðir allar til að semja frið. Fekk Napoleon nú af nýju lönd svo mikil, að hann gat gefið bræðrum sínum heil konungsríki. Einn þeirra varð konungur í Neapel, annar á Hollandi og hinn þriðji yfir Vestfali á Þjóðverjalandi. Ári síðar setti hann af Spánarkonung, gaf ríki þetta aptur bróður sínum, sem konungur hafði verið á Neapel, en Neapel gaf hann einum mága sinna.

Einn var sá fjandmaður, sem Napoleon gat aldrei náð til; það var England. Ríki þetta er umgirt af sjó, og drottnaði það yfir hafinu, eins og Napoleon yfir meginlandinu. Á ýmsa vegu reyndi hann til að leiða og neyða Breta til þess að semja við sig frið, enn þeir vildu eigi sættast. Fengu þeir Alexander keisara á Rússlandi til þess að ganga í lið með sjer gegn Napoleon. Þannig hófst hið fjórða stríð árið 1812. Napoleon hafði í stríði þessu þvínær alla sín megin, ekki fyrir þá sök, að þeir hefðu ást á honum, heldur af því, að þeir óttuðust hann. Austurríkismenn, Prússar og Þjóðverjar voru undir ánauðaroki Napoleons, og urðu þeir að ljá honum herflokka mikla; mest var ánauðin á Þjóðverjalandi. Um þetta leyti brauzt Napoleon inn í Rússland; hafði hann með sjer hálfa millíón hermanna. Margar mannskæðar orustur háði hann á leiðinni, unz hann komst til borgarinnar Moskov; þar ætlaði hann að hvíla um veturinn herlið sitt, er mjög svo var af sjer komið af þreytu. Hefði Napoleon náð að hafa fram þessa fyrirætlan sína, mundi það hafa orðið Rússum mjög hættulegt; vildu Rússar því allt til vinna að ráð

þetta tækist ekki. þegar því hinn rússneski yfirmaður, Rostopschin, varð þess var að Frakkar nálguðust borgina, tók hann það ráð, að eyða henni með eldi. þetta var orð og að sönnu; flestir íbúar í Moskva hurfu burt, en kveiktu í borginni áður. Frakkar fóru inn í borgina, en hún var í auðn, og sáu þeir þvínær engan lifandi mann. Litlu síðar brauzt eldurinn út hvervetna í borginni. Frakkar reyndu til að slökkva, en gátu ekki; hin mikla borg, sem um margar aldir hafði verið aðsetur keisaranna, stóð nú öll í ljósum loga; var það háleitur vottur um ættjarðarást Rússa, en hryggilegur fyrirboði fyrir óförum Frakka. Borg sú, er átti að veita herliði Napoleons skjól og aðhlynning, var nú eldsglæður einar; landið allt umhverfis var auðn og gaddur. Sá Napoleon nú ekki annað ráð, en að hverfa heim aptur. Á leiðinni heim hrepptu Frakkar hið bitrasta frost um veturinn 1812 og 1813. Rússar voru vanir við kuldann, og útbúnir móti honum; ofsóktu þeir Frakka á heimleiðinni með hinni mestu grimmd. Fór Napoleon á undan heim til Frakklands, en hermenn hans fórust flestir af kulda, hungri, og fyrir sverðseggjum óvinanna. þá vöknuðu hinir aðrir fjendur hans: Austurríkismenn, Prússar, þjóðverjar, og Spánverjar, og tóku að hugsa um að leysast undan ánauðaroki hans. þó Napoleon væri hinn mesti hershöfðingi, gat hann eigi reist rönd við ofurefli og frelsisást óvina sinna. Beið hann ósigur í hinni mannskæðu orustu hjá Leipzig; var þar barizt í 3 daga, og varð Napoleon að flýja til Frakklands. þegar hann var þangað kominn, neyddu Frakkar hann til að leggja niður völd sín. Var honum þá fengin eyjan Elba, sem liggur nálægt Ítalíu, til bústaðar. Er hann hafði dvalið þar um hríð, fór hann aptur til Frakklands, og komst aptur til sinna fyrri valda og metorða; en litlu síðar beið hann ósigur fyrir hinum enska hershöfðingja Wellington, í orustu, er haldin var hjá Waterloo 1815, og gekk hann síðan á vald Bretum. Bretar fluttu hann til eyjar þeirrar, er Elínarey heitir; er hún í hinu mikla veraldarhafi, milli Suður- og Vestur-álfu heims, 400 mílur undan landi. Á ey þessari dó þessi hinn mikli maður árið 1821, en árið 1840 var lík hans grafið upp, og flutt til Parísarborgar.

## 22. Stórveldin fimm.

þegar búið var að hrinda Napoleon frá völdum, tóku þeir Alexander keisari í Rússlandi, Frantz keisari í Austurríki, Georg hinn 3., konungur á Bretlandi og Friðrik Vilhjálmur hinn 3., konungur á Prússlandi það fyrir, að koma öllu í samt lag aptur í Norðurálfunni. Áttu þeir fund með sjer í Vínarborg

árið 1814, og komu þar saman flestir konungar í Norðurálfunni. Á samkomu þessari var hin forna ríkjaskipan upptekin, og konunga ættir þær, er Napoleon hafði hurtrekið, tóku aptur við ríkjum. En Danakonungur, er áður hafði verið látinn borga Svíum vörn þá, er þeir veittu gegn Napoleon, með Noregi, fekk þó eigi land þetta aptur. Þessi hin áðurnefndu fjögur stærstu ríki hafa síðan, ásamt Frakklandi, haft afskipti af og skorið úr stjórnarmálefnum hinna minni ríkjanna.

## 23. Frá Frökkum.

Eptir að Napoleon Bonaparte var hurt farinn, var um hríð kyrrt á Frakklandi fram til 1830; varð þá stjórnarbilting á ný, en ei var hún nærri því eins ógurleg og sú fyrri, og komst brátt kyrrð á. Árið 1848 varð enn stjórnarbilting á Frakklandi; var Loðvík Filipp konungur frá ríkjum rekinn og flúði hann til Englands og kom aldrei síðan til Frakklands. Varð þá Frakkland enn á ný lýðveldi og stóð svo um stund þangað til Loðvík Napoleon, hróðursonur Napoleons Bonaparte, fekk sig kosinn til ríkisforseta, og ljet síðar kjósa sig til keisara. Stýrði hann Frakklandi um 20 ár með stjórnkænsku mikilli og hafði mikil áhrif á stjórnarmál öll í Norðurálfunni. Var þann tíma sem hver stjórnari hikaði við að láta í ljósi vilja sinn meðan hann vissi ekki, hvað Frakkakeisara hjó í skapi. Frá því stjórnarbiltingin mikla á Frakklandi hófst, má svo kveða að orði, að Frakkar hafi verið oddvitar sögunnar í Norðurálfunni allt þangað til Loðvík Napoleon var frá völdum steypt. Frelsishreifingar þær, sem runnið hafa um ríki Norðurálfunnar, hafa runnið þaðan og margar þær hugmyndir í stjórnmálum, sem nú ryðja sjer til rúms. Loðvík Napoleon, er nefndi sig hinn þriðja með því nafni, var vikið úr völdum í styrjöld þeirri hinni miklu, er hófst milli hans og Prússa fyrir tveim árum síðan. Hafðist hann síðan við nálægt Lundúnahorg, þartil hann andaðist 9. janúar 1873, 65 ára að aldri. En er ófriðnum linnti, var Frakkland enn gjört að lýðveldi og hinn mikli ráðsnillingur Tiers kosinn til ríkisforseta; hafði hann mest manna mælt á móti hinni óhappasælu styrjöld, en er ríkið var í hinum mestu nauðum og forstöðulaust, fengu menn honum stjórntaumana og hjelt hann þeim um hríð með dugnaði og ráðsnild; eptir hann varð Mac Mahon ríkisforseti og er hann það enn (í janúar 1874).

## 24. Frá Itölum.

Vjer höfum áður getið þess, að Rómverjar, sú þjóð, er um langan tíma rjeði yfir löndum þeim flestum er þá voru kunn, höfðu aðalaðsetur á Ítalíu og var Róm höfuðborg þeirra; borg sú var bygð um 750 árum fyrir Krists burð og hefir staðið jafnan síðan og er hún hin elzta borg í heimi. Eptir að Rómaveldi leið undir lok, var Ítalía öll aldrei undir einum höfðingja þangað til um 1860 og þar eptir. Meðan blómi landsins var mestur voru þar mörg þjóðríki og smá. Feneyjar og Genúa voru á miðöldunum frægust verzlunarríki. Í Róm hefir páfinn setið og haft ríki sjer allt frá dögum Pipins, föður Karlamagnúss keisara, er gaf honum lönd til forráða. Neapel hefir lengst verið ánauðarland, frá því að Norðmenn settu þar ríki. Austurríkis keisari rjeði yfir miklum löndum á Ítalíu, er heita Langbarðaland og Feneyjaland.

Árið 1860 tók Viktor Emanúel, konungur í Sardiníu fyrir sig að sameina Ítalíu alla og ná undir sig. Loðvík Napoleon Frakkakeisari veitti honum að þessum málum. Fór hann með her suður á Ítalíu til að styrkja Viktor konung að því, að ná löndum Austurríkis keisara. Áttu þeir bandamenn þar margar orustur við Austurríkismenn og báru optast hærra hlut. Sú orusta var mest er háð var hjá þorpi því á Langbarðalandi er heitir Solferino, voru þeir þar allir höfðingjarnir: Jósep Austurríkiskeisari og hafði 170 þúsundir manna, og Viktor og Napoleon með 150 þúsundir. Þann dag var barist af ákafa í 15 stundir, frá því stundu fyrir miðjan morgun þangað til stund var af miðaptni. Frakkar ljetu í orustu þessari um 12 þúsundir liðsmanna samtals og 720 liðsforingja. Fjöldi fjell og af Austurríkismönnum og margir voru handteknir. Svo lauk orustu þessari að Austurríkismenn biðu algjörðan ósigur. Skömmu síðar var friður saminn og afsalaði Austurríkis keisari sjer Langbarða löndum. Eptir þetta náði Viktor konungur smámsaman undir sig allri Ítalíu, að Rómaborg undanskildri og löndum um hverfis hana, er páfinn hafði á sínu valdi. Napoleon keisari hafði setulið í Rómaborg til hlífðar páfanum, stóð svo þangað til 1870 að ófriðurinn hófst milli Prússa og Frakka; kvaddi Napoleon þá heim setuliðið. Sendi þá Viktor her manna til Rómaborgar og var hún tekin án þess nokkur veruleg vörn yrði. Voru borgarmenn síðan látnir greiða atkvæði um, hvort Róm skyldi ei sameinast Ítalíu, urðu nær 134 þúsundir atkvæða með því, en um 1 þúsund og 5 hundruð móti. Var páfanum eptir skilinn eignarrjettur yfir þeim hluta borgarinnar, sem er hægra megin Tiberár og Citta Leonina heitir. Þar er páfagarðurinn, Vatikanið, Pjeturskirkjan mikla og fleiri

kjörhýsi. Í laun voru páfanum veittar $3^1/_2$ millíónir franka, eða á aðra millíón ríkisdala. Páfinn Píus 9di bannfærði þá alla er hlut áttu að þessu máli, en það kom fyrir ekki. Er nú Rómaborg, hin forna höfuðborg heimsins, eptir margar aldir höfuðborg Ítalíu og landið allt undir einum konungi.

Nokkru áður en þessir atburðir urðu, hafði páfinn sett kirkjuþing mikið í Rómaborg og kvatt til alla biskupa úr kaþólskum löndum og víðar, átti þing þetta að vera páfadóminum til eflingar í öllum greinum, en einkum vildi páfinn fá það samþykkt að honum gæti ei skeikað í andlegum efnum. Þann 18. júlí 1870 voru atkvæði greidd um þetta efni og urðu 453 atkvæði biskupa og kardinála með því, að páfanum gæti ekki skeikað, en aðeins 88 mæltu í móti. Eigi er trúlegt, að þetta hafi verið sannfæring manna, heldur er hitt líklegra, að þeim hafi þótt þetta ráð til að halda við einingu kirkjunnar, en sú verður raunin að atkvæði þetta verður til að sundra kaþólsku kirkjunni.

## 25. Frá Prússum.

Prússland þótti vaxa mjög að virðingu og láta til sín taka á dögum Friðriks hins mikla, en miklu meiri hefir uppgangur þessa ríkis orðið á hinum síðari árum. Um 1850 áttu þeir í ófriði við Dani, er þeir vildu hlutast til um mál hertogadæmanna Slesvíkur og Holsteins, en Danir gátu þá rekið þá af höndum sjer. En er Friðrik konungur hin 7di var látinn, hófst ófriðurinn á ný og stóð hæst árið 1864. Þóttust Prússar vilja rjetta hlut hertogadæmanna, er Danir þóttu þröngva, og höfðu með sjer Austurríkismenn. Var þar sem við mátti búast við ofurefli að berjast, en Danir stóðu móti sem þeir máttu og gáfu eigi upp vörnina og tóku engum friðar kostum fyr en ríkið var því nær allt á valdi Þjóðverja og ráð allt í þeirra hendi. Munu Danir hafa treyst á, að stórveldin, einkum Frakkar og Englendingar, mundu ekki líða þenna yfirgang, þar sem þau höfðu heitið að gæta þess, að danska ríkið skerðist ekki, en von þessi og traust brást. Var loks friður saminn og urðu Danir að láta af hendi hertogadæmin bæði og gjalda ærið fje í stríðskostnað.

En er Prússar og Austurríkismenn vildu skipta með sjer herfangi þessu, brugðust Prússar reiðir við og vildu einir eiga hertogadæmin bæði. Dró smám saman til sundurþykkju milli þeirra og Austurríkismanna þangað til þeim lenti saman í ófriði, það var árið 1866. Í júlímánuði það ár var mikil orusta milli þeirra hjá Königgræz. Var Prússakonungur sjálfur fyrir sínum her og sonur hans, en fyrir her Austurríkismanna var herforingi Benedek. Höfðu hvorir tveggju á þriðja hundrað þúsund manna,

og biðu Austurríkismenn ósigur og sáu sitt óvænna og var skömmu síðar friður saminn. Í þeim friðarsamningi var tala Prússa aukin um $4^1/_2$ millíón manna, en bandamenn þeirra fjölguðu um $6^1/_2$ millíón. I ófriði þessum misstu Prússar yfir 20 þúsundir manna, er fjellu eða særðust, en Austurríkismenn að 80 þúsundum. Var þessu öllu lokið á fám vikum.

Eptir þessar sigurfarir Prússa fór mörgum að þykja nóg um uppgang þeirra, einkum Frökkum, er til þessa höfðu talið sig öðrum fremri í hernaði. Leið eigi langt um áður þeim lenti saman við þá í ófriði. Svo mun mega segja að aðalorsök ófriðar þessa hafi verið metnaður milli þjóðanna og gamall kur, en hið mesta tilefni hans var það, að báðir vildu hlutast til um konungskosningu á Spáni. Frakkar urðu fyrri til að segja Prússum stríð á hendur, var það í júlí 1870. En af því má ráða, að Prússar hafi ei verið óbúnir við stríði, að þeir urðu fyrri til taks og gátu komist með ógrynni hers inn á Frakkland áður en Frakkar komust yfir landamærin. Í ófriði þessum urðu Frakkar svo mjög undir, að eigi eru dæmi til í sögu þeirrar þjóðar. Mun til þess hafa margt borið og það fyrst, að ófriðurinn varð á Frakklandi, í stað þess að Frakkar höfðu búist við að fara yfir þýzkaland. Sú var önnur að engin eining var í stjórninni á Frakklandi, er Napoleon var tekinn frá völdum í Parísarborg. þá þótti margt vera ósatt og með svikum um herbúnað Frakka, en mestan mun hefir gjört sú almenna menntun í her Prússa, en siðleysi í her Frakka kom þá fram svo yfir tók, og sýndi sig í gjörsamlegum skorti á öllum samtökum og einingu, en einmitt þetta stoðaði Prússa. þeir tóku hverja borgina af annari frá Frökkum, þótt sumar þeirra væri taldar óvinnandi. og loksins settust þeir um París og þröngvuðu borginni svo með eldhnöttum og sprengikúlum að hún varð að gefast upp, og seldu Frakkar þar Prússum sjálfdæmi ef þeir skyldi hafa lífs grið og lima; en Prússar settu Frökkum þau kjör að þeir skyldi láta af hendi Mezkastala, sem er stór og ramlega víggirt borg; Stransborg, sem kallaður er lykillinn að Frakklandi austantil og enn fleiri borgir, og landareignir þær er þar í kríngum liggja, Elsass og fleiri lönd, og þar á ofan skyldu Frakkar gjalda sex þúsund millíónir dali í tómu gulli og silfri; var fje þessu ekið á gufuvögnum til þjóðverjalands jafnótt og goldið var; þóttu friðarkostir þessir harðir mjög, en ekki var vægðar von, því Bismark stóð með reiddan brandinn yfir Frakklandi; en í sjálfum herglauminum ljet Vilhjálmur konungur taka sig til þjóðverjakeisara í Versölum með mikilli dýrð. Bismark var sálin í Prússaher, og segja fjandmenn hans hann fjandanum verri, en viuir hans kveða hann ríkan og ráðsnjallan, harðráðan og herkunnandi vel, ljúfan og lítillátan. Vilhjálmur

hinn fyrsti Prússakonungur var sjálfur hershöfðingi í stríðinu, þá þrjá um sjötugt að aldri, og þoldi allar þrautirnar, þótt sumir yngri menn væri á burtu bornir með blóðbognum út um nasar og eyru af herbrestunum. Stríð þetta hefir mest verið háð í þeirra manna minnum er nú lifa, og með svo skjótum atburðum að eigi eru dæmi til; stendur öllum ógn af Prússum síðan og má snúa uppá Vilhjálm keisara því sem Egill kvað um Eirík blóðöx: »þar er allvaldr und ýgrs hjálmi ljóðframaðr at landi sat; stýrir Vilhjálmr við stirðan hug í Berlín blóðgum hjörvi«.

Eptir stríð þetta hafa Prússar setið um kyrt og hefir ekki borið til tíðinda, nema hvað stjórnin hefir átt í deilum við ena kaþólsku biskupa, því margir þegnar Prússakeisara eru páfamenn; kveðast þeir engum skyldir að hlýða nema páfanum í Rómi, en stjórnin vill láta þá hlýða sjer og ríkislögunum. Stendur enn á deilum þessum og þverskallast biskupar eptir megni.

## 26. Frá Englum.

Englar eru voldugastir allra þjóða hvað skipaútveg snertir og allan sjáfarútveg, bæði verzlan og hervald. Á Bretlandsströndum eru hundrað og sjö tigir vitaturna og 41 vitaskip til leiðbeiningar sjófarendum. Kaupskip og herskip Breta fara um allan heim meir en skip annara þjóða, en flota sínum verða þeir að skipta í fleiri staði, vegna þess þeir eiga eignir mjög miklar í hinum öðrum heimsálfum og mega til að halda ógrynni hers hvívetna, því íbúar þeirra landa þíðast ekki stjórn Breta af frjálsum vilja. Saga Breta hefir raunar einkum gerzt í þeirra eigin löndum, svo sem viðureign þeirra við Skota og Íra, sem þeir hafa kúgað til sameiningar við sig með margra alda styrjöldum; er aðalundirrótin sú, að í fyrndinni voru Bretlandseyjar bygðar af keltneskum þjóðum, þótt eigi væri þar friðsamlegt, með því höfðingjar þeirra lágu í sífeldum óeirðum sín á milli. Á 5tu öld eptir Krists burð komu saxneskir víkingar til Englands, settust þar að og lögðu smám saman undir sig mikinn hluta Englands; eptir það voru þeir kallaðir Engilsaxar, og þröngdu þeir enum keltnesku þjóðum á Englandi æ meir og meir, svo að þær voru um síðir hvergi ómeingaðar nema í Wales, á Írlandi og Skotlandi. Þar hjeldust þeir lengi við í frelsi fyrir Englum, en urðu þó um síðir að lúta í lægra haldi og sameinast Englakrúnu; engu að síður hafa þeir haldið enni keltnesku mállýzku sinni í alþýðumáli, en öll rit þeirra eru samin á ensku; siðir þeirra og athæfi er og ólíkt Englum.

Enir fyrstu stjórnendur Bretlands voru því keltneskir að kyni, eða enir eiginlegu Bretar, og voru sumir merkilegir menn, þótt eigi færi þeir út yfir Bretlandseyjar. Merkilegastur allra þeirra

var Artus konungur, sem víðfrægður var svo mjög í fornum sögum og skáldskap að undrum gegndi og gekk saga af honum um alla Norðurálfu og skreytt með ýkjum og ýmissi prýði; hann var uppi á 6tu öld. Þá kom stjórn Engilsaxa; þeirra merkilegastir eru Elfráður ríki og Aðalsteinn. Elfráður var vitur konungur og lærður vel, og eru til mörg rit og kvæði eptir hann; Aðalsteinn festi ríkisveldi Engla með Brunanborgarbardaga (927); þar voru þeir Egill og Þórólfur Skallagrímssynir með honum í orrustunni og er henni bezt lýst í Egilssögu af öllum fornum ritum sem um þenna atburð tala; þar vann Aðalsteinn fagran sigur móti ofurefli liðs, og Egill kvað um hann: »nú lýtr hæst und hraustum hreinbraut Aðalsteini«, [og þáði af konungi sóma mikinn og ofa fje.] Lengi rjeðu Danir Englandi og þjáðu landsmenn, þar til þeir brutust undan ánauð Dana; voru það helzt Sveinn tjúguskegg og Knútur ríki, sem veittu mestan yfirgang, og af því kom sú ímyndan inn hjá Dönum og síðan Norðmönnum, að þeir ætti til ríkis að kalla á Englandi, og fyrir því fór Haraldur harðráði til Englands frá Noregi með flota mikinn til að vinna England, en fjell við Stafnfurðubryggju (1066) og fjell þar þvínær allt stórmenni Norðmanna með honum; þótti mönnum þetta óþarfaför, sem Þjóðólfur kvað: »Bauð þessa för þjóðum þarflaust Haraldr austan«. Sama ár komst Vilhjálmur Bastarður til valda og stofnaði Normannaríki á Englandi, var það svo kallað af því Vilhjálmur var upprunalega norskur að ætt og kominn af Gönguhrólfi, er fekk Norðmandí af Karli hinum heimska til umráða. Vilhjálmur var mikill maður og sterkur, harður og herskár. Eptir hann komu konungar fyrst af hans ætt; en síðan voru konungar af frakkneskri ætt þeirri er Anjou eða Plantagenet hjet; þá kom Túdorsætt til ríkis, af henni voru merkilegastir stjórnendur Heinrekur hinn áttundi og Elísabet. Heinrekur konungur losaði Engla undan páfavaldi, en var þó sjálfur hinn versti maður, áttasinnum giptur, rak á burtu eða ljet drepa hverja konuna eptir aðra. Hann dó 1547. Elísabet var dóttir Heinreks og Önnu Boleyn og var framan af æfi sinni skoðuð sem óskilgetið barn og höfð í fyrirlitningu; þegar hún komst til valda, gerðist hún skörungur mikill og stýrði ríkinu röggsamlega. Engum vildi hún giptast þótt margir yrði til að biðja hennar. Hún ljet drepa Maríu Stúart Skotadrottningu, og þykir það skyggja mjög á kosti hennar. Á hennar dögum var Shakspeare uppi, sem er kallaður mest sjónarleikaskáld. Eptir Túdorsætt komu Stúartar; af þeim var Karl enn fyrsti, sem Englar drápu fyrir yfirgang og órjettvísi; hafði Kromwell þá völd um hríð og kalladist verndari Englands, en var eigi konungur; hann var trúmaður mikill og harðstjóri. Jakob annar var síðastur konungur af þessari ætt og var rekinn frá völdum af Vil-

hjálmi enum 3. af Oraníu, og þá komu Oraníumenn til ríkis á Englandi; þeir voru þjóðverskir. Vilhjálmur konungur var frændi Vilhjálms enn fyrsta af Oraníu, sem getið er hjer að framan, einhvers ins mesta og merkilegasta manns og líkur honum að mörgu; eptir hann kom Anna mágkona hans til valda á Englandi, og var um þeirra daga mikill uppgangur Engla og velmegan. Eptir þau kom Hannóversætt; af henni er Viktoría drottning, sem nú situr að völdum síðan 1837; hún er fædd 1819. Undir hennar stjórn lögðu Englar í stríð í sameiningu við Frakka á móti Rússum og Tyrkjum og unnu þá; en síðan hafa þeir ekki gefið sig við utanríkis hernaði nema til þess að verja lönd þau sem þeir eigna sjer á Indíalandi. Þá var og 1858 lagður málþráðurinn fyrsti á milli Englands og Ameríku á hafsbotni þvert yfir Atlantshaf og þótti furðuverk.

## 27. Frá Rússum.

Alexander hinn fyrsti var keisari í Rússlandi þegar Napoleon herjaði, sem fyr er getið. Íbúar Rússaveldis eru ekki eintómir Rússar, heldur eru þar taldar hundrað þjóðir, sem hver talar sína tungu; má nærri því geta að margt muni vera þar misjafnt, því langflestir eru þeir hundheiðnir og ekki betur siðaðir en Skrælingjar, fara með galdra og fjölkynngi, og lifa í enni mestu eymd og andlegu volæði. Alexander keisari gerði sjer mikið far um að ráða bót á þessu ástandi þegna sinna og var góður stjórnari. Eptir hann kom til ríkis bróðir hans Nikolas hinn fyrsti, er átti í stríði við Persa og Tyrki og vann báða. Hann dó meðan á enu mikla stríði stóð sem kennt er við Krim og getið er hjer að framan, en Alexander hinn annar, sonur hans, kom þá til ríkis, og ræður hann enn. Báðir þessir stjórnendur hafa þókt merkilegir menn; en mjög hafa þeir spillt áliti sínu fyrir meðferð þeirra á Pólensmönnum, sem þeir hafa reynt til að svipta frelsi og þjóðerni móti guðs og manna lögum. Af því íbúar Rússlands eru yfir höfuð svo ómenntaðir, þá gengur og minni saga frá þeim, þótt margt sje merkilegt um þá að segja ef tala skyldi um háttu, þjóðerni og þess konar.

## 28. Frá Austurríki.

Austurríki er, eins og Rússland, samsafn af mörgum ólíkum þjóðflokkum, og eru þrír þeirra mestir og helztir: Þjóðverjar, Slavar og Ungarar. Má því nærri geta, að þessum enum ólíku þjóðum hafi ekki ætíð lyndt sem bezt saman, enda hefir og lengst af verið styrjaldarsamt í Austurríki einmitt af þeim

orsökum. Ungaraland hafði frá alda öðli verið konungsríki, og landsmenn mundu vel fornöld sína og vildu eigi þola að Þjóðverjar og keisaraættin kúgaði þá sem hunda, eða gerði þá að þrælum og mansmönnum, eins og við lá að yrði. Ut af þessu reis hið mikla stríð, milli Ungarn og Austurríkiskeisara, og var Kossút í því einna frægastur; en Ungarar hættu ekki fyrr en Austurríkisstjórn kannaðist við þá sem konungsríki jafnborið Austurríki, þó sami stjórnari væri í báðum. Seinna hafa Slavar í Bæheimi og fleiri löndum Austurríkiskeisara tekið til að hreifa því, hversu mjög þeir væri settir skör lægra í öllu en Þjóðverjar, og hafa þeir heimtað jafnrjetti; hafa útaf þessu risið miklar deilur á ríkisþingunum. Enir helztu atburðir í Austurríki á seinni tímum eru stríð þau sem áður er getið.

## 27. Frá Grikkjum.

Grikkland komst með tímanum í einhverja ena mestu niðurlægingu sem nokkurt land hefir í komizt. Eptir að Rómverjar höfðu yfirbugað Grikki, þá fór þeim sí og æ hnignandi, og á enum styrjaldarsömu tímum þjóðaflakkins óðu ýmsar þjóðir yfir landið, og veitti enginn viðnám, svo að þegar Tyrkir settust að í löndunum fyrir vestan Svartahaf, þar sem þeir byggja enn, þá lá beint við að þeir rjetti klærnar út eptir Grikklandi, og var þeim það lafhægt, því allur þjóðarandi var horfinn og fornöldin gleymd, enda fóru Tyrkir og með Grikki eins og aumustu þræla og þjáðu þá í margar aldir, urðu þeir þá svo illa á sig komnir, að menn skyldu ekki trúa að þetta væri afkomendur þeirra sem unnu á Persum við Salamis og Thermopylæ. Þegar í fornöld voru Grikkir víðsvegar dreifðir í kringum Miðjarðarhafið og enda víðar, og svo var og miklu seinna: þeir áttu heima víða fyrir utan Grikkland, og nú þegar þeir tóku illa að þola ánauð og þrælkun Tyrkja, þá stofnuðu þeir leynilega vinafjelag nokkurt (Hetairía), sem hófst í öndverðu árið 1795, og var þó aðgjörðalítið lengi frameptir, en smámsaman fóru Rússar, sem menn skyldu síst ætla, að styrkja Grikki að ýmsu leyti. Þó kom þetta ekki til af mannást eða elsku á menntun og rjettvísi, heldur af því að Rússar áttu alltaf í brösum við Tyrki og vildu gera þeim allan þann óhag sem unnt væri. Þá fór og vinafjelagið aptur vaxandi og um 1814 fóru Grikkir af alvöru að rakna við og hugsa um að reyna til að brjótast undan ánauðarokinu. Uppreistin hófst fyrst 1821 í Moldá og Blökkumannalandi undir stjórn Alexanders Ypsilanti og dreifðist skjótt út meðal allra Grikkja, en magnaðist náttúrlega mest á sjálfu Grikklandi. Samt lá við að Grikkir yrði undir, því Ibrahim Paska kom með skipaflota, tók Móreu og

brenndi allt og brældi; þá brutu og Tyrkir Aþenuborg og þröngdu Grikkjum svo mjög, að við sjálft lá að öll þjóð þeirra yrði að engu; bættist og þar við ósamlyndi þeirra og innbyrðis rifrildi. En er Tyrkir misbuðu Grikkjum svo, að þeir fengu ekki að njóta mannlegra rjettinda, þá skárust loksins stórveldin í leikinn og minntust þess, hve margt og mikið forfeður Grikkja hefði afrekað og hve mikið heimurinn ætti þeim að þakka; kom þar fram Völuspá. að »þá munu aptr undrsamligar gullnar töflur í grasi finnast«, það voru en fornu minni, sem menn þá minntust á og fundu aptur; og þá kom það og fram að ágætis feðranna skulu niðjarnir njóta í þúsund liðu. Frakkar, Englar og Rússar hlupu undir bagga með Grikkjum og börðust fyrir þá á móti hundtyrkjanum við Navarino og brömluðu og brendu allan hans flota svo að ekki voru eptir nema flekar og fjalir sundur rifnar og gegnumskotnar þvert og endilangt; fengu Tyrkir þar miklu glæsilegri sannanir um þeirra eigið argafas en þeir eiginlegu þurftu með; voru þeir þá gjörsamlega reknir út úr Grikklandi og lýst yfir enu lögmæta og verulega þjóðfrelsi Grikkja. Eins og forsjónin hafði látið fornöld Grikkja hlotnast hinn fagra ljóma skáldskaparins og annarar listanna prýði, þegar Hómer og Pindarus kváðu og sólin varpaði guðaljóma á Ólymps tinda, eins gleymdi hún þeim ekki heldur nú, því Byron lávarður, hið mesta skáld síðari tíma og gagntekinn af fegurð og ágæti fornaldarinnar, fórnfærði Grikkjafrelsi sjálfan sig og aleigu sína, er var stórfje, og af þeirri raun andaðist hann og er hjarta hans geymt í dýrðlegum smyrslum í silfurkeri á Grikklandi. Margt urðu Grikkir samt að þola af ósamlyndi og þeirri spillingu, sem þjóð þeirra var komin í eptir svo langa ánauð; þeir fengu fyrst konung af þjóðverskri ætt, en af þeirra eigin þjóð munu þeir ekki hafa þókzt geta tekið neinn, þó eðlilegra væri; þessi hinn fyrsti konungur hjet Ottó eða Óttarr, og rjeði hann þar landi langa hríð, frá 1833 til 1862, en hjelzt þá eigi lengur við fyrir óeirðum og ósamþykki landsmanna; síðan fengu þeir son Kristjáns ens níunda Danakonungs og situr hann nú þar að ríkjum, en margt þykir þar á trjefótum ganga, og Grikkir lítt viðráðanlegir.

---

# Fjórði kafli.

## I. Lýsing Íslands.

Ísland er eyland mikið í Atlantshafi og langt frá öllum löndum. Er sjáfardeilingin í kringum það þannig, að fyrir norðan land er Íshafið, en Grænlandshaf kallast það haf sem liggur í vestur og norður af Vestfjörðum; Atlantshaf gengur suður af Bjargtöngum, Breiðafirði og Faxaflóa, en Íslandshaf liggur milli Noregs, Færeyja og Austurlandsins. Hnattstaða þess er þannig, að það liggur á milli 63° og 67° norðlægrar breiddar; en sú lína, sem menn hugsa sjer hnöttinn skiptan með í tvo helminga, liggur í gegnum miðt Ísland, eins og sjá má á hnattbrjefinu. Norðurheimsskautsbaugurinn snertir tvo ena nyrðstu staði lands vors, sem eru Horn og Rifstangi; er lengstur dagur og lengst nótt þar 24 stundir, það er að skilja: sólín gengur þar ekki undir hafsbrún þegar lengstur er dagur, og kemur ekki upp þegar dagur er styztur.

Í lögun er Ísland eiginlega sporöskjumynduð eða aflöng kringla með allmiklum töngum út úr sumstaðar; eru Vestfirðir allir frá Gilsfirði og Bitru einu stórmikill þríhyrningsfláki út úr landkringlunni eða sjálfu meginlandinu; útkjálkar landsins eru og Langanes að norðan, Reykjanes að sunnan og Snæfellsnes að vestan.

Stærð Íslands er talin 1867 ferhyrningsmílur; þar af er bygt land 764, en jöklar 268. Frá Öndverðarnesi að vestan til Gerpis að austan eru 65 mílur (í beinni línu); frá Horni til Dyrhóla 50, frá Horni til Lauganess 46, frá Skagatá til Dyrhóla 41. frá Horni til Bjargtanga 19, frá Bjargtöngum til Öndverðarness 9, þaðan til Skaga á Reykjanesi 15, frá Reykjavík til Akureyrar 33, frá Langanesi til Reykjaness 62, frá Akureyri til Eskifjarðar 28;




VILH PACHT HELIOTYP

en mannavegir á milli þeirra staða, sem menn fara yfir land, eru miklu lengri, því þeir verða ekki farnir í beina línu eða sjónhending.

I. Frá Horni til Hrútafjarðar gengur landið í hoga og eru þar helztar víkur og firðir frá norðri til suðurs: *Látravík*, *Hrollaugsvík*, *Barðsvík*; þá er *Bolungarvík*, þá *Furufjörður*, *Þaralátursfjörður*, *Reykjarfjörður*, þar eru hverir við sjó fram; þá er *Skjaldabjarnarvík*, hún er svo kölluð af Hella-Birni, víkingi miklum og óvini Haralds konungs hárfagra, en hann kom fyrst í *Bjarnarfjörð* þar suður frá og með alskjölduðu skipi og var því kallaður Skjalda-Björn; fyrir sunnan og austan Bjarnarfjörð er höfði sá er Drangar heitir, og myndast af Drangahálsi, sem gengur í sjó fram úr Drangajökli; þá er *Drangavík*, þá *Eyvindarfjörður*, þá *Ófeigsfjörður*, þá *Ingólfsfjörður*, allir nefndir eptir landnámsmönuum; þá er *Norðurfjörður*, þá *Trjekyllisvík*; hún er svo kölluð af skipi því er Austmenn gerðu úr skipsflekum og kölluðu Trjekylli, og var haffært; þá er Reykjanes, þar eru hverir í flæðarmáli; þá er *Reykjarförður*, þá *Veiðileysa*; þá *Kaldbaksvík*, þá *Bjarnarfjörður*, þá *Steingrímsfjörður*, kallaður eptir Steingrími landnámsmanni, forföður Odds múnks þess er ritaði Ólafs sögu Tryggvasonar; þar komu Hjaltasynir og voru svo vel búnir þegar þeir gengu á þing að menn hugðu Æsi komna; þá er *Kollafjörður*, þá *Bitrufjörður*, báðir kallaðir eptir landnámsmönnum; Þorbjörn bitra var illmenni og myrði skiphrotsmenn til fjár. Þá er *Hrútafjörður*, þar fann Ingimundur gamli hrúta tvo og gaf firðinum nafn.

Frá Horni til Bjargtanga gengur landið í út og suður, og er þar nyrðst *Rekavík* og *Heljarvík*, þar vestur af eru *Fljót* og *Aðalvík*. Þá er flói mikill á milli Grænuhlíðar að norðan, en Stigahlíðar að sunnan; sá flói deilist af nesi miklu í tvo hluti, heitir hinn nyrðri *Jökulfirðir*, en hinn syðri *Ísafjarðardjúp*. Jökulfirðir eru *Hesteyrarfjörður*, *Veiðileysa*, *Lónafjörður*, *Hrafnsfjörður* og *Leirufjörður*; úti á nesinu er *Grunnavík* og þar suður og austur af Snæfjallaströnd norður með Ísafjarðardjúpi; er þar fyrst *Kaldalón*, þá *Ísafjörður* í stórum boga frá norðri til suðurs; vestanvert við hann er lítill fjörður, er kallast *Reykjarfjörður*, og Reykjanes á milli, þar var salt soðið úr sjó; þá er *Vatnsfjörður* annar fjörður lítill; þá er *Mjófifjörður*, *Skötufjörður*, *Hestfjörður*, *Seyðisfjörður*, *Alftafjörður*, *Skutilsfjörður*, *Bolungarvík*, allt smáfirðir; þar nam Þuríður sundafyllir land og setti Kvíarmið á Ísafjarðardjúpi og seiddi til að þar væri ávallt fullt af fiski, og fekk hún í staðinn á kollótta af hverjum bónda í Ísafirði. Fyrir sunnan og vestan Stigahlíð er *Skálavík*, þá *Súgandafjörður*, hann nam Hallvarður súgandi, er var í

Hafursfjarðarorustu móti Haraldi konungi hárfagra. Þá er *Önundarfjörður*, kallaður eptir Önundi Víkingssyni, landnámsmanni; þá *Dýrafjörður*, nefndur svo eptir Dýra, ágætum manni er þar nam land, þar var Gísli Súrsson; þá er *Arnarfjörður*, svo nefndur af Erni frænda Geirmundar heljarskinns; Arnarfjörður skiptist innst í tvo hluti, er innst í enum nyrðra *Borgarfjörður*, en hinn syðri kvíslast í *Geirþjófsfjörð, Trostansfjörð, Reykjarfjörð* og *Forsfjörð*, alltsaman jafngömul nöfn landnámstíð eins og flest önnur örnefni vor. Fyrir sunnan Arnarfjörð er tvískiptur flói, sem hinn nyrðri hlutinn heitir *Tálknafjörður* en hinn syðri *Patreksfjörður*; er hinn fyrrnefndi svo kallaður af Þorbirni tálkna, er út kom með Örlygi sem síðar bjó að Esjubergi, en hinn síðara fjörðinn kallaði Örlygur eptir Patreki biskupi enum helga, og var þar einn vetur áður hann fór suður á land.

Fyrir Bjargtöngum liggur röst mikil, er *Látraröst* heitir; milli Bjargtanga á Vestfjörðum og Öndverðarness á Snæfellsnesi er *Breiðifjörður* hið fremra opið haf, en hið innra alsettur eyjum og alskipaður fjörðum og nesjum. Er þar fyrst að norðanverðu og vestast Rauðisandur og Skor, þar sem Eggert lagði út og hvarf, þá er Barðaströnd; þá taka firðir við: fyrst *Vatnsfjörður*, þá *Kjálkafjörður*, þá *Kerlingarfjörður*, þá *Skálmarfjörður*, svo nefndur af Skálm, meri Gríms Ingjaldssonar, föður Selþóris, og fleiri örnefni eru þar af Skálm; þá eru *Kvígyndisfjörður, Kollafjörður, Gufufjörður*, nefndur eptir Katli gufu; þá *Djúpifjörður*, *Þorskafjörður*, frægur í sögum; þá *Berufjörður*, *Króksfjörður*, og *Gilsfjörður*. Syðri hluti Breiðafjarðarbotna heitir *Hvammsfjörður* og tekur þá við Snæfellsnes; á því eru að norðanverðu *Álftafjörður, Kolgrafafjörður* og *Grundarfjörður*, en *Ólafsvík* yzt á nesinu.

Frá Bitrufirði og Hrútafirði liggur landið í austur og norður yfir að Langanesi, og eru á þeirri leið sjö stórir og breiðir firðir. Á milli Stranda í Strandasýslu og Skagastrandar er flói mikill, er nefnist *Húnaflói* (Strandaflói næst Strandasýslu); inn af honum gengur Hrútafjörður og þeir firðir á Vestfjörðum sem þegar eru taldir. Fyrir austan Hrútafjörð er *Miðfjörður*, þá *Húnafjörður*. Bæði Húnaflói og Húnafjörður draga nafn sitt af húnum þeim er Ingimundur gamli fann á Húnavatni og færði Haraldi konungi hárfagra. Þá er *Skagafjörður*, þá *Eyjafjörður*. Á enu mikla nesi, sem gengur út milli beggja þessara fjarða, eru þrír smáfirðir: *Siglufjörður*, *Hjeðinsfjörður* og *Ólafsfjörður*. Fyrir austan Eyjafjörð er *Skjálfandafjörður*, hann er svo nefndur af Skjálfanda og Skjálfandafljóti, því fossarnir í því eru svo aflmiklir að jörð þykir skjálfa umhverfis (?); þá er *Axarfjörður*, er svo nefnist af öxi þeirri er Einarr, dóttursson Torfeinars jarls, setti upp í

Reistargnúp; þá er *Þistilfjörður*, kallaður eptir Katli þistli landnámsmanni. Inn af þeim firði gengur *Lónafjörður* vestanvert við Langanes.

Frá Langanesi og að Stokknesi við Hornafjörð liggur landið í boga, sem kemst lengst í austur þar sem heitir Gerpir; þar er strönd mjög vogskorin og fjarðalögunin áþekk því sem er á Vestfjörðum, en engir stórfirðir. Nyrðst við Langanes er *Finnafjörður*, þá *Miðfjörður*, þá *Sandvík*; þá er *Núpsfjörður*, þá *Vopnafjörður*, kallaður svo af Eyvindi vopna. Þá er *Hjeraðsflói*, og falla þar í Jökulsá á Brú og Lagarfljót; þá eru frá norðri til suðurs *Borgarfjörður*, *Loðmundarfjörður*, *Seyðisfjörður*, *Mjóifjörður*, *Norðfjörður*; þá er *Reyðarfjörður* og *Eskifjörður*, sem gengur inn af honum; þá eru *Fáskrúðsfjörður*, *Stöðvarfjörður*, *Breiðdalsvík*; þá *Berufjörður*, *Hamarsfjörður*, *Alftafjörður* og *Lónfjörður*; fyrir vestan Stokknes er *Hornafjörður*.

Þá eru engir firðir allt í frá Hornafirði og vestur að Reykjanesi; eru þar ægisandar og lágar strendur, sem ekki skiptast nema af enum breiðu árósum sem liggja þar út í hafið. *Krísuvík* og *Grindavík* eru á Reykjanesi, en eru engir firðir.

Á milli Skaga á Reykjanesi og Snæfellsness liggur *Faxafjörður* eða *Faxaflói*, sem landnámamenn kölluðu í skopi Faxaós, því þegar Flóki kom fyrst að landinu, þá var með honum suðureyskur maður, sá er Faxi hjet: »þá ræddi Faxi um: þetta mun vera mikit land er ver höfum fundit; her eru vatnföll stór. Síðan er þar kallaðr Faxa-ós«. Inn af Faxaflóa ganga þessir firðir og víkur frá Skaganum: *Keflavík*, *Njarðvík*; *Hafnarfjörður*, *Skerjafjörður*, *Kollafjörður*, *Leirárvogar* og *Borgarfjörður*, sem er einna frægastur fjörður á Íslandi, því þar voru Skallagrímur og Egill. Frá Borgarfirði og að Öndverðarnesi eru engir firðir merkilegir nema *Straumfjörður*; yzt á Snæfellsnesi er *Breiðavík*, *Dritvík* og *Beruvík*.

II. Ísland er mjög fjöllótt og má skipta því að landslaginu til í hluti þá, er nú skal greina:

A. *Hálendið*; suðurbrún þess má telja *Vatnajökul* og jökla þá, er liggja í vestur frá honum. Að norðan og austan gengur hálendi þetta víðast hvar að sjó fram, og liggja há fjöll svo að kalla fram með hverjum firði. Fyrir botni Húnafjarðar er þó undirlendi nokkurt, og heitir þar *Asar* og *Þing*; þar liggja og margir dalir suður til fjalla. Fram af *Skagafirði* er og hjerað mikið, sem heitir *Skagafjörður*, er það beggja vegna við *Hjeraðsvötnin*; sjettlent er þar, fagurt og grösugt; þaðan ganga margir dalir suður í fjöllin. Upp frá *Eyjafirði* ganga dalir bæði

í vestur og suður. Fram af *Skjálfanda* er *Bárðardalur* og *Aðalreykjadalur*. Upp af *Hjeraðsflóa* eru *Jökuldalur* og *Fljótsdalshjerað*.

Hið efra er hálendi þetta eigi kannað til hlítar, en það menn til vita er það gróðurlaust, jöklar, hraun og sandar. Flestir eru jöklar sunnanfram á landinu; þeir eru: *Þrándarjökull* og skammt frá honum á takmörkum Suðurmúlasýslu og Skaptafellssýslu *Hofsjökull*, *Vatnajökull* eða *Klofajökull*; það er afar mikill jökulfláki, hjer um bil 150 ferhyrningsmílur að stærð; liggur hann upp af Austurskaptafellssýslu. Austan og sunnan á Vatnajökli heitir *Heinabergsjökull*, þá nokkru vestar *Breiðamerkurjökull*, hann er skriðjökull. Næstur honum er *Öræfajökull*; það er hæst fjall á Íslandi, 6,341 fet; þá *Skeiðarárjökull* og vestast *Skaptárjökull*. Í útsuður frá Vatnajökli gengur fjallgarður einn nær því fram að sjó. Vestan til á fjallgarði þessum er *Torfajökull* og í suður frá honum *Merkurjökull* og þá *Mýrdalsjökull*; í honum austanverðum er Kötlugjá. Vestur frá Mýrdalsjökli er *Eyjafjallajökull*; norður frá honum er *Tindfjallajökull* og *Hekla*, hið nafnfræga eldfjall; hún er vestur frá Torfajökli, en norður frá Eyjafjallajökli; stendur hún á fjallási nokkrum, en gnæfir yfir hvern hnúk; hún er 20 mílur í austur frá Reykjavík. Hekla hefir gosið 19 sinnum er menn hafa sögur af, og hefir myndast í kringum hana afar breitt hraun og hátt. Fyrir vestan Vatnajökul er *Tungnafellsjökull*; á milli þeirra jökla er Vatnajökulsvegur austur á Jökuldal. Fyrir vestan Tungnafellsjökul er hálendið lægra og er þar vegur yfir milli Suðurlands og Norðurlands, upp með Þjórsá að sunnan og niður með Skjálfandafljóti að norðan; sá vegur heitir *Sprengisandur*. Fyrir vestan Sprengisand er *Arnarfellsjökull* eða *Hofsjökull*; hann er hjer um bil á miðju landinu. Þá er *Langjökull* í vestur frá Arnarfellsjökli; heitir landsunnan á honum *Bláfellsjökull*, að sunnan *Skjaldbreiðarjökull*, að vestan *Geitlandsjökull* og *Balljökull* þar norður af. Vestur af Balljökli er *Eiríksjökull*, en í vestur frá Geitlandsjökli er *Ok*. Dalur greinir Ok og Geitlandsjökul og heitir *Kaldidalur*, þar er vegur yfir. Suður undan Skjaldbreiðarjökli er *Hlöðufell* og rjett fyrir vestan Skjaldbreið. Þá er *Snæfell* í útnorður frá Hofsjökli, en norður af eystri enda Vatnajökuls; það er annað hæst fjall á Íslandi, 5,808 fet. Þá er þaðan beint í útnorður *Herðubreið*; það fjall er 5,290 feta hátt. Þá er enn *Tindafell* í landnorður frá Tungnafellsjökli og *Trölladyngjur* þaðan í landnorður. Norðan fram á hálendinu eru aðeins 3 jöklar: *Myrkárjökull* á nesi því, er gengur fram milli Skagafjarðar og Eyjafjarðar, beint í vestur frá botni Eyjafjarðar, *Unadalsjökull* nokkru norðar á hinu sama nesi, og *Vindheimajökull* austur frá

Myrkárjökli. Auk þessara jökla má enn geta *Kröflu*; það er fjallás norðantil á hálendinu í suður frá Axarfirði; hefir hún fyr gosið eldi. Þá er *Tindastóll* því nær fram við sjó að vestanverðu við Skagafjörð. Hæst fjall norðan til á fjalllendinu er *Rimar*, 4,020 fet.

Allt er hálendi þetta gróðurlítið og aðeins fjárbeit á því sumstaðar á sumrum; norður frá öllum jöklum er eigi annað en sandar og hraun. Hin stærstu hraun á hálendi þessu eru: *Ódáðahraun*, norður frá Vatnajökli; það nær vestur að Skjálfandafljóti og austur að Herðubreið; það er mest hraun á Íslandi og talið 50 ferhyrningsmílur, en lítt er það kannað enn. Hin önnur helztu hraun eru: *Hágöngur* suður frá Tungnafellsjökli; *Kjalhraun* vestan undir Arnarfellsjökli, *hraunið í kringum Heklu* og er það mikið í allar áttir frá fjallinu; *Hallmundarhraun* fyrir norðan og vestan Eiríksjökul. Mörg minni hraun eru við Mývatn, um Laxárdal og Aðalreykjadal.

Austur og norður af Ódáðahrauni eru öræfi mikil beggja megin við Jökulsá í Axarfirði; eru það öldumyndaðir sandar en grasblettir innan um; heita fyrir norðan ána Möðrudalsöræfi, en vestan fram Mývatnsöræfi. Þá er *Sprengisandur* vestur frá Ódáðahrauni, milli þess og Arnarfellsjökuls; en norður af Langjökli er *Stórisandur*. Fyrir vestan hann og út og norður af Eiríksjökli eru heiðar miklar; heitir syðst og austast *Arnarvatnsheiði*. Yfir Arnarvatnsheiði og Stórasand liggur þjóðvegur sunnan frá Borgarfirði og norður í Húnavatnssýslu og Skagafjörð. Þá er næst í vestur *Tvídægra* og *Holtavörðuheiði* vestast. Um Tvídægru liggur vegur úr Hvítársíðu í Miðfjarðardali, en um Holtavörðuheiði úr Norðurárdal til Hrútafjarðar. Út frá hálendi þessu liggja fjöll fyrir austurlandi og norðurlandi út að sjó meðfram hverjum firði; eru þau víða gróðurlítil, en í þeim ofanverðum hamrabelti, og hlíðar að neðan, víða grýttar. Sumstaðar eru hamrar með sjó fram, en sumstaðar grasivaxnir hálsar.

Frá Holtavörðuheiði gengur fjallgarður í hávestur fram á milli Faxaflóa og Breiðafjarðar út á Snæfellsnes; er hann eigi breiður og sumstaðar eigi hár; hæstur tindur á honum er *Snæfellsjökull*; hann er 4,577 feta að hæð; *Baula* er annar merkur tindur á fjallgarði þessum; hún er í vestur frá Norðurárdal, rjett fyrir norðan veg þann, er liggur um Bjarnadal og Bröttubrekku úr Norðurárdal til Miðdala.

B. Vestur frá Gilsfirði heldur fjallgarðurinn áfram, en breikkar þá aptur og kvíslast í greinir mjög margar, fjall gengur þar út á milli hvers fjarðar, þó eru 2 fjallgarðar þar helztir: stefnir annar norður á milli Isafjarðarsýslu og Strandasýslu; á honum er *Drangajökull*, og gengur hann niður að sjó fyrir botninum á

Kaldalóni. Hinn fjallgarðurinn stefnir hjer um bil í vestur og greinir Isafjarðarsýslu og Barðastrandarsýslu, en þá kvíslast hann aptur og stefnir annar armurinn í útnorður meðfram öllu Isafjarðardjúpi; á þeirri grein er *Glámujökull* fyrir botninum á öllum fjörðum þeim, er hverfa vestur úr Isafjarðardjúpi. Hin kvíslin stefnir enn í vestur og má telja yztu odda hennar *Bjargtanga* norðanvert við Breiðafjörð. Landið allt fyrir norðan og vestan Gilsfjörð er kallað einu nafni Vestfirðir, er þar hvergi undirlendi svo teljandi sje. Bygð er þar öll strandlengis og í dölum og dalamynnum; á Vestfjörðum er jörð gróðurlítil og hrjóstrug, en víða er þar kjarngott gras, einkum handa sauðfjenaði; sumstaðar eru fjöllin þverhnýpt ofan að sjó og heita það Björg. Hornbjarg á Ströndum og Látrabjarg eru þeirra merkust.

C. Sunnanvert undir hálendinu, meðfram suðurströnd landsins er láglendi; hefst það vestanvert við Hornafjörð, og nær vestur að fjallgarði þeim, er liggur úr hálendinu út á Reykjanes. Austast er hálendi þetta mýrlent, en mjókkar, er dregur að Breiðamerkursandi. Vestan undir Öræfajökli verður láglendi meira. Þar eru sandar miklir í suður frá Skeiðarárjökli og heitir *Skeiðarársandur*, en þar vestur af *Brunasandur*; en bygð er þar efra. Fyrir vestan Eyjafjallajökul breiðkar bygðin mest í Rangárvalla- og Árness-sýslum.

Víða eru mikil hraun á undirlendi þessu, enda hafa eldgos verið mest í þeim hluta landsins. 1783 kom eldur upp í Skaptárjökli, og rann hraun beggja megin Síðunnar. Vesturpartur þess hefir runnið suður um Landbrot og liggur þar yfir landi, sem áður var fagurt graslendi. Hið annað mesta hraun er *Þingvallahraun*, sem runnið hefur úr Skjaldbreið í útsuður og niður að Þingvallavatni og fram með því.

D. Þá má telja einn hluta landsins fjallgarð þann, sem liggur suður frá hálendinu út á Reykjanes og land allt vestan fram með honum að Hvalfjarðarbotni. Nyrðst á fjallgarði þessum heitir Bláskógaheiði, þá Mosfellsheiði og því næst Hellisheiði. Fjallgarður þessi er mjór og landið vestur undan eigi allbreitt. Frá Reykjanestá og að Hafnarfirði er því nær eintómt hraun, er þar bygð aðeins með sjó fram, en slægjulönd eigi önnur en túnin.

Norðan fram með Hvalfirði liggur fjallgarður út úr hálendinu og lækkar þegar út með firðinum kemur, og hverfur því nær, en hækkar þó aptur og verður allhátt fjall, er heitir Akrafjall, það er á Akranesi. Norðar á fjallgarði þessum gengur Hafnarfjall fram að Borgarfirði.

E. Fyrir norðan fjöll þessi er undirlendi mikið fyrir botni Borgarfjarðar og vestan fram með honum; heitir eystri hluti hjeraðs þessa *Borgarfjörður*, en hinn vestari *Mýrar*. Fyrir utan

Mýrar ganga fjöll að sjó fram, og er þar útfiri mikið, og heita *Löngufjörur*; eru þær 2 mílur á lengd og 1 á breidd. Fram af Borgarfirði liggja margir dalir.

Merkust hraun á þessum hluta landsins eru á Skarðsheiði vestari fyrir ofan Mýrar; *Eldborgarhraun* við landnorður-hornið á Löngufjörum; dregur það nafn af borg nokkurri í hrauninu, er Eldborg heitir; þar var bær til forna, og kom þar upp eldurinn; sunnan og austan undir Snæfellsjökli er hraun, og heitir *Búðahraun* austast.

Margir eru hellrar á Íslandi, en merkastur þeirra er *Surtshellir*; hann er sunnanvert við Norðlingafljót, vestur frá Eiríksjökli, í hrauni því er gengur vestur og suður úr Hallmundarhrauni; hann er talinn 839 faðma langur, 50 feta breiður og 34 feta hár, en 4 göt eru á honum; út úr honum liggja 3 hellrar.

Fjöllin á Íslandi eru sum regluleg, en sum óregluleg. Regluleg kalla menn hin upprunalegu fjöll, eða þau, er í öndverðu hafa hlotið lögun þá, er þau nú hafa. Eptir þeim liggja mörg hamrabelti, stundum 20 til 40 að tölu. Hin óreglulegu fjöll eru lík haugum úr urð, grjóti, eða leir; hafa jarðeldar hleypt þeim upp, eða breytt þeim; þau eru svört, rauðleit, eða gul. Mörg fjöll hafa gosið eldi, svo sem *Hekla*, *Katla*, *Krafla*, *Hrafntinnufjall*, *Leirhnúkur*, *Sandfell*, *Herðubreið*, *Trölladyngjur*, *Kerlingarfjöll*, *Skjaldbreið*, *Skarðsheiði*, *Henglafjöll* og fjallgarður sá, sem þaðan er í útsuður, og fleiri. Jöklar hafa og gosið, svo sem *Öræfajökull* o. fl. Eldur hefir og komið upp víðar en í fjöllum, svo sem í *Bjarnarflagi*, *Hrossadal*, *Grímsvötnum* og víðar.

III. Ár og fljót á Íslandi eru mörg og mikil, en engar eru þær ár sem gengar sje hafskipum, enda eru þær flestar straumharðar. Í sumum ám er jökulvatn, ískalt og hvítleitt sem skolavatn. Þessar ár eru merkastar:

Suður um landið falla:

1. *Jökulsá í Loni*, er kemur úr Vatnajökli, og fellur í Papafjörð.
2. *Hornafjarðarfljót* kemur úr Vatnajökli og fellur í Hornafjörð.
3. *Jökulsá á Breiðamerkursandi.*
4. *Kolgríma.*
5. *Skeiðará* kemur úr Skeiðarárjökli og fellur um Skeiðarársand.
6. *Núpsvötn.*
7. *Skaptá*, hún kemur úr Skaptárjökli, rennur eptir Skaptárgljúfrum og nefnist þá *Eldvatn.*
8. *Kúðafljót*, milli Álptavers og Meðallands.

9. *Fúlilækur*, eða *Jökulsá á Sólheimasandi*; hún kemur úr Mýrdalsjökli.
10. *Markarfljót*, það kemur úr Torfajökli, Merkurjökli og Goðalandsjökli; úr því rennur kvísl vestur í Þjórsá og heitir hún *Þverá*, en norðan í Þverá rennur *Rangá* hin eystri og vestari. Markarfljót rennur í 2 kvíslnm til sjáfar og heitir hin vestari *Affall*.
11. *Þjórsá*, hún kemur undan Arnarfellsjökli og Tungnafellsjökli og fellur í sjó vestanvert við Rangársand. Upp með henni er Sprengisandsvegur; hún er 24 mílur á lengd.
12. *Hvítá* eða *Ölfusá*; meginupptök hennar eru í vatni einu austan undir Bláfellsjökli er heitir Hvítárvatn. Niðri í bygð rennur í hana að austan *Laxá*, að vestan *Tungufljót*, og nokkru neðar *Brúará*. Neðar rennur í hana ós nokkur eða affall úr Þingvallavatni er *Sog* heitir; eptir það heitir hún Ölfusá.

Vestur um landið falla:

13. *Elliðaár*; þær falla í Kollafjörð; í þeim er mikil laxveiði.
14. *Hvítá í Borgarfirði*; hún er stærst á vesturlandi; kemur hún að nokkru leyti undan Eiríksjökli, og fellur í Borgarfjörð.
15. *Norðurá* fellur í Hvítá.
16. *Alptá*.
17. *Hítará*.

Norður um landið falla:

18. *Blanda*; kemur hún undan Arnarfellsjökli og Langjökli og fellur í Húnafjörð; hún er 15 mílur á lengd.
19. *Hjeraðsvötn*; þau koma úr Arnarfellsjökli og renna í Skagafjörð.
20. *Hörgá*, hún rennur eptir Hörgárdal í Eyjafjörð.
21. *Eyjafjarðará* rennur í Eyjafjörð.
22. *Skjálfandafljót*; það er talið 3. lengst á á Íslandi, 24 mílur, kemur það úr Tungnafellsjökli og fellur í Skjálfanda.
23. *Laxá*; hún kemur úr Mývatni og rennur um Laxárdal og Aðalreykjadal út í Skjálfanda.
24. *Jökulsá á Fjöllum*; hún hefur upptök sín í Vatnajökli og fellur í Axarfjörð; hún er lengst á á Íslandi, 25 mílur.

Austur um landið falla:

25. *Jökulsá á Brú*; hún kemur undan Vatnajökli, fellur eptir Jökuldal og út í Hjeraðsflóa; hún er 15 mílur á lengd.
26. *Lagarfljót*; það kemur og úr Vatnajökli; fellur eptir Fljóts-

dalsbjeraði og í Hjeraðsflóa; það er mikið vatnsfall og breitt. Auk þessara eru margar minni ár og þverár.

Margir fossar eru á Íslandi, og eru þeirra helztir: *Skógafoss* undir Eyjafjöllum, *Seljalandsfoss* vestan undir Eyjafjöllum, *Ullarfoss* og *Goðafoss* í Skjálfandafljóti. Goðafoss er vatnsmestur og tignarlegastur, en Skógafoss einna hæstur og fríðastur.

*Stöðuvötn* á Íslandi eru allmörg, en engin mjög stór. Stærst eru:

1. *Þingvallavatn*, í útsuður frá Skjaldbreið; er það 5 mílur ummáls og alldjúpt; í því er hólmi einn, er nefnist Sandey.
2. *Hvítárvatn* austan undir Bláfellsjökli.
3. *Fiskivötn*; það eru mörg vötn vestan undir Skaptárjökli; hið stærsta þeirra heitir *Stórisjór*.
4. *Skorradalsvatn* í Skorradal í Borgarfirði.
5. Norður af Eiríksjökli eru og mikil vötn, er einnig eru nefnd *Fiskivötn*, og er *Arnarvatn* þeirra stærst. Við fiskivötn höfðust sekir skógarmenn opt við í fornöld og veiddu þar sjer til matar.
6. Fyrir botninum á Húnafirði eru 3 vötn; heitir hið vestasta: *Vesturhóp*, þá *Miðhóp*; það er stærst, en hið austasta er *Húnavatn*; af því dregur Húnavatnssýsla nafn, og er um það getið hjer að framan.
7. *Mývatn* í suðurhluta Þingeyjarsýslu: það er mest stöðuvatn á Íslandi, 8 mílur ummáls; í því eru 34 hólmar.

Mörg smávötn eru þar að auki hingað og þangað um landið, en flest eru þau á Tvídægru: er það gamalt mál, að vötu þau, er þar eru, sjeu óteljandi.

Margir hverar eru á Íslandi og er vatnið í þeim öllum heitt, en þó eigi jafnheitt í öllum; eru það jarðeldar, er hitanum valda. Merkastir allra hvera á Íslandi eru: *Geysir* og *Strokkur*; þeir eru í Haukadal, austantil og ofantil í Árnessýslu, 7 mílur í útnorður frá Heklu. Þeir gjósa vatni hátt í lopt upp. Geysir er 80 feta djúpur, en vatnið í honum 60 fet; skálin er að ofan 50 fet að þvermáli. Hann hefir gosið optast einu sinni á dag, og hefir þó eigi verið ávallt jafnlangt á milli gosanna; dunur miklar heyrast undan hverju gosi hans niðri í jörðinni. Þegar hann gýs, er vatnsstrókurinn um 100 feta hár í lopt upp og 46 fet ummáls. Nú gýs hann heldur sjaldnar. Strokkur er skammt frá Geysi; hann er miklu minni um sig og spýtir vatninu eigi eins hátt og Geysir, en hann gýs optar og er þó eigi jafnlangt á milli gosanna. Í grennd við þessa þjóðkunnu hvera eru 50 smáhverar. Þá eru hverar margir á Reykjum í Ölfusi og er einn þeirra merkastur og kallaður *Litli Geysir*; hann gýs sjöttu hverja stund nótt og dag, og má taka dagsmörk á honum; vatninu spýr hann um 20 fet upp. Margir hverar eru og í Reykholtsdal í

Borgarfirði; þeirra merkastir eru: *Skrifla* hjá Reykholti og *Sturlureykjahver*. Alls eru þar 50 hverar. þá eru *Reykjahverar* í Reykjahverfi, og er *Uxahver* þeirra merkastur; hann spýr vatninu 6 álnir 2 mínútur í senn. þar að auk eru margir hverar til og frá nm landið.

Merkastar *ölkeldur* á Íslandi eru *Rauðamelsölkelda* hjá Rauðamel í Hnappadalssýslu, og sú, sem er á Ölkelduhálsi í Ölfusi. þá er ölkelda í Staðarsveit, Lýsuhálsölkelda o. fl. Vatnið í ölkeldunum er dökkrautt á lit, barkandi og beiskt; það er haft sem lyf við ýmsum sjúkdómum.

IV. *Loptslag* á Islandi er fremur kalt, með því landið liggur svo norðarlega á hveli jarðar, en þó eigi eins kalt og von væri á. Meðalkuldi á Suðurlandi á vetrnm er rúmt 1 stig á hitamæli Reanmeurs, en meðalhiti á sumrum rúm 9 stig. þar á móti er meðalkuldi í Pjetursborg á Rússlandi 7 stig, en meðalhiti 12 stig, og þó er Pjetursborg sunnar. Veldur það því, að Ísland er eyland, og hið mikla haf umhverfis dregur úr kuldanum og það, að grein af Golfstrauminum liggur að landinu, eða skammt frá því. Á hinn bóginn er veturinn langur, en sumarið stutt, af því að landið er svo norðarlega. Miklu er kaldara fyrir norðan land og austan en fyri sunnau, og munar það 3 stigum. Mun þessum veldur straumur, er gengur norðan úr Íshafi og ber hann opt með sjer hafísinn, en honum fylgir jafnan kuldi, en jöklarnir valda kulda á Austurlandi. Jöklarnir byrja þegar 3000 fet fyrir ofan sjáfarmál. Upp til sveita er mikill hiti á sumrum, en við sjáfarsíðu eru hitar minni. Mjög er rigningasamt á Íslandi, einkum á Suðurlandi. Veðuráttufar er einnig breytilegra og óstöðugra, en í flestum öðrum löndum. þrumur og eldingar eru sjaldgæfar, og koma helzt á vetrum fyrir sunnan land. Aptur eru norðurljósin því tíðari og opt yndisleg á að horfa.

Syðst á Íslandi er *sólargangur* styttstur um 4 stundir, en lengstur því nær 21 stund. Nyrðst á landinu kemur sól ekki upp fyrir sjóndeildarhring vikum saman um sólhvörf á vetrum, enda sezt hún eigi um sólhvörf á sumrum.

V. Á fornum sögum, skjölum og örnefnum má sjá, að *kornyrkja* hafi verið á Islandi, en nú er hún engin. Hið sama má segja um *skógana*, að miklir birkiskógar hafa verið víða um landið, en nú eru þeir því nær horfnir. Hinn helzti skógur er *Núpstaðaskógur* fyrir austan Núpsvötn; um hann lykja jöklar á 3 vegu; hinar litlu leifar af skógum eru víða hafðar til kola og eldsneytis. *Mótekja* er víða góð, einkum á Suðurlandi; á nokkrum stöðum er og *surtarbrandur*. þá eru *brennisteinsnámar* suður frá Kröflu, við Mývatu, og eru kallaðir *Hlíðarnámar*, og aðrir lengra suður í fjöllum, sem kallaðir eru *fremri námar*.

Hinir þriðju námar eru fyrir sunnan land í norður frá Krísuvík, *Krísuvíkurnámar*. Mest er landið notað til heyskapar og hagbeitar, og er kvikfje aðalstofn landsmanna, einkum sauðfjenaður. Allmikið er og af hestum, einkum um Rangárvöllu, Borgarfjörð og Skagafjörð. Dýraveiðar eru að kalla engar á Islandi, enda eru þar engin villudýr nema refar og hreindýr. Rjúpur eru veiddar hvervetna og fuglar skotnir. Arðmestur allra fugla á Islandi er æðarfuglinn; verpur hann að kalla á hverjum hólma kring um Ísland. Þá er lundatekja mikil, einkum á Vestmannaeyjum og Breiðafirði. Mikil not hafa menn einnig af bjargfugli, einkum á Vestmannaeyjum, Drangey og Grímsey, Látrabjargi, Hornbjargi og víðar. Fiskiveiðar, einkum hákarla- og þorskveiðar, eru miklar við flestar strendur landsins, og þó mestar við Faxaflóa og á Vestfjörðum; vantar þó sumstaðar hentug veiðarfæri, en skip flest lítil og opin. Silungsveiði er í ám og flestum vötnum, og laxveiði í flestum stórám, nema á Vestfjörðum. Selveiði er víða hjer við land, en mest á Breiðafirði. Láturselur er mest veiddur í nótum Vöðuselur er skutlaður, eða skotinn; útselur er rotaður á skerjum; er það mest á Breiðafirði. Opt rekur dauða hvali á land og víða er mikill trjáreki.

VI. *Landsbúar* eru nálægt 70 þúsundum að tölu; mæla þeir allir íslenzka tungu og eru Lúterstrúar. Einn látínuskóli er í landinu, og skóli handa þeim, er prestar ætla að verða, eða prestaskóli, en þeir, sem ætla sjer annað að nema, fara flestir til Kaupmannahafnar. Alþýða á Íslandi er talin betur að sjer í bókfræði en alþýða í flestum öðrum löndum, og eru þar þó engir alþýðuskólar. Flestum siðuðum þjóðum eru Islendingar skemur komnir í iðnaði og verknaði, og mætti miklu meira vinna og með hægra móti, ef áhugi og kunnátta væri meiri, og verkfæri betri.

Aðalatvinnuvegir Islendinga eru kvikfjárrækt, eða fiskiveiðar, eða hvortveggja. Fáir lifa á iðnaði.

VII. *Alþing* hefir löggjafarvald í öllum þeim málum er Ísland varða. — Í landinu sjálfu er landshöfðingi æðstur embættismaður; þar eru 2 amtmenn, annar yfir Suður- og Vesturamtinu, hinn yfir Norður- og Austuramtinu. Þá er Landfógeti, er hefir á hendi reikninga landsins og er hann jafnframt bæjarfógeti í Reykjavík. Sýslumaður er í hverri sýslu, heimtir hann skatta, skiptir örfum, dæmir mál í hjeraði. Þá eru kosnir í hreppsnefnd 3, 5 eða 7 menn; eiga þeir að annast öll málefni þau, er snauða menn varða og sveitina alla. Þá eru 6 til 10 menn kosnir í sýslunefnd, auk sýslumanns, sem er oddvitinn; hún hefir umsjón um sveitamálefni sýslunnar, vegabætur og fleira. — Þá er amtsráð, og er í því amtmaðurinn, sem er forseti, og 2 kjörnir menn;

það hefir yfirstjórn á sveitamálum, opinberum stofnunum, gjafafje, vegabótum og fleiru.

Eins og vjer gátum áður um, þá er löggjöf landsins nú í höndum alþingis, en það setur lög ásamt með konunginum, eptir því sem til er ætlast með brjefi konungsins til alþingis dagsettu 5. janúar 1874; eiga eptir því 36 menn að sitja á þingi í tveimur málstofum.

Dómsvaldið er hjá dómendnnum. Öll mál milli einstakra manna skal leggja til sáttafunda; gangi eigi saman sættin, er þeim vísað til dóms og laga eins og öllum dómsmálum; er þá sýslumaður hjeraðsdómari, hverr í sinni sýslu. Skjóta má hjeraðsdóminum til *Landsyfirrjettar*, sem er einn á Íslandi; situr í honum einn yfirdómari og 2 meðdómendur, en Landshöfðinginn er forseti. Dómum Landsyfirrjettarins má, í flestum málum, skjóta til hæstarjettar í Kaupmannahöfn, en hann er hinn æðsti dómstól í málum landsbúa.

VIII. Landinu er skipt í 4 umdæmi eða ömt: *Suðurumdæmi*, *Vesturumdæmi*, *Norðurumdæmi* og *Austurumdæmi*; þeim er aptur skipt í 19 sýslur og sýslunum öllum í 169 hreppa.

Allt landið er *eitt biskupsdæmi*, en 19 prófastsdæmi, og nú sem stendur 171 prestaköll.

## I. Suðurumdæmið.

það gengur frá Lónsheiði að austan, vestur með öllu landi og inn með Faxaflóa að Hvítá í Borgarfirði. Amtsbúar eru 24,500; það er um 700 ferhyrningsmílur og er því skipt í 7 sýslur:

1. *Skaptafellssýsla*; hún nær frá Lónsheiði að austan og vestur að Jökulsá á Sólheimasandi. I sýslu þessari eru þessar sveitir: *Lón*, svo heitir bygð sú er liggur umhverfis Lónafjörð; eru þar bæir strjálir meðfram fjallshlíðum; flatlendi er þar sem víðast í sýslunni sandi orpið, með grasgeirum á milli. Fyrir sunnan Lón gengur skagi sá, sem *Brunnhorn* er kallaður; þar yfir er þjóðvegur sá, er Almannaskarð heitir. Milli Brunnhorns og *Hreggsgerðismúla* gengur *Hornafjörður* inn; umhverfis hann er bygð: *Nessveit* fyrir sunnan Almannaskarð, en austanvert við fjörðinn er lítil sveit, sem *Mýrar* heitir; þessar tvær sveitir eru kallaðar *Bjarnarneshreppur.* Suður af Mýrum er *Suðursveit*; er þar einsett bæjaröð undir háum fjöllum og örskammt til sjáfar. þá tekur við *Breiðamerkursandur* og er hann þingmannaleið; hann er niður undan Breiðamerkurjökli. Suður af honum er löng en strjál bygð, sem er kölluð *Öræfi*; sú sveit er þingmannaleið á lengd, en að eins 8 bæir eru þar; eru jöklar hið efra, en sjórinn að framan; er bygð sú ein hin hrjóstrugasta á landinu.

Fyrir sunnan Öræfi er *Skeiðarársandur*; er hann þingmannaleið á lengd og skilur hann Austur- og Vestur-Skaptafellssýslu. Fyrir vestan Skeiðarársand er *Núpstaðaskógur*, einn hinn fegursti skógur á Islandi. Þaðan og vestur að Skaptárgljúfrum er strjál bygð, sem heitir *Fljótsdalshverfi* og *Síða*; sú bygð er mjög eydd af sandfoki og vatnagangi. Heyskapur er þar lítill, en sauðganga hin bezta. Fyrir sunnan Síðu er á sú, er *Skaptá* heitir; hún greinir Síðu og *Landbrot*; það er fram undan miðri Síðu, og er fjallalaust og víða þakið sandi og brunahraunum; var bygð þessi fyrrum ein hin fegursta, en er nú víða hraun og sandar, þar sem áður voru fögur engi, vötn og hólmar. *Meðalland* er fram undan vesturhluta Síðunnar og nær sú sveit vestur að Kúðafljóti; hún er fjölbygð og er land þar flatt og fjallalaust, sandi orpið og mýrlent. Fyrir vestan Skaptárgljúfur er bygð sú, er *Skaptártunga* heitir hið efra, og nær vestur að Mýrdalsjökli; fjöll eru þar ekki há og skógivaxnir dalir á milli þeirra. Hið neðra fram undan Skaptártungu er *Alptaver*, fyrir vestan Kúðafljót og austan Mýrdalssand; það er lágt og mýrlent bygðarlag. Fyrir vestan Alptaver er Mýrdalssandur; er hann fjalls og fjöru milli, þingmannaleið að lengd. Fyrir vestan hann tekur *Mýrdalur* við og gengur allt vestur að Sólheimasandi; sveit sú er fjölbygð; eru þar víða há fjöll og djúpir dalir. Þar er flæðiengi, sem kallað er *Ósengi* og mun það vera fegurst engi á Íslandi.

Í sýslu þessari vex korntegund sú, er *melur* heitir og er hún sýslubúum opt góð búbót; þar er og víða trjáreki.

Í sýslu þessari voru fyrrum 2 klaustur: *Þykkvabæjar-* og *Kirkjubæjar-klaustur*. Á Þykkvabæ við Kúðafljót vestanvert ljet Klængur biskup gjöra klaustur handa múnkum árið 1169 og setti þar fyrstan ábóta Þorlák hinn helga. Ýmsir nafnkunnir ábótar hafa verið þar og voru þeir kallaðir ábótar í Veri, því að bygðarlagið heitir *Alptaver*, og lá mestur hluti þess og Meðallandsins undir klaustur þetta. Á *Kirkjubæ* á Síðu ljet Þorlákur hinn helgi biskup í Skálholti gjöra klaustur fyrir nunnur árið 1185. Í öndverðu sátu *Papar* þar, er menn ætla að fyrstir hafi á Íslandi búið og dregur Papey nafn af þeim. Síðan bjó Ketill hinn fíflski þar og reisti þar kirkju. Á Hörgslandi hefir verið spítali fyrir líkþráa menn.

Sýslan er 2 prófastsdæmi: 1. *Stafafell* í Lóni, 2. *Bjarnarnes* austanvert við Hornafjörð, 3. *Einholt* á Mýrum, 4. *Kálfafellsstaður* í Fellshverfi, 5. *Sandfell* í Öræfum, 6. *Kálfafell* á Síðu, 7. *Kirkjubær* á Síðu, 8. *Asar* í Skaptártungu, 9. *Meðallandsþing*, 10. *Þykkvabæjarklaustur*, 11. *Reynisþing*, 12. *Sólheimaþing* í Mýrdal. Sýslubúar eru um 3,700.

2. *Rangárvallasýsla*; hún nær frá Jökulsá á Sólheima-

sandi vestur að Þjórsá. Fyrir ofan sýslu þessa er Eyjafjallajökull, Torfajökull, Hekla, Tindfjallajökull. Allvíða í sýslu þessari er sljettlendi og harðvelli, og er jarðvegur víða sendinn og sumstaðar þakinn hrauni og sandi. Bygð er þar sumstaðar ein hin fegursta á Suðurlandi, einkum austurhlutinn að Rangá hinni vestari. Á ári hverju spillist bygðin af sandfoki, þegar vindur stendur af Heklufjallsöræfum. Með sjó fram er hvervetna sandur og enginn vogur eða fjörður. Austast er *Eyjafjallasveit* undir Eyjafjallajökli að Seljalandsmúla, þá *Dalshverfi* að Markarfljóti. Fyrir vestan Markarfljót er hið efra: *Fljótshlíð*; það er fögur sveit, þá *Hvolhreppur*, þá *Rangárvellir*, þá *Landmannahreppur*; nær hann vestur að Þjórsá. Fyrir norðan Eyjafjallajökul er Þórsmörk, þar var bygð, en eyddist á 14. öld af eldi*).

Á tungunni milli Rangánna er bær sá, er Oddi heitir; þar var Sæmundur hinn fróði Sigfússon, sem Edda er kend við, og sonarsonur hans Jón Loptsson; hjá honum var Snorri Sturluson að fóstri um hríð. *Hlíðarendi* er í Fljótshlíð; þar var Gunnar Hámundarson og hafa opt verið þar merkir menn. — Sýslan er 1 prófastsdæmi og Vestmannaeyjar, og eru þar 12 prestaköll: 1. *Eyvindarhólar* undir eystri fjöllum, 2. *Holt* undir Eyjafjöllum, 3. *Stóridalur*, 4. *Fljótshlíðarþing*, 5. *Breiðibólsstaður* í Fljótshlíð, 6. *Kross og Voðmúlastaðir* í eystri Landeyjum, 7. *Keldnaþing*, Keldur og Gunnarsholt, 8. *Oddi* á Rangárvöllum, 9. *Stóruvellir* á Landi, 10. *Holtaþing*, 11. *Kálfholt*, 12. *Vestmannaeyjar*. Sýslubúar eru um 5,500 að tölu; lifa þeir mest á sauðfjárrækt. Fiskiafli er þar og nokkur, en brimsamt og lendingar illar.

Í sýslu þessari er enginn verzlunarstaður. Tvær vikur sjáfar fram undan Eyjasandi eru *Vestmannaeyjar*; þær eru 14 að tölu, en að eins 4 grasi vaxnar. Eyjar þessar eru allar sæbrattar með hamrabeltum; stærst þeirra er Heimaey; þar er kirkja að Kirkjubæ; þar er verzlunarstaður og allgóð höfn. Sýslan er lögsagnarumdæmi sjer og er þar sýslumaður. Eyjabúar eru um 300 og lifa mest á fiskiveiðum og fugltekju.

Öndverðlega á landnámatíð (875) tóku eyjar þessar nafn af írskum þrælum er flúðu þangað eptir að þeir höfðu bana unnið höfðingja sínum, Hjörleifi, við Hjörleifshöfða á Mýrdalssandi, en Ingólfur fóstbróðir Hjörleifs drap þá síðar. Herjólfur og sonur hans Ormur Aurgi bygðu fyrst eyjar þessar. Árið 1627 rændu serkneskir víkingar frá norðurströndum Afríku eyjarnar, drápu suma en hertóku suma.

*) Þar var prestakall, er hjet Rauðilækur, og 38 bæir, er eyddust ár 1350 af jökulhlaupi.

3. *Arnessýsla*; tekur hún nafn af hólma nokkrum í þjórsá, er *Arnes* heitir: Hún nær frá þjórsá að austan að Sýslusteinum undir Geitahlíð, eða fjallgarði þeim, er liggur frá Botnsheiði suður til sjáfar, er Suðurheiðar eru kallaðar. Á fjallgarði þeim eru ýms nöfn: Mosfellsheiði, Henglafjöll, Hellisheiði o. sv. frv. Bygðin í sýslu þessari er fremur flatlend, þó eru þar einstök fjöll ekki stór, svo sem Ingólfsfjall milli Ölfuss og Grafnings; á fjalli því segja menn að Ingólfur landnámsmaður sje heygður. Búrfell, Mosfell og Hestfjall eru smáfjöll í Grímsnesi. Laugardalsfjöll ná suður á milli Grímsness og þingvallasveitar. Fyrir norðan bygðina eru fjöll mikil og jöklar.

Í sýslu þessari eru þessar sveitir: Næst þjórsá að vestan *Eystrihreppur*, þá *Ytrihreppur* vestar, og skilur Stóra-laxá hreppa þessa; fyrir sunnan þá báða er *Skeiðarsveit* milli þjórsár og Hvítár, þá fyrir sunnan *Villingaholtshreppur* við þjórsá fram að sjó, þá *Gaulverjabæjarhreppur*, þá *Stokkseyrarhreppur* vestur við Ölfusá; norður af báðum hreppum þessum er *Sandvíkurhreppur* og *Hraungerðishreppur*; 5 hinir síðast nefndu hreppar eru kallaðir einu nafni *Flói*. Fyrir vestan Hvítá eru *Biskupstungur* til fjalls upp, og vestur af þeim *Grímsnes*; þá *Þingvallasveit* vestast. Suður af henni er *Grafningur* og skilur Sogið þá sveit og Grímsnes, þá er *Ölfus* fyrir sunnan Grafning, þá *Selvogur* syðst við sjó. Í sýslu þessari er víðast láglendi og mýrar svo sem um Flóa og Ölfus; flæðir Hvítá stundum á vetrum um meiri hluta Flóans svo bæirnir einir standa upp úr. Í þingvallasveit er graslítið og er þar mikið hraun, er nær allt upp til Skjaldbreiðar.

Í sýslu þessari er *Skálholt* milli Hvítár og Brúarár í Biskupstungum; þar gjörði Gissur hvíti bæ mikinn 1000 árum eptir Krists burð, og færði þangað bú sitt; bjó þar síðan sonur hans *Isleifur*, er fyrstur var biskup á Íslandi. *Gissur* biskup sonur Isleifs gjörði það lögum, að þar væri biskupssetur; var svo jafnan þangaðtil biskupssetur var flutt til Reykjavíkur um síðastliðin aldamót. Þar var dómkirkja bygð í kross, allvegleg; var þar og látínuskóli. Á *Kaldaðarnesi* í Flóa var spítali fyrir líkþráa á Suðurlandi. *Þingvellir* eru við norðurenda þingvallavatns; þar var Alþingi Islendinga, frá því það var stofnað 930 og þangað til 1800 að það var tekið af með öllu. Í landnorður frá vatninu liggur lítill dalur austur undir Ármannsfell og gengur hraun að austan, en neðst í því, skammt fyrir framan túnið á Þingvöllum, er *Lögberg*; er það hraunrimi fremur mjór, en afardjúpar gjár beggja vegna með miklu vatni í. Vestan fram með dal þessum gengur Almannagjá, það er hraungjá einhver hin mesta á Íslandi. Vesturbrún hennar er afarhá og sljett, eins og

veggur. Í gjá þessari er klettur; fram af honum var þeim steypt á bál, er brenndir voru fyrir galdra. Í hólma nokkrum í Öxará var aftökustaður stórglæpamanna. Lengst af var lögrjetta haldin undir berum himni, en 1690 voru veggir bygðir úr hraunsteini og tjaldað yfir vaðmálum. Síðast var hús bygt úr timbri.

Sýslan er 1 prófastsdæmi og eru þar þessi prestaköll: 1. *Gaulverjabær* í Flóa, 2. *Stokkseyri* á Eyrarbakka, 3. *Hraungerði*, 4. *Ólafsvellir* á Skeiðum, 5. *Núpur* í Eystri hrepp, 6. *Hrepphólar* í Ytrihrepp, 7. *Hruni*, 8. *Torfastaðir*, 9. *Miðdalur* í Laugardal, 10. *Mosfell* í Grímsnesi, 11. *Klausturhólar* í Grímsnesi, 12. *Þingvellir*, 13. *Arnarbæli*, 14. *Selvogsþing*.

Verzlunarstaður þar er *Eyrarbakki*. Sýslubúar eru um 5,800, og lifa þeir bæði á landbúnaði og af sjáfarafla, en sýslan er til hvorstveggja vel fallin.

4. *Gullbringu* og *Kjósar-sýsla*; það voru fyr 2 sýslur og ná frá Selvogi og að botni Hvalfjarðar. Sýsla þessi er á skaga þeim, sem lengst gengur í útsuður á Íslandi. Meiri hluti Gullbringusýslu er hraun og holt, en lítið er þar gras og engin vatnsföll. Kjósarsýsla er grösugri og betur fallin til landbúnaðar. Hin helztu fjöll þar eru: *Esja*; gengur hún í útnorður að Hvalfirði, og *Reynivallaháls* þar norður af. Sveitir eru þar þessar. Fyrir sunnan Selvog *Krísuvík* og þar suður af *Grindavík*, tekur þá við Reykjanes. Vestan er fyrst *Hafnir*, þá *Miðnes*, *Garður* og *Leira*, þá *Ytrinjarðvík*, *Innrinjarðvík* og *Vogar*, þá *Vatnsleysuströnd* og *Kálfatjarnarhverfi*. Fyrir norðan hraun þau, er þá koma, hverfur *Hafnarfjörður* inn úr Faxaflóa; fyrir norðan hann gengur nes í vestur, er *Alptanes* heitir; innst á því er *Garðahverfi*. Fyrir norðan nesið gengur Skerjafjörður inn og er *Seltjarnarnes* þar fyrir norðan. Í öllum þessum bygðarlögum er útræði mikið og fiskiver. Þá er *Mosfellssveit* milli Elliðaár og Esju. Fram af Esju gengur nes í vestur milli Kollafjarðar, er *Kjalarnes* heitir. Milli Esju og Reynivallaháls er *Kjósin*.

*Bessastaðir* eru á norðanverðu Alptanesi; þar er íbúðarhús og kirkja úr steini. Þar sátu »höfuðsmenn« á Íslandi, og látínuskóli var þar frá 1805 til 1846. *Viðey* er skammt frá Reykjavík; þar var áður klaustur og prentsmiðja landsins um tíma; þar er steinhús. *Laugarnes* er skammt inn frá Reykjavík; þar var biskupssetur um hríð; þar er og steinhús.

*Keflavík* er verzlunarstaður í sýslu þessari fram við Faxaflóa utarlega. *Hafnarfjörður* er annar verzlunarstaður; hann er fyrir botni Hafnarfjarðar; er þar ágæt höfn og verzlun allmikil.

Sýslan er eitt prófastsdæmi, og Reykjavík; er Krísuvík einnig í sama prófastsdæmi. Prestaköll eru þar þessi: 1. *Staður* í Grindavík, 2. *Útskálar* í Garði, 3. *Kálfatjörn*, 4. *Garðar* á

Alptanesi, 5, *Mosfell* í Mosfellssveit, 6. *Kjalarnessþíng* á Kjalarnesi, 7. *Reynivellir* í Kjós. Sýslubúar eru 3,500 og lifa mest á fiskiveiðum.

*Reykjavík* er á norðanverðu Seltjarnarnesi. Sá bær er stærstur á Íslandi. Gullbringusýsla liggur um Reykjavík á 3 vegu, en höfnin að norðan og er hún allrúmgóð. Þar býr *landshöfðinginn* yfir Íslandi og *biskupinn* yfir Íslandi. *Landfógeti* er þar og *landlæknir* og enn fleiri embættismenn; þar er *landsyfirrjettur, prestaskóli, látínuskóli* og *barnaskóli*; þar er og *Alþingi* haldið; þar er aðsetur hinnar ízlenzku deildar Bókmenntafjelagsins og aðalprentmiðja landsins. Þar er bókasafn, sem nefnt er Stiptsbókasafn og er það um 8000 bækur. Þar er og lítið forngripasafn; þar er lyfjabúð og sjúkrahús. Merkust hús eru þar: Dómkirkjan; hún er úr steini og belluþak á. Látínuskólinn; það er stórt hús úr timbri tvíloptað; bókhlaða lærða skólans úr steini; íbúðarhús Landshöfðingjans úr steini; fangahús úr steini, allmikið hús; þar kemur yfirrjetturinn saman og er það jafnframt þinghús bæjarins. — Bæjarbúar eru um 2000.

6. *Borgarfjarðarsýsla* var áður ásamt Mýrasýslu kölluð *Þverárþing*, og er nú aptur settur einn sýslumaður í þeim báðum. — Sýsla þessi nær frá Hvalfirði og Botnsá að Borgarfirði og Hvítá. Hið syðra í sýslu þessari eru brött fjöll og bá, svo sem Þyrill og Hraunabjarg á Hvalfjarðarströnd, Akrafjall á Akranesi og Skarðsheiði fyrir norðan Leirár- og Melasveitir. Frá öræfum þeim, er liggja fyrir ofan bygð alla, ganga hálsar í útnorður og fagrir dalir á milli, en þegar nær sjó dregur, er mýrlendi. Sveitir eru þar þessar: *Hvalfjarðarströnd* við Hvalfjörð norðanverðan, þá *Svínadalur* í norður, þá *Skorradalur*, þá *Lundareykjadalur*, þá *Flókadalur*, þá *Reykholtsdalur* og *Hálsasveit* norðast. Við sjó liggja: *Akranes*; þar er fiskiver og útræði; *Leirársveit* og *Melasveit*; þessar 3 sveitir eru fyrir sunnan Skarðsheiði, en fyrir norðan hana er: *Andakíll* næst, þá *Bæjarsveit* fram með Hvítá vestur af áðurnefndum dölum. Víða eru skógar í sýslu þessari og er hún víðast grösug.

Verzlun er nú stofnuð á Akranesi. Á *Leirá* í Leirársveit hafa lengi verið heldri menn; á Leirárgörðum, þar skammt frá, var um hríð prentsmiðja. Hvanneyri og Hvítárvellir voru fyr amtmannssetur. Í *Reykholti* í Reykholtsdal bjó Snorri Sturluson síðast og var veginn þar 1240.

Sýslan er 1 prófastsdæmi og eru þar þessi prestaköll, 1. *Saurbær* á Hvalfjarðarströnd, 2. *Garðar* á Akranesi, 3. *Melar* í Melasveit, 4. *Hestþing* í Andakíl, 5. *Lundur* í Lundareykjadal og 6. *Reykholt* í Reykholtsdal. — Sýslubúar eru um 2,500.

## II. Vesturumdæmið.

Það nær frá Hvítá í Borgarfirði yfir allan útnorðurskaga landsins austur að Hrútafjarðará við botninn á Húnaflóa. Það er um 300 ferhyrningsmílur og er víða mjög vogskorið. Íbúar þess eru um 17,000 og er því skipt í 6 sýslur.

1. *Mýrasýsla*; tekur hún frá Hvítá í Borgarfirði vestur að Hítará. Í sýslu þessari er graslendi mikið og heyskapur góður, en víðast er þar mjög mýrlent. Sveitir eru þar þessar: *Hvítársíða* fyrir vestan Hvítá efst, þá *Þverárhlíð*, þá *Norðurárdalur*, þar suður og vestur af *Stafholtstungur*, þá *Mýrar* við Borgarfjörð vestanverðan, þá *Hraunhreppur* og *Hítardalur* vestast.

Í sýslu þessari er enginn verzlunarstaður, en lausakaupmenn verzla á *Straumfirði* og *Brákarpolli*. Á *Borg* á Mýrum bjó Egill Skallagrímsson; þar var hin fyrsta kirkja í sýslu þessari, og er þar legsteinn Kjartans Ólafssonar. Í *Hítardal* var múnkaklaustur, sem Klængur biskup stofnaði 1166 fyrir sálu Magnúsar biskups Einarsonar, er brann þar inni með 70 manna.

Sýsla þessi er nú lögð saman við Borgarfjarðarsýslu, en prófastsdæmi er hún sjer, og eru þar þessi prestaköll: 1. *Gilsbakki* í Hvítársíðu, 2. *Hvammur* í Norðurárdal, 3. *Stafholt* í Stafholtstungum, 4. *Borgarþing* á Mýrum, 5. *Akrar*, eða Hítarnessþing á Mýrum, 6. *Staðarhraun*, 7. *Hítardalur*. Sýslubúar eru um 2800 og lifa mest á landbúnaði.

2. *Snæfellsness-* og *Hnappadals*-sýsla. Í fyrndinni voru sýslur þessar nefndar: Snæfellsnes, og Þórnesþing fyrir vestan Hvammsfjörð. Sýsla þessi nær frá Hítará út með Faxaflóa, kring um Snæfellsnes og inn með Breiðafirði að Gljúfrá, er fellur í innanverðan Hvammsfjörð. Fyrir norðan Hnappadalssýslu gengur fjallgarður vestur að Snæfellsjökli, en í byg𝔡 er sýslan mýrlend. Umhverfis Snæfellsjökul er hraun uns jökullinn tekur við. Norðan fram á nesinu er *Enni*, hátt og bratt fjall, og *Búlandshöfði*. Sveitir liggja þannig: Sunnan fram við nesið, *Kolbeinsstaðahreppur* austast, þá *Eyjahreppur*, þá *Miklaholtshreppur*, þá *Staðarsveit*, þá *Breiðuvíkurþing* sunnan fram á nesinu, þá *Neshreppur* yzt, þá *Eyrarsveit* norðanfram, þá *Helgafellssveit* og *Skógarströnd* innst og austast.

Í sýslu þessari eru 4 verzlunarstaðir: 1. *Búðir* í Staðarsveit, 2. *Ólafsvík* norðanfram, 3. *Grundarfjörður* og 4. *Stykkishólmur* innst. Á *Stykkishólmi* hefur um hríð verið amtmannssetur; þar er læknir og lyfjabúð. Á Stapa var áður kaupstaður og síðar varð það amtmannssetur um tíma. Á Hallbjarnareyri var spítali.

Þar eru prestaköll þessi: 1. *Miklaholt* í Miklaholtshrepp

2. *Staðastaður* í Staðarsveit. 3. *Breiðuvíkurþing*, 4. *Nesþing*, 5. *Setberg* í Eyrarsveit, 6. *Helgafell* í Helgafellssveit, 7. *Breiðabólsstaður* á Skógarströnd.

Sýslubúar er um 3500 og lifa mest á sjáfarafla; eru margar verstöður umhverfis Jökul: *Gufuskálar* yzt, þá *Sandur*, þá *Rif*, þá *Ólafsvík*, þá *Vallnapláts*. Sunnan Jökuls róa menn mest á vorum; þar eru veiðistöður: *Dritvík*, *Lón*, *Hellnar* og *Malarrif*.

Til sýslu þessarar heyra margar eyjar á Breiðafirði, t. a. m. Gvöndarey, Brokey og Öxney.

3. *Dalasýsla*. Gljúfrá greinir hana og Snæfellsnessýslu, og nær hún yfir bygð alla fyrir botni Hvammsfjarðar, yfir nes það, er gengur norðan fram með Hvammsfirði og að Gilsfjarðarbotni. Í sýslu þessari er graslendi mikið; þar eru dalir grasivaxnir, lágir hálsar, og fjöll og sljettlendi; er hún ein hin fagrari. Í sýslu þessari eru þessar sveitir: *Miðdalir* suður af Hvammsfirði, þá *Haukadalur* og *Laxárdalur* í austur, þá *Hvammssveit* þar vestur af og *Fellsströnd* vestur að Skarðsklofningi; fyrir vestan hann *Skarðsströnd* og þar norður af *Saurbær*.

Til Dalasýslu heyra eyjar þær, er næst liggja Skarðsklofningi, og eru hinar helztu þeirra: Purkey, Hrapps-, og Rúg-eyjar, Skáley, Akurey og Ólafsey. Á *Hrappsey* setti Ólafur Ólafsson prentsmiðju 1773; var hún síðar flutt að Leirárgörðum. Í sýslunni eru þessi prestaköll: 1. *Miðdalaþing* og Kvennabrekka í Miðdölum, 2. *Hjarðarholt* í Laxárdal, 3. *Hvammur* í Hvammssveit, 4. *Skarðsþing* á Skarðsströnd, 5. *Saurbæjarþing* í Saurbæ.

Sýslubúar eru um 2300 og lifa mest á landbúnaði.

4. *Barðastrandarsýsla*; hún nær frá Gilsfjarðarbotni í vestur fram með Breiðafirði og norður að Langanestá í Arnarfirði; þar eru há fjöll og brött og víðast lítið undirlendi; og bygð því aðeins með sjónum. Sveitirnar draga flestar nöfn af fjörðum þeim, sem ganga inn í landið.

Flestar eyjar á Breiðafirði liggja undir sýslu þessa og eru þessar helztar: *Flatey*, *Svefney*, *Sviðnur*, *Hvallátur*, *Skáley*, *Stagley* og *Bjarneyjar*. Allar eyjar þessar eru einn hreppur, sem kallaður er *Eyjahreppur*. Á Breiðafjarðareyjum er agnsemi mikil, einkum dúntekja og selveiði.

Verzlunarstaðir eru í sýslu þessari: 1. *Flatey* á Breiðafirði, 2. *Vatneyri* norðanvert við Patreksfjörð og 3. *Bíldudalur* vestanvert við Arnarfjörð.

Prestaköll eru þar: *Garpsdalur*, syðst í Geiradal, 2. *Staður* á Reykjanesi, 3. *Gufudalur* í Gufudalssveit, 4. *Flatey*, 5. *Brjáns-*

*lækur* á Barðaströnd, 6. *Sauðlauksdalur*, 7. *Selárdalur*, 8. *Otrardalur*.

Sýslubúar eru rúm 2,800.

5. *Ísafjarðarsýsla*; hún gengur frá Langanesi í Arnarfirði umhverfis allan jaðar landsins, er veit í vestur, útnorður og norður, allt að Geirshólma eða Geirúlfsgnúp á Hornströndum. Mestur hluti sýslu þessarar eru graslaus fjöll, jöklar og öræfi. Hún er mjög vogskorin og nefnast sveitir flestar eptir fjörðum þeim, er þær liggja við, en bygð er þar mjög strjál og að mestu við sjáfarsíðuna. Mjög er þar fiskisælt, einkum við Isafjarðardjúp, enda er sjór hvergi svo mikið sóktur á Íslandi. Víða er þar surtarbrandur í fjöllum, t. a. m. í Stigahlíð, Grænuhlíð, í Straumneshlíð, Skorarfjalli og víðar.

Tvær eru bygðar eyjar í sýslu þessari: Vigur og Æðey; er þar mest eggver á Íslandi. Á Reykjanesi milli Reykjarfjarðar og Isafjarðar var stofnað saltverk árið 1773; var þar verkað salt við hverahita, og mun það eindæmi vera. Þótti salt það gott, en stofnan þessi lagðist niður eptir 13 ár.

Verzlunarstaðir í sýslu þessari eru: 1. *Þingeyri* vestan fram við Dýrafjörð, 2. *Flateyri* norðanvert við Önundarfjörð, 3. *Isafjörður* á eyri, er gengur norðan fram í Skutulsfjörð; þar er skipalægi eitt hið bezta á Íslandi.

Sýslan er 2 prófastsdæmi: Vesturísafjarðar og Norðurísafjarðar. Í Vesturísafjarðar-prófastsdæmi eru þessi prestaköll: 1. *Rafnseyri* og 2. *Alptamýri* við Arnarfjörð, 3. *Sandar*, 4. *Dýrafjarðarþing* við Dýrafjörð, 5. *Holt* í Önundarfirði og 6. *Staður* í Súgandafirði. Í Norðurísafjarðar-prófastsdæmi eru: 1. *Eyri* við Skutulsfjörð, 2. *Ögur* og *Eyri*, 3. *Vatnsfjörður*, 4. *Kirkjubólsþing* í Langadal, 5. *Staður* á Snæfjallaströnd, 6. *Staður* í Grunnavík, 7. *Staður* í Aðalvík.

Sýslubúar eru um 4,800.

6. *Strandasýsla*; hún gengur frá Geirúlfsgnúp vestan fram með Húnaflóa inn að Hrútafjarðará, er það strönd grýtt og vogskorin. Þar eru 6 hreppar: Árnes hreppur norðast, þá Kaldrananes hreppur, þá Hrófbergs hreppur, þá Kirkjubólshreppur, þá Broddanes hreppur og Bæjarhreppur innst.

Verzlunarstaðir eru þar: 1. *Kúvíkur* við Reykjafjörð, 2. *Borðeyri* vestanvert við Hrútafjörð.

Prestaköll eru þar: 1. *Arnes* í Trjekyllisvík, 2. *Staður* í Steingrímsfirði, 3. *Tröllatunga*, 4. *Prestsbakki* við Hrútafjörð.

Sýslubúar eru um 1,700.

Þrjár hinar síðast töldu sýslur eru einu nafni kallaðar *Vestfirðir*, og er milli Gilsfjarðar og Bitru örskammt, um 2 mílur.

Fyr voru sýslur þessar kallaðar þorskafjarðarþing og var þingstaður að Kollabúðum við þorskafjörð.

## III. Norðurumdæmið.

það nær frá Hrútafjarðará að Skoruvík á Langanesströndum. Sumstaðar er þar bygð aðeins með sjó fram og liggja fyrir sunnan bygð alla öræfi og heiðar, en norður af þeim ganga ýmist langir og grasivaxnir hálsar, eða há fjöll og brött sumstaðar að sæ fram. Úr norðri ganga 13 firðir inn í landið, fyrir utan víkur og voga, og eru sumir þeirra allstórir; er landið þar víða fagurt. Umdæmi þetta er 4 sýslur og er fólkstalan um 20,500.

1. *Húnavatnssýsla*; hún nær frá Hrútafjarðará með Húnaflóa austanverðum, austur að Skagatá. þar eru víðast grösugir dalir milli hálsa og fjalla og bygðar strendur við sjó. Sveitum er þar skipt þannig. Vestast er *Hrútafjörður*, þá *Miðfjörður*, þá *Víðidalur*, og eru norður af honum 2 sveitir: *Vesturhóp* og *Þing* fyrir Húnafjarðarbotni. Fyrir austan Vatnsdal er fyrst *Svínadalur*, *Blöndudalur*, þá *Svartárdalur* og eru þeir báðir kallaðir *Langidalur* hið neðra og nær hann til sjáfar. Strönd sú, er liggur við Húnaflóa austanverðan að Skagaheiði er kölluð *Skagaströnd*.

Á *Skagaströnd* sunnan undir Spákonufellshöfða er verzlunarstaður, og eru þar 2 verzlunarsetur: *Höfði* og *Hólanes*. *Þingeyraklaustur* er á eiði milli Húnavatns og Miðhóps; þar var hið elzta múnkaklaustur á Norðurlandi; það var stofnað 1135.

Í sýslunni eru 13 prestaköll: 1. *Staður* í Hrútafirði, 2. *Staðarbakki*, og 3. *Melstaður* í Miðfirði, 4. *Tjörn* á Vatnsnesi og *Vesturhópshólar*, 5. *Breiðabólsstaður* í Vesturhópi, 6. *Þingeyraklaustur* í þingi, 7. *Undirfell* og *Grímstungur* í Vatnsdal, 8. *Hjaltabakki*, 9. *Auðkúla* í Svínadal, 10. *Blöndudalshólar*, 11. *Bergstaðir* í Svartárdal, 12. *Höskuldsstaðir* og 13. *Hof* á Skagaströnd.

Sýslubúar eru um 5000 og lifa þeir mest á sauðfjárrækt.

2. *Skagafjarðarsýsla* eða Hegranessýsla; hún gengur frá Húnavatnssýslu austur að nesi því, er gengur fram milli Skagafjarðar og Eyjafjarðar, og eru sýsluskil um Myrkárjökul. Skagafjörður er um 5 mílur á breidd, en 6 á lengd; liggja sveitir með honum beggja vegna en fyrir botninum víðlent hjerað og sljettlendi mikið; mun það fegurst hjerað á Íslandi.

Sveitir eru þar þessar hinar helztu: Norðast *Skagi* og Laxárdalur þar suður til fjalla. Fyrir sunnan Tindastól, sem er eitt hið hæsta fjall á Norðurlandi, er *Reykjaströnd*, þá Sjáfarborgar-

sókn, þá *Reynistaðarsveit*, þá *Sæmundarhlíð*, allt að Vatnsskarði í suður, en hið eystra *Langholt*, þá *Víðimýrarsókn* til Reykjasóknar. Milli Hjeraðsvatna og Húseyjarkvíslar er flatlendi mikið, sem kallað er Hólmur. Þá í suður *Tungusveit*, þá Goðdalasókn. Fyrir austan Hjeraðsvötn er fyrst *Blönduhlíð* í út og suður, þá *Hegranes* milli Eystri- og Vestri-vatna, þá *Hjaltadalur*; í suður og austur *Kolbeinsdalur*. Ströndin við Skagafjörð austanverðan er kölluð *Höfðaströnd*. Þá er *Óslandshlíð*, þaðan er er Albert Thorvaldsen ættaður, *Hofssókn*, *Sljettuhlíð*, og *Fljót* norðast.

Undir sýslu þessa lýtur Málmey í Skagafirði, og Drangey; hún er girt hömrum á alla vegu, um 100 faðma á hæð, og fær engi uppkomist, nema um einstigi eitt, sem kennt er við Gretti, síðan hann hafðist þar við.

*Hofsós* og *Grafarós* eru verzlunarstaðir austan fram við Skagafjörð.

Á *Reynistað* í Sæmundarhlíð var nunnu klaustur til forna. Á *Hólum* í Hjaltadal var biskupssetur frá 1106 til 1801. Þar var og prentsmiðja og látínuskóli; sjást eigi aðrar leifar þessa en steinkirkja vegleg, bygð úr rauðum sandsteini.

Sýsla þessi er 1 prófastsdæmi og eru þar 13 prestaköll, 1. *Hvammur* í Laxárdal, 2. *Fagranes*, 3. *Reynistaðarklaustur*, 4. *Glaumbær*, 5. *Mælifell*, 6. *Goðdalir*, 7. *Miklibær* í Blönduhlíð með Flugumýrarsókn, 8. *Hólar* í Hjaltadal með Hofstaðasókn, 9. *Hofsping* á Höfðaströnd, 10. *Fell* í Sljettuhlíð, 11. *Barð* í Fljótum, 12. *Hnappastaðir*, 13. *Rípur*.

Sýslubúar eru um 4,500.

3. *Eyjafjarðarsýsla* eða Vaðlasýsla; hún tekur við af Skagafjarðarsýslu að vestan, en að austan ræður Eyjafjörður inn í botn, en úr því fjallgarður sá, sem Vöðluheiði er nefndur. Í sýslu þessari eru víða dalir og fjöll á milli; er þá víða fagurt land. Sveitir skiptast þannig: Fyrir vestan fjörðinn er yzt *Upsaströnd*; upp frá henni gengur *Svarfaðardalur*. Þá tekur við fram með firðinum *Arskógarströnd*; þar er Stærri-árskógasókn, þá Möðruvallaklausturs-sókn, þá Bægisársókn, þá sunnar Bakkasókn. Fyrir vestan Hörgá í Hörgárdal er Myrkársókn. Á ströndinni fyrir sunnan Hörgárás er Glæsibæjar sókn, þá í suðvestur Lögmannshlíðarsókn, þá í suður Hrafnagilssókn með Eyjafjarðará að vestan, þá Grundarsókn, þá Miklagarðssókn, þá Saurbæjarsókn, þá Hólasókn fyrir austan Eyjafjarðará; út af henni er Möðrufellssókn, Múnkaþverárklausturssókn, Kaupangssókn og Svalbarðasókn.

Verzlunarstaðir í sýslu þessari eru: 1. *Siglufjörður*, vestanvert við Siglufjörð, 2. *Akureyri*, annar mestur verzlunarstaður á

Íslandi, næst Reykjavík; þar er læknir, lyfjabúð og prentsmiðja. Kaupstaðarbúar eru um 300.

Á *Möðruvöllum* í Hörgárdal var múnkaklaustur, stofnað 1295, en nú er þar amtmannssetur og er bygt úr steini. Annað klaustur var að *Þverá* í Eyjafirði, stofnað 1154.

Með sýslu þessari telst Grímsey, er liggur út af Eyjafirði, 6 vikur undan landi; þar eru 9 bæir. Hrísey er og bygð ey utarlega í Eyjafirði.

Sýslan er 1 prófastsdæmi og eru þar 13 prestaköll: 1. *Hvanneyri* í Siglufirði, 2. *Kvíabekkur*, 3. *Tjörn* í Svarfaðardal, 4. *Vellir* í Svarfaðarðal, 5. *Stærriárskógur*, 6. *Möðruvallaklaustur*, 7. *Bægisá* og *Myrká*, 8. *Glæsibær*, 9. *Hrafnagil*, 10. *Grundarþing*, 11. *Mikligarður*, 12. *Saurbær* í Eyjafirði, 13. *Miðgarður* í Grímsey.

Sýslubúar eru um 4,900.

4. *Þingeyjarsýsla* eða Norðursýsla; hún gengur frá Eyjafirði og Vöðluheiði austur að Máfabjargi, austanvert á Langanesi. Sýsla þessi er víðlend mjög og örðug yfirferðar, sakir fjallvega og vatnsfalla. Sveitir eru þar þessar: Fyrir austan Eyjafjörð er fyrst *Svalbarðsströnd* og þar út af *Látraströnd*. Fyrir austan Vöðluheiði og jafnhliða Eyjafirði er *Fnjóskadalur*, og er þar Hálssókn neðst, en Draflastaðasókn framar. Frá Gjögurtá að Langanesi hverfa 5 firðir inn í landið: 1. Þorgeirsfjörður, þá 2. Hvalvatnsfjörður, þá 3. Skjálfandafjörður, utarlega á vesturströnd hans gengur Flateyjardalur í útsuður og þar fram undan eyjan Flatey. Fram með fjöllum fyrir vestan Skjálfandafljót er *Kaldakinn*, þá Ljósavatnssókn á Ljósavatnsskarði og suður frá Skarðinu að austan *Bárðardalur*, í honum liggja tvær kirkjusóknir, kenndar við Eyjadalsá og Lundarbrekku. Ofan í dal þenna liggur Sprengisandsvegur að sunnan. Austar og jafnhliða Bárðardal er Reykjadalur; þar eru Helgastaða- og Einarsstaða-sóknir, og er hann neðra kallaður Aðalreykjadalur. Fram af Aðalreykjadal austast gengur *Laxárdalur* og eru þar Grenjaðarstaðar og Þverár-sóknir og þarnæst Múlasókn. Fyrir austan Hólaheiði er *Mývatnssveit* umhverfis Mývatn. Norður af Nessókn er Húsavíkursókn á austurströnd Skjálfandafjarðar allt að Tjörnnesi. Fyrir austan Tjörnnes gengur 4. Axarfjörður inn. Vestanvert við Axarfjörð er Kelduhverfi; austan fjarðar hið ytra er Núpssveit og nær að Rauðanúp; þar fyrir austan er *Sljetta*, sem austast er kölluð Melrakkasljetta. Fyrir austan Melrakkasljettu gengur 5. Þistilfjörður inn. Sveitin er kölluð Þistilfjörður. Austast í sýslunni er Sauðanessókn á Langanesi vestanverðu.

Á Ströndinni fyrir austan Skjálfandafjörð er verzlunarstaður-

inn *Húsavík*, og annar verzlunarstaður á *Raufarhöfn* á austanverði Melrakkasljettu.

Sýslan er 2 prófastsdæmi, sem kölluð eru: Suðurþingeyjarprófastsdæmi og Norðurþingeyjarprófastsdæmi. Í Suðurþingeyjarprófastsdæmi eru 11 prestaköll: 1. *Laufás*, 2. *Höfði*, 3. *Þönglabakki*, 4. *Háls* í Fnjóskadal, 5. *Þóroddsstaður í* Köldukinn, 6. *Lundarbrekka*, 7. *Mývatnsþing*, 8. *Grenjaðarstaður*, 9. *Múli* og *Nes* í Aðalreykjadal, 10. *Helgastaðir*, 11. *Húsavík*. Í Norðurþingeyjarprófastsdæmi eru: 1. *Garður* í Kelduhverfi, 2. *Skinnastaðir* í Axarfirði, 3. *Presthólar*, 4. *Svalbarði* í Þistilfirði, 5. *Sauðanes*.

Sýslubúar eru um 5,900

## IV. Austurumdæmið.

Það nær frá Langanesi suður að Lónsheiði; er það vogskorið mjög og þessvegna kallað einu nafni: Austfirðir. Í umdæmi þessu eru aðeins 2 sýslur, og er fólkstalan um 7,500.

1. *Norðurmúlasýsla*; hún tekur við austur af Þingeyjarsýslu og nær suður að nesi því, er gengur fram milli Mjóafjarðar og Seyðisfjarðar. Norðarlega á Langanesi er Kumlavík, þá Eiðisvík, þá Gunnólfsvík, þá Finnafjörður, þá Miðfjörður, þá Bakkafjörður, þá Núpsfjörður, þá Vopnafjörður. Upp af Vopnafirði eru 3 dalir: Bustardalur, þar vestur af Möðrudalur og Sunnudalur í suður. Suður af sveitum þessum er Smjörvatnsheiði. Fyrir sunnan hana er *Jökuldalur*, skiptist hann hið efra í 2 dali: Brúardal og Hrafnkelsdal, en hið neðra fyrir norðan Jökulsá er sveitin kölluð Hlíð; en að sunnan er *Hróarstunga* milli Jökulsár og Lagarfljóts. Upp af Hróarstungu er sveit sú, sem *Fell* er kölluð. Fyrir ofan Fell er *Fljótsdalur* við Lagarfljót; er hann sveita víðlendastur og fegurstur á Íslandi. Þá ganga víkur nokkrar inn í landið suður að Loðmundarfirði; gengur hann alllangt inn og úr honum Seyðisfjörður í út og suður.

Verzlunarstaðir eru þar 1. *Vopnafjörður*, 2. *Seyðisfjörður*, við sunnanverðan Seyðisfjörð. — *Skriðuklaustur* er í Fljótsdal; þar stofnaði Stefán biskup klaustur árið 1494.

Sýslan er eitt prófastsdæmi og eru þar 9 prestaköll: 1. *Skeggjastaðir*, 2. *Hof* í Vopnafirði, 3. *Hofteigur*, 4. *Kirkjubær* í Tungu, 5. *Valþjófsstaður*, 6. *Ás* í Fellum, 7. *Hjaltastaður* og *Eyðar*, 8. *Desjarmýri*, 9. *Klyppstaður*.

Sýslubúar eru um 4000.

2. *Suðurmúlasýsla*; norðan að henni liggur Norðurmúlasýsla, en að sunnan Skaptafellssýsla.

*Vallnahreppur* er sunnanvert við Lagarfljót; þaðan í suð-

vestur er *Skriðdalur*. Fyrir utan Vallnahrepp, fram með Fljótinu austan verðu er *Eyða-þinghá*. Þá má telja Norðfjörð, sem skiptist í Hellisfjörð og Miðfjörð; þá Reyðarfjörð; er hann lengstur fjörður á Austfjörðum; innar skiptir Hólmafjall honum í 2 firði, og er hinn nyrðri kallaður Eskifjörður. Þá beygist ströndin í útsnður, og gengur næst inn Fáskrúðsfjörður, þá Stöðvarfjörður, þá Breiðdalsvík; er þar víðlend sveit; þá Berufjörður, þá Alptafjörður, og gengur Hamarsfjörður úr honum.

Verzlunarstaðir eru þar: 1. ***Eskifjörður*** norðan fram við Eskifjörð, 2. ***Djúpivogur*** sunnan fram við Berufjörð.

Sýslan er eitt prófastsdæmi, og eru þar 11 prestaköll: 1. *Dvergasteinn*, 2. *Vallanes*, 3. *Hallormsstaður*, 4. *Þingmúli*, 5. *Skorrastaður*, 6. *Hólmar* í Reyðarfirði, 7. *Kolfreyjustaður*, 8. *Stöð*, 9. *Heydalir* í Breiðdal, 10. *Berufjörður*, 11. *Hof* í Álptafirði.

Sýslubúar eru um 3,400.

Athugagr. Í fornöld var landinu skipt í 4 fjórðunga, er nefndust Sunnlendingafjórðungur, Vestfirðingafjórðungur, Norðlendingafjórðungur og Austfirðingafjórðungur, en fjórðungunum var aptur skipt í þing.

A. Í Sunnlendiugafjórðungi voru 3 þing:

1. *Rangárþing*, milli Jökulsár á Sólheimasandi og Þjórsár að vestan.
2. *Arnessþing* frá Þjórsá og austur fyrir Selvog.
3. *Kjalarnessþing* kringum Reykjanes og sunnan fram með Faxaflóa að Botnsá við Hvalfjarðarbotn.

B. Í Vestfirðingafjórðungi voru 3 þing:

1. *Þverárþing* frá Hvalfirði að Hítará.
2. *Þórnessþing* frá Hítará kringum Snæfellsjökul og að Gilsfjarðarbotni.
3. *Þorskafjarðarþing*; það náði yfir allan útnorðurkjálka landsins, frá Gilsfjarðarbotni að Hrútafjarðarbotni.

C. Í Norðlendingafjórðungi voru 4 þing:

1. *Húnavatnsþing* frá Hrútafjarðará að Skagatá.
2. *Hegranessþing* frá Skagatá austur að Siglunesi.
3. *Vaðlaþing* frá Siglunesi að Eyjafirði og Vaðlaheiði.
4. *Þingeyjarþing* frá Vaðlaþingi og á Langanes.

D. Í Austfirðingafjórðungi voru 3 þing:

1. *Sunnudalsþing* frá Langanesi suður undir Jökuldal.
2. *Kiðjafellsþing* frá Jökuldal suður á Lónsheiði.
3. *Skaptafellsþing* frá Lónsheiði suður að Jökulsá.

# II. Kvæði.

## 1.

Eldgamla Ísafold
ástkæra fósturmold
fjallkonan fríð,
mögum þín muntu kær
meðan lönd girðir sær
og gumar girnast mær
gljár sól á hlíð.

Hafnar úr gufu hjer
heim allir girnumst vjer
þig þekka sjá,
glepur oss glaumurinn
ginnir oss sollurinn
hlær að oss heimskinginn
Hafnar slóð á.

Leiðist oss fjalllaust frón
fær oss opt heilsutjón
þokulopt ljeð;
svipljótt land sýnist mjer
sífelt að vera hjer
sem neflaus ásýnd er
augnalaus með.

Öðruvís er að sjá
á þjer hvítfaldinn há
heið himin við
eða þær kristallsár
á hverjar sólin gljár
og heiðar himinblár
há jökla rið.

Eldgamla Ísafold
ástkæra fósturmold
fjallkonan fríð,
ágætust auðnan þjer
upp lypti biðjum vjer
meðan að uppi er
öll heimsins tíð.

*B. Th.*

2.

Fögur ertu fósturmold
fræg á æsku tíðum,
þú ert enn vor forna fold
fagurgræn í hlíðum;
fossinn kveður ennþá óð
undir hamra bungu,
þar sem hátt um fólk og fljóð
fornu skáldin sungu.

Lít jeg inn á liðna öld
löngu þakta haugum,
þar sem felur skjöldur skjöld
skært í ljósa-baugum:
er sem kveði Egill enn
undir sólar tjaldi,
og þar hlusti margir menn
moldar orpnir faldi.

Þú hefir margan mikinn ná
moldu vígt og sungið;
áttu nokkurn eptir þá?
er þitt hjarta sprungið?
Hvað hafa þessi þúsund ár
þjer til frama unnið?
Er nú frægðin orðin nár?
Er nú ljósið brunnið?

Þín hefir farið fjöllum af
frægð um allan heiminn,
yfir sollið Íslandshaf,
útum jarðar geiminn.
Enginn nefna maður má
maka þinn á jörðu
segulmeyjan silfurblá
slegin jeli hörðu.

Mistu aldrei móð nje von,
mjög þó hjarta svíði;
gráttu ekki genginn son,
gæfan fæst með stríði;

þó að nöpur nornin sje,
nísti þig með sárum,
minnstu þess, að frægð og fje
frjóvgast helzt í tárum.

Lít jeg fram á liðinn veg
löng þar framtíð hvílir,
þar sem aldan ógurleg
öllum löndum skýlir:
neðst við fjalla blikar brún
bjarta stjörnu-rósin,
og í glampa geislar hún
gegnum norðurljósin.

*B. G.*

3.

þú nafnkunna landið sem lífið oss veittir,
landið sem aldregi skemdir þín börn,
hvert þinnar fjarstöðu hingað til neyttir,
hún sje þjer ódugnaðs framvegis vörn.

Undarlegt sambland af frosti og funa,
fjöllum og sljettum og hraunum og sjá,
fagurt og ógurlegt ertu þá brunar
eldur að fótum þín jöklunum frá.

Fjör kenni oss eldurinn, frostið oss herði,
fjöll sýni torsóttum gæðum að ná,
bægi sem Kerúb með sveipanda sverði
silfurblár ægir oss kveifarskap frá.

þó vellyst í skipsförmum völskunum meður
vafri að landi, eg skaða ei tel,
því útfyrir kaupstaði íslenzkt í. veður
ef hún sjer vogar, þá frýs hún í hel.

Ef læpuskaps ódygðir eykjum með flæða
út yfir haf vilja læðast þjer að,
með geigvænum logbröndum Heklu þær hræða
bratt skaltu aptur að snáfa af stað.

En megnirðu ei börn þín frá vondu að vara
og vesæld með ódygðum þróast þeim hjá,
aptur í legið þitt forna þá fara
föðurland áttu og hníga í sjá.

*B. Th.*

4.

Þið þekkið fold með blíðri brá
og bláum tindi fjalla,
og svanahljómi, silungsá,
og sælublómi valla,
og bröttum fossi, björtum sjá,
og breiðum jökulskalla:
drjúpi hana blessun Drottins á
um daga heimsins alla.

*J. H.*

5.

Hvað fögur er mín feðra jörð,
fjallkonan gamla, kend við ísa,
þar tindar hátt úr hafi rísa,
hvítfölduð teygja jökla börð,
standa með brúnum kristalls kláru
sem kempur er gylta hjálma báru,
gnapa fram yfir gljúpan sjá
þau geislum hellir sólin á.

Þá Ásaþór sá Íslands fjöll,
á Snæfellsjökli tók hann sæti,
þau fyltu hetju hug með kæti,
og sjer til himins otuðu öll;
þar fram af tindum vötn sjer veltu,
vinarödd Þór í eyrun heltu,
þá gengu kempur hans á hönd,
því hetjuöld stóð um norðurlönd.

Þá vissi eg heyja Hildar þrá
hamremmis trylta Íslendinga,
bláklæddir stóðu í brynjum hringa
Gunnar og sterki Grettir þá;

menn festu mey, og fyrir hana
fengu tíðum á hólmi bana;
deyjandi munnur orti óð,
þá oddur spjóts í hjarta stóð.

Fornaldarsögu og fræðiljóð
fram þuldu menn í háttum vöndum,
þar stóðu skáld með hörpu í höndum
er fjandmanns dundi dauðablóð;
þá voru kvæði í kónga höllum
kærust metin af leikum öllum,
vjer geymdum þeirra vísna söfn
um vorra feðra hreysti og nöfn.

Enn grær á vorri ættarjörð
atorka sönn hjá traustum hölum,
enn er glaðværð í grænum dölum,
þar gæfusæl sjer leikur hjörð;
enn sjáum lax og silungsfansa
í silfurelfum ljósum dansa,
fögur er sönglist fugla nóg
um fjörðu eyjar dali og skóg.

Í sveitabóndans auga enn
eg ægishjálm hinn sama þekki
fyr sem um hætta Hildar stekki
ógndjarfir hvestu afreksmenn;
kæta mig augun bláu og blíðu
bændadætranna heima fríðu,
eins og þá Bragi Iðunn sá
þær ástir kveikja skáldi hjá.

Heill sje þjer, kæra feðra frón,
fjöll þín í gegnum aldir standi;
þó vötn og eldar veröld grandi,
þau gleðji þinna sona sjón.
Ginnunga upp úr gapi óholla
gráhærða rjettu fjalla kolla,
svo vjer frá Gimli getum sjá
hvar gamla Island forðum lá.

*S. B.*

## 6.

### Skjaldbreiður.

Fanna skautar faldi háum
fjallið allra hæða val
hrauna veitir bárum bláum
breiðan fram um beiðardal,
löngu hefur Logi reiður
lokið steypu þessa við,
ógnaskjöldur bungubreiður
ber með sóma rjettnefnið.

Ríð eg háan Skjaldbreið skoða
skín á tinda morgunsól,
glöðum fágar röðulroða
reiðarslóðir, dal og hól.
Beint er í norður fjallið fríða
fákur eykur hófa skell,
sjer á leiti Lambahlíða
og litlu sunnar Hlöðufell.

Vel á götu ber mig Baldur,
breiðkar stirðnað eldasund —
hvenær hefur heims um aldur
hraun það brunað fram um grund?
Engin þá um Ísafoldu
unað hafa lífi dýr,
enginn leit þá maður moldu
móðu steins er undir býr.

Titraði jökull, æstust eldar,
öskraði djúpt í rótum lands,
eins og væri ofan feldar
allar stjörnur himna ranns,
eins og ryki mý eða mugga
margur gneisti um loptið fló,
dagur huldist dimmum skugga,
dunaði gjá og loga spjó.

Belja rauðar blossamóður
blágrár reykur yfir sveif,
undir hverfur runni, rjóður,
reynistóð í hárri kleif.

Blómin ei þá blöskrun þoldu,
blikna hvert í sínum reit,
höfði drepa hrygg við moldu,
himna drottinn einn það leit.

Vötnin öll er áður fjellu
undan hárri fjalla þröng
skelfast dimmri hulin hellu
hrekjast fram um undirgöng;
öll þau hverfa að einu lóni
elda þar sem flóði sleit,
djúpið mæta, mest á Fróni
myndast á í breiðri sveit.

Kyrt er hrauns á breiðum boga
blundar land í þráðri ró,
glaðir nætur-glampar loga,
geislum slá um hæð og mó;
brestur þá og yzt með öllu
í undirhvelfing hraunið sökk,
dunar langt um himinhöllu,
hylur djúpið móða dökk.

Svo er treyst með ógn og afli
alþjóð minni helgað bjarg;
Breiður þakinn bláum skafli
bundinn treður foldarvarg;
grasið þróast grænt í næði,
glóðir þar sem runnu fyr,
styður völlinn bjarta bæði
bjarg og djúp, hann stendur kyr.

Hverr vann hjer svo að með orku?
aldrei neinn svo vígi hlóð,
búinn er úr bálastorku
bergkastali frjálsri þjóð;
drottins hönd þeim vörnum veldur,
vittu, barn, sú hönd er sterk,
gat ei nema guð og eldur
gert svo dýrðlegt furðuverk.

Hamragirðing há við austur
Hrafna rís úr breiðri gjá,
varnameiri veggur traustur
vestrið slítur bergi frá.
Glögt eg skil hví geitskór vildi
geyma svo hið dýra þing,
ennþá stendur góð í gildi
gjáin kend við almenning.

*J. H.*

7.

Gunnarshólmi.

Skein yfir landi sól á sumarvegi
og silfurbláan Eyjafjallatind
gullrauðum loga glæsti seint á degi.

við austur gnæfir sú hin mikla mynd
hátt yfir sveit og höfði björtu svalar
í himinblámans fagurtæru lind.

beljandi foss við hamrabúann hjalar
á hengiflugi undir jökulrótum
þar sem að gullið geyma Frosti og Fjalar.

en hinumegin föstum standa fótum
blásvörtum feldi búin Tindafjöll
og grænu belti girð á dalamótum.

með hjálminn skygða hvítri líkan mjöll
horfa þau yfir beiðavötnin bláu
sem falla niður fagran Rangárvöll.

þar sem að una bygðar býlin smáu
dreifð yfir blómguð tún og grænar grundir.
við norður rísa Heklu tindar háu.

svell er á gnýpu, eldur geysar undir.
í ógna djúpi hörðum vafin dróma
Skelfing og Dauði dvelja langar stundir.

en spegilskygð í háu lopti ljóma
hrafntinnuþökin yfir svörtum sal.
þaðan má líta sælan sveitarblóma.

því Markarfljót í fögrum skógardal
dunar á eyrum, breiða þekur bakka
fullgróinn akur. fegurst engjaval

þaðan af breiðir hátt í hlíðar slakka
glitaða blæju gróna blómum smám.
klógulir ernir yfir veiði hlakka.

því fiskar vaka þar í öllum ám.
blikar í lopti birkiþrasta sveimur
og skógar glymja skreyttir reynitrjám.

þá er til ferðar fákum snúið tveimur
úr rausnargarði hæstum undir hlíð
þangað sem heyrist öldufalla eymur,

því hafgang þann ei hepta veður blíð
sem voldug reisir Rán á Eyjasandi
þar sem hún heyir heimsins langa stríð.

um trausta strengi liggur fyrir landi
borðfögur skeið með bundin segl við rá
skínandi trjóna gín mót sjávar grandi.

þar eiga tignir tveir að flytjast á
bræður af fögrum fósturjarðar ströndum
og langa stund ei litið aptur fá.

fjarlægum ala aldur sinn í löndum
útlagar verða vinar augum fjær
svo hafa forlög fært þeim dóm að höndum.

Nú er á brautu borinn vigur skær
frá Hlíðarenda hám því Gunnar ríður
atgeirnum beitta búinn. honum nær

dreyrrauðum besti bleypir gumi fríður
og bláu saxi girður yfir grund
þar mátti kenna Kolskegg allur lýður.

svo fara báðir bræður enn um stund
skeiðfráir jóar hverfa fram að fljóti
Kolskeggur starir út á Eyjasund.

en Gunnar horfir hlíðarbrekku móti
hræðist þá ekki frægðarhetjan góða
óvina fjöld þó hörðum dauða hóti:

sá eg ei fyrr svo fagran jarðargróða
fjenaður dreifir sjer um græna baga
við bleikan akur rósin blikar rjóða.

hjer vil eg una æfi minnar daga
alla sem guð mjer sendir. Farðu vel
bróðir og vinur. Svo er Gunnars saga.

því Gunnar vildi heldur bíða hel
en horfinn vera fósturjarðar ströndum.
grimmlegir fjendur flárri studdir vjel
fjötruðu góðan dreng í heljar böndum.
hugljúfa samt eg sögu Gunnars tel
þar sem eg undrast enn á köldum söndum
lágan að sigra ógna bylgju ólma
algrænu skrauti prýddan Gunnarshólma.
þar sem að áður akrar huldu völl
ólgandi þverá veltur yfir sanda.
sólroðin líta enn hin öldnu fjöll
árstrauminn harða fögrum dali granda.
flúinn er dvergur, dáin hamratröll
dauft er í sveitum, hnípin þjóð í vanda,
en lágum hlífir hulinn verndarkraptur
hólmanum þar sem Gunnar sneri aptur.

*J. H.*

## III. Fáein atriði úr sögu Islands.

### 1. Frá byggingu landsins.

Maður er nefndur *Naddoddur*; hann var víkingur hinn mesti, og staðfestist í Færeyjum, með því hann átti hvergi annarstaðar friðland. Hann vildi einhverju sinni vitja Færeyja frá Noregi, en varð sæhafi til Íslands; hann kom að Austfjörðum, þar sem Reyðarfjall heitir. Hann sá ekki mannabygðir, dvaldi skamma hríð við landið, og kallaði *Snæland*.

Þvínæst er nefndur *Garðar Svafarsson*, sænskur að ætt. Hann fór að tilvísan móður sinnar framsýnnar að leita Snælands; kom hann að *Horni* hinu eystra, og sigldi norður um landið, og gjörði hús í firði þeim, er hann kallaði *Skjálfanda*; þar nefndi hann *Húsavík*, og var þar um veturinn. Hann sigldi fyrstur manna umhverfis Ísland, og sá að það var eyland; kallaði hann það *Garðarshólma*.

Hinn þriðji, er kom til Íslands, var *Flóki Glámsson*, dóttursonur *Hörða-Kára* í Noregi. Hann fór af Hörðalandi að leita Garðarshólma; ljet hann frá sjer 3 hrafna, er hann blótaði, í hafi og fló hinn síðasti í átt til landsins, var hann því kallaður *Hrafnaflóki*; kom hann austan að *Horni*, og sigldi vestur um *Reykjanes* og *Faxaflóa* og inn á *Breiðafjörð*, og tók land við *Barðaströnd*; var hann þar um vetur. Þeir fjelagar gengu um vorið norður á fjöll, og sáu fjörð, fullan af hafísum; nefndu þeir því landið *Ísland*, en fjörðinn *Ísafjörð*. Flóki lastaði landið, en fjelagi hans, *Þórólfur smjör*, lofaði það sem mest; sagði smjör drjúpa af hverju strái, en *Herjólfur* sagði kost og löst á. Flóki nam síðar *Flókadal* í *Fljótum*, og bar þar beinin að lokum.

Landnámsfeður landsins eru þeir kallaðir *Íngólfur* og *Leifur* (Hjörleifur); þeir voru ættaðir af Þelamörk í Noregi. Ingólfur var Arnarson, Björnólfssonar, en Leifur var Hróðmarsson, Hróaldssonar; þeir voru fóstbræður, og hinir göfugustu menn; voru þeir í hernaði með sonum *Atla* jarls hins *mjófa*. Gjörðust þeir ósáttir við sonu Atla jarls, og drápu tvo þeirra, og fóru þá að leita Íslands, er Garðar og Flóki höfðu þá fundið fyrir skemmstu. Voru þeir einn vetur í *Alptafirði* austan á landi, og hurfu þá aptur til Noregs. Ár 874 fóru þeir báðir aptur til Islands, og skildu, er þeir komu nærri landinu; skaut Íngólfur fyrir borð öndvegissúlum, og tók *Íngólfshöfða*, en Hjörleif rak vestur fyrir land. Hann gjörði skála hjá *Hjörleifshöfða*, og var þar um vetur, en þrælar hans drápu hann, og flýðu síðan út í eyjar, er síðan eru kallaðar *Vestmannaeyjar*, því þeir voru Vestmenn. Ingólfur fann öndvegissúlur sínar við *Arnarhól*, og bjó í Reyk-

javík; hann nam land milli Ölfusár og Hvalfjarðar, og var frægstur landnámsmanna, er hann kom hjer að óbygðu landi og bygði fyrst landið til langframa. Hans son var *Þorsteinn*, faðir *Þorkels mána*, lögsögumanns, föður *Þormóðar* allsherjargoða. Margir frændur hans bygðu í hans landnámi: *Þórir haustmyrkur* í Selvogi, *Moldagnúpssynir* i Grindavík, *Steinunnur* hin *gamla* á *Rosmhvalanesi*, og fleiri.

*Haraldur* hinn *hárfagri* lagði land allt undir sig í Noregi í Hafursfjarðarorrustu, 875; leituðu þá margir menn á burtu úr Noregi, þeir er þar höfðu verið í móti honum, og fóru margir vestur um haf, en sumir síðar til Íslands, þótt sumir færi af öðrum orsökum.

Hinir helztu landnámsmenn voru: *Skallagrímur Kveldúlfsson*, faðir *Egils*. Hann fór til Íslands með Kveldúlfi, föður sínum, 878, en Kveldúlfur ljezt í hafi, og var kista hans látin fyrir borð, en hann hafði lagt svo fyrir, að Skallagrímur reisti bú þar sem kistuna bæri að landi; var það að *Borg* á Mýrum, og reisti Skallagrímur þar bú. Námu margir síðan land í Borgarfirði með hans ráði. *Ketill hængur* son *Þorkels* jarls nam land milli *Þjórsár* og *Markarfljóts*, og margir mikilsháttar menn. Hann bjó að *Hofi*, og var faðir *Stórólfs* á *Hvoli*, föður *Orms* hins *sterka*. *Örlygur* kom úr Suðureyjum, að ráði *Patreks* biskups; hann bjó að *Esjubergi* á Kjalarnesi. *Ófeigur* kom frá Naumdælafylki; hann var faðir *Þorgeirs gollnis*, föður *Njáls* á Bergþórshvoli. *Ingimundur gamli* nam *Vatnsdal*, og bjó á *Hofi*. *Helgi magri* nam *Eyjafjörð* allan, og bjó í *Kristsnesi*; hann trúði á Krist, en hjet á þór til harðræða og sæfara. *Þórólfur Mostrarskegg* nam Breiðafjörð, og gjörði bæ á *Hofstöðum*, og nefndi nesið *Þórsnes*, og hafði átrúnað á felli því er hann kallaði *Helgafell*. *Geirmundur heljarskinn*, son *Hjörs* konungs, var herkonungur mikill; hann nam land við Breiðafjörð frá *Fábeinsá* til *Klofasteina*, og bjó fyrst í *Búðardal*, en síðar á *Geirmundarstöðum*; hann hafði 80 frelsingja, og 4 bú á Vestfjörðum, og fór á milli þeirra með 80 manna. *Auður* hin *djúpauðga*, ekkja *Óleifs hvíta*, konungs á Írlandi, nam *Dalalönd*; hún gaf lönd öllum skipverjum sínum, og eru *Miðdalir* við þá kenndir. *Kollur* nam *Laxárdal*, ob var kallaður *Dalakollur*; hann var faðir *Höskuldar*. Auður var göfugust þeirra kvenna, er hjer námu lönd. Þá er hún var gömul orðin, bauð hún vinum sínum til veizlu, og gaf þeim gjafir, og rjeði heilræði, og kvað það vera erfi sitt, og andaðist í því. *Þorbjörn loki* nam *Djúpafjörð*; frá honum eru Sturlungar komnir að langfeðgum. *Þuríður sundafyllir* nam *Bolungarvík*, og setti *Kvíarmið* á Ísafirði, og gátum vjer um það hjer að framan. *Önundur trje-*

*fótur* nam *Kaldbaksvík*, *Kolbeinsvík* og *Byrgisvík*; hann var langafi *Grettis* hins *sterka*. *Skinnabjörn* nam *Miðfjörð*; hans son var *Miðfjarðarskeggi*. *Haraldur hringur* nam *Vatnsnes*, *Eyvindur auðkúla Svínadal*, *Avar Langadal*, *Hólmgöngumáni Skagaströnd*, og *Eyjólfur örn Laxárdal*. *Sæmundur* hinn *suðureyski* nam *Sæmundarhlíð* í Skagafirði; *Þorbrandur örrekur Silfrastaðahlíð*, og var höfðingi mikill; hann bjó að *Þorbrandsstöðum*, og ljet alla ferðamenn fara með klyfjar um eldhús, og hafa mat heimilan. *Brúni* hinn *hvíti*, son *Háreks* Upplendingajarls, bjó á *Brúnastöðum*; *Þormóður* hinn *rammi* nam *Siglufjörð*; *Gunnólfur* hinn *gamli Ólafsfjörð*; *Bárður slítandi Hörgárdal*; *Þórir þussasprengir Yxnadal*; hans son var *Steinrauður* hinn *rammi*, er bót vann við meinvættum; *Þórir snepill* nam *Fnjóskadal*, og bjó að *Lundi*, og blótaði lundinn. *Eyvindur*, son *Loðins önguls*, nam *Flateyjardal*. *Bárður*, son *Heyjangurs-Bjarnar*, nam *Bárðardal*; *Vestmar* og *Úlfur Reykjadal*; *Böðólfur Grímsson Tjörnnes*. *Þorsteinn hvíti* keypti land af *Eyvindi vopna*, og bjó að *Hofi*. *Lýtingur* nam *Vopnafjarðarströnd*; *Hákon* nam *Jökuldal* og bjó að *Hákonarstöðum*. Konur máttu þá ekki nema meira land, en leiða mætti um kvígu tvævetra vorlangan dag milli sólsetra; *Þorgerður*, ekkja *Asbjarnar Heyjangurs-Bjarnar-sonar*, leiddi kvígu sína undan *Tóptavelli*, og nam land í kring um *Ingólfshöfða*, og bjó að *Sandfelli*. *Ketill* hinn *fíflski* og ættmenn hans bjuggu á *Kirkjubæ*; þar máttu heiðnir menn ekki búa. *Asgeir kneif* nam land milli *Lambafellsár* og *Seljalandsár*; hann var faðir *Ögmundar*, föður *Jóns* biskups. *Herjúlfur* byggði Vestmannaeyjar. *Flosi*, son *Þorbjarnar* hins *gaulverska*, nam *Rangárvöllu* eystri; hann var móður-faðir *Brennu-Flosa*. *Ketill einhenti* nam Rangárvöllu hina innri; frá honum er *Þorlákur* biskup *helgi*. *Loptur Ormsson* nam land fyrir vestan *Þjórsá*; hann fór þriðja hvert ár til Noregs að blóta til hamingju sjer. *Bröndólfur* og *Már* Naddoddssynir námu *Hrunamannahrepp*; *Ketilbjörn gamli* nam *Grímsnes* og *Laugardal*, og bjó að *Mosfelli*; var hann föðurfaðir *Gissurar hvíta*, og er margt stórmenni frá honum komið. Hann var móðurfaðir *Geirs goða*.

Allir landnámsmenn þessir höfðu numið lönd fyrir 900, en um 930 var byggingu landsins lokið, þó bæir hafi fjölgað eptir það. Höfðingjar þeir, er námu landið, tóku sjer hjeruð til umráða, og kölluðu *landnám* sitt; var sú hjeraðaskipan fyrst hjer á landi. Opt leyfðu þeir öðrum bústaði í landnámum sínum. Flestir voru landnámsmenn norskir að kyni, þó sumir þeirra kæmu frá Skotlandi, Írlandi, Suðureyjum eða Orkneyjum.

## 2. Frá Goðum.

Hinir fyrstu yfirmenn á Íslandi voru *Goðarnir*; höfðu þeir, hver í sínu hjeraði, bæði stjórnarvald og dómsvald, og stýrðu hofum og helgisiðum, sveitarmálefnum og fleiru. þeir lögðu t. a. m. lag eða verð á varning kaupmanna, skipuðu útlendum mönnum í vistir, er þeir voru vetrarlangt í hjeraðinu, og höfðu umsjón með heyjafla manna og matbjörg. þeir áttu frjálst að kveðja þingmenn sína til fylgdar við sig, hvort það var heldur til þings, til að fylgja þeim að málum, eða til að veita vígsgengi. Goðorðin voru þannig til orðin, að höfðingjar þeir, er bygðu landið, urðu, eins og eðlilegt var, höfðingjar hver í sinni sveit. þeir og niðjar þeirra reistu hofin, og hjeraðsmenn þeir, er sóttu helgistaðinn, urðu þessvegna að greiða goðunum hoftoll. Eptir að alþing var sett, riðu goðarnir til þings, til að annast þar þarfir sínar og manna sinna, og var þá eðlilegt, að hjeraðsmenn veittu þeim að málum þeirra. Ennfremur voru það goðarnir, er nefndu dómendur til að dæma mál þingmanna sinna, og önnuðust mál þeirra að alþingi. Hið æðsta dómsvald hafði alþingi og lögsögumaður, er var oddviti eða forseti þingsins. Hverjum manni var frjálst að segjast í þing með hverjum goða, er hann vildi, en ef það var goði í öðrum landsfjórðungi, skyldi hann lýsa yfir því fyrir lögsögumanni, en hann lýsti á alþingi. þannig var vald goðanna allmikið, og máttu þeir í mörgum greinum heita einvaldir yfir hjeraðsbúum sínum, er urðu að hlýða boði og banni goðans. þegar vjer þessvegna tölum um frelsi landsins á þessum tímum, þá er það einkum að skilja um það, að enginn útlendur höfðingi hafði þá nein ráð á landinu, en að hinu leytinu var langt frá því, að allir rjeðu, eða tækju verulegan þátt í landstjórninni, enda er þess eigi kostur að svo sje í raun og veru, eða meir en í ímyndaninni. þrælar og herrar voru hjer á landi eins og þá var títt í öðrum löndum.

Vald goðanna hvarf jafnsnemma og frelsi landsbúa, eða um sama leyti og útlendir höfðingjar tóku að fá ráð á landinu. þegar *Hákon* konungur hinn *gamli* tók að reyna að koma landinu undir sig, freistaði hann með ýmsu móti að ná yfirráðunum yfir goðorðunum. Eitt hið fyrsta tiltæki hans í þessa átt var það, að hann eignaði sjer arf hins fræga sagnaritara, *Snorra Sturlusonar*, er var veginn að undirlagi konungs, og kallaði konungur til mannaforræðis hans. þegar *Hallvarður gullskór* (1262—64) fekk loksins Íslendinga til að gangast undir skattgjafir á Íslandi, sóru allir höfðingjar þeir, er goðorðin áttu, konungi eið, og er það svo að skilja, að þeir hafa þá gefið á konungsvald ríki sín

og rjettindi þau, er þeir höfðu yfir þingmönnum sínum. Eptir það hjeldu höfðingjar hin fornu goðorð sín sem ljen eða sýslu af konungi.

## 3. Frá Alþingi.

Þegar er landið bygðist, voru þing sett í hverju hjeraði, þar sem mál hjeraðsbúa voru útkljáð. Síðar var sett þing í fjórðungi hverjum, er kallað var fjórðungsþing; voru sameiginleg mál úr hverjum fjórðungi leidd þar til lykta. Þegar þing var sett í fjórðungi hverjum, kjöru menn *Úlfljót*, af ætt Hörðakára, til að setja allsherjarþing, og segja upp lög fyrir allt landið. Var lögsögmaður kjörinn, og *alþing* sett ár 930. Svo var ákveðið, að 3 þing skyldu vera í fjórðungi hverjum, en 3 goðar í hverju þingi, nema í Norðlendingafjórðungi; þar voru þingin 4, og goðorð fyrir þá sök 12. Þrjár tylftir skyldu sitja að dómi í hverju fjórðungsþingi, og kaus hver goði sinn mann í dóm. Framan af var eigi nema einn dómur á alþingi, er öll mál af landinu máttu í koma; enda var enn svo, að menn sóttu mörg mál í hjeraði, en alþing var mest til löggjafar. Ár 965 voru fjórðungadómar settir á alþingi; voru þeir fluttir til alþingis, og settir þar á einn stað samt. Fjórðungadóma þessa má álíta sem yfirdóma, þar sem mál úr hverjum fjórðungi máttu koma, er fjórðungsþingin í hjeruðunum voru enn háð.

Hin helzta stofnan á alþingi var þá lögrjettan, og mun það helzt hafa verið vegna lagasetninganna, að alþing var sett, því eigi mátti lög gefa í hjeruðunum fyrir landið allt, en ein lög skyldu allir hafa. Í lögrjettu sátu fernar tylftir; kusu 12 goðar á Norðurlandi eina tylft, en þeir 9 goðar, er voru í hvorum hinna fjórðunganna, sína tylft hverir. Lögrjettan bar nafn af því, að hún skipaði öllum lögum í landinu, og er hún allt annað en dómarnir. *Njáll* endurbætti hana síðar, um leið og hann fekk settan fimtardóm, er var hæsti rjettur landsins.

Lögrjettumenn skyldu kjósa lögsögumann á alþingi í byrjun þings. Lögsögumaður helgaði þingið, sagði upp alla lögþáttu og þingsköp, hvert sumar; hann lýsti sýknu manna að lögbergi, o. s. fr. Lögsögumaður var kosinn til þriggja ára. Úrskurður lögsögumanns um það, hvað lög væru, var órjúfanlegur, og þar sem vafi var á, hvort eitthvað væri lögmætt eður ekki, var ætíð til hans farið, og úrskurði hans hlýtt orðalaust. Lögsögumaður fjekk 3 hundruð vaðmála af lögrjettufjám fyrir starf sitt; hann átti einnig sektir allar hálfar, er dæmdar voru á alþingi fyrir þingvíti. Hinn fyrsti lögsögumaður var *Hrafn Hængsson*. Alþing var haldið ár hvert á *Þingvelli* við Öxará.

þegar vjer hugleiðum þing þetta, sem í mörgum greinum var ágætt, og hin bezta stoð allrar rjettvísi og siðgæða, og alls þess, sem bezt var í landinu, þá megum vjer að vísu viðurkenna, að það hafði nokkra galla. Staðurinn, sem þingið var sett á, þarsem vígi var gott, bendir þegar til anda þess tíma, þegar það var sett. þingið var í mörgu lagað eptir því, sem tíðkast hafði í Noregi, og eins lög þau, er viðtekin voru. Lagasetningin var að vísu í mörgu aðdáanleg á þeim tímum, en opt voru mál sókt af kappi, og rjeði það á stundum eigi minnstu, að fjölmenna sem mest, og fá sem flesta til að veita að málinu. Er það hin bezta skemmtan að lesa t. a. m. um þingið, er kallað var hið mikla, og stóð 1002, er þeir Mörður Valgarðsson sóktu þá að sök, er stóðu að Njálsbrennu, en Eyjólfur Bölverksson varði, og ónýtti sóku Marðar. Var þórhallur Ásgrímsson, er numið hafði lög af Njáli, veikur í fæti, og gat ekki verið á þingi að málum. Var til hans sent jafnóðum og Eyjólfur ónýtti sóknina, og gat hann borgið málinu, þangað til Merði varð það á, að láta dæma málið án þess að Flosi hefði nefnt þá 6 menn úr dóminum, er honum bar að nefna. Nefndi þá Eyjólfur votta, og ónýtti dóminn, og allar aðgjörðir þeirra. En þórhalla brá svo við, að hann tók spjót og risti út úr fæti sjer, og gekk sem óhaltur á þing, og vo þegar víg. Barðist þá þingheimur allur, unz þeir *Snorri goði*, *Skapti Þóroddsson* og *Hallur* á Síðu gátu komið griðum á. Lagði Hallur son sinn, *Ljót*, er veginn var á þinginu, og var hið bezta höfðingjaefni, ógildan, ef sættir kæmist á. Sættust þá allir, nema *Kári Sölmundarson* og *Þorgeir Skorargeir*.

þingið hafði hið æðsta löggjafarvald og dómsvald í landinu. Samkoma þessi var hátíðleg mjög, er höfðingjar landsins komu þar með viðhöfn mikilli og fjölmenni, og settu viturleg og hagfelld lög, og dæmdu mál manna með spekt og rjettsýni. það var einnig þing þetta, er lengst stóð á móti ánauð konungsvaldsins. það sáu og Noregskonungar, og reyndu þeir því með öllu móti að veikja afl og álit þingsins. Í Járnsíðu, sem fyrst var lögleidd á Íslandi, skyldu 140 menn kvaddir til þingreiðar. En í Jónsbók er tala þingmanna minnkuð að helmingi, og skyldu þeir vera 84. Enn fækkaði tala þingmanna, og vald og álit þingsins minnkaði smámsaman; enda hvarf snemma dómsvald í ýmsum málum undir klerka og biskupa, og síðar hvarf að mestu leyti löggjafarvald þingsins og hið æðsta dómsvald undir konung og valdsmenn hans. Loksins varð alþing ekki annað en nafnið eitt, enda hnignaði dáð og dugnaði að því skapi í öllum greinum. Loksins var það aftekið um síðastliðin aldamót, eptir að það hafði staðið í 9 hundruð ár.

## 4. Kristin trú lögtekin.

Flestir landnámsmenn voru heiðnir; þó hafa sumir haft kristna trú, og eru vottar þess örnefni þau, er kennd eru við kirkjur og krossa. Í Kirkjubæ, eystra, hafa jafnan búið kristnir menn. Um 980 kom *Friðrekur* biskup til Íslands, og boðaði kristna trú; dvaldi hann hjer nokkra vetur, og varð lítið ágengt; hvarf síðan aptur. Ár 996 sendi *Ólafur* konungur *Tryggvason* *Stefni* til Íslands með kristniboð. Stefnir var á Íslandi um veturinn, og boðaði trú; brugðust menn illa við boðskap hans, og var á alþingi leitt í lög, að frændur hins seka skyldu sækja hann um goðgá á þingi, og kölluðu menn kristnina frændaskömm. *Þangbrandur* prestur kom til Íslands 997; hann var 2 vetur á Íslandi, og fór um land allt og skírði allmarga; tóku þó sumir kristniboðinn enn allilla, einkum á Vesturlandi. En er Þangbrandur kom til Noregs, skýrði hann Ólafi konungi frá meingjörðum Íslendinga við sig; kvað hann þá vera svo fjölkunniga, að jörðin spryngi í sundur undir hesti hans, og sylgi hestinn. Þá varð Ólafur konungur reiður, og ljet taka alla íslenzka menn, er þar voru, og setja í myrkvastofu, og ætlaði þá til dráps. Gengu þeir *Gizur hvíti* og *Hjalti Skeggjason*, er þá voru þar, og í miklum metum hjá konungi, fram fyrir hann, og buðu að leggja sig í veð fyrir landa sína, og fara út til Íslands, og boða þar trú. Konungur tók því máli vel. Ljetu þeir Hjalti þá í haf, og sigldu til Íslands. En er þeir komu til þings, riðu kristnir menn, vinir þeirra, í móti þeim, og riðu þeir með fylktu liði á þing. Heiðnir menn höfðu og fylkt fyrir, og lá þá nær, að allur þingheimur mundi berjast. Daginn eptir gengu hvorirtveggju til lögbergs, kristnir menn og heiðnir, og sögðust hvorir úr lögum við aðra, og kjöru kristnir menn Hall af Síðu til lögsögumanns fyrir sig. Urðu þá óhljóð svo mikil að lögbergi, að engi heyrði mál annars. *Þorgeir* frá Ljósavatni var þá lögsögumaður. Síðuhallur fekk það af honum, að hann segði upp lögin, þótt hann heiðinn væri. Þorgeir tókst á hendur þetta mikla vandamál; lá hann til jafnlengdar, og breiddi feld á höfuð sjer, svo engi maður mátti við hann mæla. Hinn næsta dag gengu menn til lögbergs; sóru þá allir að halda lög þau, er Þorgeir segði upp. Kvað Þorgeir þá upp lögin. »Það er upphaf laga vorra,« mælti hann, »að allir menn skulu kristnir vera hjer á landi, og trúa á einn guð, Föður, Son og Anda helgan, en láta af allri skurðgoðavillu, bera eigi út börn og eta eigi hrossaslátur; skal fjörbaugssök á vera, ef víst verður, en af leynilega er með farið, þá skal vera vítalaust«. Sagði hann og upp drottinsdagahald og föstudaga, Jóladaga og Páskadaga, og allra hinna stærstu hátíða-

Heiðnir menn þóttust nú sviknir, en eigi mátti að gjöra, og var þá trúin í lög leidd, og menn gjörðir kristnir hjer á landi; það var á Jónsmessudag 1000 árum eptir Krists fæðing. En þótt kristin trú væri lögtekin, voru flestir kristnir að eins að nafninu, og eymdi lengi eptir af heiðninni.

## 5. Ástand Íslands eptir að kristni var lögtekin.

Um það leyti, að kristni var lögleidd, var ástand landsins hið álitlegasta. Þá var hin söguríka öld, og gjörðust þá margir þeir tilburðir, er hinar merkustu sögur skýra frá, svosem Njála og Laxdæla. Þá voru þessir nafnkenndir menn uppi: *Þormóður* allsherjargoði, son Þorkels Mána, fyrir sunnan, og afkomendur *Özurar*, bróður Ingólfs; *Refur* hinn *gamli* í Brynjudal, *Þorkell trefill* í Svignaskarði, *Þorsteinn Egilsson* á Borg, *Ólafur pá* í Hjarðarholti, *Ósvífur* á Laugum, og þeir synir hans; *Gestur* hinn *spaki* í Haga, *Ari Másson* á Reykhólum, *Snorri goði* að Helgafelli, *Steinþór* á Eyri, *Þrándur Ingjaldsson* að Ingjaldshóli, *Eyjólfur* hinn *grái* í Otrardal, *Asmundur*, faðir *Grettis* á Bjargi, *Asgeir* að Ásgeirsá, *Miðfjarðar-Skeggi*, *Þorkell krafla* goði í Vatnsdal, *Starri* í Goðdölum, *Þorvarður* í Ási, *Arnór kerlingarnef* í Miklabæ, *Vallnaljótur* í Svarfaðardal, *Vígaglúmur* á Þverbrekku; *Hlenni* hinn *gamli* í Saurbæ, *Guðmundur* hinn *ríki* á Möðruvöllum; *Þorgeir goði* að Ljósavatni, og hafði lögsögu, og synir hans *Höskuldur* að Vöglum og *Þorkell hákur* að Öxará; *Ófeigur* í Skörðum, *Þorkell Geitisson* í Krossavík, *Bjarni Broddhelgason* að Hofi, *Hólmsteinn* að Bessastöðum, *Hallbjörn* hinn *sterki* að Heydölum, *Flosi Þórðarson* að Svínafelli, *Hallur* að Þvottá á Síðu, *Ketill Sigfússon* á Mörk, *Njáll* að Bergþórshvoli, *Jörundur* goði í Dal, *Hjalti Skeggjason* í Þjórsárdal, *Asgrímur* í Tungu, *Gizur hvíti* að Mosfelli, og fleiri. Hinn forni kjarkur og atorka og frelsisást var enn í blóma hjá þjóðinni, en villusiðir heiðninnar hurfu smámsaman fyrir hinum ágætu boðum og anda kristinnar trúar. Um þessar mundir voru Íslendingar hinir mestu siglingamenn, og voru þeir víða frægir fyrir hreysti og atgjörfi. Þeir námu land á Grænlandi, og fundu fyrstir manna *Ameríku* er þeir kölluðu *Vínland* (Leifur heppni), þótt siglingar þangað legðust síðar niður, og landið fjelli í gleymsku aptur, þangað til Kólúmbus fann það ofarlega á 15 öld. Landstjórn var þá hjer hin bezta og reglulegasta. Á 15 öldinni voru líka uppi margir menn, lærðir og leikir, er hefðu verið framúrskarandi menn á hverjum tíma, og hjá hverri þjóð, sem þeir hefðu verið. Slíkir menn voru þeir *Snorri goði*, *Skapti* lögsögumaður, *Einar Þveræingur*, *Gizur hvíti*, *Hjalti Skeggja-*

*son* og ótal fleiri af leikmönnum; *Ísleifur* og *Gizur* biskupar, *Sæmundur* fróði, *Ari* fróði, *Jón Loptsson*, og margir aðrir af klerkum. Það gegnir furðu, hve fágæt vígaferli og styrjaldir eru, frá því *Skapti* lögsögumaður deyr (1031) og þangað til eptir daga Gizurar biskups († 1118), eða jafnvel þangað til 1150. Allan þann tíma hefur stjórn landsins farið ágætlega fram, og velmegan manna verið hin bezta. Þessi fagri friðartími glæddi einnig andlegt líf hjá forfeðrum vorum, svo þeir tóku að leggja stund á bókmentir, og komust þeir svo langt áleiðis á þessum stutta tíma, að þeir í sumum fræðum skara langt fram úr öðrum þjóðum á þeim öldum. Upphaf þessara vísinda iðkana má telja skóla þann, er Ísleifur biskup stofnaði. Um hann fer Ari fróði þessum orðum: »en er þat sá höfðingjar ok góðir menn, at Ísleifr var miklu nýtri en aðrir kennimenn, þeir er á þvísa landi næði, þá seldu honum margir sonu sína til læringar, ok ljetu vígja til presta«. Voru því margir höfðingjar lærðir, og höfðu bæði veraldleg og andleg völd, því margir goðar tóku prestsvígslu. Ágætastir fræðimenn á þeim tímum voru þeir Ari fróði Þorgilsson, Sæmundur fróði Sigfússon, og ýmsir niðjar hans (Oddaverjar) og niðjar Ísleifs biskups (Haukdælir). Seinna urðu Sturlungar mestir fræðimenn, einkum *Snorri Sturluson*; hefur hann ritað hina nafnkenndu bók, er nefnist »Heimskringla«; og *Sturla* Þórðarson. Síðara hluta 10. aldar og fyrra hluta 11. aldar gjörðust flestar Íslendingasögur, en voru ritaðar ofarlega á 12. öld.

## 6. Frá því er Ísland kom undir konung.

Öndverðlega á 13. öld hófst *Sturlungaöld*; það er ófriður sá, er stóð að kalla samfleytt í 60 ár, og þau urðu endalok á, að landið komst undir konung.

Á þessum árum var svo að kalla sífeldur ófriður, og varð allur þorri bænda annaðtveggja að fylgja höfðingjum, er þeir fóru herferðir, hvort sem vetur var eða sumar, eða verða fyrir herflokkunum, og sæta ránum og allskonar ójafnaði. Fyrst var ófriður þessi milli sjálfra höfðingjanna, og varð einna afleiðingamest óvild sú, er uppkom með þeim frændum *Sturlu Sighvatssyni* og *Snorra Sturlusyni*, og leiddi af tilkalli Snorra til ættargoðorðs Sturlunga, og þar að auki eggjanir Hákonar konungs. Sturla reyndi því til að brjóta undir sig land allt, og átti, hann í miklum deilum og ófriði, unz hann og faðir hans og bræður fjellu í orustu að Örlygsstöðum 1238 fyrir þeim Gizuri Þorvaldssyni og Kolbeini unga. Eptir það rjeðu þeir mestu um hríð Gizur Þorvaldsson og Kolbeinn ungi Arnórsson. Gizur fór með her að Snorra Sturlusyni í Reykholt, leituðu þeir hann uppi í

jarðhúsi, þar er hann hafði falið sig, og drápu hann um nótt, árið 1241. Vann Gizur þetta bæði að áeggjan konungs, og til að ná fje Snorra, er var mikið. *Órækju* Snorrason flæmdu þeir Kolbeinn úr landi. Þá hófst *Þórður Kakali Sighvatsson* aptur á móti þeim, og veittu þeir hinir Sturlungar honum. Tók Þórður þá einnig að brjóta landið undir sig, þangað til eptir Haugsnessfund 1246, að þeim Þórði og Gizuri kom saman um, að sigla til Noregs, og láta konung gjöra um mál sín. Lengst af var því ófriðurinn tilraunir einstakra manna til að ná yfirráðum yfir landinu, en á hinu bóginn höfðu Noregskonungar það og fast í huga, og gjörðu tilraunir til þess á marga vegu. Konungur skar þannig úr málum þeirra Gizurar og Þórðar, að hann setti Þórð Kakala yfir allt Ísland (1247). En er konungi þótti hann eigi reka vel erindi sitt, boðaði hann Þórð út, ár 1250. Tók þá konungur að skipa fyrir um ýmislegt á Íslandi, en ár 1256 sendi hann *Ívar Englason* til að flytja erindi sitt með liðveizlu biskupa, er þá voru orðnir norskir. Játaði þá allur þorri bænda í Norðlendingafjórðungi að gjalda skatt, þvílíkan, sem þeim semdi við Ívar. Ár 1258 tók konungur það ráð, að gjöra Gizur Þorvaldsson að jarli yfir Íslandi, í þeim tilgangi, að Gizur ræki því betur erindi hans. En er Hákoni konungi þótti Gizur sjerdrægur, en sjer eigi nógu hliðdrægur, sendi hann loks *Hallvarð gullskó* til Íslands ár 1261. Kom það svo fyrir flutning Hallvarðar, og þó án efa enn meir fyrir þá sök, að landsbúar voru orðnir þreyttir á ófriðinum, en enginn höfðingi gat unnt öðrum að hafa yfirráðin, að þeir gjörðu sáttmála við Hákon konung ár 1262 á alþingi. Sáttmáli þessi er hinn fyrsti, er forfeður vorir gjörðu við erlendan höfðingja, og er hann að því leyti undirstaða þess sambands, sem vjer erum enn í við konung vorn, því þá er Noregur var síðar sameinaður við Danmörk 1380, gengu Íslendingar undir konunga hinna sameinuðu ríkja, og voru þeir enn undir Danakonungi, þá Noregur skildist frá Danmörku 1814.

## 7. Ástand Íslands, eptir að það kom undir konung.

Þó Íslendingar hefðu játað Hákoni konungi skatti, hjelzt stjórn landsins á líkan hátt og áður hafði verið. Í stað goðanna komu sýslumenn; alþing hjelt áfram störfum sínum, og rjeði enn mestu um löggjöf í landinu. Hirðstjóri var yfir landinu af hálfu konungs. En smámsaman fór nú að dragast fjör og kjarkur úr þjóðinni, og tildrög að verða til eymdar þeirrar, er síðar gekk yfir landið. Ávallt verður torvelt úr því að skera, hvort apturförin var afleiðing konungsvaldsins, eða hitt afleiðing og einkenni apturfarar, að landsbúar gáfu sig undir útlendan höfðingja. Ís-

lendingar tóku nú að hætta að reka sjálfir verzlan í öðrum löndum, er þeir höfðu gjört á hinum blómlegustu öldum. Fyrir þá sök urðu þeir að sæta litlum og illum kaupum af hinum ýmsu verzlunarmönnum, er komu frá útlöndum. Verzlanin kom og síðar landinu á kaldastan klaka. Síðari hluti 14. aldar er eitt hið sorglegasta tímabil í sögu Íslands. Á Sturlunga öldinni var að vísu stjórnleysi eigi alllítið, og róstusamt, úr hófi, en manndómur var þá enn nokkur. Á þessu tímabili voru róstur engu minni, og siðleysi allmikið, en manndómur minni. Eptir rán og morð flúði hverr höfðingi á fætur öðrum til konungs, og kom aptur að ári liðnu, sem ljensmaður yfir meiri eður minni hluta landsins, til þess að byrja aptur á nýjum ránum og morðum. Árin 1400—1404 gekk á Íslandi drepsóttin mikla, er kölluð hefur verið *svarti dauði*. Var þá mannfall svo ógurlegt í landinu, að þó 12 eða 15 færu með líki til grafar, komu nær engir aptur lifandi. Eptir þetta hið mikla mannfall voru margar hinar beztu og göfugustu ættir þvínær með öllu útdauðar. Þessi ógurlega plága dró mjög úr kjarki þjóðarinnar og öllum framkvæmdum.

Mjög var árferði misjafnt á þessum hinum fyrri öldum, eins og hinum síðari. Þegar í landnámstíð, á dögum Hákonar jarls, varð óaldar ár svo mikið á Íslandi, að menn átu hrafna og melrakka, en gamalmenni og ómagar voru víða drepnir, og hrundið fyrir hamra. Þá sultu margir menn til bana. Ár 1056 var óáran mikil og manndauði af sulti, var þá allt það etið, er tönn festi á, og svo var snjókyngi mikil, að flestir gengu þá til alþingis. Sendi þá Haraldur konungur Sigurðarson út til Íslands fjóra knörru, hlaðna með mjöl, sinn í hvern landsfjórðung. Ár 1118, eptir að Gizur biskup andaðist, var óár mikið, og horfði þá á margan hátt til landauðnar; var þá manndauði mikill; mest var mannfallið 1120. Um þær mundir voru bændur þeir, er þingfararkaupi áttu að gegna, 3800, og fóru þeir flestir til þings, en þó er talið að fleiri hafi fallið í landinu, en þeir, er á þing komu; má af því ráða, að mannfallið hafi verið allmikið. Þá er Guðmundur biskup sat að stóli (1203—4) var hallæri mikið, einkum fyrir norðan land, svo að 2000 manna dóu frá veturnóttum til fardaga. Ár 1226 og þareptir nokkur ár var harðæri, og eldur uppi, fjell þá margt manna, einkum 1227; sendi þá Snorri Sturluson Jón Murta, son sinn, á þingnessþing við sjöunda mann, og höfðu þeir einn hest allir saman.

Eptir 1270 hófst harðindakafli mikill og mörg óáran. 1279 var vetur svo harður og frostamikill að ísalög voru umhverfis allt land; mátti fara með eykjum margar vikur sjáfar á ísi, en í fám veiðistöðum varð róið til fiskjar fyrir ís; hugðu menn þá

að landið mundi eyðast. Um 1300 voru opt jarðeldar og landskjálftar, en vetrarfar illt; fjellu þá bæði menn og fjenaður. 1314 var mannfall svo mikið á Suðurlandi, að 300 lík komu til Strandarkirkju; veturinn áður var kallaður Hrossafellisvetur. 1339 var landskjálfti hinn mesti í fardögum; hrundu þá víða hús og bæir eyddust, en jörðin rifnaði og fjöll hröpuðu. 1342 var snjóvetur hinn mesti; lagði að fyrir vetur, og hjelzt allt fram á sumar. Varð þá fjárfellir mikill. Þá var eldur uppi í Heklufjalli, í Knappafellsjökli og í Herðubreið; öskufall var þá mikið víða um land og óár, og eyddust margar sveitir. Myrkur gjörðist þá svo mikið um daga, sem um nætur á vetrum. Þessi síðari ár 14. aldar voru jarðeldar tíðir, og sóttir, svo sem bólan, en vetrarfar opt hart, þó stundum væri gott í ári. Á 15. öldinni voru og stundum eldsuppkomur og harðindi, þó fátt sje um ritað. Ár 1477, þá er samkoman mikla var á Grund í Eyjafirði, þriðjudag fyrstan í Einmánuði, og Einmánaðarsamkoma var stofnuð, er talað um undur og ógnir, er þá yfirgengu af eldgangi, sandfalli og ösku, myrkrum, og ógurlegum dunum.

## 8. Frá biskupum og klaustrum.

Ár 1056 var hinn fyrsti biskupsstóll reistur í Skálholti. Hinn fyrsti biskup á Íslandi var *Ísleifur Gizurarson*; var hann biskup yfir öllu Íslandi í 24 ár, og var ágætur maður fyrir flestra hluta sakir. Kona Ísleifs biskups var Dalla Þorvaldsdóttir; er svo sagt, að þá er Ísleifur bað hennar sjer til handa, bað faðir hennar tekið því máli treglega. Þá mælti Dalla: »Ek hefi þá metnaðargirnd, faðir, at eiga hinn bezta manninn, ok hinn ágæzta soninn með bonum, er á Íslandi mun fæðast«. Lauk svo, að Ísleifur fekk Döllu. Sonur þeirra Ísleifs og Döllu var *Gizur*, er biskup varð eptir föður sinn, og hinn ágætasti og bezti maður í þá tíð á Íslandi. Um hann hafði Haraldur konungur Sigurðsson sagt, að hann væri bezt til fallinn að bera hvert tignarnafn sem væri, konungs, herstjóra eða biskups. Hann hafði lært í Herfurðu og farið til Róms og fór hann aptur á fund páfa, er hann tók biskupsvígslu, og var hann vígður í Magdeborg.

Gizur biskup var vígður 1082, og var biskup til 1118. Hann setti tíundarlög þau á Íslandi, sem enn eru í gildi. Hann var sem konungur yfir landinu fyrir vinsældir sínar og skörungsskap, og aldrei hefur hagur þessa lands staðið með jafnmiklum blóma, sem á hans dögum. Þá reið drjúgum hver bóndi til alþingis, en þó var vopnaburður þar svo lítill, að eitt sinn var þar aðeins ein stálhúfa. Er það sízt furða, þótt hagsæld og vísindi hafi þá dafnað í landi hjer, er hinir beztu menn rjeðu lögum og

lofum, svo sem þeir Gizur, Sæmundur fróði, Jón biskup helgi og fleiri.

Á dögum Gizurar biskups og með hans ráði var annar biskupsstóll reistur á Hólum í Hjaltadal ár 1106, og var fyrstur biskup *Jón hinn helgi Ögmundarson*. Hann hafði farið um Suðurlönd með Sæmundi fróða. Í Skálholti hafa verið 43 biskupar, en á Hólum alls 37, þangaðtil Skálholtsstóll var fluttur til Reykjavíkur 1796, en Hólastóll niður lagður 1801.

Biskupar höfðu umráð yfir kennilýð, kirkjum og kennslumálum. Skólar voru reistir bæði á Skálholti, og Hólum, og hjeldust þeir þangað til stólarnir voru fluttir til Reykjavíkur; í klaustrunum, er stofnuð voru smámsaman, voru og stundum skólar. Námu í skólum þessum þeir, er prestar vildu verða, en opt var lærdómur lítill. Þeir, er meira vildu nema, fóru til annara landa: Þýzkalands, Englands, Frakklands og Ítalíu, og námu þar vísindi, þangað til háskólinn var stofnaður í Kaupmannahöfn á 15. öld.

Lengi fram eptir öldum bar mjög lítið á því, að biskupar á Íslandi vildu beita ofurvaldi kaþólskunnar; voru þeir allfriðsamir, og margir þeirra ágætir menn. Leikmenn voru að hinu leytinu margir stórbokkar, og þoldu eigi ójöfnuð af öðrum. Guðmund biskup Arason á Hólum, er var uppi öndverðlega á 13 öld, ráku þeir Sturlungar af stólnum, og höfðu hann um tíma í varðhaldi. Jón Gerreksson, biskup í Skálholti, er áður hafði verið erkibiskup í Uppsölum, tóku þeir Teitur á Bjarnanesi og Þorvarður á Möðruvöllum á stólnum, ljetu hann í sekk, og sökktu í Brúará; það var á 15. öld. *Arni* biskup *Þorláksson*, er kallaður var Staða-Árni, var biskup í Skálholti frá 1269 til 1298. Hann var kappsmaður mikill og mikilmenni. Fram til hans daga höfðu flestir prestar verið á vistum hjá bændum, en bændur áttu jarðirnar og kirkjurnar, og höfðu prestar það eitt, er á altari var lagt. Á sumum stöðum voru höfðingjar sjálfir prestar, og þjónuðu sjálfir. Árni biskup hóf mál þau, er kölluð voru Staðamál, og voru um forræði biskups og afnot presta af jörðum. Biskupi veitti þessi mál í fyrstu erfiðlega, voru leikmenn á móti, en einkum Rafn Oddsson. En loks varð sá úrskurður konungs, og erkibiskups í Noregi, að þær jarðir, sem kirkjur ættu allar, skyldu vera undir forræði biskups, og prestum til nota, en þeim, er leikmenn ættu hálfar, eða meira, skyldu þeir halda. Það var um 1291, að kennimenn tóku staði undir sig, og hafa þeir haldið þeim síðan. Eptir þann tíma er að ráða, sem ríki klerka hafi farið vaxandi, og verða þá allar sagnir óljósar, en svo hefur verið í öllum löndum, þar sem kaþólska hefur verið megnust. Þrír biskupar, Þorlákur Þórhallason í Skálholti, Jón Ögmundsson á

Hólum og Guðmundur hinn góði voru kallaðir helgir menn, og var afarmikill átrúnaður hafður á þeim í tíð kaþólskunnar.

Eins og títt var í kaþólsku, voru múnkar og klaustur á Íslandi. 1169 stofnaði Klængur biskup klaustur að þykkvabæ í Álptaveri í Skaptafellssýslu. það var múnkaklaustur. Hinn fyrsti ábóti var þar þorlákur hinn helgi; voru þar margir nafnfrægir ábótar, og voru kallaðir» ábótar í Veri«. Undir klaustur þetta lá mestur hluti Álptavers og Meðallands. Á Helgafelli í Eyrarsveit var annað klaustur. það var stofnað upphaflega í Flatey 1172, en flutt að Helgafelli 1184; undir það klaustur lágu allar þær jarðir, er heyra nú undir Arnarstapa umboð, og enn fleiri. Hið auðugasta klaustur á Íslandi var þó Viðeyjarklaustur; það klaustur stofnuðu þeir bræður Magnús biskup Gizurarson og þorvaldur, faðir Gizurar jarls, ár 1206. þá var hið fjórða klaustur í Skálholtsbiskupsdæmi, Skriðuklaustur, stofnað *1493*. Í Hólastipti var múnkaklaustur á þingeyrum; það var stofnað 1135. Annað klaustur var að þverá í Eyjafirði, er síðar var kallað Múnkaþverá; það stofnaði Björn Hólabiskup 1154. Hið þriðja var á Möðruvöllum í Hörgárdal; var það stofnað 1295. Nunnuklaustur voru sitt í hvoru biskupsdæmi, annað að Kirkjubæ; það stofnaði þorlákur hinn helgi, Skálholtsbiskup, 1185; hitt var að Reynistað í Skagafirði; það var stofnað af Jörundi Hólabiskupi 1295.

Múnkarnir í klaustrum þessum rituðu upp margar fornsögur, og eigum vjer þeim því það mest að þakka, að ýmsar sögur vorar hafa ekki glatast. Einkum voru það múnkar í þingeyraklaustri, er að þessu unnu; jarðrækt var og í þá tíð hvað helzt stunduð í klaustrunum.

## 9. Frá því er siðabótin hófst.

Á dögum Kristjáns konungs hins þriðja komst siðabótin á í Danmörku. Konungur vildi einnig koma siðabótinni á á Íslandi; sendi hann því kirkjuordinanzíu sína hingað, ár 1539. þá var Ögmundur Pálsson biskup í Skálholti; var hann mótfallinu hinum nýja sið, og varaði presta við honum. Hirðstjóri var þá Kláus Mervitz, og umboðsmaður hans Diðrik af Mynden. Honum var kunnugt, að í Danmörku voru klaustur tekin undir krúnuna, og vildi því gjöra hjer hið sama. Tók hann sig því upp frá Bessastöðum, og kom í Viðey á Hvítasunnumorgun. Alexíus ábóti var þá eigi heima, en það, er heima var af fólki, börðu þeir Diðrik og ráku burt, en ræntu öllu því er fjemætt var. Fyrir tiltektir þessar lýsti Ögmundur biskup þá Diðrik og Mervitz í banni. Síðar um sumarið fór Diðrik austur, og vildi taka

klaustrin að þykkvabæ og Kirkjubæ. Kom hann þá í Skálholt, og átti orðakast við biskup útaf ránunum í Viðey. Jón Hjeðinsson, ráðsmaður í Skálholti, safnaði þá bændum, og drap Diðrik þar, og þá 9 menn, er með honum voru. Mervitz kenndi Ögmundi biskupi víg þessi, og kærði hann fyrir konungi. Ár 1541 kom Kristófer Hvítfeld hingað til lands á tveimur herskipum; hafði hann fullkomið umboð af konungi. Þá var Ögmundur blindur orðinn, og búinn að láta af biskupsembætti, en Gizur Einarsson var vígður til biskups ári áður. Gizur hafði farið utan til þýzkalands, og kynnst þar siðabótinni, og unni henni mikið. Kristófer fór með flokk manna austur að Hjalla í Ölfusi; þar var þá Ögmundur biskup hjá systur sinni, Áldísi; tók hann Ögmund, og flutti suður á herskip sitt annað. Lofaði hann þó biskupi lausn, ef hann ljeti af hendi silfur sitt allt og jarðir allar, en það var stórfje. Biskup gekk að þeim kostum, en þá heimtaði Kristófer af Aldísi allt það kvennsilfur, er hún átti. En þó hún ljeti það af hendi, ljet hann ekki biskup lausan að heldur, heldur flutti hann til Danmerkur, og ljezt Ögmundur biskup þar, hálfu öðru ári síðar, í Sóreyjarklaustri. Var það af ótta fyrir Hvítfeld, og fyrir fortölur og fylgi Gizurar, að kirkjuordínanzían var undirskrifuð af klerkum í Skálholtsstipti 1541. Konungur sló nú eign sinni á klerkafje, dýrgripi og peninga Skálholtskirkju, er Hvítfeld hafði haft út; á árunum 1547 og 1552 voru klaustragózin öll tekin undir konung.

Um þessar mundir hafði Jón Arason verið biskup á Hólum yfir 20 vetur; hann var hinn fráhverfasti siðabótinni, og öllum tiltektum Danakonungs, er henni voru samfara. Gaf hann sig í fyrstu lítið að því, er fram fór í Skálholtsstipti, en fór sínu fram, og þó konungur boðaði hann á sinn fund, fór hann hvergi. Gizur biskup andaðist 1548; var þá Marteinn Einarsson kosinn biskup í Skálholti. Tók þá Jón biskup fyrir sig að útrýma hinum nýja sið, og hugði að setja Björn prest á Melstað, son sinn, til biskups í Skálholti, og ráða þaunig landinu öllu. Fór hann því heiman með hundrað manna 1549, og reið í Skálholt. Þá var Jón prestur Bjarnason ráðsmaður í Skálholti; hann fekk njósn af ferðum biskups, og safnaði hann 300 manna. Jón biskup nam staðar, er hann kom að staðartúninu, og sendi heim með þann boðskap, að þeir væru allir í banni, nema þeir vildu gefa upp staðinn, og hafa það, er hann vildi áleggja. En er þeir Jón prestur heyrðu þennan boðskap, urðu þeir æfir, og bjuggust til að verja staðinn. Sat Jón biskup um Skálholtsstað í 5 daga, en varð frá að hverfa, og reið norður við svo búið. Marteinn biskup var eigi heima, er þetta gjörðist; sendi Jón Ara

son sinn að sækja hann; var hann tekinn á Staðastað, og fluttur til Hóla, og hafður þar í haldi.

Árið eptir, 1550, gjörði Jón biskup enn heimreið í Skálholt; hafði hann þá með sjer Martein biskup. En er hann kemur að Skálholti, sendir hann brjef heim, og það með, að hann muni heim ríða, og láta Martein biskup vera fremstan, og mæta skotum, ef þeir vildu verjast. Jón bryti Bjarnason vildi verjast, en Marteinn biskup bauð honum þá að gefa upp staðinn. Fór Jón biskup þá heim í Skálholt; og var þar viku með lestrum og söngum, og vígði aptur alla kirkjuna, en gróf upp lík Gizurar biskups, og ljet grafa það utangarðs, fyrir því að hann væri ei kirkjugræfur sem villumaður. Um þessar mundir mælti Jón biskup þetta: »nú hefi jeg undir mjer Ísland allt, nema hálfan annan kotungsson«; mun hann hafa haft í huga Daða Guðmundsson í Snóksdal og Þorleif lögmann Pálsson á Skarði. Þaðan fór Jón í Viðey, og rak þaðan og út á skip Lárus Múla hirðstjóra, og alla danska menn er þar voru, en setti Alexíus ábóta aptur inn í klaustrið. Um þessar mundir kvað Jón biskup vísu þessa:

> Víkur hann sjer í Viðeyjarklaustur
> víða trúi' jeg hann svamli, sá gamli,
> við Dani var hann djarfur og hraustur,
> dreifði hann þeim á flæðarflaustur
> með brauki og bramli.

Konungur hafði skrifað Daða Guðmundssyni, og beðið hann að styrkja Lárus Múla til að handtaka Jón biskup, og hafa í haldi. Þetta spurði Jón, og vildi því verða fyrri til að taka Daða; fór hann því enn að heiman um Mikaelsmessu, 1550, við 90 manna, en bauð Borgfirðingum að koma til móts við sig. Daði hafði safnað 80 mönnum, hraustum og vel búnum, í Snóksdal. Daði átti bú að Sauðafelli; þar settist Jón biskup, og hafði 90 Norðlinga og 30 Borgfirðinga. 2. dag Oktobermánaðar reið Daði með flokk sinn að Sauðafelli. Þoka var á um daginn, svo lítt sá til ferða hans; enda ljet hann menn sína tvímenna, svo flokkur hans sýndist sem minnstur. Daði bauð mörg sæmileg boð, en eigi varð af sættum. En er bardagi hófst, hörfuðu biskupsmenn brátt til kirkju. Biskup og synir hans og nokkrir menn aðrir komust í kirkjuna, og bjuggust þar um. Rufu þeir Daði þá kirkjuna yfir altarinu og tóku þá feðga. Voru þeir 20 daga í haldi hjá Daða í Snóksdal, en hann ljet sækja Kristján skrifara er þá var umboðsmaður Lárusar Múla. Rjeðu þeir Daði það af, að flytja þá feðga í Skálholt. En er þeir komu þar, tóku menn aptur að þinga um, hvað við þá skyldi gjöra; þótti

mörgum ráð að geyma þá til alþingis, en öllum þótti vandhæfi á að gæta þeirra. Mælti þá Jón prestur Bjarnason einhverju sinni: »eg em fávísastur yðar allra, og þó kann jeg ráð til að geyma þá: öxin og jörðin geymir þá bezt«. Á þetta fjellust þeir Marteinn og Kristján þegar, en Daði og Jón sýslumaður voru lengi tregir. Þá er Jón biskup var í varðhaldi, kvað hann vísu þessa:

> Vondslega hefur oss veröldin blekkt
> vjelað og tælt oss heldur frekt
> ef jeg skal dæmdur af danskri slekt
> og deyja svo fyrir kóngsins mekt.

Þeir feðgar voru látnir sinn í hvert hús, og sinn prestur fenginn hverjum þeirra til að vera hjá þeim í 3 nætur, áður þeir væru teknir af. 7. dag Novembermánaðar voru þeir feðgar hálshöggnir í Skálholti; var Ari höggvinn fyrst, og varð hann vel við dauða sínum; þá var Björn prestur höggvinn, og bar hann sig miður. Biskupi buðu þeir líf, en hann vildi eigi þiggja, er synir hans voru af teknir, en hann mátti eigi hefna. Var biskup þá höggvinn, og fór það ódrengilega.

En er Norðlendingar spurðu þessi tíðindi, undu þeir þeim illa, og drápu um veturinn Kristján skrifara, og ýmsa Dani aðra, er þeir máttu til ná. Um vorið eptir komu Norðlendingar með kistur að norðan, og sóttu lík þeirra feðga, og fluttu þau norður að Hólum; voru þau sett þar niður með mörgum sálumessum og harmi miklum.

Ár 1551 sendi konungur 2 herskip til Íslands, og 2 höfuðsmenn á: Axel Júl og Kristófer; áttu þeir að sækja Jón biskup og syni hans. Þeir settu Ólaf Hjaltason biskup á Hólum, en Marteinn settist aptur í Skálholt. Fylgdu þeir biskuparnir fram siðabótinni, og komst hún á að nafninu í Hólastipti 1551. Margt höfðu þeir höfuðsmennirnir út með sjer af fje og gersemum Hólakirkju, en eignir þeirra feðga allar voru teknar undir konung, en þær voru ærið miklar. Þeir bræður áttu 73 jarðir. Ár 1554 voru þeir Marteinn biskup og Jón prestur boðaðir út sökum aftekningar þeirra feðga, en einkis sjerlegs er getið um ferð þeirra. 1566 var Marteinn biskup leystur frá stólnum, fyrir þá sök, að hann mótmælti, að jarðir og fje kirkjunnar væri frá henni tekið. Var þá settur biskup í Skálholti Gísli prestur Jónsson í Selárdal, og hafði biskupstíundir að eins af tveimur sýslum, en tíundir af tveimur voru lagðar skólanum í Skálholti, er var stofnaður 1553. Skóli var og stofnaður á Hólum 1552 af Ólafi biskupi.

Þannig var siðabótin innleidd með kappi af hálfu konúngs, en kirkjur og klaustur svipt eignum. Varð hún fyrir það óvin-

sæl fyrst um sinn, en landsbúum þótti mikið um tiltektir konungsmanna. Varð þó svo að standa, en í mörgu eymdi lengi eptir af kaþólskum háttum og hjegiljum.

## 10. Frá stjórn og hag landsins til loka 17. aldar.

Frá því er siðabótin hófst, tók most að aukast konungsvaldið í landinu, og höfðu landsbúar eigi þrek til að hrinda því af sjer, þó eigi skorti þá viljann. 1563 varð sú breyting á dómsvaldi lögmanna, að yfirrjettur var skipaður; sátu í honum ljensmaður konungs, og 24 menn aðrir. Rjettur þessi átti vald á, að breyta dómum lögmanna. Mæltu Islendingar lengi móti honum, og komst hann fyrst á ár 1593.

Ár 1660 gjörðist Friðrik konungur hinn þriðji einvaldur yfir Danmörk og Noregi. 1662 átti ljensmaðurinn Hinrik Bjelke að taka arfhyllingareið af Íslendingum, en kom eigi til alþingis; var eiðurinn því eigi svarinn. Litlu síðar safnaði Bjelke lögmönnum og lögrjettumönnum saman í Kópavogi. Var Friðriki konungi svarinn þar trúnaðareiður, og öllum afkomendum hans í karllegg og kvennlegg. Þó báðu Islendingar þarhjá konung, að halda mætti landslögum sínum fornum, og kváðust vænta þess. Ár 1683 var landfógeti settur hjer fyrst, og ári síðar »Stiftsbefalings-maður«, en Amtmaður ár 1688. Landfógeti átti að hafa umsjón á reikningum landsins; hafði hann umboð yfir konungsjörðum og fiskiveiðum konungs. Amtmaður átti að hafa umsjón um lög og rjett, og það í stjórn landsins, er eigi heyrði undir landfógeta. Stiftsbefalingsmaður átti að sjá um stjórn landsins alla, og einkum andleg mál. Að öðru leyti var stjórn og löggjöf á líkan hátt og verið hafði. Lögmenn voru enn kosnir af alþingi; Lauritz Gottrúp var hinn fyrsti lögmaður, er konungur skipaði, án þess alþing nefndi hann, 1695, og þótti það nýlunda. Lög voru Jónsbók og fornar rjettarbætur, og fáar skipanir Danakonunga. Var mikið vald lögmanna og lögrjettunnar, og eldi enn eptir af fornu atferli, og voru margir allgóðir lagamenn. Klerkar voru um þessar mundir fáfróðir margir, allt fram á daga Brynjólfs biskups, en hann vandaði um lærdóm þeirra.

Alþýða manna var mjög fáfróð, líkt og á fyrri öld, og atburðalítil til að betra atvinnu sína. Flestir menn voru þá ólesandi, og öll þekking lítil, nema það, er lært var bóklaust; kunnu þó margir rím og ættartölur, og námu utanbókar. Manndómur var þá lítill, og fór ei landinu fram, þó árgott væri með köflum, enda var verzlanin jafnan ill, og landskuldir háar. Nálega allir voru þá undirlagðir hjátrú og teiknatrú; trúðu jafnvel höfðingjar

og lærðir menn göldrum, og var eigi trútt um, að þeir væru sjálfir grunaðir um slíkt á stundum. Alþýðumenn margir fengust við slík hindurvitni, og voru margir brenndir fyrir galdur, einkum um miðbik 17. aldar.

Mjög var árferði misjafnt á þessu tímabili. 1601 gjörði vetur mjög harðan; var hann kallaður *Lurkur*; veturinn eptir var enn harður, og kallaður *Píningsvetur*; en árið 1604 var kallað *Eymdarár*. Þá voru eldar uppi að öðru hvoru, og jarðskjálftar eigi sjaldan. Hin fyrstu ár 17. aldarinnar fjellu um 9000 manna af harðæri. Hinn síðara hluta aldarinnar gjörði mörg ár hörð, og fjellu enn margir af harðæri.

Margir dugandi menn voru uppi á Íslandi á þessu tímabili. Af veraldlegrar stjettar mönnum voru, meðal annara, lögmaður *Arni Oddsson*, þeir Ögurfeðgar *Magnús* og *Ari*; *Þorsteinn Magnússon*, er hjelt þykkvabæjar klaustur, hinn lögvitrasti maður; *Gísli* sýslumaður *Magnússon* á Hlíðarenda, og þeir frændur fleiri voru og ágætir menn. En umfram flesta menn á þeim tímum voru þeir biskuparnir *Guðbrandur Þorláksson* á Hólum († 1627) og *Brynjólfur Sveinsson* í Skálholti. Guðbrandur var í flestu hinn mesti skörungur og nytsemdarmaður; einkum bætti hann mjög trúarlíf og siðgæði alþýðu með hinum mörgu bókum, er hann ljet prenta. Hjelt hann með mikilli framkvæmd fram prentverki því, er Jón Arason hafði áður komið á stofn hjer á landi. Hann ljet fyrst prenta íslenzka ritninugu 1575. Hann hefur lengst verið biskup á Íslandi, í 56 ár. Brynjólfur biskup Sveinsson var biskup í Skálholti frá 1639 til 1674; hann var hinn lærðasti maður á þeim tímum, og unni mjög vísindum, og efldi þau á allan hátt. Tók hann marga fátæka menn, og menntaði þá. Hann bætti og á margan hátt það, er kennidóm viðkom, og var vandlætingasamur við klerka. Hann var fornmannslegur í mörgu, hinn mesti búsýslumaður og auðmaður. Eptir hann tók biskupsdóm í Skálholti *Þórður Þorláksson*, og var hann biskup þangað til ár 1697; hann var lærður vel. Þá gjörðist biskup *Jón Þorkelsson Vídalín*, ræðuskörungurinn mikli; hann var lærður vel, og látínuskáld eitt hið bezta, og skörungur í allri stjórn. Eptir hann eru prjedikanir og fleiri rit og bækur. Hann var fæddur í Görðum á Álptanesi, 21. Marts 1666, en deyði 30. August 1720 í tjaldi hjá sæluhúsi við Hallbjarnarvörður. Fyrri hluta 17. aldar var og uppi *Hallgrímur Pjetursson*, hið nafnfræga sálmaskáld, er aldrei mun fyrnast landsbúum. Hann var fæddur 1614, var prestur fyrst að Hvalsnesi, og síðar að Saurbæ og dó á Ferstiklu 27. October 1674; hafði hann þá legið um 10 ár í líkþrá.

## 11. Frá 18. Öldinni.

Á 18. öldinni fór landstjórn enn misjafnlega fram. Hinir 6 Stiptamtmenn, er voru öndverðlega á öldinni, stigu hjer aldrei fæti sínum á land, nema Pjetur nokkur Raben að eins um 6 vikur, og má nærri geta að stjórn sú hafi ekki verið notasæl. Ár 1770 var landinu skipt í 2 ömt eða umdæmi, og 1787 var Vesturumdæmið enn skilið frá Suðurumdæminu; varð fyrir þá ráðstöfun innanlandsstjórnin í mörgu notasælli og hagkvæmari alþýðu. Lög voru enn hin sömu og áður, en nú fjölguðu óðum tilskipanir Danakonunga. Alþing var að vísu enn við lýði, og til loka þessarar aldar, og þó naumast annað en nafnið eitt, fámennt og gagnslítið, og fekkst mest við dóma. Á öld þessari voru opt deilur miklar og flokkadrættir meðal höfðingja. Er það vottur þess, að svo harðar skærur gjörðust með þeim Oddi Sigurðarsyni og meistara Jóni Vídalín, að biskup varð að flýja um nótt. Þröngdu yfirmenn stjórninni með ofurkappi og deilum að bæta úr óskipan, og taka nær af alla lenzku, er hjer var áður. Fæstir hinir æðri veraldlegir embættismenn stýrðu nú sjálfir embættum sínum, heldur umboðsmenn í þeirra stað, og voru þeir fæstir til nytsemda. Sýsluembætti voru opt seld fánýtum mönnum, enda voru sýslumenn miður metnir en fyrrum, en umboðsmenn hinna æðri embættismanna og kaupmenn rjeðu nálega öllu, og var opt ótrúleg og ljót aðferð þeirra við landsbúa. Meðal annara umbóta í stjórn og löggjöf var þó sú, að nú voru brennur afteknar, og linað í meinamálum öllum og dauðasökum.

Með hinum helztu stofnunum landinu til nota á þessari öld má telja stofnun landlæknisembættis og lyfjabúðar 1760. Hinn fyrsti landlæknir á Íslandi var hinn góðkunni *Bjarni Pálsson* († 1779). Ár 1766 voru fjórðungslæknar fyrst settir, og undir lok aldarinnar urðu hjeraðslæknar 4 alls. Hin önnur prentsmiðja var sett í Hrappsey 1773. Af nefndum þeim, er skipaðar voru til að bæta hag landsins, var sú helzt, er skipuð var 1702. Í henni voru þeir prófessor *Arni Magnússon* († 1730) og Vicelögmaður *Páll Jónsson Vídalín* († 1727); áttu þeir að athuga allt ástand landsins, og semja nýja jarðabók. Fóru þeir um mikinn hluta landsins, og sömdu að mestu nýja jarðabók. Forn rit öll og skjöl, er þeir gátu hönd á fest, fluttu þeir til Kaupmannahafnar; var það án efa í þeim tilgangi að varðveita þau frá eyðingu og glötun hjer, en mikið af þeim brann í Kaupmannahöfn 1728. Gaf Árni háskólanum í Kaupmannahöfn bókasafn allt það, er hann átti af fornfræðum og fornsögum, og 10 þúsundir dala til styrktar þeim, er stunduðu fornfræði. Eptir þann tíma var tekið að prenta margar Íslendingasögur, og þær konungasögur, er íslenzkir

menn höfðu ritað, og hafa sögur þessar eigi minnst stutt að því, að aðrar þjóðir hafa gefið gaum landi voru. Af fjelögum þeim, er stofnuð voru á þessu tímabili, má einkum nefna »Hið konunglega íslenzka Lærdómslista fjelag«. Var það stofnað af *Ólafi Ólafssyni* (prófessor í Noregi og mági Benedikts Gröndals) og stúdentum í Kaupmannahöfn ár 1779; en *Jón Eiríksson* var forstöðumaður þess, uuz hann dó, 1787. Fjelag þetta gaf út 15 bindi af ritum, er í mörgum greinum eru mjög fróðleg.

Margir aðkvæðamenn voru uppi á öld þessari, bæði af embættismönnum og vísindamönnum. Hinn fyrsti stiptamtmaður var Kristján Úlrik Gyldenlöve, sonur Kristjáns konungs fimta, en hann kom hjer aldrei. Hinn síðasti stiptamtmaður á öld þessari var *Ólafur Stefánsson*; hann varð stiptamtmaður 1790, og var í mörgu höfðingi og búsýslumaður, og vildi efla búnað í landinu og velmegan. Af biskupum má einkum nefna *Jón Þorkelsson Vídalín*, *Jón Arason* († 1796), *Finn Jónsson* († 1789) og *Hannes Finnsson* († 1796). Af lögmönnum *Pál Jónsson Vídalín*, *Magnús Gíslason* († 1766) og *Eggert Ólafsson*. Hann var skáld og fræðimaður, og unni ættjörð siuni, og var einn hinn fyrsti, er vakti athygli landsbúa á íslenzkri tungu og þjóðerni; hann druknaði á Breiðafirði með konu sinni og 6 börnum 30. Mai 1768.

Vísindi og menntan tóku á öld þessari litlum framförum. Skólar voru tveir, eins og fyr, framan af öldinni, en kennarar fáir og illa launaðir. Voru skólar opt eigi haldnir nema part úr vetrum. 1785 var Skálholtsskóli fluttur til Reykjavíkur, og 1801 bauð konungur að flytja skólann og stólinn á Hólum einnig þangað, og varð þar þá einn skóli og einn biskupsstóll fyrir landið allt.

Alþýðu var háttað líkt og fyr, og höfðu flestir ímugust á breytingum, en voru fastir við fornar venjur. Óhóf fór þó vaxandi á þessari öld, og var þá fyrst drukkið hjer kaffe og hin dýrari vín. Stjórnin reyndi á ýmsan hátt að betra atvinnu og velmegan í landinu; var t. a. m. stofnuð klæðaverksmiðja í Reykjavík, og saltverk á Reykjanesi vestur, en flestar stofnanir í þá tíð höfðu þann galla, að þær voru kallaðar *eign konungs*; leiddi það landsbúa til að hafa þær sjer til fjár; og við það eyddust þær. Varð þá nokkur umbót á sumum verkshætti: var nú fyrst möluð kornvara hjer á landi; gaf konungur 200 kvarnir, og hjet verðlaunum fyrir tilbúning þeirra. Ullar-vinna tók og framförum; var þá fyrst farið að hafa hina d ö n s k u rokka og vefstóla, er svo voru kallaðir. Net voru þá fyrst höfð til fiskiveiða, og saltfiskur verkaður. Lög voru gefin um jarðabætur, og heitið verðlaunum, en litlu munaði þó áfram í þá átt.

Hagur landsbúa var optar erfiður á þessari öld; stóð og verzlanin fyrir öllum þrifum, hvernig sem í ári ljet. Kaupskaparverzlanin, er staðið hafði frá 1602, landsbúum til hins mesta ógagns, leið undir lok 1706. Frá þeim tíma, til 1733, var verzlanin seld ýmsum kaupmannahúsum, helzt í Kaupmannahöfn, fyrir yfir 20,000 Rdla. árlegt afgjald. Þá tóku hörmangarar í Kaupmannahöfn verzlanina á leigu frá 1743—1759, og guldu eptir 16000 krónur. Þessi verzlan var landsbúum ein hin óhagfelldasta; er talið, að fyrir kúgun hennar og hirðuleysi hafi fallið um 8 þúsundir landsbúa af harðrjetti. Frá 1759 til 1763 eignaði konungur sjer verzlan alla, en frá 1764 til 1774 hafði hið svonefnda almenna verzlunarfjelag einkaleyfi að verzla hjer, og galt fyrir 7000 Rdli. á ári. Fjelag þetta sendi hingað spillt mjöl, og var fyrir það sektað um fje það, er kallaðist mjölbótar peningar, og var að upphæð 4400 Rdlr. Átti þá konungur verzlan alla fram á árið 1786, en þá hófst hin svokallaða frjálsa verzlan; var hún fólgin í því, að þá mátti hver danskur kaupmaður sem vildi, verzla við Ísland, og þótti þá lítið batna í um sinn. Ár voru þá opt hörð, þó varð mest tjón af eldgosum, er jafnan voru við og við á öld þessari. Eldur var uppi í Grímsvötnum 1716, og ári síðar í Austurjöklum; í Kötlu 1721, og Kröflu 1724, og ávallt til 1730. Þá gaus Katla 1755, og varð mikið tjón af. Fjársýkin mikla, kláðinn, brauzt út 1761, og eyddi meiri hluta af sauðfje landsins, þangað til sýkinni var eytt með niðurskurði frá 1772 til 1779. Hið mesta tjón gjörði þó hið mikla eldgos úr Skaptárjökli, er hófst 1783; varð þá hið mesta harðæri og fall á mönnum og fjenaði. Ár 1707 geysaði stórabóla; fjellu í henni 18 þúsundir, og hið bezta mannval, og enn fjellu á öld þessari yfir 20 þúsundir af hallærum, stórsóttum og slysförum.

Á ýmsan hátt reyndu Danakonungar nú til að ráða bót á erfiðleikum landsbúa. Ár 1756 gaf Friðrik konungur 5. 3000 tunnur matvöru til útbýtingar og Kristjan 7. gaf fleiri en einn skipsfarm af matvælum og timbri 1785, og bætti með ýmsu móti úr bágindum landsbúa. Þá skutu og Danir, Norðmenn og Holsetar saman gjafafje, yfir 40 þúsundum; eru það hinir svonefndu Kollektupeningar. Friðrik konungur 5. gaf einnig stórfje til ymsra stofnana í landinu.

## 12. Frá fyrra hluta 19. aldar.

Um aldamótin síðustu varð allmikil breyting á stjórnarháttum Íslands. Eins og áður var frá sagt, voru biskupsstólarnir og skólarnir á Hólum og Skálholti lagðir saman og fluttir til *Reykjavíkur*, er þá tók óðum að hefjast. Alþingi var lagt

niðnr, en í þess stað settur *yfirdómur* í Reykjavík. Háyfirdómari í honum var *Magnús Stephensen*, sonur stiptamtmanns Ólafs. Magnús var vel að sjer, og framgjarn, og hinn aðkvæðamesti maður á öndverðri öld þessari; var það fyrirætlan hans að mennta landa sína, samkvæmt þeim hugmyndum, er þá tíðkuðust í Norðurálfunni; tóku menn þessu misjafnlega, en allmikið varð honum ágengt. Hann hjelt yfir 29 ár úti tímariti, er hann kallaði »Klausturpóst«; var það hið fyrsta tímarit, er kom út að staðaldri hjer á landi. Tunga og bókfræði Íslands tók nú að taka framförum. Ár 1816 stofnuðu þeir *Rask*, málfræðingur í Kaupmannahöfn, *Finnur Magnússon*, síðar prófessor, *Bjarni Thorsteinson*, síðar amtmaður og konferenzráð, og *Arni Helgason*, síðar stiptprófastur og biskup að nafnbót »*Hið íslenzka bókmenntafjelag*;« hefur það síðan gefið út margar merkilegar bækur. Að smekkvísi og tilfinningu fyrir þjóðerni unnu þeir skáldin *Jónas Hallgrímsson* og *Bjarni Thorarensen* og fleiri. Tímarit og frjettablöð hafa nú náð föstum fótum, og 2 prentsmiðjur eru settar í landinu.

Í byrjun aldar þessarar var árferði hart og siglingar litlar hingað út; olli því *Napoleons* styrjöldin mikla, og lágu enskir víkingar í höfunum. Á einu af víkingaskipum þeirra, sem hjer að landi komu, var maður nokkur danskur, er Jörgensen hjet. Fór hann til Reykjavíkur með nokkrum mönnum enskum, vorið 1809, afsetti þar embættismenn þá, er ekki vildu gjörast hans menn, og hlýða boðum hans, braut upp tukthúsið, er þar var, og gjörði tukthúslimina að lífvörðum sínum, en nefndi sjálfan sig *verndara Islands*. Reið hann þvínæst norður í land við fjórða mann, og nenuti þá þvínær enginn ímóti hans vilja að standa. En þetta ríki Jörgensens stóð eigi all lengi, því hið sama sumar kom hjer annað herskip enskt, og gjörði enda á athæfi hans.

Um 1830 voru þing stofnuð í Danmörku, þar sem fulltrúar þjóðarinnar komu saman til að gefa konungi ráð um stjórn landsins og lagaskipun, og bera bænir þjóðarinnar fram fyrir hann. Um sama leyti fóru og nokkrir Íslendingar, *Baldvin Einarsson*, *Tómas Sæmundsson* og *Jón Sigurðsson* að gefa út rit, þar sem tekið var fram, hve æskilegt væri, að Íslendingar hefðu eitt þesskonar þing, og varð mönnum smámsaman ljósara, hve æskilegt það væri. Hinn ágæti konungur, *Kristján hinn áttundi*, endurnýjaði því hið forna alþingi Íslendinga ár 1843, og kom það fyrst saman í Reykjavík ár 1845, og skyldi hafa ráðgefandi atkvæði. Með lagaboði 5. Janúar 1874 hefir alþing fengið löggjafarvald. Á yfirstjórn landsins er og sú breyting orðin, að Landshöfðingi er nú skipaður yfir landið, og einn amtmaður settur í Suður- og Vestur-amtinu. Póstmálum, sveitastjórn og

hjeraðsstjórn er einnig skipað með nýjum lögum, og eru þau frjálslegri.

Menntan almennings í bóklegum fræðum er nú miklu meiri en á hinum fyrri öldum; þarámóti hefur kunnátta í öllum verknaði enn tekið litlum framförum, og þau vísindi, sem mest hafa eflt framfarir þjóðanna á þessari öld, svo sem þekking náttúrukraptanna, notkun þeirra, og pólitisk hagfræði mega enn heita ókunn; aptur hefur að mörgu leyti vaknað löngun og hugur til að taka sjer fram.

---

Vjer höfum þá yfirfarið ágrip af lýsingu ættjarðar vorrar og sögu hennar, þó með færri orðum sje, en vjer vildum kosið hafa, eins og flest er í bók þessari. Enginn fróðleikur er skemmtilegri og nytsamari en saga ættjarðarinnar. Hún skýrir frá uppruna og æfikjörum feðra vorra og mæðra, og hver þjóð kemst þá fyrst verulega til afvitundar um sjálfa sig, er hún hefur lesið sögu sína. Uppörfun og aðvörun blasir þar við á hverju blaði. Þegar feður vorir og mæður þekktu sinn vitjunartíma, þegar þeir gáfu sig sjálfviljugir undir guðs menntandi handleiðslu, og gættu skyldna sinna við guð, sjálfa sig og ættjörð sína, þá brást eigi friður og farsæld, en er þeir lifðu sjálfráðu og spilltu lífi, og gengu á vegum sjálfra sín, þá tók eymd og ógæfa að geysa yfir. Hin bezta tilhögun og hinar beztu stofnanir geta eigi til lengdar veitt starfsama hjálp í þessu; þeirra ákvörðun er að vinna að því, að hver geti tálmunarlaust tekið sjer fram. Engin löggjöf getur gjört hinn lata starfsaman, hinn eyðslusama sparsaman, og ofdrykkjumanninn hófsaman. Þetta getur aðeins orðið fyrir krapt þann, sem býr í hverjum einum; það ávinnst með góðum vana, fremur en með tómum lagaboðum.

Stjórn landanna er optast spegill þeirra einstaklinga, sem mynda þjóðina. Sú stjórn, sem er á undan þjóðinni, hverfur aptur; sú, sem er á eptir, verður að þokast fram. Eptir eðli náttúrunnar fara lögin og stjórnin eptir lífi þjóðanna, eins og yfirborð vatnsins heldur sjer lárjettu. Heiðarlegum landslýð er stjórnað heiðarlega, fáráðum og spilltum óheiðarlega. Tign og styrkur ríkisins er minna komið undir skipaninni, en lífi hinna einstöku; því þjóðin myndast af mönnuuum, og menntanin er komin undir framförum karla þeirra og kvenna, sem mynda mannfjelagið. Sönn ættjarðarást og mannást kemur því eigi svo mjög fram í því, að breyta fornum lögum, sem í hinu, að styrkja hina einstöku til að taka sjer fram með frjálsri starfsemi. Framför þjóðanna er ávöxtur af ástundun, þreki og ráðvendni einstakra manna, einsog ógæfa þeirra kemur af atorkuleysi, eigingirni og löstum hinna einstöku.

það varðar þessvegna miklu minna, hvernig oss er stjórnað af öðrum, en hitt, hvernig vjer stjórnum oss sjálfir. það er hinn bezti kostur hinnar frjálsu stjórnar, að hún venur hinn einstaka á, að hugsa og breyta sjálfur. Sá er eigi mestur þræll, sem hefur harðstjórn yfir sjer, heldur hinn, sem er í ánauð fávizkunnar, spillingarinnar og lastanna; úr þessari ánauð getur engin stjórnarskipan leyst. Hyrningarsteinn frelsisins er skaplyndi hins einstaka; það er harðstjórn, sem raskar skilningareðli hins einstaka. það eru framúrskarandi menn af öllum stjettum, sem gjöra þjóðirnar sælar og frægar; þeir eru stríðsmenn hinnar sönnu menntunar; þar sem þeir hafa engir verið, eru þjóðirnar villtar; þar sem þeir hafa fáir verið, eru þær umkomulitlar. Hver maður og hver kynslóð byrjar að vísu nýtt líf, en tekur jafnframt við arfi frá hinum liðnu kynslóðum, sem hún á að auka og ávaxta fyrir hinar ókomnu. þetta er hinn alvarlegi sannleiki, sem vjer ekki megum gleyma. Stundum með sönnum vísdómi og siðgæðum að vinna að því, að þeir, sem eptir oss koma, verði sælli en þeir, sem á undan oss hafa verið. Allir geta tekið og allir eiga að taka þátt í þessu mikla verki. Eptir bendingum guðs orða hefur líf vort einnig áhrif á þá, sem hjeðan eru farnir, og vjer eigum allir að birtast fyrir dómi guðs, þar sem það verður leitt í ljós, hvort vjer höfum gefið oss á vald guðs menntandi og og frelsandi náðar, eða varpað henni frá oss.

## Bóndalíf.

(Brot úr Búnaðarbálki E. Ó.)

Ótal leit jeg sem lystir saddi,
ljóðað það ei nje talað fæ,
þá morgunroðinn geðið gladdi,
gyllti fjöll, engjar, tún og bæ,
jeg fór að reisa bygð og bú;
blessaðist allt, sem gjörði eg nú.

- - - - -

Sólin brauzt fram úr frænu skýi,
fegurð veraldar lýstist öll;
allt var á beztum blóma stigi,
blikaði gras um rakan völl,
náttdaggar knappa silfri sett,
smaragðar voru í hverjum blett.

þá geislum skaut úr gluggum hifna,
gnataði hrygð og sást ei par,
ásján jarðar nam endurlifna,
öll náttúran sem blómstur var,
opnuð snerist við sólarljós
sýndi vellukt og hunangs ós.

---

Meinlausir þankar ganginn greiddu,
gjörðu þeir stutta villuleið,
þangað á götuleysi leiddu,
lukkan hvar fyrir sat og beið
að skipun Guðs í grænum dal;
gengur það fram sem verða skal.

Opnaðist land til fjalla frammi,
fæturnir uppað gengu bratt;
bólstað leit jeg í breiðum hvammi,
byggilegan, og það var satt!
huginn mjer sagði: hjer er nú
hamingju vænt að reisa bú.

Hvað sem land prýða kallast kunni
komið var hjer í eina sveit:
hálitað blóm í hverjum runni,
heilylmuð grös og jörðin feit,
hólar, vellir, ávöxtuð lyng,
vötnin og fuglar allt um kring.

þeir sungu hver í sínum nótum,
svo þar var lyst að hlýða til,
saklausum ásta saddir hótum
svo gekk þeim skepnum allt í vil;
makar samfara firrtir pín,
flöktuðu kringum hreiðrin sín.

þeir prísa Guð, sem gaf þeim fæðu,
gjörvöllum hópnum sagðist vel;
sífelt höfðu þeir sömu ræðu,
sýndi þar tungan hjartans þel.
O! þau fallegu fjaðradýr!
farsæld og unan hjá þeim býr.

Í vatni fiska sá jeg sveima
sinnisljetta með sporðaköst,
þar áin fór til óss að streyma
af þeirra busli gjörði röst,
yfirhöfn sumra svo var glæst
silfri eða gulli komst hún næst.

---

Vænt er að kunna vel að búa,
vel að fara með herrans gjöf,
hans verkum sjer í hag að snúa,
honum þakka fyrir utan töf,
en sjer og öðrum gjöra gott,
gleðjast og forsmá heimsins spott.

Ó þú blessuð forsælan fríða,
sem frið og lyst og nægðir ber!
vel má jeg í þjer una og bíða
eins og Guð hefir lofað mjer;
hjá þjer er auður ekki par
utan til snöru og þvingunar.

Ó! að búendur finndu og fengju
forsælu þessa á hverjum bæ,
til sinnar vinnu glaðir gengju
Guðs undir blessun traustir æ;
ó! að nytsamlegt ættu bland
alls, sem gefur vort föðurland.

---

Látum oss ei sem gyltur grúfa,
gæta þær aldrei neitt á svig,
akarn við rætur eikar stúfa
umhyggjulausar fylla sig;
en uppá trjeð þær ekki sjá,
akarnið hvaðan kemur frá.

Vjer höfum ótal varða vegi,
vjer höfum ótal gæðakyn,
og þá líður af lífsins degi
liggur fyrir oss sælan hin
uppá hæðum, sem aldrei þver,
í Guði, hvaðan komum vjer.

---

# IV. Um lög og rjett og framkvæmd þeirra.

## a. Heimilið. Borgaralegt fjelag.

Börn eru *skyldug að hlýða* foreldrum sínum. Hlýðní þessi innibindur í sjer tvennt. Í fyrsta lagi hafa börn ekki leyfi til að gjöra allt það, sem þeim dettur í hug að gjöra, heldur aðeins það, sem foreldrarnir leyfa, eða það sem þau vita að foreldrarnir mundu leyfa. Siðsöm og góð börn vita optast af sjálfum sjer hvað þeim er leyft og bannað; ef þau eru í efa um það spyrja þau að því. Ósiðuð börn spyrja ekki um það; þau vilja ekki spyrja, til þess að láta eins og þau viti ekki, að þeim sjest yfir, þessvegna fá þau hegningu. Bann og hegning er sett vegna hinna ósiðsömu; hinir siðsömu þurfa ekki að þeir sjeu þannig minntir á að gjöra það, sem rjett er. Þessvegna segir Páll postuli: »lögmálið er ekki ætlað rjettlátum« (1 Tim. 1, 9). Í annan stað bindur hlýðnin það í sjer, að gjöra fúslega allt það, sem foreldrarnir bjóða eða ákvarða. Hver sem er óhlýðinn hlýtur að reyna samleika þessa orðtaks: »sá sem ekki vill heyra, hlýtur að kenna til«. Ungbörn eru beinlínis undir valdi foreldra og fósturforeldra. Þegar þau eru fermd ganga þau sjálf í þann söfnuð, sem þau í skírninni voru tekin í. Hvert samband milli margra manna kalla menn *fjelag* eða *söfnuð*, og hinir einstöku menn eru *limir* eða *meðlimir safnaðarins* eða *fjelagsins*. Allir þeir sem heyra til sömu þjóð eru í slíku fjelagi, og er sá fjelagsskapur *borgara fjelagsskapur*, en fjelagið kallast *þjóðfjelag* eða *ríki*, en hver einstakur kallast *borgari*.

Sjer hver *borgari* er í ákveðinni stjett eða stöðu, er t. a. m. sýslumaður, prestur, bóndi, húsmaður, vinnumaður og svo frv. Í hverri stjett eru yms stig; í andlegu stjettinni t. a. m. biskup, prófastur, prestur.

Slíkur borgaralegur fjelagsskapur er mjög margbrotinn og gjörður af vísdómi miklum. Leið það því á löngu áður menn gætu samið fjelagsskap þenna sem bezt, og enn eru menn ekki á eitt sáttir um það, og er enn mörgu breytt. Aðalreglur þær sem ríkinu eða þjóðfjelaginu eru settar kallast *stjórnarskrá*. Það eru ómetanleg gæði að lifa í slíku fjelagi; leggja menn þessvegna fúslega á sig allt, sem útheimtist til þess að geta notið gæða þessara.

## b. Yfirvöld og undirgefnir.

Allar stjettir, í hverju landi sem er, skiptast í tvo aðalflokka, sem eru: *yfirvöld* og *undirgefnir*. Að skipti hljóti að vera til í hverju ríki, það segir ekki einungis skynsemin og reyns-

lan, heldur einnig Guðs orð. Fyrst kennir skynsemin þetta. Hve opt verða menn ekki ósáttir! Stundum ber það til þess, að óskir þeirra eru ólíkar, stundum það, að álit þeirra er ólíkt á ymsum hlutum og sumir eru illviljaðir og veita hinum betri mótstöðu. Af slíku kemur sundurlyndi, deilur og ófriður. En hver gæti jafnað deiluna, hver gæti bælt hið illa niður, ef engin yfirvöld væru, ef enginn hefði rjett og vald til að segja yfir öðrum? Þar sem engin yfirvöld eru, þar ræður sá mestu, sem mestan hefir máttinn, en þá verður það, að hann brúkar máttinn til að koma fram vilja sínum, hvort sem hann er illur eða góður. Þeir sem beztan hafa viljann, eru ekki heldur einhlítir til þessa, því þá getur vantað þrek til þess, að halda þeim í skefjum, sem trufla friðinn. Stundum mundi þá og skorta þekkingu; því hve mikil hyggindi þarf eigi til þess, að fara rjett með alla? Þessvegna hljóta yfirvöld að vera til, sem hafa bæði vald og vitsmuni. En jafnframt og yfirvöldin hafa þetta vald frá Guði, eru þau undir lögunum og eiga að hlýða þeim.

Hið sama kennir reynslan því næst. Af öllum sögum sjáum vjer, að jafnan voru það einstakir menn, sem rjeðu, en allur þorri manna hlýddi boði þeirra og banni. Á þessum tímum sjáum vjer hið sama. Yfirvöld og undirgefnir eru eigi að eins í þeim ríkjum, þar sem fullkomið skipulag er á þjóðfjelaginu, heldur og meðal hirðingja og villumanna. Dagleg reynsla kennir hið sama. Amtmaðurinn ræður í amtinu, sýslumaðurinn í sýslunni, húsbóndinn á heimilinu, formaðurinn á skipinu.

Loksins kennir heilög ritning þetta. »*Sjer hver maður sje yfirboðnum valdstjettum hlýðinn, því ekki er nein valdstjett til nema frá guði og þær sem til eru, eru skipaðar af Guði; svo að hver sá sem veitir valdstjettinni mótstöðu, hann veitir Guðs tilskipun mótstöðu* (Róm. 13, 1—2). Þessi orð líta að að vísu einkum til hinna stjórnarlegu yfirvalda, en eiga undir eins við öll sambönd. Með þessum orðum er meint, að valdið sje frá Guði, en ekki er þar með sagt, að öll mannleg lög og stjórn sje guðleg, heldur hitt, að það er Guðs vilji og niðurskipun, að yfirvöld og undirgefnir sjeu til. »*Verið undirgefnir Drottins vegna sjer hverju af mönnum tilsettu yfirvaldi, hvort heldur það er konungurinn, sem hinum æðsta, eða það eru landshöfdingjarnir, sem þeim, er af honum eru sendir illgjörðamönnum til refsingar, en lofstírs þeim, sem vel breyta*«. (1 Pjet. 2, 13—14.) Þessi orð gefa til kynna, að valdstjettin er að hinu leytinu mannleg, breytileg og undirorpin gangi sögunnar.

## c. Stjórnin.

Yfirmenn ríkjanna eða þeir, sem mest völd hafa í hverju þjóðfjelagi, eru *stjórnendurnir*. Þeir nefnast ymsum nöfnum. Í flestum ríkjum nefnast þeir konungar. Í sumum hinum stærri ríkjum t. a. m. *Kínlandi*, *Rússlandi* og *Prússlandi* kallast þeir *keisarar*. Í Bandaríkjunum í Vesturálfunni heitir stjórnandinn *ríkisforseti*; í sumum þýzkum löndum kallast þeir *hertogar*, *furstar* og svo frv. Stjórnandinn og þeir þjónar hans, er næstir honum standa, kallast *stjórn*. Ætlunarverk stjórnarinnar er 1) að gefa út lögin og 2) að sjá um að þeim sje hlýtt, eða með öðrum orðum, að sjá um að rjetti sje framfylgt. Lögin eru nú víðast samin af stjórninni og þingunum; valdsmennirnir eiga að gæta þess að þess að þeim sje hlýtt. Embættismennirnir eru stundum nefndir þjónar konungsins, stundum þjónar ríkisins, en þetta er hið sama; því konungurinn er hinn æðsti þjónn ríkisins.

Allir meðlimir hins borgaralega fjelags, að konunginum undanskildum, nefnast *þegnar*; eru þeir konungi skyldir um hlýðni og trúmennsku. Hæfilega auðsveipni ber einnig að sýna öllum embættismönnum bæði vegna konungsins og laganna, er hann semur eptir ósk þjóðarinnar, en embættismennirnir gæta þeirra landzlýðnum til hagsmuna og heilla. Sumum finnst að vísu þungt að hlýða stjórninni, en slíkir menn eru skammsýnir, einráðir eða illgjarnir. Að vísu getur stjórninni sjest yfir eins og öllum mönnum, en hún er engu að síður nauðsynleg, og þegnarnir eiga rjett á að benda á yfirsjónir hennar, og hver maður á rjett á að leita rjettar síns, hver sem það er, sem órjettinn gjörir.

Ef vjer gætum þessara orða Páls postula: »*Valdstjórnin er ekki góðum verkum, heldur vondum til skelfingar. Viljir þú ekki vera hræddur við valdstjórnina, þá gjör það, sem gott er, og munt þú umbun af henni fá, því hún er þjónn Guðs þjer til góðs*«. (Róm. 13, 3. 4.) — ef vjer gætum þessa, þá höfum vjer enga ástæðu til að óttast yfirmennina, það er að skilja: ef vjer sjálfir höfum góða samvizku. Ef yfirmenn beita ofríki eða breyta móti lögunum, má kæra þá, því þeir eiga að hlýða lögunum eins og aðrir.

## d. Lög og rjettur.

Vjer gátum þess hjer að framan, að það væri aðalstarf stjórnarinnar að semja lögin og sjá um að þeim sje hlýtt. Með lögunum er ákveðið, hvað rjett er. Lögin eru regla og mælikvarði viljans, hvernig vjer eigum að vera, hvað vjer eigum að gjöra eða láta ógjört. Menn kynnu að halda, að vjer gætum af

sjálfum oss sjeð hið rjetta og þessvegna þyrftu engin lög að vera til, en slíkt er misskilningur. Að vísu er opt auðvelt að aðgreina rjett frá röngu, en opt er það líka erfitt. Opt ber það til að margir geta ekki orðið á eitt sáttir, stundum geta jafnvel ekki tveir haft sama álit á hinum sama hlut. Hver hefir þá rjett að mæla? Hvers álit á þá að gilda? Allra síst geta þeir, sem þræta, sjálfir skorið úr. Margir menn verða og svo blindaðir, er þeir þeir verða ósáttir, að þeir geta ekki greint rjett frá röngu, sanngirni frá ósanngirni, sannindi frá ósannindum.

Í slíkum tilfellum skera lögin úr, bæði með reglum þeim, sem koma í veg fyrir rangindi og ósátt, og með því að skera úr þrætunni og efla hið rjetta og með því að ákveða hinum þvermóðskufulla hegningu ef þess þarf við. Hjá efasemi og sundurlyndi verður ekki sneitt í samlífi manna, þegar menn t. a. m. rjúfa heit sín og loforð eða efna þau ekki að fullu; þegar menn reyna að brugga vjelar og svo frv. Af sömu rökum þurfa að vera lög um kaup og sölu, um arfa og leigu, um verzlan og siglingar, um tíundir og skatta, um þjófnað og misgjörninga, og svo fr. Menn þeir, sem lagt hafa stund á að kynna sjer til hlítar inntak laganna kallast lögfræðingar.

Af því mundi leiða hina mestu truflan og óumræðilega eymd, ef ekki væru til lög um öll þau tilfelli, sem valdið geta ósátt manna á milli, þau lög, sem dómendur geta dæmt eptir milli manna. Það sem lögin ákveða er engan veginn hugar burður einstakra manna, heldur þvert á móti optast það, sem menn eptir langa rannsókn og íhugan hafa fundið að vera rjettast og rjettvísast. Opt eru lögin ekki annað en lýsing á fornum venjum og viðtektum, á áliti forfeðranna og því, sem þeir hafa orðið sáttir á; því fremur ber að hafa þau í heiðri. Með því lögin ákveða þannig hvað rjett er fyrir alla, þá eru þau hin öruggasta vörn fyrir hina saklausu; þau eru vernd hinna ofsóktu, styrkur hinna veiku og athvarf nauðstaddra. Hver sá, sem lögin áfella ekki og samvizkan ásakar ekki, getur verið rólegur og óttalaus. Heiðnir menn sáu það, að öllum bar að hlýða lögunum.

## e. Um rjettindi.

Það er rjettur hvers manns að gjöra eða láta ógjört það sem hann vill. Þannig er það rjettur daglaunamannsins, að hann má ráða verkum sínum og leigja sig hverjum sem hann vill. Eigandi hvers hlutar sem er, á rjett á, að ráða honum eptir vild sinni, selja hann og gefa. Foreldrar hafa rjett til að refsa óhlýðnum börnum og svo frv.

Slík rjettindi eru mörg; sum þeirra eru *nauðsynleg* og eins

og leiða af ákvörðun mannsins í heiminum; sum eru þörf til þess að ríkið geti eflt og verndað allra farsæld. Dæmi uppá nauðsynleg rjettindi er það, að hver maður á heimting á, að enginn skaði líkama hans eða heilbrigði; dæmi uppá rjettindi þau sem þörf er á, er það að ríkið krefst þess, að hver sá, sem fasteign á, hafi í höndum brjeflega sönnun fyrir því, að hann sje eigandinn. Nauðsynleg rjettindi kallast og *náttúrleg*, en þau rjettindi, sem eru þörf vegna heilla ríkisins, kallast *borgaraleg* rjettindi. Það er ríkisins æðsta takmark, að hin náttúrlegu rjettindin verði borgaraleg.

Vjer höfum þannig náttúrlegan og borgaralegan rjett til þess að heimta af öðrum mönnum, að þeir efni við oss heit sín; en borgaralegan rjett höfum vjer til, að krefjast þess, að þeir stýli loforðin á tiltekinn hátt, með ákveðnum orðum og í viðurvist tiltekinna manna.

Öll rjettindi mannsins nefnast *frelsi*. Frelsið er fólgið í notkun rjettindanna, eða í því, *að hver einn geti óhindraður keppt að því takmarki að fullkomna sjálfan sig og verða sæll og þannig uppfyllt sína köllun í hinu mikla ríki Guðs.*

Það er hin helzta skylda ríkisins, að efla og vernda þetta frelsi sjerhvers borgara, og það verður með því að ríkinu sje rjett og vel stjórnað, það er, að góð lög sjeu samin og eptir þeim gengið með rjettvísi og afli. Í lögunum er sem sje allt inntak frelsisins eða öll rjettindi borgaranna nákvæmlega tekin fram og ákveðin og stjórnin befir gætur á því, að enginn víki frá þessum ákvörðunum.

En til þess að hver einn borgari geti óáreittur notið þessa frelsis, verður hann að sætta sig við það, að lögin í sumum greinum takmarki nautn þessa, því enginn einstakur getur heimtað, að hann sje hinn eini sem nýtur frelsisins; hann hlýtur að láta sjer lynda að aðrir njóta þess líka. Slík takmörkun á frelsi kemur mjög opt fyrir í daglegu lífi, þó menn veiti því litla eptirtekt. Þá er menn, t. a. m. mætast á mjórri götu, verður annar hvor að víkja úr vegi. Þetta er takmörkun á frelsinu, en svo lítil, að lögin geta hennar ekki. Þar á mót getur þetta sannfært oss um, að meiri takmörkun á frelsinu verður að eiga sjer stað. Sjerhver skattur er þannig veruleg takmörkun á frelsi því að ráða eigum sínum; en skattar hljóta að greiðast, að öðrum kosti getur fjelagið ekki staðist. Þegar vjer því gjöldum skatt, þá sleppum vjer nokkru af frelsi voru til þess að geta því óhultar notið hins annars frelsis.

Með því lögin lofa nú hverjum manni að vernda frelsi hans, þá hljóta þau undir eins að leggja þá skyldu á hvern og einn, að hann ekki skerði frelsi annara. Öll rjettindi hins einstaka

leggja öðrum skyldur á herðar. Sá rjettur sem jeg hefi til að ráða yfir eigum mínum gjörir öðrum það að skyldu að rýra þær ekki. Nokkrar af skyldum þessum eru svo áríðandi fyrir velferð almennings, að ríkið átelur og hegnir sjálfkrafa, ef skyldur þessar eru rofnar. Svo er um þjófnað, meinsæri, vjelar, morð og fleiri lesti; öðrum yfirtroðslum hegnir það því að eins að einhver kæri og beiðist hjálpar þess, t. a. m. ef æra einhvers er meidd, ef loforð eru ekki haldin eða menn eru áreittir. Öll þau afbrot, sem ríkið hegnir ótilkvatt, kallast opinber mál eða *sakamál*; hin þar á móti kallast prívatmál eða *einkamál*. Almennt getum vjer sagt, að ákæra af hálfu ríkisins eigi sjer stað í þeim málum, þar sem lögin ákveða opinbera hegningu.

Aðalinntak þess, er vjer nú höfum sagt, er því þetta: enginn getur lifað ánægður og farsæll eða náð sinni jarðnesku ákvörðun, ef hans eðlilegu rjettindi ekki eru tryggð með lögum, en þessi dýrmætu rjettindi getum vjer aðeins öðlast í borgaralegu fjelagi eða skipulegu ríki.

Öll rjettindi má greina í 2 meginflokka 1) *hin upprunalegu* eða þau, sem bera manninum beinlínis af því hann er settur af Guði í heiminn með þeim eiginlegleikum og þeirri ákvörðun sem hann hefir, og 2) *hin áunnu* rjettindi, eða þau, sem hann öðlast með því að komast í samband við aðra.

### f. upprunaleg rjettindi.

Til þeirra rjettinda, sem beinlínis bera hverjum manni, af því hann er maður, heyrir fyrst og fremst rjettur hans til að halda óskertu lífi og heilsu. Þessvegna ákveða lögin, að þeir sem skaða líf eða heilsu annara, skuli sæta refsingu, fjárútlátum, varðhaldi, betrunarhússvinnu, eða hafa fyrirgjört sínu lífi, eptir því hve mikið afbrotið er. Þar er auk verður sá,er þannig skaðar annan, skyldaður til að borga þeim sem hann skaðar, kostnað þann, sem leiðir af hjúkrun hans, að bæta honum atvinnumissi og sársauka. Fyrir utan vörn þá, sem slíkar ákvarðanir veita, ber ríkið umhyggju fyrir lífi og heilsu manna með því, að setja lækna og lyfsala og sjúkrahús.

Til þessara rjettinda, sem spretta af eðli voru, heyrir ennfremur rjettur til að krefjast þess, að enginn skerði æru vora, það er að skilja rjettur til þess, að enginn með orðum, látæði eða verkum sýni oss þá óvirðingu, sem vjer ekki höfum verðskuldað. Rjettindi þessi eru mjög áríðandi, því hvernig getur embættismaðurinn haldið þeirri virðingu, sem hann þarf að hafa í stöðu sinni, ef hver einn má að ósekju bera á hann að hann sje hirðulaus, láti bera fje á sig eða því um líkt? Eða hvernig

geta menn stundað atvinnu sína, ef þeir eru sviptir virðingu og trausti annara? þessvegna ákveða lögin ymsa hegningu við slíkum rangindum. Ef menn hafa ofbeldi og hótanir við embættismenn, varðar það hegningarvinnu allt að 6 árum. þeir sem smána embættismenn, er þeir gegna embætti sínu, skulu sæta fangelsi eða sektum. Ef menn meiða æru annars manns og skerða virðingu hans, varðar það sektum frá 10 til 200 rdla. eða einföldu fangelsi. Sje það gjört á prenti, varðar það einföldu fangelsi ekki skemur en 3 mánaði eða sektum ekki minni en 50 rdlm. þau óviðurkvæmilegu orð eru og dæmd ómerk, ef sá krefst þess, sem misboðið er.

Undir hin upprunalegu rjettindi heyrir almennur rjettur til þess að ávinna ný rjettindi eða auka rjettindin og frelsið, eins og menn vilja eða geta, án þess að skaða aðra eða þjóðfjelagið. Slík aukin rjettindi ávinnast á tvennan hátt, *annaðhvort* með því að ganga í það sambaud við aðra, sem sviptir þá ráðum á sjálfum sjer t. a. m. með því að leigja þá, *eða* menn tengja þannig við sig einhvern hlut, aðrir hafa ekki ráð yfir honum framar, t. a. m. ef menn kaupa einhvern hlut eða fá að gjöf.

### g. áunnin rjettindi.

Hið helgasta og almennasta samband, þar sem hin áunnu rjettindi koma fram, er *heimilis lífið*. það innibindur þrennskonar sambönd, það er: *samband milli hjónanna*, *milli foreldra og barna*, *og milli hússbænda og hjúa*.

Um hjúskapinn eru margar ákvarðanir í lögunum. Til þess að óreyndir inngangi ekki svo hátíðlegt samband, er það boðið að karlmaður skuli ekki vera yngri en 20 ára, en kvennmaður ekki yngri en 16 ára. Í ymsum tilfellum er hjúskapur bannaður, svo sem milli hálfsystkyna, stjúpforeldra og stjúpbarna, foreldra þeirra og barna. það er og harðlega bannað, ef einhverjum kæmi til hugar að eiga systur eða bróður, ömmu eða svo skylda. Í ymsum tilfellum verður að sækja um leyfi konungs, t. a. m. ef einhver vill kvænast föðursystir eða móðursystir, ekkju föðurbróður, móðurbróður eða bróður. Lög hafa einnig verið sett um þau sorglegu tilfelli þegar hjón skilja. Öll lög þessi hafa þann tilgang að vernda helgi hjúskaparins.

það er svo eðlilegt, að foreldrar og börn eiga að elska hvort annað og bjálpa hvort öðru, það er svo sjálfsagt að börnin hlýði foreldrunum og foreldrarnir annist börnin ástúðlega, að slíkt ætti ekki að þurfa að ákveðast með lögum. En með því reynslan sýnir, hve skeytingarlausir sumir eru, þá kveða lögin skýrt á um það, að foreldrar skuli annast um uppeldi og mentun

barna sinna; vanræki þau það, má taka börnin frá þeim og vista þau annarstaðar á kostnað foreldranna. Lögin bjóða og börnunum að sýna foreldrunum hlýðni, auðsveipni og virðingu, breyti þau öðru vísi, á að refsa þeim.

Hið þriðja samband heimilisfjelagsins er á milli hússbænda og hjúa, og eru um það margar lagagreinir. Hjúin eiga að hafa hæfilegt viðurværi og kaup og aðhjúkrun, ef þau verða veik. Hafi vinna fyrir hússbóndann orðið orsök veikinnar, eiga þau heimting á að hann kosti lækningu þeirra og annist þau. Deyi hússbóndinn, eiga hjúin heimting á að fá kaup sitt, ef það er ógreitt, fyr en flestar aðrar skuldir eru greiddar. Hússbóndinn hefir þar á móti rjett á, að heimta hina umsömdu þjónustu og reiða sig á hlýðni og trúmennsku hjúanna. Ef hjúið leggur hendur á hússbóndann á það að sektast að 50 rdlm. Skaða þann, sem hjúið gjörir hússbóndanum skal það bæta. Fari hjúið burt fyrir skildaga skal það greiða hússbónda slíkt sem hann átti að greiða því í kaup fyrir þann tíma vistarársins, sem er.

Til þessara hinna áunnu rjettinda heyrir enn fremur allur sá rjettur, sem menn fá tilkall til, er þeir innganga einhverja stjett eða stöðu. Rjettur þessi er þá eins margbreyttur og stjettirnar eða stöðurnar. Þannig hefir presturinn rjett til að messa og gjöra prestsverk, læknirinn rjett til að lækna, kaupmaðurinn rjett til að verzla og svo frv. Þessi rjettindi leggja líka þær skyldur á aðra, að þeir skerði þau ekki.

Til þessa heyra einnig öll þau rjettindi, sem spretta af því að ávinna eign á einhvern hátt, t. a. m. með kaupum, erfðum, skiptum, gjöfum, veiðiskap og svo frv. Sömuleiðis heyra til þessa rjettindi sem spretta af samningum t. a. m. láni, veði og fl. Þá heyra þar og undir hin almennu brúkunarrjettindi, rjettur til að fara yfir land annara og fl., og loksins skaðabætur fyrir eigna missi, ef gjörður er af öðrum.

Flestar reglur eru í lögum þessum settar til þess að vernda eignarrjettinn. Þessvegna er margvísleg hegning lögð við þjófnaði, svikum, illri meðferð á fundnu fje, ránum og svo frv. Sá t. a. m. sem býr til ranga peninga eða seðla á að sæta 2 til 12 ára hegningarvinnu; sá sem með ofríki sviptir skipbrotsmenn eign sinni á að vinna allt að 2 árum í betrunarhúsi; sá sem skrifar nafn annars á skjal á að sæta 1 til 8 ára hegningarvinnu; sá sem ber rangan vitnisburð á að vinna 2 til 10 ár; sá sem í kirkju stelur fje kirkna á að vinna hegningarvinnu allt að 2 árum, sömu hegningu sætir sá, sem stelur frá pósti; sá sem stelur stórgripum í haga sætir hegningarvinnu allt að 8 árum; sömu hegningu sætir sá, sem brýtur upp hús til að stela. Sá sem hilmar þjófnað sætir líkri hegningu og þjófurinn.

Sá sem ekki lýsir fundnum munum sætir fangelsi eða betrunarhússvinnu.

Að vísu bannar Guðs orð og samvizkan öll slík afbrot, en allt fyrir það eru þau því miður opt drýgð af þeim, sem hafa hlotið illt uppeldi eða daufbeyrst við áminningum í æskunni. Þessa vesælinga grípur hinn sterki armur laganna og er þá optast öll þeirra auðna úti.

## h. Um það, hver notið geti rjettinda.

Það er auðsætt, að hversu beinau rjett sem vjer höfum til að neyta rjettinda vorra, þá missum vjer þenna rjett, ef vjer afsölum oss rjettindunum. Svo getur og að borið, að vjer verðum sviptir mörgum rjettindum, t. a. m. sá, sem verður að sæta opinberri hegningu, getur misst mörg rjettindi. Þeir sem eru ófullveðja mega ekki sjálfir nota rjettindi sín, heldur verða að hafa forráðamenn. Ófullveðja er hver yngri en 18 ára. Forráðamenn barna eru foreldrarnir, en sjeu þeir dánir, er einhver ættingjanna til þess settur. Forráðamenn annast uppeldi hinna ómyndugu og ávaxta fje þeirra. Fjárhaldsmenn eiga árlega að semja reikning yfir fjárbaldið og senda sýslumanni, en amtmaður skoðar þá reikninga.

## i. Um trygginguu rjettinda.

Vjer sögðum hjer að framau, að það væri aðalskylda stjórnarinnar að gæta laganna. Stjórnin gjörir það annaðhvort beinlínis með landstjórninni og rjettarganginum, eða óbeinlínis með ráðstöfunum, sem efla rjettan hugsunarhátt og sanna velferð þegnanna. Tvennskyns eru þau tilfelli, að landstjórnin er ekki einhlít; 1) þegar hegning skal á leggja, því að hún verður að ákveðast með dómi, og 2) þegar málsaðilar geta ekki orðið sáttir og láta sjer ekki heldur nægja úrskurð stjórnarinnar; þá verða dómstólarnir að dæma. Það er ætlunarverk dómaranna, að bera mál þau, sem fyrir þá er stefnt saman við greinir laganna og kveða upp dóminn, eða ákveða, hvort menn eru sekir eða sýknir, hvort menn hafa rjett að mæla eða rangt.

Þegar hegning skal dæmd, höfðar stjórnin sjálf málið og lætur yfirvaldið ákæra þann, sem uppvís er að glæp eða grunaður um glæp. Slík mál kallast *lögreglumál* eða *sakamál*, og eru höfðuð móti þeim, sem drýgja morð, þjófnað og önnur óhæfuverk. Yfirvaldið sjer um að dóminum verði fullnægt.

Hið annað tilfellið, að menn verði ósáttir, hlýtur opt að bera að af því marga vantar vit eða vilja til að sjá hið rjetta og sann-

gjarna, og vegna þess að mikill efi getur uppkomið, ef óvænt tilfelli bera að höndum, t. a. m. ef áríðandi skjöl glatast eða menn deyja fljótlega. Þesskonar mál kallast *privatmál* eða *einkamál*. Áður en þau eru borin undir dómarann ber að stefna þeim fyrir *sættanefnd*. Ef sættir komast ekki á, byrjar málssóknin. Optast rætist hið fornkveðna: »betri er mögur forlíkun en feit málssókn«.

Þó lögin banni mönnum almennt að taka rjett sinn sjálfir, þá leyfa þau að verjast órjetti. Sá sem verður fyrir árásum má verja líf sitt og limu; ef menn geta ekki með öðru móti varið líf sitt og limu má limlesta eða svipta lífi þann sem reynir að skaða limu, eða svipta lífi.

Auk þessara beinlínis ráðstafana til að efla rjettindi manna, gjörir stjórnin aðrar ráðstafanir og reynir að vekja rjettan bugsunarhátt hjá mönnum. Þetta gjörir stjórnin með þeim ráðstöfunum, sem efla trúrækni, menntun og siðgæði. Með því að gjöra það sem rjett er og vilja hið bezta, á hver og einn að styrkja stjórnina í því að efla hið góða, en yfirbuga hið illa. Lögin dæma að vísu, og geta, að nokkru leyti, heft hið illa, en það er ekki einhlítt. Sá eini vegur til almennrar farsældar er það, að góður vilji búi í allra hjörtum. Lögin og yfirvöldin eiga allir að virða, ekki af þrælsótta, heldur af dygð.

# Fimmti Kafli.

## I. Varðveizla heilbrigðinnar.

### 1. Heilbrigði og vanheilsa.

Þegar vjer höfum góða matarlyst, kennum hvergi verkjar, getum án hindrunar hreift alla limu líkamans, notað augu, eyru og nef; þegar vjer sofum vært, vöknum glaðir og þolum breyttingar loptslagsins, þá erum vjer ósjúkir. Oss ber að fagna og þakka Guði gjöf heilbrigðinnar, en oss ber undir eins að varast allt, sem orsakar vanheilsu; því að heilbrigðin er mikil Guðs gjöf og kjör hinna sjúku eru sorgleg. Þeir vanheilu eru óstyrkir og magnlitlir; þeir hafa litla matarlyst; þá þyrstir mjög, þeir þola enga breytingu á loptslaginu; þeir geta ekki unnið; þeir þjást og kvíða og eru optast óglaðir. Sjúkdómurinn lamar þannig mátt þann, sem Guð hefir gefið manninum bæði til að starfa með í lífinu og líka til að njóta þess.

Til að geta haldið líkamanum heilbrigðum verðum vjer að næra hann á mat og drykk, gæta hans með hæfilegri varúð og styrkja hann með hreifingu og hvíld. Vinna á daginn er hin bezta hreifing, og nætursvefninn hin bezta hvíld. Hina fyrstu skylduna er ekki svo erfitt að uppfylla, þar eð vjer höfum mikla hvöt til að næra líkamann með því hungur og þorsti minnir á það. Reynslan sýnir því miður, að mörgum gleymist að uppfylla hinar tvær skyldurnar. Hinn óvarkári og gleymni, gáleysinginn og svallarinn gæta ekki heilsunnar. Annaðhvort eru þeir athugalausir eða þeir ætla að líkaminn þoli allt. Hinn lati forðast alla áreynslu; jafnan dregur hann það sem hann á að vinna og leitar sjer hættulegrar hvíldar í iðjuleysinu. Sá, sem er ofgjarn á skemmtanir, eyðir tímanum í ónytju málæði og veiklar líkamann

með ósæmilegum glaðværðum. En afleiðingarnar koma fram fyr eða síðar. Stundum getur að vísu iðranin afstýrt þeim, en opt er hún of sein og hin lamaða heilbrigðin verður ekki viðreist.

Hinn beinasti vegur til að fylla allar skyldur þessar, að næra, varðveita og styrkja líkamann er sá, að stunda að lifa þannig að öll hin eðlilega starfsemi líkamans haldist við, það er að skilja, að melting, andardráttur, útgufan og svo frv. hafi ótruflaða rás og bæði líkaminn allur og hver einstakur partur hans líði engan skort af vanhyggni eða hirðuleysi og ofþyngist ekki af neinu vegna gáleysis eða fíknar.

## 2. Matur og drykkur.

Vjer neytum matar til að sefa sultinn og drekkum til að slökkva þorstann. Í bók þessari er áður skýrt frá því, hverja fæðu vjer fáum af dýrum og jurtum. En fæða sú, er vjer fáum af dýrum, er meira nærandi en sú, er vjer fáum af jurtum. Hollast er að neyta af hvorutveggju; því ef vjer neytum kjötmatar um of þá aukast um of vessar líkamans, einkum blóðið, og lífsaflið knýst áfram um of, en jurtafæðan eintóm nærir og eflir oflítið.

Ef oss á jafnan að finnast gott bragð að matnum, verðum vjer að kenna sultar áður en vjer borðum, því »sulturinn gjörir matinn sætan«; ef þú ert svangur finnst þjer jafnvel hinn óbreyttasti matur bragðgóður. En ef þú ert latur, iðjulaus og síjetandi þá getur þú ekki orðið svangur. Starfsemi og hreifing í hreinu lopti styrkir meltinguna og hressir líkamann. Einkum er hreifing holl þegar liðið er á meltinguna, 2 eða 3 tímum eptir að vjer höfum neytt matar. Þess ber og vandlega að gæta að borða ekki of opt, ekkert truflar meira meltinguna en að neyta matar áður en sá matur, sem næst var neytt áður, er almeltur. En athugaðu líka, að allt sem er ofmikið, skaðar. Ímyndaðu þjer ekki að þú fáir því meiri þrótt, því meira sem þú borðar. Ályktan þessi er rjett meðan ekki er neytt of mikils. En sje ofmikils neytt, þá þenst maginn ofmikið út, og sje næringin meiri en lífskraptur líkamans getur notað til að gjöra að blóði og næra með alla parta líkamans, þá gengur maturinn hálfmeltur burt. Það er gömul og góð regla að hætta að borða áður en matarlystin er að öllu sefuð.

Ílát þau, sem maturinn er búinn til í og einkum þau, sem hann er geymdur í verða öll að athugast, því óaðgæzla og fákænska í þeirri grein hafa orðið mörgum að bana. Einkum ber með varúð að brúka allskonar ílát úr eir. Að vísu má hafa eirílát, sje þau tinuð vel að innan. Einkum ber að varast að hafa sýru í eirílátum, því að hún dregur úr þeim spansgrænu,

sem er megnt eitur. Sje húðin blandin blýi geta ílátin líka orðið óheilnæm. Er því ráðlegast að hafa matarílát úr leir, trje, járni eða pjátri. Hver sem það óhapp hendir að neyta einhvers, sem eitur er í, á óðar að drekka volga nýmjólk, eða volgt vatn. Gott er að láta nokkuð af bráðnu smjöri í vatnið og þó bezt að hræra saman við það nokkuð af grænsápu. Það sem mestu varðar er það, að geta selt eitrinu sem fyrst upp.

*Þorstinn* minnir á að drekka, og ber að hlýða þeirri náttúruhvöt. En eins og það er hollast að borða á vissum tímum, svo er rjettast að drekka líka á vissum tímum. Hollast er að drekka ekki mikið fyr en nokkrum stundum eptir að maður hefir borðað eða þegar meltingin er langt komin. Menn drekka til þess að bæta líkamanum vökva þann, sem hann missir við útgufan og útrás.

Vatnið er hinn hollasti drykkur og hinn eini, er menn ættu að drekka daglega; það kælir, þynnir og hreinsar blóðið og styður allar þær breytingar, sem fara fram í líkamanum. Þeir sem vinna stranga vinnu geta þurft krapt-meiri drykki, svo sem öl, blöndu eða mjólk, og þó naumast ef fæðan er nægileg. Börn og þeir, sem vinna enga erfiðis vinnu þurfa engan annan drykk en vatn. Naumast getur það skaðað að drekka vín hóflega á stundum við heimboð eða á tyllidögum, en mörgum veitir erfitt að gæta hófsins og nauðsynlegt er það fæstum. Að drekka brennivín sjer til ánægju er synd, sem hegnir sín sjálf ógurlega. Ofdrykkja gjörir menn óhæfa til að vinna; hún veikir líkamann, sljófgar krapta sálarinnar, eyðir efnunum og bakar allskonar eymd. Margir hafa af ofdrykkju fengið hina verstu sjúkdóma: vatnssýki, blóðhósta, magakrabba, æði og slagaveiki, og margir hafa dáið á unga aldri. Hún er því löstur, sem allir ættu að varast.

### 3. Hreint lopt og þrifnaður.

*Loptið* er eins ómissanlegt fyrir manninn, eins og maturinn og drykkurinn. Vjer öndum loptinu sífeldlega að oss og með því endurnærist blóðið og helzt á stöðugri rás um líkamann. Það er því eins áríðandi, að loptið sje hreint, eins og hitt, að maturinn sje hollur og nærandi. Hreint lopt lífgar hugann, styrkir og endurnærir líkamann og veitir væran svefn. Hver sem veitir því eptirtekt, getur fundið, hve óþægilegt það er, að vera í litlu húsi þarsem margir menn eru komnir saman, en svo óþægilegt sem það er, því skaðvænna er það fyrir heilsuna. Það er þessvegna áríðandi, að hreint lopt komist daglega inni hús þau, sem vjer búum í, en hið spillta loptið fái útrás; þessu má koma við með mörgu móti, bæði með því að ljúka upp dyrum og gluggum og

með því að hafa göt á gluggum. Menn skilja opt ekki af hverju sjúkdómar koma, en þeir koma opt af óhreinu lopti og ætíð verða þeir magnaðri þar sem það er óhreint.

Loptið spillist í jarðhúsum, þar sem gufan úr jörðinni getur ekki komizt út; einnig í húsum, þarsem matur er geymdur, einkum sá matur, sem ólgar; þar sem föt eru þurrkuð eða boltadregin; þar sem ljós brenna eða eldur í eldkernm; þar sem margir menn eru saman komnir í litlu húsi; þar sem reykur er eða eitt hvað það, sem daun leggur af. Allstaðar þar, sem svo stendur á, er nauðsynlegt, að hleypa hreinu lopti iðulega inn. Einkum ber að hafa allt hreinlæti í húsum þeim, sem menn sofa í. Ljósið þarf hið sama lopt að lifa á og maðurinn; þar sem ljós logar dauft má ætla að loptið sje óhreint. Ýms meðöl hafa menn til að hreinsa loptið, en hið auðfengnasta meðal er að hleypa hinu hreina lopti inn.

*Þrifnaður* er hið bezta ráð til að viðhalda hreinu lopti. Þarsem þrifnaður er, þar er enginn hjegómi eða óhreinindi á lopti og veggjum húsanna og engin óhreinindi á gólfum. Gluggar eru hreinir, rúður gagnsæjar og hjörur á gluggum, svo þeim verði lokið upp. Ryk allt er sópað burt og enginn ódaunn er þar eða óþægileg gufa. Þrifnir menn þvo sjer annað hvort kveld eða morgun og jafnvel um miðjan dag, ef þeir verða venju fremur óhreinir. Að halda hörundinu hreinu ver margri næmri sótt og eykur útgufan af likamanum, sem er svo nauðsynleg. Þessvegna eru böð holl; volg böð hreinsa svitaholurnar, köld böð styrkja þar að auk líkamann; sjóböð eru holl þeim, sem kirtlaveikir eru, en þeir eru margir. Hreint lopt og þrifnaður verður því ekki nógsamlega lofað, og væri það stundað allstaðar, þá mundi verða minna af mörgum sjúkdómum, sem nú eyða fjöri og fje manna og leggja marga á unga aldri í gröfina.

## 4. Almenn umhyggja og varúð.

Hin almenna umhyggja fyrir því, að líkaminn haldist heilbrigður, er, eins og vjer að framan höfum drepið á, fólgin í því, að vjer með athygli sneiðum hjá öllu því, sem stöðvar eða truflar starfsemi lífsaflsins. Hófsemi og þrifnaður eru því hin helztu meðöl til að halda við heilsunni. En umhyggja þessi getur og komið fram á ymsan annan hátt í því, sem styður að því, að líkaminn haldist í hinu eðlilega ástandi. Hæfileg varúð er því hið þriðja aðalmeðal til að varðveita heilsuna.

Öllum mönnum er eðlilegt að standa upprjettir; allir hinir innri partar líkamans eiga þannig hægast með að starfa; þessvegna ætti að venja börn sem fyrst á það. Allir hinir innri

líkamspartar eru á sífelldri hreifingu, hinir ytri þurfa einnig að hreifast. Hin bezta hreifing er sú, að vinna líkamlega vinnu, einkum undir beru lopti. Þessvegna eru þeir, sem eru við útistörf optast hraustari en þeir, sem hafa kyrrsetur inni. Þeir sem ekkert starfa úti, þurfa að ganga sjer til hressingar við og við.

Af því líkaminn þarf hvíldar, mega menn ekki vinna í sífellu, heldur verða að taka sjer hvíld og sofa. Hollast er að sofna ætíð fyrir miðnætti; sá sem sefur vel er hressari og færari til hvers starfs sem er; ofmiklar vökur gjöra því ekki gagn. En árla eiga menn að rísa á fætur: *morgunstund hefir gull í mund.* Hollast er að klæðast undir eins og menn vakna. Flestum er nóg að sofa 6 til 8 stundir. En til þess að svefninn geti verið vær og endurnærandi, mega menn ekki neyta of mikils matar áður en þeir sofna, nje áfengra drykkja um of; menn verða að vera þreyttir af einhverju starfi og hafa góða samvizku.

Af því heilsan er að miklu leyti komin undir því, að blóðið haldist hreint og lifandi, svo og vökvar allir, þá er það miklu meir áríðaudi en margir ætla, að útgufanin fari fram með reglu. Það vita flestir, að þeim ber að varast kalda drykki og kalt lopt, er þeir eru mjög heitir, og eins að varast mjög mikinn hita ef þeim er sárkalt; að vera ekki lengi í votum klæðum og svo frv.. En margir vita ekki, hvílíkt tjón það getur gjört, að vera í ofhlýjum fötum, að dúða höfuðið um of, að þekja sig í of miklum rúmfötum. Þetta getur orðið orsök ýmissa veikinda, deyft sjón og heyrn og veiklað líkamann allan. Klæðin veita í sjálfum sjer engan hita; tilgangur þeirra er að verja líkamann áhrifum loptsins að utan, svo hann geti notið þess hita sem í honum er; því sje loptið kaldara en líkaminn, streymir hitinn frá honum út í loptið eptir því almenna lögmáli, er vjer höfum áður vikið á, en sje loptið heitara en líkaminn, vill það eptir hinu sama lögmáli gjöra hann jafn heitan sjer. Hollust hjer á landi eru ullar föt. Af öllum litum á hinn hvíti litur hjer bezt við. Hvítleit eða grá klæði verja bezt miklum hita á sumrum og kulda á vetrum, en svört klæði taka við mestum hita og kulda og eru þessvegna gagnminnst. En hverju sem vjer klæðumst ber oss að varast að útgufanin stöðvist, þessvegna er það óheilnæmt að vera daglega í loðnum skinnfötum.

Skilningarvitin geta veiklast: *a*) ef þeim er beitt um of; þannig sljófgast sjónin, ef menn horfa mjög á eitthvað þegar skuggsýnt er; ef menn horfa lengi á það sem er mjög hvítt, svo sem hvíta veggi eða snjó í sólskini. *b*) af snöggum áhrifum; þannig sljófgast tilfinningin í höndunum, ef þeim er haldið köldum við eld; heyrnin dofnar af mjög miklu háreysti og mörg dæmi

ern þess, að menn hafa orðið heyrnarlausir af mikilli skothríð í bardögum.

Tennurnar eru mjög áríðandi fyrir oss; með þeim tyggjum vjer matinn og búum hann undir meltinguna, en hann nærir allan líkamann. Þær geta skemmst með mörgu móti: ef menn stanga úr þeim með málmi; ef menn bíta í eitthvað hart, eða borða að jafnaði mjög heitan mat, eða drekka mjög heita drykki. Ef skel sú, sem er utan á tönnunum skerðist, þá eyðast þær smám saman og er þeim þá hætt við allri veiki; en tennurnar eru þau einn bein líkamans, sem aldrei gróa, ef þær brotna. Hollt er að skola munninn úr vatni, þá er maður hefir borðað. Ef menn gættu þessa, sem nú hefir sagt verið, mundi tannverkur og tannveiki vera sjaldgæfari.

## 5. Ráð í sjúkdómum og slysum.

Læknar eru til þess settir, að bæta heilsu manna; ber því að leita ráða þeirra, ef sjúkdóm ber að höndum. Að vísu er það kostnaður, en öllu ber að kosta til þess að varðveita heilsuna, sem er sú dýrmætasta Guðs gjöf. Það er að vísu sannleikur, sem allir verða að játa, að náttúran er sjálf sá bezti læknir, og aðalstarf læknisins er það að styrkja hana í því, að hún nái að koma fram tilraunum sínum. Tilraunir hennar eru stöðugt í þá átt, að viðhalda lífinn og fjarlægja því allt, sem því er skaðlegt. Margar tilraunir þessar eru mjög aðdáanlegar. Ef einhver partur líkamans, sem nauðsynlegur er fyrir lífið, verður veikur, reynir hún að koma veikleikanum á annan part, sem ekki er eins nauðsynlegur. Þessvegna finnur hinn sjúki opt verki þar sem veikin er ekki, t. a. m. í öxlum, ef lungu eru sjúk eða lifur. Opt koma kýli á líkamanum af því, að óhreinindi hafa verið í blóðinu og tekur náttúran það ráð, að safna þeim þar, svo þau verði að greptri og komist út og spilli ekki hinum dýrmætari pörtum. Kirtlaveik börn fá opt skurfur í höfnðið, er það ráð náttúrunnar til að koma burt efni veikinnar; er því varasamt að stöðva útferð þessa.

Þau tilfelli koma, sem eru svo ljettvæg, að menn ættu að geta bjargað sjer sjálfir, bera og sum svo fljótt að, að ekki verður náð til læknis í tíma. Allir ættu því að afla sjer þekkingar um meðferð á slíkum slysatilfellum. En um allar lækninga tilraunir gildir sú regla, að betra er að reyna ekkert en það sem ekki á við. Það sem mestu varðar er það, að náttúran sje aldrei trufluð í tilraunum sínum.

Sár, sem skorin eru af eggjárni, og ekki eru því stærri, gróa án meðala á ósjúkum manni. Mestu varðar að stöðva blóðrásina

og má það optast með böndum. Því betur sem sárið lykur sig saman því fyr grær það; þarf þá sjaldan annað en verja sárið óhreinindum. Það varðar og miklu að hreinsa öll óhreinindi úr hverju sári sem er; dugir optast til þess volgt vatn.

Bólgur allar í útlimum er bezt að baða í köldu vatni, en það verður að gjörast opt og lengi. Þegar verkur kemur eða bólga í fingur skal halda honum niðri í köldu vatni eða heitu vatni uns verkurinn er horfinn.

Ef einhver verður gagntekinn af frosti, skal afklæða hann með varúð, svo hinir frosnu limir brotni ekki, leggja hann síðan í köldu húsi á borð eða í rúm og þekja líkamann allan, nema munninn og nefið, í þunnu lagi af snjó. Sje snjór ekki við hendina skal væta ullardúka í ísköldu vatni og þekja líkamann með; þetta skal gjöra opt. Ef líkaminn er nú orðinn þíður skal láta hann í kalt herbergi og núa hann opt með dúkum, vættum í köldu brennivíni. Taki hinn freðni enn ekki að anda, skal núa hann með jurtum, blása lopti ofan í lungun og halda einhverju, sem sterk lykt er af fyrir vitum hans. Stólpípu er líka gott að setja. Geti hinn sjúki rennt niður, skal gefa honum volgt te eða kjötsúpu.

Drukknaða menn skal þegar afklæða, þerra allan líkamann, hreinsa munn og nef, núa líkamann, einkum iljarnar, með klæði og blása ofan í lungun. Menn drukkna ekki af því, að menn fyllist um of af sjó eða vatni, eins og sumir ætla, heldur af hinu, að lungun hætta að þenjast út af loptinu; er það því hið helzta, að koma lungunum til að starfa. Stólpípu og blóðtöku má og reyna. Hafi menn drukknað á vetri í frosti skal fara með eins og kal, það er: núa hinn drukknaða með dúkum, er vættir sjeu í köldu vatni.

Þann sem fellur í öngvit af óhreinu lopti, skal sem fyrst bera út undir bert lopt. Væta skal dúka í köldu vatni og ediki og leggja á höfuðið. Á brjóstið eða hjartagrófina skal hella vatni, ediki eða brennivíni; einhverju sem sterk lykt er af skal halda fyrir nefinu og að öðru leyti fara með eins og kal væri.

Þann sem hefir hengt sig, skal þegar skera ofan, núa hálsinn vel, leggja líkamann í hreint lopt, en láta höfuð og herðar liggja hærra; klæði öll skulu losuð. Blóð má taka þeim, sem hengdur er, og að öðru leyti fara með eins og þá, er í öngvit hafa liðið.

## II. Sál mannsins.

Vjer höfum þegar lesið nokkuð í bók þessari um *sál* mannsins. Allt sem þú hefir lesið viðkemur reyndar sálinni, því menn lesa og læra eingöngu vegna sálarinnar, til að auðga hana að þekkingu og fullkomna alla hennar hæfilegleika. Þegar þú segir *jeg* og þegar þú segir *sál* mín, þá segir þú hið sama. Þegar jeg tala við þig, þá talar mín sál við þína sál með þeim orðum, sem jeg tala, en þú heyrir.

Vjer erum skapaðir í Guðs mynd, höfum *anda* og *líkama*, anda og náttúru í sameiningu. Andinn er hin yfirnáttúrlega veran, sem bærist í heimi hugmyndanna og Guði, lifir í hinu almenna og gjörvalla; hann er herra jarðarinnar, finnur upp íþróttir og vísindi. Hann er gefinn oss af föður andanna. Líkaminn er af jörðunni og á að vera verkfæri andans. En *sálin* er það sameinandi band milli andans og líkamans. Fyrir sálina er andinn í sameiningu við líkamann; hún er miðpúnkturinn, maðurinn sjálfur. Þegar vjer tölum um ódauðleik, sælu og vansælu, þá höfum vjer einkum í huga sálina, þó andinn sje með henni ódauðlegur og líkaminn rísi upp. Það er sálin, sem elskar og er elskuð. Hún tekur þátt bæði í því andlega og holdlega, hinu himneska og jarðneska, hinu óendanlega og endanlega; því hún er aðdáanlegur milliliður milli hvorutveggja.

Af eiginlegleikum sálarinnar nefnum vjer almennt *skynsemi*, *tilfinning* og *vilja*. Af eiginlegleikum þessum er viljinn fremstur. Vilji vor er vort eiginlegasta eðli, það innsta í sálinni. Sumir kunna að halda, að tilfinningin sje hið innsta, en allar tilfinningar, gleði og sorg, von og ótti eru afleiðingar viljans. Það sem Guðs orð kallar *hjartað* og segir að frá því gangi lífið út, þá er það viljinn sameinaður tilfinningunni.

Líkami mannsins bendir með því að standa upprjettur og einkum með andlitinu á það, að hann er bústaður sálarinnar og hefir guðlega köllun á jörðunni. Það er aðeins í sameining við líkamann að sálin getur talað *orðin*, en með þeim lýsir hún því yfir, sem hennar andi og andi Guðs meðdeila henni. Af verkfærum sálarinnar er *höndin* þarnæst merkilegust; hún vinnur hin frjálsu *verk* eða framkvæmir áform og ályktanir sálarinnar.

Hver skynlaus skepna er einstaklingur af sínu kyni, en sál mannsins er ófrúgrundanleg eining, því hún er einkennileg mynd Guðsmyndarinnar, ákvörðuð til að taka visst sæti í Guðs ríki. Eins og sálin að nokkru leyti fæðist af foreldrunum, svo er hver sál nokkuð nýtt, sem ekki hefir verið til áður og ekki verður optar. Hún er sköpuð af Guði, eilíf mynd hans og hefir hæfilegleika til að lifa eilífu og sælu lífi. Það er ekki af hendingu

að sálin hefir þann líkama sem hún hefir, því hún *myndar* sjer sjálf líkamann. Vjer segjum að sálin myndi líkamann, en ekki að hún skapi hann eða leiði hann fram. Líkaminn hefir frummynd, ákvarðaða mynd, sem þau líkamlegu efnin safnast eða raðast eptir að því leyti sem hinar ytri tálmanir hindra það ekki; hinn innri kraptur stundar ávalt að yfirbuga þessar ytri tálmanir og þeim nýju efnum, sem hann án afláts tileinkar sjer í stað þeirra, sem hverfa burt, raðar hann í líkamann eptir hinni upphaflegu mynd. Væri þessi frummynd ekki til, þá gætum vjer ekki sagt, að vjer hefðum líkama, því efni líkamans skiptast um án afláts, en frummynd þessi, hinn eiginlegi líkami — ekki það forgengilega hold og blóð, sem ekki getur erft Guðs ríki — kemur ávalt fram á ný í nýju efni.

Hin eilífa vera mannsins, hinir upprunalegu hæfilegleikar og einkenni, sem skaparinn gefur sálinni, er ákvarðað, svo ekki verður breytt; það er hið sama hjá öldungnum og það var hjá barninu. Að hinu leytinu getur það mikið ummyndast, bæði til hins betra og verra, annað hvort samkvæmt eða ósamkvæmt hinni upphaflegu frummynd og er þar uppspretta sælunnar og vansælunnar. Hið andlega eðli vort breytist bæði með því sem vjer *tileinkum oss* og með því sem vjer *framkvæmum.* Eins og líkami vor andar að sjer því lopti, sem er hreint eða óhreint, svo er um sálina. Hún andar að sjer anda tímans og þess, sem er um hverfis hana; frá barnæsku tekur hún við mörgum munnmælum, hugmyndum og dæmum, sem hún tileinkar sjer án þess hún viti af. Það er þessvegna áríðandi að aðgreina það illa frá því góða. Þessi aðgreining á illu og góðu var þegar boðin hinum fyrstu mönnum. Þau áttu að neyta af trje lífsins, ekki af skilningstrje góðs og ills. Það var ekki þannig að skilja, að þau ættu ekki að þekkja hið illa, en þau áttu ekki að neyta af því, ekki að tileinka sjer það. Kristur nefnir sig sjálfan brauð lífsins og meinar með því ekki einungis kenningu sína, heldur sig sjálfan; sálin á að sameinast honum í kærleikanum. En, það sem vjer tileinkum oss, það eigum vjer líka að framkvæma, og með því ummyndast líka sálir vorar. Það sem vjer tileinkum oss, fullkomnast með því, sem vjer gjörum. Kristur sagði: »Það er minn matur að gjöra vilja hans, sem sendi mig og að fullkomna verk hans«. (Joh. 4, 34.) Hann vann verk föðursins, hann var stöðugt undirgefinn hans vilja, hann gjörði ekkert af sjálfum sjer, heldur allt af föðurnum, og með því dró hann til sín hina himnesku krapta og var eitt með föðurnum. Þannig hefir það sem vjer elskum og þjónum æ meiri áhrif á oss. Því vjer erum ekki ákvarðaðir til að lifa sjálfum oss eingöngu, heldur í hinu gjörvalla og fyrir það, í dýpsta skilningi fyrir Guð og Guðsríki.

þannig myndum vjer sálir vorar bæði með því sem vjer tileinkum oss og með því sem vjer gjörum; það sem vjer tileinkum oss og gjörum verður í eiginlegasta skilningi eign vor. Verk vor bera ekki einnngis menjar í heiminum, heldur setja varanleg einkenni á vorn innra mann og fylgja oss þannig. þessi innri eign sálarinnar er eins náin henni og líkaminn og getum vjer kallað hann hinn innra eða andlega líkama. þenna andlega líkamann myndum vjer allir smámsaman, hvort sem vjer tökum eptir því eða ekki. Vjer myndum án afláts þann innra klæðnaðinn, sem vjer ekki vörpum frá oss, eins og hinum ytra klæðnaði, líkamanum. þessi innri klæðnaður er samvaxinn sálum vorum, hann fylgir þeim, þegar þær hafa lagt niður þennan jarðneska líkama og ganga inn í eilífðina. Allt er undir því komið, af hvaða efnum vjer höfum myndað vorn innra mann, hvaða anda vjer höfum þjónað, fyrir hvaða ríki vjer höfum þroskast. Sæll er sá sem frá barnæsku tileinkar sjer það eitt sem gott er, þjónar Guði einum og fullkomnast fyrir hans ríki.

---

## III. Guðleg opinberun.

Vjer höfum nú lesið um heiminn, um jörðina og það, sem er og lifir á henni og um nokkra þá viðburði, er orðið hafa. Allt þetta er ómumræðilega merkilegt og vert þess, að vjer kynnum oss það sem bezt og íhugum það aptur og aptur. En hið mestuvarðandi, hið hátignarlegasta höfum vjer ekki talað um. *Hver er hann, sem hefir skapað allt, viðheldur og stjórnar öllu? Mun sál vor lifa, þó vjer deyjum? Hvernig getum vjer orðið góðir og sælir að eilífu?* þessar eru þær spurningar sem oss varða mestu; ef vjer ekki fáum leyst úr þeim, getur engin önnur þekking stoðað oss.

þegar vjer hugleiðum allt hið skapaða, hljótum vjer að álykta að það hafi ekki getað orðið til af sjálfu sjer, því öllu er niðurskipað með ómumræðilegri skynsemi og nákvæmni; það verður að vera til sú vera sem hefir skapað allt þetta og skipað því svo dásamlega. þessi skapari heimsins er *Guð.* Hann verður að vera *einn*, því allt bendir á eina hugsjón og einn vilja; hann verður að vera ómumræðilega hátignarfullur og alfullkominn; hann verður að vera *almáttugur*, því verk þessi eru endalaus og dásamleg; hann verður að vera *alvitur*, því hvað einstakt á við hið gjörvalla og hið gjörvalla við hið einstaka; hann er *algóður*, því umhyggja er borin fyrir öllu; hann er *eilífur*, því

hvað gat verið áður en hann var? hvað gæti verið, ef hann væri ekki lengur? Vjer þurfum því ekki að óttast *forlög*, sem ekki eru til, heldur lifandi guð, sem ber *föðurlega forsjón* fyrir öllum og lætur það góða vinna sigur yfir hinu illa. Þessi sannindi eru oss mestu varðandi af öllu, því hvernig gætum vjer lifað eina stund glaðir, ef sá væri enginn, sem vjer gætum treyst í öllum hættum, falið oss í lífi og dauða?

Vjer sjáum að sálin er annað en líkaminn, því vjer sjáum, að hann heldur öllum efnum sínum, en þau taka að leysast sundur, er hún er við hann skilin. Vjer sjáum að allir líkamlegir hlutir eru eyðing undirorpnir einmitt af því að þeir eru settir saman af pörtum. En sálin er ekki sett saman, þessvegna getur hún ekki dáið á þann hátt; hún hefir ekki í sjer þá nauðsyn að hætta að vera til. Hún getur því lifað þó líkaminn sje dáinn; og vjer ályktum að hún sje ódauðleg. Vjer álítum það ósamkvæmt vísdómi Guðs, ef hann hefði gefið oss svo marga hæfilegleika fyrir svo skamman tíma, sem æfi vor er, eða ljeti hið mikla verk sitt falla niður án þess að fullkomna það. Vjer álítum það ósamkvæmt gæðsku Guðs og kærleika, ef hann hefði innrætt oss óseðjandi löngun eptir eilífu lífi, en gæfi oss það ekki, ef hann ljeti oss harma svo sárt vini vora og gæfi oss aldrei að sjá þá aptur, ef hann ljeti marga deyja á unga aldri án þess að hafa reynt fögnuð þessa lífs, og marga á elliárum eptir þrautir og þjáningar. Vjer álítum það ósamkvæmt rjettlæti hans, því margir sem óttast hann, stríða í þessu lífi við sorg og mæðu. Vjer reiðum oss á, að það líf sje til, þar sem vjer náum þeirri fullkomnun, sem vjer ekki gátum náð í þessu stutta lífi, þar sem kærleiki Guðs og rjettlæti verður öllum opinbert. Vjer huggum oss við þessi áríðandi og helgu sannindi í sorgum og raunum lífsins og biðjum guð að gefa oss að vera það sem vjer eigum að vera í þessu hans jarðneska ríki, þangað til vjer inngöngum í hið himneska ríkið.

Vjer finnum að sálin getur ekki fundið hvíld í þessu jarðneska, hún verður að lifa í sínum höfundi, í Guði. Hann er faðir allra og elskar alla, og vill að vjer elskum hvor annan. Þetta jarðneska líf er ferð til hins fyrirheitna, ókunna lands. Á ferð þessari eru allir menn samferðamenn vorir, hafa sameiginlegar sorgir, ótta og ógæfu að stríða við. Vjer finnum að enginn af oss getur orðið sæll einn sjer, heldur í sameiningu við aðra í hinu mikla guðsríki. Þessvegna eigum vjer að hryggjast og fagna hvor með öðrum, leiðbeina hvor öðrum að hinu mikla takmarki og aðstoða hvor annan. Hugarfar þetta köllum vjer *mannást* og er hún hin helgasta skylda vor; hún á að koma fram á heimilum vorum, á ættjörð vorri og við alla, sem vjer getum til

náð. það innra líf, sem vjer lifum í Guði í trúnni og bæninni á þannig að koma fram í hinu ytra lífi. þannig verður Guðs heilagi vilji vor vilji og vjer tökum þátt í hans mikla verki. það er röng hugmynd að mennirnir sjeu til vegna þeirra verka sem þeir vinna, eins og verkin væru æðri en þeir sjálfir. Vjer erum ekki einungis kallaðir til að vinna verk í heiminum, heldur einkanlega til að ávinna Guðsríki. Öll verk mannanna, allir viðburðir og kjör hinna einstöku, allar breytingar veraldarsögunnar eru meðöl og efni, sem mannlegar verur eiga að mynda af hinn andlega líkamann, sem á að vara að eilífu, það eru meðöl fyrir hinn einstaka og hið gjörvalla Guðsríki.

þetta og allt sem að þessu lýtur vitum vjer af því Guð hefir opinberað oss það. Hann hefir *opinberað sig í náttúrunni*, í tilveru og niðurröðun sýnilegra hluta. þessvegna getur postulinn sagt með sanni jafnvel um heiðingjana: það sem mennirnir geta vitað um Guð, er opinberað þeim, því Guð hefir þeim það opinberað. (Rom. 1, 19.). Bæði himin og jörð boða lofdýrð Guðs. I öðru lagi *opinberar Guð sig í þeim hlutum, sem verða á jörðinni;* hann opinberar sig hverjum manni, allt frá hinni fyrstu stund og allar þær stundir, er Guð seður munniun á fæðslu og hjartað á gleði. (Post. g. b. 17, 27). Hann opinberast öllum kynkvíslum mannanna, er hann sýnir, að yfir öllum breytingum hlutanna, ráðum og viðleitni mannanna er Guð á himnum, sem gjöri það, er honum vel þóknast. Hann heldur áfram að stjórna öllu. Hann *opinberar sig brjóstum mannanna;* þaðan koma upp þær tilfinningar, ótti og elska, sem geta ekki orðið skiljanlegar með öðru móti, en að þær rísi af meðvitundinni um þann sem er meiri en hjarta vort. (1 Jóh. 3, 20). Lögmál er ritað í hjörtum vorum, og rödd er til, sem talar um rjett og rangt með svo miklu valdi, að vjer þorum ekki að mæla móti henni.

þetta köllum vjer hina *almennu opinberun* Guðs, af því hún veitist jafnt öllum mönnum. En vjer kristnir menn þekkjum aðra *sjerlega opinberun.* þessi sjerlega opinberun er það, að Guð talaði optsinnis og með mörgu móti til feðranna fyrir spámennina (Hebr. 11, 1.), en talaði að síðustu til allra manna fyrir soninn. Guð opinberaði sig í hinum eingetna, og þetta er fagnaðarboðskapur kristinnar trúar. að Guð sætti veröldina við sjálfan sig í Kristi (2 Kor. 5, 19). Hver sem hefir sjeð hann hefir sjeð föðurinn; hann er ljómi Guðs dýrðar og ímynd hans veru. Hann er eitt með föðurnum (Joh. 10, 30) og koma hans í heiminn og allt hans líf á jörðinni var áframhald hans himneska lífs þar sem hann var í vegsemd áður en veröldin var grundvölluð (Joh. 17, 5.); þarsem hann var *frá eilífð* og þaðan sem hann stje niður til að leita hins týnda og frelsa það til að verða brauð lífsins og

uppspretta lífsins fyrir mennina (Joh. 6, 51). Þó hann væri í Guðs mynd á jörðinni var koma hans á jörðina niðurlæging, hann niðurlægði sjálfan sig, því hann kom til að bera heimsins synd, hann kom til þess í hlýðni að ávinna það sem misstist við óhlýðni hins fyrsta manns, og þessvegna gjörðist hann fátækur og var freistaður og leið þjáningar og dauða. Hann hefir kennt oss allt sem vjer þurfum að vita um Guð og hvernig vjer eigum að þóknast honum, um ákvörðun vora í tímanum og eilífðinni. Hann hefir borið vorar syndir og sætt oss við Guð; hann er vegurinn, sannleikurinn og lífið. Hann segir um sjálfan sig og komu sína í heiminn: svo elskaði Guð veröldina, að hann seldi í dauða eingetinn son sinn, til þess, að hver sá, sem á hann trúir, fyrirfarist ekki, heldur hafi eilíft líf (Joh. 3, 16).

## 1. Landið helga.

Áður en vjer tölum meira um opinberun Guðs og hans ríki á jörðinni skulum vjer hugleiða það land þar sem Guð opinberaðist sjerstaklega og stofnaði ríki. Ekkert land í heiminum er eins merkilegt og *Gyðingaland*, er einnig kallaðist *Kanaansland*, *Ísraelsland* og *Landið helga*, en nefnist nú *Palestina*. Það er um 20 mílur á lengd og 10 mílur á breidd.

Á þessu landi til bjó Drottinn bústað þeirri þjóð, sem hann kans til að vera eignar-þjóð sína. Guð var þar sjálfur löggjafi og konungur. »Ísrael«, segir hann, »er frumburður minn og jeg hefi ekki gjört eins við nokkra aðra þjóð«. — Hjer talaði Guð með mörgu móti til feðranna fyrir spámennina; hjer sungu Davíð og Assaf. En öll Guðs handleiðsla miðaði til hinnar miklu náðar dásemðar í *fyllingu tímans*, þegar »Orðið varð hold«, Guðs eingetni sonur mannsins sonur. — Gyðingaland náði í norður að Líbanons fjöllum, í austur yfir fyrir ána Jórdan og að Dauða hafinu, í suður að eyðimörkinni og í vestur að Miðjarðarhafinu.

Á dögum frelsarans var landinu skipt í 3 hjeruð, var *Judea* syðst, þá *Samaría* þar norður af og *Galílea* norðast.

*Austurhlið landsins.* Landið fyrir austan Jórdan kallaðist þá Perea, er þýðir: *Landið fyrir handan.* Þaðan kom ættfaðirinn *Abraham* með konu sína Söru og bróðurson sinn Loth og hina mörgu húskarla sína og miklar hjarðir. Þangað fór Jakob, er hann var ungur og kom aptur, er hann var tvítugur. Land þetta er fjalllendi og dalir og sljettur á milli og smá-ár. Margt eitt hjerað í landi þessu þykir ferðamönnum eitt hið fegursta, er þeir hafa sjeð. Þar má nú sjá rústir margar, en bygð er þar nú lítil, því Arabar og Tyrkir ræna þar opt.

*Líbanonsfjöll.* Líbanons og Antilíbanonsfjöll eru miklu hærri

eu hæstu fjöll á Íslandi. Á vesturhlið fjalla þessara voru miklir cedrusviðar skógar; voru þeir auðsuppspretta mikil fyrir borgirnar Syrus og Sidon, er voru þar niður undan í Föníkíu. Nafnið Líbanon þýðir »hvíta fjallið« af því fjöll þessi voru þakin jökli. Fjöll þessi eru mjög frjófsöm og vel yrkt allt upp að jökli. Auk cedrusviðar vex þar mórberjaviður og hvítur populviður, vínviður, eik, og platanviður með stórum blöðum. Tvær þjóðir, er nefnast Drúsar og Marónitar, búa í hlíðunum. Marónitar hafa patríarka yfir sjer, er býr í klaustri gagnvart hinum eldgamla cedrusviðar lundi. Af lundi þessum eru nú ekki eptir meir en 40 trje en sum þeirra eru 36 fet að ummáli. Í lundi þessum er árlega haldin guðsþjónusta undir berum himni. — Suðaustan til í Antilíbanonsfjöllum er tinduriun Hermon, er hann meir en 10,000 fet á hæð, undir tindi þessum er borgin Cæsarea, þar sem hin blóðfallssjúka kona átti heima, og segja menn að hún hafi reist frelsaranum þar minnisvarða í þakkarskyni. Undir fjöllum þessum eru uppsprettur Jórdanar.

*Ain Jórdan.* Áin Jórdan rennur fyrst í *Meromvatnið*. Úr Meromvatninu rennur hún um mílu vegar í *Genezarethvatnið* (galileiska vatnið, vatnið við Tiberias) og er þá straumhörð mjög. Um hverfis vatnið eru kalksteinsfjöll og skógar nokkrir; 5 dalir liggja niður fjöllin að vatninu og eru þeir frjófsamir mjög. Í *Jórdanardalnum*, er liggur beggja vegna árinnar, er hún rennur úr Genezarethvatninu, eru hin frjófsömustu beitilönd. Á því svæði niður að Dauðahafinu var *Betabara*, þar sem Jóhannes skírði. Við Gilgal, nokkru neðar, gengu Ísraels menn þurrum fótum yfir ána, er vatnið vjek fyrir örk Jehóva. Mjög margir krossfarendur hafa laugað sig þar á hinum fyrri öldum. Enn koma pílagrímar þangað norðan af Rússlandi og sunnan af Afríku til að laugast í ánni. Klæði þau, er þeir laugast í, geyma þeir opt til líkklæða handa sjer, en hafa vatnið með sjer á flöskum.

*Landið fyrir vestan Jórdan.* Fyrir vestan Jórdan er syðst *Júdea*; þangað komu Israelsmenn fyrst, er þeir komu frá Egiptalandi. Óvíst er hvar Gilgal hafi verið, en þar sem áður var *Jerikó* heitir nú *Riha*. Dalurinn umhverfis Jerikó var mjög frjófsamur. Jerikó þýðir pálmaborg. Nú er þar pálmviður aðeins á stangli, og landið illa yrkt. Í suðaustur frá Jerikó, að fjallabaki, er Dauðahafið. Þar var áður frjófsamt land, áður en borgirnar Sódóma og Gomorra eyddust. Frá Jerikó lá þjóðvegur til Jerúsalem.

Frá sljettunni liggur vegur þessi upp brekkur uppá eyðimörk. Á eyðimörk þessari segir sagan að frelsarinn hafi fastað, og er þar klettur er kallast »Freistingafjallið«. Ef vjer höldum lengra, verður fyrir oss »Morðdalurinn«; þar eru ferðamenn opt rændir

og þar var það sem hinn miskunsami Samverji fann þann, sem ræntur hafði verið og særður. Þegar eyðimörkin þrýtur og vjer nálgumst Jerúsalem komum vjer fyrst til *Olíufjallsins*; þar var *Bethania*, þar sem frelsaranum var ætíð svo vel tekið. Þar er enn gröf Lazarusar. Efst á Olíufjallinu eru margir tindar; einn þeirra heitir *Himnafararfjallið*; þar var skrautleg kirkja. Frá Olíufjallinu er víðsýni mikið í austur; sjást fjöllin fyrir austan Jórdan og Dauðahafið, í vestur Jerúsalem og hjeröðin við Miðjarðarhafið.

*Jerúsalem.* Jerúsalem, hin helga borg, sem jafn vel Tyrkir kalla »helgidóminn«, er vestan undir Olíufjallinu á ás, sem gengur úr norðri, og eru dalir um hverfis borgina á 3 vegu. Syðst á ásnum er *Zíonsfjall* í suðvestur. Mjög er nú landslag orðið breytt og er nú borgin lægst þar sem *Maríu*fjall var áður. Á austurhlið borgarinnar er *Stefáns*hliðið; skammt fyrir utan það liggur *Jósafats*dalur í norður og suður; eptir honum rennur lækurinn *Kiðron*, en minning hans er ógleymanleg af Jesú Krists píslarsögu. Skammt fyrir austan dalinn er girðing, 160 feta löng og 150 feta breið, það er hinn ógleymanlegi garður *Gethsemane*. Ef vjer förum suður Jósafatsdal, þá er *Silóa*lind til hægri handar undir Zíonsfjalli, en til vinstri handar er *Hneykslunarfjallið* þar sem Salómon konungur ljet leiðast til að fórna skurðgoðunum. Sunnan undir Zíon er *Hinnomsdalur* í austur og vestur; þar fórnuðu Gyðingar Baal og Mólok. Hið alkunna nafn *Gehenna* eða Helvíti er eiginlega sama og Hinnomsdalur. Frá Hinnomsdal hefst *Gihons*dalur við vesturhlið borgarinnar. Auk Stefánshliðs eru 3 önnur hlið á borginni: Zíonshlið í suður, Jaffahliðið í vestur, um það liggur vegur til Jaffa við Miðjarðarhafið; Damaskushlið er í norður. Skammt frá Damaskushliði er kringlótt gryfja mjög djúp og stór, um hana er gengið niður í konungagrafirnar; ein þeirra er dýpst, ætla menn hana vera gröf *Davíðs* konungs. Leyfar af líkkistuloki, er fannst þar, eru geymdar í Parísarborg. Fyrir norðan konungagrafirnar eru dómaragrafirnar, spámannagrafirnar eru á vesturhlið ássins. Þar sem hin skrautlegu musteri *Salómons*, Serubabels og Heródesar stóðu áður, og þar sem frelsarinn kenndi, er nú áttköntuð tyrknesk kapella. Fyrir norðan kapellu þessa er gata, er kallast *pjáningagatan*, því þar segja menn að Kristur hafi verið leiddur er hann bar krossinn. Þar benda menn og á bogsvalir þær, er Pílatus hafi leitt Kristum, er hann leiddi hann út og sagði: »sjáið manninn«.

Norðvestarlega í borginni er takmark það, er hinir ótölulegu krossfarendur kepptu að, hin mikla *grafarkirkja*. Kirkja þessi er eiginlega 3 kirkjur undir einu þaki. Austast er *krossupptökukirkjan*, þá í miðið *hausaskeljastaðarkirkjan* og vestast hin helga

*grafarkirkja.* Kirkjan er kringlótt, nm 72 fet að þvermáli og opin uppúr í miðju og fellur birtan þaðan niður. Gröfin er holur klettur, sem stendur upp úr kirkjugólfinu og er bygð yfir hana lítil kirkja. Grafarveggirnir eru klæddir hvítum marmara og loga þar mörg ljós nótt og dag.

*Bethlehem.* Ef vjer förum út Jaffahlið, í suðvestur, og ofaní Hinnomsdal, þá verður fyrir oss sunnan til við dalinn fjall nokkurt, er kallast *fjall hins illa ráðs;* átti Kaífas að hafa átt þar hús og það ráð, að ráða frelsarann af dögum, að hafa verið tekið þar. Vestan nndir fjalli þessu liggur vegur í suður til þeirrar borgar, er aldrei mun gleymast meðan sungið er um »barn fætt í Bethlehem«. Vegur þessi er um 2. stunda leið og á honum er *Elíasarklaustur*, þar sem Elías óskaði sjer dauða, er hann flúði fyrir Jessabel. Þaðan má sjá Jerúsalem í norður, en Bethlehem í suður. Sunnan undir klaustrinu er gröf Rakhelar, ættmóðurinnar, er grjet börn sín og vildi ekki huggast láta. Bethlehem kallaðist fyrr *Efrata*, er þýðir frjófsemi. En nafnið Bethlehem þýðir brauðbús og minnir það á víngarða og ávaxtatrje á fjalli því sem borgin stendur á, en einkanlega minnir það á »brauð lífsins er kom af himnum ofan til að gefa heiminum líf«. Smálækir renna niður fjallshlíðarnar milli aldingarðanna. Í borg þessari búa nú eingöngu kristnir menn. Austarlega í borginni er *Krists fæðingarkirkja.* er einnig kallast *Maríujötukirkja.* Kirkja þessi er bygð í kross og eru stoðir úr marmara og tjöld úr silki og stendur hún á kletti, en í helli undir kirkjunni er jatan; er gengið niður um kirkjugólfið um 12 fet. Hellisveggirnir eru settir marmaraplötum ýmislega litum og loga þar allajafna 32 ljós. Yfir fæðingarstaðnum blikar stjarna úr silfri og er kringum hana ritað á látínska tungu: *hjer er Jesús Kristur fæddur af Maríu mey.*

*Aðrar merkar borgir í Júdeu.* Anstan til við Bethlehem er sljetta og klettar nmhverfis, það er *hirðaradalurinn;* þar var það að engill Drottins stóð hjá hirðurunum og hinir himnesku herskarar sungu hinn ógleymanlega lofsöng. Tvær mílur fyrir sunnan Bethlehem er *Hebron* þar sem Abraham var og Davíð konungur hafði aðsetur áður enn hann tók Jerúsalem. Fyrir norðan borgina er lundurinn *Mamre* þar sem Drottinn með 2 englum heimsótti vin sinn. Þar í grend eru beitilönd góð og vínviður vex þar og aldinviðnr. Fyrir norðan Jerúsalem er *Bethel*, þar sem Jakob sá himnastigann í dranmi. Fyrir vestan Jerúsalem er Terpintinudalurinn, þar sem Davíð feldi risann Goliath. Eigi vita menn nú hvar *Emaus* var.

*Filistealand.* Fyrir vestan Gyðingaland, við Miðjarðarhaf, lá Filistealand, og höfðu Gyðingar aðeins lítinn tíma ráð yfir því. Filistear voru hermenn og verzlunarmenn og töluðu hina sömu

tungu og Gyðingar en voru þó stöðugir óvinir þeirra. Filistear tilbáðu ymsa hjáguði, helztir þeirra voru *Dagon* og *Beel-Sebul*. Skammt fyrir norðan Filistealand er borgin *Jaffa* eða *Joppe* þar sem krossfarendur lentu; liggur vegur þaðan til Jerúsalem.

*Samaria.* Fyrir norðan Jerúsalem hefst hálendi, er kallað var *Efraimsfjall.* Næst er þar borgin *Silo* þar sem sáttmálsörkin stóð einusinni. Í norðvestur frá Siló er fjall allhátt þakið aldingörðum, er það *Garízim*, þar sem blessanir lögmálsins voru upplesnar, og þaðan skammt í norður er gróðurlaus klettur, *Ebal*, þar sem bölvanir lögmálsins voru lesnar. Í dalverpi, er liggur milli hæða þessara er *Sikkem*, þar eru grafir Jósúa og Jósefs og brunnur Jakobs þar sem frelsarinn átti hið merkilega samtal við hina samversku konu. Skammt þar fyrir norðan hefst sljettlendi mikið er liggur suður með Miðjarðarhafi, allt suður að Joppe, það er *Saronsljettan*, er svo er frjófsöm og fögur, að hún er líkust rósagarði.

*Galilea.* Galilea er hálendi, er hallar í vestur að Miðjarðarhafi, en í austur að Genezarethvatninu er Jórdan, fyrir sunnan það er Ísraelssljettan. Syðst í Galilæu eru *Gilbóafjöll*; þaðan leit Sál konungur síðast yfir her Filistea. Fyrir norðan Gilbóafjöll er fjallið *Tabor*, þar sem frelsarinn gjörðist dýrðlegur. Milli Gilbóa og Tabor var borgin Nain, þar sem frelsarinn vakti upp son ekkjunnar. Fyrir norðan Tabor er borgin *Nazareth*, þar sem engillinn kom til Maríu, þar sem frelsarinn ólst upp og þroskaðist að vizku og aldri og náð hjá Guði og mönnum. Þar er *vitjunarkirkjan.* Skammt þaðan í norðvestur er *Kana*, þar sem frelsarinn gjörði vatnið að víni.

Ekki vita menn nú uppá víst, hvar *Kapernaum*, Korazin og Bethsaiða voru. Í hjeraði þessu nálægt Genezareth-vatninu gjörði frelsarinn mörg kraptaverk sín og miskunarverk og þar talaði hann orð hins eilífa lífs. Norðan til við vatnið er *Sælufjallið*, er það kallað svo af upphafi fjallræðunnar, er frelsarinn flutti þar.

## 2. Heilög ritning.

Vjer höfum opt heyrt menn tala með lotningu mikilli um bók, sem feli í sjer dýrmætari og merkilegri sannindi, en nokkuð annað, er forfeður vorir hafa eptirlátið oss. Bók þessi er *Heilög ritning* eða *Biblían.* Hver er þá orsök þess, að bók þessi er merkilegri en allar aðrar bækur, og hvað kennir hún oss? Hún kennir mönnunum að þekkja *Guð, veru hans og vilja og ráðsályktanir hans þeim til upplýsingar, betrunar og frelsis*, hún kennir þeim *hverra skyldna þeir eigi að gæta og hvernig þeir geti orðið þóknanlegir Guði á jörðinni og sælir í öðrum*

*heimi.* Í henni er uppskrifuð Guðs *sjerlega opinberun.* Hann hefir talað þar sjálfur til mannanna og auglýst sig þeim og borið umhyggju fyrir að þetta orð hans væri ritað af þeim mönnum, sem báru nægilegt skyn á það. Þannig geymist það til hinna síðustu tíma. Biblían öll er í 2 pörtum sem eru *Gamla testamentið* og *Nýja testamentið.*

## A. Gamla testamentið.

Í Gamla testamentinu eru 50 rit; er í þeim skýrt frá ráðstöfunum þeim, sem Guð gjörði hjá Gyðingum til að undirbúa hina æðstu opinberun, sem átti að veitast öllum fyrir Jesúm Krist. Gyðingar voru komnir af Abraham og varðveittu þá trú á einn sannan Guð, sem þeim var opinberuð. Þeir fluttu snemma á öldum til Egiptalands og þar spilltust siðir þeirra, og kjör þeirra urðu þungbær. Þá gaf Guð þeim mann, sem var upplýstur af hans anda og styrktur af hans krapti til að frelsa þá úr ánauð Egipta og vekja í hjörtum þeirra trúna á hinn sanna Guð.

Maður þessi var *Móses.* Hann leiddi Gyðinga farsællega út úr Egiptalandi til Gyðingalands þar sem Guð hafði ætlað þeim að búa, og gjörði margar ráðstafanir til þess að þeir aldrei gleymdu trúnni á hinn sanna Guð. Hann kendi trú á sannan Guð og tilsetti guðsþjónustu til að minna Gyðinga á þá ósýnilegu veru, sem þeir áttu að hlýða. Hin merkilegustu af þeim boðum, sem Guð birti honum, ritaði hann á 2 steintöflur, sem geymdar voru í hinni helgu kistu, sem kallaðist *örkin* og sem sett var í musterið í Jerúsalem eptir að það var bygt; þetta eru *hin tíu laga boðorð.* Þau eru ásamt mörgu öðru rituð í hinum fyrstu bókum Gamla testamentisins, sem kallast 5 *bækur Mósesar*, af því Móses hefir ritað allmikið af þeim. Í hinni fyrstu af bókum þessum er skýrt frá sköpun heimsins og hinum fyrstu mönnum Adam og Evu, hversu þau lifðu sælu lífi í Paradís þangað til þau syndguðu og brutu Guðs boð, með því að neyta ávaxtar hins fyrirboðna trjes, frá Kain og Abel, frá syndaflóðinu og Nóa, frá Abraham og Söru, frá Ísaak og Rebekku, frá Jakob og hinum 12 sonum hans, er síðast fóru til Jósefs í Egiptaland.

Bækur þær, sem næst koma eptir Mósesbækurnar eru *Jósúabók* og *Dómara bækurnar*; í þeim er skýrt frá því, hvernig Gyðingum leið eptir dauða Mósesar, hversu þeir gjörðust óhlýðnir Guði og aptur leiddust til hlýðni við hann, er hann uppvakti mikla menn meðal þeirra, sem brýndu fyrir þeim hina sönnu trú. Eptir Móses látinn gjörðist *Jósúa* foringi Gyðinga. Hann skipti Gyðingalandi milli hinna 12 kynkvísla, er nefndar voru eptir hinum 12 sonum Jakobs. *Dómararnir* voru gáfaðir

menn og hraustir, sem Guð gaf Gyðingum í nauðum þeirra til að vernda rjettindi meðal sjálfra þeirra og frelsa þá úr ánauð annara þjóða.

Hinn síðasti dómari meðal Gyðinga var *Samúel*. Hann var sá af öllum ágætismönnum þeirra er mest líktist Móses. En af því synir hans voru ekki líkir honum í guðsótta og rjettvísi, vildu Gyðingar ekki hafa þá fyrir yfirmenn og báðu því Samúel að kjósa sjer konung. Eptir boði Guðs kaus Samúel *Sál* til konungs yfir Gyðinga. Hann var hinn fyrsti konungur þeirra og stjórnaði hann í fyrstu vel, en síðar varð hann drottnunargjarn og rangsleitinn. Samúel átaldi hann því harðlega og áður enn hann deyði smurði hann *Davíð* til konungs eptir Sál. Davíð var ungur smalamaður; hafði hann með hreysti sinni frelsað landa sína frá undirokun heiðingja, er hann feldi í einvígi kappann Goliath. Davíð var guðrækinn konungur og vitur og á hans dögum var ríki Gyðinga með mestum blóma.

*Salómon*, sonur Davíðs, tók konungdóm eptir hann; hann bygði hið skrautlega musteri í Jerúsalem. Hann var frábærlega vitur konungur, en síðara hluta stjórnar sinnar gjörðist hann hirðulaus um hina sönnu trú og lagði skatta mikla á alþýðu. Sonur hans Róbóam jók með gáleysi sínu enn meir á óánægju lýðsins; gjörðu þá 10 kynkvíslir uppreisn og kusu Jeróbóam til konungs yfir sig. Þannig skiptist ríki Gyðinga í tvö ríki; hið minna, er nefndist Júðaríki, hafði konunga af ætt Davíðs; hið stærra, er nefndist Ísraelsríki, hafði konunga sjer. Í báðum ríkjum þessum fór allilla fram, þar eð konungarnir og landslýðurinn fjellu till guðleysis og lasta. Eyddust ríkin því af heiðingjum, fyrst Ísraelsríki, og Júðaríki 130 árum síðar. Landslýðurinn var fluttur í ánauð til Sýrlands og Babylonar. Frá þessum viðburðum öllum er skýrt í *Samúels bókunum*, *konungabókunum og Kroníkubókunum*.

Án efa mundi trúin á hinn sanna Guð hafa horfið Gyðingum á þessu tímabili, hefði Guð ekki sent þeim *Spámennina*. Spámenn eru eiginlega þeir menn, sem segja fyrir óorðna hluti, en á Gyðingalandi voru svo nefndir allir þeir; sem á ymsum tímum komu fram sem sendiboðar Guðs og áminntu bæði konungana og landslýðinn til guðsótta og ráðvendni. Þeir sögðu fyrir hvernig fara mundi fyrir löndum sínum, ef þeir ekki sneru sjer til Guðs, og spádómar þessir rættust. Gyðingar syndguðu ekki eingöngu með því að tilbiðja skurðgoð, heldur einnig með því, að dýrka ekki rjett hinn sanna Guð. Þeir breyttu að eins eptir sumu af því, sem Móses hafði boðið, svo sem öllu því, er laut að fórnum, bænum og hreinsunum, en hjörtu þeirra voru full af ástríðum og girndum, og í stað þess að sýna hinum sanna Guði lotningu sína

og elsku með því, að breyta eptir hans boðum, frömdu þeir margt illt. Gegn slíku risu spámennirnir bæði í ræðum og ritum, en afleiðingarnar urðu optast þær, að konungarnir, prestarnir og lýðurinn reiddust sannleikanum. Þó snerust sumir, svo sem Davíð, til iðrunar fyrir áminning spámannanna.

Sumir spámenn rituðu ekkert, sumra rit eru týnd. Þegar vjer nefnum rit spámannanna meinum vjer optast hin 16 stærri og smærri rit þeirra. Þeir voru útbúnir með anda og krapti Guðs og boðuðu Gyðingum vilja hans á því tímabili, sem þeir höfðu konunga og nokkru eptir að ríkin eyddust. Stundum eru allir rithöfundar Gamla testamentisins nefndir þessu nafni.

Þegar Gyðingar höfðu verið 70 ár í útlegð, leyfði Persakonungurinn Kyrus, er hafði unnið Babylon, nokkrum þeirra að fara heim til Gyðingalands; hinir síðari konungar gjörðu og að dæmi hans. *Serubabel* og *Esra* gjörðust foringjar Gyðinga á heimleiðinni. Hinn þriðji fyrirliðinn var hinn hyggni *Nehemia*. Var nú musterið bygt upp aptur og síðar borgarmúrarnir. Esra innleiddi aptur lögmál Mósesar. Hann og Nehemía hafa ritað sína bókina hvor.

Auk rita þeirra, er vjer nú höfum talið, eru enn nokkur rit í hinu Gamla testamenti, t. a. m. *Jobsbók*, er hún saga um guðhræddan mann nokkurn, er hjet Job, var guðsótti hans prófaður á marga vegu og má af sögu þessari læra, að Guð stjórnar kjörum mannanna með vísdómi og gæzku, þó þeir skilji ekki ráð hans. Ennfremur eru þar *sálmar Davíðs*, eru það andleg ljóð 150 að tölu og eru kend við hinn guðrækna og mikla konung Davíð, af því hann hefir kveðið allmörg þeirra; er í þeim lýst hátign Guðs, miskun hans og náð, rjettlæti hans er dæmir illt og gott, og svo frv. Í *Orðskviðum Salómons* eru margar fagrar og nytsamar lífsreglur.

Allar þær bækur, er vjer nú höfum talið, eru ritaðar á ebreska tungu; þá tungu töluðu Gyðingar áður en þeir voru herleiddir. Á hinum langa tíma, er þeir voru í útlegð hjá öðrum þjóðum, breyttist tunga þeirra svo, að þýða þurfti hinar helgu bækur, er eptir það voru lesnar í samkundunum. Það eru þessir þýðendur sem kallaðir eru skriptlærðir eða ritfróðir. Margir Gyðingar fóru og til landa þeirra, sem grisk tunga var töluð í; nokkrir þeirra hafa samið rit á griska tungu og voru þau tekin í G. T. þó þau ekki væru álitin jöfn hinum, sem samin voru á ebresku. Bækur þessar eru kallaðar »apokryfiskar«, en orð það þýðir »hulinn« eða »ókunnur«. Í bókum þessum eru og margir fagrir lærdómar. Hin helzta af bókum þessum er *Spekinnar bók Jesú Sirachs*, er hún líks efnis og orðskviðir Salómons.

B. Nýja testamentið.

Frá því, er hinn síðasti spámaður (Malachias) lifði og til þess að Jesús Kristur fæddist, liðu um 500 ár. Á þessu tímabili breyttust kjör Gyðinga á margan hátt; áttu þeir opt í hernaði við aðrar þjóðir og biðu tíðum ósigur. Margir Gyðingar fóru til annara landa og á þann hátt breiddist trúin á hinn sanna Guð til ymsra landa. Loksins lögðu hinir voldugu Rómverjar Gyðingaland undir sig. Um það leyti sem Jesús fæddist var Águstus keisari Rómverja; eptir hann tók Tíberius keisaratign. Tiberius setti jarl yfir Gyðingaland, en öllu því, er laut að trú Gyðinga, stýrðu prestar þeirra og helztu menn og skeyttu Rómverjar þar ekki um, en þeir voru heiðnir.

Nú vegnaði Gyðingum mjög illa. Rómverjar misþyrmdu þeim og fyrirlitu þá; prestar þeirra og skriptlærðir voru drambsamir og hræsnisfullir; lögðu þeir mikla stund á, að gæta útvortis háttsemi, en stunduðu lítt guðsótta og ráðvendni í lifnaði. Bættu þeir miklu við það, er stóð í lögum Mósesar um hina útvortis siðu, kváðu þeir það mannlegar skipanir hans, er þeir einir bæru kennsl á. Alþýðan óttaðist reiði Guðs og hlýddi því með athygli á reglur þessar, en með því gleymdust hinar helgustu dygðir, svo sem rjettvísi og mannást. Var það nú álitið mestu varða, að þylja langar bænir, að þvo sig á tilteknum stundum, að færa fórnir í musterinu og fl. þesshattar.

En ein var sú von, er hressti huga Gyðinga í öllum nauðum þeirra, það var sú vonin, að sá mundi koma, sem frelsaði þá og veitti þeim sælli kjör. Spámennirnir höfðu sagt fyrir ógæfu þá, er dundi yfir Gyðinga vegna spillingar þeirra og lasta, en þeir höfðu líka spáð um betri tíma þegar þeim aptur veittist Guðs náð. Sá sem bætti kjör þeirra átti að vera af ætt Davíðs. Gyðingar skoðuðu því þenna frelsara eins og voldugasta konung og kölluðu hann Messías, er það ebreskt orð og þýðir *hinn smurði* eða konungurinn. Gyðingar vonuðu, að Messías mundi gjöra þá að hinni voldugustu þjóð, og að ríki hans mundi ná yfir öll heiðin lönd. Horfðu þeir með fögnuði fram á þá tíma, er þeir gætu tekið hefnd yfir heiðnum þjóðum fyrir allar þeirra áreitingar; því þyngri sem kjör þeirra urðu, því ákafar væntu þeir lausnarinnar.

Þá kom *Jesús Kristur* og boðaði að hann væri sá eptirvænti Messías, Guðs eingetinn sonur. Þessvegna kölluðu þeir sem trúðu á Jesúm hann Messías eða Krist; en Kristur er griskt orð og þýðir hið sama og Messías á ebresku. Í fyrstu fekk hann marga áhangendur, því nú vonuðu Gyðingar, að öll ógæfa væri á enda, en að ríki Messíasar mundi koma með allri hinni veraldlegu dýrð. En vónir þessar brugðust, því Jesús kendi, að

ríki það sem spámennirnir höfðu spáð um væri andlegt, að þegnar þess ættu að trúa á hann og vera heilagir, að sælan, sem þeir ættu von á, væri fólgin í friði samvizkunnar, náð og kærleika Guðs, að það væri hin rjetta tilbeiðsla, að tilbiðja Guð af hreinu hjarta eða í anda og sannleika, að elska hann um fram allt og aðra menn eins og sig sjálfan. Hann kendi, að líf væri til eptir þetta líf, og að sá sem tryði á hann hefði eilíft líf, en sá sem ekki tryði yrði fyrirdæmdur. Allt líf hans eða breytni var hin æðsta fyrirmynd heilagleika. Kraptaverk þau sem hann gjörði til þess að menn gætu trúað því, að hann væri sendur af Guði voru flest fólgin í því að metta hungraða, lækna sjúka og vekja upp dauða. Hann ferðaðist um Gyðingaland, kendi, áminnti og huggaði. Þá sem iðruðust og trúðu á hann, fullvissaði hann um náð og fyrirgefningu, en ávítaði drambsama og iðrunarlausa. Prestar Gyðinga og skriptlærðir hötuðu hann fyrir þessa sök, því hann sagði berlega að þeir væru eins og úlfar í sauðargærum, eins og grafir dauðra manna, fagrar hið ytra, en hið innra fullar óhreinleika. Þeir vildu ekki viðurkenna, að hann væri Messías, og komu mörgum Gyðingum til að álíta, að hann færi með vjelar, af því hann vildi ekki stofna veraldlegt ríki.

Loksins kærðu þeir Jesúm fyrir Pílatusi, jarli Rómverja á Gyðingalandi, og gáfu honum að sök, að hann væri uppreisnarmaður gegn hinum rómverska keisara, af því hann hefði sagt, að hann væri konungur. Pílatus sá að vísu, að ákæra þessi var röng og að konungstign Jesú var annars eðlis en jarðneskra drottna; allt fyrir það þorði hann ekki að láta Jesúm lausan, því hann óttaðist að prestar Gyðinga mundu geta talið Tiberiusi, sem var grimmur maður og illgjarn, trú um, að Pílatus hefði vægt manni, sem vildi gjöra uppreisn móti keisaranum, og gjörast konungur Gyðinga. Reyndi hann fyrst að frelsa Jesúm frá lífláti með því að láta misþyrma honum. En það kom fyrir ekki, því prestarnir og hinir skriptlærðu ljetu ekki af að æsa lýðinn til að æskja þess, að Jesús væri krossfestur, og ljet Pílatus það loksins að orðum þeirra. Jesús var krossfestur milli tveggja glæpamanna. Einnig á krossinum ljet hann í ljósi hina sömu óumræðilegu mannást, sem lýsti sjer í öllu lífi hans og bað fyrir þeim, sem krossfestu hann: *faðir, fyrigef þeim, því þeir vita ekki hvað þeir gjöra.* Hatursmenn Jesú hjeldu sig nú hafa unnið sigur, en einmitt með *dauða* hans fullkomnaðist verk hans mönnunum til frelsis. Hann reis á þriðja degi upp úr gröfinni og fullvissaði með því alla um það, að hann væri sendur af Guði, lausnari allra manna. Því eins og Jesús með *kenningu* sinni veitti rjetta þekkingu á Guði og hans vilja og með *lífi* sínu fullkomnaði allt Guðs rjettlæti og var fullkomin fyrirmynd heilagleikans, svo var dauði hans frið-

þæging fyrir allra manna syndir. Hver sem trúir á hann glatast ekki, heldur hefir það eilífa líf.

þegar Jesús eptir upprisuna hafði opinberast lærisveinum sínum í 40 daga, fór hann til himins. Hann hafði kjörið 12 af lærisveinum sínum, er jafnan fylgdu honum, heyrðu orð hans og sáu verk hans; þeir áttu að vera vottar alls þess, sem hann kendi og gjörði og boða öðrum það aptur. þeir voru kallaðir *postular* eða *sendiboðar* af því þeir áttu að flytja kenningu hans út um heiminn; þeir voru gagnteknir af ást til þessa kennara síns og lotningu fyrir honum, og Guð veitti þeim sjerstakar gáfur til að boða *evangeliið* eða *fagnaðar boðskapinn*, en svo var kallaður sá fagnaðarríki boðskapur, að Messías, sem átti að veita mönnunum náð og hylli Guðs, væri kominn og Jesús væri þessi Messías. Postularnir staðfestu og vottorð sitt með kraptaverkum, sem Guð gaf þeim mátt til að gjöra.

En meiri áhrif en öll kraptaverk hafði sá innvortis fögnuður og rósemi, sem allir þeir fylltust, er trúðu því sem postularnir kendu, því þegar menn heyrðu kenningu Jesú og hvernig hann hafði liðið og verið líflátinn mönnum til frelsis, fylltust þeir lifandi löngun til að breyta eptir boðum hans og dæmi, og slíkum fögnuði og kærleika til Guðs og Krists, að þeir af mesta kappi gættu skyldna sinna, hugguðu hver annan og hvöttu hver annan til guðsótta og ráðvendni, styrktu þá sem liðu neyð, og stunduðu að líkjast Jesú í öllu. þeir sem trúðu því að Jesús væri Guðssonur og aðhylltust kenningu hans voru kallaðir *Kristnir*; unnu þeir mikla hylli hjá mörgum Gyðingum og margar þúsundir gengu í flokk þeirra.

En prestar Gyðinga og skriptlærðir undu því illa, að hin nýja kenning fekk svo mikið álit, en álit þeirra minnkaði að því skapi. þeir settu því postulana og marga kristna í fjötra, og lífljetu suma þeirra. En allt fyrir þetta hættu þeir ekki að útbreiða fagnaðar boðskapinn. Einkum voru þeir *Pjetur* og *Jóhannes* ákafir í því að snúa löndum sínum til trúarinnar á Krist. En einkum breiddist kristin trú út fyrir starfsemi eins manns, er í fyrstu hafði verið hinn ákafasti mótstöðumaður kristinna manna, en iðraðist þess síðar, er hann varð hrifinn af kristinni trú, og boðaði hana heiðnum mönnum með mestu alúð. Maður þessi var *Páll postuli*.

Upphaflega boðuðu postularnir og lærisveinar þeirra kenninguna um Krist munnlega; settu þeir kennendur í söfnuðunum og kusu hina hyggnustu til að stjórna þeim. En stundum álitu postularnir það nauðsynlegt, að skrifa söfnuðunum brjef, einkum þá er þeir gátu ekki náð að tala við þá. I brjefum þessum hvetja þeir söfnuðina til guðsótta, ráðvendni og stöðugleika í

trúnni, því kristnir menn urðu enn að þola margar hörmungar af þeim sem heiðnir voru eða Gyðingatrúar. Postularnir urðu og stundum að leysa úr ymsum efaspurningum og reka á bak aptur ymsar villur meðal kristinna manna. þessi brjef, sem postularnir skrifuðu, bárust síðan um meðal kristinna manna og voru lesin á samkomum þeirra. Smásaman söfnuðu menn þeim, og á þann hátt myndaðist fyrst hinn annar hluti biblíunnar: Nýja testamentið. Eins og Gamla testamentið skýrir frá, hvernig Guð opinberaðist Gyðingum, svo skýrir Nýja testamentið frá því, hvernig Guð hefir opinberast öllum þjóðum fyrir sinn son, Jesúm Krist. I Nýja testamentinu eru 13 brjef skrifuð af Páli, þar eru og brjef, er þeir hafa skrifað: *Pjetur*, *Jóhannes* og *Jakob* postular. Enn er þar eitt brjef, skrifað kristnum mönnum á Gyðingalandi og nefnist *brjefið til hinna Ebresku*; eru líkur til að Páll hafi einnig skrifað það brjef.

En merkilegust af öllum ritum Nýja testamentisins eru hin *4 guðspjöll*, en svo nefnum vjer þau 4 rit, er skýra frá lífi Krists. þar getum vjer lesið Jesú eigin orð eins og postularnir heyrðu þau af hans munni, þar er og skýrt frá hinum dásamlegu verkum, sem postularnir sáu hann gjöra og þeim miklu atburðum, er urðu við fæðingu hans, dauða, upprisu og himnaför. Upphaflega sögðu postularnir munnlega frá atburðnm þessum og þannig höfðu söfnuðirnir, sem þeir skrifuðu brjefin, heyrt af Jesú, kenningu hans, verkum, þjáningum, dauða, upprisu og himnaför áður en þeir meðtóku þau. En til þess að sagnir þessar afbökuðust ekki þegar aðrir færu með þær en postularnir, og til þess þær geymdust óbreyttar að þeim látnum, knúði Guðs andi nokkra af postulunum og lærisveinum þeirra til þess að rita upp ræður og verk Jesú og alla atburði við komu hans í heiminn.

Hið fyrsta guðspjall er ritað af postulanum *Mattheusi*, hið annað af *Markúsi*, er hafði verið förunautur Pjeturs postula, og hið þriðja af *Lúkasi*, er hafði verið með Páli postula: hið fjórða er skrifað af postulanum *Jóhannesi*, er var sá lærisveinn, sem Jesús elskaði mest, og lifði lengur en hinir postularnir. Svo er sagt, að hann hafi skrifað guðspjall sitt síðastur og þessvegna hefir hann sleppt ymsu því, sem kunnugt var af hinum guðspjöllunum, en þar á móti skrifað margar ræður og verk Jesú sem ekki er að finna í hinum.

I Nýja testamentinu eru enn 2 rit; annað þeirra eru *Gjörningar postulanna*; guðspjalla maðurinn Lúkas hefir einnig skrifað rit þetta og er þar skýrt frá kjörum kristinnar trúar eptir himnaför Jesú, frá því hvernig postularnir boðuðu fagnaðar boðskapinn og einkum er þar ítarlega skýrt frá ferðum og aðgjörðum Páls postula. Hið annað ritið, sem er hið síðasta í Nýja testamentinu

er líks innihalds og spámannabækurnar í Gamla testamentinu; er þar í margbreyttum búningi lýst forlögum kristinnar trúar og framförum Guðsríkis; rit þetta er kallað *Jóhannesar opinberunarbók*. Þannig inniheldur biblían öll alla ráðstöfun Guðs á mönnunum frá hinum fyrstu tímum til hinna síðustu.

Nýja testamentið er skrifað á griska tungu.

En þó biblían sje hin sanna uppspretta þekkingarinnar á Guði, er ekki þar með sagt, að hver sá sem í henni les fái sanna þekkingu á guðlegum efnum; því biblían þarf eins og hver önnur bók að lesast með skynsemi og athuga. Ber einkum að gæta þess, að hún er skráð fyrir mörg hundruð árum í þeim löndum þar sem menn komu orðum að hugmyndum sínum á annan hátt en vjer gjörum nú. Í fyrndinni höfðu menn t. a. m. opt dæmisögur og líkingar. Ef menn skilja slíkar sögur beint eptir því sem orðin liggja, þá fá menn ekki ætíð það sem í þeim felst. Þannig sagði Jesús: »ef auga þitt hneykslar þig þá varpa því frá þjer«. Ef menn tækju nú þetta eptir orðunum og vildu svipta sig sjóninni af því hún vekti einhverja syndsamlega girnd, þá væru þessi Jesú orð misskilin; því Jesús vildi með orðunum aðeins gefa til kynna, að vjer eigum að yfirbuga freistingarnar þó það kosti oss eins mikla áreynslu og sársauka og þó augað væri útstungið. Þó augað væri burttekið gæti hin illa girnd allt að einu búið í sálinni.

Þess ber líka að gæta, hvílíkir menn þeir eru sem talað er um í biblíunni; því stundum er þar skýrt frá vondum mönnum til þess menn varist hið illa. Það sem mestu varðar oss til sáluhjálpar er sumpart auðskilið, sumpart verður það að meðtakast í trúnni, og þó sumt kunni að vera torskilið í fyrstu, þá eykst skilningurinn ef vjer lesum með alúð og eptirtekt, og með þeirri lotningu sem hæfir Guðsorði, og með löngun til að fræðast um guðleg sannindi.

Vjer þurfum að lesa heilaga ritningu til þess að geta þekkt tilgang Guðs með heiminn og ákvörðun vora, og vjer þurfum að þekkja verk Guðs í náttúrunni og hjá þjóðum jarðarinnar til að geta skilið ritninguna. Það er huggunarríkt fyrir oss, að það sem oss varðar mestu, trúin á Guð, vísdóm hans og mátt hans ráðsályktana, von ódauðleikans og kærleiksskyldan við aðra menn, er ljóslega kennt og sannað í Guðsorði og staðfest af öllum verkum Guðs.

### 3. Útbreiðsla kristninnar.

Þó kristnir menn mættu margskyns ofsóknum í 300 ár, gátu hvorki Gyðingar nje heiðingjar hindrað, að kristin trú breiddist

út. Opt var það að heiðnir menn leiddust til að veita hinni nýju trú eptirtekt, er þeir sáu, með hvílíku þolgæði og guðrækni kristnir menn mættu ofsóknunum; margir þeirra liðu glaðir þjáníngar og dauða til að útbreiða fagnaðar boðskapinn. Snemma á 4ðu öld tók loksins *Konstantinus hinn mikli* keisari Rómverja kristna trú og ljet skírast. Frá þeim tíma linnti ofsóknum gegn kristnum mönnum og báru þeir upp frá því hærra hlut. En sumir þeirra tóku þá að ofsækja heiðna menn með hinni sömu grimmd, sem þeir höfðu áður viðhaft; voru og síðir þeirra ekki eins hreinir og guðsóttinn ekki eins innilegur og hjá hinum fyrstu kristnu. Andlegrar stjettar menn voru opt af lágum ættum, en auðguðust og komust til upphefðar; kviknaði þá hjá sumum þeirra löngun eptir veraldlegum heiðri og auðæfum, og hinir helztu þeirra notuðu opt ágreining þann, sem opt varð um trúarefni, til að auka heiður sinn og álit.

Loksins tókst biskupunum í Rómi að auka svo vald sitt og álit, að allir kristnir menn, prestar og leikmenn, höfðingjar og þegnar, lutu boði þeirra og banni. Kváðust þeir vera jarlar Krists á jörðinni og hafa allt umboð frá honum. Eitt af þeim meðölum, sem Rómabiskupar eða Páfarnir notuðu til að auka vald sitt með, var það, að láta Guðsþjónustu í öllum löndum fara fram á látínska tungu með miklum helgisiðum; en viðhöfn þessi var eins þungbær og sú, sem prestar Gyðinga lögðu á þá, og hugir manna drógust að lyktum svo að hinu ytra, að þeir hjeldu sig samkristna, ef þeir gættu hinnar útvortis viðhafnar hugsunarlaust; en móti þessu mælti Jesús og postular hans.

Hinir kristnu prestar á þeim öldum voru opt mjög fákunnandi; skildu þeir jafnvel ekki sjálfir þá hina látínsku söngva og bænir, sem þeir þuldu. Fæstir vissu hvað var í biblíunni, því mjög fáir kunnu ebreska og griska tungu, og þannig gat rekið þar að, að lærdómar þeir væru kendir, sem gagnstæðir voru Nýja testamentinu. Smám saman komu að vísu fram guðræknir og menntaðir menn, sem mótmæltu þessari hryggilegu villu, en flestir þeirra máttu láta lífið fyrir dirfsku sína. Allir þeir sem ekki vildu trúa því, sem páfinn kendi og prestarnir, voru settir í fjötra og álitnir villumenn.

Loksins hóf *Marteinn Lúter* kenningu sína. Hann hafði sjálfur haldið að rödd páfans væri guðs rödd og að hann gæti orðið sæll með því að gæta nákvæmlega hinna útvortis boða. En bráðum breyttist hugur hans, hann þjáðist af ótta um velferð sálar sinnar, er hann hugleiddi, hversu mjög hver maður þarf þess að Guð fyrirgefi honum; tók hann nú sjálfur að lesa Nýja testamentið og sá þar hina sönnu kenningu Jesú Krists. Lúter var orðinn 18 ára þegar hann fyrst sá heilaga ritningu alla, og

fyrst eptir hann var orðinn prestur dirfðist hann ekki að lesa hana nema í leyni, því það var álit manna, að þeir yrðu trúarvillu menn, sem læsu þessa helgu bók. Menn höfðu sem sje veitt því eptirtekt, að þeir sem lásu ritninguna tóku að efast um sumar kenningar páfans. En Lúter las af kappi og lærði griska tungu og ebreska til þess að geta lesið biblíuna á þeim málum, sem hún var skrifuð á, og þegar hann sjálfur hafði komist að hinni ómenguðu kenningu biblíunnar boðaði hann hana öðrum. Hann sneri nú ritningunni allri á þýzka tungu til þess að landar hans gætu lesið hana. Sást þá ljóst hvílíkur dýrgripur heilög ritning er, því á fám árum voru mörg þúsund hennar seld og lesin af mesta ákafa. Leiddi Lúter nú rök að því hvílík að væri villa sú, sem páfinn og hans menn kendu, því nú gat hver maður lesið það sem Guð hafði látið sendiboða sína og son sinn Jesúm Krist boða mönnunum.

Upp frá þeim tíma risu mörg kristin lönd sig undan ánauð páfans og lýstu því yfir að þau álitu ekki neina kenningu kristilega þá sem ekki væri bygð á fagnaðar boðskapnum, eins og hann er í ritningunni þegar hún er rjett skilin. Siðabót þessi hófst í Danmörk ár 1536, en til Islands komst hún ekki fyr en um 1550. Í mörgum löndum var það að konungar vildu hindra að siðabótin kæmist á og urðu sumstaðar út úr því mikil og langvinn stríð, og sumum tókst að sporna við því, og eru flest ríki í suðurhluta Norðurálfuunar páfatrúar enn.

Þannig var mönnum nú leyft að lesa biblíuna í öllum þeim löndum, sem siðabótin komst á í. En margir kvörtuðu um það, að þeir gætu ekki eignast hana vegna þess, hve dýr hún væri. Tókust þá ymsir guðræknir menn, svo sem hinn þýzki barún Kannstein, á hendur að láta prenta hana og selja með vægu verði. Um upphaf þessarar aldar stofnuðust hin svo nefndu biblíufjelög, eru þau stofnuð í þeim tilgangi að útbreiða biblíuna með því að prenta hana og selja með vægu verði eða gefa. Hið brezka og erlenda biblíufjelag á Englandi hefir mestu afkastað í þessu efni; það hefir látið prenta biblíuna á mörgum þeim tungum sem heiðingjar tala.

Enn er ekki þessi sjerlega opinberun Guðs orðin kunn mörgum þeirra manna, sem á jörðinni búa; margar milliónir manna sitja enn í dimmum dal og dauðans skugga, en á ári hverju eru margir kristniboðar sendir í aðrar heimsálfur til að boða heiðnum mönnum boðskap fagnaðarins. Fjelög þau, sem kosta kristniboða, kallast kristniboðsfjelög.

## IV. Trú og kærleikur.

það er tilgangur Guðs opinberunar að hann sameinist mönnunum. Í opinberuninni kemur hann sjálfur til þeirra og býður þeim að sameinast sjer, hann hefir áhrif á sálu mannsins til að tilbúa sjer þar bústað. En það er á mannsins valdi hvort hann vill taka við þessu samfjelagi, sem Guð býður honum; hann tekur við því í *trúnni* og framkvæmir það í *kærleikanum*. Trúin er ekki einungis sannfæring um, að Guð er til og umbunar þeim, sem hans leita, hún er ekki einungis traust til Guðs náðar, heldur líka hlýðni, eða að maðurinn gefur sinn vilja á vald Guðs vilja í kærleikanum. Í trúnni erum vjer sameinaðir Guði, í kærleikanum stundum vjer að verða það. Í trúnni er Guðsríki komið til vor og fullkomnað í voninni; í kærleikanum eigum vjer að ávinna það með frjálsri starfsemi. Af trúnni, sem í eðli sínu er hið fyrsta móttakandi kærleiksamband við Guð, er hann tekur manninn að sjer og meðdeilir sig honum, sprettur hinn starfsami kærleiki til Guðs, sem ekki lætur sjer lynda að ígrunda Guðs dásemdir og tilbiðja hann, heldur lætur kærleikann ná til þess, sem Guð hefir skapað, og vill fullkomna Guðs vilja í þessu stundlega lífi, svo heimslífið verði líf í Guði.

Trúin er sannfæring um það, sem vjer ekki sjáum (Hebr. 1, 11.) og þeir eru sælir, sem ekki sjá en trúa þó (Joh. 20, 29). Hún felur í sjer þekkingu, því vjer verðum að þekkja það sem vjer trúum; Guðs opinberun í hans syni verður að vera oss kunn af hans orði til þess vjer getum trúað henni. Vjer verðum að geta sagt eins og postulinn: jeg veit á hvern jeg trúi (2 Tim. 1, 1). En það er ekki nóg að vjer þekkjum sannleikann, vjer verðum líka að aðhyllast hann, og þessi samsinning sálarinnar gjörir þekkinguna að trú. það er trú, þegar sálin öll hvílir í þeim þekta sannleika. þenna sannleika, sem vjer þekkjum og samsinnum, verðum vjer að heimfæra til sjálfra vor og þess, sem kemur fram í lífi voru. Ef vjer í öllu, sem fram við oss kemur, vörpum áhyggjunni uppá Drottinn, af því honum er annt um oss (1 Pjet. 5, 4) ef vjer í öllum hættum segjum af hjarta: ef Guð er með oss, hver getur þá verið á móti oss (Róm. 8, 31); ef vjer þegar syndirnar ofbjóða oss segjum af hjarta: Guð sendi sinn son í heiminn, ekki til að dæma heiminn, heldur til þess að heimurinn frelsaðist fyrir hann (Joh. 3, 17), hann er vor frelsari og friðþægjari; ef vjer komum til hans, þá rekur hann oss ekki frá sjer; ef vjer í öllum freistingum segjum við oss sjálfa: hví köllum vjer Jesúm Krist herra og gjörum þó ekki hans vilja? (Luk. 6, 46) þá er trú vor sönn.

þegar trúin býr í hjartanu getur hún vakið ótta; því ef vjer áköllum hann sem föður, sem dæmir án manngreinarálits eptir hvers eins breytni, þá stundum vjer sáluhjálp vora með ótta og andvara (Fil. 2, 12). En einkum er trúin *traust*, því hið auðmjúka traust til Guðs er hið sanna eðli trúarinnar. það eru trúarorð þegar vjer segjum: jeg treysti ekki sjálfum mjer, öðrum mönnum nje heiminum, mín von er til Drottins míns Guðs, sem gjörði himin og jörð og hafið og allt sem í þeim er og heldur trygð æfinlega (Sálm. 146, 5—6), þegar vjer segjum: jeg treysti ekki rjettlæti sjálfs mín, ekki verkum mínum og verðskuldun, jeg veit að mig skortir þá hrósun, sem gildir fyrir Guði, en í Jesú Kristi, Drottni mínum, hefi jeg djörfung og aðgang til Guðs með trausti af trúnni á hann (Ef. 3, 12); ef vjer segjum: jeg sje og finn freistingar og hættur heimsins, sem geta hamlað mjer frá að öðlast Guðsríki og hans rjettlæti, jeg treysti ekki hyggjuviti mínu, ekki hinu óstöðuga hjarta mínu og ekki hinum veika vilja mínum, heldur Guðs almáttuga anda, sem kemur í hjörtu þeirra sem biðja í trúnni; þegar jeg opna honum hjarta mitt og gef gaum að áminningum hans og læt hann leiða mig, þá frelsar hann mig frá öllum freistingum og hættum og leiðir mig til Guðsríkis og eilífs lífs.

Trúin á Jesúm Krist sem frelsara heimsins er trú á það, að hann hafi viðrjett hið rjetta samband milli Guðs og manna, að hann hafi rjettlætt oss fyrir Guði. Að syndarinn er rjettlættur fyrir Guði er það, að ráðsályktun Guðs heiminum til friðþægingar, sem er fullkomnuð í Kristi, er af Guðs kjósandi náð tileinkuð hinum einstaka sem *syndafyrirgefning* og *sonaútvalning* (Róm. 3, 28). Fyrir krapt Guðs vekjandi og lífgandi náðar tileinkar syndarinn sjer Guðssonar friðþægjandi kærleika í trúnni. Hin rjettlætandi trú er þannig samsinning skilningsins, traust hjartans og trúarörugg tileinkun syndanna fyrirgefningar, sú innilega vissa, að Guðssonur er dáinn fyrir þann einstaka syndara sem trúir. þessi trú er frjálst verk manns, sem þorir að heimfæra friðþæging heimsins uppá sjálfan sig, en undir eins gjöf heilags anda, því hjarta mannsins er of veikt til þess að hafa þetta óendanlega traust. þessi trúaða tileinkun hins *krossfesta* frelsara kemur í lifandi samfjelag við hinn *upprisna* frelsara, það er það samfjelag, að Krists rjettlæti verður skapandi afl í sálunni. Kristur býr fyrir trúna í hjörtum vorum. Hið nýja lífið getur ekki þroskast nema í góðri samvizku sem er fríuð við meðvitund um skuld og hegningu Guðs, og skuldin og hegningin verður ekki burt numin nema þar sem Kristur býr, þar sem hans fullkomnun og rjettlæti lífgar sálina. þannig setur trúin oss í hið rjetta samband við Guð; hann sjer í frækorni trúarinnar hjá oss vora

ókomnu fullkomnun og sælu og vjer getum byrjað hið helga líf kærleikans.

Hin helga hlýðni og hinn helgi *kærleikur* eru höfuðatriði hins kristilega lífs. Trúin er móðir allra dygða, hún er sú rót, sem þær renna af. Trú og kærleikur er í innsta eðli sínu hið sama. Í trúnni opnast sálin og tekur við geislum guðlegrar náðar eins og blómið opnast og tekur við geislum sólarinnar, og sálin felur sig áhrifum náðarinnar. En af kærleikssambandi því, sem vjer fyrir trúna komumst í við Guð, sprettur hinn frjálsi kærleikur í hans mörgu myndum, hinn þakkláti, aðdáandi, helgandi og fórnandi kærleikur, en í honum fórnum vjer Guði sjálfum oss og lífi voru.

En fyrst kærleikurinn til Guðs í Jesú Kristi er grundvöllur allra kristilegra dygða, þá er kærleikurinn til Krists það líka. Eins og Kristur staðfestir hið æðsta mikla boðorð: þú átt að elska Drottinu Guð þinn meir en allt annað, þannig krefst hann líka, að vjer elskum hann sjálfan fram yfir allt, að vjer yfirgefum allt og fylgjum honum. Vjer elskum Jesúm af því vjer uudir eins og vjer verðum hluttakandi í Drottins Jesú Krists náð verðum hluttakaudi í kærleika föðursins og samneyti heilags anda. Og eins og vjer elskum Guð fyrir Jesúm Krist, svo elskum vjer mennina, því vjer elskum verk hans og ríki, sem nær yfir mannkynið allt; vjer elskum sjálfa oss í honum og berum umhyggju fyrir frelsi sálarinnar.

Kærleikur vor kemur fyrst fram í því, að vjer tileinkum oss Guð og þá hluti, sem heyra til hans ríki; vjer elskum það orð, sem hann hefir gefið oss, og lærum af því að þekkja heiminu og oss sjálfa. Hann kemur þar næst fram í bæninni; í henni felum vjer oss frelsaranum og Guði, sem fyrir hann hefir frelsað oss; vjer biðjum um allar góðar og fullkomnar gjafir hjer að ofan, en umfram allt um hann sjálfan og hans og hans heilaga anda; vjer gefum vorn vilja á vald hans vilja. Kærleikurinn kemur loksins fram í lífinu, sem starfsamur kærleikur til mannanna; vjer látum það vera takmark lífs vors, að Guðsríkið komi á jörðinni, vjer sameinum þessa jarðnesku köllun vora hinni himnesku köllun, vjer lærum hlýðnina á því að bera þann kross, sem Guð leggur á.

Hinn kristni kærleikur er gagnstæður eigingirninni með lyst holdsins, fýsn augnanna og stærilátu líferni. Gagnstæð hinu drambsama líferni er *auðmýkt* hins kristilega kærleika, sem er djúp meðvitund um það, að vjer þurfum Guðs, að vjer erum syndarar og fjarlægir Kristi, sem hefir frelsað oss til að sameinast Guði. Gagnstæður lyst holdsins er hinn kristilegi *hreinleiki*, sem gjörir holdið undirgefið andanum. Fyrir fýsn augnanna kemur sjón hinna

himnesku fjársjóða, sem Kristur sýnir oss, svo vjer ekki lítum á hið sýnilega, heldur hið ósýnilega, og vitum, að vjer erum ráðsmenn Guðs og eigum að standa honum reikning.

I hinu ytra lífi kemur kærleikurinn fram eins og *trúmennska.* Trúmennskan er hin ytri mynd kærleikans, og er í því fólgin að vjer í öllum freistingum varðveitum samfjelagið við Guð. Trúmennskan felur í sjer árvekni, sem er auga trúmennskunnar og hefir gát á öllu; hún felur í sjer hugrekki og stöðuglyndi, sem er stöðugt til enda; hún felur í sjer þolinmæði með hógværð og langlundargeði, sem ávallt er samfara Guðs anda. Þegar kærleikurinn þroskast í trúmennsku og stöðuglyndi, vex hið kristilega frelsi með friði og fögnuði í Guði og vorum frelsara. En hið kristilega frelsi er grundvallað á auðmýktinni, á þeirri tilfinningu: af Guðs náð er jeg það sem jeg er.

*Helgunin* er framför dygðarinnar í Krists eptirbreytni frá hinni fyrstu ófullkomnu byrjun til hinnar misjöfnu fullkomnunar; hún er bæði verk guðlegrar náðar, sem gefur oss að þroskast helgum þroska, og undir eins verk hins frjálsa vilja, sem verður að vinnast með áreynslu og baráttu. Með helguninni frelsumst vjer frá ánauð heimsins sem vjer værum í, ef vjer ekki tileinkuðum oss endurlausnina, heimurinn verður að Guðsríki, tíminn að eilífð. Helgunin ávinnst með því að vjer tileinkum oss Krist, með því að vjer vinnum í hans anda, en hreinsum oss af syndinni og berjumst gegn henni og öllu hennar eðli. Þegar Guð menntar oss til síns ríkis, sendir hann oss líðanir til að hreinsa hjörtu vor. Það heyrir líka til hans menntandi tilraunum við oss, að hann lætur oss fást við lítilfjörleg og óþægileg störf, að vjer verðum að verja tíma og umhyggju til þeirra verka, sem eru svo lág og forgengileg að þau sýnast stríða á móti vorri háleitu og eilífu ákvörðun. Þetta á að sefa eigingirni vora og einkum drambsemi vora og kenna oss hlýðni. Líkamlegar líðanir miða til þess að hreinsa sálir vorar. En vjer verðum ekki njótandi Guðs menntunar nema vjer viljum mennta oss sjálfir. Vjer verðum jafnframt að hreinsa oss og mennta oss sjálfir. Það er sá eini vegur til þess, að sálin fullkomnist í því að breyta eptir Kristi og byggi sjer sjálf hinn innra líkama sinn með baráttu við öll þau völd, sem deyða og trufla, og gjöri þenna ytra, stundlega líkamann að verkfæri andans. Með þjáningum vinnur hún að hinum ósýnilegu brúðkaupsklæðum, með hörmungum safnar hún þeim fjársjóð, sem hún tekur með sjer í hið eilífa ríki.

---

# V. Orðskviðir Salómons.

Nafnið Drottins er öruggt eins og vígi; hinn rjettvísi leitar þangað hælis og er óhultur.

Treystu Drottni af öllu hjarta þínu, en reiddu þig ekki á þitt hyggjuvit.

Son minu, met ekki lítils hirtingu Drottins, og vertu ekki óþolinmóður þó hann refsi; því Drottinn agar þann, sem hann elskar og hefir velþóknun á honum eins og faðir á syni.

Son minn, heyrðu áminningu föður þíns, og yfirgefðu ekki boðorð þinnar móður.

Að muna áminningar er vegur til lífsins, en sá villist sem fyrirlítur agann.

Þessa 7 hluti hatar Drottinn, þessir 7 eru honum viðbjóður: drambsöm augu, lygin tunga og hendur sem úthella blóði því, sem saklaust er, hjarta það sem bruggar vjelar, fætur sem hlaupa eptir hinu illa, rangorðt vitni, sem ber út ósannindi og sá sem veldur deilu meðal bræðra.

Misgjörðir hins óguðlega munu veiða hann, og hann mun bundinn viðjum sinna synda.

Hrokinn leiðir af sjer glötun, en drambið hrösun.

Deiglan er til að reyna silfrið, og bræðsluofninn fyrir gullið; en Drottinn er sá, sem rannsakar hjörtun.

Gráar hærur eru fögur kóróna, þegar þær eru á vegi hins rjettláta.

Vísdómur er betri en perlur, og öll auðæfi jafnast ekki við hann.

Sá sem mælir gálaus orð, er eins og biturt sverð, en tunga hins vísa er lækuisdómur.

Orð sem talað er á rjettum tíma, er eins og gullepli í grafinni silfurskál.

Dáranum virðist sín hegðun rjett, en sá sem leitar ráða, er vitur.

Fegurðin dregur á tálar, og yndið er forgengilegt, en konu þá má lofa, sem óttast Drottinn.

Þolinmóður maður er betri en hetja, og sá sem stjórnar geði sínu, er meiri en sá, sem vinnur borgir.

Ef óvin þinn hungrar, þá mettaðu hann með brauði, ef hann þyrstir, þá gef honum vatn að drekka, með því safnar þú eldsglæðum að höfði honum, og Drottinn mun endurgjalda þjer það.

Sá, sem fljótur er til reiði, drýgir heimsku.

Að hefja deilu er eins og að opna vatn; láttu því undan áður en deilan verður of áköf.

Láttu aðra lofa þig, en ekki þinn eiginn munn, hinn vandalausa, en ekki þínar eigin varir.

Auðæfi stoða ekki á degi reiðinnar, en rjettlæti frelsar frá dauðanum.

Sá sem treystir auðæfum fellur, en hinir rjettlátu grænka eins og laufblað.

Elskaðu ekki svefninn, svo þú verðir ekki fátækur.

Þú letingi, farðu til maursins; hegðun hans er hyggileg.

Grænar jurtir með kærleika eru betri rjettur en feitur uxi með hatri.

Betri er þurr biti með rósemi, en full hús af nautaslátri með þrætu.

Sá sem sparar hrísið, hatar son sinn, en sá sem elskar hann, agar hann snemma.

## VI. Kristin kirkja.

Trúar kærleikslíf það, sem Kristur flutti á jörðina, og sem var fullkomið hjá honum, hrífur ekki einungis hvern einstakan mann, heldur verður það band, sem tengir mennina saman í fjelag. Þetta trúar og kærleiks líf er samlíf að öðru leytinu milli mannanna og hins þríeina Guðs og kallast þá *Guðsríki* eða *kirkja*; að hinu leytinu milli mannanna sín í milli og kallast þá *söfnuður*. Kristur stofnaði Guðsríki á jörðinni og hann viðheldur og stjórnar þessu ríki, sem andlegur konungur þess. Hið andlega líf Guðsríkis kemur frá honum fyrir hans heilaga anda; í sínum heilaga anda býr hann jafnan í sinni kirkju og er nálægur sínum trúuðu. Á því að Kristur er skapari, viðhaldari og stjórnari kirkjunnar byggjast þau einkenni, sem henni eru eignuð í trúarjátningunum. 1) Kirkjan er *ein* og *almenn*; hún er ein, því einn er höfundur hennar; en hún er undireins almenn, því það er takmark hennar að ná yfir allt mannkynið, að gjöra alla að eign Guðsríkis. 2) Kirkjan er *heilög* og samneyti heilagra. Krists líf er líf heilagleikans, hans líf er hið innsta líf kirkjunnar og streymir frá honum, sem er höfuðið, til limanna. Sem sýnileg er kirkjan ekki heilög, heldur sem ósýnileg; hún tekur við hinum syndugu mönnum til að helga þá og hreinsa, svo þeir verði lifandi limir á Krists líkama og hans líf búi í þeim. 3) Kirkjan er *eilíflega sigrihrósandi*; höfundur hennar hefir einusinni unnið sigur, og sá sigur hefir eilíft gildi. En sem sýnileg er kirkjan líðandi og stríðandi. Eins

og hver einstakur maður á í stríði við hold og blóð og heiminn, eins á kirkjan að sínu leyti í stríði. það er kross, sem kirkjan og hver limur hennar verður að bera eptir Kristi.

Kirkjunni er nú skipt í þessar aðalgreinir:

A. Hin *kaþólska* eða *almenna* kirkja; svo kallaðist kirkjan framan af meðan hún var ósundruð og virtist stefna að því miði að verða almenn. þessi kirkja var smátt að myndast í 12 aldir hinar næstu eptir Krists fæðing. Frá hinni kaþólsku kirkju skildist á 11. öld hin griska-kaþólska kirkja. Ágreinings atriði kirkna þessara eru þau, að hin griska segir að heilagur andi gangi út frá föðurnum einum, en hin rómverska frá föður og syni; ýmsir helgisiðir eru og frábrugðnir í hinni grisku kirkju, og hún viðurkennir ekki páfann í Rómi.

B. Hin *prótestantiska* kirkja. Kaþólska kirkjan var komin svo langt út af hinni rjettu leið, að hinir mestu trúmenn tóku að leita að þeim grundvelli, sem hún hafði upphaflega verið reist á. Vildu þeir snúa henni að þessum grundvella; það heitir *siðabót*. Kaþólska kirkjan tók svo undir þetta, að hún bannfærði hina nýju kennendur og áhangendur þeirra, svo hið nýja trúarfjelag varð að segja skilið við hana. Samdi hin kaþólska kirkja þá nýja trúarjátningu til að greina sig frá hinni nýju kirkju; var hún samin á kirkjufundi í Trident á árunum 1545—1560. Hin nýja kirkja kallaði sig hina *prótestantisku* eða mótmælandi og myndaðist hún í tvennu lagi: 1) *hin lúterska*, 2) *hin reformeraða*. Báðar þessar kirkjur bygðu á hinum sama grundvelli og hin kaþólska upphaflega hafði staðið á, en höfnuðu villum þeim, sem læðst höfðu inn. Ágreiningsatriði hinnar prótestantisku kirkju eru mörg, en lúta flest að því, að skoðanin á því hvað kirkjan sje, er frábreytt. þannig neituðu prótestantar því, að hin kaþólska kirkja væri heilög og að páfinn hefði sama vald og Kristur. Kaþólskir hafa 7 sakrament: skírn, fermingu, skriptir, kvöldmáltíð, prestsvígslu, hjónavígslu og hina síðustu smurning, en prótestantar 2) skírn og kvöldmáltíð. Prótestantar vildu ekki tigna helga menn eins og kaþólskir gjöra og mótmæltu ymsum ósiðum, t. a. m. að páfinn gæti selt fyrirgefningu syndanna. Guðsdýrkan er og mjög ólík hjá prótestöntum, því hjá kaþólskum er hún mest fólgin í útvortis viðhöfn. Hin helzta trúarjátning prótestantisku kirkjunnar er Ágsborgarjátningin, er samin var 1530. Ágreiningsatriðin milli hinnar lútersku og og reformeruðu kirkju eru: 1) náðarkosningin; reformeraðir álíta suma frá öndverðu ákvarðaða til eilífrar sælu, aðra til eilífrar fyrirdæmingar, en þessu neita Lúterstrúarmenn; 2) kenningin um nálægð Krists í kvöldmáltíðinni; Lúterstrúarmenn trúa því að Kristur sje þar sjálfur nálægur, en því neita reformeraðir. Hin

reformeraða kirkja var stofnuð af Zvingli og Kalvín og breiddist út um vestur hluta Norðurálfunnar. Hin reformeraða og lúterska kirkja voru að öllu leyti aðgreindar fram að árinu 1817, þá voru þær víðast á þjóðverjalandi sameinaðar og nefndust einu nafni: hin evangelisk-kristilega kirkja.

Ymsir trúarflokkar hafa myndast í hinni prótestantisku kirkju, sem hafa aðra trúarjátning og aðra helgisiði en hún. Hinir helztu þeirra eru Baptistar eða skírendur, kvekarar og Sósiníanar.

---

## VII. Sálmar.

### 1.

Bænarsálmur ungmenna.

Herra, sem barna heyrir bón,
heyr mig fyrir Jesúm Krist þinn son!
gef jeg æ sje þitt auðsveipt barn,
æ vert mjer faðir náðargjarn.

Lífið af náð þú ljeðir mjer,
líkami og sál, það er frá þjer;
í heilagri skírn þú hefir mig
hreinsað og gefið trú á þig.

Æ, faðir vernda æsku mín,
iðrunar svo ei þjái pín;
forráð jeg mínum fót ei sje,
faðir, mjer vísdóm lát í tje.

Gef mjer læra það gagnlegt er,
gott og heiðarlegt fyrir þjer;
hverfult er líf, en harla margt
hef jeg að læra, sem er þarft.

Foreldra heiðra og hlýða eg á,
heiminum þau mig vernda frá,
en innræta dygð og ótta þinn;
er það farsældar vegur minn.

Illum dæmum mjer afstýr frá,
andi þinn svo mjer búi hjá;
fjelagskap vondum forða mjer,
falskri kenning og lastaher.

Æ styrk þú mig svo ávallt jeg
áfram haldi á dygðaveg;
auk þú mjer fyrir þitt ástarráð
með aldri bæði vizku og náð.

Herra Guð, líf mitt helga eg þjer,
hjálp og náð þína veit þú mjer.
Lífs til enda mjer ljena þú
Lifandi elsku, von og trú.

## 2.

### Morgunsálmur barna.

Jeg er vaknaður, Jesús minn,
jeg vil þig lofa af öllu hjarta
að lít jeg enn heimsins ljósið bjarta,
heilbrigði og gleði í hjarta finn.

Og þú hefir mig enn í nótt
verndað svo ekkert vann að granda,
í vöktun þinna sterku handa
því hef jeg sofið sætt og rótt.

Æ, hvað þú góður ert við mig,
ó, hvað jeg nú til dagsins hlakka,
allt er það guð minn þjer að þakka
láttu mig geta lofað þig.

Þú gafst mjer allt sem gott jeg finn:
þú gafst mjer náð og miskun þína,
þú gafst föður og móður mína
og blessaðan Jesús, bróður minn.

Hvernig á jeg að þakka þjer?
það er svo veikt, mitt barna sinni;
einni jeg treysti gæðsku þinni
að þú hjálpir í öllu mjer.

## 3.

### Kvöldvers barna.

Dagurinn nú á enda er,
eilífar þakkir sjeu þjer,
faðir ástkær, sem enn þá mig
annast hefir, jeg treysti á þig,
að þú lofir mjer enn í nótt
í umsjón þinni að sofa rótt.

Endir.

## Leiðrjettingar og athugasemdir.

9. bls. 1stu línu: *át* á að vera *óx*.
129. - 13du línu: *þair* á að vera *þar*.
193. - 1stu línu: *pappírs* á að vera *pappír*.
196. - 8du línu: neðanmáls: *kvistaðar* á að vera *kvíslaðar*.
202. - 18du línu: *bláæðar* á að vera *blóðæðar*.
214. - 3ðju línu: *sitt* á að vera *eitt*.
262. - 17du línu neðanm.: *liðstjórnarríki* á að vera *lýðstjórnarríki*.
315. - 5tu línu neðanm. o. s. fr.: *Þuríður* sundafyllir seiddi á Hálogalandi, en á landnámu sjest ekki að hún hafi seitt á Íslandi.
336. - 8du línu neðanm.: *Hörgárás* á að vera *Hörgárós*.
336. - 3ðju línu neðanm.: Svalbarðssókn er í þingeyjarsýslu.
337. - 22ri línu: *Draflastaðasókn* á að vera *Illugastaðasókn*.

Vera má að fleiri villur finnist, og eru lesendur beðnir að umbera þær og leiðrjetta. Smávegis ósamkvæmni í orðmyndum og stafasetningu mun ekki trufla lesendurna, og má víðast hvar hvorttveggja verja. Sundurgreining orða við línuskipti er og víða frjálsari en í sumum öðrum bókum, og er í því farið eptir dæmi fornrita, sem ekki hirða um hvar orð og stafir skiptast. *Hnattbrjefið* er ætlast til að verði fest inn við bls. 142, en *uppdráttur hafstraumanna* við bls. 214; á því brjefi er og sýndur meðalhiti lopts á hnettinum árið í kring, og er mælistigatala við jafnaðarlínur hitans, sem eru mjög krókóttar og bognar, en fylgja alls ekki enum ímynduðu breiddargráðum, sem eru beinar línur (ɔ: lagðar samsíða í kring um hnöttinn). Krókstefnur og bogar hitalínanna orsakast einkum af deilingu láðs og lagar. Kuldinn er merktur með — (minus), en tölurnar (mælistigin) við hitalínurnar eru merkislausar. Nöfn þau, sem annars eru á hafstraumunum eða föllum sjávarins, hafa eigi orðið sett hjer, þó landafræðingar nefni þau ýmsum nöfnum, nema Golfstraumurinn einn er nefndur; örvamerkin tákna stefnu straumanna, og má á þeim sjá, hvernig þeir hringast í höfunum; en þar að auki eru og margir minni hættar straumar, sem eigi var rúm til að sýna. Nöfnum landanna er og slept hjer, og má sjá þau á hnattbrjefinu. *Evrópa* er ætlast til að verði fest inn við bls. 245, og *Ísland* við bls. 314. Benedikt Gröndal hefir dregið upp kortin og lesið prófarkirnar.

